# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BRÉF OG GJÖRNINGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

**ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.**

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

NÍUNDA BINDI

1262–1536.

REYKJAVÍK.
Í FÉLAGSPRENTSMIÐJU.
1909–1913.

## Efnisyfirlit.

1) Prentvilla: 16. Júlí.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

***1.** **[1262].** **á Alþingi.**

Sáttmáli af hendi Norðlendinga og Sunnlendinga um skattgjald til Hákonar konungs gamla og Magnúsar konungs Hákonarsonar.

Eptir Landsbókasafni 1028, 4to, sem var keypt 28. Sept. 1907 úr dánarbúi Haldórs Bjarnasonar sýslumanns Barðstrendinga. Er þessi kafli bókarinnar, sem hefir inni að halda afskriptir af sáttmálunum gömlu, skrifaðr c. 1730—1740 eða fyrri. Á bókinni stendr ritað: „Biörn Gislason a Guñolfsaa á þessa Bok med Rieltu Daterad 1802“.

Afskriptir þær af þessum elzta sáttmála, sem menn hafa hingað til þekt, eru hvorki gamlar, góðar né margar, og hefir Jón Sigurðsson látið prenta þær allar í I. bindi þessa safns bls. 619—625. Þessi afskript, sem nú er fylgt hér, og nýkomin er í leitirnar, er merkileg, því að hún er sjálfstæð og óháð hinum afskriptunum, og segir skýlaust í upphafi til þess, að sáttmáli þessi sé gerðr við þá Hákon konung og Magnús (son hans). Að öðru leyti svipar henni mest til síðustu afskriptar þeirrar (á skinnbók frá síðara hluta 16. aldar), sem áðr var kunn (Dipl. Isl I, A, bls. 619—621), án þess þó að vera frá henni komin, og liggja því að henni einhver forn drög önnur (= a). — Til samanburðar er hér og höfð (= b) önnur samkynja afskript, sem ekki hefir heldr verið áðr kunn. Er hún í réttarbóta og tilskipanabók Landsskjalasafnsins, þeirri er átt hefir fyrri síra Friðrik Eggerz; er sú bók skrifuð c. 1760. Er þar á spássíu við þetta skjal ritað: „Þetta h[efe] ec skrifa[d] effter co[dice] Stocksör[ensi] sem ritad [hefur] Arne Gis[lason] 1616 og a[tt] hefur Jen[s] Soffrenss[on] 1652“. Með stuðningi þessara handrita er skjal þetta prentað í „Rík-

isréttindum Íslands" eptir Jón Þorkelsson og Einar Arnórsson, Rvík. 1908, bls. 1—2. Í riti sinu „Um upphaf konungsvalds á Íslandi", Rvík. 1908, bls 32—45 ritar prófessor Björn Olsen rækilega um þetta skjal og nefnir það „Gamla sáttmála", og er heimildin, er hann dregr til þess sú, að þetta er elzti sáttmálinn af hendi Íslendinga við Noregskonung. Annars hafa Íslendingar í margar aldir kallað sáttmála þann, sem heimfærðr hefir verið til 1263, „Gamla sáttmála".

Sammæle[1]) Bænda fyrer Nordañ og Suñañ a Jslande.

Þad var sammæle bænda fyrer suñañ Land og Nordañ ad þeir iátudu æfeñlegañ skatt Herra Hakone konge og Magnuse loñd og þegna med svörnum eiyde xx alner hver[2]) sa madur sem þyngfararkaupe a ad giegna. Þetta fie skulu samañ færa hreppstiorar til skips og fa i hendur kongs um̃bodsmanni og vera þa ur abir(g)d um þad fie.

Hier i mõt skal kongur lata oss[3]) na fride og Jslendskum lögum.

skulu vi skip ganga af Norege til Jslands ij sumur hinu[4]) næstu. eñ þadañ i fra sem konge og hinum bestu bændum [landsens þiker hentast[5]) laudinu.

Erfder skulu up(p) giefast i Noregi fyrer Jslendskum monnum[6]). hvorsu leinge sem þær hafa stadid. þegar rietter arfar koma til. edur þeirra umbodsmenn.

[Landaurar skulu up(p)giefast.[7])

slykañ riett skulu Jslendsker menn hafa i Norege sem þa er þeir hafa bestañ haft og þier hafid sialfer a[8]) ydrum[9]) briefum bodid. og ad hallda frid yfer oss suo[10]) sem gud giefur ydur framast afl til.

Jarl vilium vier yfer oss hafa medañ hann helldur trunad vid ydur eñ frid vid oss.

skulum vier og vorer arfar hallda allañ trunad vid ydur medañ þier og ydrer arfar hallda vid oss þessa sattargiörd. eñ lauser[11]) ef hun ryfst ad bestu[12]) manna yfersion.

1) Samtauk *b*. 2) hvor *b*. 3) *b*; sl. *a*. 4) en *b*. 5) [þiker hentugast *b* 6) *b*; sl. *a*. 7) [sl. *b*, en setr aptan við næstu grein á undan; laugleger (!); lögaurar stendr í *a*; það er leiðrétt hér í landaurar. 8) *a*, *b*. 9) *b*; ydar *a* 10) sl. *b*. 11) laus *b*. 12) bestra *b*.

Þegnanna eydur.

Til þess legg eg hönd a H(elga) B(ok) og þui skyt eg til guds ad eg sver Ha(kone) kongi og Magnuse laund og þegna og æfenlegañ skatt med slykri skipan sem nu erum vier a satter og maldagabrief þar um giort vottar.

gud sie mier so hollur [sem ec satt seige gramur sem eg lyg[1]).

---

*2. [1263 og síðar]. á Alþingi.

Gamli sáttmáli af hendi Íslendinga við Hákon konung gamla Hákonarson og Magnús konung son hans um skattgjald og ríkisréttindi Íslands, samþyktr á Alþingi 1263 (og 1264, og endrnýjaðr síðan).

A.

Landsbókasafn 1028. 4to, skrifað c. 1730—1740 eða fyrri (keypt úr dánarbúi Haldórs sýslumanns Bjarnasonar 28. Sept. 1907). Það, sem einkennilegt er við þenna texta sáttmálans er það, að hér stendr, að tilskilið sé, að hirðstjóri landsins skuli vera íslenzkr maðr. Sbr. Ríkisréttindi Íslands eptir Jón Þorkelsson og Einar Arnórsson, Rvík. 1908 bls. 3—9, og Um upphaf konungsvalds á Íslandi eptir Björn Magnússon Olsen, Rvík. 1908 bls. 51—64. Í sérstöku riti um Gamla sáttmála mun eg innan skamms gera grein fyrir því, hvernig eg skoða þessu skjali varið.

Aunnur samþyckt[2]) af aullum almuga (a) Jslande.

J Nafne födurs og sonar og anda Heilags var jäd og samþyckt af öllum almuga a Jslandi med lofatake ad vier biödum vijrduglegum Herra Hakone konge hinum koronada vora þiönustu under þa grein laganna er samþickt er medal kongsins og þegnanna þeirra er landid biggia.

er su fyrsta grein ad vier vilium giallda konge skatt og þyngfararkaup slijkañ[3]) sem lögbok vottar og alla þegnskylldu so framt sem halldiñ eru vid oss þau heit sem i moti skattinum var jatad.

---

1) [b; et cetera,a. 2) Á undan er samþyktin frá 1302, DI, II, 177. 3) Svo.

J fyrstu. ad utanstefnur vilium vier aungvar hafa utañ þær[1]) sem dæmdar verda af vorum monnum burt af landinu a alþijnge.

Jtem ad Jslendsker sieu Lögmenn og syslumenn og suo Hijrdstiorar a Landi voru af þeirra[2]) ætt sem ad fornu hafa godordin upp[3])giefed.

Jtem ad 6 skip gangi a hvoriu åri til Landsins forfallalaust.

Arfar skulu uppgiefast fyrer Jslendskum monnum i Noreige. hvorsu leinge sem stadid hafa þegar rietter arfar koma til edur þeirra umbodsmenn.

Landaurar[4]) skulu upp giefast.

item slijkañ riett skulu hafa Jslendsker menn i Noreigi sem þeir hafa bestañ haft.

Jtem ad kongur late oss (na) Jslendskum Laug(um) og frid(e). effter þui sem Logbők vottar og hann hefur bodid i sijnum briefum sem gud giefur honum afl til.

Jarl vilium vier hafa yfer oss medañ hann helldur trunad vid ydur enn frid vid oss.

Hallda skulum vier og vorer arfar allañ trunad vid ydur. medañ þier og ydrer arfar hallda vid oss þessa sattargiord. erum vier lauser ef rofid verdur af ydari hendi med bestra manna yfersion.

## B.

Dómabók Landsskjalasafnsins frá Jóni skrifstofustjóra Magnússyni í Fol. bl. 17b, skr. c. 1604. Einkennilegast við þennan texta er það að hér stendr ekki „jarl", heldr „*jarlinn*" eins og í elzta sáttmálanum frá 1262, svo sem og stendr í einni skinnbók frá 1561—1565 (DI, I, 153 C), og sýnist sem þetta muni leifar úr frumriti þessa sáttmála hér frá 1263. — Yngri afskriptir sem hinar almennu af sáttmála þessum er að finna í Landsbókasafni 66. 4to bls. 107 frá c. 1660—1670 og í Landsbókasafni 68. 4to bls 1, frá c 1690, og kallast þar á báðum stöðum „Gamli sáttmáli á milli Noregs kongs og Íslendinga".

Jslendinga samþÿckt wm skattgialld.
J Nafni faudur og Sonar og Anda Heilags.

1) Svo hdr. 2) leiðrétt; þeirri, hdr. 3) ut, hdr. 4) logaurar, hdr.

War þetta jatad og samþyckt af almenningi a Jslandi med lofataki a alþijngi at vier biodum Hakoni kongi hinum koronada wora þionuztu wnder þa grein laganna. Er samþyckt er a milli kongdomsins og þegnanna Er landit byggia.

Er su hin fyrzta grein. ad vær vilium giallda kongi skatt og þijngfararkaup slijkt sem laugbok vottar. og alla þegnskylldu suo framt sem halldin eru vid oss þau heit sem j moti skattinum voro jatud.

Wtanstefningar vilium wier aunguar hafa. vtan þeir menn sem dæmder verda af vorum landzmonnum a alþijngi j burt af landinu.

Jtem at jslendskier sieu laugmenn eda syslumenn æ landi voru. af þeim ættum sem adur hafa at fornu godordin upp gefit.

Jtem at vj hafskip gangi til landziñs a hueriu ári forfallalaust.

Erfder skulu uppgefazt j Noreigi huersu leingi sem stadit hafa þegar rietter arfar koma til eda þeirra wmbodzmenn.

Landaurar skulu upp gefazt.

Slijkañ Riett skulu jslendskier menn hafa j Noreigi sem þeir hafa haft bestañ.

Jtem ad kongur lati oss jslendskum laugum ná og fridi epter þui sem laugbok vottar og hann hefur bodat j sijnum brefum suo sem gud gefur honum fremzt afl til.

Jallinn vilium vier hafa yfer oss a medan hann heldur trunad vidur ydur enn frid vid oss.

Hallda skulum vier og vorer arfar allañ trunad vid ydur [medan þier og ydrer arfar hallda vid oss allan trunad[1]) og sattargiord þessa. Enn lauser. ef rofin verdur af ydar hendi med beztu manna radi og yfersyn.

---

3. **1267.**

Brefságrip, að Magnús konungr lagabætir lofar erkibiskupi

1) [hlaupið yfir af ógáti í hdr.

því, að senda árlega til Íslands 30 lestir norræns varnings af tekjum sínum og landskyldum af Heiðmörk, en erkibiskup skuli byrgja Finnmörk upp með norrænan varning.

Norske Magasin saml. og udg. af N. Nicolaysen I, Kristjania 1858, bls. 533, og er bréfságrip þetta þar í gamalli ritgerð um Björgvin frá hér um bil 1580—1583 og fyrri, sem eignuð er Herluf Lauritssyni, og kölluð er „Bergensfundats“ eða „Fundatsbog“, en frumrit bréfsins þekkja menn nú ekki. Er ritgerð þessi einkum gefin út þar eptir handriti háskólans í Kristjaníu 347. Fol. og 991. Fol. í Gl. Kgl. Saml. í Konungsbókhlöðunni í Kaupmannahöfn. Næst á undan þessu bréfságripi stendr í ritgerð þessari annað svo látandi bréfságrip, sem þar er eignað Hákoni gamla (1204—1263):

„I gammel tid vil jeg det bevise med breve og segl, at Haakon Haakonssön, koning, han haver forlovet de munke i Halsnö kloster at mue, lige som andre kaniker i Bergens stigt sende deres egen landskyld [Norrön varning til Jsland sig til forbedring med kjöbmandskab“.[1])

En ekkert skjal þekkist nú, sem þessi frásögn gæti verið hygð á, og ef það hefir nokkurn tíma verið til, væri fult svo líklegt, að það hefði verið frá dögum Hákonar háleggs (1299—1319), því að það hefir lítið að merkja, þó að þess sé í ritgerð þessari getið á undan bréfságripinu frá dögum Magnúsar lagabætis, þegar þess er gætt, hve ónákvæmt og aðgæzlulítið menn notuðu þá fornar heimildir.

Bréfságrip það, sem hér fer á eptir, og prófessor Björn M. Olsen hefir vakið athygli mína á (sbr. rit hans „Um upphaf konungsvalds á Íslandi“ Rvík. 1908, bls. 38), er eptirtektar og athugavert á ýmsan hátt. Er það fyrst, að ártal bréfsins 1262, sem virðist standa í aðalhandritinu, fær tæplega staðizt, því að þá er Hákon konungr gamli enn konungr í Noregi (d. 16. Dec. 1263) og því hefir Gustav Storm, í Regesta Norvegica, Kristiania 1898, Nr. 624, athugað það, að bréf þetta gæti ekki hafa verið gefið út fyrri en 1264, úr því að það er skýlaust heimfært til Magnúsar konungs fjórða. En rök eru fyrir því órekandi, að Magnús lagabætir var einmitt stundum nefndr Magnús fjórði eða Magnus qvartus (DI, II, bls. 106; Ngl. L. IV, 366). Ártalið 1267, sem stendr í öðrum handritum, gæti því staðizt. Annað mál er um efni bréfsins, hvort að það sé ágrip úr bréfi, er nú sé glatað, en hafi til verið á „Björgynjarhúsi“ á 16. öld, — og á þeirri skoðan er Gustav Storm —, ellegar það sé ónákvæmt ágrip úr samningi konungs og erkibiskups frá 1. Aug. 1273 (DI, II, bls. 104; sbr.

1) [Orðamunr frá öðrum hdrr. 347. Fol. hefir: „nord om Bergen med varning og kjöbmandskab, sig til forbedring“.

Túnsbergssættargerðina 9. Aug. 1277, DI, II, 143 og 151), og því heldr Nicolaysen fram (Norske Magasin I, 533, neðanmgr. 3), en ekki fæ eg séð, að það sé þó svo víst sem honum þykir, og sýnist mér það fremr muni ágrip af sérstöku bréfi, er nú sé glatað, svo sem Storm ætlar.

Það var gamall réttr erkibiskupsins í Niðarósi, að hann mætti flytja út til Íslands árlega til verzlunar til hagræðis fyrir erkistólinn þrjátigi vætta mjöls á þeim tímum, sem árferði væri svo gott í Noregi, að það land mætti missa svo mikla kornvöru; en þegar árferði þyldi ekki svo mikinn útflutning mjöls, þá mætti biskup verzla til Íslands með aðra hluti. Svo og átti erkibiskup rétt til landauragjalds af einu skipi árlega, er geingi frá Íslandi til Noregs. Réttindi þessi voru erkibiskupi fyrst veitt með bréfi Magnúsar konungs Erlingssonar 24. Marts 1174 (DI, I, bls. 228), og síðan endrnýjuð með bréfi Celestinuss páfa hins þriðja 15. Júní 1194, og var þá þetta verzlunarhagræði einkum ætlað til þess að kaupa klæði handa Niðaróssklerkum (DI, I, bls. 293). Þessi réttindi endrnýjuðu því næst Magnús konungr lagabætir og Jón erkibiskup rauði með samningnum 1. Aug. 1273 og Túnsbergssættargerðinni 9. Aug. 1277 (DI, II, bls. 104, 143 og 151).

Efnið í bréfságripi því, er hér fer á eptir. er eingan veginn hið sama og í þessum bréfum, sem næst voru talin. Hér er ekki um það að gera, að endrnýja þessi hin fornu réttindi erkistólsins, heldr að eins hitt, að konungr og erkibiskup koma sér saman um það, að haga rekstri þessarar verzlunar á þá leið, að konungr tekr að sér um sinn að senda 30 lestir af tekjum sínum og landskyldum af Heiðmörk til Íslands og verzla þar með þær, því að nú hafði hann betri aðstöðu en erkibiskup til verzlunarviðskipta við Ísland, átti þar nú skattheimtu og svo var skipakvöðin í Gamla sáttmála. Hins vegar var erkibiskupi miklu hægara að hafa verzlunarviðskipti við Finnmörk heldr en Ísland, og var þetta því í hagræði við hann. Vera má og, að konungr hafi hugsað sér að hafa hagræði af þessum skiptum á þá leið að bægja sem mest öllum verzlunarviðskiptum frá Íslandi, nema við sjálfan sig. Því að svo er að sjá sem konungr hafi frá öndverðu ætlað sér að nota og teygja ákvæði sáttmálans til þess að einoka verzlan landsins við sig sjálfan, en því hafa Íslendingar mótmælt sem lögleysu og heimildarleysu, og hafa sjálfir viljað hafa skip í förum einir eða í samlögum, sem þeir og feingu fram. Er frá þessu skýrt nokkurn veginn ljóst í þessum fáu orðum Höyersannáls 1273: „*Magnús konungr játtaði Íslendingum at eiga í hafskipum*“. Íslendingar hafa því strax í öndverðu mótmælt því, að í Gamla sáttmæla lægi nokkur heimild fyrir konung til verzlunareinokunar á Íslandi.

Anno 1267[1]) lovede kong Magnus den fjerde erkebispen med brev og segl, at han skulde lade sende aarligen af sin rente og landskyld, som falt udi Hedemarken [ved Oslo, til Island[2]) 30 læster Norrön[3]) varning, [og derimod vilde erkebispen forsörge af sin rente Norrön varning de[4]), som bo udi Finmarken[5]).

---

*4. [1319].

**Bréf** bænda fyrir norðan land til Hákonar konungs háleggs, þar sem þeir kvarta yfir ýmsum nýjungum og ólögum, er Auðun biskup fari með.

Dómabók Landsskjalasafnsins frá Jóni skrifstofustjóra Magnússyni í Fol. bl. 118 a—b, skr.c. 1604. — Landsbókasafn 72. 4to bls. 568—570 með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1720—1730. — Prentað áðr í DI, II, 337.

Sen̄dibref Jslendinga til Noregis[6]).

Wirdugligum Herra sijnum Hakone med Gudz mýskun Noregs kongi hinum koronada: Senda bændur og almugi wr holabiskupsdæmi á Jslan̄di kuediu Gudz oc wora med audmiukri þionustu.

Jhesus christus aumbune ydur fyrer margar og fagrar riettarbætur sem þier hafid oss giefid og einkanliga þær sem j þui briefi stodu sem Gunnar rádsueinn ydar hafdi til Jslan̄dz þo wær hefdum þar minna lietta af enn ydar goduilie hafdi Grun̄d-

1) 347 hefir hér ártalið „1262“, sem ekki fær staðizt; ártalið 1267 stendr í öðrum handritum. 2) [til Oslo, al. 3) orðamunr frá öðrum hdrr.; 347 hefir: Norsk. 4) [orðamunr frá öðrum hdrr.; 347 hefir: „dennem til hjelp“. Sum hdrr. hafa: „og til de“. 5) Hér aptan við hnýtir Herluf Lauritsson: „Denne handel og skik haver standet i mange aar, og fra (paa) den tid haver landet været veldigt og almuen rig. Men strax der de Tydske ere komne udi landet, er strax halvdelelen bleven til intet“. 6) Supplicatia og sendebref Jslendinga i Hola Stigte til Hakonar kongs Magnussonar á mote nyungum Audunar Byskups á Holum 72.

uallad. Sakier þess ad wirduligur herra Audun biskup will þeim med auñgu moti samþýckur werda. Suo sem þad laugmadur seigi laug wm̃ fiesekter ȷ christiñdomsbælki.[1]) Ei will hann og ad fiesektiũar mijnkist ȷ christindomsrietti sem ydar bref bydur. Hier med hefur hann nauckur nýmæli æ oss þegnum ydrum þau sem wier wilium eigi wñder gañga.

Er þad fyrsta ad hann seiger biskupinn ʀada eiga aullu þui godzi sem til kirknanna er giefid edur golldit. Suo og tijundum og salugiaufum og offri ȷ moti fornum landzins wana. þui at kirkiubondinn hefur æfinliga haft allt þad offur sem minna er enn huñdrat med biskupanna samþýckt kirkiunum til wpphelldis og kennimaunnum[2]) til kostar og suo tıjunder allar.[3]) Enn wier seigium ad tıjundernar offrid og salugiafirñar hafi selst kirkiubændunum til matarwerdz prestinum og til tijdakaups eı bondinn greider huertueggia oc þad æfiñliga haft oc halldit. Og þui wilium wier ecki biskupanna aform samþýckia.

Su er aunnur grein ad biskupinn seiger ad kirkiubondinn eigi ad syna med laugligum witnum ad kirkiunnar skullder hafi lagst ȷ lausafie og wtjarder elligar seiger hann kirkiuna eiga fim̃tijger hundrut ȷ þa ȷaurd er hun æ stendur. Enn wier wilium þad eigi samþyckia.

Þegar og ad nauckud er kirkiu eignad sem hun stendur æ [æfiñliga hefur[4]) kirkiubondinn einn wardueitt. þa will hann prestum sıȷnum til halldz weita allar þær adrar smatijunder sem ad fornu hafa fatækier haft og minna er enn eyris tijund will hann parta sem adrar tijunder ȷ fiora stadi. werdur þad Gudz aulmusum mýkill skadi og bændum eirñin og þad wilium wier eigi þola.

Þier hafid fyrirbodit ȷ ydrum briefum ad profastar wppdickti nauckrar fiesekter med wtsetningu af heilagri kirkiu

1) Sbr. réttarbót 28. Júlí 1316. DI, II, 226. Hefir réttarbók þessi því verið send til Íslands í öndverðu, þótt ekki sé talið, að hún hafi náð gildi hér á landi. 2) kennemönnunum 72. 3) Á spássíu stendr hér með fornri hendi: „Biskupar skulu hafa þad sem til kirkiu gefst hundradi (!) eda hundradi meira. Enn sa k[irkiu] vardveiter þad minna [er]“. 4) [hefur æfinlega 72.

edur audrum forbodunum. Enn wilia eigi laugmans wrskurd hlýda wtañ sekta oss oc sækia epter sinni willd. Eru slijkar sokner bædi moti laugum oc landsins wana þeim sem hier hefur geingid j landi med oss.

Godi herra hakon kongur. þad hefur hier lijtt og oheyriliga ordit og til tekist þa wtlender biskupar hafa hier þreýngder werid inn j landit j moti landzins wana sem ad fornu hefur yfer stadit og þeiri samþýckt og asetningi er skipud war þa heilagur Jon Biskup[1]) war kosinn af lærdum og leikum æ Jslandi. þad til teikns ad biskupar skýlldu suo æ kiosast hier j landit sijdañ.

Bidium wier ydur miuklega ad þier siaed suo til med Gudz mýskun ad eigi sie leingi saman agiarñ haufdiñgi og heimskt folk þui ad þar af hefur opt mýkil ohæfa skied. Siaum wier og fyrir ad æ fara wetra fresti hefur kongdomurinn hier eckj wtañ erfidi og kostñad. Enn kirkian allt godz j landinu med ad giaura. Og þui biodum wier oss og aull wor malefñi j Gudz walld og yduart bidiandi ad þier halldit oss med fornañ og nýan riett þann sem hier hefur werid samþýcktur ad riettu þijngtaki. Og styrkia oss til ad wier haulldum woru frelsi og faudurleifdum skipandi oss aurugt traust suo ad wier megum wañdrædalaust wors riettar niotañdi werda.

Giefi þad wor herra Jhesus christus ad þier siaed suo fýrer ad allzualldañdi Gud hafi lof og dýrd enn þier sæmd og heidur. wier ydrer þienarar nad og nýtsemd bædi nu og ad eilijfu amen.

Hier wppa kom Riettarbot hakonar kongs: Þennan hatt hæfer syslumaunnum et cetera.[2])

---

*5. [1320].

Bréf Íslendinga um skilyrði fyrir sáttmála og hylling við Magnús konung Eiríksson, þar sem þeir neita allri hlýðni og hollustu, nema haldið sé það, er heitið var í hinu „fornasta bréfi, er vort foreldri sór Hákoni kongi gamla“.

1) „ɔ: Jon Biskup Øgmundsson“ á spássíu í 72. 2) Þessi klausa fylgir í báðum hdrr. Þetta er þó rangt. Sbr. DI, II, 337, 342.

Dómabók Landsskjalasafnsins frá Jóni skrifstofustjóra Magnússyni, í Fol. bl. 184 a—b, skrifuð c. 1604 (elzta afskript þessa bréfs, sem nú þekkist; = $\alpha$). Landsbókasafn 789. 4to bls. 425—427 með hendi Jóns Gizurarsonar c. 1630—1640. — Landsbókasafn 67. 4to bls. 117—118 með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti c. 1640—1650. Áðr prentað í DI, II, 343 (eptir yngri handritum) og í Ríkisréttindum Íslands, Rvík. 1908 bl. 14—15.

Wm skattlofun og eid Jslendinga.[1])

Avllu woru[2]) og wirduligu rijkisrǻde[3]) og geimslumaunnum [j kongsgarde[4]) j norege Senda bændur og almugie æ Jslande kuediu gudz og sıjna. [kunnigt Giaurande[5]). ad Gunnar Radsueirñ[6]) tiede fyrir[7]) oss æ alþijnge med audmiukum godwilia wid kongdominn sem hann fremst mǻtte. [huernin[8]) þier bǻdud oss sueria Jungherra Magnuse dottursyne[9]) hakonar kongs hins coronada [slijkum þegnskylldum[10]). sem hans wirduligum forelldrum war jǻtad æfinliga til þarfinda og þeirra afkuæme ad forfallalausu [kongsins wegna[11]) J mote worum skattgiaufum ad tilskildum vj skipum hingat til Jslandz[12]). huert sumar þeim giædum hladiñ er landinu wæri naudsynlig. ij fyrir nordan. [ij fyrir sunnañ. j fyrir austan og j j westfiaurdum[13]). og ad Jslendsker sieu laugmenn og sýslumenn. [og aller valldzmenn ǻ landinu[14]). Sie[15]) annar laugmadur fyrir nordañ[16]). enn annar fyrir sunnañ. og hafe þeir ecke sýslur. Enn sokum[17]) þess wier wilium ecki af oss stande nockur brigd wors mals[18]). Þa haufum wier giaurt oc giaura wilium alla þa þegnskylldu sem wier erum honum skyllduger ad weita epter fyrrsogdu skilorde. Þar til er þier meigit gott rǻd fyrir giaura og wier meigum nǻ fornum frıjheitum[19]) og nyum skilmala. Witid þad[20])

1) Gamle Sättmale Jslendinga Vid Noregs Konga anno dominj 1261 (!), 789. Bref Islendinga til Noregs Kongs 67. 2) vitru 789, 67. 3) Radi 789; Rijkisens räde 67. 4) [kongs gards 789, 67. 5) [ydur vilium vier kunnugtt giora 789, 67. 6) R. 789. 7) sl. 789, 67. 8) [huornn eijd 789 j hveriu 67. 9) virduligs herra b. v. 789, 67. 10) [slijkañ þegnskylldu eid 789, 67. 11) [af kongsins halfu 789. 12) landsins 789. 13) [2 fyrir sunnann eitt til Austfijarda og annad til vestfiarda 789; land. j Austfiördum eitt. og ä vestfiordum eitt 67. 14) [b. v. 789, 67. 15) Skal 789. 16) land b. v. 67, 789. 17) saker 789, 67. 18) skilmala 789. 19) sl. 789. 20) b. v. 789, 67.

fyrir wijst ad wier þikiunst lauser eptir þui fornasta brefi sem wor[1]) forelldri sor Hakoni kongi gamla. Ef wier faum eij ad sumri þad sem oss er jãtad af honum oc nu mælum[2]) wier til. Skreid og miaul wilium wier ad ecke flytiest medan hallæri[3]) eru[4]) j landinu. meijr enn kaupmenn þurfa til matar sier [vm̃ haf[5]). Enn[6]) vt(an) stefningar[7]) samþickium wier ei framar enn logbok wattar. Þã eina wilium wier soknarmenn hafa er Bændur kiosa.[8]) Wilium wier þann tijma sueria. [enn ecki fyrr. sem[9]) Rikisins rãdz bref med jnsiglum er oss sent oc [þar med fram komi godwilie[10]). Gefe þad wor herra Jesus christus. ad þier giaurid so rad fyrir þessu og aullu audru. ad sãl[11]) wirduligs herra hakonar kongs sie til e(i)lijfs fagnadar. Jungherra Magnuse til heidurs oc æru. aullum oss til fridar og fagnadar[12]) [bæde lijfs og salar[13]).

---

**6. 5. Febrúar 1360. Í Túnsbergi.**

Réttarbót Hákonar konungs Magnússonar um forkaupsrétt konungs, sem staðfestir öll þau bréf, er hann og faðir hans hafa út gefið um þarfindi konungsgarðsins, hvort sem þau votta um sekkjagjöld Íslandsfara eða aðra hluti.

Norges gamle Love III, bls. 179—180 eptir AM. 102. 4to á pappír frá c. 1580—90; AM. 94. 4to einnig á pappír og ritað um sama leyti; Stoch. Perg. 29. 4to afskript á pappír frá 16. öld; og Nr. 11 í Deichmannssafni í Kristjaníu, einnig frá 16. öld.

Vm konungs kaup.[14])

Hakon [med guds miskun Norrigis konungr[15]) sendir ollum monnum i Biorgunar fehirdlo [þeim sem þetta bref

1) vortt 789. 2) mæltum 67. 3) hallærid 67. 4) er 789, 67. 5) [b. v. 789. 6) vm 67; sl. 789. 7) — stefnur. 8) samþyckia 789. 9) [og eckj fyrr enn 67. 10) skilmale 789; [þad med fullkomnum skilmála 67. 11) sálu 67. 12) farsælldar 67. 13) [bæde i brad og leingd 789; bædi (i) brád og leingd. Datum et cetera 67. Í GV ritar síra Jón Haldórsson í Hítardal á spássíu: „Datum þessa brefs mun 1319". 14) Om koningens furste kiøb 29. Enn vm konungs fyrsta kaup 11. 15) [m. g. & c. 29. [& c. 11.

sea edr hœira q. g. oc sina.[1]) Vmbodsmen varir her med edir hafua kiert firi os at þeir nae eigi kaupi af þæim lutum sem þæim[2]) þarfuast till vars gards eptir þui sem logbok vattar. Oc af þui at ver megom edr viliom þat med engo mote þola ne lida lata at logboken edr varo[3]) bref verda sua lengie fyrsmaddir. þa biodum ver ollum monnum hueriom sem [þæir tilhœira[4]) at selia oc[5]) falt bioda fyrst varom vmbodsmanum þimber. tak. vidakost oc adra luti sem þæir þarfast till vars gards at hafa oc nyta[6]) huart þat er falt i bœ edr i herade i minna lut edr meira firi þuilikt verd sem skynsameligt er oc adrir men vilia firi greida. Vitande till sands at huer sem odruuis gerir oc fyrsmar os þær i oc[7]) var bref oc lagbokina at han skall suara os fult brefuabrot firi huart sinni oc a ofuan þes von at eiga at ver skolum sua lata eptir at sea at odrum skall til vidrsionar verda. Stadfestum ver och med þesso varo brefue oll þau bref. sem var kiære herre oc fadir oc ver hofum [adr vtgiefuit[8]) [vm gardsens[9]) tarfuinda [huart þau vatta vm Islandsfar sæckiagiald edr adra luti. Giort i Þunsberg Agatemesso dag anno 5 regni. Insiglat os sialfom hiauerandom[10]).

---

*7. **20. Júlí 1375.** **í Skálholti.**

Almenn samþykt Íslendinga, kölluð „Arnesingaskrá", um alsherjar samtök til að vernda ríkisréttindi Íslands.

**A.**

Eptir skjalabók í Landsskjalasafni með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600, bl. 86b—87a (= a). — Landsbókasafn 1028. 4to skrifað c. 1730—1740 (keypt úr dánarbúi Haldórs sýslumanns Bjarnasonar 28 Sept. 1907). — Prentað áðr í DI, II, Nr. 189 og í Ríkisréttindum Íslands, Rvík. 1908, bls. 16—17.

Samtok Jslendinga vid Noregs kong[11])

Jn nomine domini Amen [a sietta og fim̃tugasta

1) [& c. 29, 11. 2) þeir 11. 3) vara 11. 4) [hand till høirer 29; [hann til hæyrir 11. 5) eda 11. 6) nytia 11. 7) sl. 11. 8) [ydr gefet 11. 9) [oc gardz vars 29, 11. 10) [sl 29. [vt supra 11. 11) Enn ein Samþyckt allra bestu manna a Jslande sem giordest i Skalhollte, 1028.

ǻre[1]) var þetta samþýcktt og samtal allra bestu manna og almuganz a Jslande giortt j skǻlhollti in translatione sancti Thorlatij[2]).

[in primis[3]) ad menn vilia hallda alla þegnskýlldū́ vid kongdominn. og hafa log og landzriett eptter þui sem suariñ vottar vor landzlaga bok. med konganna logteknum riettarbotū́m.

So vilium vier og hafa alla jslendska logmenn og sýslumenn. og ongvar vtanstefnū́r vm̄ þaug mǻl sem lögmenn og sýslumenn fa hier ýfer tekid. og eigi framar rekstū́r sýslumanna enn j laugligañ tijma epter logum̄. vtan bændū́r samþýcke annad. og eigi þa. nema sem [ero[4]) fū́llvedia fyrir þeim volldū́m sem koma af Noregi. Enn so ad þad halldist þa lýsi þeir brefū́m sijnum vm̄ sinn a þriggia hreppa þinge. j huoriu þinge. vti huorium fiordungi vm̄ allt landid. og rijde vid tiū́nda mann. a vissañ sialfs sijns kostnad. til hesta og jarna. og rijde handgeingner menn og bændur og laugmadur. ef hann er nær. til þeirra þinga. ad þess betur gangi kongsins riettur. eptter laugum.

Aunguar nýungar nie alaugur vilium vier framar enn forṅ þegnskýllda krefū́r.

vm̄ skullder kaupmanna leýsi huor eýrer annañ. eptter jafnade ef þad brestur er skilt var. eptter þui sem logmadur urskurdar edur domur dæmer.

Ef kaupmenn giora olaug landsmonnum þa sie almugi skýlldū́r[5]). sa er næstur er[6]) til ad fylgia þeim. so ad þeir fai riett eptter logū́m er mishalldner ero. adur þeir fara bū́rtt. og sýslumadur j þui hieradi sem brotid er ad. so og ad þeir kaupmenn hafe sinn riett eptter logū́m af landzmonnum. eptter domi edur vrskurdi.

Laugmenn vilium vier jafnañ hafa hina somu. forfallalaū́st. og eigi vmskipti a giora. þa eina þo er[7]) j logriettu

1) [Svo *bæði hdrr.* og getr það ekki átt við annað en ríkisár Magnúsar konungs Eiríkssonar (d. 1374). Sbr. og Um upphaf konungsvalds á Íslandi eptir B. M. Olsen, Rvík. 1908, bls. 65. 2) Thorlacij 1028. 3) [J fyrstu 1028. 4) [eigi ero, bæði hdrr.; annað hvort *nema* eða *eigi* er ofritað. 5) skylldugur 1028. 6) sl. 1028 (!). 7) eru (!) 1028.

ero samþýcktter. af almvga med riettu þingtake. ef þeir hallda hlýdne vid noregz kong vorn og laug vid þegna. kunni þeim og nockud ad[1]) mistakast edur a ad verda. ad þa vilie bæta sijn brot epter bestu manna radj.

Suo og vilium vier aunguañ þann syslumann hafa edur liensmann ȷ landinu [er syslur leiger[2]). eda vnder nockrar nýar alaugur geingűr. vtañ þær sem hier eru logteknar.

Vm̄ þa menn er[3]) oskil giora og eigi vilia doma hallda takist og halldist vndir riett Rannsak[4]). þar til þeir lűka peninga eda refsing.

Nu ef nockur Rýfur þetta og vr geingur .þessu samtaki. þa sie aller skýllder. þeir ed[5]) halda. ad sia so til med þeim. ad odrum verdi til vidursionar ad leida sig med odrum godum monnum ȷ þuilijk samtok og Riufa sinn truskap vid almugann.

Ef menn kunna styrkz vid ad þűrfa af odrum fiordungum. þa skulu aller bestu menn skýlldugier til ad rijda. og þa ad styrkia til laga og riettinda þeir sem beidder verda. epter ȷafnade vpp a Riettañ Reikningskap [et cetera[6]).

## B.

Dómabók Landsskjalasafnsins í Fol., bl. 117—118, frá Jóni skrifstofustjóra Magnússyni, skrifuð c. 1604.

Jsleñdinga samtauk.

Jn nomine domini amen.

Jsleñdinga samþyckt ȷ skalhollti ȷn translatione Sancti thorlaci.

Jn primis ad hallda alla þegnskylldu wid kongdominn og suo laug og landzins riett epter þui sem landzlaga bokin wottar su sem hier er suariñ med konganna laugteknum riettarbotum.

Suo og wilium wier hafa alla Jsleñdska laugmenn og sýslumenn. Og þau ein mal skuli wtañ stefnast sem eigi fa worer laugmenn og sýslumenn yfer tekid.

---

1) b. v. 1028. 2) [*leiðrétt;* eru syslu leigur, bæði hdrr. 3) sem 1028. 4) ransauk 1028. 5) er 1028. 6) [sl 1028.

Ei wilium wier og framar rekstur sýslumanna enn j laugligan tijma epter laugum wtan bændur snmþycki annad.

Ei wilium wier þa syslumenn hafa sem eigi eru lauguedia.

Komi walldzmadur af noregi [eda herser. halldi[1]) lysi briefum sijnum æ þriggia hreppa þijngi j huerium fiordūngi wm̄ allt landit og ʀijdi med tijunda mann æ vijsañ sialfs sijns kostnad til hesta og jarña. Og rijdi hañdgeiñgner menn bændur oc laugmadur (ef hann er j nañd) til þeira þijñgstefña ad þess betur gañgi kongs riettur epter laugum.

aunguar nyuñgar eda skylldukraufur wilium wier framar wñder gañga enn forñ þegnskyllda krefur.

Wm̄ skullder kaupmanna leýsi huer eyrer annañ epter jafnadi ef þad brestur sem skilid er epter wrskurdi þeim sem laugmadur giefur eda domur dæmer.

Ef kaupmenn giaura olaug landzmaunnum þa sieu laugmenn skyllder og almugi sa sem næstur er ad fýlgia þeim ad þeir fae riett epter laugum er mishalldner eru adur enn hiner j burt fara oc syslumenn j þui hieradi sem brotid er ad sem laug bioda haunum. Suo og ad kaupmenn fae sinn riett af landzmaunnum epter domi eda laugmanns wrskurdi.

Laugmenn wilium wier jafnañ hafa hina saumu forfallalaust og eigi wm̄skipti æ giaura þa eina þo er j laugriettu eru samþýckter af almuganum med riettu þijngtaki. Ef þeir hallda hlydni wid worñ noregs kong og laug wid þegnana og wilie þeir hlydni giallda fyrir sijn brot med bestu manna radi.

Suo og wilium wier aunguañ þann sýslumann edur liensmann hafa j landinu ad sýslur leigia eda wñder nauckrar nýiar alaugur geingur vtan þær sem hier eru laugteknar.

Wm̄ þa menn er oskil giaura og eigi wilia laug hallda edur doma. takist og halldist wñder riett Rannsak þar til þeir luka epter laugum pening edur refsing.

Nu ef nauckur rýfur þetta og wr geingur þessu samtaki. þa sie aller skýllder þeir sem hallda wilia ad sia suo til ad audrum werdi til widsionar ad leida sig med audrum

1) [Svo.

maunnum j þuilijk samtauk og riufa sinn truskap wid almugañ.

Ef menn kunna stýrks wid ad þurfa wr audrum fiordungum þa skulu aller bestu menn skyllduger til ad rijda med þeim oc stýrkia þa til laga og riettiñda þeir sem beidder werda epter jafnadi wppa riettan reikning.

---

*8. [1379].

Máldagi Pétrskirkju í Saurbæ á Kjalarnesi [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

AM. 238. 4to bl. 112b.: Bessastaðabók, með hendi Vigfúsar Jónssonar sýslumanns c. 1570. Máldagi þessi er áðr prentaðr í DI, III, Nr. 287 eptir JSig. 143. 4to, sem er yngri og lakari bók að stafsetningu en Bessastaðabók.

Maldagi kirkiunnar j saurbæ á kialarnesi.

Peturs kirkia j saurbæ á kialarnesi. á .x. kýr. xv. ær. gridung tuæuetrañ. saudur tuæuetur. Hundrat j haustlagseýri. Hundratz ketil. iij. hestar. tolf manada tidabækur. þrenn messoklædi. gylltur silfurkaleikur steñdur næri .ıx. avra.

kirkiañ á. xxxc. j heimajordu eptir þui sem soru Sira gudmundur gilsson og Sira þorkell haflidason. ad dæmtt hefdi. vj. prestar eptir bodi herra gýrdurz. og þorkell sem þa atti jordina var þar þa fyrir kalladur.

Bru skal hallda á blikdalsá þar á millum fialls og fioru er sa vill er j saurbæ býr þa er medalmadur meigi bera. j. uætt og hafa þar omagann sem bruiñ er á gior. enn ef uautn taka bruna edur fellur af fyrir fýrnsku sakir. þa skal gefa .j. maurk á fyrsta missiri. maurk á audru. xij. aura á hinu þridia. Sidañ skal hann hafa kuengilldañ omaga þar til sem bruin er gior.

Þar liggur tiund til millum blikdalsar og Jilifsdalsar. nema ef eyri og mydal ef þar bua landeigen̄dur. þa skulu þeir taka sina tiund heima og allra hiona sinna. er þetta skrifat eptir hitardals maldagabok.

---

**9. 1382.**

Skýrsla um afhending staðarins á Helgastöðum í Reykjadal, þegar síra Kári Bergþórsson skildist við, en síra Jón Magnússon tók við.

Handritasafn J. Þ. 101. 4to (í Landsbókasafni). Úr skýrslu gefinni meistara Hálfdani Einarssyni nálægt 1780 um Helgastaðapresta (líklega eptir síra Hannes Scheving). Afhendingarskrá þessi er nú ekki meðal Helgastaðaskjala í Landsskjalasafninu.

„In Primis. Hefe jeg fundid hier ä gamallre Membrana um Helgastadapresta. ad Anno 1382 skilde Käre prestur Bergþorsson vid Helgastadaprestakall. Enn Jön prestur Magnusson þä vid tok. Og svarar þvij þeir mune hafa verid ä tijd Jons Biskups Eyrekssonar Skalla ä Hólum“.

---

**10. 10. Maí 1383. að Geithellum.**

Vitnisburðarbréf um fjörumörk og landamerki Starmýrar í Suðrmúlaþingi.

AM. 279. Fol, bréfabók Brynjólfs biskups XVIII, 628, skr. 1671, með hendi Gizurar Bjarnasonar.

Vm̄ Starmyrar fiorugögn Jnsiglad medkenningarbref.

Þeim gödum mönnum sem þetta bref siä edur heyra senda Tiorve Halldorsson og Jön Palsson Q. G. og sina. kunnigt giorandi. at vit säum og heyrdum ä ä Hualnese. ad þeir Þorsteirn Ormsson og Amundi Jonsson handlögdu Biarna Jonssyni suo felldan̄ vitnisburd ad þeir menn sem a Star-

myri biuggu hofdu af fioru þeirri ed er frå Selarőse til Markskers fiska og sela og allt þad er þeim ber til ed fioru geymer og land å fyrer ofañ. meir enn fiðrutige åra. suo eingen taldi ad. ad þeirra vitordi. Var og Starmyre eignad land allt frå Selårőse til Melrackanessőss. hðfdu þeir þar af haga og landsnytiar. og eyr su. er Strűkseyr er kollud. var eignud Melrackaness landi. og hðfdu þeir menn er a Melrackanese biuggu ef nockud bar femætt å fyrr nefnda eyri. Sagdi Þosteirn Ormsson og Amundi Jonsson þessa menn hafa buid å Starmyri. Asbiorn Einarsson. Gudmund son hans. Jon. Øssur og Steinmőd og marga adra og hðfdu þesser menn af sðgdum reka allt þad er å bar utan hual og vid. Og til sannenda her um̃ settum vid ockar ȷnsigli fyrer þetta bref er gordt var ad Geithellum drottinsdag næsta fyrer Hallvardsvðku å ðdru åri Rikis vors virduglegs herra Olafs Noregs (og) Dåna kőngs.

Þetta medkenningarbref um Starmyrar ȷ Alfftafirdi austur fiðrugogn hofum ver S(ira) Teitur Petursson kyrkiuprestur ȷ Skalhollte. Olafur Gislason. Gissur Biarnason og Olafur Asmundsson ȷnsiglad sed og her vid saman lesed in originali. og ber þessari utskrifft rett saman vid þad. Huoriu til sannenda vitnisburdar ver settum vorar eigen handskrifft- er her under er saman låsum. Skalhollte 24 Junij 1671.
Teitur Petursson p. meh. Olafur Gislason Egh.
Gissur Biarnason m Egh. Olaffur Asmundsson Eh.

---

**11. 1383.**

Skýrsla um kaupmálabréf síra Guðbjarts flóka Asgrímssonar og Þorbjargar Þorsteinsdóttur.

Eptir ættartölubók síra Þórðar Þórðarsonar í Hvammi, skrifaðri c. 1730, í eigu Hannesar ritstjóra Þorsteinssonar.

„Sira Gudbiartur (Asgrimsson) hafde å sijnum ungu arum studerad til Paris ȷ Þyskalandi (þar um̃ eckj meir). hann var kalladur floke. hielt Laufass stad og Greniadarstad ȷ tıȷd Biskups Olafs Rognvaldssonar. hann var og officialis

Hola domkirkju. quinna hanz hiet Þorbiorg Þorsteinsdotter. Þeirra kaupmalabref Daterad 1383 a pergament la hia Odde Þorleifssine á Borg".

---

12. 15. September 1387. í Haga.

Vottorð um máldaga hálfkirkjunnar í Bíldudal í Arnarfirði, svo og máldaginn sjálfr, er Jón Halldórsson biskup í Skálholti setti (1323—1339).

Visitazíubók Brynjólfs biskups um Sunnlendingafjórðung 1642 bls 49—50 og er þetta bréf tekið upp í úrskurð biskups gerðan á Innra-hólmi 21. Aug. 1642 um skyldur og kaup til Otrardalsprests af kálfkirkjunni í Bíldudal. Segir biskup svo í úrskurðinum: „Somuleidis heffi eg lesid wtskriptarBreff med Jnnsiglum Jons Gijslasonar prests og Olafs Jonssonar. skriffád i Saurbæ á Raudasandi 14. Aprilis Anno 1569. ȷ huoriu þeir medkiennast sig sied og yferlesid haffa. suo látandi Breff ord epter ord sem hier fyrer skriffud standa. medal huörra Breffa eitt hliódar ä þennan hatt".

Aullum gődum mönnum sem þetta Breff siá edur heyra senda Halldor prestur Sigurdarson. Ari Wermundarson kvediu Guds og sijna kunnugt giörandi. ad eg neffndur Halldor prestur sá og yfferlas opid Breff Herra Jőns Biskups Halldőrssonar med hans heilu og oskőddu hangandi Jnsigli. huört ed suo greindi mäldaga Halfkyrckiunnar ȷ Billdudal.

In primis. ad kyrckiuprestur ȷ Otradal skal syngia til adur neffndrar kyrckiu i Bijldudal annan huorn dag helgann. og hinn fiőrda huörn dag fyrri. skal þar lűkast ij merkur offurs. skal takast heima kyrckiutijund og lysitollar aller. smätijunder allar. þær er minni eru enn skiptitijund. Skal öll kyrckiutijund og prestsfiőrdungur aff Bijlldudalseyri lukast til kyrkiunnar i Bijlldudal og allar smätijunder og lysitollar. Lagdi Grijmur Audunarson kyrckiunni ȷ Otrardal v kyr og eitt hross ȷ mőti adurgreindum mäldaga þrattnefndrar Bijlldudalskyrckiu.

Vilium vid adurgreinder menn Halldor prestur og Ari

sveria suo felldann mǻldaga kyrckiunnar j Billdudal eff þarff.

Og til sannenda hier wm̄ settu fyrrnefnder menn sijn Jnnsigli fyrer þetta Breff. er giỏrt var i Haga ǻ Bardastrȯnd in octava Nativitatis beatæ Mariæ virginis Anno 1387.

---

*18. **3. Apríl 1391. / 2. Janúar 1393.** **á Ökrum.**

Sumarliði Þorsteinsson selr Benedikt Brynjólfssyni jörðina Sauðá í Skagafirði, með tilteknum rekamörkum millum og Sjáarborgar, fyrir Gilsá Egilsá) og Ánastaði og lausafé að auk.

Frumritað vidimus á skinni frá 12. Marts 1557, gefið Landsskjalasafninu 12. Júlí 1907 af Þorvaldi prófessor Thoroddsen. Bæði innsiglin eru dottin frá. Bréf þetta er áðr prentað í VIII, Nr. 11 þessa safns eptir nýlegri afskript gerðri á aðra hönd eptir transscripto frá 31. Okt 1475 (VIII, 59). Þar hefir fyrri dagsetningin af vangá orðið raung 20. Marts (sem er mánudagrinn *fyrir* páska) fyrir 3. Apr.

Kaup Brief vm̄ Sauda og borgar Reka[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sie edur heyra senda Einar prestur Olafsson. Rafn̄ jonsson. Þorsteinn biarnarson. jon þorste(i)nsson. wighfus arason. Ormur[2]) jonsson og þorfinnur Einarsson. Kuediu gudz og sina. kunnigtt giorandi ad þa er lidit war fra hingatburd crist(i). m. ccc^th. Niutiger og eitt ær. ad sydrum okrum j blȯnduhlíjd. manudagh næsta epter pascha wiku. worum uær j hia saum̄ og heyrdum a ad sumarlide þorsteinsson selldi benedict bryniolfs Son[3]) med handabandi til fullrar eignar. jord alla saudæ j skagafirde. med ȯllum þeim gaugnum og gædum. rekum og hlunnendum. sem nefndur sumarlidi og þorsteinn fader hans hofdu att og fremst ordit eigandi ad. og greind jord hafdi att. ad fornu og nýiu. til rettra vmmerkia vid adrar jardar. Sagde sumarlidi borg eiga reka stærra widar og huala. ad vndan teknum smareka. jordu og landgaugn-

1) Utan á vidimus með hendi frá 17. öld. 2) Svo stendr hér, en *ekki;* Grímr. 3) Svo.

um. fra þeim vǫrdum fornum. er standa nǫckud suo fyrir sunnan Saudæros. og avstur at borgar marki. Enn þar j mot ættj saudæ borgarey. Reiknadi hann halfkirkiu skylld og þingstad a jordunni. Skilldi sumarlidi af sier alla kirkiu fýrnd. og af hennar ornamentis. Hier j moti gaf benedict optt nefndum sumarlida. jarder Gilsæ og Anastadi. þuilikar sem þęr uoru þa. at husum og audrum hlutum. til vm̄merckia þeirra sem adrar jarder ætti þar j mot. og med þuilikum jtolum. sem þær ętti j adrar jarder. edur adrar j þęr. þar med halfan þridia tug kugillda. þridiungarfe. lukast .x. a fyrra áre. Enn fimtan a siÿdara. Skyllde huorer hallda laugsuorum fyrir sinu kaupi Enn abyrgiast allar laga riftingar huorer vid annañ a sogdum jordum. Og til sanninda hier wm̄. settum vęr fyrr nefnder menn vor jncigli fyrir þetta bref. er giortt var ad sydrum aukrum j blonduhlyd Níunda dag jola. anno dominj M⁰. ccc⁰. lxxxx⁰ iij⁰.

Þat medkennist ec Sira þorgils sygurdzson og Magnus jonsson at vit hofum sied og yfer lesit soddan bref med lesanligu jncigle og annat kopium vt af þessu brefi med einu lesanligu jncigle so latande ord epter ord sem hier fyrir ofan stendur skrifad. Og til sanninda hier vm̄ setium vit ockur jncigle fyrir þetta transkriftarbref Skrifad a aukrum j blonduhlíjd faustudagin næstan fyrir gudmundardag vm̄ veturin arum epter Gudz burd. M. d. l. og vii.

---

**14.** **19. Febrúar 1392.** **Í Rómaborg.**

Bonifacius páfi hinn IX. skipar Vilhjálm (Vilchin) Heinreksson biskup í Skálholti eptir Michael biskup, sem lagt hafði það embætti af frjálsum vilja frá sér.

Dipl. Norv. XVII, Nr. 935 (eptir Bullarium Prædicatorum — Romæ 1730 Fol. — II, 325 f.). — Biskupsdómr Vilchins biskups í Skálholti hefir hingað til venjulega verið talinn frá 1394. Þetta bréf kennir manni það, að óhætt er að telja hann frá 1392. Sbr. og Lögmannsannál, er segir Vilchin vígðan til biskups í Róm 1391. Bréf þetta fræðir og um föðurnafn Vilchins biskups, sem áðr var ókunnugt. Frumrit þessa bréfs er nú glatað.

Bonifatius Episcopus, Servus Servorum dei, dilecto filio Willelmo Henrici electo Schalholtensi, Salutem, et Apostolicam Benedictionem.

Apostolatus officium quamquam insufficientibus meritis, nobis ex Alto commissum, quo Ecclesiarum omnium regimini presidemus, utiliter exequi, coadjuvante Domino cupientes, soliciti corde reddimur, et solertes, ut cum de ipsarum regiminibus agitur committendis, talis eis in Pastores preficere studeamus, qui commissum sibi gregem Dominicum sciant non solum doctrina verbi, sed exemplo boni operis informare, commissasque sibi Ecclesias in statu pacifico et tranquillo velint et valeant, duce domino, salubriter regere et feliciter gubernare. Dudum siquidem prouisiones omnium Ecclesiarum Cathedralium tunc apud Sedem Apostolicam vacantium et in antea vacaturarum, ordinationi et dispositioni nostre reservantes, decrevimus extunc irritum et inane, si secus super his a quoquam quavis auctoritate scienter vel ignoranter contigerit attentari. Postmodum vero Ecclesia Schalholtensi ex eo apud dictam Sedem vacante, quod venerabilis Frater noster Michael Episcopus tunc Schalholtensis regimini et omni administrationi ejusdem Ecclesie cui tunc preerat, per dilectum filium Hugolinum de Camerino Ordinis Fratrum Predicatorum Professorem, Procuratorem istius Michaelis Episcopi ad hoc ab eo specialiter constitutum, in manibus venerabilis fratris nostri Francisci Episcopi Prenestinensis Sancte Romane Ecclesie Vicecancellarii apud sedem predictam libere et sponte cessit, dictusque Episcopus cessionem huiusmodi de speciali mandato nostro, super hoc vive vocis oraculo sibi facto, apud Sedem admisit eandem; nos ad provisionem ipsius Ecclesie celerem et felicem de qua nullus preter nos hac vice se intromittere potuit, neque potest, reservatione et decreto obsistentibus supradictis, ne ipsa Ecclesia longe vacationis exponeretur incommodis, paternis et solicitis studiis intendentes, post deliberationem quam de preficiendo eidem Ecclesie personam utilem et etiam fructuosam cum fratribus nostris habuimus diligentem, demum ad te dicti Ordinis Professorem in Presby-

teratus Ordine constitutum, cui de Religionis zelo, literarum scientia, vite munditia, honestate morum, spiritiualium providentia, et temporalium circumspectione, ac aliis multiplicium virtutum donis, apud nos fide digna testimonia perhibent, direximus oculos nostre mentis; quibus omnibus attenta meditatione pensatis, de persona tua Nobis et eisdem fratribus ob dictorum tuorum exigenciam meritorum accepta, eidem Ecclesie, de ipsorum fratrum nostrorum consilio, auctoritate apostolica providemus, reque illi preficimus in Episcopum et Pastorem, curam, et administrationem ipsius Ecclesie tibi in spiritualibus et temporalibus plenarie committendo; in illo qui dat gratias et largitur premia confidentes quod dicta Ecclesia sub tuo felici regimine, gratia tibi assistente divina, prospere dirigetur et gratia in eisdem temporalibus et spiritualibus suscipiat incrementa. Quocirca discretioni tue per apostolica scripta mandamus, quatenus impositum tibi a domino onus regiminis dicte Ecclesie suscipiens reverenter, sic te in ejus cura salubriter exercenda diligentem exhibeas, et etiam studiosum, quod Ecclesia ipsa gubernatori provido, et fructuoso administratori gaudeat se commissam; tuque proinde preter eterne retributionis premium nostram et dicte Sedis benedictionem et gratiam uberius consequi merearis. Datum Rome apud Sanctum Petrum XI Kal. Martii, Pontificatus nostri Anno Tertio.

---

15. 1397.
1618.

Rekaskrá Helgafellsklaustrs fyrir rekum á Ströndum, eins og Ari sýslumaðr Magnússon lýsti henni 1618.

Eptir staðfestri afskript í Landsskjalasafni frá c. 1670—1680. Skrá þessi fylgir svo sem að kalla Vilchinsbók, DI, IV, bls. 168—169. Sbr. DI, III, 70, 526.

Copia Helgafells mäldaga skrifud af Ara Magnussine
Anno 1618.

Eg Are Magnusson. kongs vm̄bodsmadur yfer Strandasýslu og ýfer kongsins jordum og reka jtokum. yferlyse þessum kongsins rekum j Strandasýslu. huorier ad fýlgt hafa adur Helgafellsklaustre. Enn kongsvalldid hefur nu under sitt valld tekid.

J Bǻsum a Strondum halfañ reka allañ millum Hruteýarkleifar. ok Merkehamars.

A Munadarnesi fiordung j ollum reka. og fiordungur j ollum agoda. ad afteknu þueste og beinum. med halfum fiordunge og ad auk kiortrie j Þrætuteig.

J Hlidarlande attungur i hual.

A Melum sextande hlutur j hual.

Mille Skards og Hnararnes allañ vidreka.

Enn mille Skards og Aross halfañ hualreka og ad auk þridiung ur helminge. er Þordur Narfason gaf.

Attung hualreka og vidreka ollum og med ǻgoda oskerdañ fra Rauf til Hnararness er Jon huammur gǻf. skilur rekamark sǻ ijnste forvade er geingur j sio ut.

A Reikianesi fiordungur j vidreka og hualreka oskerdañ og ad auk attungur ur þeim attunge er Gudmundur hefur att.

J Akurvijk millum Spors og Varmalæk(i)ar helming j hualreka og vidreka halfañ.

J Rifskerium fiordung i ollum reka.

Ad Giogre attung j hualreka.

A Kiosvogi fiordung i ollum reka.

Ad Kambi hin xvi hlutur ur hual.

J Veideleisu og Rekavik allañ reka oskerdañ med agőda.

Tolftungur i hualreka j Birgisvijk og siottung j vidreka.

Attungur j Kallbak og Saurareka. allt mille Kolbeinsaros.

Ad Kleifum fiordung j ollum hualreka agodalausañ er Hromundur Jngemundarson gaf.

J Kleifarvjkum allañ hualreka og allañ vidreka.

J Eýne ytra halfur hualreke og suo j Kasarholm med Arfaskier.

Attungur j hualreka a Asparvijk.

Attungur j hualreka a Biarnanesi.

J Bæ ȷ Steingrimsfijrdi halfur hualreke og þridiungur ȷ vidreka.

A Drangsnesi fiordungur ȷ ollum reka.

J Akranesi allur vidreke og hualreke.

Laxveidur ȷ allre Straumfiardarā.

Klaustrid ā allan̄ reka millum Hraunshellers og þar til ad saman kiemur Diupskier og Landskier vida og huala og alls þess er ā land kiemur.

Are Magnusson meh.[1])

Ad þessar framan̄ skrifadar Copiur sieu riett coperadar Epter þeim eg hefi hier. vottar mitt nafn og Eigin̄ hond.

Halldor Magnusson.

---

**16. 12. Marts 1405. á Holtastöðum.**

Jarðakaupabréf þeirra Jóns Ófeigssonar og Bjarnar Einarssonar (Jórsalafara) um hálft Skarð (Geitaskarð) og fleiri jarðir í Langadal, en Björn leggr á móti eitt hundrað hundraða og þrjátigi hundraða betr á þá leið, er bréfið hermir.

Eptir afskript Ísleifs sýslumanns Einarssonar 1793 meðal Geitaskarðsbréfa, sem komu til Landsskjalasafnsins 9. Febr. 1906 frá Árna óðalsbónda Þorkelssyni á Geitaskarði. Er afskriptin gerð eptir frumriti „á kálfskinne. 2 Jnnsiglen ósköddud“.

In nomine Domini. amen. war þetta kaup þeirra Biarnar Æinarssonar af æinni halfuu og Jons Vfæigssonar af annari. at Jon sælde sǫgdum Birni[2]) Æinarssyni þessar ȷarder. er so heita: hálft Skard i Lángadal. Bolungarness. Synzta Gil. Eingilid. Midgil. Yztagil. Biornolfsstade. Kniuka. Illugastade. Vuagil. med ollum þeim gǫgnum og giædum og itokum sem hann vard fremst eigande ath. Her i mót gaf Biǫrn Æinarsson fyr sogdum Joni niutigi hundrada i þessum peningum: þriatigi hundrada ȷǫrd og xxx kugilda. xx hundrat i gripum og x hundrat i skreid og vadmálum. i

1) Hér á eptir kemr „Copia Þingeira klausturs Maldaga“ frá því um 1500, DI, VII, Nr. 478. 2) Biarna (!),handr.

greind Solveig hafdi ădur Erfft Effter systur sijna Steinunne[1]) Biornsdottur. huoriar firrgreindar jarder þeim voru til dæmdar j prestasteffnu. aff iij heijdarligum kennemonnum og iij ærligum leikmonnum. med vorz naduga[2]) og verduga[3]) [H(erra) fødurz[4]) Biskup Stephans samþycke. og þar til adrar jarder og lausagőtz. sem[5]) voru vjc e.[6]) þeirra vmbodzmanni til frialsra forrăda. Enn þeim brædrum Jone og Þorleiffe. sem firr greiner. til æfiñligrar Eignar. Effter þui sem greind Solveig haffdi giorning vm̄ giort. og hennar TestamentisBreff[7]) til hlẏdde. Þă kom og so afftur ad Øgur og Brædratunga fiell vnder Pål. Effter son hanz Jőn.[8]) þă Erffdu þeir brædur Gudne og Ormur Brődur sinn Păl. þă Biorn Gudnason og hanz systur fødur sinn Gudna. og nu er Øgur komed vnder greindan Biorn. ad rettum lagaskiffttum vid hanz systur. sønnum gudz vilia og sancte Olaffz løgum riettum.

J annare grein Huammur j Huammsueit Er so vnder Biorn kominn ad[9]) hann[10]) atte fyrst. so vier vitum. Hustru Christijn Biornzdotter. þă keiffte hann ad henne Asgeir Arnason og gaff fyrer halffa Audkulu j Suijnadal. þă Erffde Jőn hann Effter Asgeir fødur sinn. þă Gudne Effter Jőn fødur sinn. þă Biorn Gudnason Effter fødur sinn.

J þridiu grein Kirkiubol j Valþioffzdal er so til komed ad þad atte first so vær høfum Breff til sied Are Gudmundsson. og gaff þad hălfft dőttur sinne Oddfrijde til kaupz vid Halldor Jonsson Bőnda hennar. Enn halfft sellde hann[11]) honum med samþycke sonar sijns Gudmundar Arasonar. og tok vid xxj c j Alffadal og jørdina[12]) Vijffelzmẏrar xviij c. xj kugillde og iiij hesta. þă kom so ad greindur Halldor gaff greindre Oddfrijde kuinnu sinne halfft Kirkiuből firir xij c j Þorfinnstødum. og xij c j Graffargili og Tungu er fader hennar hafde henne ădur heiman geffed. med hălffu Kirkiubőle. og atte greind Oddfrijdur þă allt Kirkiuből. þar Effter

1) *b, c*; Solveigu *a*. 2) nadugasta *b, c*. 3) verdugasta *c*. 4) [sl. *b, c*. 5) so, *b*; so at *c*. 6) xijcc DI, VIII, 280. 7) Testamentum Bref *b, c*. 8) sl *b, c*. 9) sl. *b, c*. 10) b. v. *b, c*. 11) *b, c*; hun (!) *a*. 12) sl. *b, c*.

gaff greind Oddfrijdur þad syne sijnum Halldore Hakonarsyne. med vpplægie og samþycke dætra sinna. Jngibiargar Halldorzdottur og Bergliotar Halldorzdottur og so þeirra Bænda[1]) Þordar og Þorsteins med þeim skilmála. ad greindur Halldor sonur hennar skyllde Eignast. xij[c] j Kirkiubőle j hennar løggiaffer. þá Erffde Vigdijs[2]) þad Effter fødur sinn Halldor[3]). þá Christijn Gudnadotter Effter dotturdottur sijna Vigdijse. þá Ormur og Gudne Effter mődur sijna Christijnu. þá keiffte þad halfft Gudne ad Brodur sijnum Orme. og gaff vid Bæ a Sniofiallastrønd. erffde þad og nu Biorn efftter fødur sinn Gudna.

J fiordu grein Sijdumuli j Borgarfirde er so vnder kominn ad hann atte Helge Biarnarson og sellde hann sira Sigurdi Jonssyni. [Enn sira Sigurdur gaff honum ij[4]) jarder. er so heita Þorgautzstadir og Háffafell. huoriar Er liggia j Sijdumula kirkiusőkn. og þar til xxxij[c] med so felldum frijdleika. xx málnytu kugillde. vj[c] j gangande fie. og vj[c] j ødrum þarfligum[5]) peningum. [so vird[6]) 48 alner j huort hundrad[7]) hier til skyllde sira Sigurdur suara kirkiunne j Sijdumula j sijna jnnstædu mortalia[8]) xxiiij[c] og iij[c] j portio gamallt ádur Enn Helge tok vid. og þeirre[9]) portio sem falled haffdi[10]) vppá þű xvj vetur. sem ádur neffndur Helge atte Sijdumula. og Reijknadest þad x[c] [j aullum peningum[11]). hier til gaff offtgreindur[12]) Sira Sigurdur Þorbiorgu kuinnu offtgreindz[13]) Helga x[c] j aullum peningum fyrer sitt vpplag offtgreindrar jardar Sijdumula. þá Erffdu þeir brædur Ormur og Gudne Sijdumulann[14]) Effter sira Sigurd brodur sinn. og nu Biorn halffañ effter Gudna fødur sinn.

J[fimtu grein[15]) Drafflastader j Hniőskadal[16]) komu so vnder Gudna. þá Erffde first Thumás Effter Magnus Magnusson fødur sinn. þá Christijn Gudnadotter Effter Thumas dőttursonsinn. þá Gudne Jonsson Effter mődur sijna Christijnu. þar[17])

1) brædra *b*, *c*. 2) Halldorsdotter b. v. *b*, *c*. 3) sl. *b*, *c* 4) [gaf hann sjera Sigurdi þær (!) *b*, *c* 5) [gangande (!) *b*, *c*. 6) vid (!) *b*. 7) [sl. *c* 8) inntelia (!) *b*; inntekt *c*. 9) sw *b*, *c*. 10) hefur *b*, *c*. 11) [sl. *b*, *c* 12) -nefndur *b*, *c*. 13) -nefnds *b*, *c*. 14) Sijdumula *b*, *c*. 15) [fimta mata *b*, *c*. 16) Fnioskadal *c*. 17) þa *b*.

Effter sijdañ gaff hann þǎ kuinnu sinne. Þőru Biornzdottur. og nu heÿra þeir henne til.

høfum vær[grein og[1]) skÿring a giort huorsu þaug odul og høffudből hafa falled og til komid. sem Biorn hefur[2]) effter sinn fødur Erffdt og skal løgum firir suara sinna vegna og modur sinnar Þoru Biornzdottur og þő hier sie ecke so sierhuor smǎ jørd jnnsett med sijnu naffne. sem vnder huoria liggur. þǎ Er þad vnder Einn skilning og hinar stærre. þui vær vitum Biorn þær Einar jarder haffa Effter sinn fødur tecid. ad Breff og skilrijke [fyrer liggia[3]).

J vj grein vilium vær og aller firrskriffader menn vitañligt giøra[4]) gődum monnum. huad vær vitum huørsu Biorn Gudnason er ad kominn ødrum þeim gőtzum. sem hann helldur, sem er Nupur i Dÿrafirde. og þær jarder adrar Er þar til liggia. J firstu atte Gudmundur Bonde Arason Nup. Nu Effter sijdañ var henn dæmdur Jőne Bőnda Biornssyne vegna kuinnu hanz hustru Christijnar Sumarlidadottur j sekter og sakferle. med aløgum og peningum Oluffar Aradottur mődur ǎdurgreindrar Christijnar. huor ed voru vcc. Er greindur Gudmundur ʀanglega greip og hiellt langa tijma. so greind Oluff fieck þa alldri afftur. sem gődra manna Breff til hlÿda. Enn Effter Jőn Biornsson frǎ fallenn þǎ settest Biorn Gudnason j peninga og ønduge. og lÿste sig løgarffa effter offtgreindañ Jőn Biornsson til allra þeirra peninga Er hann haffde att. So og lagde Biorn løg og dőm fyrer allañ firrskriffadañ arff og peninga. Effter þrattskriffadan Jon Biornsson sem Breff þar vm giorst vtuijsar. Effter þad geingu þaug til helmingaskifftes a aullum peningum greind Chrijstijn Sumarlidadotter og Biorn Gudnason Effter þui sem þaug høffdu ǎdur sitt helmingafielag til lagt. Jon B(onde) Biornsson og hustru Christijn S(umarlida)d(otter). Reijknudust og skrifudust þa so peningar j sundur ad J annañ helminginn voru þær jarder lagdar sem lau vt fyrer Sliettanese. og krijngum Arnarfiord. iij jarder j Arnarfiardardølum. og Ein nordur a Strøndum. J annañ helm-

1) [sl. *b*, *c*. 2) b. v. *b*, *c*; sl. *a*. 3) [liggia fyrir *c* (og hættir hér). 4) Hér dettr líka botninn úr *b*

inginn tøldust þær ȷarder. sem lắu j Dyrafirde a Jngialldzsande. j Onundarfirde og Arnarfiardardølum̄. Baud þắ tijttgreindur Biorn Gudnason hustru Christijnu kiősa. huorn helminginn sem hun villde helldur hafa. Enn hun kiøre ȷ krijngum Arnarfiørd og Sliettanes. Enn Biorn skyllde haffa Enn nirdra. Vitum vær og aunguan[1]) fir haffa ȷnn settst. og løg og dőm haffa fyrer lagt. arff og peninga effter tȷjttskriffadan Jőn Biornsson Enn Biorn Gudnason. so og vitum vær aunguan nær standa hanz arffe. ad vorre skinseme. Effter riettum Gudz løgum og landsins. helldur Enn greindan̄ Biorn Gudnason. sisturson skilgetinn. aff samfedra og skilfeinginne mődur kominn huor ad heiman var· geffin̄ vr fødurgarde. sijnum Erligum Bőnda Gudna Jonssyne. keifft og fest Effter løgligar lẏsingar. ad rắde og samþycke hennar fødur og Gifftingarmannz. Biarnar Bőnda Þorleiffssonar. hallded sijdan̄ med sinn Bonda Erliga og dygdarliga tru. sem dắndikuinnu heyrer og Ber. so alldri heffur følske edur tuijmæle ắ komid.

Jtem medkennunst vær ad vær høffum sied og yfferlesid opid Breff H(erra) Stephắnz med gudz nad Biskupz ȷ Skắlhollte med hanz heilu őskøddudu hắnganda ȷnnsigle. huort ed so hlẏder ad hann heffur vnt Bȷjrne Gudnasyne til fullrar Eignar allt þad tilkall og taksetning. er hann haffde og hafft haffde ắdur til greindz gardz Nupz vppắ H(eilagrar) kirkiu vegna. med þeim skilmắla. og (er) ȷ allan̄ mắta. hanz Breff so hlẏdanda ord fyrer ord. sem þesse skrắ ȷnne helldur Er hier er med fest. og þui kunnum vier Ecke annad ad siắ og Betur ad vita fyrer allar þessar greiner Enn greindur Biorn sie vel ad þessum garde kominn[2]).

---

## 50. 27. Oktober 1511. í Nýja-Kaupangi.

Albrecht van Goch og tveir menn aðrir fá leyfi af Hans konungi til að flytja út úr ríkinu og til Hamborgar kjöt,

1) *leiðrétt;* aungum, hdr. 2) Skrá þessi endar svo ofarlega á blaði, ódagsett og ártalslaus.

smjör, ál og annan varnað, en lofa því, þegar þessi varningr sé kominn til Hamborgar, að láta hann fara í þau skip, sem ganga eigi til Íslands og Sancti Jacobs lands, svo að þær verði eigi til nytja óvinum ríkisins.

Danske Magazin IV, II, 292 (eptir gamalli bréfabók úr tið Kristjáns konungs fyrsta og Hans konungs). — Kjöbenhavns Diplomatarium IV, 323.

Albreth van Goch. Ariild Hake och Hans Holm finge breff. swa thee mwe nw lade vdføre her aff riiget oc indt till Hamborg kiødt. smør. aall oc andre ware. oc haffwe the loffuit myn herre. at nær same ware komne till Hamborg. thaa skulle thee indkomme paa thee skiib. som løbe till Ysslandt oc sancti Jacops landt oc ther met bortføres. swa thee ey komme myn herres og riigens fiender till gode.

Datum in castro Nykøpinge vigilia sanctorum Simonis et Jude apostolorum anno et cetera mdxj.

---

## 51. 9. Marts 1513. í Óðinsvé.

Bréf Kristjáns konungs II. til Esge Bilde, embættismanns á Kaupmannahafnarhöll, um að gera við skipið *Hamburgermand* og útvega skipstjóra á það, en það á að fara til Íslands.

Dipl. Norv. XVIII, Nr. 223 (eptir frumriti á pappír í Ríkisskjalasafni Dana).

Oss elskelige Esgj Billæ Embesmand paa Købinghaffn[1])

Christiernn met gvdz nade wtwoldt konnge tiill Danmarck oc Suerige rett arffuinge et cetera.

Wor gunst tillforne Bethæ wii teg att tw skicker en skyper tiill wortt skyb Hambwrgermandh oc lad fægæ paa thet hwadt som ther fattis swo thet er aldielis redæ nar wii tiidt kommyndis worder Thet skall wortt æryndt indtill Yssælandt som oss elske Hanss Randzow wor Hoffzinger teg

1) Utanáskript bréfsins.

wnderwissæ kan Ther forlader wii oss wesseligen till befalindis teg gud Scriiffuett wdj Otenss Otensdagen effter dominicam letare Ar etc. mdxiij wnder wortt signet.

---

**52. [25. Apríl 1513. í Kaupmannahöfn].**

Kristján konungr II. staðfestir bréf Hans konungs (frá 21. Janúar 1505, þar sem Vigfúsi Erlendssyni er veitt Skóga og Merkrlén).

AM. 191. 4to bls. 16 (bréfabók Jóns Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur í frumriti á skinni). — 21. Janúar 1505 (DI, VII, Nr. 685) veitir Hans Konungr Vigfúsi Erlendssyni Skóga og Merkrlén upp á lífstið, og hefir það líklega verið látið duga meðan Hans konungr lifði, en hann lézt 20. Febr. 1513. En 25. April s. á. (1513) fær Vigfús bréf af Kristjáni konungi II. fyrir lögmannsdæmi syðra og eystra, og er þá líklegt, að hann hafi um leið feingið staðfesting uppá Skóga og Merkrlén. Sbr. VIII, 343.

Víj kristiern med gudz nad riett erfingi til noregis rikes utt uald konung til danmark og suiarikis hertugi utt j slesuik holsten stormaren og dittmaskin greifi j oldenborg og delminhorst giore alle uiturligt ad uíj af uorre sonderlige gunst og nad haffe stadfest og fullburdugt og med þetta uortt opit bref stadfester og fullburdi þetta uors kæri herra favdvrs bref sem þetta uortt bref er uid heingt uid fulla magt ad blifa utt j alle sini ord puncta og articule epter þui sem þad ine helldur og . . . . . [1])

---

**53. 20. Apríl 1514. í Víðidalstungu.**

Vitnisburðr tveggja manna um fjárpintingar Gottskalks biskups á Hólum við Jón Sigmundsson og Björgu Þorvaldsdóttur, um lögmæti hjónabands þeirra og um ofríkisverk Einars Oddssonar við Jón Sigmundsson.

1) Niðrlag vantar.

AM. Apogr. 3969 með hendi Páls Hákonarsonar eptir transskripti á skinni frá 11. Aug. 1592. — Syrpa Guðbrands biskups (= *b*). — AM. Apogr. 3882 með hendi Árna Magnússonar eptir transskripti frá 21. Febr. 1590

[A mote viliugum vtlatum Jons og biargar a hole og bessastodum.[1])

Þad giorum vid Jon Bardarson og Þorkiell Olafsson godum monnum viturligt med þessu ockru opnu brefi ad vid[2]) vitum fyrer full sannindi ad Jon Sigmundsson og hans eigin hustru Biorg Þorualldzdotter hafa latid ute vid Biskup Gottskalk ij. hundrud hundrada j jordum og lausafie. Lystu fyrrnefnd hion Jon og Biorg ad þessa peninga lietu þau ute naudig og hier [a ofañ[3]) vard Jon ad sveria bokareid ad giallda ut alla þessa peninga ǻ næsta ǻre epter. og vera þar med Biskupe Goskalk hollur og trur utañ landz og innann[4]). vitum vid og ad Jon hefur mist miklu flejre garda og lausafie fyrer Biskupi Gottskalk og hañs [med[5])fylgiorum prestum og leikmonnum. sem er jordin Nupur. Kviar. Herridarstader[6]). Bessastader. Holl. Þverǻ. [Suo og vitum vid fyrer full sannindi. ad greindur Jon Sijgmundsson hefur sina kvinnu Biorgu Þorualldzdottur feingid med heilagrar kirkiu laugmǻli riettu. Suo ei sidur vitum vid fyrer full sannindi. ad Einar Oddsson og hans menn toku Jon Sigmundsson til fanga. fyrer aungvar saker. særdu hann. slogu og lemstrudu. hier til helldur Einar Oddsson og hefur[7]) halldid med fullu ofrike og ofurmackt tittnefndan Jon Sijgmundsson ut af sina garda. sem finnbogi Jonsson laugmann nordann og vestann a Jslandi hefur honum med laugriettumanna domi til sagt[8]). Og til sanninda hier um setium vid fyrrnefnder menn ockar jnsigli fyrer þetta vitnisburdarbref er giort (var) j Tungu j Vijdudal fimtudaginn j paskaviku um vorid. Arum epter gudz burd ꝍ. D og fiortan ǻr.

---

1) [*b* 2) sl. 3969. 3) [ofan á 3882. 4) [sl. *b*. 5) [sl. *b*. 6) AM. vill breyta því í Heruidarstader. 7) sl. 3969. 8) [sl. *b*.

***54. 22. Maí 1515. á Staðarhóli.**

DÓMR útnefndr af Birni bónda Þorleifssyni og Ögmundi Tyrfingssyni — og samþyktr af Ólafi bónda Guðmundssyni kongs umboðsmanni milli Gilsfjarðar og Gljúfrár — um ákæru nefnds Björns til greinds Ögmundar út af arf eptir Pétr Jónsson bróður Sigriðar konu Ögmundar, en Björn reiknaði Páli Jónssyni mági (teingdaföður) sínum arfinn eptir Pétr Jónsson bróðurson sinn.

AM. Apogr. 5898 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali". „Brefed er ä kalfskinn. med sex ȷnnsiglum og sjöunda lausum þveing". — Bréf þetta er áðr prentað í DI, VIII, Nr. 315 með ártali 1512, því að eptir afskript bréfsins má bæði lesa ártalið 1512 og 1515; enaf öðrum bréfum, sem fram eru komin, er að ráða að ártalið eigi að lesast 1515, en ekki 1512. Í sumum bréfabókum er og ártal þessa dóms réttilega sett 1515, svo sem í ÍBfél. Khd. 67. 4to bl. 70—71 og MSteph. 60. 4to bl. 26, hvorttveggja með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745). Ennfremr í ágripi einu svo látandi, sem tekið er upp í „Nockur andsuor a mote þeim sem ættleiddum monnum vilia fra Erfdum hrinda. M(agnusar) B(iorns) S(onar": „Ættleidsludomur 1515.

Jtem 15015 (!) dæmdist Sygridi Jonzdottur ættleiddri kuinnu Augmundar Tirfingssonar allur arfur epter Pietur Jonsson Brodur sinn. Enn Pal Jonsson skilgetinn fodur Brodur fra þeim arfe". (Landsbókasafn 63. 4to bl. 87b, skr. c. 1640). Hins vegar stendr ártalið 1525 ranglega í gamalli skjalabók frá c. 1600 í AM. 234. 4to.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia ædur heyra senda stulli þordarson. sigurdr narfason. gudmundr finzson. þorolfr augmundson. asmundr klemensson og eyuindr gudmundson kuediu guds og sina kunnigt giörandi ath æ föstódaginn næsta fyrer gangdagauiku um uorit[1]) þa lidit uar fra hingat burdi uors herra ihesu christi ɱ. d. og. xu. ar i huamme i huamsueit uorum uær i dom nefnder af ærligum monnum birne bonda þolleifssyni og augmundi týrfingsyni ath skoda og ransaka og fullnadardom æ ath leggia huorth su akæra skylldi nockra makt hafa æda öngua er biorn bondi þolleifson kærdi þar til augmundar tyrfingsonar. ath hann hefdi eignath sigridi ȷonsdottr eiginkono sinne arf og audæfi. goz og peninga. laund og lausa aura epter petr heiten ȷonson brodr sigridar ȷonsdottur. ȷ sezt. lög og dom

1) þ. e. 11. Maí 1515.

fyrir lagt allan fýrsagdan arf. enn biorn bondi þolleifson kalladi pal jonson mag sinn til þess arfs komenn uera epter petr heiten jonson brodrson sinn. toku þessir fýrrnefnder menn. biorn þolleifson og augmundr týrfingson hǫndom saman oss fýrrgreindum domsmonnum hia uerondum med þeim skilmala at þeir skýlldu hafa þat og hallda og alldre upp ꜵ tala huor um sig sem þesser fýrr nefnder domsmenn dæmdu þeirra j millum um þetta mal. Jtem i fýstu grein dæmdum uær underlagit laugligt i allañ mata og greindan biorn bonda þolleifson lǫglegan suarsmann og soknar fýrr nefnz pꜳls jonssonar mags sins epter þui sem þat umbodsbref utuisar sem ødrgreindr biorn bondi þolleifson las þar fyrir oss. Jtem kom þar fram uitnisburdarbref helga gislasonar med hans heilu og oskǫddu hanganda jnsigle at hann uar þar nær staddr at sera jon heiten jonsson afrleiddi sigridi jonsdottr. dottr sina. epter þui sem bok gerir rad fyrir pali jonssyni hia uerandi og ollum arfi undan sier jatandi. Jtem kom þar fram uitnisburdarbref jons gudmundszonar huert er suo inne hiellt at hann uar þar hia at sera jon jonson arfleiddi sigridi jonsdottr dottur sina epter lǫgum. J þridiu grein kom fram suo latandi uitnisburdr sýgnýiar jonsdottr ath hun hefdi hia uerit fýrrsagdre arfleidingu. Suo og eigi sidr kom þar fram opit bref pals jonssonar med heilu og oskǫddo hangandi hans jnsigle ath hann medkenn(i)zt ath hann hafi ollum arfi undan sier iatath þeim sem hann stod til epter sera jon jonson brodr sinn med þeim skilmala. ath sigridr jonsdotter dotter sira jons skýlldi til þess arfs leidazt. enn eingi hans bǫrn onnr. suo medkennizt og optnefndr pall jonson i þessu sinu brefi at þrattskrifadr sira jon jonson hefdi arfleitt sigridi dottur sina epter lǫgum. Suo og medkenezt optnefndr biorn þolleifson med sinu brefi og jnsigle ath (hann) uar hia at greindr pall jonson gaf ut allan fýrskrifadan uitnisburd ord epter ord. enn titthnefndr biorn bondi þolleifsson uændizt þui at pall jonson magr sinn geingi ecki uid fýrskrifudum gerningi. nu saker þess at greindr biorn bondi þolleifson uændizt ǫngum þeim uitnum at oss virtizt hrinda mega brefum greindz aug-

mundar. þui dæmdum uær fyrr nefnder domsmenn med fullu doms atkuædi þrattnefnda sigridi jonsdottur lóglega arfleidda og rettañ erfingia peturs heitens jonssonar brodr sins. suo framt sem helgi og jon oc sygny sueria fullan bokareid epter sinum framburdi oc aunnr tvô uitni þessum jafnhᾱ j sinum framburdi. en greindan augmund týrfingson lauglegan halldzmann allra peninga sagdrar sigridar kuinnu sinnar. Skulu uitnin suarit hafa hith sidazta ath michaelsmesso i haust at kemr. og augmund skýlldugañ ath gera birne bonda bod suo longo fyrir eidatokuna at hann meigi til koma ef hann uill. enn ef tittnefndum augmundi fallazt uitnin. þæ dæmdum uær hann loglega mega i sitia. hafa og hallda þenna arf þar til hann er med lóglegum domi af honum sottr. samþýckti þenna uorn dom olafr bondi gudmundzson sem þᾱ hafdi kongs umbod milli gilsfiardar og gliufrar og setti sitt insigle med fyrnefndra domsmanna jnsiglum fyrir þetta domsbref skrifat æ stadarholi i saurbæ. þridiudaginn fyrir huitasunnu a sama are sem fýrr seiger.

---

**55. 3. Apríl 1520. í Rómaborg.**

Leo páfi hinn tíundi býðr biskupum í Osló, Hamri, Skálholti, á Hólum og í Færeyjum, að sjá svo um, að það fé, sem lagt sé úr þeirra biskupsdæmum til byggingar Pétrskirkjunnar í Rómaborg, verði sent til erkibiskupsins í Niðarósi, er koma muni því til Johannes Angelus Arcimbolds sendimanns páfans í þýðversku landi.

Dipl. Norv. VI, Nr. 675 (eptir skjalasafni á pafagarði).

*a.* Leo papa x venerabili fratri Andree episcopo Ansloensi. Venerabilis frater salutem et apostolicam benedictionem. Ex literis dilecti filij Joannis Angeli Arcimboldi jndulgentiarum pro fabrica Sancti Petri de Vrbe nuntij et commissarij per nos deputati didicimus nonnullas pecuniarum et aliorum bonorum summas ad dictam fabricam occasione predictarum jndulgentiarum spectantes jn diocesi tua

existere nos igitur indemnitati dicte fabrice consulere volentes fraternitati tue in virtute sancte obedientie ac censuris et penis per alias nostras contra retinentes occupantes et impedientes bona huiusmodi jnflictis requirimus quatinus omni exceptione remota ac quocunque impedimento illato seu inferendo minime attento dictas pecunias et bona ad manus venerabilis fratris nostri archiepiscopi Nidrosiensis dirigas qui illa in Germaniam juxta commissionem nostram transmittet. Datum Rome die 3 Aprilis 1520 pontificatus nostri anno 8°.

*b.* Jn simili forma scribatur venerabili fratri Magno episcopo Hamarensi. Jtem episcopis Stephano Scalotensi et [Gotscalensi[1]) et Hilario Pherensi vt transmittant pecunias et bona ad manus prefati archiepiscopi uel ab eo deputandorum. Datum Rome 3 Aprilis 1520 anno octauo.

---

56. **17. Janúar 1522. Í Miklagarði.**

Tveir prestar og tveir leikmenn transskribera máldaga Miklagarðskirkju í Eyjafirði eptir máldagabók Ólafs biskups Rögnvaldssonar.

AM. Fasc. XLV, 12, frumrit á skinni. Af 4 innsiglum er 1 fyrir. — Afskript MSteph. 27. 4to bls. 517—518 með hendi Jóns sýslumanns Jakobssonar (d. 1808).

Þat gıjorvm vier ȷon prestur arason og hallur prestur asgrimsson. magnus arnason og magnus bıjornson godvm[2]) monnum kvnigt med þessv uoro opnv brefe at vær savm og yfer lasvm gamalt registrum heilagrar hola domkirkiv suo latande ord effter ord sem hier med skrifat stendvr.

Þetta fylger ȷordvne ȷ myklagarde þverardalr heim at lambæ badv meigen skogvr ȷ lvndz land ȷ hnioskadal rædvr gardstadvr fyrir ofan en kidzæ fyrir vtan skogur ȷ nvpvfelz lande skogvr ȷ biarkar lande rædvr gil fyrir vtan og svnnan. þessar ȷtolur sagde ornolfvr ȷ þverardal af modrvvoll-

1) [Ↄ: Gotscalco Olensi, en er strykað út og svo ritað: Roiscaldensi. 2) tvískrifað í frbr.

vm halfan þridia tog yxna manadar reckstvr æsavd fra þveræ ȷ oxnadal en þar fyrir skvlv þeir halda vppe garde fyrir nedan og selfor ȷ divpadal a holmsel fra hlidarhaga[1]) teigur ȷ oxnadal ofan fra lvrcasteine millvm tveggia gardstada er og sagdur vii folalda reckstvr ȷ vaskaravxl sagde rvste vtan ef ad myklagardur atte allar slægivr ȷ hrvthaga. þetta sama bar sira semingur af savrbæ at fader sinn magnus hefde lied ȷ bvrt slægivr vr hrvthaga þa hann bio ȷ myklagarde og hefde eingen at fvndet. Þessar ȷtavlvr sagde ornolfur þordarson at myklagardur ætte ȷ oxnafelzȷord tvo xiȷ fedminga med torfskurd arliga.[2])

Og til sanninda hier vm setivm vier fyrr skrifader menn vor ȷnsigle fyrir þetta bref er skrifat uar ȷ myklagarde ȷ eyafirde fostvdagen næstañ efter geisladag arum efter gvdz bvrd ɱ° d. xx og ii ær.

---

**57. 30. Janúar 1522. Í Krossadal.**

Testamentisbréf Eyjólfs bónda Gíslasonar.

AM. Apogr. 1127 „Ex orig. fra Haga ä Bardaströnd. accuratissime“. Arni skýrir frá um innsigli.

Jn nomine domini amen.

Saker þess at eingi daudligur madur ṁa sier nöckurn öruggleik setia um leingd sinna lifdaga med þui at daudinn sem öllum er uis. enn þo j annari grein ecki ouisara enn þat hue nær hann skal at hondum koma. kemur hann þa optsinnis er minzt uarer huar fyrir kristins mannz ahygia ætti iafnan yfer at uaka at hann uæri alldri uarbuinn uid nær sem gud krefur hann andarinnar. þui giore eg eyiolfr gislason heill at uiti og samuizku enn nockud krankur ȷ likama þessar siduztu skipaner fyrir mier og so fellt mitt testamentum sem hier seiger.

Jn primis at eg gef mic allan og mina synduga sal upp a nad og myskunn almattigs guds treystandi sa er mic leysti med sinu banablodi. undan ouinarins ualldi mun eigi sinne uægd fra mier snua j mine naudsyn. þar næst gef ec

1) Svo, og er rétt. 2) Sjá Dipl. Isl. bls 351.

mic under traust og uerdleika blezadrar guds modur marie og hins heilaga peturs postula og allra guds heilagra manna. og bæna fullting almenniligrar guds kristni. þar med kys ec minum molldliga likama legstad ȷ selardal. gefandi kirkiunne þar teinæring med tueimur streingium og ollum reidskap. Jtem prestinnm sira ione iuarssyni gef eg stack minn hinn sida fyrir sina þionustu. Jtem fatækum t(u)au hundrud. so og skipa eg og gef at fatækur madur fædiz ȷ haga um iolaföstu og fra niuuikna föstu til huitasunnu suo leingi sem min born og nidiar hallda gardinn. ellingi brodur minum hest minn hinn moalotta. Jtem a eg at luka herra augmundi fim kugilldi og leigurnar up a fim ar. halfa þridiu uod uadmals. uætt fiska og þreuetran saud. þar med fæ ec honum tuær skeider litlar. eitt nobil og tuð rins gulliṅe. Suo og medkennunzt eg at ec hefi golldit og sellt ȷ sinn mala helgu þorleifsdottur iördina haga. hefer hon þo ekki fullt fyrir þa peninga sem ec hefi logat fyrir henni. hier med gef ec henni at auk þess sem ec hefi adr gefit allt þat sem eg ma med lögum gefa. gef ec ion ionsson kuittan um allt þat er hann hefer uit mic brotligur ordit leyniliga og opinberliga og so alla mina undermenn. þar med gef ec haflida skulason kuittan um öll ockur skipti og so bid eg at hann gefi mic. r eg um bidiandi þacksamliga og astsamliga mina frændur erfingia og uine. at fyrir allra uora saluhialp lati þeir þetta mitt testamentum fullgioraz utan allt hindur og talman epter þui huert sem eg hefi rad fyrir gioıt. Bid ec audmiuklega huern mann mier at fyrirgefa þat er eg hefi uid þa brotid til orda eda werka. so hit sama uil eg giarna huerium manni fyrirgefa þeim sem uit mic hefer misgiort. og þess med allri audmykt bidiandi. at menn seu min syndugs eigi ominnuger ȷ sinum bænum.

uoru þesser giorningsuottar sira ion iuarsson og ellingur gislason.

Skal þetta mitt testamentum standa obrigduligt i öllum sinum greinum og articulis.

Og til saninda her um setta ec mitt insigle med adur nefndra manna insiglum fyrir þetta bref skrifad i krossadal

fimtudagin næsta fyrir purificacio sancte marie uirginis. þa er lidit uar fra hingatburd uors herra ihsu christi ꝺ. d. xx og ij ár.

---

58. **12. Febrúar 1522.** **á Ökrum.**

Vitnisburðr þriggja manna um viðskipti þeirra á Sveinsstöðum Gríms lögmanns Jónssonar og síra Jóns Arasonar og þeirra selskaps af einni álfu, en af annari álfu Teits Þorleifssonar og hans manna, þegar Árni Bessason var sleginn í hel.

AM. Apogr. 5602 „Ex originali" á kálfskinni með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna.

Suo felldan uitnesburd berum uær jon helgason. sugurdr jonsson og þorkell sugurdzson. ad uær uorum á þui sama þingi sem grimur jonsson laugmann nordan og uestan á jslandi sette i sueinstada landi. ed sagt uar. faustudagin næstañ epter palsmesso[1]) og setti þar grid og frid allra manna i mille epter þui sem ueniuligt er. og baud sig til ad giora huerium manni laug og riett. þui þau bod komu heiman af þingstadnum sueinstaudum fra teite þorleifssyne ad (hann) uilldi huorke þola doma ne stefnur. og þeir skylldi alldre mannslagalaust skilia ef þeir ridi heim. og þvi setti adurnefndur logmadur þar þing sem þa var hann kominn i adur greindum stad. suo sem eitt aurskot eda tuó i burt fra tungardenum á sueinstaudum. og nefndi þar dóm. en teitur þorleifsson med sinn selskap og fylgiara reid þa heiman frá sueinstaudum med attatigi manna eda fleire med tygiad folk og uppdregnum vopnum. og þangad sem fyrir stodu sira jon arason og grimur jonsson lögmann med sinn selskap i þeim sama stad sem hann hafdi adr þingid sett. baud grimur jonsson þa en uppa nytt lög og dom fyrir sig og alla þa er i hans selskap uoro og fyrirbaud hveri-

1) þ. e. 31. Janúar.

um manni ad uekia a sier eda þeim uig ne uandrædi. og hann væri þar kominn til laga en ecki til slaga. en teitur þorleifsson taladi þa suo felldum ordum. ad þar skylldi hvorke domar ne stefnur fram ganga og aunguar lagasokner adrar. og skipadi þeim selskap sem honum fýlgdi. bædi ad slá og stinga og hier med sotti hann allra mest sialfur ad giora hvortueggia sla og stinga. og epter þessa hans skipan hiuggu hans menn og stungu upp á fyr greindan selskap. og suo þeir menn fleire sem þeim veittu þar stýrk og lid til. suo ad i þessu þeirra adhlaupi slogu þeir ȷ hel árna heitin bessason en særdu. x. menn eda fleire og lemstrudu marga bædi med grioti og uopnum. suo og saum uær fýrnefnder menn og uissvm fyrir full sannendi ad þratt nefndur grimur ȷonsson laugmann skaut alldre á þui þingi fyrr en hann sialfur og hans menn voro bædi slegner og særder. og ecki hiellt sira ȷon arason þæ teite þorleifssyne er optnefndr grimur skaut af sinum boga og ecki skaut hann nema þat eitt skot a þui þingi. en þat uissum uær ecki huar þat kom a. suo oc sáum uær upp a og uissum sannliga. ad þeir menn sem i þann selskap uoro sem teite þorleifssyni fýlgdu. baru þar fýst ȷ a þeim fundi og slógu fýst med grioti en síjdan med vopnum. og hier epter uilium uær sueria nær sem þurfa þickier. Ok til sanenda hier um settum uær fýrnefnder menn uor ȷncigle fyrir þetta uitnesburdarbref er giort uar á aukrum ȷ blaunduhlíjd ȷ skagafirdi. midvikudagin næstan epter uedasti et amandi. arum epter gudz burd ꝏ. d. xx. og ij. ær.

---

59. **1. Marts 1522.** **á Hólum.**

Jón prestr Finnbogason officialis Hóladómkirkju stefnir Teiti Þorleifssyni og hans fylgjurum til Mælifells 28. Marts fyrir sira Nikulás Vilhjálmsson til afbatanar og lausnar fyrir högg og slög á Sveinsstöðum, en þrjózkist, þeir setr hann þeim þrjár áminningar og fylgir hverri fimt, og vilji þeir eigi

hlýðnast að þessum áminningum liðnum, þá setr hann þá í fullkomið forboð, þar til er þeir ganga til hlýðni.

Bisk. Hol. III, 7, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá Bréfið er ill-læst á stórum köflum, því að lýsi virðist einhvern tíma hafa helzt ofan yfir það (úr lampa).

Þat giore eg ȷon prestur finbogason officialis holadomkirkiu godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefue at fyrir mig kom heidarligur mann sira ȷon arason. kærdi og klagade fyrir mier at domkirkiunnar þionuztumann og sinn arne heiten bessason hefdi uerit ȷ hel slegin og sira nichulas uilhialmsson og sira olafur hialltason hefdi slegner uerit med griote og x eda fleire adrer domkirkiunnar þionuztumenn uoru særder þa þeir uoro ȷ domkirkiunnar erindum. voru uitne um boren fyrir mier af tueimur prestum og xij skynsaumum monnum at allar þessar fyrr greindar saker hefdi giört teitur þorleifsson og hans medfýlgiarar sem er skule gudmundzson. þormodur arason. gisle ȷonsson. þorgrimur gudmundzson. ȷon grimsson. ȷon halldorsson. semingur olafsson. arngrimur liotzson. haflidi iuarsson. asgrimur ionsson. eirekur oddason. petur oddason. ȷon sigmundzson. eẏolfur halldorsson og philpus gislason med fleirum audrum þeirra fylgiurum sem greindar saker giordu. Þui fyrir þessar saker bodar eg og stefner teite þorleifssẏne og audrum þessum adur greindum hans medfylgiorum til mælefellz ȷ skagafiord favstvdaginn næst epter annunciacio beate marie uirginis nu næst komande fyrir minn logligan vmbodzmann sira nichulas vilhialmsson at giora þar sina afbatan eda taka logliga lausn fyrir adur greindar saker. Enn ef þeir uilia þrioskazst og ei hallda þetta mitt bod þa giore eg þeim þriar logligar æminningar til leidriettu epter kirkiunnar logum og fimt ȷ hueria ǽminning. Vili þeir ei til hlydne ganga at vmlidnum þessum æminningvm. vm fyr sagdar saker þa set eg alla þessa fyrr skrifada menn ut af gudz þionuzto og aullvm kirkiunnar sacramentis og samneyte kristinna manna ȷ fullkomit forbod suo leingi og þar til þeir giora logliga afsakan eda yferbot adur greindra

saka. byd eg ydur sira þorleifur ionsson at lesa þetta bref fyrir adur greindum monnum suo hátt at þeir megi uel heyra ef þeir vilia. Og til sannenda hier vm set eg officialatus insigle fyrir þetta bref er skrifat uar á holum ı hialltadal laugardaginn næstan fyrir translacionem ıohannis episcopi. anno domini m° d° xx° secundo.

---

60. 5. Marts 1522. í Björgvin.

Finnbogi Einarsson og Pétr Pálsson prestar Hólabiskupsdæmis votta, að þeir hafi séð umboðsbréf Þrándheimskapíula, þar sem Ögmundi biskupi í Skálholti er falið alt umboð yfir Hólabiskupsdæmi, og samþykkja þeir það, og lofa Ögmundi biskupi hlýðni.

MSteph. 27. 4to bls. 11—12 með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720. — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar".

Um umbod Holakirkiu Anno M°. D°. xxij°.

Þad georum uier finnboge Einarsson og Petur Pálsson prestar Holabiskupsdæmis godum monnum kunnugt med þessu ockru opnu brefe ad uier hofum sed og yferlesed oped umbodzbref med heilu og oskoddudu innsigle sancte Olafs og Þrandheimscapitula innsigle er so hliodar á[1]) medal annara orda. ad aller capitulabrædur. i Þrandheime er(u). bioda. bidia og bebefala verdug fodur i gude Augmund i Skalholte fullmegtugt umbod Holakirkiu bæde til andlegra hluta og ueralldlegra sem bref þar um gert utar mejr utvijsar. huert umbod ad uier hillum. stirkium og samþickium h(eilagrar)[1]) Hola kirkiu vegna. so og uilium vier[2]) uera hejruger og hlyduger firr grejndum herra Augmund þad vid erum menn til og hann vill ockur til seigia uppa Holakirkiu gagn og besta. Og til sannenda hier um festum vid ockar innsigle fyrer þetta samþiktarbref skrifad i Beren þridia nonas dag Martij Manadar.

---

1) b. v. 62. 2) vid 62.

61. 9. Marts 1522. í Kaupmannahöfn.

Kristján konungr annar bannar mönnum á Íslandi að verzla við nokkra útlendinga fyrri en þeir hafi greitt konungs umboðsmanni þar í landi 20 gyllini, sem þeir eru vanir að borga árlega og eru skyldugir til.

AM. 191. 4to bls. 41—42, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, rituð samtíða á skinni. — AM. Apogr. 5529.

Bref kong kristiern.

Vij kristiern med guds nad danmerkis. noreges. suiarikis. vendes og gotes kong. hertugi ut j slesuik. j holsten. stormaren og j ditmasken. greifi j oldenborg og delmenhorst heilsum ydur alle oss elskulige biskupar. prelatar. abotar. prestar. knaber. bændur og meinige almugi sem byggia og bua upp ꝺ uort og noregs krunu land jsland kærliga med gud og sancte olaf kong. Vij bidie og bioda ydur alle samt og huor sierdeilis ad j hier efter enti kaupslagit med nockurre utlenzke ente þyzke edur eingelske edur andre fyr en þeir hafa adur gifid og forneygid uor vmbodzsmann þar upp ꝺ landit. xx. uigti gyllene sem þeir oss arliga plaga og plygtuger eru ad gefa upp ꝺ uorra uegna og nær þeir suodan toll ut gefit hafa og til goda reidu forneygt hafa þa megi þier sidan kaupa og selia med þeim obijhindrader. þar rettid ydur alþingis epter og latid þad aungua leidis annars uera.

Gifid upp ꝺ uort slot kaupenhafn sunnudagen inuocauit. ærum epter gndz burd ꝏ. d. xx. og ij ar. under uort signet.

---

62. 21. Apríl 1522. á Ketilsstöðum.
1. Maí 1523. á Vallanesi.

Bjarni Erlendsson fær með samþykki og upplagi Guðríðar Þorsteinsdóttur konu sinnar sira Jóni Markússyni til fullrar eignar jörðina Fjörð í Seyðarfirði, en síra Jón leggr á mót Eiríksstaði á Jökulsdal og kvittar Bjarna um rekahalld Er-

lends föður hans fyrir Ketilsstaðakirkju og Bjarna sjálfan um söngkaupsgjald af Steinsvaðskirkju um tólf ár fyrrum, er síra Jón var þar þingaprestr.

AM. Apogr. 4302, eptir frumriti á kálfskinni „fra Petre Asmundssyne ä Ketilsstödum ä Völlum i Fliotzdalsherade", og er afskriptin staðfest í Skálholti 15. Marts 1708 af Magnúsi Markússyni, Snorra Jónssyni, Þórði Þórðarsyni og Ormi Daðasyni. — AM. Apogr. 4396 „Epter óhandskrifftadre Copiu á pappír", lök afskript og viða raung (ártal 1525).

Um fiord i Seydarfirde.

Þad giorum uit halldor prestur gislason og torfui þorsteinsson godum monnum kunnigt sub anno gracie ꝏ°. d°. xx°. ij°.[1]) uorum vid[2]) j hia saum oc heyrdum æ ord og handaband þessara manna sira ȷons marcussonar af eirni alfu og af annari alfu biarna ellendssonar ad svodan giorningur for fram þeirra æ mille ȷ halfkirkiunne a ketilsstódum a vỏllum j fliotzdalshierade manudaginn næsta epter passionem domini ad fyrr nefndr biarni ellendzson fieck adur nefndum sera ȷoni markussyni ȷordina fiord ȷ seydarfirdi er liggur ȷ duergasteins kirkiu sokn til æuenligrar eignar undan sier og sinum erfingium med upplagi sinnar egin kuinnu gudridar þorsteinsdottur med ollum þeim gỏgnum og gædum sem greindri ȷordu fylger og fylgt hefer ad fornu og nyiu. enn hier ȷ mot gaf opt nefndur sera ȷon markusson titt nefndum biarna ellendzsyni ȷordina eirekstadi j jokulsdal er liggr ȷ mỏdrudals kirkiu sokn til æuenligrar eignar undan sier og sinum erfingium med aullum þeim gỏgnum og gædum sem greindri ȷord fylger og fulgt[3]) hefer ad fornu og nyiu. hier til gaf sera jon markusson opt nefndan biarna kuittan vm þa akiæru sem hann klagadi til

1) „So stendur þetta ärstal ad visu i brefinu. enn ä þann mata verda Biarne og Gudridr geysigömul. hun lifdi ennþä 1568. hann 1563. Malfridr dotter þeirra giptist 1551. ergo er hun fædd circa 1530. [Mier þætti liklegra. ad þetta arstal ætte ad vera 1532*). — 1536 kom aptur til greina um þessa iörd. synest so ad ärstaled muni þo riett" (AM.). Apogr. 4396 hefir ártal 1525. 2)) b. v. 4396. 3) Svo.

*) [útstrykað.

hans vegna kirkiunnar j uallanesi ad biarni og fader hans ellendr heiten biarnason. þui[1]) hann hafdi halldit. ij. c. fadma langan reka upp a. u. ar og tuttugu. er fylgia atti med vidastødum fyrir halfkirkiu skýlld a ketilsstødum og enn hier til gaf þrattnefndur sera jon biarna kuittan vm søngka(u)p a steinsvads kirkiu er liggr j kirkiubæiar sokn. a utmannasueit upp æ. xij. ar er hann uar þar þingaprestur. skylldi huor þeirra hallda til laga sinne jordu og suara lagariptingum. Og til sannenda hier um setium uid ockar jnnsigle fyrir þetta jardarkaups bref er skrifad var j vallanesi jn festo philippi et jacobi ari sidar enn fyrr seger.

---

63. **25. Apríl 1522. 8. Oktober 1523.** **á Hólum.**

Helga Sigurðardóttir ættleiðir syni sína Ara og Magnús, með samþykki Auðunar Sigurðssonar bróður síns.

Land^s^bókasafn 61. 8vo afskript gerð fyrir Árna Magnússon eptir transskripti 6 manna gerðu á Munkaþverá 24. Marts 1551.

Þath giorum vier þorsteinn gvnnason. prestur. sæmundur simonarson. ok magnus biornsson. leikmenn. Godum monnum kvnnigt med þessv voru opnu brefe ath þæ lidit var fra hingatburd vors herra ihesu christi. ᛘ. d. xx. og ij. ar a holum j hialltadál á faustudaginn j paskaviku vorum vier j hia sáum og heýrdum á. at helga sýgurdaʀdotter. ættleidde. ij. sin born. er suo hietu. are. magnus. Samþýckte þessa ættlæidingh audun sýgurdsson. skilgetinn broder fýr nefndrar helgu. er þá stod næst arfue Epttter hana. med handabande. jaýrde oc fullu vpplagi sins arfs. þessa ætleiding. jtem geingu þesseʀ aller fyr nefnder menn fyrir kirkiudýʀ. sem logbok vóttar. halldande. á Einne bok. at helgu sygurdardottur sua mælande. Eg helga sijgurdardotter ættleider ara ionson. magnus jonsson. Til arfs epter mic. til fiar þess er egh gef þeim. til gialldz og giafar. til

1) Svo.

sess og sætis. og til allz þess rettar. sem logbok skýrer [at ættleidingur[1]) ꝺ́a med laugum at hafa. Ok til sanneṅda hier um setium vier fyrr nefndir menn vor ]nsigle fyrir þetta[2]) bref. er skrifat war a holum ] hialltadꝺ́l. fimtudaginn næstan fýrer festum rellquiarum vm havstid. Are sijdar enn fýʀ seiger.

---

64. [Vorið 1522. í Björgvin].

Bréf Ögmundar Skálholtsbiskups og umboðsmanns Hóladómkirkju til alþýðu manna í Hólabiskupsdæmi og tekr hann alla „sem með rétt skjalligheit vilja blífa við konunginn og kirkjuna“ í Sancti Ólafs frið og heilaga vernd, og bannar öllum að „bívara“ sig nokkuð með góz heilagrar Hóladómkirkju.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa-Bok Biskups Ogmundar“.

Til þeirra i Hola Stickte.

Vier broder Ogmund med guds nād biskup i Skalhollte og umbodsmann heilagrar Holadomkirkiu. heilsum ydur ǒllum kærer viner sierlega i Holabiskupsdæme.

Megu þier vita ad vor nādugaste herra konungur hefnu feingid ad vita þann stora őriett. sorg og bidreifelse sem fātækan almuga her i landed skied hefur um langan tima. Hans megtugheit krununni og kirkiunni til stors skada. og landsins utarman. hvad hans herradæme vill einga lund giorast lata her epter. sem hans nadis bref opid þar uppa uthlider. ok oss boded ok skipad uppā vora Tru og hollustu fram̄ ad fylgia epter almugans og landsins bilegheit. epter þvi sem sem lǒgmal tilseger. Ok saker þess ad vier vitum̄ þā marga fātæka menn konungsins landbua og kirknanna þurfa sierlega styrking af kongdomenum og kirkiunni fyrer ārāsum omilldra manna. þar fyrer annamum vier alla þā sem med rett skiallegheit vilia blifa vid konunginn og kirkiuna under Sancte Olafs frid og þann helga kirkiu beskermelse. bidium alla kiærlega og sierlega vors kiærasta naduga herra

1) [b. v. AM; og þarf þess. 2) þeirra. hdr.

kongsins foveta. eller umbodsmenn. ad rama fatæks almuga ed besta fyrer guds skylld. epter vors nádugasta herra kongsins vilia. ok forbiodum vier ollum odrum leikum og lærdum upp á vors kiæra herra og krununnar vegna fatækan almuga i nockurn máta ad oforretta utar meir enn log segia. under Sancte Olafs konungs og heilagrar kirkiu hefnd. Svo og forbiodum vier leikum og lærdum i holadomkirkiu umbode. ad bivara sig med hennar gots. fast edur laust. med minna enn þeim sie bifalad af oss eda þeim vær setium til þar i stickted.

Og til sanninda.[1])

---

**65. [Vorið 1522. í Björgvin].**

Ögmundr biskup í Skálholti skipar Pétr prest Pálsson ráðsmann heilagrar Hóladómkirkju.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa-Bok Biskups Ogmundar". „Hæ literæ, absqve dubio, datæ sunt in Norvegia (puto Bergis) anno 1522. anteqvam in Islandiam abiret Ogmunds. Locum earum in codice indicat litera græca in fronte notata (γ). Þetta Radsmansbref Øgmundar biskups, utgefed Petre Palssyne stendur i Bokinni (so sem hier er tilvijsad) medal þeirra brefa sem Øgmundur utgaf i Norege. og sende til Jslands undan sier 1522. Þad kemur annars ecke saman vid sialft sig. ad Ogmundur setur her Petur Radsmann á holumm. enn i ödru brefe á medal þessara brefa (litera ε) skipar hann kirkiunnar Radi á Holum ad setia þar Radsmann. nema þetta Peturs Palssonar Radzmannsbref sie sidar utgefed i Norege enn hitt. Þorsteinn Eyolfsson i þvi sem hann befur uppskrifad ur þessare brefabok Ögmundar ipso hoc codice qvo usus sum *(dicit Arnas Magnæus)* hefur transfererad þetta Peturs Palssonar Radsmannsbref ur sinum stad i bokinne. og sett þad medal þeirra Documenta sem ahræra controversiam mille Biskups Ogmundar og Jons Arasonar Biskupsefnis 1523. nempe næst epter þad bref sem hefur inscriptionem. *um administrationem Holabiskups-*

---

1) „Hæ literæ, absqve dubio, datæ sunt in Norvegia (puto Bergis) anno 1522 anteqvam in Jslandiam abiret Ogmundus. Locum earum in codice indicat litera græca in fronte notata", — handritið og stendr „β" við þetta bréf.

*dæmis*, og er daterad a föstudaginn i päskaviku 1523. hefur Þorsteini synst. ad þetta Peturs Palssonar Radsmansbref ætte helldur her. vid. og raunar synest þad so ad propter differentiam mandatorum. superius adductam. annars er þad vist. ad Þorsteinn hefur epter þessare somu bok ritad sitt. og er þad so skied alleina af hans criterio. ad hann brefed so transponerad hefur. Enn i bokinni stendur þad sem sagt er. ecke medal þessara brefa 1523. helldur medal hinna 1522. — perpendatur ulterius. Þad er og hier hia ad segia. ad nockur af brefunum hefur Þorsteinn oriettelega transponerad i þvi hann hefur ætlad ad setia þau i betre ordu. enn þau voru i bokinne. Ex. gr. bref Ogmundar til Teitz bonda (logmans) hefur hann sett so sem i eda epter anno. 1525. sem manifeste er de anno 1522".

Rädsmanns Bref.

Wier broder Øgmund med guds nad biskup i Skalhollte visitator yfer Holabiskupsdæmi heilsum ǒllum godum mǒnnum þeim sem þar byggia og bua. Vilium vær ad þier vited ad vier hǒfum sett ærliga personu sera Petur Palsson fullmegtugan Radsmann Holadomkirkiu yfer ǒllu hennar gotse. fǒstu og lausu. fridu oc ofridu. utan gards oc innañ. Skal hann hion rǻda. ȷarder byggia. vtbua Radsmenn setia. og sierhverium kaup giallda epter mǒguligum heitum. og Reikningskap af taka. og sierhverium kvittan gefa. ok alla hlute so regera oc styra i þessu Hǒla Domkirkiu Radsmanns starfi. sem hann veit kirkiunne gagnligazt. og hann vill svara fyrer gude. og vera bikendur fyrer oss. Skal hann alla hlute giǒra þǻ myklu vardar med hollu ok trulyndu kirkiunnar rǻde. þvi vier hǒfum nu þar sett innañ fiordungs. Skal hann hafa sitt kaup af Domkirkiunne sem ad fornu hefur vered. Forbiodum vier ollum leikum ok lærdum ad hindra fyrrskrifadan Sera Petur. edur motstanda i nockurn mǻta. suo leingi hann fylger fram̄ þessu heilagrar kirkiu starfe. bidiande alla goda menn lærda ok leika. ad vera optskrifudum Sera Petre til gagns og goda. upp ǻ Domkirkiunnar gagn og ed besta. þar til ad gud sender logligan og fullkominn eignarbiskup til Hola et cetera.

---

66. [Vorið 1522. í Björgvin].

Ögmundr biskup i Skálholti skipar síra Finnboga Einarsson prófast og almennilegan dómara milli Úlfdalafjalla og Langaness.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar“. — AM. Apogr. 2785 með hendi Hans Beckers „Ur BrefaBok Biskups Ogmundar“. „Hæ literæ, absqve dubio, datæ sunt in Norvegia (puto Bergis) anno 1522, anteqvam in Islandiam abiret Ogmundus. Locum earum in codice indicat litera græca in fronte notata“. (AM.) Framan við brefið stendr „δ“.

Profasts Bref.

Wier Øgmund med guds nad biskup i Skalhollte ok um̃bodsmann heilagrar Holakirkiu. heilsum ydr ollum kiærer viner sem byggia og bua á millum vlfdalafialla ok Langanes. Vilium vier ad þier vited ad vier hofum sett og skipad heidursamlegan mann ok vorn kiæra brodur i prestligre personu herra Finnboga Einarsson. prőfast og almenniligan domara hier med ydur. vm aull heilagrar kirkiu mál. sem til kunna ad falla i greindu Takmarki. skal hann malum fyrir sig stefna. prof afleysa[1]). taka yfier. dæma fesekt uppbera. fulla kvittan gefa. ok eignast allar halfar sekter inn til őbotamala i þui profastsdæme sem hann hefur. Enn ef þau kunna til ad falla. sem gud late eige ske. skal hann sækia under heilaga Holakirkiu og hennar formann. Jtem skal hann siá ad kirkium og kirkna eignum i greindu takmarke. Hier med vanda um allar sidleysur lærdra oc leikra i sinu profastsdæme. ok afleysa kennemenn þar innañ vnder grein og fram̃sögn vid oss edur officialem þann sem settur verdur med kirkiunnar rade og voru tillatelse. Skal hann i ollum hlutum fullmegtugur profastur i sinu umdæme epter þvi sem gomul officialis og profastsbref Holadomkirkiu innehallda. almennilega af Holabiskupum utgefin. verande audvelldum miukur og myskunsamur. Enn þriotskum og þralyndum sie hann hyrtingarsamur epter logum. biskupstiunder og Sancte Petursfe skal hann samantaka[2]) og færa

1) „deleatur et mutentur distinctiones“ (AM). 2) „skal hann“ stendur hér í 2785, en AM. vísar því út.

heim til Hola. og hafa þar med fulla magt ad veita profastsdæme i greindu takmarke. med þvi mőte ad Domkirkian á holum eignest helftina af ǫllu vid þá sem reka et cetera.

---

67. [Vorið 1522. í Björgvin].

Bréf Ögmundar Skálholtsbiskups til klerka í Hólabiskupsdæmi, að hann sé, eptir fregn fenginni um lát Gottskalks biskups, skipaðr umboðsmaðr Hóladómkirkju af klerkaráðinu í Þrándheimi, biðr þá halda venjulega prestastefnu og setr Einar ábóta á Munkaþverá „hæstrar raustar Hóladómkirkjuráðs“.

MSteph. 27. 4to bls. 10—11 með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720 — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar“.

Um̄ frafall Biskups Gottskalks.

Vier broder Augmund med guds nad biskup i Skalhollti eigi sidur umbodzmann heilagrar Hola domkirkiu heilsum ydur kiærer Brædur herra Einar med samre nád abote ad Munkaþuerá. herra Helge abote ad Þingejrum. herra nikulas prior ad Modruvollum. Sira Gudmundur Jonsson soknarherra ad vollum og ollum odrum truliñdum̄ klerkum̄ og kennemonnum Holabiskupsdæmiss med gudz kuediu og vorri.

kunngerum̄ uier ydur kiærer uiner ad uier hofum̄ spurt sirgelig tijdende heilagrar Holadomkirkiu i missu[1]) og frafalle sins formans herra gottskalks godrar minningar huors sál gud nade. af odrum parte hefur sendt vered til vor ut af Þrandhejm oped bref under Sancte Olafs og kanukanna innsigle i huoriu þeir bidia og bioda og fulla magt oss bifala[2]) yfer Hola domkirkiu og hennar eignum so sem yfer vorre eigiñ kirkiu.

1) 62; misser 27. 2) 62; befala 27.

Nu saker þess eg finnum so skrifad i lögunum ad einginn mā skilldast til þess sem honum er omögulegt ad gera. Enn þad vier meigum̄ og getum̄ heilagri[1]) Holadomkirkiu og ydur gert til gagns med ord og verk skulum uier giarnañ alltid nǻtt og dag rejdubuner ydur til stirks og hialpar. bidiande idur kiærlega ad bidia fyrer vorre sǻluhialp. bidiande ydur. og bidiande kiærlega sierhvorn i sinne personu ad þier komed til hopa i veniulegañ stad og hafed ydart prestamot sem godur og gamall vane er til. og talid þar um̄ naudsinlega hlute h(eilagrar) Holakirkiu. Jn primis Gefed sem first suar upp a þad opna bref sem Þrandhejmscapitule skrifar ydur til um̄ ydart formannskiör.

J annare grein setied þier naudsinlegañ hæfelegañ og trulindañ radzmann Hola stadar. Setium uier vorn kiæra brodur Abóta Einar hædstrar raustar Holadomkirkiu radz. þad miklu vardar. med firrskrifudum prælatum og officialibus sem uier hofum sett upp a domkirkiunnar [vegna[2]).

Bidium vier ydur kiærlega ad þier hilled þa sem leingst. i domkirkiunnar um̄bodum̄ og utsendingum̄. sem þier uited ad trulega hafa forstaded. eru þad sierlega iij[3]) lejkmenn [tueir[4]) sem uier hofum spurn af Sæmundur og Þorvardur. enn uier uitum sialfer og kennum Finn Þorvalldsson til allz ens besta[5]).

---

68. **[Vorið 1522. í Björgvin].**

Ögmundr biskup í Skálholti fær Pétri presti Pálssyni fult umboð yfir Hólastaðar skipi, sem er í Noregi, og getr þess, að hann hafi skipað síra Pétr prófast í Húnavatnsþingi.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkur-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar". „Hæ literæ absqve dubio datæ sunt in Norvegia (puto Bergis) anno 1522, anteqvam in Jslandiam abiret Og-

---

1) b. v. 62. 2) [ed besta 62. 3) 62; tuejr 27. 4) [62; sl. 27. 5) „Hæ literæ, absqve dubio, datæ sunt in Norvegia (puto Bergis) anno 1522 anteqvam in Islandiam abiret Ogmundus. Locum earum in codice indicat litera græca in fronte notata" (ε) 62.

mundus. Locum earum in codice indicat litera græca in fronte notata" ζ.

Wm skip Holakirkiu.

Vier Øgmund med guds nád biskup i Skalhollte. ok umbodsmann yfer Holabiskupsdæme giörum godum mönnum viturligt med þessu voru opnu brefe ad vier hofum bifalad herra Petre Palssyne fullt og lögligt umbod yfer domkirkiunnar hafskipe á Holum sem nu er i Norege. ok ollu þvi þar til heyrer. skal hann styremann og skipmenn hyra til Jslands uppá domkirkiunnar ed besta. ok ollum hlutum so hegda ok skicka. sem hann sier og þeinker kirkiunne haglegast og gagnlegast. Her med hverium manne sina hyru giallda. halfa hier. halfa i Jslande. af domkirkiunnar peningum. Leggur hann noget til af sinu. þá vilium vier hann fáe so mýked igen af kirkiunne. ok hafe þar til fulltt fyrer sitt omak. ok þar upp á hofum vier unt hönum profastsdæmis i Hunavatnsþinge. sem bref þar um giört utvijsar.

Ok til sanninda her um cetera.

---

69. [Vorið 1522. í Björgvin].

Ögmundr biskup í Skálholti skipar Pétr prest Pálsson umboðsmann Hóladómkirkju milli Úlfdalafjalla og Hrútafjarðarár.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar". — AM. Apogr. 2786 með hendi Hans Beckers „Ur Brefabok biskups Ogmundar" (AM). „Hæ literæ absqve dubio datæ sunt in Norvegia (puto Bergis) anno 1522, anteqvam in Islandiam abiret Øgmundus. Locum earum in codice indicat litera græca in fronte notata". (η). (AM).

Wmbod Holakirkiu.

Vier Ogmund med guds nad biskup i Skalhollti. og umbodsmann h(eilagrar) Hola domkirkiu. heilsum ydur öllum sem byggia og bua á millum Ulfdalafialla og Hrutafiardarár med guds kvediu og vorre. kunnugt giörande. ad

vier hofum sett og skipad ærlega personu sera Petur Palsson fullmegtugañ umbodsmaen h(eilagrar) Hola domkirkiu hier med ydur. þar med officialem yfer ǫllum heilagrar kirkiu málum i greindu takmarke. i svoddan máta. ad hann skal hafa fullt valld ad veita profastsdæmi. med þvi skilorde. ad domkirkian á Hőlum og hennar loglegur tilkomande biskup eignest halfar sekter vid þann er rekur. Enn þad prőfastsdæme sem herra Petur hefur haft af biskup Gottskalk sinum vigslufaudur fyrer skemstu á millum Hrutafiardarár og Hrauns á Skaga. bifaulum vier hǫnum med .vj. marka sektum. ok þar fyrer innan. Enn ǫll stærre mál sækia under heilaga Hola kirkiu. og hennar formann. og eignast sialfur .vc fyrer sitt őmak af officialismálum. Jtem skal hann og med herra Finnboga og audru kirkiunnar rade þar meiga samþyckia Radsmann til h(eilagrar) Holadomkirkiu epter gǫmlum og godum sidvana sem til ber. Jtem skal adurskrifadur sera Petur siá ad kirkium og kirkna eignum i greindu Takmarke. þar med afleysa leyka og lærda vnder retta grein oc fram̄sǫgu vid oss. Jtem biodum vier og skipum tidtskrifudum Sera Petre ad vera fatækum almuga miukur og miskunsamur. fyrer utan allar nyiar álǫgur. Enn þriotskum og ofbelldisfullum take hann mot med styrkre hand. og sie þeim stridur. hardur og rettur domare. ok forhindre i eingan mata vors nadugasta herra konungsins riett. koma þar nockrar saker fyrer herra Petur sem kirkian og krunan bæde til hopa eiga. þá giǫre hann æ jafnañ syslumanne bod ad taka konungsins part. ok giore so bada[1]) er miskunsamlega vid þannsem brotligur er. bidium̄ vier um alla goda menn ad þier sied tidt skrifudum Sera Petre til gagns og goda. styrks og hialpar. so leinge sem hann stendur i þessu heilagrar kirkiu umbode. og voru. skal þesse vor skipan standa um næstu xij. manudi fra Peturs messu og Pals nu næst er kemur. ok þad leingur sem vier giǫrum ecke adra skipan á.

Ok til sanninda hier um þryckium et cetera.

---

1) 2786; bæde 62.

70. **25. Apríl 1522. í Björgvin.**

BRÉF Ögmundar biskups í Skálholti til alþýðu manna í Hólabiskupsdæmi, einkum fyrir norðan Úlfdalafjöll, um nokkurt tillag upp í siglingarkostnað sinn.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa ok Biskups Ogmundar". (℈). — AM. Apogr. 2787 með hendi Hans Beckers „Ur Brefabok biskups Ogmundar" (AM.).

Vm nockud Tillag.

Vier broder Øgmund et cetera. heilsum ydur ollum kiære viner i Holabiskupsdæme med guds kvediu og vorre suo lærdum sem leikum. Vitum vier ad þier muned spurt hafa þä storu neid og fekostnad sem vier med voru folke hofum lided vm næst forlidin þriu är. bæde til sios og lands. vtvegande suo fyrer ydur sem fyrer oss nockur þau friheit oc Privilegia af vorum heigbornasta herra konunginum. sem bref þar um giort vtvisar. þvi bidium vier ydur kiærlega ad hialpa oss i vorum naudsynium i nockrum peningum ad leysa vorar skullder ok brefa utlausner. Þetta og annad gott vilium vier giarnan med ydur ǫllu godu forskullda. nær ydur eda Holadomkirkiu sendebode giorest bihöf suoddan hialp af oss edur voru stigte. Vilied þier giöra nockud hier upp ä heilagrar kirkiu gagn ok bistand. þa bidium vier alla fyrer nordan Vlfdalafiǫll i officialisdæme vors kiæra brodur herra Finnboga. ad þier antvarded hönum i hand. suo þad mætte koma sudur til Videy i sumar. Skrifum vier ydur ecke meira til ad sinne. utan lif oc säl. heidur og æru. gots og peninga bifolum vier allsmegtugum gude. jungfru Mariæ og Sancto Thorlaco et cetera.

Skrifad i Beren sexta feria Pasche Anno Domini ꟾꟾꟾ°. d°. xxij°.

---

71. **21. Maí 1522. í Björgvin.**

BRÉF Ögmundar biskups í Skálholti til Eiríks erkibiskups Walchendorphs, sem þá var í Rómaborg, og skýrir hann honum

frá ferð sinni á konungsfund hið fyrra árið og frá vígslu sinni og spyr, hvað líði um helgan dóm góða Guðmundar.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Ögmundar“. — AM. Apogr. 2788 með hendi Hans Beckers „Ur Brefabok biskups Ogmundar“ (AM.). — Eiríkr erkibiskup andaðist þetta ár í Rómaborg 28. Nóv.

Til ErchiBiskups.

Reverendissimo in Christo Patri et Domino. Domino Erico Valchendorp. Dei gratia. Archiepiscopo Nidrosiensi et Apostolice sedis legato. Domino suo colendissimo. Affectuosissimam obseqvendi promptitudinem. humillimamqve salutem cum omni reverentia et honore.

Kiære fader i gude. tackar ek ydur audmykelega fyrer alla hlute vel til vor giörda. Kunngiöre ek ydru elskulegu faderne. ad vier vorum til Danmerkur fyrer vorum nadugasta herra konungin[1]). epter ydru skrifelse. ok feck ek suo hans vilia hylle og samþycke uppä þad erinde sem ydar näd hafde mig adur i allan mata omakligan confirmerat. ok forum svo aptur til Noregs epter hans nädis skrifelse til verdugra fedra biskupanna. ok feingum suo vora consecrationem i Beren in die Sanctorum Apostolorum Simonis et Jude[2]). hvad ek bid fätæk mann gud almattugan unna mig til salutrausts og ydar nädis kiærlegheit til sannrar hollustu og hlydne. Kiære herra fader i gude. mä ydur kiærlegheit vita ad hier star nu ganske skraupuliga til i Noregis riki[3]). þviat her koma sin tidindi hvern dag um̄ onader ok ofrid. bæde til sios og lands. huad ek bid gud allsmegtugan [og sancte Olaf[4]) ad vinna bot upp ä. ok senda ydur heilbrigda sem snarast heim aptur til Domkirkiunnar i Þrandheim. henne til heidurs. og ollum ydrum sonum til huggunar lærdum og leikum. bidium vær (ydur) kiærlega ad skrifa mier sem snarast til vm gőder Gudmundar helgan dom. ok

1) „1521 um vorid“, (AM). 2) „Dies Simonis et Judæ var manudagur ä þvi äre sem biskup Øgmundur var vigdur. Enn þad gefur vel eckert. þvi dagurinn var þo heilagur. *nisi* legendum sit *pridie Sanctorum Apostolorum*“, (AM.). = 28. Okt. 3) „Eirikr Erkibiskup var ur landi. þä þetta bref er skrifad“ (AM). 4) [b. v. 2788.

þa litlu peninga sem þar hafa vered til gefner af godfusum mònnum. þvi giarnan vilium vier epter vorre fatækre makt til hialpa ad hans canoniceran mætte framkvæmast sem fyrst. þui þad er oss ollum stort gagn oc traust bæde til sios og lands. Vilium vier giarnan ydvarre nᾶd til vilia vera bæde dag og natt epter vorre skylldu.

cum his paucis reverendissima paternitas vestra valeat et vivat felicissima in Domino longeva.

Scriptum Bergis xii. Calendas Junii. Anno Domini ϖ⁰. d⁰. xx⁰. ij⁰. sub nostro signeto.

---

72. **21. Maí 1522. í Björgvin.**

Bréf Ögmundar biskups í Skálholti til Ólafs Eingilbertssonar erkidjákna í Niðarósi, þar sem hann getr um, að sér hafi verið skipuð umsjón Hóladómkirkju og ritar um góða Guðmundar peninga og hans helgan dóm.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok biskups Ogmundar". — AM. Apogr 2701 með hendi Hans lögmanns Beckers.

Sendebref til Erchi Diaknans.

Egregio ac magnifico viro Magistro Olavo Eingilberto Sancte Nidrosiensis ecclesiæ Decano. amico nostro sincero. Præmissa amicabili salutatione cum nostro sincerissimo favore.

Kiærlega þockum vier ydur herra Diechen fyrer allt vel giört til vor oc vorra tienara. sem hos ydur voru þar nordur i vintur. Kunngiörum vier ydur. kiære vin. ad vier feingum ydar sendebref ok Trandheims Kapitula. þad sem hlydde upp ᾶ yferbod ok um̄sion Hola domkirkiu. Enn þvi verr ad vid erum þar einginn mann til. Enn þad vier kunnum ok meigum skal ek giarnan afveria heilagre Holakirkiu skada. þad vier erum mann til. suo leingi gud sender þangad ei formann fullmegtugan. Enn um goda Gudmundar peninga og hans helgan dom. sem meystare Hans skrifade mig til ydar vegna. kunnum vier nu ecke til ad

koma ad antvarda abbadysinne á medan suo stendur ofridlega upp á allar sidur. ok þess annars ad vor kiære fader i gude Erchibiskupinn hefur so skrifad. ad hverutveggia skyllde færast fra Jslande og til Amsturdam i Hollande til þess manns sem heitir Papius. enda eru hier einger peningar þad nockud klekur. ok hofum vier skrifad Erchibiskupinum til þar um. hefur vor capellan satt meijstara Henrik vppá ydra vegna .xl. alna vadmals i þá peninga sem vier feingum ut af ydrum garpe[1]) i Beren. skal ek giarnan vel betala þad ydur fattast[2]) þad fyrsta sem vær kunnum. ok giarnan vilium vier fyrer ydra skulld giôra hvad vier kunnum nátt og dag.

valeat igitur et vivat humanitas vestra prospera et perpetuo felix.

Scriptum Bergis xij. kalendas Junii Anno Domini m°. d°. xxij°. sub nostro signeto.

Ogmundus dei gratia Episcopus Skal[holtensis].

---

## 73. 23. og 24. Maí 1522. í Dal undir Eyjafjöllum.

Fjárskiptabréf milli húsfrú Hólmfríðar Erlendsdóttur af einni álfu, en af annari Eyjólfs Einarssonar, sonar hennar, og systkina hans.

AM. 191. 4to bls. 23—24, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, rituð samtíða á skinn. — AM. Apogr. 5525.

Þad gioru vier runnulfur þorsteinsson. tumas jonson. skule tumasson. gudmundr gudmundzsson logrettumenn. einar dagfinsson. ormur þorsteinsson. gunar askelsson. þorlakur kolbeinson. sygurdur askelsson. jon sygurdsson og þostein ormsson godum monnum kunigt med þessu voru oppnu brefi ad þa lidit uar fra gudz burd. m. xx. og ij ar j efradal vnder eyiafiollum fostudagin og laugardaginn j fardaga viku vorum vier til nefnder af husfru holmfridi er-

1) Svo bæði. 2) leiðr. AM.; fallast, bréfab.

lensdottur og af eyiolfe einarssyne syne hennar ad giora logligt fieskipti med greindri holmfridi og adr nefndum eyolfi og syskynum hans. kom þar fram bref og med dande manna jnnsiglum ad hun var malakona j gard ejnars heitens eyiolfsonar og hennar mali var fim. c. hundrada. iij (j) jordum og tuo j lausagozi. hier at auk lxxx hundrada (j) jordum er hun hafdi (erft) efter modur siña husfrv gudridi þoruardzdottur og en hier at auk jordena sangerdi er ligur æ rosthualanese j hualsnes kirkiu sokn. skiptust hene j sinn mala svo heitande jarder. brautarhollt æ kialarnese firir hundrad hundrada med þui sem þar væri j ofridu. krokur og midhus. xx^c^. hueriar er ligia æ rosthualanese j uttskala kirkiu sokn. flangastader og uppsaler j somu sueit er ligia j hualsnes kirkiu sokn fyrer .lx^c^. og þar til hrisey (j) bryniudal j kios fyrer .x^c^ nupur vnder eyiafiollum fyrer .xl^c^ huer er komid hafdi fyrer hennar jord heylæk j fliozhlid. og hier til jorden næfurhollt er liggur æ rangaruollum fyrer .lx^c^. og jorden kirkiulækur er ligr j fliozhlid j teigs kirkiu sokn fyrer .u. tig^ic^. og x^c^ frid þar til. en einar heiten eyiolfson hafdi hene gefid og sialfur afuentt j sina loggiof sem bref þar vm gior uttuisa. En fyrer þær jarder sem selzt hafdi edr fargazt hefdi af henar erfda jordum sem voru audshollt og gliufurarhollt er ligia j oluesi. skiptizt hene half storamork under eyiafiollum. jorden huamr j somu sueit j hollz kirkiu sokn. En fyrer saker þess fridir peningar voru þar ecki meiri en þeir sem kirkiuni þar j dal gullduzt j sina jnnstædu portio og mortuarium og þau x tige hundrada sem greindr einar eyiolfsson hafdi sialfur afuent þratt nefndri holmfridi kuinu sinne sem bref þar um giort vttvisar. þa skiptuzt henne suo heitande jarder. sandar er ligia under eyiafiollum j dals kirkiu sokñ fyrer .xx^c^ ok holltt æ sidu j kirkiubæiar kirkiu sokñ halft fyrer v^c^ og xx og þar til xx malnytu kugildi nordr j modrufelle er hoskulldur runulfson hafdi til byg(g)ingar af oftnefndum einari heitnum eyiolfsyne. En þau x^c^ j fridum peningum sem hun atti ad hafa med kirkiulæk sem fyr seigir skylldu takazt af þeim penningum sem væri æ hofdabrecku j myrdal. En þeir peningar sem

þar væri meire en kirkian þar og j kellingardal ætti ok ad afreiknudum þeim xc. sem henne var þar skipt skylldi þat standa alagalaust j uisri borgan hia holmfridi þar til biskup kemi til fyrer þeirra kirkna peningum sem ecki hafdi feingid sinar tolur sem var næfurhollt og efrihuoll og kirkiulækr. uoru þat þa reiknud vjc. ok .xx. voru þesser goder menn vid þetta skipti sira Jon einarson officialis heilagrar skalholtzkirkiu. sira ȷon gislason. sira ari steinmodzson[1]) ok marger adrer goder menn. oc til sanen(da) hier vm.

---

**74. 25. Maí 1522. Í Dal undir Eyjafjöllum.**

Húsfrú Hólmfríðr Erlendsdóttir kvittar Jón Hallsson um alla meðferð á peningum hennar og barna hennar á meðan hann hefði haft umboð á þeim, og gefr hún honum jörðina Næfrholt, með öðrum þeim greinum, er bréfið hermir.

AM. 191. 4to bls. 27—28, bréfabók Jóns skálds Hallssonar rituð samtíða á skinn. — Apogr. 5528.

Þat giorum uer ȷon prest(r) einarsson officialis heilagrar skalholtz kirkiu og ari prestr steinolfsson[1]). Runolfur þorsteinsson og tumas ionsson suarner logrettumenn godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi. ad þa lidit uar fra hingadburd uors herra ȷhesu christi. ⅿ. d. xx. og ij ar uorum uier þar j hia saum og heyrdum a sunnudagen j fardagauiku j storastofune j efradal under eyiafiollum. ad husfru holmfridr erlenzdotter gaf jon hallson aolldungis kuittan og akærulausan fyrer sier og ollum sinum eruingum og epterkomendum. um alla þa medferd. uttlat og inntekter gialld edr giafer. skipan edr skikan sem adr greindr ȷon halllzson hafdi haftt a henar peningum og allra henar barna a medan hann hafd(i) umbod edr vmsia yfer þeim haft. hier med j sama handabandi medkendizt fyrskrifud holmfrid ad hun hefdi gefit opt nefndum ȷone hallzsyne alla jordena næfurholltt er ligur a rangaruollum til æuenligrar

1) Svo.

eignar og frials forrædis med þeim skilmala ad ef þratt skrifut holmfrid lifde honum leingur þa skyldi greind jord uera aptur hennar eign odrigdulig. skyldi[1]) og greindr jon eignazt þa peninga alla sem af fram geingi þeim tiutigi hundrada sem meira uar en þa hann tok uid j fridum peningum.

Og til sanenda hier um settum vier fyrskrifater menn uor jnnsigli firir þetta bref skrifat a hlidarenda j fliozhlid æ sama æri sem fyr seiger.

---

75. **26. Maí 1522.** **á Hólum.**

Tvennar tylftir klerka fyrir norðan land rita Einari ábóta á Munkaþverá og Nikulási príor á Möðruvöllum og öllum prestum fyrir norðan Öxnadalsheiði og lýsa því, að þeir hafi samþykt Jón prest Arason ráðsmann Hólastaðar og officialis Hólakirkju til næstu prestastefnu, en Jón prestr hafi því ekki játað, nema það væri og með þeirra samþykki.

AM. Fasc. XLV, 14, frumrit á skinni. Af 10 innsiglum er 1 fyrir bréfinu. — Apogr. 2908. Sbr. Nr. 81.

Vier nichvlas vilialmson. jon jonson. thumas eirekson. jon brandson. halfdan narfvason. magnus gudmundson. jon sveinsson. þorbiorn jonson. pall jonson. olafur hialltason. þorfinnr þosteinson. gisli svgvrdson. besse þosteinson. gisli gvdmundson. einar vlfson. steinn marcusson. einar magnusson. gretter þorvalldson. þorsteinn jllvgason. hallvardr biarnarson. þosteinn gvnnason. jon gvdlavgson. marteinn sveinson og steingrimur bessason prestar holabiskupsdæmis. heilsvm ýdr heidursamligum monnum abota einare og prior nichulase og avllvm prestum holabiskupsdæmis. þeim sem býggia og bua fyrir nordan óxnadalsheidi medur gudz kvediv og vorre. vilivm vier ýdur kunnigt giora at fyrir stora kirkivnnar navdzsyn hofum wier samþýckt heidurligan mann sira jon arason radzmann holastadar ath wera worñ og

1) skyldu skb.

heilagrar kirkiv officialis til næstu prestastefno sem hallden verdur ȷ holabiskupsdæme. enn greindur sira ȷon arason hefer eigi vnder þa stiett ȷatazt nema þat være svo vel ydar wili sem wór. þvi bidivm vier ẏdur radz og samþẏckis hier vm ath vier witvm aunguan þan med oss ȷafn wel til fallenn slikrar stettar sem nefndan sira ȷon.

Og til sanneñda hier vm setivm wier wor ȷncigle fyrir þetta brief er giort war ắ holum ȷ hialltadal ȷn festo avgustini anglorum. anno domini. ꝏ. d. xx. secundo.

---

**76. 28. Maí 1522. á Hólum.**

Tylftardómr klerka útnefndr af síra Jóni Arasyni, svaramanni og umboðsmanni Hóladómkirkju, um kærur hans til Teits Þorleifssonar, að Teitr héldi peninga Einars Jónssonar (Sigmundssonar), sem væri dæmd eign Hóladómkirkju, að hann hefði ekki lukt fyrir skóla og uppfæði síra Egils frænda síns, að hann hefði vísvitandi keypt kirkjunnar fastaeign Galtarnes í Húnavatnsþingi, og að hann hefði látið í hel slá sinn og dómkirkjunnar þjónustumann, að Jóni presti nærveranda og ásjáanda, og að hann hefði sjálfr slegið og ófæra gera látið marga sína og kirkjunnar þjónustumenn.

AM. Fasc. XLV, 15, frumrit á skinni. Af 13 innsiglum eru 3 fyrir bréfinu. — Pappírsafskriptir eru nokkrar til af dómi þessum, svo sem AM. 240. 4to bls. 36—38 (með hendi Jóns lögmanns Jónssonar c 1592) og MSteph. 56. 4to bls. 280—81 (með hendi Snæbjarnar Torfasonar 1646).

Domur Teitz Þorleifssonar ꝏ d xx og ij'[1]).

Þath giorvm wier ȷon prestur finbogason officialis heilagrar hola domkirkiv. Nichulas vilhialmsson. Þorbiorn ȷonsson. ȷon ionsson. magnus gudmundzson. ȷon brandzson. gisle sygurdsson. einar ulfsson. þorleifur ȷonsson. þorfinnr þosteinsson. halluardur biarnason. og thumas ȷonsson. prestar holabiskupsdæmis godum monnum kunnegt med þessv

1) Utan á bréfinu með hendi frá 16. öld.

worv opnu brefi ath þǫ́ lidit war fra hingatbvrd wors herra jesv christi .ɱ. d. xx. og ij ǻr. ǻ flugumýre j skagafirde ǻ almennneligri prestastefnu. vorum wier j dom nefnder af heidarligum manne sira jone arasýni er þǫ́ war suaramann og vmbodzmann heilagrar holadomkirkiu. ath dæma vm þær ǻkærur er nefndur sira jon kærdi til teitz þorleifssonar hola domkirkiv wegna og sinna. war þar stefnan suaren. suo og war þath svarid oss ǻ heýrandi. ath sv sama stefna war opinberliga lesiñ heima j glaumbæ ath logheimele teitz þorleifssonar morgum monnum nærverañde og teitur þorleifsson hefdi þar heima verid. þvi dæmdvm vier stefnvna logliga og teit þorleifsson rettiliga fyrir kalladan j greindum stad og deigi. J fyrstv grein er j stefnunne stod og sira jon kærdi til teitz þorleifssonar ath hann hielldi og hefdi þǫ́ somv peninga fasta og lausa er dæmder hafa werid domkirkiunne af einari jonssyni fyrir þær sannreyndar saker. eptir þui sem sǫ́ domur jnne helldur. sem þar vm er gior. Nv med þui wier wissum med sannendvm ath allir peningar þeir sem einar jonsson atte voro dæmder fallner vnder domkirkivna ath helminge og einar jonsson var dæmdur rett tekinn vnder skripter af kirkivnnar waldzmonnum. þui dæmdum vier teit þorleifsson skylldugan at giallda kirkiunnar vmbodzmanne med fvllvm laga ǻvexte alla þa peninga sem hann hafdi tekid af þeim peningum. sem einar jonsson hafdi att. J annare grein er sira jon kærdi til teitz þorleifssonar. ath hann hefdi ecki luckt domkirkiunne þǫ́ peninga sem hann var henne skylldvgur fyrir skola og vppfædi sira eigils frenda sins. epter þui sem dandi presta domr þar vm gior vt wisar. Þui dæmdum vier teit þorleifsson skylldvgan at giallda þa peninga med laga ǻvexte. síjdan þeir voro af kirkiunnar vmbodzmanne af honum heimter. J þridiv grein er sira jon kærdi til teitz þorleifssonar. ath hann hefde wis vitande keypt kirkivnnar fastaeign galltarnes j hunawatzþinge. Nv saker þess ath kirkivnnar log suo til wisa. ath hver sem kavper edur helldur kirkivnnar fasta eign mote lôgvnvm fellur j bann af sialfs verke. Þui dæmdum wier teiti þorleifssyni. siettareid, ath hann visse

eigi ath þesse jord galltarnes væri kirkivnnar eign. fellzt hann ꝺ eidinvm. þꝺ dæmdum vier hann fallenn ȷ bann. skȳlldvgan ath taka lavsn og skript og gialldi domkirkivnne fvllʀette. J fiordv grein er nefndur sira ion kærdi til teitz þorleifssonar ath hann hefdi brotid erchibiskupsins bref ȷ þeim greinvm. ath hann hefdi latid ȷ hel slꝺ sinn og domkirkivnnar þionustvmann. ath sier nær verandi og a siꝺndi. Suo og ath hann hefdi slegid sialfur og ofæra giora latid marga menn af kirkivnnar og sinum þionustumonnum. Nv saker þess ath wier savm og ȳferlasom opid bref med jncigle wirduligz herra og an̄daligs faudur herra eirekz erckibiskups ȷ þrandheime suo hliodandi ath hann hafi tekid fȳr nefndan sira ion og hans folk og þienara til sancti Olafs og sinn frid og bijskijrmelsi. Þui dæmdum vier teit þorleifsson skylldugan ath fara fram̄ fyrir erckibiskupenn jnan̄ næstu xij manada ath heyrdum domenvm og suare ʀettum lǫgum i þeim stad og deigi sem sagdur erckibiskupinn will til setia vm greint mꝺlefni.

Og til sannenda hier vm setivm wier fyrr skrifader prestar woʀ ȷncigle fyrir þetta bref er skrifat war æ holum ȷ hialltadꝺl jn vigilia ascencione[1]) domini. a sama ꝺre og fȳr seigeʀ.

---

## 77. [1522 og síðar].

Skrá um jarðir Teits lögmanns Þorleifssonar.

Landsbókasafn 63. 4to bl. 114b—115a með hendi (Haldórs Guðmundssonar) c. 1640. Þessi skrá, sem mun vera gerð einhvern tíma í jarðamálum Teits, eða eptir hann, er að efni öllu frá 1522 að grundvelli, þó að inn í hana sé komin frásögn um sumt, er síðar gerðist í jarðakaupum.

Jarda ʀeikningur Teijtz Þorleifssonar þa hann ʀeıȷd til Sueinstada sem vitnis Burder asamt hanz Reijkingskapur þar vm hliodar.

1) þ. e. 28. Maí.

Jn primis Jarder ȷ Skagafijrdi. Glombær. Medalheijmur. Jelivogar. Vatnzskard og Vatnzhlijd. Vijkurpartur. Hoff ȷ Dolum og tuo kot þar til sem eru gil og Þorliotstader. Vıȷdeveller. Vatn. Vallhollt ytra.

Enn þessar ȷ Vıȷdidal. Asgeijrsår tuær og Lækiamot. Gaffl.

Jtem þessar ȷarder a vesturstrondum. Melar. Nordfiordur. Krossnez og Selianess.

Þessar ȷarder åtti Teijtur Þ(orleifsson) fyrir austan ȷ Hornafıȷrdi sem hann sıȷdar selur Biskup Augmundi. J fyrstu Biarnarnes fyrir xlc. Dalur fyrir xc. Þinganes xvjc. hafnarnez xijc. Dylksnes iijc. Krossabæ .xxc. Hollt .xxxc. Borg xxc. halfft fell .xxc. Kuijaskier iijc. holmur .vc. kiellduhollt iiijc. skerin xijc. halfer holar .vc. Rekinn fyrir Vppsalalandi fyrir iiijc. og þetta allt voru hanz Erfda ȷarder.

Hier ȷ (mot) Gaff Biskup Augmundur Teijti sem þeirra kaupbreff ȷnnihelldur. J fyrstu Huam ȷ Huamzsueit lxc. ad dyrleika. Jtem ȷordina Asgard lc. Magnusskoga og Kietilstadi huora vm sig fyrir xxiiijc. Halfa Glerårskoga xvc. Breidabolstad xxiiijc. allar ȷ Huamz kirkiu sokn verandi.

Jtem BlonduBacka fyrir xl (hundrada) ȷ Hoskulldstadakirkiusok(n).

Jtem Huam a Vatznese ȷ Tiarnarkirkiu sok(n) xlc. Tungu ȷ Bitru xxiiij(c) er liggur ȷ Eyrar kirkiusokn. fiardarhorn halfft fyrir xijc. er liggur ȷ prest Backa kirkiu sokn.

---

78. **29. Maí 1522.** **á Hólum.**
**4. Maí 1523.** **í Húsavík.**

Vitnisburðarbréf, að Jón prestr Arason ættleiddi fjögur börn sín, Ara, Magnús, Björn og Þórunni, með þeim skilmála, að Þórunn skal taka jafnháan hlut við bræðr sína.

Landsbókasafn 61 8vo afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ex originali fra vicelögmanninum Odde Sigurdzsyne“ (AM). „Jnnsigle sira Thomass Eirikssonar hanger enn nu fyrir brefinu, hin 3. eru burt sliten“ (AM). = *a*. — Önnur afskript á sama stað gerð fyrir Árna Magnússon, „Ex Transscripto 1571 die 8 Junii“ = *b*.

Ættleiding barna biskups Jons[1]).

Þath giorum wier Þorsteinn Gunnason. Thomas Eireksson prestar. Grimr jonsson ok Einar einarsson leikmenn godum[2]) monnum kunnigth med þessu woru opnu Brefi ath þá er[3]) lijdit war fra hingatburd wors hera jhesu christi .M. d. xx. ogh .ij. ár. a holum j hialltadál. á vppstigningardag worum vier j hia sáum og heÿrdum á ath sira jon arason ættleiddi fiogr sin born. er so hietu. are. Magnus. Biorn ok Þorunn. med þeim skilmæla ad nefnd Þorunn skÿllde hafa jafnañ hlut vid brædur sina. af oskipttum arfe. Samþÿckte þessa ættleiding halldora magnusdotter skilgetin modursyster fyrr nefnds sira jons. Er þá stod nærst arfi eptter hann. med handabándi. og jæÿrdi og fullu vpplagi sins arfs. Jtem geingu þesser aller fyrr nefnder menn fyrer kirkiudÿr, sem logbok vottar. halldañdi á einne bok. ath nefndum sira joni árasÿni suo mælandi. Egh jon prestur arason ættleidi. ara jonsson .[Magnus jonsson[4]). Biorn jonsson. Þorvnne jonsdottur. thil arfs eptter mic. til fiar þess er ek gef þeim. thil giallds ok til giafar. til sess og sætis ok til allz þess rettar sem lögbok skyrer [ad ættleidingur[5]) á med laugum ath hafa. Hier til gaf sira jon arason fyrr nefndum bornum [Eina bok. thil heidurs huerium[6]) þeira. Enn þoruñe gáf hann Eina silfursÿlgiu gÿlltta. Och til sanneñda hier vm setium wier fÿr nefnder menn. vor jnsigle fyrir þetta brefh er skrifath war j hwsawik æ Tiörnese. Manudágenn nærsta eptter krossmessu vm worith. are sijdar enn fyrr seger.

---

**79.** **29. Maí 1522.** / **21. Apríl 1541.** **á Hólum.**

Vitnisburðarbréf, að Jón prestr Arason ættleiddi fjögur börn sín, Ara, Magnús, Björn og Þórunni, og skyldi Þórunn taka jafnháan hlut við bræðr sína.

1) *b*, með hendi Árna. 2) *b;* gioRum *a* (!). 3) sl. *b*. 4) [*b;* Magnusson (!) *a*. 5) [*b;* vantar í *a* frá upphafi (!). 6) [til heidurs eina bok h(u)orium *b*.

AM Fasc. XLV, 16, frumrit á skinni frá síra Skúla Þorlákssyni. Af 4 innsiglum eru 2 fyrir. — Landsbókasafn 61 8vo, tvær afskriptir; önnur eptir AM. XLV, 16, en hin „Ex originali transscripto hia Sira Pale Jonssyne á Melstad“ frá 6. Júní 1576. — Prentað í Finni Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 738—739.

Ættleidingarbref Sira Biarnar Jonssonar[1]).

Þat giorum vier Tvmas Eirekson. þorsteirn gunnason prestar. Grimur jonsson. Einar einarsson leikmenn godum monnum kunnigt met þessu vorv opnv brefe at þæ lidit var fra hingat bvrd vors herra jhesv christi. M. d. xx. og ij ar. a holum j hialltadal. æ vppstigningardag vorvm vier j hiæ. saum og heyrdum æ. at jon prestvr arason æt(t)leidde fiogur sin born er suo heita are. Magnus. Biorn. Þorunn med þessum skilmala. at nefnd Þorunn skylldi taka jafnan hlut vit brædur sina at oskiptum arfe. samþykte þessa ættleiding halldora Magnusdotter. skilgetin modursyster fyrr nefndnzt sira jons. er þa stod næst arfe epter hann. met handabande jayrde og fullo vpplage sins arfs. þessa ættleiding. Jtem geingv aller þesser fyrr nefnder menn fyrir kirkiodyr. sem logbok vottar. halldandi aller a eirne bok. at nefndum sira jone arasyne suo mælandi. Ek jon prestur arason æt(t)leidi ara jonsson. Magnus jonsson. Biorn jonsson. Þorunne jonsdottur til arfs efter mig. til fiar þess er ec gef þeim. til giallds og giafar. til sess og sætis og til allz þess riettar sem logbok skyrer at ættleidingur æ met logum at hafa. hier til gaf sira jon fyr nefndvm bornvm eina bok hverio þeirra en Þorvnne gaf hann eina sylgio gyllta met silfur. Og til saninda hier vm setium vier fyr nefnder menn vor jncigle fyrir þetta bref er skrifat var j sama stad og fyr seigier fimtvdagin j paskaviko. arum efter gudz burd M. d. xl. og eitt.

---

**80.** **29. Maí 1522.** **á Hólum.**

Transskriptarbréf.

AM. Apogr. 4105 með hendi Jóns Magnússonar eptir frumtransskriptinu. Innsiglin voru öll heil fyrir transskriptarbréfinu.

1) Utan á bréfinu með hendi frá 16. öld.

Þat giorum uier ion prestur arason radsmann og vmbodzman heilagrar holadomkirkiu. tumas eirecksson sacristanus samastadar. grimur ionsson logman nordan og vestan æ islandi og einar einarsson godum monnum kunnigt med þessu voro opnu brefui at vier hofum sied og yferlesid opid bref med heilvm og oskoddvm hangandi inciglum suo latandi ord eptir ord sem hier seigir.

[Hér kemr bréf. frá 1. og 2. Okt. 1371, DI, III, Nr. 226].

Og til sannnnda hier um setium vier firskrifader menn vor incigle firir þetta transkriptarbref er skrifat var æ holvm j hialltadal æ sialfan uppstigningardag vm uorid arum eptir gudz burd ⅿ d xx og ij ær.

---

**81. 2. eða 16. Júní 1522. á Hólum.**

Tuttugu og sjö prestar setja og samþykkja síra Jón Arason sinn og heilagrar Hólakirkju yfirmann og officialem til næstu prestastefnu.

AM. Apogr. 3702 með hendi síra Snorra Jónssonar eptir frumritinu, sem þá var í skjalasafni Hólastóls, en mjög fúið. Það er nú glatað. „Þetta bref er original ä pergament. Ur þvi er rotid stycke ad nedanverdu meir enn upp til mids og eru þar skallar i Copiunne sem j vantar. Hvad mörg Jnnsiglenn hafa verid, siest ecke, enn nu eru þau öll fra". (S. J.). „Denne Copie kom mig til hende 1721. fra Hr. Snorre Jonsson. Originalen ligger i Stiftskisten paa Hoolum, og er paa pergament. A. M". Sbr. Nr. 75.

Þath giorum vier thomas eireksson. nichulas vilialmsson. jon ionsson. þosteinn jonsson. olafur jonsson. olafur hialtason. halfdan narfuason. þorbiorn jonsson. þorleifur jonsson. einar ulfsson. magnus gudmundzson. jon brandsson. steinn markusson. einar magnusson. þorfinnr þorsteinsson. halluardur biarnarson. pall jonsson. þosteinn jllugason. gretter þorualldsson. þosteinn gunnason. jon gudlaugsson. marteinn sueinsson. jon sueinsson. gisle gudmundsson, gisle sugurdsson. steingrimur bessason og besse þosteinsson godum monnum kunigt med þessu woru opnu brefe ath wier

hofum sett og samþykt heidarligan mann sira jon arason. ath wera hola domkirkiu og worn ẏfermann og officialem a [ . . . we]gna og kirkiunnar laga med aullum þeim rett og stett sem rettum officialem ber ath hafua og kirkiunnar log framazt um wotta. skal hann eigi sidur rettur forstiori og domare wera ẏfer aullum kirkiunnar malvm sem til kunna falla og fallit hafua mille hrutafiardarǻr og ulfsdalafialla epter þui sem wier megum med lǫgum framazt samþyckia. skal þesse wor sk[ipan] standa til næstu prestastefnu og þath leingur sem eigi giorist aunnr lǫglig skipan a. samþyckte [þenna worn sam]ning med oss heidarligur mann broder einar med gudz nǻd abote ǻ mukaþuera og sira jon . . . . . . . . . . firir nordan auxnadǻlsheidi og fleire adrer prestar holabiskupsdæmis.

Og til sannenda hier um settum wier wor jncigle fẏrer þetta bref er skrifuat war ǻ hólum j hialltadǻl. ǻ manudagen næstan . . . huitasunnu anno domini ᗰ. d. xx. secundo.

---

82.

## 13. Júní—16. August 1522.

Skýrsla um ferð Ögmundar biskups til Íslands, volk hans og réttu stóra í hafinu og áheit hans og skipverja til Hofstaða-Maríu.

MSteph. 27. 4to bls. 13—14, með hendi Benedikts lögm. Þorsteinssonar c. 1720. — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur BrefaBok Biskups Ogmundar". Sbr. Jón Þorkelsson: Om digtningen paa Island i d. 15. og 16. årh. Kh. 1888, bls. 37.

Um sigling Biskups Ögmundar [hingad til landz.[1])

Oumrædeleg millde og miskunseme vors Herra Jesu Christi og hans uelsignadrar Modur Jungfru sancte Mariæ tiedst og opennberast um allann hejm bæde a sio lande a medal sindugra manna sem lioslega uitnast i þui effterfilgiande efne sem hier effter stendur skrifad.

1) [sl. 62.

Jn primis bar so til ad herra Augmundur[1]) med gudz nad Biskup i Skalhollte biriade sina Reisu af Norege til Jslandz og lagde til sios faustudags kuollded i helgu viku[2]) med lijted skip Anno Domini ꝏ⁰. D⁰. xxij⁰. var hann sialfur ellefte med aunguann styremann utann ejrnn þyskann kompān þann sem alldrej hafde fared utann ejna reisu til Jslandz. feingu þeir bǭgam uind og nadu Hia(l)tlande annann laugardag þar effter[3]). blifu þar so effter i næstu 3 vikur.[4]) Þar epter logdu þeir til sios til Færeya og drou so um krijng langt i Jslandzhaf. Enn ad vigilia sancti Jacobi[5]) kom hofudstormur af nordaustre med siogange miklum. so þeir urdu ad hallda rett undann vedre. Hiet Biskupinn þa med sinum skipmonnum morg hejt og uillde ej uid verda snuande med þad sijdsta sinu hejte til hofuddrottningarennar Jungfru Sanctæ Mariæ sem hejdrast og dyrkast a Hofstodum[6]) firir nordann land i Hola Biskupsdæme. med þui mote ad huer madur innann bordz skyllde lata seigia lofmessu de conceptione beatæ Mariæ og gera mann til greindra Hofstada med offur sem huor lagde til og lysa þar þessare jarteign. Her effter lofade Biskupinn ad lata gera skip af silfre um fimm lod og heingia upp i sagdre Hofstada kirkiu til uitniss um þa jarteign skylldu þeir fǭ eitthuǭrt kristed land ad upphafningardeige [sællrar guds modur[7]) Mariæ sem kallast Mariumessa en firre. dreif þa skiped firir storme og straume nǭtt og dag so langt i utsudurs haf ad þeir sigldu i tuo daga og tuær nætur riett i nordur og komu þa vigilia sancti Laurentij[8]) inn i grænlandz jsa og lǭu þar so under landinu 4 dægur i stillevedre. þotte þeim þa lijtel von a nockru utann med gudz miskunn og arnadar orde hans [vel[7]) signadrar Modur jungfru Mariæ. og ǭ mǭnudags kuǭllded[9]) þar effter foru þeir til seglz og sigldu i austnordaust og þad næsta uinde er þeir kunnu ad hallda. komu so med gudz miskunn i [þeirre[7]) somu viku[10]) i Selǭrdal j Vestfiordum ǭ

1) Ogmund 62. 2) þ. e. 13. Júní. 3) þ. e 21. Júní. 4) þ e. til 13. Júlí. 5) þ. e. 24. Júlí. 6) Hofstadnum, stóð í bréfab Ögm., 62. 7) [b v. 62. 8) þ. e. 9. August. 9) 11. August. 10) þ. e. vikunni frá 10. Aug.—16. Aug.

Jslande med bijholldnu skipe og ollu þui þeim til heyrde. lofudu þa aller gud og hans Modur junfru Mariam.

---

83. **21. Júní—13. Júlí 1522. á Hjaltlandi.**

Bréf Ögmundar biskups í Skálholti til ónafngreinds manns (í Noregi), þar sem hann segist vera að visitera á Hjaltlandi eptir bón (Ólafs) erkidjákna (Eingilbertssonar) og klerkanna, og getr þess að óvíst sé, hvort hann haldi að því búnu til Noregs eða Íslands „því hér er alt fult með reyfara og skálka“.

Landsbókasafn 62 8vo með hendi Grunnavikr-Jóns „Ur Brefabok biskups Ogmundar“. „Ex Hetlandia (ut apparet) scriptæ sunt hæ literæ ad amicum qvendam in Norvegia: Qvasin codice immediate seqvitur Relatio de navigatione Ogmundi Episcopi ex Norvegia in Islandiam Anno 1522“.

Sendebref.

Premissis nostro sincero favore in Domino cum salute.

Kunngiörum vier ydur. kiære vin. ad oss hefur seirna farist enn vier hefdum viliad. ok erum nu i Hia(l)tlande ok visiterum þar epter Erchedieckens bon og klerkanna. Vitum vier nu ecke hvort vier tokum vegin til Jslands þetta sumar edur aptur til Noregs. þvi hier er allt fullt med Reifara ok skalka. þvi bidium vier ydur kiærlega ad bidia fyrer oss ok ollum vorum selskap til vors Herra Jesu Christi.

---

84. **30. Júní 1522. á Öxarárþingi.**

Tylftardómr út nefndr á Öxarárþingi af Teiti Þorleifssyni lögmanni norðan og vestan á Íslandi um ákærur Hannesar hirðstjóra Eggertssonar til Ara Andréssonar fyrir heimreiðir, högg og slög, gripdeildir, fjárupptektir og annan óskunda.

Landsbókasafn 6. Fol. bl. 231, skr. c. 1670. — Kriegers safn 2. 4to bls. 166—170, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700 — Landsbókasafn 122. 4to, skr. c. 1770. Sbr. Nr. 584, 617 og 618.

Domur Wm Gripdeillder Ara Andressonar.

Ollum mỏnnum þeim[1]) sem þetta Brieff siæ edur heyra sender Narfe Sigurdsson. Vigfűs Þőrdarson. Jőn Þőrdarson. Jőn Arnason[2]). Brandur Gudmundsson. Salamőn Eɪjnarsson. Raffn Gudmundsson. Sigurdur Narffason. Þorhalle Ejnarsson. Gudmundur Gudmundsson. Gijsle Gudmundsson og Þorleiffur Jonsson [kvediu guds og sina[3]) Gődum monnum kunnugt [giorandi[3]) med þessu voru opnu Brieffe manudagen næsta epter Pieturz messu og pǻls ǻ almennelegu auxarǻrþ ɪnge þa er lided var fra hɪjngadburd vors herra Jesu Christi 1522[4]) ar vorum vær i dom neffnder aff ærlegum dandismanne Teite Bőnda Þorleifssyne lỏgmanne nordan og vestañ a Jslande ad skoda og ransaka og fullnadardőm a ad leggia wm þa akiæru er hɪjrdstiőren Hannes Eggertsson kærdi þar til Ara Andressonar ad hann heffde griped og tekid sɪjna peninga og Gudrunar Biornsdottur[5]) kuinnu sinnar Bæde fasta og lausa. kuika og dauda og margar adrar gripdeillder og fiǻrupptekter olỏgligar med oheyrelegum giỏrninge med hỏggum og slỏgum er hann heffur veitt mỏrgum saklausum mỏnnum og onguu bætt. [og ad[6]) so profudu og fyrer oss komnu þǻ dæmdum vièr firr nefndañ Ara Andresson lỏglega firer kalladan epter þeɪjrre Beuising sem þar kom fram fyrer oss ɪ domenum.

Jtem j fyrstu grein dæmdum uier tɪjttnefndañ Ara Andresson skylldugañ aptur ad leggia allar þær ɪarder og kugillde med tvennum[7]) leigum og landskulldum og alla þa peninga er hann haffde hafft [frǻ Nűpe rǻnglega[8]). Skilldu þesser peningar gialldast i haust ad Michaelismessu hid seinasta Hannes Eggertssyne edur hans lỏglegum vɪnbodsmanne. Enn firer þær fleɪjre saker sem vær tokum þar ecke jffer og fovetin klagade[9]) þar til hans þa dæmdum vær tittneffndañ Ara Andresson skilldugañ ad koma a hid næsta auxararþɪjng og suara þar sem stefndur ỏllum þeim sỏkum sem þar yrde med lỏgum til hans talad ad heirdum dőmenum.

1) b. v. Kr. 2) Arason Kr. 3) [b. v; vantar í hdrr. 4) ꝏ. v. xx og ij Kr. 5) Kr.; -dotter 6. 6) [huad, hdrr. 7) b. v. Kr. 8) [ränglega fra Nupe Kr. 9) kalladi Kr.

Og til sannenda hier um settum vær fyrrnefnder dóms-menn vor jnsigle fyrer þetta dóms Brieff huórt ed skriffad var a sama are og deige sem fyrr seiger.

---

85. **1. Júlí 1522. á Öxarárþingi.**

Tylftardómr útnefndr á Alþingi af Erlendi Þorvarðssyni lögmanni sunnan og austan á Íslandi um umboð yfir peningum Vigfúsar heitins Erlendssonar, er dæmt hafði verið húsfrú Hólmfríði Erlendsdóttur, en hún hafði talizt undan sökum skulda, er á fjánum hvíldu, og þóttust dómsmenn ekki geta dæmt umboðið af henni.

Landsbókasafn 720. 8vo bl. 60b—61b, skr. c. 1600. — AM. 196. 4to bl. 118b—119a, skr. 1657—1669 (lök afskript, sem hleypir mörgu úr). — Landsbókasafn 790. 4to bls. 209—211, skr. c. 1690.

Domur vm vmbod Barña Vigfuss[1]) Ellijnssonar.

Ollum monnum þeijm sem þetta Brief sija edur heyra señder Jon Þoruardsson[2]). Runolfur Þorsteijnsson. Tumas Jonson. Jon Eijrijcksson. Brandur Gudmundsson. Runolfur hauskulldsson. hrafn gudmundsson. Oddur Þorkijelson[3]). Arñbijorñ Eijnarson. Skulj Thumasson. Þorgijls Olafsson [og Jon Brandsson[4]) kuediu Guds og sijna kunnugt gijorandi þa lijded uar fra [hingadBurdj uors herra[5]) 1522 [ar þrijdija-dægijnn næstan epttijr pijetursmessu og pals[6]) a almenniligu Auxarararþijngi uorum uijer j dom nefndijr af ærligum manj Erlijndi Þoruardssyni[7]) laugmanni sunan og austañ a Jslandj ad skoda og dæma um̃ [þessi umbod[8]) er hustru[9]) Holmfrijdi[10]) Ellijñsdottter hafdi adur [a hendur[11]) dæmtt uerijd yfer penijngum Vijgfusar heijtijñs Ellijñssonar. huortt ad[12]) hun

1) leiðrétt; þorvarðs, hdr. (720). 2) Þorvaldsson 196, 790. 3) Þorleifsson 790. 4) [790; sl. 720; 196 sleppir öllum dóms-mönnunum, nema þeim fyrsta. 5) [lausnarans fæðing Anno (sl. 790) 196, 790. 6) [sl. 196. 7) leiðrétt; öll handritin hafa „Þorualllds syni". 8) [þad mal 790; þessi mál 196. 9) husfru 790. 10) Holmfrijdur 720. 11) [b. v. 790. 12) h. v. 196, 790.

taldijst undan ad hafa sakir [þeirrar aklogunar og skullda[1]) sem a þeim peningum voru[2]) kongsins uegna og annara manna uthlenskra og innlenskra. nu [saker fullrar uorslu og annarar[3]) frændsemj kunnum uijer þetta vmbod[4]) ecki af hennj ad dæma. So og Beijd(d)ijst hun domz a huorija peningunga hun skylldi gijallda j þessar skulldijr þui þar[5]) uar huorkj af barñana peningungum til[6]) skreijd nije uadmal eda anar flytiandij Eyrir. þuij dæmum[7]) uijer hijer alla peningña rijett golldna j faustu og lausu þar sem skijleyrijr þryti. xij fijordunga smijors fyrer gillt[8]) c fijska. fiogra uetra gamallt naut fyrer gillt[9]) fisk(a) hundrad. gamalltt naut fyrir cc. fiska[10]). fijorijr saudijr gamlijr fyrer c. Enn ef jarder eru[11]) golldnar þa skylldi gijallda [xc j jordum[12]) fyrer lest skreijdar med þeim skijlmala ad Erfijngar eda þeijrra umbodzmenn skylldi meijga leysa apttur tijl sijn fyrer skreid[13] half(a) fiordu uætt fyrer huortt hundrad j jordu. skylldu þeijr leyst hafa jnnañ iij[14]) ara ad forfallalausu. Enn ef skulldamenn uijlija eij þessa peningunga taka þa dæmum[15]) uijer ad skulldijrnar skylldj standa alagalausar þar tijl þær jrdi golldnar j rijettum skijleyrijr. En hustru[16]) Holmfrijdur[17]) og allijr hennar menn skylldu[18]) frijalsijr og frijdhelgijr fyrer aullum þessum skulldamonnum huortt sem[18]) þeijr fara hennar uegna[19]).

[Samþycktti þennan uorn dom adur greijndur laugmann og setti sijtt jnnsijglli[20]).

---

86. 1. Júlí 1522. á Öxarárþingi.

Kosningarbréf Teits bónda Þorleifssonar til lögmanns norðan og vestan á Íslandi, er þingheimr biðr konung að staðfesta.

---

1] þeirra skullda og aklogunar 790. 2) 196, 790; sl. 720. 3) [196' 790; sokum uorslu og fullrar 720. 4) b. v. 790. 5) 790; þa 720. 6) b. v. 790. 7) dæmdum 196. 8) b. v. 196, 790. 9) b. v. 196; 10) b. v. 790. 11) væri 790. 12) [Eitt hundrad hundrada 790. 13) skre-skrd (!) 720. 14) tiu 196. 15) dæmdum 196, 790. 16) husfru 790. 17) 196, 790; holmfrijdi 720. 18) b. v. 790. 19) erend 790 og 196, sem bætir hér við „et cetera". 20) [sl. 196.

AM. Fasc. VIII, 3, frumritið á skinni. — AM. Apogr. 1261 eptir frumritinu, og lýsir Árni þar innsiglum bréfsins. Um innsigli Jóns Þórðarsonar segir hann: „Þetta innsigle Jons Þordarsonar er riett hid sama sem hanger (qvarto loco) under alite eda domi um ägreining mille Hanness Eggertssonar, hirdstiora, og Til Peturssonar, skrifudu i Videy feria qvinta infra octavas pentecostes 1523“ (= 28. Mai). „Brefed hefi eg feinged fra Haga á Bardaströnd, mun vered hafa arfur nidia Hanness Eggertssonar, mann epter mann“ (AM.). — Prentað í Safni til sögu Íslands II, 200—201. Sbr. Sýsl. I, 483

kior teitz þorleifssonar til logmanz[1])

Ollum godvm monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra. Senda hans egertson hirdstiore og hofdusmann[2]) yfir allt jsland. erllindr þorua(r)dson logmadr sunnan og austan a Jstlande[3]). fuse þordarson. Jon þordarson. narfe sigurdzson. sigurdr narfa(son). þorle(i)fur grimson. salammon einarson. gudmundr gudmundzson. asmundr klemmesson. hrafn gudmundzson. skule gudmundzson. þormodr arason. brandr olafson. þa er lidit var fra hingad burd vors herra jesu christi. ꝺ. v. hundrud .xx. og .ij. ar manvdagin næsta eptir peturs ꝺesso og Pals a almenniligu oxarar þinge. kiorum vær og samþygtum fyrnefndir menn med ollum almuganum autan[3]) logrettu og jnnan ærlegan dandi mann teitt Bonda þorleifs son fyrir fullmegtugan logman fyrir nordan og vestan a jslandi. fyrir þa grein oss leizt hann beztt til fallinn fyrir allra hluta sakir megtar og manndomz vizkv og virdingar forsionar og femuna og allra þeirra hluta sem einum heidrs manne ber at hafa. so og vissum vær (hann) allir vijsazsta borgun fyrir hafa þessu mins herra kongsins starfe og þionuztu fram at fylgia. þvi bidium vier ydra verduguztu nad audmiuklega herra kong kristiern at hylla (og) styrkia þenna vorn giorning med ydru nada brefi.

Og til sanninda hier vm settum vier fyr nefndir menn vor innsigle fyrir þetta kiors bref er skrifat var a almennelegu oxar(ar) þinge deige sijdar en fyr seigir.

---

1) Utan á bréfinu. 2) þannig frumbréfið; *rétt* hofudsmann. 3) Svo.

87. 5. Júlí 1522. á Bessastöðum.

Hans Eggertsson hirðstjóri og höfuðsmaðr yfir alt Ísland kvittar Jón Hallsson um skattinn af Skaptafellsþingi, „er kölluð er Síðusýsla“, um tvö ár, svo og vegna húsfrú Hólmfríðar Erlendsdóttur um reikningskap af Rangárþingi og um skipatollinn af Vestmannaeyjum vegna barna Vigfúss heitins Erlendssonar.

AM. 191. 4to bls. 59, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, rituð samtíða á skinn. — AM. 5524 með hendi Arna Magnússonar.

Þat giorer ec hans egerdzson hirdstiore og hofudsmann yfer alltt ȷsland godum monnum kunigt med þessu minu opnu brefe ad þesse brefuisare ȷon hallzson hefer stadid mier rettan reikningskap og goda nægiu fyrir skatten af skaptaferlzþinge er kollud er sidusysla nu upp (á) .ij næstu ar forliden. somuleidis hefer hann og giortt mier reidu og reikningskap uegna husfru holmfridar erlendzdottur utt af rangarual(l)asyslu. og suo tollen af vestmannaeyium af þeim iiij skipum sem þar lagu ȷ fyrra sumar. huad hon hafde vmsia yfer haft uegna barna uigfus heitens erlendzsonar brodur sins. sem domur þar um gior hafde henne til sagt og þui gefur ec og giorer adr skrifadur hans egerdzon fyrnefndan ȷon hallzson og adr greinda[1]) holmfride bædi samtt sinna uegna og barna uigfus erlendzsonar kuitta og akærulausa hier um fyrir mier og ollum minum epterkomendum kongs umbodsmonnum. suo og skolu þeir aller kuitter sem þratt nefndr ȷon hallzson hefer kuitta gefit ȷ adr greindum syslum. Og til sannenda hier um set ec mitt ȷnnsigli fyrir þetta kuittunarbref skrifad á bessastodum á alftanesi laugardagen næstan epter peturs Messo og pals þa lidit var fra guds burd .M. d. xx og ij ar.

---

88. 21. Júlí 1522. á Bessastöðum.

Hans Eggertsson hirðstjóri og höfuðsmaðr yfir alt Ísland

1) greindan (!) skb.

kvittar Jón Hallsson vegna húsfrú Hólmfríðar Erlendsdóttur og vegna barna Vigfúss heitins Erlendssonar um 83 lóð silfrs og tvær lestir fiska upp í skuldir Vigfúss til konungs.

AM. 191. 4to bls. 61, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, rituð samtíða á skinni. — A M. Apogr. 5523 með hendi Árna Magnússonar.

Þat giorer ec hans egertzson hirdstiore og hofudzmann yfer allt Jsland godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi ad ec medkennunzt ad jon hallzson hefer greitt mier og golldit uegna husfru holmfridar erlendzdottur og uegna barna uigfus heitens brodur hennar upp á þa skulld sem adur nefndur uigfus logmann uar skylldugur minum herra kong cristiern .lxxx. lod silfurs og .iij. betur og þar til tuær lester fiska til gilldis upp á uigt. og þui giorer eg og gefur (eg) adr skrifadur hans egertzson fyr nefnda holmfride erlendzdottur uegna barna uigfus heitens logmannz kuitta og akærulausa um .iiij. lester fiska af adr greindri mins herra kongsins skulld. Og til sanenda her um set ec mitt Jnnsigli fyrir þetta kuittanarbref skrifat a bessastodum á alftanesi manudagen næstan epter thorlaks Messo. þa lidit uar fra guds burd .M. d. xx og ij ar.

---

89. 28. Júlí 1522. á Bessastöðum

Hans Eggertsson hirðstjóri yfir alt Ísland veitir velkendum manni Jóni Hallssyni til umboðs um þrjú ár Skóga og Skógaeignir og Mörk og Merkreignir undir Eyjafjöllum fyrir ánefnt eptirgjald. Þar með fylgir skýrsla um bygging á þessum jörðum.

AM. 191. 4to bls. 24—26, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, rituð samtíða á skinn. — AM. Apogr. 5526.

Þat giorer ec hans Egertzson hirdstiore og hofudsmann yfer allt Jsland godum monnum kunnugt med þessu minu opnu brefi ad ec hefi feingit uel kendum manne Jone hallzsyne til fullrar eignar og frials forrædis allar þær land-

skyllder og leigur sem minum herra kongenvm og mier til heyra under eyafiollum af skogum og skoga eignum og suo mork og merkur eignum og nu þetta ar eiga ad takazt ȷ haust og ad uore komanda ȷ fardogum og suo þar epter ij. ar næst komande. Skal adur greindur ȷon hallzson þessar fyrnefndar mins herra kongsen(s) iarder frelsiliga byggia og byggia lata med slikre leigu sem hann kann af stad ad koma sitt hid bezta ȷ adur greindum tima og allar nytsemder af eiga og af hafa af rekum og skogum eignum edur ȷtokum. Hier ȷ mot skal optnefndur ȷon hallzson greida mier og giallda uppæ h[vert] ar .ujc. fiska til gilldis halfa fiordv uætt ȷ huort hun[drad] ef ecki semur um gilldingena og hier til skal hann fa mier iij uetter smiors og .ii. c. ȷ nautum edur saudum upp ǻ huert þetta adur greint ar en þratt skrifadur ȷon skal hier ȷ mot obrigduliga ad sier taka og eignazt allar adur greindar landskyllder og leigur epter þau iij kugillde sem þar fylgia. skal tittnefndur ȷon hallzson þetta allt eignazt fyrir utan allan reikningsskap uit kongdomog mic framar meir en adur er hier um skilid. Skal hann þessi adurgreind. ujc. fiska og suo smioret og hin .cc. greida og giallda ǻ bessastodum. Ridi biskup yfer ȷ sina uisitatiam ȷ þessum optgreindum þrimur arum þa skal ec hans egertzson sialfur honum suara bæde gisting og reikningskap af skogum og suo halfre mork en ȷon hallzson skal þar um fríj og frialss og þeir sem hann bygger adur greindar iarder. Og til fullra sannenda hier um heingi ec mitt incigli fyrir þetta bref skrifat ǻ alftanesi ǻ bessastodum ma(n)udagen næstan olafs ɱesso fyre þa lidit uar fra gudz burd ɱ. d. xx og .ij. ar[1]).

---

Jtem uar þa þessi bygging ǻ greindum kongs eignum æ þeim ȷordunum sem bygdar voru.

stæri skogar bygder fyrir .ccc. og suarar preste. kirkia atte þa. vijc. ȷ fridum peningum.

aeystre[2]) skogar ȷ eydi.

horduskali ȷ eydi.

1) Hér hættir Apogr. 5526. 2) Svo.

Jtem drangshlid bygd fyrir .ccc. þar uoru med .iij. kúgilldi afgomul.

skárdzhlid uar byg̃d fyrir halft annad hundrad.

backakot fyrir x aura.

berianes fyrir xij aura.

lambafell fyrir uiij ágilldi.

Jtem merkureigner.

storumork j eydi bæde nidurbroten hússagardr og kirkia.

midmork byg̃d fyrir c.

half fit bygd fyrir .uij. ærgildi. en half var j eydi.

hali var bygdr fyrir .c.

Jtem ad saman reiknudu af þessum huorum tu(e)gium kongs eignum voru xiijc. landskylldernar þa jon hallzson tok uid þeim.

---

90. [1522].

STEFNUFORSÖGN Jóns Hallssonar sýslumanns í Rangárþingi.

AM. 191. 4to bls. 1; bréfabók Jóns skálds Hallssonar rituð samtíða á skinn. 14 fyrstu línurnar eru afarmáðar og verðr eingin full ábyrgð á lestri þeirra tekin. Með mestu yfirlegu mætti þó, ef til vill, lesa orð og orð á stangli framar en hér er gert.

Eg jon hallzson kongs umbodsmadur j rangarþinge stefne þier N hier nu j dag j ꝧ a þingstad rettan . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . vpa kongdomsens uegna . . . sekan . . . . . . . . . þu hefer ecki gollldit mins herra kongsens skatt . . . . . . næstu .u. lidin aar . . . kæri ec þat til þin at þu hefer eigi giort þina tiund er þier hefer borid . . . . . . þa eg . . . . þing . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . kæri ec til þin at þu . . . . . . . . . . . suo og hefer eingua . . . . . . . . . . . kongdomenum . . . . . . . . . . . . hier med logum fremst giora. sittu suo leingi stefnuna sem endilegur lagauegur

fellur æ þitt mal. stefni eg þier ad ordafullu og logmali rettu ad uitne allra þeirra er ord min heyra[1]).

hin þridia sok. kæri ec til þin ad þu lofader mier med handsali æ þiodolfshaga þingi og h[iezt] ad þinn skattur skyllde komen uera til hlidarenda fyrir . . . kæri ec þat til þin at þu hefer ecki sockt þitt skylldubing vpp æ vijreisur er ec hefe þingat.

þa fiordu sok ad þu hefer bored a þer hnif sem bok fyrirbydr ad bera .cc. reisur eda optar. Hier med hefer þu borit skrudklæde framar en logen lofa þier adr þu hefer ʀikdom haft .cc. reisur edr optar. stefni ec þier ad ordfullu og log(male riettu).

---

## 91. [1522].

Jón Hallsson kongs umboðsmaðr á Rangárvöllum stefnir Þórði Hallssyni til Hvols í Hvolhrepp undir þann dóm, sem hann nefnir yfir honum fyrir óheimila aðtekt á skógi í Næfrholti.

AM. 191. 4to bls. 2, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, rituð samtíða á skinn.

Eg jon halson kongs umbodsmadur a r(angar)v(ollum) stefni þier þordr hallzson til h(uols) j huolhrep æ þingstad ʀettan a N. fyrir mic under þan dom sem ec yfer nef(n)er hvorra suara eda segta þu uerdr mier skylldugur fyrir þær saker sem ec kæri til þin at þu hefer gripid eda stolid minum skogi j næfurhollte. v. reisur edr suo optt sem þu getur ecki afbatad og fyrir þær fleiri sak(er) sem ec ma þar med logum til þin tala um klædaburd og rytinga. vertu kominn fyrir h(adegi) og sit suo leinge stefnuna sem lygtan fel(l)r æ þesse ockar mal. stefni ec þier ad ordfullu logmali rettu ad uittni þinu N.

---

1) Það, sem nú fer eptir, er ritað með öðru bleki og er nokkurn veginn skýrt sumstaðar.

92. 18. August 1522. á Hólum.

Klerkar nyrðra, 62 að tölu, kjósa Jón prest Arason til biskups fyrir norðan land.

AM. Apogr. 4070 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali: Brefed er a kalfskinn. allt hingad og þangad melieted. med smägötum. so sumstadar verdur ecke lesed. fyrer þvi synast ad hafa vered 47 hangande Jnnsigle. eru giörsamlega öll j burt. enn epter þveinger ad tölu 39“.

Uer broder einar med gudz nad abote ä mukaþuerä. broder helge med samre nad abote ä þingeyrvm. finnboge ionson[1]). jon finnbogason officialis höladömkirkiv. jon gislason. þorsteinn ionson. tvmas eirikzson. gilbrickt ionson. nichulas vilhialmsson. eigill hallson. jon jonson ä myklabæ. Jon annar[2]) ionson. þorbiorn iönson ä wollum. olafur hialltason. sueinn finnbogason. olafur iönson. tumas ionson. jon marteinson. hallur asgrimson. halfdan narfuason. Raugualldur Raugualldson. teitur magnusson. jon olafson. jon philpusson. sigmundur gudmundson. loptur peturson. olafur gudmundson. jon gudmundson. þorbiorn ionson. tumas einarson. jon brandson. jon gudlaugson. þorsteinn gunnason. magnus gudmundson. ketill ionson. gisle gudmundsson. gisle sygurdson. marteinn sueinson. halluardr biarnason. þorfinnur þosteinsson. einar ulbson. þorleifur ionson. jon sveinson. sniolfur ionson. þorvalldur olafson. gretter þorvalldson. steinn marcusson. olafur hallson. andres asgrimson. besse þorsteinson. Jon magnusson. einar hallson. eirekur palson. jon ionson. ketill hallson. þorkell þorolfson. steingrimur bessason. pall ionson. jon sygurdson. besse ionson. gunnar þordarson og jon oddzson prestar hola biskupsdæmis giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ath wier feingum bref og bodskap almenniligs capitula heilagrar nidaross kirkiu suo hliodande mille annara greina. ath skipa oss og fullkomligt samþycke til gefua. ath wier skylldum vt velia og til[3]) sin senda einn mann. þann sem wier vilivm til hafa

[1]) Svo. 2) Hér er bil í Apogr. fyrir einu stuttu orði. Ekkert sýnist þó vanta í. 3) Hér er autt bil í Apogr. fyrir eitt stutt orð. Ekkert sýnist hér þó í vanta.

ath vera wor biskup og forstiore heilagrar hola domkirkiv i jslande. svo og er þad gamall og godur landzens vane ath epter biskupa frafall giorist almenniligur kennemanna-fundur jnañ biskupsdæmis. og ath vtveliest eirñ vel myndugur mann j [stad þess sem] fra falleñ er. og þann same fram sendizt til almenniligs capitula heilagrar nidaross kirkiu huar wier vitum. ath kosningurenn ath logum tilheyrer. þui fyrir þessar greiner. hofum wier utvalit og samþyckt og med handsale trulofat. ath wier vilium heidarligañ mann sira jon arason til welia ath uera wor biskup og hola domkirkiu yfermadur. witum vier hann j morgum greinum vel til fallenn slikrar stettar. þui audmiuklega bidium vier worn andaligañ faudur j gude herra erchibiskupenn i þrañdheime og þá godu herra sem nidaross domkirkiu forrad hafa. ath þeir samþyckist worvm vilia hier um og til hialpe[1]) þessu woru yfermanns efne og sendiboda. suo hann meige med gudz uilia sinu erinde vel fram koma. þath vilium vier med aullu godu og audmiuku litilæti og þionustu med ydur vel forskullda. þui þath er vori domkirkiu miog skadvænligt ef oss er jnnsendur okunnur eda utlendur yfermadur.

Og til meire audsyningar og sanenda hier vm. setivm vier wor jncigle fyrer þetta bref er skrifuat war á holum hialltadal manudagenn næstañ epter asumptionis beate marie uirginis anno domini $m^o$. $d^o$. $xx^o$. secundo.

---

**93. August—September 1522.**

Bréf Ögmundar biskups til Teits lögmanns Þorleifssonar um að styrkja kongsins rétt með friðsemi og án fjölmennra yfirreiða.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Ogmundar“. „Hæ literæ absqve dubio scriptæ sunt anno 1522, brevi post reditum Ogmundi in Islandiam. In codice habentur post Relationem de navigatione Ogmundi ex Norvegia in Islandiam hoc eodem anno 1522“.

1) Hér er autt bil í Apogr. fyrir tvö stutt orð. Ekkert sýnist þó vanta í.

SendeBref.

Frater Avgmundus Dei gratia episcopus Skalholtensis. sincero favore nostro præmisso.

Kunngiðrum vier ydur kiære Teitur bondi. ad oss er sagt. ad þier erud Lögmann nordan og vestan á landinu. þvi bidium vier ydur kiærlega ad setia nidur med spekt ok sidseme allar agreiningar so leinge ad lög mætte ganga á alþinge ad sumre komanda vors nadugasta herra kongsins vegna og landsins ed besta. þvi þad er hans vilie og skipan. epter þvi brefe sem vier hofum feingid af hans nád. þvi vier skulum giarnan styrkia hans nádis foveta vid hvorn sem skipta er. fordandis so allar areider og fiölmenne upp a fatækan almuga. suo ad kongurinn misse eige þar fyrer sinn skatt eda skylldur. þvi þad hefur hann streyngelega bannad oss og ollum audrum. helldur hitt ad vær skylldum aller eitt halda kongs valld og kyrkiu upp á ed besta. bidium vær ydur kiærlega ad minnast upp á þann reikningsskap sem vier skrifudum ydur til [i sumar[1]). ydra kirkna vegna et cetera.

---

94.

**19. September 1522. Í Bæ á Rauðasandi**

Ari Andrésson leggr Hannesi Eggertssyni hirðstjóra og höfuðsmanni yfir alt Ísland aptr Læk og Lækjareignir, Núp og Núpseignir með leigum og landskyldum, ennfremr aðrar jarðir, sem Hannes hefir áðr haldið, og aldrei eptir tala, — og handsalaði Ari sig til Alþingis að sumri að svara til saka við konungdóminn.

Kriegers safn 2. 4to bls. 170—172 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700

Þad giörum vær Teitur bondi Þorleifsson lögmann nordañ og vestañ á Jslandi. Jon bondi Einarsson. Jon Jonsson. Skuli Gudmundsson. Þormodur Arason. Asmundur Klemisson. Jon Jonsson godum monnum kunnigt med þessu voru

1) „i sumar. Þad kann hafa vered ur Norege, eda Hetlande“, 62.

opnu brefi. fôstudaginnn i ymbruviku um haustid á Bæ á Raudasandi árum epter Gudz burd þusund .vc. xx. og ij ár vorum vær i hia. saum og og heyrdum á ord og handaband þessara manna Hannes Eggertzsonar hirdstiora og hôfudzmann(s) yfir allt Jsland af einni álfu. enn Ara Andressónar af annare. og svo fyrir skildu. ad greindur Ari Andresson lagdi aptur Læk og Lækiareignir. Nup og Nupseignir og leigur og landskylldir upp á ij ár. þad hid þridia sem þar eptir komanda fellur á. og þad hid fiorda sem þeir lôgdu til alþingis. Hier med lofadi hann aptur ad leggia allar þær jardir er Hannes Eggertsson hafdi ádur halldid og alldrei upp a þessi gotz hier eptir tala. Svo og handsaladi sagdur Ari Andresson sig Hannes Eggertzsyni fyrnefndum fovita til alþingis ad sumri. at svara þar sem lôglega stefndur ôllum þeim sôkum og sakferlum er hann hefir þar til hans ad tala kongdomsinz vegna og sinna. Og til sanninda hier um setta eg teitur þorleifsson lôgman nordan og vestan á Jslandi mitt Jnsigli med fyrnefndra manna Jnsiglum fyrir þetta giôrningsbref. Skrifad i Haga á Bardastrônd. þridiudaginn næsta fyrir Mikaelismesso[1]) um haustit á sama ári sem fyr seigir.

---

**95. 21. September 1522. á Svalbarði.**

Sigmundr prestr Guðmundsson og Kristín Þórarinsdóttir móðir hans gefa hvort öðru, sem lengr lifði, jörðina Hlíð á Langanesi, og handfestir Kristín bókareið að því, hverja peninga hún hefði haft úr föðurgarði.

AM. Fasc XLV, 18, frumrit á skinni frá síra Skúla Þorlákssyni. Af 6 innsiglum eru 2 fyrir. — AM. Apogr. 4413.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra. Senda þorkell avgmundzson þorgrimr stvllason þoralldr iönsön þorstein gunlögson[2]) jon jhervnson[3]) ok arne jonson.

1) þ. e. 23. Sept. 2) Svo. 3) „ita extat. intellige ni fallor Jorundsson" (AM. Apogr. 4413).

kuediu gudz ok sina. kunigt giorande þa er lidit uar fra hingatburd uors herra iehsu christi fim hundrut xx ok ii ar a sualbardi ȷ þistilzfirdi a sunnudagen næsta epter crosmesso um haustit uorum uer ȷ hia saum ok heyrdum a ord ok handaband þessara manna sira sigmundar gudmunzsonar ok cristinar þorarensdottur modr hans: huort þeirra er annat lifer skylldi eiga iordina hlid er liggr a langanese til æfinligrar eignar ok frials forrædis. Suo ok han(d)festi cristin þan bokareid at hun hefdi eigi meiri peninga hapt or faudrgardi en hier seger ȷn primis ȷordina holt ȷ mydal fyrir fiogr hundrut ok xx. v. kyr ok xuiii ær. eit(t) asaudar kugildi er hun sagdi þoraren bondi sigmundzson hefdi goldit eyolfi einarsyni uegna[1]) gumundar andressonar. iiij saudi gamla. x aura ȷ busgagni. ein kros liten er hun sagdi fader sinn hefdi gefit seier[2]) seinna. ein hest. hestamoder med folaldi. tuæuet trypi. atta smakappa[3]) ȷ x aura. ein sæng. Ɛn cristin sagdi at gudny þorarensdotter syster siñ hefdi hapt or faudrgardi tuær ȷarder hollt ok kelldudal ȷ xxx hundrut ok þar til x hundrut ok alla þa peninga er cristin ȷonsdotter moder þeirra tock ȷ arfnlausn[3]) af gudmundi lunta brodr sinum utan ein hest raudan er hvn feic[3]) sira ȷoni syni siñvm. Ok til sannenda hier vm settvm ver fyr nefnder menn uor incigli fyrir þetta bref skrifat ȷ sama stad ok are sem fyr seger.

---

96. 24. September 1522. á Hólum.

Tylftardómr klerka útnefndr af Jóni presti Finnbogasyni officialis heilagrar Hólakirkju um kærur Jóns prests Arasonar dómkirkjunnar og sinna vegna til Helga ábóta Höskuldssonar um borgun á sakeyri, um hald á silfri fyrir dómkirkjunni, og um samneyti, ráð og styrk við þá menn, er í hel slógu Árna heitinn Bessason (á Sveinsstöðum).

AM. Fasc. XLV, 13, frumrit á skinni. Fyrir bréfinu eru 3 innsigli, og hafa þau aldrei fleiri verið. — AM. Apogr. 2933.

1) tvískrifað. 2) Svo = sier. 3) Svo.

Domur vm abotann Helga Hoskulldson.
1522.[1])

Þat giorum uier nichulas uilhialmsson. þorbiorn ionsson. tumas eir(e)ksson. olafur hialltason. ion ionsson. tumas ionsson. ion brandzson. ȷon olafsson. magnus gudmundzson. þorsteinn gunnason. ion gudlaugsson og marteinn sueinsson prestar holabiskupsdęmis godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi. at arum epter gudz burd .ɱ. d. xx. og ij. ar midkudagin næstan epter math(e)i apostoli. at domkirkiunne ꝺ́a holum ȷ hialltadal. vorum uier j dom nefnder af ærligum manne sira ȷone finbogasyne officialis heilagrar holadomkirkiu. at dęma um þa akęru er sira ȷon arason suarsmadur heilagrar hola domkirkiu kærdi til abota helga hauskulldzsonar. holadomkirkiu uegna og sinna. enn fyrir þa grein. at adur nefndur sira ȷon arason stefndi adur nefndum abota helga þar ȷ sama stad og deigi at oss aullum nær uerandvm og a heyrandi. þui dęmdum uier stefnuna logliga. og abota helga riettiligana fyrir kalladan. þar ȷ sama stad og deigi. enn fyrir ena fyrstu grein er ȷ stefnunne stod og sira ȷon arason kęrdi til abota helga. at hann hefdi ei lukt þau .xxc. sem hann giekk ȷ borgun fyrir asgrim grimsson at gialldazt skýlldi ȷ holadomkirkiu sakeyri. epter þui sem bref gottskalk(s) godrar minningar reikningsskapsbok og hans eigiṅ handskript ȷnne helldur. enn fyrir þa grein. at oss sýndizt aboti helgi ȷ aungre ueralldligre borgan standa mega. sierliga um leikmanna mal edur sakeyri. þui dęmdu vier nefndan asgrim skýlldugan at giallda adur sagdan sakeyri. þat sem ogolldit er. at næstum fardogum. enn abota helga uid skilinn þa skulld suo framt sem hann hafi aungua peninga upp borit af adur greindum asgrime grimssyne. ȷ fyrr nefndan sakeyri. ȷ annare grein er ȷ stefnvnne stod og sira ȷon kęrdi til abota helga. at hann hefdi ei golldit þa peninga aptur sem honum hefdi lanader verit af domkirkivnnar peningum. enn medr þui at hann medkendizt fyrir oss at hann hefdi at lane teked domkirkiunnar peninga. þui dæmdum vier abota helga skýlldugan aptur at

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

giallda domkirkiunnar vmbodzmanne at nęstum fardogum þuilika peninga. sem hann tok at lane vnder sin sanneñdi. ȷ þridiu grein er sira ȷon arason kęrdi til abota helga. at hann hefdi eigi aptur lýckt domkirkiunne þat silfur sem biskup gottskalk godrar minningar hafdi honum ȷ hendur feingit. medkendizt og aboti helgi þar fyrir oss. at hann hafdi silfrit medtekit og ei aptur golldit. þui dęmdum vier abota helga skýlldugan aptur at giallda domkirkiunnar vmbodz(m)anne at næstum fard(a)ugum ȷafnmikit silfur edur adra peninga ȷafngoda. ȷ iiij grein er sira ȷon arason kęrdi til opt nefndz abota helga vm samneýti vid þa menn sem opinberliga hauldv gripit þria hesta fyrir domkirkiunne. sem er ȷon einarsson og eyiolfur halldorsson. þui dęmdum uier abota helga skýlldugan. ad leida tua(u) loglig uitne. ȷnnañ fiortan natta enu næstu fyrir sira ȷone finbogasyni officialis heima at domkirkiunne edur hans logligum umbodzmanne sem hann þar til setur at hann hafi alldri samneytt fyrr greindum monnum sidan þeim uar su sok gefiñ. af domkirkiunnar umbodzmanne vm fyrr greint hestagrip. enn at uitnum leiddum sie hann kuittur um þessa sakargipt. enn fallnizt honum þesse vitne þa dęmdum vier hann sliku sekan sem kirkivnnar log þar vm uotta. ȷ .v. grein er sira ȷon arason kęrdi til opt nefndz abota helga um samneýti. rad og stýrk. er hann ueitt hafdi þeim monnum sem ȷ hel slogu domkirkiunnar þionustumann. arna heiten bessason. enn slogu og særdu. x. eda fleire adra lærda og leika domkirkiunnar menn. var þesse sauk at abota helga med. ij. presta og fleiri annara godra manna vitnisburdi. þui dæmdum vier adurnefndum abota helga. at taka tilheyriliga skript og lausn. þar ȷ sama stad og deigi af fyrr nefndum sira ȷone finbogasyni officialis. fyrir adur sagt samneýti nema hann sýniadi med eidi sinum þar strax. ȷ sama stad og deigi. at hann hefdi ecki samneýti rad eda stýrk haft med adur greindum laugbroztmonnum. en ef hann þriozskadizt hier ȷ mot þa dæmdum vær hann sliku sakadan. sem kirkiunnar laug ut uisar vm þa menn sem rad stýrk eda samneýti veita þeim monnum sem þeir vita at vis uitandi eru

ȷ banne af sialfs sins uerkum. enn vm þær fleire saker sem ȷ stefnunne stodu og sira ȷon arason kærdi til opt nefndz abota helga. dęmdum uier. at skodazt og rannsakazt skýlldi ȷ nestu almenneligre prestastefnu sem halldiñ verdur ȷ hola biskupsdęmi og þa bada skýllduga þar at koma med aull sin prof og skilrike þat sem þeim ma til bata uerda ȷ greindum malvm.

var þessi uor domur vppsagdur at abota helga nęr uerandi og ꝺ́ heýranda.

samþýckte þenna uorn dom sira ȷon finnbogason officialis med oss og sette sitt [officialtus[1]) ȷnc̓igle med vorum ȷnciglum fyrir þetta domsbref er giort uar ȷ sama stad og dag sem fyrr seiger.

---

97. **18. Október 1522.** Í Viðey.

Gjafabréf Helga prests Jónssonar áðr en hann gaf sig inn í Viðeyjarklaustr, þar sem hann gefr jörðina alla Hvamm í Norðrárdal, ásamt Galtarhöfða og Sanddalstungu, til beneficium og leggr þar til lausafé, með fleiri gjöfum og öðru fjárskipti, er hann gerir.

Eptir Kirkjustóli („Höfuðstólsbók") á skinni kirkjunnar á Hvammi í Norðrárdal, nú í Landsskjalasafni, skr. c. 1670. — Landsbókasafn 101. 4to bls. 272—73 með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1730. (= *b*). — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Ogmundar" (= *c*).

Um Hvam̃ i Nordurardal.[2])

Wier brőder Augmund med gudz nad biskup i Skălhollte giorum gődum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. at Lucasmesso um veturinn i Vijdeý Anno domini ⅯⅮ°. d°.xx. ij. giordi sira Helgi Jonsson suodan skipun og Testamentum med voru radi fyr eñ hann gaf sic ȷnn i Vijdeyar klaustur til brődurstettar.

Jn primis gaf hann kirkiunne i Skălhollti og sancte Thorlaki [og hinum heilaga Nicholao[3]) ȷőrdina alla Hvam̃ i

1) [Svo. 2) *c*; Brief Øgmundar Biskups um Testamentisgiörning sins Helga Jonssonar og giöf á Hvamme i Nordurardal Anno 1522, *b*. 3) [sl. *c*.

Norðurárdal og þar med jardernar Galltarhöfda og Sanddalstungu er reiknazt[1]) iiij hundrud og. xx. i suodan máta. ad greindur [biskup Augmund[2]) skylldi láta jördina vera beneficium eda kirkiunnar eign i Skálhollti. jtem gaf hann kirkiunne i Huammi. xx. málnytu kuijlldi og .x. hundrud i þarfligum peningum. Jtem gaf hann heilögu klaustri i Vijdey .xl. hundrud i jördunni Nordtungu er liggur j Þuerarhlijd og þar til xx hundrud i kuijlldum og þarfligum peningum og þad ad auki sem hann hafdi adur lagt til klaustursinz i gódum peningum.

Jtem skipadi hann sonarsonum[3]) sinum tueimur Jóne og Helga hundrad hundrada badum. til greindar [jarder[4]). dýrastadi. iiij. hundrud og .xx. og geststadi .xij. hundrud og .v. hundrud i Deseý og þar til. xx. hundrud i kuijlldum og þarfligum peningum. og skylldi þetta[5]) hlutur Jonz Helgasonar.

Jtem skylldi Helgi Helgason eignast i sinn hlut jördina Hamar fyrir. xvj. hundrud og jördina Grisatungu fyrir iiij hundrud og. xx. liggur önnur jördin i Nordtungu kirkiusokn. enn ønnur i Stafholltz kirkiusókn og þar til xx hundrud i kuijlldum og þarfligum peningum. Jtem gaf hann sistrum sinum þrimur sin .v. hundrud huorre. enn fatækum þat sem af fram kan at hlaupa.

[Voru þar vitnismenn til kallader at þessum giorninge. Hrafn bondi gudmundzson og Jon Magnusson. og settu sin jnnsigli med voru jnnsigli fyrir þetta Testamentum bref skrifat i sama stad deigi og ári sem fýr segier[6]).

---

## 98. 19. Oktober [1522]. Í Viðey.

Vígslu og skipunarbréf handa Helga presti Jónssyni til ábóta í Viðeyjarklaustri, útgefið af Ögmundi biskupi.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Ogmundar“. „Brefed er ärstalslaust i bokinne. er sem

1) reiknadest c. 2) Augmund Byskup *b.* 3) Svo *a* og *b;* sonum c. 4) [sl. *c.* 5) vera, b. v. c. 6) [slept í *c.*

adur ðefad daterad 1522. stendur þar og næst epter tvö bref Øgmundar biskups daterud 12. kal. Junii 1522".

Abotabref.

Vier broder Øgmund med guds nad biskup i Skalhollte ok visitator yfer Holabiskupsdæmi. heilsum öllum godum mönnum þeim sem þetta vort bref siä edur heyra med guds kvediu ok vorre. kunnugt giörande. ad ä sunnudagin næsta epter luce Evangelistæ dag um vetrinn. vorum vier i vorre visitatione til Videyiar klausturs. um̄hugsande þar med conventubrædrum ok morgum odrum godum monnum̄ lærdum og leikum. hæfelegañ og naudsynlegan formann til klaustursins i andlegum hlutum og veralldlegum. ok saker þess ad med ongvo mote er lidanda epter heilagrar kirkiu lögmäle og pävanna setninge. ad nockud klaustur blife äleingdar fyrer utan sinn riettan hirder og hofudsmann. þvi i heidur vid gud og hans velsignada modur. fru Sanctam Mariam. ok enn blessada Augustinum biskup. ad h(eilags) anda näd til kalladre med oss consecrerudum vier nppä fyrrskrifadan dag erlega personu Sera Helga Jonsson fullmegtugan abota ok formann yfer greindu klaustre. hæde i andlegum hlutum og veralldlegum. ad tilsagdre ädur fyrer fram̄ vorre vilianlegre resigneran ok uppgiöf ä greindu klaustre. bifalande hönum med brefe þessu fulla eign og um̄sion yfer adurskrifudu klaustre oc þess eignum föstum og lausum. utangards og innan. Skal hann öllum hlutum so hegda. regera oc styra. sem hann sier haglegast. hentugast og gagnlegast upp a klaustursins og kristninnar ed bestasvo sem hann vill svara fyrer gude. og bikendur vera fyrer oss. Her med skal hann illgiaurder ok osidu hardlega straffa ok aftaka. utan klausturs og innan. enn sidsemdum og heilogu regluhalldi fram̄fylgia epter fremsta megne. sem gud gefur hönum sina näd og miskun til. veitande heilagre Skalholltskirkiu ok hennar formanne iafnlega hlydne epter sinne fram̄iätun i vigslugiördinne. giaurande þä hlute alla sem miklu vardar klaustred. med räde ok samþycke Skalholltsbiskups sem til ber. Bidium vier nu alla goda menn lærda og leika. ok sierlega vors nädugasta herra konungsins foveta

ad vera vorum kiæra brodur abota Helga til styrks ok hialpar. til gagns og goda bæde med ord ok verk. takande þar fyrer aumbaun af gude. enn stora þock af oss.
ok til sanninda et cetera.

---

99. **29. Oktober 1522.** **á Hólum.**

Tuttugu og fjórir prestar fyrir norðan land votta, að þeir hafi lesið útskript af bréfi kanoka Þrándheimsdómkirkju, þar sem þeir fá Ögmundi Skálholtsbiskupi fult umboð yfir Hóladómkirkju og hennar eignum og peningum, en þeir afsegja hans yfirráðum að hlíta fyrir margar greinir, er bréfið hermir, og appellera allan þann ágreining fyrir erkibiskupinn í Niðarósi.

AM. Fasc. XLV, 17, frumritið á skinni, og er slysagat á því á einum stað. Af 24 innsiglum eru nú 10 ein fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2935.

Medkienning um̃ yfersion og lesning utskriptar
af briefe utgiefnu j Þrandheims domkirckiu
Augmunde Biskup ad haffa Rad yfer
Hola domkirckiu 1522[1]).

Þath giorvm wier broder einar med gudz nad abote a̋ mukaþuera. Broder helgi med samre nad abote æ þingeýrum. Sira finnboge einarsson electus mukaþuerar klausturs. Sira jon finnbogason officialis j holabiskupsdæme. Sira þorsteinn jonsson beneficiatus a̋ hoskuldzstodum. Sira jon gislason beneficiatus a̋ mel. Sira gilsbrickt a̋ breidabolstad beneficiatus. Sira nichulas wi(l)hialmsson beneficiatus a̋ męlefelle. Sira jon jonsson beneficiatus a̋ micklabæ. Sira jon finnbogason beneficiatus j laufase. Sira eigill hallsson beneficiatus j saurbæ. Sira þorbiorn jonsson beneficiatus a̋ wollum. Sira sveinn finnbogason. Sira olafur hialltason. Sira olafur jonsson. Sira thumas eiriksson. Sira jon gudlaugsson. Sira halfdan narfuason. Sira þorsteinn gunnason. Sira gisle

---

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

gudmundsson. Sira Þorfinnr þorsteinsson. Sira gisle sygurdsson. Sira þorkell þorolfsson og hallur asgrimsson prelatar og prestar holabiskups dæmis godum monnum kunnigt med þessv woru opnu brefi ath wier hofum sied og ýferlesid suo hliodandi vtskript ath kanickarner j þrandheims domkirkiu hafi fullt vmbod gefid biskup augmundi j skalhollte ýfer hola domkirkiu og hennar eignum og peningum et cetera og fyrir þa grein ath værr feingum fýrr annad bref af sömu kanunkum med þeirra capitula jncigle. Svo hliodanda ath þeir badu oss og skipudu og fullt vmbod til gafu vt welia eiñ mann þann sem wier sialfer willdum hafa til biskup og hola kirkiu forstandara. þui epter þeirra raadi. vt woldu wier þann sem oss sýndizt best til fallen fyr sagdrar stettar. Warr sá kosningur vt gior fýrr enn biskup augmundur kom til jslandz. J annare grein witum wier og witne vm bervm. ath senum gomlum skilrikium. ath hola domkirkia hefur storan skada feingid. þa skalholltzbiskupar hafa þar vmbod yfer haft. þui þeir hafa burtt flutt hafur og stora peninga. og ecki aptur luckt holakirkiu j gen. j þridiu grein ath wier witum sannliga. ath biskup augmundur j. skalhollte hefur og helldur þá peninga sem hola domkirkiu og Goda gudmundi biskupi hafa gefner werid. huad wær Reiknum eigi minna wert enn two hundrud Reins gylline. hefur wor werdugaste fader og herra herra erchibiskup eirik skipat med sinu jncigludu brefi ath greinder gudmundar peningar skillde aptur leggiazt til hola domkirkiu. enn þeim hefur somuleidis halldit werid. j fiordu grein ath biskup augmundur hefur jnn skipat oss vmbodzmann og officialiem (!) an woro samþýcke. Þui fyrir þessar allar og sierhveriar greiner. seigium wier aller med einu samþýcke ath wær wilium eigi tilstanda edur samþýckia ath biskup augmundur hafe nockud umbod ýfer hola domkirkiu eda hennar eignum fyr enn Reýnt og profuad er fýrir wo[rum nadu]gasta födur og herra. herra erchibiskupenum j þrandheime og hans elskuliga capitula. þesse wor kosningur og forsuar. sem wier hofum epter kanukanna skipan giort. appellerum wær oll wor mal þau sem [hola dom]kirkiu snertur. edur snerta kann vndan dome

brodur augmundar biskups j skalhollte og allra hans prelata og presta og vmbodzmanna. Enn wier biodum oll wor malefne sem hier jnne standa. vnd[er dom og[1]) v]alld herra erchibiskupsens og nidaross domkirkiu. audmiukliga bidium wær þann werdugasta herra erchibiskupenn. ath hann med sitt elskuligt capitula rad yfersiai þessar worar skynsemdar grein[er og na]udsyniar. þui þad er miog j mote landsens wana. þar med oss. ath nockur yfermann jnnsetizt a biskupsstolana nema med klerkanna samþycke og þar af hefur optt ordit stór steytur og osamþycke j landinu wppa kirkiunnar skada. wilium wær giarnan senda þennan sama worn utwalenn yfermann. Sira jon arason til þrandheims domkirkiu capitula. og hann suare þar af worre hendi ollum fyrr sogdum greinum þad fyrsta sem þad ske kann. Og til meire audsyningar hier vm og saninda sietivm (!) wier fyr skrifader prelatar og prestar worr jncigle fyrir þetta bref er skrifat war ath domkirkiunne. á holum j hialltadal jn crastina die apostolorum Simonis et jude. anno. domini. m°. d°. xx°. secundo.

---

**100.** **18. Nóvember 1522.** **á Svalbarði.**
**4. Apríl 1529.** **í Skriðu.**

Þorsteinn Finnnbogason fær Jóni Magnússyni og Ragneiði konu hans Pétrsdóttur til eignar þann tuttugu og fimm hundraða part í jörðunni Svalbarði, er Þorsteinn hafði feingið af Einari Hallsteinssyni.

AM. Apogr. 189 „Ex originali Svalbardensi. accuraté“.

Þad giorum wer pall grimzsson. biorn jonsson. jon hallzsson godum monnum kunnigtt med þessu ockru oppnu brefe ad wer worum j hia saum og heyrdum æ ordd og handaband þessara manna af einne alfu þorsteinn finbogason enn af annare jon bonde magnusson og hans kuinna

1) Apogr. les: „vnder valld“ eins og ekkert vanti í, en „dom og“ svarar gatinu á bréfinu.

ragñeidur peturssdotter ad suo fyrir skildu j þeirra handabañde. ad bonden þorsteinn feck jone bonda og hans kuinnu ragñeide til fullrar eignar og frialls forradiss (!) þann sama parttenn j jordenne sualbarde. sem Einar hallzsteiñzsson hafde feinged fyrr greindum þorsteine. v. c. og xx til fullrar eignar eppter þui sem þeirræ giorningr wt wisar. hier j mot lofade fyrr greindr jon magnusson þorsteine bonda fullum peningum epptter þui sem hann wære wel hallden af. for þesse giorningr fram æ sualbarde á Sualbarszstrond þridiudægen næsta fyrir seszceliumessu um weturin þa lided war fra hingad burd wors herra jehcu christe. M. d. xx og ij. ær. Ok til sannenda hier wm setium uier fyrr nefnder menn ockar jncigllе fyrir þetta giorni(n)gs bref huertt er skrifad war j skridu j reykiadall æ siallfan ambrosiusdag uij arum sidar en fyrr seger.

---

**101.** **13. December 1522.** / **7. Apríl 1523.** } **á Skriðuklaustri.**

Jón Sæmundsson selr Þorvarði príór á Skriðuklaustri tuttugu hundruð í jörðunni Borgarhöfn í Fellshverfi fyrir jarðirnar Vík og Sævarenda í Fáskrúðsfirði og „þá sæmd og drengskap í peninga framlögum, sem priorinn vildi gert hafa“.

AM. Fasc. XLVI, 11, frumrit á skinni. Öll (3) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 2886.

Kavpbref fyrir borgarhofn[1]).

Þath giorum vier haralldur þosteinsson. jndride ketilsson. eyiolfur þosteinsson. asmundur kolbeinsson. asmundur jonsson. Símon hallvardsson. olafr þorsteinsson. godvm monnum kvnnigt med þessv vorv opnv brefi þa er lidit var fra hingatbvrd vors herra jesv christi þvsvnd fim hvndrvt xx og ij ar. æ skridv klavstri j fliotzdal vpp æ sancte Magnusmesso dag æ jolafôstv lavgardagin[2]) vorum vier j hia savm

1) Utan á bréfinu með fornri hendi. 2) Magnúsmessa fyrir jól var reyndar 1523 á sunnudag (13. Dec.).

og heyrdvm á ord og handaband þessara manna. af einni alfv herra prior þoruardar. enn af annari jons sæmvndssonar. faldizt þat og skildizt vnder þeirra handabandi. ad greindr jon selldi fyr nefndvm prior þorvardi .xx.c j borgarhofninne er liggur j fellzhverfi (j) kalfafellzkirkiv sokn med öllvm þeim gögnvm og gædvm sem greindri jordv fylger og fylgt hefer ad fornv og nyiv. skridvklavstri til æfinligrar eignar og frials forrædis og fyr nefndr jon vard fremst eigandi ad med lögvm. vndan sier og sinvm erfingivm epter komendvm. Her j mot gaf fyr skrifadr prior þorvardr tvær jardir er svo heita vik og sæfarendi. xviijc. badar klavstrsins eign er liggia j faskrvdsfirdi (j) koltrygsstadar kirkiv sokn med ollvm þeim gögnum og gædvm sem greindvm jördvm fylger og fylgt hefer ad fornv og nyiv. Her med þa sæmd og dreingskap j peninga framlögvm sem priorinn villdi gert hafa. skylldi hvor hallda sinv kavpi til laga. og ef adr greindr jardar partr j borgarhöfninni gængi af med lögvm þa skildi opt nefndr herra priorinn aptur þratt skrifadar jardir og þa peninga sem hann gylldi þar med klavstrenv.

Samþyktv þessi kavp hans conventv brædr setiandi conventv jnsigli med vorum jnsiglvm fyrir þetta kavpbref er skrifad var j sama stad æ kavpreijnvm þridia dag paska ari sidar enn fyrr seiger.

---

## 102. [síðla árs 1522].

Bréf Ögmundar Skálholtsbiskups um greiðslu á subsidium pallii.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Ogmundar". — AM. Apogr. 2702 með hendi Orms Daðasonar. „Þetta bref stendur i Bokinni midt ä mille þeirra brefa sem Ogmundur Biskup skrifade til Noregs 1523 ährærande Sira Jon Arason" (AM). Af því að þetta er bréfsform, en ekki bréf, er þó líkara, að það sé frá fyrsta biskups ári Ögmundar eða 1522 síðla árs. Í horni handritsins 62 er og ártalið 1523 leiðrétt í 1522 og eins í 2702.

Um Subsidium Pallii.

Vier broder Ogmund med guds nad et cetera. sendum

ollum mönnum þeim sem byggia og bua et cetera kvediu guds og vora. oc andlega blessan.

Þad sie ydur kunnugt ad vier hofum feingid vorum kiæra syne . . . . . [1]) vort fullt og loglegt umbod ad heimta og krefia. ut ad taka. kvittan ad gefa. ok til vor ad fœra alla kirkiutiund af alkirkium og halfkirkium. so mikla sem fellur á einu áre er gialldast á vorum andlegum faudur med gude herra . . . . . [1]) Erckebiskupe i Nidarose. i þá skulld er kirkiunnar lög kalla Subsidium Pallii. þvi biodum vier ydur öllum saman og sierhverium under hlidne. sem þier erud oss og heilagre Skalhollts Domkirkiu skylldiuger. ad þier luked fyrrnefnda kirkiu tiundi sma og stora sogdum . . . . [1]) bæde vel og reidulega ok hönum i hendur fáed an alls undandrattar ok án allrar minkunar. vitandi til sanns. ad hver sem vill odruvisi giöra. skal i annañ tima krafdur vera med meirum afarkostum. ok verda þo rett ad giöra þo sidar sie. Biodum vier ok ollum bændum þeim sem alkirkiuñar edur halfkirkiuñar hallda. edur umbod yfer hafa. ad þeir luke þessa Tiund sem þeir eru skyllduger i Subsidium pallii epter lögum og godum gomlum vana. stefnum vier ellegar med þessu voru brefe hverium sem ei lykur til næstu prestastefnu er verdur i Skalhollts biskupsdæmi. Skal ydur þad kunnugt verda. hvar hun skal vera. edur hvenær hun skal standa. þá vort prestastefnubref geingur. Skulum vier þá med fremstum lögum framfara á mote þeim sem þá hafa ecke golldid greinda kirkiutiund i flytianda Eyrer sem er i vadmálum. vararfelldum. gulle og sylfre. i svörtum og gráum belgflegnum skollaskinnum.

Ok til sanninda hier um et cetera.

---

103. [1522—1540].

Ögmundr biskup í Skálholti fær Guðrúnu Björnsdóttur eldri, jörðina Alviðru til fullrar eignar fyrir það, að hún gaf í

1) eyða fyrir nafninu.

vald biskups þann hugmóð og forþrot, sem síra Filippus hafði gert henni, þá er hann var í hennar garð.

AM 232 8vo bl. 114a—b (Bréfabók Gizurar biskups í frumriti 1540—1547). — AM 266. Fol. bls. 101—102 (afskript síra Haldórs Jónssonar í Reykholti 1654—1657).

Vier augmund med Gudz nad biskup j Schalhollti Giorum godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi at gudrun Biornsdotter en elldri hefur giort oss marga goda hluti til. Einkanliga þar ed hun gaf j wort ualld þann hugmod og forþrot sem sira filpus hafdi giort henne þa hann war i hennar gard. Þui hofum uier feingit henne jordina halfa aluidru til fullrar eignar og frials forrædis þann hlut sem hun hefur ecki adur att med ollu þui ed greindri jordu fylger og fyllt[1]) hefir at fornu og nyiu bædi til sios og landz. Og til sanninda hier vm þryckium wier uort jnnsigle uppá þetta bref et cetera.

halfa Aluidru keypti gudrun Biornsdotter ad biskup Augmunde fyrir xxiiijc i Sueinseyri og raudzdalinn. xxc. a bardastraund.

---

104. [1522—1540].

Form á íslenzku fyrir staðarbréfi handa prestum úr tíð Ögmundar biskups.

AM. 266. Fol. bls. 155 (afskript af bréfabók Gizurar biskups með hendi síra Haldórs Jónssonar í Reykholti 1654—1657).

Collationis bref.

Vier Augmund med gudz nad Byskup j skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ad vier haufum v(n)t. veitt og gefid til fullrar eignar vorum kiæra syni |-o-| stadinn og kyrkiuna hinz bleszada |-o-| so leingi sem hann lifir med aullum gaugnum og giædum j faustu gotzi og lausu. fridu og ofridu j minna hlut og meira

1) Svo.

sem þar til liggur og leigid hefur ad fornu og nyu preter portionem ecclesie. skal hann hafa fulla magt af osz efftir ad tala. kiæra og krefia allt þad gotz sem rangliga er fra kyrkiunni komid. fyrir osz steffna eda vorn vmbodzmann þeim sem þad giort hafa. hier med skal hann eignast allt þad sem kyrkiunni er giefid og minna er en hundrad ad frateknum bokum og ornamentis. skal kyrkian sialf eignast. hier med skal hann veita heidur og holla hlydni osz og vorum laugligum efftirkomendum.

og til saninda.

---

**105.** **[1522—1540].**

Áminningabréfs form úr tíð Ögmundar biskups.

AM. 266. Fol. bls. 155—156. (afskript af bréfabók Gizurar biskups með heudi síra Haldórs Jónssonar í Reykholti 1654—1657).

Vier Augmund.

sakir þess ad þu |-o-| |-o-| son syner þig ȷ fullri fol(s)ku og ohlydni vid gud og heilaga kyrkiu. þui setium vier þier xv daga thil yfirbotar og giorum þier iij aminnıȷngar. iij daga fyrer fystu. v fyrir adra. enn vij fyrir hina sıȷdustu. og komir þu ecki til hlydni og yfirbotar ȷnnañ þessara aminning(ar)tima oktum vier osz ad fara fram vid þig med hinni mestu strıȷdu laganna.

Biodum vier et cetera.

---

**106.** **[1522—1540].**

Forsögn að prestsvígslubréfi (úr tíð Ögmundar biskups).

AM. 266. Fol. bls. 156 (afskript af bréfabók Gizurar biskups með hendi síra Haldórs Jónssonar í Reykholti 1654—1657). — Þessi forsögn mun vera úr tíð Ögmundar biskups.

Vıjgslubref.

Universis et singulis christi fidelibus præsentes literas visuris seu audituris |-o-| dei gratia episcopus scalholtensis salutem in omnium salvatore.

notum facimus per præsentes nostras literas quod[1]) Anno domini m d et cetera sabbato iiij temporum |-o-| hoc est |-o-| kalendas. nonas uel idus Jn ecclesia |-o-| sacros ordines celebrantes dilectum nobis in christo filium dominum |-o-| in sacrum presbyteratus[2]) gradum cooperante gratia spiritus sancti promouimus[3]) qvem alias statutis et distinctis a iure[4]) temporibus in sacros diaconatus et subdiaconatus[5]) ordines cum coeteris inferioribus seu minoribus ordinavimus.

datum.

nostro sub sigillo præsentibus appenso.

---

107. [1522—1540].

Form á latínu fyrir staðarbréfi handa presti (um daga Ögmundar biskups).

AM. 266. Fol. bls. 156—157 (afskript af bréfabók Gizurar biskups með hendi síra Haldórs Jónssonar í Reykholti 1654—1657). — Þetta bréfsform mun vera úr tíð Ögmundar biskups.

Universis christi fidelibus præsentes literas visuris uel audituris |-o-| dei gratia |-o-| salutem in domino sempiternam.

noverit(is) nos (me) ecclesiam sancti |-o-| in |-o-| per mortem domini |-o-| pie memorie ue(l) per liberam resignationem domini |-o-| sui ultimi rectoıis[6]) vacantem dilecto nobis (mihi) in christo filio domino (|-o-|) presbytero schalholtensis diocesis cum[7]) omnibus suis iuribus[8]) libertatibus et pertinentijs habitis et habendis præter portionem et ornamenta Ecclesiæ si dantur cum cura animarum rite ac scite contulisse perpetuis temporibus et libere possidendam dum modo

1) qvoe, hdr. 2) presbytatus, hdr. AM. leiðrétti. 3) promonuimus, hdr. 4) veris, hdr. AM. leiðrétti. 5) subditos, hdr. 6) rectorem, hdr. 7) in, hdr. 8) viribus, hdr.

caste devote et sacerdotale vixerit bona ecclesiæ sibi creditæ non qvovis modo alienaverit neque Ecclesiam vel curam[1]) sacerdotalem desolaverit michi meisque nobis nostrisque successoribus canonice[2]) exhibuerit obedientiam debitam reverentiam pariter et honorem. Jstis non tentis et completis hæc nostra collatio est irrita et inanis.

Jn cujus collationis testimonium sigillum meum presentibus appensum.

Datum.

---

108. [1522—1540].
7. September 1579. á Ytrahólmi.

Vottorð þriggja manna um það, að þeir hafi séð og lesið bréf, þar sem Ögmundr biskup í Skálholti seldi Jóni Sæmundssyni jörðina Hvítanes í Skilmannahrepp með tilteknum landamerkjum, sem greind eru í bréfinu.

Eptir lúinni pappírsafskript kominni 25. April 1903 frá Kristjönu Teitsdóttur í Reykjavík, ekkju Stephans, sem bjó í Hvítanesi. Er afskript sú gerð kringum 1820.

Landamerkja Bréf fyri Hvítanesi 1579.

Þat Giørum Vér Einar Eyriksson. Augmundur Hallsson og Olafur Jónsson. gódum mǫnnum kunnigt med þessu ockru opnu Bréfi og Eginlegri handskrift. ad vér hǫfum séd og lesid Landamerkjabréf Biskups Augmundar Pálssonar fyrir jordunni Hvítanesi. hvert soleidis hliódar.

[Eg Augmundur[3]) med Guds nád Biskup í Skálholti. [hefi[1]) fengid Joni Sæmundssyni jǫrdina Hvítanes í Skilmannahrepp og Garda kirkiusókn. med þessum Landamerkjum. á adra sídu er klettur sá er kalladur er Strákur. ur honum nedanverdum og rétt ofan í Kringlumel. úr honum ofan í Langamel. og so úr melnum beint í sjó. aptur úr ofanverdum Strák í melhrigginn sem liggur fyri utan Sel-

1) curiam, hdr. 2) canemce, hdr. 3) [Svo; réttara væri, ef óbrjálað skyldi: Vier Augmund . . . . hofum.

geir. og so upp í utanverdañ Geirmundartind. Sídan inn eptir Brúninni ad Stórufestarhöfdi. og rædur þá Stórafestiñ ofan eptir alt í Diúpadal. enn úr honum í þann klett sem heitir Festarhringur. úr Festarhring í álkeldu. og þadan beint í sió.

Og til stadfestu setjum vér vor ȷnnsigli fyri þetta Landamerkjabréf sem skrifad var á Ytrahólmi. vigilia Nativitatis Beate Virginis Marie Anno Domini M D. L. xxix.

Samhlióda sínum Original. vitna undirskrifadir. er samanlásu.
Oddur Eyríksson. Sigurdur Halldorsson.
Ad þessi Copia sé samhlióda sínum Original. vitna.[1])

---

109. [1522—1540].

Ágrip af dómi um gjald á þingatolli (heytolli) geingnum í tíð Ögmundar biskups í Skálholti.

Landsbókasafn 812. 4to bl. 139b og 50a. skr. c. 1660.

[Huorier þijngatoll skulu giallda[2]).

Dæmt ȷ tijd biskups Ogmundar ad aller skylldu þeir þingatoll giallda er Buskap hefde. oc grasnyt edur þa peninga sem ȷ fullum aurum være. ella tuijgillde og [þar ad auk[2]) sekur 3 aurum.

---

110. 1522. á Skarði.

Dómságrip um arfaskipti, er Guðrún nokkur kærði.

AM. 211c. 4to bls. 187—188, dómabók skr. c. 1700. — Ágrip þetta er ekki sem tryggilegast og verðr því ekkert um það sagt með neinni vissu að svo stöddu.

Dómur um arfaskipti Anno 1522, á Skarði, að Guðrún hefði klagað, að hún hefði ei feingið jafnt við önnur sín systkin, en gat þó ei bevísað. Var

1) Eingar undirskriptir. 2) [b. v. 50a.

dæmt, að hún skyldi (sverja), að hún hugðist eptir réttu máli sækja eiga. Einninn var umboðsmanninum dæmt til eiðs, að öllu hefði verið rétt skipt, og sú skuld stæði þar ekki, svo hann vissi.

---

**111. 16. Febrúar 1523. á Reykjum.**

Dómr sjö klerka útnefndr af Ögmundi biskupi um kærur biskups til Bjarna Narfasonar að hann hefði gert sína reisu í Vestfjörðu og legið þar Sigríði Björnsdóttur, eigingipta konu, í fjórmennings frændsemisspjöllum, en Bjarni lýsti því að hann hefði keypt Sigríði með ráði foreldra hennar fyrri en Finnr Arnórsson.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur BrefaBok Biskups Ogmundar". — AM. Apogr. 2756 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ogmundar" (AM.)

Um Hiuskaparmâl.

Øllum mønnum þeim sem þetta bref siá edur heyrasenda Jon Einarsson. Þorleifur Eireksson. Gisle Jonsson. Hallur Þorsteinsson. Bryniolfur Halldorsson. Arne Jonsson. Snorre Hialmsson prestar Skalhollts Biskupsdæmes. kvediu guds og sina. kunnugt giðrande ad sub anno gratiæ M⁰. D⁰. xx⁰. og iij á Reykium á Skeidum mánudagin næsta fyrir Cathedrationem Sancti Petri Apostuli vorum vier i Dom nefnder af ærlegum herra og andlegum faudur. Herra Øgmund med guds náđ biskup i Skalhollte ad skoda ok ransaka ok fullnadar ᴅom á ad leggia um þá ákiæru sem hann kiærde til Biarna Narfasonar. ad hann hefde giört sina reisu i Vestfiordu ok leiged þar eigingipta konu i fiormennings frændsemis spiöllum. Sigridi Biörnsdottur. ok hann þottist ecke fullkomliga vita hvort hann ætte þar fyrer ad taka lausn og skripter epter kirkiunnar lögum. edur eige. Jtem ad greindur Biarni hefde lyst því fyrir Biskupinum og fleir-

um audrum godum mönnum. ad hann hefde keypt adurnefnda Sigridi med handsölum. samvitande faudur hennar og modur fyrre en Finnur Arnorsson[1]) giaurde sin giptumal vid greinda Sigridi. Medkennist Biarni ad hann hefde lagt sig þar under lög vid Biskupinn ad svara sem stefndur fyrrgreindum sokum. Þvi ad h(eilags) anda nád tilkalladre. ad suo profudu ok fyrer oss komnu dæmdum vier fyrrnefndan Biarna riettelega fyrerkalladan. ok sekan svo sem fyrer tvöfaldan hordom. saker langrar oveniu og ills tildraattar. enn fyrer frændsemis spiöll dæmdum vier hann sekañ tvennum. xij. aurum. og skylldugan ad taka lausn og skripter af biskupinum. edur þeim sem hann tilsetur fyrer hvorutveggia broted. Jtem fyrer þá adra sök ad hann hefde underbued med handsolum leynelegt hionaband viliande vefeingia med þessu loglegan hiuskap. framkvæmande þar á ofan og fullgiorande holldlega sambud mote guds lögum. Dæmdum vier hann fallinn i bann af sialfu verkinu. saker þess ad so stendur i Bannsaka Brefe Jons Erchibiskups: ad hann setur þá alla i bann sem sinn hiuskap bynda saman nær meir enn ad fimta manni i adra hvora ættkvisl. Her med sekan fyrer kirkiu jnngaungu oc þionustutekiu arlega sidan hann giaurde hiuskapar handsal vid optskrifada Sigridi mote öllu lögmale heilagrar kirkiu. svo sem kirkiunnar lög utvijsa. Skyllde þridiungur fesekta gialldast innañ mánadar. annar ad fardögum. enn allt gollded ad næsta hauste nu ad kiemur.

Samþykte þennan vorn Dom med oss greindur Herra biskup Ogmund. ok sette sitt jnnsigle med vorum et cetera.

---

112. **16. Febrúar 1523.** **á Reykjum.**

Dómr tólf klerka útnefndr af Ögmundi biskupi um kærur hans til síra Jóns Arasonar.

AM. Fasc. XLVI, 1, frumritið á skinni. Öll (13) innsigli eru dottin frá. „Þetta bref er og i Brefabok Biskups Ogmundar“ (Landsbókasafn 62. 8vo). Prentaðr í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 214—215.

1) leiðr. AM; Arnason, hdr. 2756.

Reykiadomur vm sakargiptter Biskupz
Øgmundar a mote Sera Jone Arasyne.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siæ edr heyra. Senda Broder helgi med gudz nad aboti af wideý. jon hiedinsson Rǻdzmann j skalhollti. gisle jonsson. officialis. Snorre hialmsson kirkiuprestur. jon einarsson. þorleifur eireksson. jon gislason. gudmundr steinsson. jon arnason. jon guttormssson. sæmundur arnason og jon gislason. kuediu gudz og sina. kunnigt giörandi. ad sub anno gracie. Mdxxiij°. a Reykium a skeidum manudaginnn næsta fyrir cathedracionem sancti petri apostoli worum wer j dom nefnder af ærligum herra og andaligum faudur. herra augmund med gudz nad Biskup j skalhollti. ath skoda og rannzsaka og fullnadardom a ath leggia vm þær saker og malaferli. sem hann kiærdi til sira jons arasonar. Jn primis at hann hefdi onýtt og at aungu halldit þat bref sem honum war wtgefuit af heidursamligazta rǻdi herra Erkibiskupsins og kapitulabrædrum nidarosdomkirkiu. til vmbodz og laugsagnar yfuer holadomkirkiu. suo sem brefuit sialft wt wisar Setiandi sig sialfan̄ rǻdzmann og þa officiales. profasta og vmbodzmenn sem hann hefuer wiliat. þuert æ moti biskupsins samþycki og riettu laugmali. J annari grein klagadi biskupinn til greindz sira jons arasonar ath hann hefdi wt sendt týgiad folk med wopnum. ǻ weg fyrir hans sendimenn. seigiandi suo. ath þeir skýlldi eingin bref ne stefnur fram̄ hafua af biskupsins alfu takandi sidan annan prestinn. og læstu¹) hann j hǘsi vm fim̄ nætur. Jtem j þridiu grein. klagadi herra biskupinn til fyrr nefndz sira jons arasonar. ath hann hefdi wisat sinum monnum til heimsoknar æ jon heitinn asgrimsson og þeir hefdi þat fullgiört. epter hans fyrirskipan. Jtem j fiordu grein kiærdi herra biskupinn til adur greindz sira jons arasonar ath hann hefdi sett sig jnn j skalholltz kirkiu vmbod og leýst mannslagara. þann sem þar ward brotligur j vmdæminu.

Saum wer opit bref biskupsins med hans hǻnganda jnsigle þat sem hann hafdi wt sendt til ath kalla sira jon arason. j fyrr greindan̄ dag og lesit war j hola domkirkiu. og

1) Svo.

jnne helldr allar ǻdr skrifadar saker. war opt nefndz sira jons arasonar beidt og krafuid. kom hann ecki og einginn af hans hendi. Jtem kom þar fram̃ fẏrir oss appelleranarbref sira jons arasonar og fleire presta wr nordlendingafiordungi. Þui ath heilags anda nad til kalladri ath suo profudu og fẏrir oss komnu. Dæmdum wer fẏrr nefnder domsmenn med fullu doms atkuædi sira jon arason laugliga fẏrir kalladañ og sekañ mórk j stefnufall. Leizt oss ôllum appelleranarbrefit onẏtt og ecki epter lôgum giôrt wera. þui dæmdum wer þat ath ôngu halldanda. Enn saker þess ath hann hafdi sig olaugliga jnn sett j holadomkirkiu vmbod moti kanunkanna brefui j nidarosi. er þar kom fram̃ fyrir oss huert wer dæmdum laugligt j allañ mǻta. og biskup augmund riettañ og fullmecktugañ vmbodzmann og amministratorem holadomkirkiu. suo sem heilagrar skalholtzkirkiu. þa dæmdum wer sira jon arason þar fyrir fallinn j bann af sialfu werkinu. og sekañ niutige morkum wid heilaga holakirkiu. og audrum niutige môrkum wid biskup augmund og skylldugan at leggia aptur vmbodit biskupinum. eda þeim sem hann til setur og taka lausn og skripter heima j s[kal]-hollti. jnnan manadar ath heẏrdum dominum. Nu fyrir þa adra sauk. at nefndr sira jon arason hafdi wtsendt tẏgiad folk fyrir biskupsins sendiboda og liet taka sira petur palsson. sem settur war officialis af biskupinum. og bẏrgia j husi vm fimm nætur edur meir. Fyrir suodan ofbelldi og laugleysu dæmdum wer optskrifuadan sira jon arason fallinn j bann epter þui sem kirkiunnar laug þar vm skrifut wt visa. og sekañ .lx. morkum wid biskup augmund. og audrum .lx. morkum wid heilaga holakirkiu. Jtem fẏrir þa þridiu sauk ath þratt nefndur sira jon arason liet rida heim ǻ jon heitinn asgrimsson. fanga hann og binda sem annañ jllrædismann. og briota hans herbergi. med ôdrum þeim olaugum. sem vrdu j þeirre heimsokn. Hier med sett sig jnn j skalholltzkirkiu vmbod og leẏst mannslagara. þann sem brotligur ward hier j vmdæminu. Nu fyrir þessa sauk og allar adrar fyrrgreindar saker. sem j dominum standa.

1) Svo.

Dæmdum wer tíjtt skrifadañ sira jon arason afsettañ ab officio et beneficio. suo og hans heidur og peninga j biskupsins walld. þar til sem hann giorer bot og betran. fýrir adr greind brot og misferli.

Woru þessi saul giord a secktafienu. ath þridiungur skýlldi gialldazt jnnañ manadar ath heýrdum dominum. annar þridiungur j fardögum j wor. enn allt golldit michaelsmessu at hausti nu næst ath kemur.

Samþýckti þenna worn dom med oss greindur herra biskup Augmund. og setti sitt jnnsigle med worum fýrrgreindra domsmanna jnsiglum. mörgum godum monnum lærdum og leikum nærverondum. og med oss samþýckiundum. Skrifuat j sama stad. deigi og ári sem fýrr seiger.

---

**113. 22. Febrúar 1523. í Kaupmannahöfn.**

Kristján konungr II. bannar Íslendingum að verzla við alla útlendinga fyrri en þeir hafi greitt hirðstjóra konungs þann 20 gyllina toll („hafnartollinn"), sem þeir sé vanir að greiða.

Landsbókasafn 72. 4to bls. 631—632 með hendi síra Jóns Halldórssonar í Hítardal 1725 „skrifad effter sijnum Original". — Tilskipanabók Landsskjalasafnsins í 4to rituð á Bessastöðum nál. 1711 (= *b*). Prentað í Finni Johannæi Hist. Eccl. Isl. II, 258—259 og Lagasafni Magnusar Ketilssonar I, 174.

Christiani secundi Bref ad eingenn kaupe vid framande kaupmenn. fýrr enn þeir hafa borgad hafnartollinn. Anno 1523.

(Vii) Christiern met guds nade Danmarkis. Norgis. Sverrigis. vendis oc gothis könig[1]). Hertug udi Slessvig. Holsten. Stormaren oc Dytmerschen. grefve i Oldenborg oc Delmenhorst. helse Ether alle oss Elskelige Bisper. Prelater. abbether. prester. knaber. Bönder oc menige almue som býgge oc boe paa vort oc norgis krones land Jsslandt kierligen met gud oc sancte Oluff köning. vii bete oc biude ether

1) koning *b*.

alle og hver serdelis at her effter at[1]) ingen købeslae met nogen utlendske. enten Týske. Eingelske eller andre. før end thee[2]) haffve giffvet oc fornøget vor Embitzmand ther paa landet. 20. gylden paa vore vegne. then told oc rettighet som thee[2]) oss aarligen pleige oc plichtige ere at giffve. oc naar thee[2]) svoddan told udgiffvet oc til gode reede fornøget haffve. ther[3]) mue j siden købe oc selge met them ubehindret.

Her retter ether alting effter oc lather thet ingenlunde. giffvet paa vort slot køpenhafn. søndagen invocavit aaret 1523.

Under vort Signeth.

---

**114. 31. Marts 1523. á Valþjófsstað.**

Ragnildr Þorsteinsdóttir og Eiríkr Ormsson selja síra Brandi Rafnssyni jörðina Ljótsstaði í Vopnafirði fyrir tuttugu hundruð í öllum þarflegum peningum, sem Ragnhildr gaf jafnharðan síra Brandi í prófentu sína, og þar til reka millum Selár og Lónaóss.

AM. Apogr. 4464 með hendi Árna Magnússonar „Ex originali Biörns Peturssonar á Bustarfelli". — Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Suðurmúlasýsla Nr. 2, afskript staðfest á Fossvelli við Brú 9. Júní 1704 af Birni Pétrssyni (= *b*).

Kaup Brief Fyrer Liotsstødum[4]).

Þad giore ek Jon prestur kodransson og sniolfur Rafnsson godum monnum kunnekt med þessu ockru opnu brefi. ad uid uorum þar j hia sæum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna. j kirkivnne æ hofstad j uopnafirde fimtadagenn næsta epter krossmessu vm uorit[5]) sira brandzs Rafnssonar. og Ragnilldar þosteinsdottur. og eireks ormssonar bonda hennar. þad faldizst og skildizst under þessv þeirra handabandi ad fyrgreind Ragnilldvr fieck og selldi ædrskrifvdvm sira brandi jördena liotzsstade er liggur j hofstadar kirkivsokn. Med upplagi og samþycki hennar bonda eireks ormssonar. suo þav vorv öll j einv handabandi. Med öllum þeim gögnum og gædvm. rekum og hlvnnendum og jtaulvm þeim sem fyr-

1) sl. *b*. 2) ther, *a b* (leiðrétt). 3) thee *b*. 4) *b*. 5) = 8. Maí (1522).

greind ȷôrd liotzsstader eiga. ȷ annara manna ȷarder og þau urdu fremzst eigandi ad til frials forrædis og æuenligrar eignar. Hier a mot gaf þrattskrifadur sira brandur xx hundrud ȷ ôllvm þarflegvm peningum. og þessi savmv xxc gaf tijtt nefnd ragnilldur ȷ æuenliga profentv med sier. til opptskrifads sira brandzs og þar til lagdi hwn ætta hundrada reka. sem liggr æ millvm selær og lonaos. ad fra tecnvm þeim rekaparti sem nijp fylger. Ok til sannenda hier vm settvm uit fyʀ nefnder (menn) ockar ȷnsigle fyrir þetta bref er skrifad var æ valþiofstad ȷ fliotzsdal þridiadagin ȷ efstv vikv arvm epter gwdz burd m. d. xx og iij betur.

---

**115. 10. Apríl 1523. á Hólum.**

Ögmundr biskup í Skálholti, skipaðr tilsjónarmaðr Hólabiskupsdæmis, fyrirbýðr öllum að „bívara sig" nokkuð með góz og umboð Hóladómkirkju, nema þeim sem hann tilsetji með trúlyndu ráði Hóladómkirkju; lýsir biskup og tvídrægni og óhlýðni klerka nyrðra, er hafi haldið fyrir honum dómkirkjulyklunum.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar". — AM. Apogr. 2696 með hendi Orms Daðasonar.

Um Administrationem Hőla Biskups Dæmis.

Vier broder Øgmund med gudz nad biskup i Skalhollti eigi sidur administrator heilagrar Holakirkiu. heilsum ollum godum mônnum þeim sem þetta bref sia edur heyra med gudz kvediu og vorre. kunnugt giôrande ad sub anno gratiæ m°. d°. vigesimo tertio ǻ fostudagin i paskaviku. komum vier til Hola. heyrdum þar og saum mikla tvidrægne af kennidominum. enn saum ôngva hlydne edur verdugheit sem tilbar Domkirkiunnar ǻ Holum. helldur henne til stors skada og fordiarfs. ǻ mote ôllu lôgmǻle ok klerkanna trulofun ok prestanna vigslu eide. ok ei sidur fundum vier usurperada claves ecclesiæ. ok vors helgasta faudurs pavans skipan

önytast. ad ongvo halldanda. ok af audrum parte er oss omaklegum kristiñdomurinn bifaladur epter liosu logmale heilagrar kirkiu ok skipan legata vallds nidaross domkirkiu. Þvi i gudz nafne amen tokum vier under vora vernd. forsvar og biskermelse heilaga Holadomkirkiu. ok alla hennar eigu deilld i faustu og lausu i minna hlut og meira. forbiodande ollum leikum og lærdum ad bivara sig nockud med hennar gots eda umbod. utañ gards edur innañ. utan þeir vier tilsetium med hollu og trulyndu Hola Domkirkiu rãdi. þvi sem vier þar til kaullum nu fyrr enn vier forum ã burt et cetera.

---

## 116. 16. Apríl 1523. á Hólum.

Dómr tólf klerka nyrðra útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti og umboðsmanni Hóladómkirkju um kærur biskups til síra Jóns Arasonar og allra þeirra, er rænt hafa skipi dómkirkjunnar, gulli, silfri, smjöri, slátri, skeið og vaðmálum og öðrum þarflegum peningum.

AM. Fasc. XLVI, 2, frumrit á skinni. Af 13 innsiglum er nú brot eptir af 2. — AM. Apogr. 2931.

Domur um sira jon arason og bref.[1])

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra señda broder ħelgi med gudz nad abote ã þingeyrum. jon gislason. Þorsteinn jonsson. Olafur jonsson. Þorbiorn jonsson. Gisle gudmundsson. jon sigursson. Olafur gudmundzson. jon gudmundzson. Þorvalldur olafsson. pietur palsson og jon einarsson prestar holabiskupsdæmis. kuediu gudz og sina kunnigtt gioraõdi ad sub anno gracie. ᴍ°. d°. vigessimo tercio. ã holvm j hialltadal. ã fimtudaginn næsta fyrir jons ᴍesso holabiskups vm vorid. worvm uær j dom nefñder af heidursamligum herra og añdligum faudur herra augmuñdi med gudz nad biskup j skalhollti og vmbodzmann heilagrar hola domkirkiu ad skoda og ransaka og fullnadardom ã

1) Utan á bréfinu með fornri hendi

ad leggia huerir menn þeir skylldu uera sem gripa og ræna heilagrar kirkiu peninga fasta edur lausa. en af þui ad suo stendur j kristnum retti og anars stadar j kirkiunar logum ad aller þeir sem gripa edur tacka ur heilagrar[1]) kirkiu edur hennar vardueislo og geimslo[1]) þa skal þar tueuolld[1]) hegning fyrir koma forbod og bann og bannskrifter og forlat og fordizt þo eigi þui helldur riettiliga hegñiñg af veralldligum hofdingum [af þui[2]). jn nomini[1]) domini amen. dæmdum vier fyrnefñder domsmenn med fullu doms atkuædi [sera jon arason og[2]) alla þa sem j burtt hafa tekid og ræñt skip og goz heilagrar hola domkirkiu so sem er gull og silfur. smior og slatur. skreid og vadmal og annara þarflig(r)a peninga fyrir utan leyfi og samþycki vors virduligs herra Biskup augmundar sem hefer oc hefer haft logligtt umbod af kanuñcunum[3]) j þrandheimi oc prestanna dom ok[4]) honum optt fyrirbiodandi j sinum brefum og bodskap sagtt skip j burtt ad hafa edr adra fyr greinda peninga j bann oc forbod og alla þa sem þar hafa til styrtt[1]) med ordum edur uerkum. radum edur dadum. oc sekan sextiger morkum huer og einn af þeim sem j burtt hefur haftt adur nefnt skip oc goz vid heilaga holakirkiu oc odrum sextiger morkum vid vorn virduligañ herra biskup augmund. skylldu þesser peningar golldner ad þrenum solum. hinu fystu ad fardogum nv næst er koma. aunur saul at michels messo nu j haust er kemur. enu þridiu ad fardaugum ad vori komanda so þessi allur sakeyrer se þa golld(inn) og skylldugа ad færa aftur skipid jnan xiiij natta ad færu vedri og taka lausn og skrifter heima á holum af greindum Biskup Augmundi edur hans laugligum vmbodzmanni.

Samþyckti þenna vorn dom med oss greindur herra biskup augmund og setti (sitt) jnncigle med vorum fyrr greindra domsmanna jnnciglum fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad deigi oc are sem fyrr seiger.

---

1) Svo. 2) [á spassíu. 3) kanuncuncunum, frumbr. 4) Svo hér.

117. 23. Maí 1523. í Snóksdal.
29. Marts 1525. á Stað áÖlduhrygg.

Virðingargerð á kirkju og jarðarhúsum í Snóksdal, þegar Daði Guðmundsson tók við, en (Guðmundr Finnsson) faðir hans afhenti.

Eptir afskript Magnúsar Einarssonar á Jörfa meðal Hamrenda og Snóksdalsbréfa (hjá mér) gerðri c. 1730—1740, að því er virðist stafrétt eptir frumriti.

Þat giore eg haldor prestur tyrfingsson profastur j millum gilsfiardar ok skraumo godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe sub anno gracie Ꝺdxxiij. var eg til skipadur af minum herra biskupenum at sia at kirkiunne og at gardenum j snoksdal þa dade gudmundzson medtok enn [f]ader hans afhentj laugardagen j fardogum. nefnda eg þessa menn til med mier. sira ol[af] gudmundzs son. sira narfa þorsteinsson. sira einar snorrason. sira su(e)in oddzsson. obla[ud gr]imsson ok gisla klangsson. matv vær kirkiuna fyrir .viij. hundrut. enn skalan fyrir .vc. stofuna [med kle]fanum ok aundenne fyrir .v.c badstofuna fyrir .vc. buret fyrir iijc gongen med litlu huse vondv fyrir . . . . . . husen fyrir .ijc. Ok til saninda hier vm settum vær fýrnefnder menn vor jnnsigle fyrir þetta [matsbre]f er skrifat var æ stad æ aulduhrygg qvarto kalendas æprilis. tueimur arum siíjdar [enn fyrr] seiger.

---

118. 28. Maí 1523. í Viðey.

Tylftardómr útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti og Erlendi Þorvarðssyni lögmanni sunnan og austan á Íslandi um ágreining milli þeirra Hannesar Eggertssonar og Tyls Pétrssonar um hirðstjórn yfir landinu, og dæma þeir hirðstjórabréf það, er Hannes hafði af konungi haft, myndugt.

AM. Fasc. XLVI, 4, frumritið á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Eitt af þeim er dottið frá. — AM. Apogr. 1262.

domur vm adtekt tils petrssonar 1523[1]).

Øllum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra sendvm vier broder helge med gvds nad abote j videÿ. narfe sigurdsson. jon magnusson. hakon biorgolfsson. jon arnason. þorhallr einarsson. snæbiornn gislason. oddur þorkelsson. grimur karason. rvnolfr hauskolsson. jon sigvrdsson og jon þordarson kuediu guds og sina kvnegt giorande at sub anno gracie ꝍ°. d°. xx°. iij uorvm uær til nefnder af uirdvligum herra j gude avgmvnd med guds nad biskup j skalhollte og elinde þorvardssyne laugmane svnann og avstann a jslande ad skoda ransaka og fullnadar samþÿkt a ad leggia vm þa agreining sem fared hafdi j millvm þeirra hirdstiorans hanes egerssonar og til petrsonar.

komv þar fram bref af hvorstveggia hende. leist oss þad sama hirdstiora bref sem hanes hafde haftt af vorvm nadugasta hera konvnginvm mÿndugtt og skiæligt j allan mata og halldazt eiga framm til næsta avxararþings nu j sumar og til petursson skylldvg(an) aptur ad leggia alla þa peninga kvika og davda sem hann hafdi rangliga fra bessustavdum[2]) bæde innan kirkiv og utan med til feingnvm ollum brefvm og reikningskap sem hannes egerssyne til heyrde og flytie heim til bessustada[2]) inann siovndar.

samþyckte þessa skodan og giorning fyr nefndr hera avgmvnd og laugmannenn ellindur og setti sin insigle med vorvm fyr greindra manna insiglum firir þetta samþycktarbref skrifad j videy feria kuinta infra octauas pendecostes[2]) a sama are sem fyr seiger.

---

**119. 1. Júní 1523. í Kópavogi.**

Tylftardómr útnefndr af Erlendi lögmanni Þorvarðssyni um málaferli þau, er Hannes hirðstjóri Eggertsson kærði til Tyls Pétrssonar, að hann hefði með flokk manna, bæði íslenzkra og útlenzkra, farið heim á kongsgarðinn á Bessa-

1) Aptan á bréfinu. Þar stendr og ritað af skrifara Árna: „er olldunges klárt og sigilla accuratissime. retinebo tamen in meum usum“. 2) Svo.

stöðm, rænt þar og gripið kvika peninga og dauða, kongs og Hannesar og reikningskap allan, brotið upp kirkju og kistur; Týll hefði og gripið Hannes sjálfan sem þjóf og haft hann nauðugan inn í Hólma; — og af því að Týll var áðr sannprófaðr að mörgum lögbrotum hér á landi dæmdu þeir hann fullan óbótamann og Hannes skyldugan að refsa honum eptir lögum.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Ogmundar".

Domur um Tyl Petursson.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siá edur heyra senda Narfe Sigurdsson. Hakon Biorgolfsson. Jon Þordarson. Loptur Kalfsson. Grimur Kárason. Sæmundur Eireksson. Olafur Olafsson. Jon Sigurdsson. Snæbiorn Gislason. Þorhalle Einarsson. Þorleifur Jonsson og Jon Magnusson svarner lôgrettumenn kvediu guds og sina. kunnugt giörande ad þá lided var frá hingadburd vors herra Jesu Christi M. D. xx iii. mánudagin næsta epter helgu viku i Kopavogi á þingstad riettum vorum vier i Dom nefnder af ærligum manni Ellendi Þorvardssyne. logmanne sunnan og austan a Jslande. ad skoda og rannsaka. og fullnadardom á (ad) leggia um þau malaferli. sem hirdstiore Hannes Eggertsson kiærde þar til Tyls Peturssonar. ad hann hefde fared med flock manna. bæde Jslendskra og[1]) utlendskra heim a kongsgarden Bessastade og rænt þar og gripid bæde kvikum peningum og daudum innañ kirkiu og utan. briotande upp kirkiuna ok kisturnar þær sem þar inne voru. rænande þar vors náðugasta herra kongsins godse. oc svo þvi sem Hannes atte. og adrer menn fleire. oc ollum reikningsskap þeim sem honum heyrde til. Hier med klagade fyrrskrifadur Hannes til Tyls Peturzsonar. ad hann hefde griped sig sem þiof edur illrædesmann. oc haft sig naudugan inn i Holma. Her med vissum vier fyrir full sanninde ad fyrrskrifadur Thyl var adur hier i landet sannprofadur ad morgum logbrotum. bæde vid lærda og leika. Kom þar fram fyrer oss

1) ut, hdr. (misskript; leiðrétt hér).

med sannindum ad greindur Thyl hefdi lofad med handabande ad svara þar logum þenna sama dag. Kom hann ecke og eckert logsvar af hans hende. Stendur so skrifad i vorre landslagabők. ad þad er hernadur ef tekner eru menn edur fe manna þeim naudugum. barder. bundner edur særder. Jtem i audrum stad stendur svo: ad ransmenn eru aller obotamenn sem seger i obotamalum i Mannhelge. Nu epter þessum bokarinnar ordum oc audrum fleirum sem þar til luta. ad so profudu og fyrer oss komnu. dæmdum vier nefnder Domsmenn med fullu Doms atkvæde opt nefndan Tyl Petursson fullan Ransmann oc obotamann. ok hirdstioran Hannes Eggertsson skylldugan at refsa honum epter logum. ok þeir aller skyllder til efterfarar sem hann tilkrefde. Jtem alla þã menn sem adur greindum Tyl veittu styrk edur fylge til fyrrgreinds ranskapar. oc onaudger voru þar til. dæmdum vier i allre sǒmu sǒk vid kongdominn et cetera.

---

**120. 5. Júní 1523. Í Flatey.**

Vitnisburðarbréf um lýsing Hafliða Skúlasonar, sem verið hafði með Þorleifi Björnssyni frá því hann var ungr piltr og þar til Þorleifr lézt, um heimildir fyrir jörðunni Hvallátrum í Mjóafirði, viðskipti Þorleifs og Lopts Ormssonar m. fl.

AM. Fasc. XLVI, 5, frumrit á skinni. Af 5 innsiglum eru nú 3 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 5723.

Vitnizburdur vm Lǎtur j Mioafirde[1]).

Þat giorvm vær Arne prestur gislason. jon hoskolldzson. Magnus jngimundarson. Sveinbiorñ Þorda(r)son og jon jonsson leikmenn godvm monnum kvnnigt med þessv vórv opnv brefi. at arvm efter gvdz byrd þvsvnd fimm hvndrvth xx og þriv ær vorum vær j flatey er liggr æ breidafirde. dyradag sialfañ[2]). er biorn þorleifsson beidde og krafde hallida skvla-

1) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1700. 2) þ. e. 4. Júní.

son bera sier rett vithne og satt vm̄ ȷordina hvalatur er liggr ȷ mioafafirde(!) ȷ vazfiardar kirkiv sokn þat sem hann visse sannazt til vm̄ hana. enn greindr haflide sagdizt hafa uerit hia þorleife heithnvm biorn̄ssyne sidan at hann var vngr pillttr og thil þess at þorleifr heithinn deydi sem gvd hans saal nade og sagdizt hann alldreigi annat hafa vithad enn hvn hefde verit fvllkomleg eign þorleifs heithins biorn̄sonar og fader sinn hafdi haft hana til býggingar bæde af birne heithnvm þorleifssyne og þorleifi biorn̄syne efter æ. ȷ .xl. vetur edr meir og var eingin aklavgvn æ nefndre ȷordv hvalatvr vm̄ hans daga. So og sagde greindr haflide at fader sinn skvle hefde sagt sier at þorstein sveinson er kalladr var díjle hefde giefith þessa adr nefnda ȷord hvalatvr med dottur sinne sigride þorsteinsdottur birne heithnum þorleifs-(syne) ȷ proventv og ȷ proventvna for hvn og var ȷ henne bædi ȷ vazfirdi og æ skarde medan̄ hvn lifde og þar æ skarde deyde hvn atta dags nott sialfa vm veturin æ ȷolvm og greindr skvle sagdizt þæ hafa þar verit sveinn æ skarde hia birne heithnvm þorleifssyne er þesse quinnan̄ sigridr deyde þar og hier efter sagdizt optnefndr haflide fvllnadar vithne vilia vm bera nær sem hann uære med logvm thil krafdr.

Jtem vorvm vær og ȷ sama stad og dag fyrr nefnder menn er haflide skvlason lyste fyrir birne þorleifssyne oss ollum æ heyrandvm. at hann sagdizt hafa verit med þorleifi biorn̄ssyni vm̄ svmarit æ alþinge þæ sem þeir sættvzt seinazt heilvm sattvm loptvr heitinn ormson og þorleifr heiten biornsson. vard þat þæ af þeirra sattargiord morgvm dan̄di monnum hia verandvm at loptur heithinn skyllde fæ þorleifi biorn̄ssyne .lx. hvndrvt fyrir mafahlidar reid og peninga reikningh og skadræde er þorleifr heitinn þottezt eiga at lopte. skyllde þeir þæ med þessv hǫlldnv og golldnv vera alsattvm satter. Enn þesser peningar vorv ecki golldner medan̄ at loptur lifde sialfr. fyr enn vm̄ havsted vm̄ veturnatta skeid efter hann framlidin. en loptur heithinn saladizt vm vorit adr fyrre[1]) og þat sama havsted for opt

1) þ. e. 1476.

nefndr þorleifr yfer til stadarhols og fan solveigv þorleifsdottur modr loptz heithins ormssonar og heimte af henne þessa fyrr greinda skvlld. sextigi hvndrada. giordv (þav) þa enn af nyiv morgvm monnum nær verandvm fvllan giorningh med sier. ath solveigh galltt og fieck thil fvllrar eignar þorleifi heithnvm biornssyne þessar jarder er so heita. heydalur og skalavik og kelldur med þeim kvgilldvm er þa vorv þar med ȷ þetta gialldith vegna stefaňs heithins loptzsonar hver at þottezt vera rettvr erfingi epter lopt heitin. En hvn vmbodzmadr hans. liggia þessar ȷarder ȷ vazfiardar kirkiv sokn. en efter þetta gaf þorleifur stefan heithin loptson kvittan og avllvngis akærvlavsan fyrir sier og sinvm epterkomendvm. Og til sanninda hier vm settvm vær fyrr nefnder menn vor ȷnsigle fyrir þetta vithnisburdarbref skrifat ȷ flatey a breidafirde favstvdaginn næstan efter a a sama are sem fyr seiger.

---

**121. 6. Júní 1523. í Skildinganesi.**

Bréf, er vottar það, að þeir Pétr og Hallr Björnssynir hafi í arfaskiptum gefið Thomas Jónsson „frian og kvittan“ um jörðina Setberg á Álptanesi, meðkent að þeir hafi af honum „fullnaðarbetaling meðtekið“ og handsalað honum jörðina til fullrar eignar með landamerkjum þeim, sem bréfið greinir.

Eptir tveim afskriptum á pappír, komnum til Landsskjalasafnsins 9. September 1907 frá Setbergi við Hafnarfjörð fyrir milligaungu Eggerts yfirréttarmálfærslumanns Claesens: *a*, afskript gerð c. 1690—1700, að því er virðist með hendi Gísla annálaritara Þorkelssonar á Setbergi, sem var enn á lífi 1712; *b*, afskript frá c. 1750—1760 með góðri settletrshendi, gerð eptir staðfestri afskript frá 27. April 1723, sem beint var tekin eptir hinu „gamla pergamentshréfi Setbergs“, sem þá var orðið skemt og ólesandi á köflum. Báðar þessar pappírsafskriptir eru nú til skemda fúnaðar, en þó má fá bréfið heilt með stuðningi þeirra beggja, því að hvor bætir aðra upp.

Bréf þetta er að sumu leyti nokkuð athugavert. Út af fyrir sig þarf ekki að vera neitt tortryggilegt í því, þó að þeir menn, sem við það koma, þekkist litt annarsstaðar frá, því að í bréfum frá þessum

tímum kemr altaf fjöldi manns fyrir, sem menn vita nú lítil eða engin deili á. Þess utan er það allsennilegt, að Thomas Jónsson, sá sem nefndr er í þessu bréfi, sé faðir Jóns Thomassonar, sem bjó á Hvaleyri 1531 og lenti þá í skipreika, föður Thomasar, föður Björns lögréttumanns í Skildinganesi 1634—1640, föður Guðrúnar — konu síra Þorsteins Björnssonar á Útskálum (d. 1675) — móður Þóru Þorsteinsdóttur, móður Gísla Þorkelssonar annálaritara á Setbergi, því að Setberg sýnist hafa verið leingi eign þessara ættmanna, og 1625 átti einmitt Björn lögréttumaðr Thomasson jörðina. En um það leyti, sem þetta bréf er gert, hlýtr jörðin að hafa verið nýlega orðin eign þessara frænda, því að 1505 átti Grímr Pálsson á Möðruvöllum Setberg, og galt það þá Þorvarði lögmanni Erlendssyni (DI, VII, 718). Pétr og Hallr Björnssynir, er bréfið nefnir, sýnast vera albræðr, og sammæðra hálfbræðr Thomasar Jónssonar. Björnsnafnið hér styðr það og heldr, að það sé forfeðr og frændr Björns lögréttumanns í Skildinganesi, sem við bréf þetta koma, en af Birni er kominn mikill og merkilegr ættbálkr alt til vorra daga, sem nú lifum *(Skildinganessætt)*. Nöfn manna þeirra, er hér getr, eru því bréfinu heldr til gildis. Hitt er athugaverðara, að bréfið er dagsett að mánaðardagatali („6. dag Junij“), en ekki miðað við messudaga í dagsetningunni eða þá við fardaga, sem hér lá beinast við, úr því að bréfið er að nefna þá í sambandi við dagsetninguna. Reyndar er það gert svo laust, að það eitt er sagt, að 6. Júní sé „eptir fardaga“. Fardagar voru einmitt 1523 í fyrsta lagi og hófust þá 21. Maí, og milli þeirra og 6. Júní voru það ár þrjár stórhelgar, hvítasunna (24. Maí), þrenningarsunnudagr (31. Maí) og dýridagr (4. Júní); lá því næst að miða dagsetning bréfsins við eitthvað af þeim, einkum við dýradag, sem var öðrum degi fyrri en 6. Júní. Það er og heldr til að hnekkja bréfinu, að dagsetning sú er endrtekin að niðrlagi þess, sem það greinir að uppbafi. Ekki er heldr orðatiltæki eins og að hafa *„betaling meðtekið“* bréfi þessu til bata. Að gefa „frían og kvittan“ er varla rétt tekið til orða eptir máltízku 1523, heldr hefði það átt að vera „frí og kvittan“. Væri bréfið 100 árum yngra eða frá 1623, í staðinn fyrir 1523, þá gæti bæði þessi orðatiltæki og eins dagsetningarmátinn vel staðizt, og þá ætti Thomas Jónsson, sá er bréfið getr um, að vera faðir Björns lögréttumanns Thomassonar. En sá galli er á því, að þessu sé svo varið, að Björn hefir án efa verið háaldraðr maðr, þegar hans er síðast getið sem lögréttumanns 1634—1640, og Thomas faðir hans hlýtr að hafa verið fyrir laungu dauðr 1623, enda er Björn — en ekki Thomas faðir hans — talinn í fyrirsvari um Setberg 2. Janúar 1625.

Þó að flest þau skröksbréf sem nú þekkjast, sé einmitt um landamerki og ítök, og þó að bréf þetta sé nokkuð ótryggilegt, hefir mönnum þó ekki sýnzt að yggja það, því að landamerki Setbergs hafa verið haldin eptir því um langan aldr, og landamerkjaskrá sú, sem gerð var og samþykt 5. Júní 1890 byggir einmitt landamerki jarðar-

innar á þessu bréfi. En alt um það þykir mér bréfið alls varhugavert, og ekki finst mér réttr keimr að því.

Þad medkennum vier epterskrifader menn Jon Jonsson. [Runolfur[1]) biarnason[2]) og[3]) Runolfur Oddsson med þessum vorum eigeñ vitnisburde þad vier vorum vidstadder i skilldinganese ǡ seltiarnarnese vnı vorid epter fardaga þañ 6[4]) dag Junij.[5]) Arum epter lausnarans fæding 1523 saum vier og heyrdum[6]) ǡ vidurtal þessara manna Peturs biørnssonar og Halls biørnssonar. eñ af annare alfu Thomas Jonssonar vnı arfaskipte ǡ ȷørdunne setberge. gafv þesser firnefnder menn Thomas Jonson frijañ og kuittañ fẏrer sig og sijna arfa med fullnadar handsølum vm ȷørdina setberg i alftaneshrepp i Garda kẏrkiu sokn liggiande. og medkiendust fyrer oss ad þeir hefde[7]) fullnadar betaling[8]) med tekid af firnefndum thomase ȷonsyne. handsøludu þesser firnefnder menn petur biørnsson og hallur biørnsson thomase Jonssyne ȷørdena setberg til fullkomlegrar eignar og forræda[9]) med øllum hennar[10]) gøgnum og giædum sem greindre ȷørdu filger og fẏlgt hefur ad fornu og nyu. sem er iñañ þessara takmarka. Vr midium kietheller og i stein [þañ er stendur i fremsta tiorn[11]) hollte. vr honum og i flodhalsiñ[12]). vr flodhalsinum[13]) og i alftatanga. vr honum og i Hellv þa[14]) er stendur i lambhaga. þadan og i [nedstu ȷardbru[15]). so epter þui sem lækurinn af skier [j tungards endañ[16]). þadañ i silungahellu. so þadan og i þufuna sem[17]) sudur ǡ holltenu stendur. vr henne og i sidre[18]) lækiarbotna. vr þeim og i Grahellu. vr henne og i midiañ kietheller. hier ad auk ǡ Garda stadur tolf[19]) hesta [ʀeidings ristu[20]) i setbergs lande. eñ opt nefnt[21]) setberg budarstødu vid skipaklett[22]) i garda lande. og ad øllu þessu sem hier er fyrir ofañ skrifad gafu þesser firnefnder menn huørier adra kuitta [med fullnadar

---

1) [og Bryniolfur *b*. 2) *b*; fúnað úr *a*, nema *b*-ið sést. 3) sl. *b*. 4) siötta *b*. 5) *b*; Juni *a*. 6) *b*; heirdum *a*. 7) hefdu *b*. 8) Svo bæði *a* og *b*. 9) *b*; forada *a*. 10) sinum̄ *b*. 11) [eyða í *b*. 12) flodarhalsen *b*. 13) flödarhälsenum *b*. 14) sl. *b*. 15) [nestu iardbrur *b*. 16) [tung . . . . . dañ *b*. 17) sl. *b*. 18) syñere *b*. 19) *b*; fúið úr *a*. 20) [reidingst . . *b*. 21) nefnd *b*. 22) stapaklett *b*.

handsølum[1]) fyrer sig og syna erfingia[2]). Og til meire stadfestu setium vier vor incigle hier vnder. skrifad sama[3]) stad og dag sem fir seiger. skilldinganese[4]) 1523 þan 6 dag Junij.
[Underskrifader vitna og medkeña ad soleidess ordrett lesed hafe þad gamla Pergamentzbref Setbergs i Alfftanesshrepp. so sem hier ad ofañ og framañ skrifad stendur ad undañteknu þvi er Eydañ ordaña eda bokstafaña til vysar. ad þetta satt sie stadfesta ockar eigeñ handskriffter og hiaþryckt Signet a Saurbæ a Kialarnese þañ 27. Aprilis Anno 1723.

Sigurdur Sigurdsson mppria landsþingsskrifare (L. S.) — Hans Biarnason mppria (L. S.)

Birt á mañtalsþingi ad Gordum 18 Juni 1852.
Th. Jónasson.[5])

---

**122.** **23. Júní 1523. á Möðruvöllum.**

Þorsteinn Torfason gefr Jón Stullason kvittan um alt það fé, er Jón hafði umboð á haft vegna Þorgerðar Stulladóttur systur sinnar.

AM. Apogr. 5599 „Ex originali" á kálfskinni með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna.

Þat giori eg þorsteinn torfason godvm monnum kunigt med þessv minv opnv brefi þa lidit var fra gudz bvrd þvshvndrvt. d. xx og iij. ar þridiudaginn næstañ epter crossmesso vm vorit[6]) a arbackanum fyrir nedan lavngvhlid ena nedre i havrgardal ath þessvm godvm monnum hia veranda. þorstein einarson. halldor sigmundzson og sveirn eireksson at eg gaf og giordi med handabandi jon stullason avllungis kvittan og akiærvlavsan fyrir mier oc avllvm minvm erfingivm epterkomendvm vm alla þa peninga fasta og lavsa. kvika og davda. frida og ofrida sem hann hefur vmbod yfer haft og at sier tekit edur skipti a giört vegna þorgerdar stvlladottur systur sinnar og hann medkendizt. ath hann

1) [. . . . llnadar . . solum *b*. 2) erfinga *b*. 3) . . . a, *b*. 4) . . . . . . anese *b*. 5) [*b*; vantar í *a*. 6) þ. e. 5. Mai.

hefdi vid tekit hennar vegna hvndrat hvndrata i jordvm og xxx malnytv kvgillda og xv^c j silfre oc ofridvın peningvm. Og til meiri avdsyningar og stadfestv hier vm̃ set eg mitt jnсigli med þessara manna jnсiglvm fyrir þetta kvittanarbref. er skrifat var a modrvvollvm i havrgardal þridiudaginn næstañ fyrir jonsmesso baptiste vm̃ svmarit ari sidar enn fyr segir.

---

**123. 30. Júní 1523. á Öxarárþingi.**

Tylftardómr útnefndr á Öxarárþingi af Hannesi hirðstjóra Eggertssyni um Sveinsstaðareið Teits bónda Þorleifssonar og 18 fylgjara hans, högg þeirra og slög, orð og atvik, svo og skot og skemd, er Grímr Jónsson veitti Teiti á þeim fundi.

AM. Fasc. XLVI, 6a, transskript á skinni gert í Skálholti 13. Júlí 1527 — AM. Apogr. 3837 eptir XLVI, 6a með orðamun úr transskr. frá 1. Júlí 1544 (hér = b:. — AM. Fasc. XLVI, 7α, transskript á skinni gert í Ásgarði 7. Marts 1537. — AM. Apogr. 3840 (eptir XLVI, 7 ).

Þetta er domur teizt bonda þolleifssonar.
vm Sueinstada reid[1]).

Ollum ꝺonnum þeim sem þetta bref sia eda heyra Señda jon magnusson. jon þordarson. uigfus þordarson. jon olafsson. brandur gudmundson. Snæbiorn-gislason. asmundr clemensson. Gudmundr gudmundsson. brandr olafson. sýgurdr juarson. þordur þorsteinsson og salamon einarsson [suarner laugriettumenn[2]). Q. G. og sina kunnigt gioraňde arum [epter guds burd[3]) ꝺ. d. xx og þriu ár a þridiudaginn næstan epter peturs ꝺesso og pals a ælmenniligu auxararþinge worum uier j dom nefnder af ærligum daňdemanni hannes[4]) egertzsýne hirdstiora og haufudsmanni ýfer allt island at ransaka skoda og [fullnadardom[5]) æ at leggia huerra

1) Utan á XLVI, 6 með hendi frá 16. öld (fyrri línan) og frá 17. öld (síðari línan); teittur bondi þorleifson XLVI, 7 (með hendi frá 16. öld). 2) [sl. XLVI, 7. 3) [þa lidit var fra hingadburd vors herra jehsu christi XLVI, 7. 4) haňs XLVI, 7. 5) [fullnadardoms atkuæde XLVI, 7.

suara eda sekta teitur bonde þorleifson laugmann nordan og westan a jslande skÿllde þar þa sekr[1]) uera upp a kongdomsens uegna fyrir þa tilreid haugg og slog ord og atuik sem ordit hafa[2]) a þeim fuṅde er sveinstadafundr er kalladr [af teite þorleifssyne og hans ɱonnum. hueria hann reiknade xviij at ta(u)lu[3]). Suo og ei sidr uorum uier til nefnder at dæma huersu grimur ionson ẏrde skÿlldugur kongdomenum[4]) fyrir þat skot og skemd er grimur ueitte fÿr nefndum teite þorleifsÿne a sama fuṅde er fÿr nefndizt[5]). Handsalade teitur þorleifson sig og sina menn þar þa uṅder lauglign dom kongdomsens uegna. J fÿrstu grein bar grimr ionson þar fram fyrir oss at kongs um̃bodsmann hefdi sett þing j sueinstada jordu utan gardz fyrir þa sauk at hann[6]) hefdi ecki uogat rıjda[6]) heim a þingstadinn fyrir heitan og (sakir) herskapar teitz bonda[6]) þorleifssonar huad hann sagdi þar uerk hafa borit uitne at greindr teitur þorleifson hefdi geingit heiman fra sueinstodum og þangat sem[7]) þingit uar sett med allan þann flock er þar uar saman kominn af hans hendi med storum ordum og steinshauggum og þar epter sagdizt hann skotit hafa. Hier fyrir sagde teitur þorleifson þuert nei fyrir þennaṅ aburd grims jonsonar. enn hann uændizt þui at þesse fundr hefdi ordit ı steinnes lande Enn ecki j sueinstada landeign[8]). Suo og sagdizt hann huorke hafa haugguit nie stungit edur slegit med steine huorke hann sialfur nie hans menn suo hann hefdi nockra uitond af. Nu saker þess at opt nefndr teitur bonde[6]) þorleifson[7]) uændizt þui at þesse fundur hefdi ordit j steinness landeign þui dæmdum uier [þratt skrifadaṅ[9]) teit þorleifson skÿlldugan at leida ij lauglig uitne um̃ landeign þar opt nefndr fundur uard. og at þeim uitnum leiddum þa dæmdum uier sem þeir hefdi fuṅdizt utan gridastada. Enn tume bergsson og biarne jonson soru þar þa fullaṅ bokareid ı domenum oss aullum aheẏraṅda at þat hafdi[10]) uerit halldin eign steinnes

1) skylldugr XLVI, 7. 2) hafdi XLVI, 7. 3) [af Teite Þolleifssyne og hans monnum, setr b hér, en sleppir því á síðari staðnum; [sl XLVI, 7. 4) konginum XLVI, 7. 5) nefndi (!) XLVI,7. 6) XLVI, 7 og b; sl. XLVI, 6. 7) sl. XVLI, 7. 8) landi XLVI, 7. 9) [sl. XLVI, 7. 10) hefdi XLVI, 7.

um næstu xx dar eda leingr er þeir funduzt. þui dæmdum uier [uorum nadugazta herra[1]) kongenum einfaldan riett af [titt skrifudum[2]) teite þorleifsyne. huat hann ; kann brotit hafa a optskrifudum fuñde med sanneñdum og suordum eidum app a hann. enn ef huerki uerdr suarit nie satt giort at titt nefndur t(e)itur þorleifson[3]) eda hans menn hafe haugguit eda[4]) stungit sært eda suiuirt adra menn. þa dæmdum uier hann og hans menn kuitta og klara[5]) sykna og saklausa um̃ fẏr sagda reid. Enn um þa sauk er hird-stiorenn klagade til grims ionsonar kongdomsens uegna at hann hefdi skotit þratt nefndan[6]) teit þorleifson med boga dæmdum uier hann sliku sekañ sem laugbok skipar med aullum þeim greinum sem þar inne stendur. nema hann leide[7]). ij. lauglig uitne med suordum bokareidum ȷnnan manadar ȷ hunauadzþinge[8]) fyrir kongs um̃bodsmanne teite þorleifsẏne hiaueranda [til kaulludum[9]) og aheyranda eda hans laugligum um̃hodsmanne. at titt nefndr teitur bondi[10]) þorleifson eda hans eigin menn hefdi fẏre slegit. eda stungit grim ȷonson eda hans eigen menn adr enn teitur þorleifson uar skotenn af grime ionssyne og at þessum uitnum leidd-um laugliga[11]). þa uirtizt grime ȷonssyne[12]) nockur uorkunn til[13]) at[14]) hefna sin og skẏllde þa nidur falla utlegd[15]). en hann sekr .x. morkum uid konken[16]). Enn ef þa ero ecki uitne leidd teite þorleifsyne hiaueraṅda þa stande epter þui sem laugmalit a kuedur um̃ þuilikañ mann grim ȷonson bade[17]) utlegd og refsing. Beidunzt uier þeirra doma sem adr hafa[18]) dæmder uerit um̃ þetta mal. enn þar komu aunguer fram. þui dæmdum uier þa alla onẏta og at aungu halldande.

Samþyckte þenna uorn dom hans[19]) egertson hirdstiore og haufudsmann ẏfer allt island[20]). Elliñdur þoruardzson laugmann sunnan og austan a islande.

1) [sl. XLVI, 7. 2) [opt nefndum XLVI, 7. 3) sl. XLVI, 7. 4) nie *b*. 5) XLVI, 7, og *b;* krara XLVI, 6 6) skrifadan XLVI, 7. 7) leidde XLVI, 7. 8) hunavatnsþinge *b*. 9) [sl. XLVI, 7. 10) b. v. XLVI, 7. 11) loglignm XLVI, 7. 12) sl. XLVI, 7. 13) b. v. XLVI, 7. 14) sl. XEVI, 7. 15) vtlegdiñ XLVI, 7. 16) XLVI, 6; konginn XLVI, 7. og *b*. 17) XLVI, 6; bædi XLVI, 7, *b*. 18) hefdi XLVI, 7. 19) hannes *b*. 20) ȷslandi XLVI, 7.

Og til meiri [sanneñda[1]) og[2]) audsyningar hier um̄ settu þeir sin innsigle med uorum fÿrgreindra domsmanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref. skrifat uar[3]) j sama stad og[4]) are [degi sidar enn[5]) fÿr seger[6]).

---

124. 1. Júlí 1523. á Öxarárþingi.

SÁTTARGERÐ þeirra Hannesar hirðstjóra Eggertssonar og Ara bónda Andréssonar gerð að forgöngu Ögmundar biskups.

Eptir frumriti á skinni í Landsbókasafni með eiginhendi Ögmundar biskups, og er það keypt úr dánarbúi síra Friðriks Eggerz 1902. Innsiglið er glatað. Sbr DI, VIII, Nr. 617—618.

Sattargiord mille Hannesar Eggertzsonar og Ara bonda Andressonar[7]).

Vier Augmund med Gudz nad biskup j skalhollte. giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ath æ miduikudaginn næsta epter peturs messu og pæls vm sumarit æ almenniligu auxarǽrþingi giordum wier suodan sætt og skilmǽla æ millum hannes eggertzsonar. hirdstiora yfer allt jsland og ara bonda andressonar. Jn primis skylldi ædr greindur ari bondi fæ hannes egerdzsÿni tuau hundrud hundrada i gulli og silfre. klædi og lierepti. nautum og saudum. hestum og audrum godum peningum og eiga ath gialldazt j næstu epter komandi .ij. eda .iij. ǽr. hier med lofadi greindr ari ath wera alldri æ mote hannes eggertzsyni. edr giora honum nockut laugbrot edur hans kuinnu gudrunu biarnardottur hier epter. Hier j mote skylldi opt nefndr ari ok hans menn wera kuitter og ækiærulauser fyrir hannesi og aullum hans epterkomendum vm aull þau sakferli. heimreid og fiar upptekter. sem hann og hans menn haufdu j ar til giort æ monnum hannes og hans kuinnu gudrunu. ad oskertum konungsins riette. ok kirkiunnar. Suo

1) stadfestuXLVI, 7. 2) [sl. ô. 3) b. v. XLVI, 7. 4) [æ XLVI, 7. 5) [og XLVI, 7. 6) þ. e. 1. Júlí. 7) Utan á bréfinu með hendi frá 19. öld.

og haufum wer geingit j borgan vm vid hannes eggerdzson wegna ara bonda andressonar med suodan hætti. ath wier skulum eiga allt med hannes og giallda honum þessi .ij.c hundrada. enn greindr ari suari oss hier fyrir nær oss likar.

Woru þesser menn nær werandi. Teitur þorleifsson. Erlendr þoruardzson. laugmenn. jon magnusson. jon þordarson. Runolfur þorsteinsson. og loptur eÿiolfsson. og settu sin jnsigle fyrir þetta giorningsbref skrifat j sama stad og deigi sem fÿrr seiger. anno domini Millesimo quingentesimo vigesimo tercio.

---

**125.** **1. Júlí. 23. Oktober 1523.** **á Öxarárþingi. í Einholti.**

Tylftardómr útnefndr á Öxarárþingi af Erlendi lögmanni Þorvarðssyni um þá ákæru, er Árni Eiríksson klagaði upp á jörðina Suðrreyki í Mosfellsveit, er útlenzkir hirðstjórar höfðu haldið fyrir honum ranglega, sótt Árna á lögheimili hans og tekið til fanga, en Árni hafði ófyrirsynju í hel slegið Hans heitinn Ofsensem, og sýndi þó kvittan fyrir þegngildi, með öðrum greinum þeim, er bréfið bermir.

AM. Apogr. 5616 „Ex originali" á kálfskinni með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna.

Aullum godum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda rvnolfur hauskullzson. runolfur þorsteinsson. þoralle einarsson. arnbiorn einarsson. tumas jonsson. gudne þorarensson. þolleifur jonsson. jon sigurdsson. grimur æarason. jon helgason. gisle olafsson. jon arnason suarner lögriettumenn kuediu guds og sina. kunnigt gioraňde. þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi .M. d. xx. og þriu ar midvikudagenn næstaň epter peturs Messo og pals æ almennilegu auxararþingi. vorum wier j dom nefnder af wel bornvm manne Ellendi þorvardzsyne laugmanne sunnaň og avstan á islande ath skoda ok ransaka og fvllnadar dom æ ath leggia uiň þa klagan ok akiæru er arne Eireksson

klagade upp á iaurdena sudr reýki sem liggr i mosfellz kirkiu sokn i mosfellzsueit er wtlendzker hirdstiorar haufdu halldit fyrir honum rañgliga. war hann soktur heim á sitt laugheimile af vtlenzkum monnum. fañgadur og i iarñ settur og kugadur. fluttur og færdur suo hirdstioranvm. Vard fyrrgreindur ærne ecki laus eda lidug[1]) af þessv fangelsi fyrre enn hann ward ath sækia heim æ sitt bu sina malnytu. xiiij. kyr og xl asaudar. xv saude gellda. og ij naut gelld og færdi hann þeim sialfur þessa peninga. og fyrir þessa kugan bra hann sinu bui og for sialfur godra manna æ mille. baru þetta marger goder menn þar i domenvm fyrir oss. gafu adr nefnder walldzmenn optskrifudum arna þat ath sauk. hann hefdi oforsyniv i hel slegit hans heiten ofseñsem. gud hans sal nadi. kom þar tittnefndur ærne og synde oss sitt kuitt-unarbref med hañgandi ȷncigle þorvardz heitens ellendzsonar. sem gud hans sal nadi. huer þa hafdi kongsens umbod og syslu i kialarnesþinge. stod suo i hans brefi adur skrifadur arne hafdi golldit þegn. suo sem fyrgreindum þorwardi logmanni wel likade. suo og eigi sidur hafdi þrattnefndur arne latid uirda vigsbæturnar epter loguın. suo sem hans domsbref þar um giord utuisa. kom þar frañ i sama dome fyrir oss opid bref med hangande ȷnnciglvm olafs dýjdrekssonar og hannes egerdzssonar. ath optskrifadur arni hefdi golldit þeim ȷaurdena halfa sudur reyki. og fyrr sagda frida peninga i uigsbætur og þegn fyrir adurgreint manslag dæmdum uier optnefndan arna skylldugan ath vinna eid þar æ þingenu ath hann hefde alla þessa peninga med fullre kugan og hræzlu og naudigur uti latid. og þann eid sor hann þar i domenvm fyrir oss og ij skilriker menn med honum. Og þui ath suo profudu og fyrir oss komnv dæmdum wier adurnefnder domsmenn tittnefndum arna Eirekssyne optskrifada ȷaurd sudur reýke aptur til fullrar eignar og frials forrædis og landskyllld vppbera ath næstuñ fardaugum. Enn sa bvnadur er þar væri skyllde standa med frelsi til næstu fardaga. skyllde suo mikit kuitt af fridum peninge sem iafnhatt yrde botunum epter hinn dauda. J sama dome dæmd-

1) Svo.

um wier adurskrifader domsmenn þat sama sattmalsbref onytt og ath aungu halldanda sem þar kom fram hirdstiorans wegna og arna vm fyrgreinda jaurd og hirdstiorann skylldugan aptur ath legia sitt bref greindum arna e(i)rekssyne. samþyckte þennan vorn dom med oss laugmaduren ellendur þoruardzson og setti sitt jncigle med uorum fyrrnef(n)dra domsmanna jnciglvm firir þetta domsbref. skrifat j Einhollti j hornafirde jn festo severini episcopi et confessoris æ sama ære sem fyrr seiger·

---

126. 3. Júlí 1523. á Öxarárþingi.

Dómr sex manna útnefndr á Öxarárþingi af Teiti lögmanni Þorleifssyni um gjörning þann, er þau Þorbjörg Þorláksdóttir og Þorbjörn Gunnarsson gerðu um jörðina Harastaði í Vestrhópi.

AM. Fasc. XLVI, 8, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum eru 5 fyrir bréfinu. — AM Apogr. 2910 — AM. Fasc. XLVI, 9a transskript á skinni frá 13. Marts 1535.

domur fyrir harastodum j uesturhőpe[1]).

Ollvm monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda vigfvs þordarson. þolleifur avrnolfsson. salamon einarsson. sigvrdur oddzson. gvdmvndur gvdmvndzson. sigvrdur jvarsson k(v)ediv gvds og sina kunnegtt gioranda ad þa er lidit var fra hingadbvrd vors herra jehsu christi ꝏ d xx og þriv ár a fimtvdagin næsta epter petvrsmesso og pals a almenneligv avxararþingi vorvm vær j dom nefnder af ærligvm dandi[2]) manni teite bonda þolleifssýne lavgmanne nordan og vestan æ islandi æ ad lita rannsaka og skoda og med skynseme fvllnadardoms atkuædi æ ad leggia hveria makt edur afll hafa skylldi sa giorningur er þav þorbiorg þorlagsdotter og þorbiorn heiten gunarsson haufdu giortt med sier vm jordina harastadi er ligr j uestui hopi j breida-

1) Utan á XLVI, 9 með gamalli hendi. „Hier er harastadadomur“ XLVI, 8. 2) dugandi XLVI, 9.

bolsstadar kirkiv sokñ. J fyrstu kom þar fram þat giorninxbref oc þat jnne hielltt ad adur[1]) greindur þorbiorñ gvnarsson gaf jvare med sier j profeñttv xxx hvndrada upp j fyrr nefñda jord harastadi med þeim skilmala ef adur nefndur[2]) þorbiorñ gvnarsson lifdi juare leingur þa skildi hann sier mat og klædi a peningvm [opt nefndrar[3]) þorbiargar þollaxdottur med þui skilyrdi ad þratt greind xxx hvndrvd[4]) j harastodvm skýlldi hennar æfinlig eign vera þar eptter. voru þau avll j einu hañdabañdi ad avllvm þessvm fyrr skrifvdvm giorningi juar bruñdzson[5]). þorbiorñ gunnarsson og þorbiorg þollaxdotter. vrdv þav avll þui jatsa og samþyckilig hvertt fyrir sina deilld ad so skylldi standa þar epter sem þa var giortt en saker þess ad so stendur [skrifid og[6]) skrifad j lavgbokine ad epter gavgnvm og vittñvm skal hvertt mal dæma þui dæmdvm vær asmvnd clemensson skylldvga(n) ad leida t(v)av skiallig vitñe med svordvm bokar eidi ad fyrrskrifudvm giorningi vm titt tallda jord harastadi. skvlv vitnin leidd ed sidazta ad[7]) michaelsmesso er kemur enn ad vitnunvm leiddum Dæmndvm[8]) vær fyr nefnder domsmenn med fvllv doms atkvædi þetta þeira kavp þorbiarnar gvnarssonar og greindrar þorbiargar þollaxdottur vm optskrifada jord harastadi myndvgtt og skialegtt og j allañ mata lavglegt vera og verid hafa. Samþyckte þenna vorñ dom fyrr nefndur teitur þolleifsson lavgmann og setti sitt innsigli [med vorum jnsiglum[9]) fyrer þetta domsbref skrifad J sama stad [deigi sidar enn[10]) fyr seger.

---

127. **3. Júlí 1523. á Bolavöllum við Öxará.**

Ásgrímr Ásgrímsson selr Ásmundi Klemenssyni jörðina Svarfhól („Svarfhól") í Miklaholtshrepp með því verði, sem þeir höfðu áðr um talað sín á milli.

Bisk. Skalh. XIX, 54, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2396 „accuraté". —

1) XLVI, 9; ad XLVI, 8 (!). 2) greindur XLVI, 9. 3) [sl. XLVI, 9. 4) hvndrada XLVI, 9. 5) og, b. v. XLVI, 9. 6) [svo XLVI, 8; sl. XLVI, 9. 7) æ XLVI, 9. 8) Svo XLVI, 8; dæmdum XLVI, 9. 9) [b. v XLVI, 9. 10) [og dag sem XLVI, 9.

Bref fyrir svarfholi j mikhollz (!) kirkiusokn.

Þat giorvm vær þorgils joñsson. Sigurdr oddzson. þordr þosteiñsson. joñ grimsson. nicvlas helgǻson godum monnum witurligt med þessv vorv opnv brefe at ǻ fostwdagenn næstǻn eptter Petturs messo ok Pals wm svmarid þa er lidit war fra hingadbvrd wors herrǻ jhesw christi. ꝏ. d. xx og iij ar a bolǻvollwm wit Avxaræ worvm wær j hiǻ savm og heyrdum a ord ok hañdaband þessara mannǻ. Asgrims Asgrimssonar ok Asmundar Clemenssonar at svo firir skilldw at Asgrimur feck fyrnefndum Asmunde Clemenssyni til fvllrar eignar jordinǻ svarfbol er liggur j micklholldz kirkiv sokñ med ollvm þeim gognum og gædum eignum ok jtockum sem greindre jordw fylger og fylt hefur at fornv ok nyiv ok Asgrimur vard fremst eigande at med þvi verde sem þeir hofdw adr wm talad siñ a mille wttan þat at Asmundr skyllde gialldǻ j þeim peningum. sem hann villde sialfur j hveriv sem þatt wære ok til penninga mætte reikña. Skyllde greindr Asmundr clemensson frialsligǻ at sier tackǻ nær hann willde greiñda jord svarfbol. eignazt sialfur edur seliǻ avdrum. liǻ edur lañǻ. byggiæ ok bælǻ. sektǻ ok sækiǻ. rada ok regerǻ. gefǻ edur gialldǻ ok hvad af at gioræ sem hann villde sialfur hier eptter. Ok til sanninda hier vm settum vær fyrr nefnder menn vor jnsigle firir þetta jardarkavpsbref hvertt er skrifad war æ Anǻstodvm j midfirde laugardagen firir margrettar ꝏesso vm svmarid a samǻ are sem fyrr seiger[1]).

---

**128.** **3. Júlí 1523** **á Bolavöllum.**

Teitr lögmaðr Þorleifsson tekr bókareið af tveim mönnum um Harastaðagjörning (Nr. 126).

AM. Fasc. XLVI, 9b, transskript á skinni gert á Skarði 13. Marts 1535.

Suo fellda bokareida toc ec teitur þorleifsson logmann

1) þ. e. 11. Júlí.

nordan og vestan á jslandi af asgrime asgrimssyni og einare jonssyne sem hier eptter skrifad steñdur.

til þess leggium vit hond á helga bok og suo skiotv uit ockrv male til guds at vit vorum þar j hia savm og heyrdum a so felldan giorning a añastodum j midfirde at þav vorv oll j eiñv hañdabande jvar brandzson og þorbiorg þollaxdotter og þorbiorn gvnnarsson at suo fyrir skilldv at greindur þorbiorn gvnnarsson selldi adur nefndum jvare xxx hundrud j harastodum j uesturhoppe med þeim skilmala at þorbiorn skilde sier ævenliga profeñtv. mat og klædi suo leingi sem þeir lifdv til bader enn ef þorbiorn lifdi jvare leingur þa skilde hann sier mat og klæde a peningum þorbiargar med þeim skilmala at fyrr greind xxx[c] j harastodum skylldi hennar ævenlig eigñ vera þar eptter og ad suo stofudum eide sie ockur gud hollur sem vit satt seigium en gramur ef uit liugum sagdi hvor fyrir sinn partt.

vorv þesser eidar teckner á bolavollum fostvdagen næsta eptter peturss messo og pals deige sidar enn domuren var dæmdr.

---

129. **3. Júlí 1523. á Bessastöðum.**

Hans Eggertsson hirðstjóri kvittar Teit bónda Þorleifsson og menn hans konungsdómsins vegna um Sveinsstaðareið.

AM. Fasc. XLVI, 6 γ, transskript á skinni gert í Skálholti 13. Júlí 1527. — AM. Apogr. 3839 eptir XLVI 6 γ með orðamun úr transskr. frá 1. Júlí 1544 (hér = b). AM Fasc XLVI. 7 γ, transskript á skinni gert í Hvammi 7. Marts 1537. — AM. Apogr. 3842 (eptir XLVI, 7 γ).

Þat giore eg hans egertson kongs um̄bodsmann og hirdstiore j islande godum monnum uiturligt[1]) med þessu minu opnu brefi at eg medkennuñdz at eg hefi kuittan[2]) gefit teit bonda þorleifsson aulldungis[3]) [mins herra kongsins[4])

1) kunnigt XLVI, 7. 2) sl. XLVI, 7. 3) b. v. XLVI, 7. 4) [sl. XLVI, 7 (!).

uegna huat hann kann brotligr ordit hafa a þeim funde er sueinstadafundr [kalladr er[1]). Saumuleidis hefi eg kuitta gefit hans eigin menn kongdomsens uegna at fra skildu mandslaginu [þui sem[2]) þar skýlldi uordit hafa huer sem hann hefur j hel slegit þui fyrirbýd eg adr nefndr[3]) hannes[4]) egertson aullum kongsins fouetum og umbods Monnum j islande at hindra edur forfanga adr[5]) nefndañ teit þorleifson og hans eigen menn um̃ kongsins sakfelli æ fyrr greindum funde. hefir eg fulla[6]) peninga uppborit kongdomsins uegna af [tittnefndum[7]) teite þorleifsyne suo[8]) mier uel anægier. Og til [meiri stadfestu og audsýningar[9]) hier um setta eg [hans[10]) egertson kongsens fouete[11]) mitt jnnsigle fyrir þetta kuittunarbref skrifat a bessastaudum a altanese[12]) faustudaginn næstañ epter peturs Messo og pals um̃ sumarit arum epter guds burd. M. d. xx. og iij. ar.

---

## 130. 8. Júlí 1523. á Strönd í Selvogi.

Ögmundr biskup lýsir því, að Erlendr (lögmaðr Þorvarðsson) hafi feingið sér jörðina Hof á Kjalarnesi til fullrar eignar í reikningskap Strandarkirkju og Nesskirkju í Selvogi, Hofskirkju á Kjalarnesi og Breiðabólstaðarkirkju í Olfosi, með öðrum greinum, er bréfið hermir.

AM. 232. 8vo bl. 111b. (bréfabók Gizurar biskups Einarssonar, í frumriti). — AM. 266. Fol. bls. 98 (afskript með hendi síra Haldórs Jónssonar í Reykholti 1654—1657). — AM. Apogr. 2799.

Vm hof á kialarnesi og kirknareikningskap laugmanzins.

Vier augmund med gudz nad Biskup j schalhollti Giorum godum monnum kunnigt med þessu woru opnu Brefi at j worre fyrstu visitatio worum wier a straund j Selwoge

1) [er kalladur XLVI, 7. 2) sl. XLVI, 7. 3) greindur XLVI, 7. 4) hans XLVI, 7. 5) fyrr XLVI, 7. 6) b. v. XLVI, 7. 7) [greindum XLVI, 7. 8) sem XLVI, 7. 9) [sanninda XLVI, 7. 10) hannes *b*. 11) [sl. XLVI, 7. 12) alptanese *b*.

og beiddunzt þar reikningskapar Strandarkirkiu og neskirkiu. hofskirkiu og breijdabolstadar halfkirkiu j aulvesi. Beiddunzt wier þar reikningskapar og fiengum ecki. kirkian i nesi war komin at nidurfalli. kirkian a straund mioc hraurnandi Swo hun þurfti botar wid. kirkian á breidabolstad af fallin med aullu. lofade greindur[1]) Erlindur at lata innstædu til neskirkiu og bæta at Strandarkirkiu enn giora upp breidabolstadar kirkiu. Enn hann fieck oss hof j reikningskap greindra kirkna til fullrar eignar og frials forrædis og lofadi at hallda kirkiunnar[1]) med kennimanna skylldu sem til ber þwi gáfum wier hann og giordum aullungis kwittañ og akiærulausañ um reikningskap greindra kirkna. sem þar til hafdi fallit. Voru þessir nærwerandi menn jon hallzson. freysteinn Grimsson med morgum odrum lærdum og leikum. Og til sanninda hier wm festum wier uort jnncigle fyrir þetta bref skrifat a straund j Selwogi vj jdus julij Anno domini m° d° xx° iij°.

Johannes. Simon. Gudmundur presbiteri viderunt et audierunt tales literas integro sigillo obsignatas.

---

131. **9. Júlí 1523. á Strönd í Selvogi.**

Oddr Þorkelsson gefr dætrum sínum Þuríði og Guðrúnu í sína testamentisgjöf og þeirra móðurarf jörðina Gröf í Hrunamannahrepp, en selr kirkjunni í Gröf jörðina Hlíð í Gnúpverjahrepp til panta fyrir peningum hennar, er hjá sér stæði, og lýsir Ólaf Oddsson samfeðra bróður greindra systra og löglegan framfærslumann þeirra.

AM. 232. 8vo bl. 17a (bréfabók Gizurar biskups Einarssonar, í frumriti. Brot aptan af). — AM. 266. Fol. bls. 7 (heilt; með hendi síra Haldórs Jónssonar í Reykholti 1654—1657).

Þad giore eg Oddur Þorkielzson godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi ad eg giore sofelldañ giornijng og skipan vegna þeirra systra þurijdar og gudrunar dætra minna ad eg skipa þeim jordina Grof alla er liggur j hrunamannahrepp j hruna kyrckiu sokn (j) sinn modurarf

1) Svo.

huorn eg medkennunz ad þær eiga sextyger hundrada og onnur þeirra sex hundrud betur er hennar modurfader gaf henni. Enn jordina hlid er liggur j Eystra hrepp j steinsholltz kyrkiu sokn set eg kyrkiunni j grof til panta so leingi sem hun fær ecki syna penynga ut af mier eda af mynum erfyngium. kunni myn og fyrre vid ad missa enn adur greind kyrkia j grof hafi feingid syna penynga. þa skal hun eignast fyrr skrifada jord hlid. vtan myner erfyngiar uilie leysa thil syn enn giallda kyrkiunni syna peninga. huorier ad so mickler eru vj malnytu kugylldi og xij^c j fullvirdiz penyngum. Suo og lysi eg þui ad Olafur Oddzson er brodir[1]) þeirra samfedra adur greindra systra og hann er þeirra laugligur framfærslumadur a þeirra peningum. lyse eg þennañ adur skrifadan giorning uera mina testamentum giord ef min kann uid ad missa.

Og til sanninda hier um set eg mitt jnnsigli fyrir þetta giorningsbref huert ed skrifad uar a straund i Selwogi octaua visitationis Mariæ uirginis arum epter Gudz burd ꝏ. d. xx og iij ar.

---

**132. 12. Júlí 1523. Í Hafnarfirði.**

Hans hirðstjóri Eggertsson kvittar Jón Hallsson um skattinn og sýslugjaldið af Rangárþingi og um tíu hundraða gjald eptir Skóga og Skógaeignir, Mörk og Merkreignir um næstliðið ár, svo og um tíu hundruð goldin í haust Heinreki skrifara á Bessastöðum.

AM. 191. 4to bls. 59—60, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, rituð samtíða á skinn. — AM. Apogr. 5530 og 5531 með hendi Árna Magnússonar.

Þad giore ec hans egerdzson hirdstiore og hofudsmann yfer alltt jsland godum monnum uiturligt med þessu minu opnu brefi ad ec medkennunzt ad ec hefer uppborid af jone hallzsyne suo mier uel likar skatten og syslugialldet af rang-

1) Hér byrjar frumbókin.

arþinge. suo og um þau .xc. sem hann uar minum herra kongenum og mier skylldugur þetta ar af skogum og skogaeignum. suo og af mork og merkureignum oc þui gef ec adr skrifadur hans egertzson fyrnefndan Jon hallzson aulldungis kuittan og akærulausan fyrir mier og ollum minum epterkomendum kongs umbodsmonnum um alla adur greinda peninga og syslu. og þeir aller kuitter. sem hann kuitta gefur edr gefid hefer þetta ar forlidit. Suo og gef ec hann olldungis kuittan og akærulausan um þau .xc. sem hann gallt heinrek skrifara a bessastodum J haust minna uegna er uar af adr skrifudum kongs eignum. Og til sannenda hier um set eg mitt Jnnsigli fyrir þetta kuittanarbref skrifat J hafnarfirde sunnudagen næstan fyrer margarete uirginis þa lidit uar fra guds burd .ᴍ. d. xx og iij ar.

Jtem golldit hans egertzsyne .x c af sinne skulld upp a landzuisu uegna barna uigfus heitens. tok henrek skrifare hans umbodsmadur uid þeim um haustit a bessastodum.

---

**133. 13. Júlí 1523. Í Skálholti.**

Vegabréf Ögmundar biskups handa Karli klerki Pálssyni, er ætlar á Rómvegu og til erlendra staða.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar“.

Commendatoria.

Augmundus Dei gratia Episcopus Skalholtensis ac administrator Ecclesiæ Holensis. nec non et totius Islandiæ in spiritualibus visitator generalis universis et singulis præsentes literas inspecturis Salutem in Domino et omnium bonorum incrementum.

Qvoniam circa viatores sinistra solet sæpius suboriri suspicio. nisi literali præsidio fide dignorum virorum fuerit radicitus extirpata. Hinc est qvod nostro familiari satis accurato. præsentium latori Carolo Pauli probatæ vitæ conversationisqve honestæ Sacerdoti. nulla prorsus canonica

prohibitione innodato. Deo Opt(imo) Max(imo) annuente Romam versus peregrinari proponenti ac Ecclesias aliarum regionum et loca Sanctorum pro fluxu temporis pie visitare cupienti. laudabile testimonium perhibemus veritatis. omnium ac singulorum. ad qvos ipsum. casu vel proposito declinare contigerit. instantius supplicantes charitatibus. ut tam amore sui. ac humanæ compassionis debito. qvam vim nostrarum precum intuiti. præfatum sacerdotem. præsentium exhibitorem in hujus peregrinationis progressu tanqvam Christi pauperem benigne foveant. protegant. et humaniter pertractent. Non sinentes eum qvovis modo. in rebus aut persona. sub qvacunqve injuriarum illatione periclitari vel offendi. Pro his indesinentia præmia ab ipso perenniter percepturi. qvi nullius obliviscitur benefacti.

Datum in curia nostræ solitæ Residentiæ die Margaretæ virginis. Anno Domini M. d. xx. III. sub sigillo nostro rotundo. qvo ad hoc utimur.

---

**134.** **15. Júlí 1523.** **Í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti lýsir því að hann sendi í umboði sínu Karl Pálsson klerk sinn til Þjóðverjalands, Italíu, Danmerkr, Noregs og annara landa til þess að komast eptir því, hvert Jón prestr Arason, er bannsettr sé, hafi strokið og með leynd og stelandi hendi með sér haft háfur og auðæfi Hóladómkirkju, — og stefni honum fyrir dóm, með fleirum greinum,er bréfið hermir.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa-Bok Biskups Ogmundar“. — Prentað í Finni Johannæi Hist. Eccl. Isl. IV, 218—219.

Avgmundus Dei gratia episcopus Skalholtensis a(c) administrator Ecclesiæ Holensis ac totius Islandiæ in spiritualibus visitator generalis. universis et singulis. Serenissimis Regibus. reverendissimis. reverendis ac venerabilibus archiepiscopis et Episcopis. Abbatibus. Prioribus. Præpositis. De-

canis. cæterisqve Ecclesiasticis personis. Illustribus. Magnificis. insignibus et Egregiis Ducibus. comitibus et capitaneis. ac eorum loca tenentibus. Consulibus. Proconsulibus et cetera Reverentiam et honorem cum salute in Domino sempiterna.

Notum facimus per præsentes. qvod præsentium exhibitor Carolus Pauli. sacerdos noster familiaris. specialis per nos in Alemanniam. Italiam. Daciam. Norvegiam ac aliarum terrarum provincias emissus existit specialiter habens in mandatis. qværere. perscrutari ac investigare. ubi. et in qvo loco qvidam Johannes Presbyter Aronis nomine. sententialiter excommunicatus. suis de meritis exigentibus clam ac furtive cum bonis Ecclesiæ cathedralis Holensis aufugit. Qvo convento. publice excommunicatum proclamare. atqve ipsum ad judicia jure rursum citare etiam si opus fuerit in curiam Romanam hujusmodi causam deducere discutiendam. Navem vero. cum qva aufugit ac alia bona secum exportata arrestare. infiscare ac impignorare. qvousqve juri satisfecerit coram Domino nostro Rege Serenissimo ac Reverendissimo Patre in Christo. Domino Erico Valchendorph almæ Ecclesiæ Nidrosiensis Archiepiscopo. suoqve venerabili capitulo ad hoc invocato specialiter. et reqvisito. Demum volumus et annuimus qvod præsentium lator hujus modi nostras literas commendatitias in forma latiori. secundum formam cameræ Apostolicæ. ampliare. dilatare. poterit. justa qvod viderit pro hujus modi nostro negotio expediendo commodius expedire.

Datum et actum in Domo nostræ solitæ Residentiæ ipso die Divisionis Apostolorum Anno Domini M. d. xx. III. sub sigillo nostro rotundo. qvo ad similia utimur.

---

135. **[15. Júlí 1523. í Skálholti].**

Ögmundr biskup ritar Kristjáni konungi II. um Jón prest Arason, er bannsettr sé og hafi strokið af landi burt með skip og peninga (Hóla)dómkirkju, svo og um góða framferð Hans Eggertssonar og um yfirgang Týls Pétrssonar og að hann hafi verið dæmdr óbótamaðr.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar". „Det lader sig ansee, at Bisp Ogmund har intet vist af at kong Christiern var i Aprili dette aar 1523 undvigt af sine riger, hvilket dog er underligt, om saa skulde være. J. hvordan der om er, da hjalp intet alle hans recommendationer, thi forend dette bref kunde være i Danmark, da hafde alt kong Friderik confirmeret Jon Aresen til Hole Bispedömme" (AM).

Bref til Kongsins.

Ødmykelig heilsan sendist ydru heidursamligu herradôme aff oss i allan tiid. Ødmygeliga táckande ydra velgiôrninga oc godhed hier til landet.

Vitherligt skal ydare naad vera ad her ud aff landet hefur hlauped ein prestur. sem heiter Sira Jon Arason med Domkirkens skib och peninga och ydre naades . . . . mote ollum vorum vilia och ydar naads fogvita. Var hañum therfore dæmdur i ban och aller hans medfylgiarar obotamenn. thi vænter vij adt ther munud skicka so til ad hann och þeir stande lôg og rett ther fore.

Jtem hefur Hans Eggertzson framfarid hier i landed. sidan vier komum til stolsins. skialliga och truliga i allan mata uppa ydars nád vegna och krununnar.

Jtem kom her hlaupande Tijll Petursson i landet. och rofade kongsgardinn Bessastade och braut kirkiuna. takande þar uth gull och silfur. vadmal och adra peninga ydar naads skatt et cetera. grijpande þa strags ydar fogeta och embôttismann Hans Eggerthzson. bindande som tyff. haffanda i fangelse fiortan daga. brytande so Sancte Olafs log och ydar naadis fridarbreff. geck so dom them i mellum adt Tijll var dæmdur obotamadur och aller ther som hañum veittu styrk och fylge adt bryta ydar naades gard og kirkiu. Thi væntum vier adt ther munud sia myskunsamlega till med ydrum thenara Hans Eggertzson. thi hann er ydar naad hollur och trur. so vij kunnum merkia. So och vilium vii giarnan hann framvegiss styrkia som thier haffed oc skipad i ydar naades breffe.[1])

1) „sine dato. sunt tamen scriptæ 1523", 62.

Yferskrif(t)en.

Illustrissimo Regi Regnorum Daciæ. Sveciæ. Norvegiæ et cetera H(æ) L(iteræ) præsententur cum humilitate.

---

136. **15. Júlí 1523.** **í [Skálholti].**

Bréf Ögmundar biskups í Skálholti til Eiríks erkibiskups í Niðarósi um strok Jóns prests Arasonar frá landinu, með öðru fleira.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Øgmundar".

Reverendissimo in Christo patri ac Domino Erico Valchendorp. Dei et Apostolicæ sedis legato. Domino suo gratiosissimo Hæc p(ræsentetur) l(itera) cum humilitate.

Debitis reverentia et honore in Domino præmisso.

Ødmygelige tacke wij Eder naad all deñ ære. dygd. godheit och velgiorning som Eders naad haffer oss overdugum alltid beted. Kunngiôre wij Eders naads kiærligheit ad herra Jon Arason er lopen her uth aff landet. och giort Holadomkirkiu och vorre eigiñ kirkiu so storan och mikinn skada adt hann er alldre mann till adt forsvara therfore for thesse saker och adrer er hann uthaff bode Stickten dômder i bann och forbod. thi bidie vij Eders naad adt lade hannem svare epter logen derfore i Nidros som hañom haffuer loffed paa sin ære. Verdis Eders naad vite ad vij sende vort skib till Bergen vnder Eders naadis beskermelse cum pecunia Petri som er her uth af landed pro tribus annis. och the afflatsbreff so mikedt bleffue soldte her. sende wij och Eders naad fisk paa ij^c mark[1]) for dij Breffuere som vij toke uthaff meistara Hans. Jtem bede wij Eders naad ødmygelige ad se til med vort folk et cetera. Sende wij och wor prest til Eders naad herre Hallur. och er thed hans erend ad hann vill giarna fa collationisbreff paa Oddestad. thi herre Jon Arason haffuer inted hallded uth aff ded

1) tvískrifað í hdr.

breff som Eders naad vnte hañom. men stadenn er so gott som forderffed. Werdis och Eders naad vite ad i førre høst wore wıȷ vnder Gronland med stor storm. och miken voda. Kann och vor prest segia Eders naad grandliga om nocken stycke som her i landet er sked och til gath.

Jn Christo felicissime valeatis.

Scriptum Islandiæ in die divisionis Apostolorum Anno Domini 1523.

---

137. [15. Júlí 1523. í Skálholti].

Bréf Ögmundar biskups í Skálholti til (Ólafs) erkidjákna (Engilbertssonar) í Niðarósi um Jón prest Arason og mótþróa hans; biðr hann trúa „mátulega" Ólafi presti Hjaltasyni; segir margir vilji hafa Jón prest Einarsson biskup nyrðra, og biðr, að Halli presti Þorsteinssyni sé veittr Oddastaðr.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr Jóns „Ur Brefabok Biskups Ogmundar". — AM. Apogr. 2754 með hendi Hans Beckers „Ur brefabok biskups Ögmundar" (AM.) „sine anno. sunt tamen absqve dubio scriptæ 1523". (AM).

Sendibref Biskups Øgmundar til Diekens.[1])

Præmissis nostro sincero favore in Domino cum salute.

Mykiliga þockum vier ydr. kiære vin. fyrer alla dygd og æru. ord og verk. er þier syndud oss og voru folke i sist i Þrandheim. Kunngiörum vier ydr. ad Sera Jon Arason hefur onytt og ad ongvo hallded þad umbodsbref sem þier med heidursamligasta Kapitula Nidaross Domkirkiu bifalade oss yfer Hola Biskupsdæme. þar med sett sig og þá hönum̃ hefur lijkad i volld. og usurperad so claves Ecclesiægiörande oss oc vorri Domkirkiu so mikinn og margfalldan skada. ad hann er ecke madur til ad svara eda bitala. ok fyrer þessar saker er hann dæmdur i bann. þvi væntum vier ad þier trued matulega hans framsögn. oc Ser(a) Olafs Hialltasonar. þvi hann hefur hyllt hann i öllu. þar til sem þier faed sanna vissu af oss. Höfum vier vered til samtals

1) „ɔ: Decanum Ecclesiæ Nidrosiensis, Olaum Engilberti". (AM).

vid Holadomkirkiu kiennemenn um̄ þeirra Biskupskiŏr. Enn þvi verr. ad vier kunnum ongvan̄ ad finna þann i voru lande. ad uppă sig vilie taka þviljkan̄ vanda. þui hofum vier og þvi skoted þessu Biskupskiŏre til ydar og heidursamlegasta Kapitula Nidaross Domkirkiu. hafande ă ydur fullkomed traust. ad þier sended heilagre Holadomkirkiu sem snarasta hiălp i sinne naudsyn skickande henne hæfilegan formann. ad frateknum sera Jone Arasyne. þui vier segium ydur fyrer full sanninde. ad hann mă einginn Biskup blifa fyrer saker þeirra stormæla. sem hann hefur sig i vafid. Hŏfum vier ordlof gefed einne personu af voru Biskupsdæmi þann sem er skilgetinn og lærdur i betra lage af vorum prestum sem heiter Sera Jon Einarsson. Eru þeir og fleire i Holabiskupsdæme ad hann vilia giarnan hylla oc samþyckia fyrir sinn formann oc Prelata. ef þad er ydar vilie. enn vilia þŏ ecki kiŏr giŏra. helldur hofum vier sett þad allt under ydar forsiă. Jtem sendum vier til ydar vorn prest Sera Hall Þorsteinsson bidiande ydur kiærlega ad flyia hŏnum collationsbref fyrer Oddastad. þvi ad Sera Jon Arason hefur ad ongvo hallded þad bref sem herra Erkibiskupinn bifalade hŏnum upp ă greindan stad. helldur hefur hann forsmăd hann og fordiarfad i allan măta. ok þar uppă hefur hann stefnt Sera Jone Einarssyne fyrer ydur. Væntum vier og bidium kiærlega ad þier skicked lŏg og rett þeirra ă millum. Er þvi verr. ad vier hofum ongva sanna fregn feinged af verdugasta faudur i gude herra Erchibiskupinum. bidium vier ydur kiærlega ad skrifa oss aptur til um einn hlut oc annan̄. hvorsu þier vilied vera lata. Kann presturinn ad segia ydur þad vier skrifum ecke et cetera.

---

138. **15. August (?) 1523.**

Bréf Kristjáns Danakonungs hins II. til Henriks Einglakonungs hins VIII. um hjálp, til þess að reka réttar sins við hertogann af Holsetalandi, er kominn sé með her til Sjálands, með loforði um verzlunarhlunnindi fyrir enska þegna á Íslandi, í Færeyjum og í Björgvin.

Aarsberetninger fra det kongelige Geheimearkiv, udg. af C. F. Wegener, III. Khavn 1865 bls. 111, eptir afskript Grims Thorkelins „ex autogr. chartac. Bibl. Cotton. Nero B. III. p. 82“.

Premierement mon trechier et traisaime sigr et frere, ie vous mercie du plaisir, honeur et seruice que vostre maistre a monstre et exhibe a nous, promestant a elle de le guerdoner second nostre puissance en toutes choses. Aprez vous plaise scauoir coment nous auons receus des nouuelles de nostre quartier, par lesquels auons entendu, comment nostre trechier et tresame oncle le duc de Holsten soit venu en nostre isle nomee Siæland a tout de puissance de gens de guerre, aiant assiege nostre ville de Coppenhauen par mer et par terre a ce point, que nulle aide ne seruice de choses quelconques puisse estre menee dedans la dicte ville de Coppenhauen. Pourquoi nous vous prions et supplions, que second lordonnance de nous affaires et nostre alliance faicte vous plait denuoier ung ambassade a nostre bien aimee et treshonoree dame comme de mere madame Margarite pour traiter de nostres affaires a nostre proufit et honeur. Tiercement vous plaise sauoir, que si ce seroit le bon plaisir et voulente de vostre maieste, quelle se daignast de admonester ces gens pour nous faire aucunque assistence, aide et secours de maniere a gens de guerre pour nous secourir en nos affaires apartenantes a nostre droit et iustice et roiaulmes defendre, ce seroit vng grant plaisir a nous et grant honneur a vostre maiste, et nous promettons, que si la chose se puisse faire ainsi, que nous guerdonnerons si bien, que vostre maieste pourra aperceuoir, que ce benefice ne soit point fait a vng prince ingrat. Et puys noz prions a vostre maieste, que luy plaise de faire scauoir a nous, si plaist, que vous gens facent leur cas pertenant aus marchandises et autres choses en nostres pais et isles de Islande, Ferre et Berghes. Quant est au dernier, que si soit vostre plaisir de nous faire ce que nous auons requis, cest a scauoir aide, secours et assistence, nous vous promettons loiaulement, que ia la chose ne sera menee a vostre deshonneur ne a nostre. Car plaisir quelconque que puissions

faire a vostre maieste ou vous gens, ducs, princes, barons, peuple, alliez, nous ferons de ochi bon cueur que iamais chose fuit fait. Ce promettons nous loiaulement.

Cristiern.

---

139. **25. August 1523. í Hróarskeldu.**

Friðrik konungr I. ritar Þrándheimsklerkum og samþykkir kosning Jóns Arasonar prests í Odda til biskups í Hólabiskupsdæmi.

Ríkisskjalasafn Dana, Cancell. Arkiv, registrantblað, líklega úr „Tegnelser paa alle Landene“.

Her Jonn Arnnssôn fick sligthenn ett till Capittell i trundhiemm i Norge.

Viider kiere Herrer oc Wenner at oss elskelig hederlig Herr Her Jonn arnnssôn prest aff Odda kircke i island haffuer weret hoss oss mett ett opnne beseglet bref lydendis athij haffue tilskickett prestemend men[ig] i island wthi hele holle stigt at effther werduge mett gud biscop gotskalck hele hole Domkircke wor thennom effther guds willie fra dôd Haffuer giffuit thennom fuldmagt at welie oc kesse enn Dannemand somm forne heli hole Domkircke oc Landhet kunde wære nyttig oc gaffnlig Huilket thij och giort haffue oc haffue koret oc wduold forne hederlig her Jon arnsson somm hand for oss her senist Haffuer mett theris opne beseglet pergemens breff Och haffue wij nu wnndt oc giffuit hannom wore samtyckt ther til bethendis etther kerligen i wille anname hannom til bisp at bliffue til forne Hole domkircke oc Stigt oc inghen andhen schickindis hannom sinn wielsse oc stadfestelsse oc anden erinde hand ther til bihôffuer met thet forste.

Datum roskilde feria 3a post festum bartholomei Anno md xx iij.

---

**140.** **25. August 1523.** **í Hróarskeldu.**

Bréf Friðriks konungs I. til lærðra manna og leikra í Hólabiskupsdæmi, þar sem hann samþykkir kosning Jóns Arasonar prests í Odda til biskups og tekr hann í vernd sína.

**A.**

Ríkisskjalasafn Dana, Cancelli Arkiv, blað úr registrant, sem líklega er úr Tegnelser over alle Landene. Efst stendr „Jslannt". Blaðið er nokkuð fúið þeim megin, sem að kilinum hefir vitað.

Vii Frederick et cetera.

Helsse etther alle Prelatter Prestemend menig klerckeri welbyrdig mennd bônnder och menig almwffe bode anndelig och werdzlig som bygge og boo wthij Hole biscopdom wthij sland kærligen med gud oc wor Naade.

Wider kiere wenner at oss elskelig hederlig Herr Jon arnnssøn prest aff Ode kircke haffuer werrett hoss oss mett ett obett beseglett breff som hederlig Herrer prelatther Cannicker oc menig Capittel wthij hele nidross domkircke haffue ether tilschreffuit effther werduge mett gud ffader Herr Gotskalck forne Hole Domkirckis bisp effther guds tilade wore ther effraa [dôdt] tha haffde thij giffuit etther fuldmagt wthij hans sted at keisse oc wduelle enn Dannemand som forne helli hole Domkircke oc landett kand ware nyttig oc gaffnnlig. Sammeledis beuiste hand fore oss mett ett obett beseglett breff athij haffde effther the gode Herrers schriffuelsse wduold hannom til biscop at være wthij heli Hole Domkircke oc wor ther tiill aff oss begerindis wore samtick. Thij haffue wii nu aff wor sônnderlig gunst och Naade samme etthers kor samtyckt oc mett thette wor obnne breff samtycke oc fuldkomeligenn stadfeste Bethendis oc biudindis aff wor konngelige magt etther alle och huer serdelis anndelig oc werdzlig i wille anname forne Herr Jonn arnssøn electum oc ingenn andhen til etthers [biscop och formand] giôrindis oc giffuindis hannom hues rennthe oc rettighed i hannom mett retthe plichtiig ere oc være hannom hôrig og lydig som etther bôr at wære etthers biscop oc formand.

Jtem in fine fick hannd ett beskermelsse breff in forma communi. et cetera.

Datum roschilde feria 3a post festum sancti Bartholomei apostoli. Anno. et cetera. m d xx iij nostro sub s[ecreto].

B.

Júli 1542 — AMagn. Dipl. Isl. Fasc. LXVII, 8; transscriptum á skinni frá 30. Júli 1542 — Apogr. 587 (eptir transskriptinu).

Vij fredrech med Gudz nǻde wt voldt konung til danmark rett arfing til norge hertug j slesuig hollstenn stormarn og ditmersken greife j oldenborg oc delmenhorst. heilse ýdur aller prelater prestmend menijge klerker. velburdige menn bændr ok mene almugi bǻdi andlig oc vertzlig. sem byggia oc bwa wti hola biskups dæmi wti Jsland. kærligen med gud oc wor nǻde.

Witi kærer viner at oss elskelge hederlig herra jon arason prest af odda kirkiu. hafer uared hws oss med eitt open bref beszegled. sem heidurliger herrar prelatar canucker oc mene capitel wti helgi nidross dom kirkiu hafa ydr til skrifat. at epter verdugi med gud fader herra Gottskalk for nefndi helgi hola dom kirkiv biskup epter gudz til lvtelse. war þar fra dődt tha hafdi thij gefit ýdur full mackt wti hans stǻd. at kiosa oc wt velia einn danne mann sem for nefnda hola dom kirkiu ok landit kynne vera nyttelig og gagnlig. Somuleidi(s) beuijste hann for oss med ýdarr open bese(g)lat bref atij hafdi epter the herris skrifelse wt uoldet hanvm til biskup at wera vti helgi hola dom kirkiu og wőr tar til aff oss begerranndi vores samþycki thij hafum vij nv af vor sőndurlige gvnst og nǻde same ethers kor samtýckt oc med þesse wort opne bref samtýcki oc fullkomligenn stædfesti. Bedenndi og biudenndi af wor kongelige mackt ether alla ock huer sierdeilis annlige oc vertzlige i wile anname forskrif(n)e herra jon arason electum oc eingann annann til ether biskop og formandt gifandi oc giorandi honum hvers rentu og rettigheit j hanvm med retthe plichtige ero. og verer hanum hőrig oc hlýdig sem ydr ber at vera ydar biskop og formann.

Samaleidi(s) hafe wij taghet annamet og vndfangett oc med thetta vorth opne breff taghe anname og vndfangi for nefndan herra jon arason electus. hans tienere götz kærenndi og vid hrærandi edr huat thet bellzt er eller vera kann enthtet vndtagett j nöckurn måta wtij wor kongliga hegning frijd weriu og beskermelse besÿnndirligen ath forswarar[1] og fordagtinge thil alle Rette thij forbiodum wij alle ehvo helst the ere eller wera kvnde her emot at hinder[1]) hindre late mædhe platze dele eller j noger mata oforretta vnder vora kongliga hefnd ogh wrede.

Giffit wtij worth slott Roshillde tÿsdågin næst eptter sancti Bartholomei apostoli dægh. arum epter Gudz Burd. thushvnd fimm hvndrut tuttughu wpp æ thet trødie.

vnder wort secret.

---

**141. 1. September 1523. í Miklagarði.**

Tylftardómr klerka fyrir norðan land út nefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti og administrator heilagrâr Hólakirkju, þar sem þeir dæma fullmyndugt í allan máta umboð það, er kanokar Þrándheimsdómkirkju hefðu feingið Ögmundi biskupi yfir Hólabiskupsdæmi, en skrá eða skript Jóns prests Arasonar, sem móti því hljóðaði, ónýta og löglausa.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur brefa Bok Biskups Ogmundar". — AM. Apogr. 2697 með hendi Árna Magnússonar.

Um Skrá Sira Jons Arasonar.

Ollum mönnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda broder Einar med guds nåd abote å Mukaþverå. Finnbogi Einarsson officialis heilagrar Holakirkiu. Petur Palsson Radzmadur oc officialis heilagrar Holakirkiu. Jon Finnbogason. Þorbiorn Jonsson. Arne Jonsson. Salamon Heinreksson. Hallur Asgrimsson. Sveinn Finnbogason. Jon Olafsson. Thomas Einarsson oc Thomas Jonsson. prestar Holabiskupsdæmis kvediu guds og sina. kunnugt giörande ad þå

1) Svo.

lided var fra hingadburd vors herra Jesu Christi M. d. xx. oc iij. ar i Miklagardi i Eyiafirdi Sancti Egidius dag um haustid. vorum vier i dom nefnder af ærlegum herra og andlegum faudur herra Ogmund med guds nắd biskup i Skalhollte. og eige sidur Administrator heilagrar Holakirkiu. ad skoda og ransaka. ok fullnadar dom ắ ad leggia um þau bref sem hans nắd þar fram̃ bar fyrer oss. Jn primis. J fyrstu grein um þad bref sem heidursamligasta Rad þrandheims domkirkiu hafde hans verdugu nắd adur utgefed til umbods og logsagnar yfer Holadomkirkiu. oc hennar Biskupsdæmis.

J annare grein kom þar fram̃ fyrer oss opin skra edur skrift af hende Sera Jons Arasonar. hvort ad hliodade þvert ắ mote kanukanna brefe ok Biskupsins vallde. hvad oss leitst giort vera þvert ắ mote aullu lôgmắle ok ongre skinsemdar grein saman sett.

Þvi ad heilags anda nad til kalladre ad svo profudu oc fyrer oss komnu dæmdum vier med fullu doms atkvædi fyrrskrifada skrắ onyta. ok ad ongvo halldanda. med þeim greinum oc articulis sem þar inne stodu. Enn kanukanna bref oc biskupsins valld yfer Holadomkirkiu dæmdum vier fullmyndugt i allan mata med ollum þeim greinum oc articulis sem þar inne standa.

Ok til sanninda et cetera.

---

**142. 2. September 1523. í Miklagarði.**

Tylftardómr klerka nyrðra útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti og administrator Hóladómkirkju um kærur bisk-ups til Auðunar Sigurðssonar, að hann hafði sett sig ólög-lega inn í staðarins umboð eptir skipan Jóns prests Ara-sonar, að hann hefði „út styrkt“ skip Hóladómkirkju með Jóni presti, og að hann hefði afhent síra Jóni Hólastaðar peninga eptir að síra Jón hafði verið settr í bann.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jons „Ur Brefa-Bok Biskups Ogmundar“. — AM. Apogr. 2698 með hendi Orms Daðaonar.

Um Audun Sigurdsson.

Øllum mônnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda broder Einar med gudz nǻd abote [a Mukaþverǻ[1]). Finnboge Einarsson officialis heilagrar Holakirkiu. Petur Palsson Radsmann og officialis heilagrar Holakirkiu. Sveinn Finnbogason. Thomas Jonsson. Salamon Henriksson. Arne Jonsson. Einar Hallsson. Finnur Þorlaksson. Olafur Gudmundsson. Jon Þorsteinsson. Nikulas Gunnarsson heilagrar Holakirkiu kiennemenn kvediu guds og sina kunnugt giôrande þǻ lided var fra hingadburd vors herra Jesu Christi m. d. xx. iij. ǻr. midvikudaginn næstan epter Egidiusdag i Miklagarde i Eyiafirde. um hausted. vorum vier i dom nefnder af ærlegum herra oc andligum faudur herra Ogmund med guds nad biskup i Skalhollte. ei sidur Administrator heilagrar Holakirkiu ad skoda og rannsaka ok fullnadar Dom ǻ ad leggia um þa akiæru er hann klagade til Audunar Sigurdssonar. ad hann hefde sett sig inn i stadarins umbod. med befalning Sera Jons Arasonar olôglega ǻ mote þvi brefe[2]) sem ærlegasta kapitula rǻd hafde honum adur utgefed.

Jtem i annare grein kiærde biskupinn til adur greinds Audunar ad hann hefde utstyrkt heilagrar Holadomkirkiu skip med Sera Jone Arasyne. ok hans fylgiurum i forþrot[3]) vidur hans nǻd. enn skada vid kirkiuna. Þvi ad so votta kirkiunnar lôg. ad sa sem er Electus. hann skal ecke kirkiunnar valld hafa.

Jtem i þridiu grein kiærde þrǻttnefndur herra Ogmund til tidtnefnds Audunar ad hann hefdi afhendt Sira Joni Arasyne Holastadar peninga sidan hann var dæmdur i bann og forbod. Medkiendist þrattnefndur Audun ad hann hefde þar under log[4]) lagt vid biskupinn um þau mǻl aunnur fleire sem hann mætte til hans tala. Þvi ad h(eilags) anda nǻd til kalladre. ad svo profudu ok fyrer oss komnu dæmdum vier fyrrnefnder Domsmenn med fullu Doms atkvæde Audun þar rettelega fyrerkalladan. syndi hann oss þar umbodsbref.

---

1) [b. v. AM.; hefir vantað í bréfabókina. 2) leiðr. AM.; räde, bréfab. 3) leiðr. AM.; forbrot, bréfab. 4) b. v. AM.; vantar í bréfabókina.

hvad hann haft hafde af Sera Jone Arasyne. hvert oss leitst i ongvan mata myndugt vera uppá heilagrar Holakirkiu vegna. þvi dæmdum vier optsagdan Audun skilen vid fyrr sagt umbod. Enn fyrer þá sok ad hann hafde utstyrkt Holakirkiu skip. þá dæmdum vier hann sekan .lx. morkum vid kirkiuna og audrum. lx. morkum vid biskupinn. Enn þa peninga sem hann afhendte Sera Jone Arasyne. þá dæmdum vier hann skylldugan ad leggia aptur þessa fyrrsagda peninga. eda adra ȷafngoda. ok giallda Holakirkiu fullriette. ok annad biskupinum.

Samþyckte þenna vorn dom med oss adur greindur herra Øgmund et cetera.

---

143. [1 Sept 1523].

Eiðr Helgu Sigurðardóttur unninn Ögmundi biskupi í Skálholti um það, að hún kunni aungvan hlut af silfri Hóladómkirkju að segja.

MSteph. 27. 4to bls. 18—19 með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720. — Landsbókasafn 62 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok biskups Ogmundar". — AM. Apogr. 2699 með hendi Orms Daðasonar. Um ártalið ritar Árni: „Sine anno. Er þó óefad stilad 1523. Stod i bokinne strax epter dom um Audun Sigurdzson utnefndañ á Miklagarde i Eyafirde. Midvikudagenn epter Egidii 1523".

Eidur Helgu Sigurdardottur um Holakirkiu silfur.

Til þess legg eg hond a helga bok og so skyt eg minu mále til gudz ad eg ueit aunguann hlut af Holadomkirkiu silfre ad seigia. sijdann þeir sira Jon Arason og þeir[1]) Hrafn Brandsson baru þad i[2]) eirnre læstre kistu ur timburstofunne a Holum og sira Jon sagdest þeinkia sier ad geyma þad i domkirkiunne a Holum ad frateknu þvi litla silfre sem[3]) hann fieck mier og liente og liede audrum godum monnum. og ad so stofudum eide et cetera.

---

1) sl. 62 og AM. í 2699 ritar við: „deleatur". 2) 62, 2699; ur 27. 3) b. v. 62, 2699.

**144.** **4. Oktober 1523.** **í Sauðlausdal.**

Jón prestr Erlingsson samþykkir fyrir sig og sína erfingja skæðatoll þann, sem goldizt hefir og gjaldast á til Sauðlausdalskirkju frá bænhúsinu í Hænuvík.

AM. Apogr. 1332, eptir frumriti Sauðlauksdalskirkju „accurate collatum . . . 1726“. Ormr Daðason lýsir innsiglinu.

Þath giore eg jon prestur erlingsson godvm monnum kunnegt med þessu minv opnu brefi ath eg medkennunz eg hefi samþykt þann sama skædatoll er golldizt hefur og gialldazt á til kirkiunnar j saudlausdal af bænhusenu j hænuuík. skal standa æfenliga og gialldazt obrigduligur fyrir mer og mijnvm erfingium rettum epterkomendum og med suadan skylldum tollvm og tiundum sem af audrum bænhusum j. þingunum og af þeim sem þar bua eda þeirra husmonnum. Og til sanninda her um set eg míjt incigle fyrir þetta míjt samþyktarbref er skrifad uar j saudlausdal jn festo [francissi et confessoris[1]). anno domini ꝏ. d. xx. iij.

---

**145.** **16. Oktober 1523.** **í Skálholti.**

Dómr tólf klerka og tólf leikmanna útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti og administrator Hóladómkirkju um kærur hans til Jóns bónda Einarssonar fyrir úrskurðarrof, hestatöku fyrir Hóladómkirkju og um óstaðinn reikningsskap af prófastsdæmi.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Øgmundar biskups“. — AM. Apogr. 2757 „ur Brefabok Ögmundar biskups“ (AM.).

Domur um Jon b(onda) Einarsson.

Øllum mônnum sem þetta bref sia edur heyra senda Snorri Hialmsson kirkiuprestur i Skalhollti. Gisli Jonsson. Jon Arnason. Þordur Olafsson. Vigfus Runolfsson. Þorlakur Landbiartsson prestar Skalhollts biskupsdæmis. Jon

1) [Svo.

Hallsson. Jon Biörnsson. Brandur Gudmundsson. Loptur Eyolfsson. Oddur Eyolfsson (ok) Jon Magnusson leikmenn kvediu guds og sina. kunnugt giorande ad þắ lided var fra guds burd M. D. xxııı. a fostudagin nærsta epter festum Calixti pape martyris i Skalhollti i biskupstungum vorum vier i dom nefnder af verdugum fődur i gude herra Øgmund med gudz nad biskup i Skalhollti og Administratori heilagrar Hola domkirkiu. ad skoda og ransaka. ok fullnadar dom ắ ad leggia um þær akiærur er herra biskupinn klagadi til Jons bonda Einarssonar. J fyrstu grein ad hann hefde rofid þann urskurd. sem Biskup heitin Gottskalk godrar minningar. gud hans sal nade. hafde sagt um skilgetning Þuridar Brandsdottur. J annare grein ad hann hefde haft þria hesta fyrer Hoola kirkiu afhendingarlaust. J þridiu grein ad hann hefde eingan reikningsskap staded heilagre Hoolakirkiu af þvi profastsdæmi sem hann hafde haft um nockur ắr i Biskups Gottskalks tid. Var Jon bondi þar logliga fyrer stefndur i fyrr sagdañ dag og stad. ok stefnan svariñ af prestinum Sera Þorde Olafssyni. Var hans beidst og krafid. og kom ecke. og einginn af hans hende. Þvi ad h(eilags) anda nắd tilkalladri. ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms atkvæde stefnuna lőgliga. ok Jon Einarsson rettiliga fyrer kalladan. ok sekañ mőrk i stefnufall. Jtem fyrer þắ fyrstu sők er greindur Jon hafde rofed biskups urskurd. dæmdum vier hann sekañ. iiij. mőrkum. og fallinn i bann þar fyrer. ok skylldugan ad taka lausn og skrifter af Biskupinum. eda þeim hann til setur. Nu og saker þess ad svo stendur i heilagrar kirkiu lőgmắli. ad Jnnocentius pafe setur bannsetningarsverd i giegnum þắ alla. sem setiast ắ annara fastaeign oretteliga. þvi dæmdum vier Jon Einarsson skylldugañ ad koma i þann stad og dag. sem biskupinn lieti hőnum tilsegia med őll sin prof og skilrike. þau hann hefde fyrer þeim arfe. sem hann hefde i setst. ok ad sier teked epter Jvar heitin Brandsson. enn til hefur vered sagdur Þuridi systur hans samfedra og skilgetinni med sex presta domi og biskups urskurde. Jtem fyrer þa adra sők. ad hann hefde

haft þria hesta fyrer heilagri Holakirkiu afhendingarlaust dæmdum vier hann skylldugan ad leida tvô lôglig vitni ad biskup Gottskalk hefde gefed hônum þessa sômu hesta med lit og einkenningu. leider hann ecke þesse vitni innañ tveggia mắnada. ad heyrdum dominum fyrer biskupinum eda þeim hann til setur. þắ skal hann giallda Hoolakirkiu i vinnumisse ắ hvorium heste eyrer ắ hverre viku ắ sumarid, enn halfañ Eyrer ắ vetrinn. og. xxx. marka i fullrette kirkiunnar og adrar. xxx. merkur biskupinum i sinn rett. og skila aptur hestunum (eda) ôdrum ȷafngodum. Jtem fyrer þắ þridiu sôk ad hann hefde eingan reikningsskap stadid af profastsdæminu. dæmdum vier hann skylldugan ad syna kvittan lôgliga fyrer profastsdæminu. annad hvert med tveimur logligum vitnum eda brefe og ȷnnsigle biskupsins. fallest hônum þesse kvittun þắ dæmdum vier hann sekañ .iij. môrkum fyrer hvern þann mann sem tijund atte ad giallda i um̃dæminu. þar med skylldugañ ad svara biskupinum ôllum reikningsskap af profastsdæminu smám og storum. Enn fyrer Romaskattinn dæmdum vier hann sekañ. sem kristiñ ʀettur utvisar. Skal þridiungur allra giallda ok fesekta gialldast innañ mắnadar ad heyrdum dominum. annar ad nærstum fardôgum. allt golldid ad Michilsmessu. biskupinum i hônd eda þeim hann til setur. þad er i Holabiskupsdæmi. sem biskupinum er til dæmt.

Og til sanninda hier um et cetera.

---

**146. 8. Nóvember 1523. í Reykjahlíð.**

Kaupmálabréf Páls Grímssonar og Margretar Erlendsdóttur.

ÁM. 199. 4to bls. 128—129, afskript gerð fyrir Jón lögmann Jónsson 1604 — Í Bfél. 67. 4to bl. 74b —75 (ártal 1522). — MSt. 60. 4to bls. 28—29 (ártal 1522), bæði með hendi séra Eyjólfs á Völlum.

Kaupmalabref pals g(rims)s(onar) og margretar.[1])
Jn nomine domini amen.

1) Þessi fyrirsögn er með hendi Jóns lögmanns.

Lystist og stadfestist suo felldur kaupmale a þeirra Brudlaupzdeigi Pals Grijmssonar og Margrietar Ellendzdottur j Reykiahlijd wid Myvatn. sunnudaginn næstan epter allra heilagra Messo. þa lıjdid var fra Gudz burd M. D. xx og iiij[1]) ár þessum danumonnum hiaverundum lærdum og leikum[2]). Teitur Magnusson og Jon Magnusson prestur.[3]) Audun sijgurzson. Erlindur Jonsson. Þorarinn steijndorsson. Biorn Skafensson. Jsleifur[4]) Wlfsson og Jon Petursson.

J fyrstu auglysti Þorsteinn bondi fimbogason þui[5]) fyrir oss. ad Biarne Ellendzson Broder Margrietar hefdi gefid sier logligt vmbod til ad gijpta systur sijna pale Grijmssyne. Epter þui kaupi og skilmala er Biarne hafdi fyrir sijña systur. a þeirra kaupdege heima a kietilsstodum i austfiordum þa hann gaf hana j valld þorsteini bonda fimbogasyne [til fullnadar egtaskapar vid Pæl Grimsson[6]). Talde fyrnefndur Pall Grijmsson sier til kaupz vit sijna kuinnu Margrietu Ellendzdottur iij^c hundrada. Gardinn Einarsstadi [fyrir[7]) x tiger hundrada. og gardinn hof a høfdastraund attatijger hundrada. þar til vtjarder og lausagotz. suo reiknadist iij^c hundrada. Reiknadi þorsteirn Bondi fijmbogason Margrietu Erlendzdottur sinn fodurarf j austfiordum er hennar Broder hafdi jatza ordid halftt annad c. huñdrada. Finnstade 4^c og xx. Sandfell xx^c Hallgilstadi xx^c. skalanes vj^c. þar til lausagotz. so være halft annad .c. hundrada. Kiori fyrnefndur þorsteinn fıjm̄bogason j wmbodi Biarna Ellendssonar hans systur Margretu malakonu j gard pals Grijmssonar. so og skyllde hann henni fiordungzgiof og[7]) tilgiof vr fie hans. War þar tilskilinn gardurinn hof a hofdastrond. suo framt sem þad mætti log vera. Enn ef þad yrdi ecki log[8]). þa skıjlldi þorsteinn fimbogason þad til ad Pall Grijmsson skyllde selia sijnne konu Margrietu gardinn hof og þær vtjarder er þar lau til[9]) fyrir hennar malajarder[10]). og þar vppi skyllde koma hennar fiordungsgiof. og tilgiof. ward firnefndur[8]) Pall Grijmsson þa þessu jatza. So og festi Pall Grijmsson sijna

1) ii, 67, 60. 2) sem voru b. v. 67. 3) prestar 67. 4) eyða í 67. 5) sl. 67. 6) [b. v. 67. 7) í 67. 8) sl. 67. 9) b. v. 67. 10) malajörd 67.

kuinnu Margrietu Erlendzdottur epter bokarinnar ordum a þessum sama Brullaupzdeigi. Og til sanninda hier vm̄. set eg þorsteinn fimbogason forsagnarvottur mitt incigle fyrir þetta kaupmala Bref. huortt skrifat var a Einarstodum j Reikiadal[1]) are sijdar enn fyrr seger.

---

**147. 9. Nóvember 1523 í Skálholti.**

**Dómr** sex klerka útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti um kærur biskups til húsfrú Hólmfríðar Erlendsdóttur vegna Vigfúss heitins Erlendssonar bróður hennar, að Vigfús hefði bundið hjúskap við Salgerði Snjólfsdóttur vísvitandi í fjórmenningsmeinum, og að hann hefði ekki staðið reikningskap af þeim kirkjum, sem honum bar fyrir að svara.

AM. 191. 4to bls. 40—41, bréfabók Jóns skálds Hallssonar rituð samtíða á skinn. — AM. Apogr. 5532 með hendi Árna Magnússonar. — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Domur j skalhollti vm sakferli uigfus heitins erlendzsonar[2]).

Ollum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda jon hedinson radzmann. Snorri hialmson kirkiuprestr[3]). arne jonson. jon gislason. olafur gilsson[4]). og[5]) Þorlakur landbiartson. kuediu guds ok sina kunnigt giorandi ad sub ano gracie m. d. xx og iij ar j skalhollti vm vetrin manudaginn næstan fyrir festum [sancti martini[6]) vorum ver j dom nefnder af vird(u)ligum fodr j gudi herra[7]) augmund[8]) med gudz nad [biskup j skalhollti[9]) ad dæma oc skoda vm̄ þa ækeru sem biskupinn klagadi til husfru[10]) holmfridar elensdottur uegna uigfus heitins elenssonar brodr henar er þa hafdi barna hans logligt vmbod. in primis at fyrr skrifadr uigfus hefdi bundit

1) a sama, b. v. 199 (rangt); 67 sl. því 2) Um Vigfus heiten Ellendsson 62. 3) — prestar 62. 4) Gislason 62. 5) b. v. 62. 6) [62; sancte martinum (!) 191. 7) sl. 62. 8) Øgmundi 62. 9) [sl. 62. 10) hustru 62.

hiuskap uid salgerdi sniolfsdottur ok halldit brudlaup uis uitanda j fiormennings meinbugum sub crimine adullterii og aungu(a) bot fyrir giort. Jtem at hann hefdi aunguañ reikningskap stadit edr giort þeim kirkium sem honum bar fyrir ad suara en hafdi þo af odrum parti þui lyst jafñlega fyrir godum monnum at hann tiundati huorki nie ætti meiri[1]) lausa goz en sinum kirkium til heyrdi. Var husfruiñ[2]) þar loglega stefñd barnana uegna suo vier heyrdum sialfer. þui dæmdum ver hana rettiliga fyrir kallada barnana uegna. Nv af þui at vier finnum[3]) þetta liosliga skrifad j bannsokum kirkiunnar laga. [huer sem hellst sa er sem sliks dirfist uis uitandi fellir[4]) æ sik ena stærstu sok kirkiu lagana et cetera[5]). þui at[6]) heilax añda nad til kalladre ad suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum[7]) ver kirkiunne j skalhollti ıx tiger marka j sitt fullretti. Ɛn biskupenum adrar[8]) af fe er[9]) erfingium ens framlidna (heyrer) og fyrir kirkiu jnngaungu sem[10]) login ut uisa huad vier reiknudum .lxc. [et cetera[11]). Ɛn vm kirkiu fien dæmdum vier ad biskupin skylldi skikka og skipa ollum lausafianum sem [meira væri[12]) en gômul jnnstæda suo sem honum synist ok bihagadi hæfiligast.

Samþyckti þena vorn dom med oss adr skrifadr herra augmund med morgum odrum godum monnum [og setti sitt jnnsigli med vorum fyrr nefndra manna jnnsiglum fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad deigi og ari sem fyr seigir[13]).

---

148. **10. November 1523. / 1524.** **Í Skálholti.**

Ogmundr biskup í Skálholti fær hústrú Hólmfríði Erlendsdóttur jörðina Eyvindarmúla í Fljótshlíð til fullrar eignar fyrir jörðina Sandgerði á Rosmhvalanesi.

AM. Fasc. XLVI, 10. frumritið á skinni. Öll (3) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 2911. — AM. 191. 4to bls. 30, bréfabók Jóns Hallssonar í Næfrholti, rituð samtíða á skinn

1) meira 62. 2) hustruin 62. 3) fundum 62. 4) fellur, 191. 5) [sl. 62. 6) b. v. 62. 7) 62; dæmndum 191. 8) önnur 62. 9) 62; sl. 191. 10) er 62. 11) [sl. 62. 12) [meiri eru 62. 13) [et cetera 62.

kaupbref fyrir mula j fliosshlijd[1]).

Vier augmund med gudz næd biskup j skalhollti giǒrum godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefui. ad sub anno gracie. m d xxiij°. jn profesto sancti Martini episcopi confessoris vm haustid j skalhollti giordum wer suodan jardaskipti wid hustru holmfrijd[2]) erlendzdottur med handabandi og fullum kaupskap. ath wer fiengum[3]) henni til fullrar eignar og frials forrædis alla jordina Eẏuindarmula. er liggr j fliotzhlijd j ræangárþingi med aullum þeim gǒgnum og gædum. eignum og jtaukum. rekum og skogum. sem greindri jordu fẏlger og fẏlgt hefuer at fornu og nẏiu og wer vrdum fremst eigandi ath. Hier j mot fieck ædur skrifut hustru holmfrid[4]) oss [til frials forrædis oc[5]) til æfuinligrar eignar vndan sier og sinum erfingium jordina alla sandgerdi. er liggr æ rosthualanesi j hualsneskirkiu sokn med ollum þeim gǒgnum og giædum. hlutum og hlunnindum. sem fẏrr sagdri iǒrdu fylger og fylgt hefer at fornu og nyiu. og hun ward fremst eigandi ath. Skẏlldi huort hallda til laga þeirri iǒrdu sem keypti. enn þad suara laga riptingum sem selldi. Woru þesser giorningswottar til kallader. Sira snorri hialmsson og sira freẏsteinn grimsson. Og til sanninda hier vm. festum wer wort jnsigle med þessara fyrrnefndra presta jnsiglum fyrir þetta jardakaupsbref. skrifuat j sama stad. deigi og æri sidar enn fẏrr seiger.

---

**149. 12. December 1523. Í Mecheln.**

Bréf til Kristjáns konungs annars frá Kláusi (Nikulási) Pétrssyni kanzlara konungs, meðal annars um sölu Íslands eða veðsetning þess til Henriks áttunda Einglakonungs fyrir peningaláni.

C. F. Allen: Breve og Aktstykker til Oplysn. af Christiern den Andens og Frederik den Förstes Historie, Khavn. 1854 bls. 121—

1) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1600. 2) holfridi 191. 3) feingum 191. 4) Svo bæði. 5) [ok heilagri skalholltzkirkiu 191.

124. — Dipl. Norv. X, bls. 308—310 (hvorttveggja eptir Münchenarsafni Nr. 561). — Sbr. Ríkisréttindi Íslands eptir Jón Þorkelsson og Einar Arnórsson, Reykjavík 1908 bls. 45. Hér er að eins tekinn sá kafli bréfsins, er snertir Ísland.

Serenissimo Dacie regi Christierno.[1])

. . . . Then samme tijd at her Hans Heroldt kom hijd aff Engeland tha sagde han for sannighen at kongen wijlle inthet befatthe sijg met Jjsland heller oc the andre land sijden the Engelske komme tedhen oc giorde rychthe ther wdaff hwickeledes the hafde faret om met Tijlæ Pethersson oc andre som edhers nadhe tijl hørdhe. Oc menthe her Hans at konghen skulle icke wijllæ lonæ pennighe ther oppo ther fore forhalttet her Antonius[2]) at reyse tijl Engeland . . . .

Ex Machlinia xiia Decembris anno et cetera. mdxxiijº.

Nicolaus Petri.

---

150. **23. December 1523. á Breiðabólstað.**

Vitnisburðr, að síra Guðmundr Árnason gæfi kirkjunni á Breiðabólsstað í Fljótshlíð til æfinlegrar eignar jörðina Hólma í Eystrum-Landeyjum eptir sinn dag.

AM. Apogr. 2111 „Ex orig. Breidabolstad. Fliotzhlid. accuraté". „5 innsigle hafa vered under brefenu, eru nu öll þar frä".

Þat giorum vær ion diackne þordarson. andrevs þorgeirsson. olafur ionsson. eyolfur einarsson og magnus petursson godum monnum kvnnigt med þessu uoru opnu brefi at þa er lidit var fra hingadburd uors herra ihesu christi. m. d. xx. iij. ar manudægin næsta epter iacobs messo vm svmarit[3]) æ eyvindarmula i fliotzhlid sira þorleife eirexsyni nærveranda er þa hiellt breidabolstad at sira gudmundur arnason lysti þui þa þar fyrir oss og fleirum godum monnum audrum at hann gæfe iordina holma er liggur i eystrum landeyium i kross kirkiu sokn kirkiunne æ breida-

1) Utanáskript bréfsins. 2) þ. e. Antonius von Metz. 3) þ. e. 27. Júlí.

bolstad j fliozhlid til æfenlegrar eignar epter sinn dag ser til saluhialpar med aullum þeim gaugnum og gædum sem greindri jordu fylger og fyllt hefur at fornu og nyiu epter þui sem hann vard fremzt eigande at med laugum. Og til sanninda hier vm settum ver vor insigle fyrir þetta vitnesburdarbref er skrifat var a breidabolstad j fliozhlid jn festo sancti thorlaci episcopi et confessoris a sama are sem fyr seger.

---

**151.** **1523.** **á Reynistað.**
**7. Júní 1531.** **á Mælifelli.**

Ögmundr biskup í Skálholti og administrator heilagrar Hóladómkirkju fær Pétri presti Pálssyni jörðina Ey ena syðri á Skagaströnd til fullrar eignar og kvittar hann um andvirðið.

AM. Fasc. XLVI, 3, frumtransskriptið á skinni. Bæði innsiglin eru fyrir transscripto. — Apogr. 2909.

Vm ey a skaga.[1])

Þat giorum vid tumas eiriksson og magnus biornsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefe. ad vid saum og yferlasum bref med heilu og oskoddu hangganda jncigle virduligs herra biskups augmundar suo latanda ord epter (ord) sem hier skrifat stendur.

Wier augmund med gudz nad biskup j skalhollti og ei siÿdur aministrator heilagrar hola domkirkiu (giorum) godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi. ad vier hofum vnt og bijfalat Sera petri palssyni jördina eyena sÿdri er liggur a skagastrond j hoskulstada[2]) kirkiu sokn til fullrar eignar og frials forrædis. sem vier vrdum fremst eigandi ad af aunnu sniolfsdottur og hennar magi sem [uor kaupbref þar ut visa.[3]) med ollum þeim gognum og gædum. eingium. todum. aukrum og skogum sem greindri jordu fylger og fylgt hefer ad fornu og nÿiu til enna ÿstu [vtmerkia j adra[3]) a mot vid sig og hofum vier fulla peninga

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. 2) stada, tviskr. 3) [Svo.

vpp dregid af fyr skrifudum sira petri palssyni sem oss vel likar og á næger. fyrir fýr nefnda jord Sýdri ey. jtem hofum vier og lofat tit nefndum sira petri at borga og bijtala þorsteini þoruallssyni þau xc sem hann æ j þrattnefndre jordu. Skulum vier suara laga riptingu æ fýrr greindri jordu. Enn sira petur hallda til laga. Og til sanniñda hier vm setium vier uort jnsigle fyrir þetta kaupbref huert er skrifat var j Reynesklaustre j skagafirde. arum efter gudz burd þusund. fimm hundrud. xx. og iij ár[1]).

Og til sanniñda hier vm setium vid fyr skrifader menn ockur jnncigle fyrir þetta transkriptarbref er skrifat uar æ mælefelli j tungusueit j skagafirdi miduikudaginn næstañ fyrir dyradag. arum efter gudz burd .ꝏ. d. xxx. og i ar.

---

152 1523.

29. December 1525. á Eiðum.

Máldagar kirknanna á Eiðum, í Njarðvík og Húsavík, er gerðir voru í fyrstu yfirreið Ögmundar biskups um Austfjörðu, en Jón prestr Markússon lét skrifa eptir boði biskupsins.

AM. Apogr. 2006 „Ex originali fra Kristinu Eireksdottur ä Eidum, eckiu Pals Marteinssonar“. Árni lýsir innsiglum. — Add. British Museum 11, 245. 4to bl. 277 a—b, skr. 1592 fyrir Odd biskup. — AM. 259. 4to bl 103 (alt skjalið) og bl. 17—18 og 96 (að eins Eiðamáldagi í transskripti frá 1592), skr. 1595. — AM. 263. Fol. bls. 18, skr. 1598.

Eida kirkiu Maldage. Jtem Niardvikur og Husavikur kirkna.[2])

Anno domini. ꝏ. d. xx. tercio. war þuilikr ʀeikningsskapur settur oc tekinn af virdiligum herra ok andaligum fódr. herra augmunde med guds nad biskup ȷ skalhollte. þa er hann ʀeid ȷ sinne fýstu uisitacio um austfiordu. af þessum kirkium eida kirkiu. niardvikr kirkiu og husauikr kirkiu.

1) Dagsetning vantar í frbr. 2) Með hendi Árna Magnússonar. „Vmm nockrar kirkiur austur j mulaþijngi“ 263.

vorv brefi ath vier hofvm sed og heyrt yferlesit xij lavgrettvmanna domsbref med laugmannzens samþyckie heilvm og hangandvm inciglum so latanda ath fyrir þa arfleiding sem steinvnn gvnnarsdotter hafdi arfleitt sinn son epter lögvm petur loptzson til sins arfs. þui fyrir mins herra kongsens hakonar dom. rettarbot og skipan med godra manna Radi og þeim fleirvm greinum sem laugmalit þar at vikur dæmdu þeir med fvllv doms atkvædi og lögmannzens radi og samþyckie petre loptzsyni allan arf og peninga fasta og lavsafrida og ofrida epter sinn brodur stefan loptzson hvort þeir væri helldur vtan landz edur ınnañ. so oc dæmdu þeir þorolf augmundzson er þa hafdi þessa peninga at sier tekit. skylldugan aptur at leggia þessa peninga alla og sveria at fullan eid og tveir skilrikir menn med honum at hann hefdi so aptur golldit sem hann hefdi tekit kvika og dauda fasta og lausa og afhenda gudna ȷonssyni a vegna steinunnar Gunnarsdottur og peturs loptzson(ar) og hafa afgreitt fyrir Michelsmesso. og til saninda hier wm settvm vier vor ȷncigli fyrir þetta vitnisbvrdarbref giort a mödrvvollum i haurgardal a midvikudagin epter festum corporis christi Anno domini. M⁰. d⁰. xx⁰. quarto.

---

**191.** **14. Júní 1524. í Kaupmannahöfn.**

Friðrik fyrsti „útvalinn Danmerkr og Noregs konungr“ biðr Ólaf Engilbertsson erkibiskup í Niðarósi að staðfesta kosning Jóns Arasonar til biskups að Hólum og að vígja hann þangað, því að (Magnús) biskup í Hamri væri ekki kominn til „herradagsins“, en hann hefði átt eptir umtali við konung í Flensborg að vígja Jón biskup í Kaupmannahöfn, er þurfti sem fyrst að komast til Íslands.

Dipl Norv. VIII, Nr. 522 (eptir frumriti í Ríkisskjalasafni Norðmanna, Münchenarsafn 48).

Reuerendissimo jn Christo patrj domino Olauo Engelbertj

Nidrosiensis ecclesie archiepiscopo necnon apostolice sedis legato nobis sincere dilecto.[1])

Ffredericus dei gratia electus rex Datie et Noruegie dux Slesszuicensis Holsatie Stormarie ac Ditmertie comes jn Oldenborg et Delmenhorst.

Premissa reuerentia cum nostro sincero fauore. Kiære herre oc fader. Som ether vell fortencker att vij talede mett ether paa vortt slott Flensborg paa oss elskelige her Hans Arildzens electj tiill Hole domkircke paa Jslandz vegnæ atthy ville vnde hannom confirmaedz paa same stigtt oc bleff tha szo thalett oc i loffuide oss atthy ville haffue screffuett tiill biscopen aff Hammer oc giffuet hannom fuldmagtt oc befalning att viæ hannom tiill biscop her i Køpenhaffn nw i thenne herredag oc hand icke kommen er tiill same herredag oc ther offuer haffuer for^ne^ electus giortt sig staaer thæring tiill forgeffues. Thij bethe vij ether kierligen atthij ville mett thett alder førstæ giffue hannom confirmationem paa same stygtt oc viæ hannom tiill biscop vten ald ydermere forhalning och skoedzmoell att hand maa snarligen komme heim tiill Island tiill for^ne^ stygtt oc ey lenger fortøffuis her i rigennæ Norge eller Danmarck for nogre merckelige sagers skyld oc rammer hans bedtstæ her vthij for thenne vor bøn oc scriffuelsze som vij ether tiilltroe. wij ville thett kierligen mett ether forskylle oc hwis vij kwnnæ være ether tiill vilgæ oc kiærlighett ville vij aldtiid gerne giøre. Jn Christo valete. Ex castro nostro Haffnensi jn profesto sanctorum Viti et Modesti anno etc. m d xx iiij nostro sub signeto.

---

**192. fyrir 17. Júní 1524. á Strönd í Selvogi.**

Erlendr lögmaðr Þorvarðsson vottar, að hann hafi verið á Alþingi, þá er dæmdr var dómrinn um Sveinsstaðareið 30. Júní 1523 (Nr. 123), og að hann hafi samþykt þann dóm.

AM. Fasc. XLVI, 6β eptir transskripti á skinni gerðu í Skálholti

---

1) Utanáskript bréfsins.

13 Júlí 1527. — AM. Apogr. 3838 eptir XLVI, 6β borið saman við transskr frá 1. Júlí 1544 (orðamunr þaðan b). — AM. Fasc. XLVI, 7β, eptir transskripti á skinni gerðu í Asgarði 7. Marts 1537. — AM. Apogr. 3841 (eptir XLVI, 7β).

Þat giore eg elleñdr þoruardson laugmann sunnan og austan a islande godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi at eg uar æ alþinge þa þesse same[1]) domur uar dæmdr a alþinge sem hier [er med festvr þessu minu brefe[2]) huern dom eg samþyckta laugligañ wrskurdade logligan[1]) riettan og fullmektugan j aullum sinum greinum og artikulis epter riettum sancte olafs laugum þar til hann er laugliga rofinn af uorum heygbornazta herra kongenum eda hans heidursamligazta rikisins rade j noregi epter hans bode og bifalning. og til sanneñda hier um̄ festi eg mitt innsigle med þessara domsmanna innsiglum fyrir þetta [domsmanna[3]) bref skrifat a strond j seluoge are sidar en fyr seger.

---

## 193. 17. Júní 1524. á Húsafelli.

Dómr sex klerka og leikmanna útnefndr á prestastefnu af Ögmundi biskupi í Skálholti, hvort löglegr skyldi eða eigi kaupskapr sá, er þeir höfðu gert biskup og Teitr bóndi Þorleifsson í föstum peningum og lausum.

AM. Fasc. XLVI, 7ꝫ transskript á skinni gert í Ásgarði 7. Marts 1537. — AM. Apogr. 3843 (eptir XLVI, 7ꝫ bornu saman við orðrétt samhljóða transskr. frá 1. Júlí 1514).

Ollum monnum sem þetta bref sia eda heyra senda Broder gisle med guds nad aboti j uidey. þordur Einarsson. olafur gudmundsson. Magnus eyolfsson. þorkell þorsteinsson. Þordur Olafsson. prestar Skalhollzbiskupsdæmis. are andresson. Jon biornsson. Gudmundur gudmundsson. Sygurdur Sygurdsson. jon olafsson. olafur gudmundsson. leikmenn. kuediu gudz og sina kunnigt gerandi ad sub Anno gracie

1) sl XLVI, 7 og b 2) [fyrir ofan stendur, XLVI, 7; sl. b. 3) [Svo bæði XLVI, 6 og 7; doms b.

ꝺ°. d. xxiiij jn festo sancti botolphi abbatis a husafelli j borgarfirde i almenniligri prestastefnu vorum uier j dom nefnder af ærligum herra og andligum faudur. herra augmund med guds nad biskup j skalhollti at skoda og rannsaka um þann kaupskap er þeir hofdu gert sin j millum herra biskupinn og teitur bondi þorleifsson j faustum peningum og lausum huort hann skylldi logliga halldazt mega eda ei. Jtem j fyrstu grein kom þar fram fyrir oss. xij logrettumanna domur huer suo jnne helltt at teitur bondi mætti frialsliga selia og kaupa uid huern mann er hann villde sem annar fullmectugur eda fullmyndugur mann. uar og med þessum dome logmannz vrskurdur logliga vrskurdadur. huern hann samþyckti og vrskurdadi logligan og fullmectugan j ollum sinum greinum og articulis. Jtem j þridiu grein kom fyrir oss bref hans egertssonar huer þa hafdi hirdstiorn og kongsinz vmbod yfer ollu jslaude j hueriu suo jnne stod ad hann gaf fyrr nefndañ teit aullungis kuittañ og akiærulausañ um alt þat sakferle sem hann matti til hans tala kongdomsinz vegna at til greindu þui sakferli sem hann edur hans menn hefdu matt brotliger verda á steinnesfunde fyrir sier og sinum epterkomendum. þui at heilax anda nad til kalladri dæmdum uær med fullu doms atkuædi at so profudu og fyrir oss komnu allan þenna kaupskap laugligan myndugan og obrigduligan og af aungum riufazt mega nema af þeim sialfum herra biskupinum og teite.

Og til sannioda hier vm settum uær vor jnsigle fyrir þetta domsbref skrifad j sama stad. deige og are sem fyr seiger.

---

**194.** **19. Júní 1524.** **Í Nesi.**

Arfleiðslu og ættleiðslubréf Þorleifs Þorleifssonar til barna sinna Þorgríms, Ceciliu, Ásmundar og Jóns, undir þær greinar, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XLVI, 17, frumrit á skinni. Af 4 innsiglum er 1 fyrir bréfinu.

Þat giorvm ver jon prestr magnusson. audun svgvrsson. jon þorlaksson. jon þorleifsson godvm monnvm kvnnigt med þesssu voru uppnu[1]) brefi at þa lidit var fra guds burd ꝏ. d. xx og iiij ar vorum ver j hia saum og heyrdvm æ a svnnudagin næsta fyrir jonsmessu baptista j nesi j adaldal þar fyrir kirkiv dyrunum at þorleifr þorleifsson arfleiddi born sin. þorgrim þorleifsson og cesceliu þorleifsdottur til alls arfs epttir sig. en asmvnd þorleitsson og jon þorleifsson arfleidi[1]) nefndr þorleifr til xx hundrata huorn þeirra epttir sig med samþyki iatyrdi og vpplagi sigridar þorkelsdotvr frænkonu[1]) sinnar er þa var erfingi ein eptir opt nefndan þorleif. huer er allan arf vp gaf. heldu þessir menn alir[1]) a einni bok nefnd sigridur er arfin vp gaf og undan sier iatade med handabandi eptir logum j allan mata sem log ad luta. og sagdr þorleifr er arfleidi[1]) og þessi somu born þorgrimr og cescelia. hier med asmvndr og jon oll born þorleifs er ætleid[1]) uoru. taladi þrat nefndr þorleifr þar þa þessi ord fyrir kirkivdyrvm.

eg þorleifr þorleifsson ætleidir hier j dag þessa menn þorgrim þorleifsson og ceciliu þorleifsdottur til fiar þess er eg gef þeim og til allz arfs eptir mig. at fra teknum. xl. hundrudum er eiga skulu brædr ykrir asmundr og jon. ætleidi eg þessa adr skrifada menn þorgrim og cesciliu til gials[1]) og til giafar til ses[1]) og til sætis og til allzs þess rettar sem logbok skyrir at ætleidingr a at hafa med logum.

a somu stundu taladi þrat nefndr þorleifr þessi ord fyrir kirkivdyrvm j sama stad.

eg þorleifr þorleifsson ætleidir hier j dag þessa menn asmvnd þorleifsson og jon þorleifsson til fiar þess er eg gef þeim sem vera skal xx hundrut huorum þeira til gials[1]) og til giafar. en ef syskina þeirra kann vid at misa fyr en min og andazst þau suo þav eigu ei skilgetna sonu eptir sig þorgrimr og cescelia þa ætleidi eg þorleifr þorleifsson hier j dag þessa menn asmund þorleifsson og jon þorleifsson til fiar þess er eg gef þeim og til allzs arfs eptir mig til gials[1]) og til giafar til sess og til sætis og til allzt[1]) þess rettar sem logbok skyrir at ætleidingr a at hafva med logvm.

1) Svo.

gaf titnefndr þorleifr ȷ þessa ætleidingargiof og anef(n)de þorgrime syni sinum maliers[1]) hringa med silfr en ceceliu dotr sinni silfrfesti. asmunde tygi oll. ȷoni fola uetrgamlan. skildi greind sigridr þorkelsdotter sier xij hundrut ȷ þarfligvm peningum. skyldi þessir penningar greidir[1]) a þrenum þolf[1]) manudum ef þorleif uanhentati eki[1]) til.

Ok til sanenda hier vm settum uier uor insigli fyrir þetta arfleidindar[1]) bref giortt uar ȷ sam̄a stad og dag sem fyr seigir.

---

195. 24. Júní 1524. á Reynistað.

Dómr klerka útnefndr af síra Pétri Pálssyni um kærur Solveigar abbadísar á Stað í Reynisnesi til Jóns Guðmundssonar fyrir kúgildahald, kirkjutíundir, rekatöku og vanrækslu á húss uppgerð.

AM. Fasc. XLVI, 16, frumrit á skinni, stórlega skemt af fúa, og var orðið svo á dögum Árna Magnússonar, svo að hann varð að fylla eyðurnar í afskript sinni Apogr. 336 („Ex originali Bessestad". = XLVI. 16) eptir afskript Hákonar Ormssonar í AM. 280. 4to, skr. c. 1640. Hér eru skallar frumritsins fyltir á sama hátt.

Þat giorvm vier ȷon fimbogason. ȷon ȷon(son). ȷon brandzson. steirn markvsson. gisli gvdmvndzson prestar holabiskupsdæmis godvm monnum [kvnnigt med] þessv vorv opnv brefe at arvm epter gvdz burd. ꝏ. d. xx og iiii ar a vidivollvm ȷ blaunduhlid ȷ skagafirdi a almenniligre prestastefnv man[udaginn næstan] epter barnabi aposloli[2]) vorvm vier ȷ dom nefnder af ærligre personv sira petre palsẏne er þa var ʀadzmann og officialis heilagrar holakirkiu [a at lita. sko]da og ransak[a og] fvllnadar dom a at leggia vm þær akærvr er syst[er so]lveig abbadis a stad ȷ reynesnese kærdi til ȷons gvdmvnd[zsonar at hann] hefdi halldit [stadarins] kvgilldi eit aʀ. þa adra savk er ȷ stefnvnne stod at hann hefdi ei stadit reikningskap af kirkivtivn[dvm a hofi vpp a

1) Svo. 2) þ. e. 13. Júní.

ij ar]. þa env þridiv [savk at] hann hefdi hapt ȷ bvrt af stadarins rekvm vi alna langt tre ȷ avngv sinv leyfe ne frelse. [J fiordv grein og savk] er ȷ stefnvnn[i stod at] hann hefdi ei vpp giort þat hvs a stadnvm sem skilit var a hann þa hann tok stadinn. ȷ gvdz nafne amen [dæmdvm vier stefnvna la]vgliga [og ȷon gvdmvndzson] þar retteliga fyrir kalladañ og sekañ mork ȷ stefnvfall enn af þvi at sira gisle gvdmvndzson [medkiendist þar fyrir oss at hann hefdi frelsat honum] heimta kvgilldet med stadnvm þvi dæmdvm vier lavgleigv epter kugilldet innan vii natta at heẏrd[vm dominvm. Ꞓn fyrir þa adra savk er ȷ stefnvnne] stod at hann hafdi ei stadit reikning af kirkiv tivndvm a hofi vpp a ii ar þa dæmdvm vier ȷon gvd[mvndzson skylldugañ at giallda og greida allar] tivnderna(r) tvigilldar ȷ hond abbadisinne eda þeim hun til setur og þriggia marka sekt a havoriv[1]) fyrir sig [vnder sinn svarinn eid at hann leyne avngre þeir]ra enn vm þa env þridiv savk er frv solveig abbadis kærdi þar til ȷons gvdmvndsonar at hann hef[di haft i burt af stadarins rekvm. vi. al]na langt tre ȷ avngv sinv leẏfe enn þar kom fram sira gisle svgurdzson[1]) at hann hefdi vænst vm fyrir sier [vitnvm at hann hefdi fẏst þat sama tre fvndit a sio] fyrir vtan fiskhelge þvi dæmdvm vier ȷon gvdmvndzson skylldvgañ at leida [.ij.] lavglig vitñe ȷnnañ halfs manadar [at heyrdum dominvm fyrir offi]ssialis eda þeim hann til setvr enn ef honum fallnatz vitnin þa dæmdvm vier ȷon gvdmvndz[son skylldugañ at tvigillda aptvr tred og klavstrinv] fimtan merkvr ȷ fvllrete og hola domkirkiv adrar fimtan merkvr ȷ sitt fvllrete enn þa [env fiordu akæru er abbadisin kærdi til ȷons] at hann hefdi ei giort vp þat hvset sem hann atte at giora fyrir ii arum þa dæmdvm vier hann skylldvg[añ at giora þat sama hus vpp a sialfs] sins kosnat eda giallda hvsverd epter þvi sem henne [vel] likar. skal þesse sakeyrer og fvllrette allt g[olldit it sidasta at næ]stvm fardavgvm abbadisene ȷ hond eda þeim hvn til setvr. dæmdvm vier advr skrifadan dom at avllv svo profvdv sem fyrir oss kom. [dæmde og samþy]kte þennan vorn dom sira petvr palson er þa var officialis holakirkiv.

1) Svo.

Og til saneñda hier (vm) settvm vier adr skrifader kenne-[menn vor] ȷnsigli fyrir þetta domsbref er skrifat var a reynenes klavstre a ȷonsmesso baptiste vm svmarit a sama a[re sem fyrr seiger].

---

196. 30. Júní 18. Júlí 1524. á Öxarárþingi í Skálholti.

Dómr útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti um kærur Höskuldar Runólfssonar til jarðarinnar Möðrufells í Eyjafirði.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Domur um Mǒdrufell.

Þat giorum vier Jon Magnusson. Thomas Jonsson. Jon Eireksson. Arnbiǒrn Einarsson. Olafur Jonsson ok Runolfur Hǒskulldsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. ad þǎ er lided var fra guds burd M. D. xx. ok .iiij. ar. fimtudaginn nærstan epter Petursmessu og Pals ǎ almenniligu Auxarærþingi vorum vier i dom nefnder af verdugum herra i gude biskup Ogmund med guds nad biskup i Skalhollti ad skoda og ransaka ok fullnadardom ǎ ad leggia um þǎ ǎkiæru sem Hoskulldur Runolfsson klagadi uppǎ halft Mǒdrufell er liggur i Eyiafirde. Profadist þar med sannindum fyrir oss ad greindur Hoskulldur hafde i þenna sama stad domlagt [sig][1]) vid biskupin. enn hann kom ecki þar. ok let þo upplesa þar sin bref um sagda ǎkæru. J annari grein liet biskupinn þar birta fyrer oss bref under godra manna innsiglum. so hliodande. ad Eyolfur heitinn Einarsson lǒgmann. gud hans sǎl nade. keypte sagda ȷaurd Mǒdrufell. og gaf i mote ȷarder og annad gots svo sem brefed innehelldur ok utvisar. Leitst oss þetta bref med ollum sinum greinum logligt og skialligt vera i allan mǎta. Enn þau bref. sem Hoskulldur let þar lesa. syndist oss ecke afl hafa. ok ad svo profudu ok fyrer oss komnu dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms atkvæde opt-

1) Svo.

nefnda jaurd Mödrufell retta og sanna eign biskupsins vered hafa. Eyolfs heitins lögmanns ok hans Erfingia. epter hann andadan. Enn þau bref onýt og ecke afl hafa. sem tittnefndur Hoskulldur let þar upplesa. nema þvi at eins. ad hann leidde tvö logleg vitni. ad moder hans hefde ecke sinn helming upp borid. Ok ef þau eru leidd loglega. þa leýse Erfingiar Eyolfs heitins so miked sem skorter. enn jordiñ þeirra Eign sem ádur.

Samþyckte þennañ vorn dom med oss greindur herra biskup Øgmund ok sette sitt Jnnsigli med vorum jnnsiglum fyrer þetta domsbref. skrifad i Skalhollti mánudaginn næstan fyrer þorlaksmessu. á sama áre sem fyrr seger et cetera.

---

**197. 30. Júní 1521. á Þingvelli.**

Dómr sex klerka og sex leikmanna útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti um kærur biskups til Jóns bónda Einarssonar fyrir dóma og úrskurða rof um arf þann og peninga, er Þuríði Brandsdóttur höfðu fallið eptir Ívar Brandsson bróður sinn.

Bisk. Skalh. XIX, 56, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2398 eptir Skálholtsfrumritinu „accuraté". Árni lýsir innsiglunum.

Domur j mille biskups augmundar og Jons Bonda Einarssonar.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Karfi med gudz náád aboti a helgafelli. Broder helgi af uidey. Kollgrimur af þyckuábæ. abotar med samri náád. þorleifur eirekson. jon gislason. þorgils nichulason prestar skalholltzbiskupsdæmis. fuse þordarson. jon þordarson. narfe sigurdson. jon þorualldson. brandur gudmundsson og erlingur gislason laugriettumenn. kuediu guds og sina kunnigt giorandi ad sub anno gracie. M. d. xx. iiij. a fimtudagen næsta epter peturs Messo og pals um sumarit a þinguelli j almenniligre prestastefnu vorum uier j döm nefnder af heidursamligum herra og andaligum födur herra augmundi med

gudz nǫ́ǫ́d biskup j skalhollti at skoda og ransaka og fulln-adardom ǫ́ǫ́ at leggia um þad mǫ́ǫ́l er biskupin kærdi til jons bonda einarssonar at hann hefdi rofit wrskurd biskups gottskalks godrar minningar gud hans sæl nædi. hier med tuo doma skialligra dandemanna bædi lærdra og leikra. um þann arf og peninga sem þuride brandzdottur hafdi til erfda fallit epter brodur sin jvar brandson. hier med saum vier bref at greindur jon einarsson hafdi lofat biskupinum med fullu handabandi at giallda þessa peninga j fardǫgum j uor er uar. En fyrir annat rangligt halld og sakferli þad sem biskupin hafdi til hans at tala meira lofadi hann at suara biskupinum logum j almenniligre prestastefnu ǫ́ oxarǫ́ǫ́r-þingi. jtem uar þad afsakan greindz jons einarssonar at halldor jonsson bondi fyr greindrar þuridar hefdi adur feingit þessa peninga sira jone arasyni til soknar. kom þar fram fyrir oss greindur halldor jonson og lysti þui at fyr skrif-adur sira jon arason hefdi aptur lagt þetta sama umbod. bref og skilrike sem adur nefndur halldor jonson hafdi hon-um j hendr feingit og þui leizt oss su afsakan aungua magt hafa. medkendizt hann þar fyrir oss at hann hafdi lagt sig under lǫg uid biskupin epter þui stendur j hans brefi. Þui at heilags anda næd til kalladri at suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum vier fyrnefnder domsmenn med fullu doms atkuædi adurnefndan jon einarsson riettliga fyrir kalladan og sekan .iiij. morkum fyrir huert domrǫ́ſet og skylldugan at hallda þa doma sem hann hefir rofit. jtem dæmdum uier optnefndan jon einarsson skylldugan at giallda aptur alla þa peninga med laga auexti sem fyr sagder dom-ar jnne hallda jnnan manadar at heyrdum þessum uorum domi og tittnefndan jon einarsson fallenn j bann og skylld-ugan at taka lausn og skripter þar sem biskupin til setur. En ef þratt nefndur jon einarsson uill en þrioskazt framar meir og giallda eigi fyr sagda peninga þa dæmdum uier þa sem þar eru jnnsueitis upp ǫ́ǫ́ laganna uegna skyllduga bædi lærda og leika at fara [heim til[1]) heimilis þratt nefndz jons einarssonar og uirda þar wt opt nefndan arf og peninga og þar med allt sakferli kirkiunnar og biskup(s)ins af pening-

1) [tvískrifað.

um opt nefndz jons einarssonar epter þui sem landz laga bokin wt wisar um þann sem þriozkazt uill j moti lögunum. Samþykti þenna uoru dom med oss greindur hera augmund og setti sitt jnsigli med uorum fyrgreindra domsmanna jnsiglum fyrir þetta bref skrifat j sama stad deige og are sem fyr seiger.

---

198. [30. Júní] 1524. á Þingvelli.
21. Janúar 1525. í Skálholti.

Dómr sex klerka útnefndr á prestastefnu af Ögmundi biskupi í Skálholti um kirkjuna og kirkjupeninga á Knerri í Breiðavík sakir órækslu, sem á hafði verið um síðustu sextán árin í skemd bóka, messuklæða og viða.

Bisk. Skalh. Fasc XII, 10, frumrit á skinni. Öll (7) innsigli eru dottin frá — AM Apogr. 2451.

Domsbref vm knerre j breidavick.

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda narfi med guds nād aboti a helgafelli. halldor tyrfingsson. narfe þorsteinsson. salamon heinreksson. olafur gilsson og sæmundur añason prestar skalholltz biskupsdæmis. kunnigt giorandi ad sub anno gracie ꝏ. d. xxiiij. a þinguelli a alþinge j almenneligri prestastefnu. vorum uær J dom nefnder af ærligum herra og andarligum faudur augmundi med guds nad biskupi j skalhollti at skoda ransaka og dæma huersu fara skylldi med kirkiuna og kirkiunnar peninga a knerre j breidavijk saker þeirrar oræksluv sem á hafdi uerit vm næstu .xvj. ar um liden j skemd boka og messvklæda. likneskia og uidar sem til kirkiunnar uar golldinn. bar herra biskupen fram fyrir os at hann hefdi amint og latit aminna um at bæta suo og latid taksetia fyrr greinda jord under heilaga skalholltz kirkiu og sik under rettañ reikningskap. hier med sialfur komit og beidzt kirkiunnar reikningskapar og aunguañ feingit vtan sagt til. viij. hvndrada einna enn vndergrind kirkiunnar miog spillt af uatni. virtizt oss þannenn eigi leingur standa mega. kom þar ekert

lavgligt suar fram fyrir os. þui at heilax anda nad tilkalladri dæmdu uær med fullu doms atkuædi eignarmann iardarennar eda hans laugligan umbodsmann skýlldan upp at giora kirkiuna sæmiliga og bæta oll spell af manna uolldum a ornamentvm kirkiunar suo og setia til kirkivnnar sina innstædv epter rettvm maldaga og standa sannan reikningsskap af porcione ecclesie. skýlldi þetta giort innañ þriggia ara ellegar uæri iorden fallen vnder heilaga skalholltzkirkiv og herra biskupsens forsia. Jtem i anare grein dæmdv vær fyrir nidurfall kirkiunnar .iiij. merkur a hueriu ári huad saman reiknadizt. xvij. hvndrud og skýlldi gialldazt þridiungur þessara peninga innan manadar at heýrdum dominvm. enn af porcio ecclesie sem kirkiu uppgiorden reiknadizt verd uera yfer þat fram sem uidurenn sa uar uerdur sem kirkian atti adur.

samþikte þenna uorn dom med os fýrr skrifadur herra biskup augmund og setti sitt insigli med vorum innsiglum fyrir þetta domsbref er skrifat uar i skalhollti in festo sancte agnetis uirginis et martiris ari sidar enn fýrr seiger.

---

**199. 16. Júlí 1524. í Núpufelli.**

Ólöf Jónsdóttir, kona Sigurðar Stullasonar, samþykkir allan þann gjörning, sem „biskup Jón“ og aðrir dandimenn gerðu með þeim og Þorvaldi Árnasyni, og gaf Ólöf Þorvald kvittan um öll þeirra skipti, bæði um jörðina Æsistaði og aðra peninga.

AM. Apogr. 143, afskript gerð eptir frumritinu og staðfest á Grenjaðarstað 20. Maí 1728 af Magnúsi Þorvaldssyni og Gísla Magnússyni (síðar biskupi).

Þat giorum vær Simon Þorsteinsson. ion Þorlaksson og Erlendur Erlendsson godum monnum kunnigt med med þessu voru opnu brefi at þa lidit uar fra gudz burd ∞ d. xx og iiij ár a æsistodum i Eyafirde á mánudagenn i fardagaviku[1]) uorum uær i hia saum og heirdum á at þau voru

1) þ. e. 30. Maí.

aull i einu handabande Þorualldur arnason og Sigurdur stullason og Olof ionsdotter kona hans at svo fyrir skilldu at Olof Jonsdotter samþikti allañ þann giorning sem biskup ion og adrer Dandimenn giordu med þeim a maudruuollum og þat brefid inni helldur sem þar er um̃ giort. og i sama handabandi gaf Olof ionsdotter kona Sigurdar Þorvalld arnason aulldungis kvittan um̃ aull þeirra skipte fyrst um iordina æsistadi og alla peninga adra eptir sinn fodur og modur. Og til sannenda hier um setium uær fyrr nefnder menn uor innsigli fyrir þetta bref er skrifad uar i nupufelli i eyafirde laugardaginn næstañ fyrir marie Messo magdalene a sama are og fyr seigir.

---

**200. 5. August 1524. í Björgvin.**

Ríkisráð Noregs, og þar á meðal biskup „Joen Aresson i Hwole i Islandt“, segir Kristjáni konungi öðrum upp hlýðni og hollustu sökum ókristilegrar, ómildrar og ranglátrar stjórnar, og hann hefði hvorki haldið orð né eiða né neinar skuldbindingar. Að öðru leyti kemr bréfið Íslandi ekki við en því, er Jón biskup snertir.

(Dipl. Norveg. IX, Nr. 532).

---

**201. 6. August 1524. í Rómaborg.**

Doktor Zutpheld Wardenberg ritar Ólafi Engilbertssyni erkibiskupi í Þrándheimi meðal annars um það, að erfiðleikar sé á því að fá Guðmund biskup á Hólum Arason tekinn í tölu heilagra manna.

C. F. Allen: Breve og Aktstykker til Oplysning af Christiern den Andens og Frederik den Förstes Historie, Khavn. 1854, Nr. 141. — Dipl. Norv. VII, Nr. 589, bls. 592—597 (hvorttveggja eptir Münchenarbréfasafni í Krisjaníu Nr. 1239).

Reverendissimo in Christo patri et domino, domino

Olauo Engilberti, dei et apostolice sedis gracia archiepiscopo Nidrosiensi jn regno Norwegie, domino meo semper obseruando.

Ad manus proprias gracie sue jn Nidrosia aut vbi fuerit[1]).
. . . . . . . Rursum scripsit mihi p(aternitas) v(estra) reuerendissima de quodam beato episcopo Jslandie canonizando, ut velim rescribere, quibus sumptibus et modis istud possit expediri.

Ego super hijs locutus sum reurendissimo domino cardinali Sanctorum quatuor[2]), qui locutus fuit cum summo pontifice desuber; et habui pro responso, quod sanctitas sua non vult facere canonizationes, quia vidit, quod frater suus Leo et etiam Adrianus vı post canonizationes per eos factas statim obierunt, et ita sibi timet, et quod alias senatui Veneto pro alicuius beati viri canonizatione instanti hoc negauit.

Tamen possemus ex consilio dicti domini cardinalis alium modum quasi similem canonizationi obtinere, videlicet quod papa concederet amico p. v. Jslandie episcopo, qui vobis scripsit[3]) per literas in forma breuis, quod posset de dicto beato episcopo, quem canonizari petit, ordinari, dici et obseruari facere speciale offitium et solempnisari, sicut fit de beata Catharina filia sancte Birgitte. Et tunc necesse esset, prout consuluit dictus dominus cardinalis, quod rex Datie, et etiam prefectus Jslandie, necnon reuerendissima p. v. tamqvam illius metropolitanus, pro premissis scriberent ad summum pontificem et ei supplicarent prefatumque negotium sue sanctitati attente commendarent, et quod etiam in aliqua littera auctentica mitterentur aliqua miracula, facta per dictum beatum. Et credo, quod cum trecentis ducatis premissa bene expediremus, computatis omnibus pro aduocato et expensis litterarum ac propina cardinalis et alijs. Nam veram canonizationem non deberet expedire[4]) cum tribus milibus ducatis, sicut fieri vidi sub Adriano papa . .
. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

1) Utanáskript bréfsins. 2) þ. e. Lorenzo Pucci kardinali; undir hann hnigu hjá páfa kirkjumálefni Norðrlanda. Pucci þótti ágjarn og fédrögull. Dó 1531. 3) þ e. Jón Arason. 4) Svo.

Ex Vrbe vi augustj per bancum 1524.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

E. p. v. reuerendissime
filius et seruitor Zutpheldus Wardenberg
prothonotarius et scriptor apostolicus
manu propria.

---

202. 9 August 1524. í Björgvin.

Dómr Höskuldar biskups í Stafangri og tíu annara útnefndr af Ólafi erkibiskupi í Niðarósi um kærur Ögmundar biskups í Skálholti til Jóns biskups Arasonar.

Landsbókasafn 61. 8vo, stafrétt afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ex transscripto membraneo fra Vicelögmannenum Odde Sigurdsyne“ (AM). gerðu í Hamborg 13. Marts 1525. Nokkrar aðrar afskriptir eru til af þessum dómi, svo sem í Bókmentafélagssafui Khd. 125B. 4to nr. 99, Landsbókasafni 115. 4to (og þar eptir í Bókmentafélagssafni 126. 4to), og eru þær til lítils; merkari er afskript sú, sem er á lögbók síra Sigurðar Jónssonar á Grenjaðarstað nú í bókasafni háskólans í Uppsölum í Svíþjóð, Delagard., 9. 4to, bl. 177b 178, á skinni, skr. c. 1587. (=b). — Meðal Apogr. AM. 3704 er afskript eptir því, sem stóð aptan við bréfabók Ögmundar biskups með hendi síra Jóns í Villingaholti, með orðamun eptir dómabók, er átt hefir Brynjólfr biskup Sveinsson. Þar með liggr og afskript bréfsins frá 17. öld, er Árni hefir feingið „fra Pale Jonssyne Widalin 1699“. Dómrinn er prentaðr í Finni Johannæi Hist. Eccl, Isl. IV, 240—243.

Domur a millum Biskups Jons Arasonar oc biskups Ogmundar.[1])

Wij hôskvlld[2]) med Gudz nǻd biskup j Stafangur. Magnűs thil hamar[3]). Olaf til biörguin[4]) af sömu[5]) nǻd. herra andres nichelsson.[6]) herra Olaf Wilhialmsson. herra Knut Petursson. Meistari Petur Petursson. Meistari Hans Ref. Meistari heinrek nikelsson[7]). herra Biörn Petursson og herra Petur Jonsson. kanunkar ut i Trandheims domkirkiu. Giörum öllum uiturligt med þessu uoru opnu brefi. ath ǒrum

1) Apogr. 3704. 2) Höskuldr b. 3) Hamars b. 4) Bergen b. 5) samme b. 6) Nielsson b. 7) Nielsson b.

epter gudz burd. ꝏ d xxiiij. Vigilia Laurentij. vpp æ Erchibiskupsgard[1]) ȷ biörguin. worum wier thil skickader af worum verdugazta faudur ȷ gudi Erchibiskup Olaf i þrandheim. ath skoda ꞩannzaka og yfer at dæma. um þær saker sem verdug fader ȷ gudi biskup augmund af Skalhollt kærdi upp æ herra ȷon arason sem [þann thid[2]) uar postuleradur af holastikte ȷ island og personuliga uar þar med[3]) oss sama thijd[4]). kom þar og fram̄ fyrir oss ȷ sama stad og deige heidarlig[5]) mann herra ȷon einarsson vt af Skalholltzstikt[6]) med bref og bifalning[7]) so hliodandi. ath biskup augmund hafdi honum fulla makt thil gefit ath kæra og klaga allar þær saker sem biskup augmund hafdi [fyrr nefndum herra Joni[8]) thil ath tala. Jtem syndi herra ȷon einarsson fyrir oss .iij. domsbref so hliodandi ath biskup augmund hafdi dæma latid fyrrnefndan herra ȷon arason ȷ forbod og bann og[9]) þar thil dæma[10]) af honum sinn heidr. æru. goz og peninga og under [biskups augmund[11]) nad. Jtem syndi og fyrrnefndur herra ȷon einarsson þar fyrir oss eitt opit bref med .iiij. inscigli so hliodandi ath nocker prestar af holastikt[12]) hefdi ꞩeuocerat þat kiörsbref sem þeir hôfdu fyrnefndum herra Joni arasyni gefit et cetera.

hier i mot kom ffyrr nefndur herra ȷon arason þar fram̄ fyrir oss og tiedi sin bref. fyrst eitt biskermelsisbref. sem Erchibiskup Eirek Walkendorf pie memorie hafdi honum gefit. so og syndi hann fyrir oss eitt opit bref med capitulans inscigle af þrandheime so hliodandi at kanunkarner badu og skipudu og fulla magt til gafu prestum holabiskupsdæmis at ut uelia og til sig senda Einn þann mann sem þeir uillde hafa [thil sinn biskup[13]) og holakirkiu forstandara et cetera. þar eptir syndi hann fyrir[14]) oss eitt opit bref med [iiij og xx hangandi ȷnnscigle[15]) so hliodandi[16]) at prestar holabiskupsdæmis hôfdu hann ut ualit at uera sinn biskup og hola domkirkiu forstandara. sômuleidis syndi hann fyrir

1) -gardinn *b* 2) [i þann tíma *b*. 3) nær *b*. 4) tíma *b*. 5) heidarligur *b*. 6) -stikti *b*. 7) bivising *b*. 8) [fornefnds herra Jóns Arasonar *b*. 9) sl. *b*. 10) dæmt *b*. 11) [biskup Agmunds *b*. 12) -stikti *b*. 13) [sér til biskups *b*. 14) sl *b*. 14) [xxiiij hangondum innsiglum *b*.

oss eitt bref med ȷnncigle[1]) so hliodandi[2]) at hann hafdi med Radi presta holabiskupsdæmis appellerat allar fyrr nefndar saker og malaefni under erckibiskupsins nǻd ȷ þrandheime og hans elskuliga[3]) capitula ʀad ok yfersyn. ok undan domi biskup augmundar og allra hans presta et cetera.

Þui fyrir [þan sak[4]) ath biskup augmund uar ecki uigdur biskup thil hola domkirkiu og ei hafdi hann nockra bifaling af uorum uerdugazta faudur Erchibiskupinum ȷ þrandheim. eda hans capitula at taka nǒckra biskupliga ʀeñtu ȷ holadomkirkiu stikte. Enn þo lika uel at hann uar[5]) til skickadur at uera tilhialpsmann[6]) þar ȷ stickted et cetera. þui fyrir þessar allar fyrr nefndar saker dæmdum uij þat ʀeuocationisbref sem fyrr nefndur herra ȷon einarsson hafdi og alla þa doma sem biskup augmund[7]) hafdi dæma latid upp æ fyrr nefndañ herra ȷon arason sidan hann uar ut ualinn til hola domkirkiu aungua magt hafa eda haft hafa. þui oss synizt sama ʀeuocationisbref og biskups augmundz domar[8]) med nǒckurri aufund giǒrd hafa uerit og ȷ mot kirkiunnar lag[9]). So og dæmdum wier at fyrnefndur herra ȷon arason mætti uel hafa og bihallda sinn heidur og [alla sina peñinga[10]) ȷ gen sem hann kann biuisa ath biskup augmund hafi[11]) fra honum tekit epter þeim[12]) fyrnefndum domum. Thil ytar[12]) meir[13]) biuising[14]) hier um heingium uier wor ȷnnscigli fyrir þetta bref sem giǒrt uar ȷ biorguin ær og dag sem fyrr skrifat stǻr.

---

**203. 10. August 1524. í Ögri.**

Ögmundr biskup í Skálholti kvittar Ragnhildi húsfreyju Bjarnadóttur um porcio kirkjunnar í Ögri um 57 ár, síðan Jón Ásgeirsson fékk kvittan af Sveini biskupi 22. Sept. 1467.

AM. Apogr. 965 „Ex orig. communicato a Paulo Jonæ Vidal. (komid fra Ögri)". Innsigið var fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 1421 (afskript gerð eptir sama frumriti).

1) innsiglum *b*. 2) hliodanda *b*. 3) elskuligt *b* 4) [þá sök *b*. 5) væri *b*. 6) tilhjálparmann *b*. 7) Augmundur *b*. 8) dómr *b*. 9) lögum *b*. 10) [öllum sínum peningum *b*. 11) hefir *b*. 12) sl. *b*. 13) meiri *b*. 14) bivísingar *b*.

Vier broder augmund med gudz næd biskup i skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi. ath Ragnhilldur husfreyia biarnadotter. hefer giort oss reikningskap af þui porcione kirkiunnar i augre sem fallit hefuer sidan biskup sveinn godrar minningar wtgaf kvittanciam ione heitnum þorgeirssyne[1]) fyrir porcione greindrar kirkiu. hvat reiknadizt at war upp æ xvij ær og .xl. og fallit hafdi .xj. hundrut og xx. Gallt greind Ragnhilldur husfreyia kirkiunni i þessa porcionem .iij. kluckur i xv^c. tvenn messuklædi alfær. kantarakapu. gylldan kalek med koparstiett. og ij. tiaulld steind i xvj. hundrut. Enn fyrir mortuarium hvat hun sagdi at wera mundi nærri .ij.^c eda þriu. gallt hun kirkiunne nauckr smä likneski med litlum hialmi. sem oss þotti vel á nægia. Þvi giörum wer og gefum ädrgreinda Ragnhilldi biarnadottur aullungis kuitta og akiærulausa um fyrsagt porcionem og mortuarium fyrir oss og ollum worum epterkomendum heilagrar kirkiu formonnum. Og til sanninda hier um settum wer wort insigle fyrir þetta kvittanarbref. skrifat i augri. in die sancti laurentij martiris. anno domini ꝍ.° D°. xx°. qvarto.

---

**204.** **23. August 1524** **í Björgvin.**

Ríkisáð Noregs gerir skipun um stjórn innan lands eptir að Kristján konungr annar er sagðr af ríki og þar til annar verði til konungs tekinn. Einn af þeim, sem á ríkisráðsfundinum sitja, er biskup „Jon Aresson i Holæ i Jsland“. Að öðru leyti kemr bréfið Íslandi ekki við.

(Dipl. Norv. I, Nr. 1067)

---

1) „ita exaratum est. corrige *Asgeirs*“ (AM.). Kvittanarbréf Sveins biskups til handa Jóni *Asgeirssyni* 22. Sept. 1467 er prentað í Dipl. Isl. V, Nr. 437.

205. 23. August 1524. í Björgvin.

Ríkisráð Noregs samþykkir að taka til konungs í Noregi Friðrik fyrsta Danakonungs í stað Kristjáns konungs annars, sem þeir hafa sagt upp hlýðni og hollustu, og er biskup „Jon Aresson i Holæ i Jsland“ einn af þeim, er sitja á þessum ríkisráðsfundi. Að öðru leyti kemr bréfið Íslandi ekki við.

(Dipl. Norveg. IX, Nr. 534).

---

206. 29. August 1524. í Haga.

Ragnhildr húsfreyja Bjarnadóttir og börn Bjarnar heitins Guðnasonar gjalda Ögmundi biskupi í sakafé heilagrar Skálholtskirkju 124 hundruð; samþyktu og erfingjar Bjarnar heitins helmingafélag með honum og Ragnhildi konu hans og voru þar eptir skipti gerð.

Bisk. Skalh. Fasc. XIII, 2, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2455 „accuratissimé“ og hefir Árni ritað við orðamun eptir bréfabók Ögmundar biskups.

bref fyrir Huammi. Asgardi og ketelsstaudnm.

Þat giorum wid jon prestr eireksson og jon biornsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefui. ath wid worum hia. saum og heýrdum a vnder nupi j dyrafirde þridiudaginn næsta fyrir bartholomeusmessu. at ragnhilldr huspreyia[1]) biarnadotter. og börn biarnar heitins gudnasonar. vrdu ath einu samþýck. ath herra augmund med gudz nád biskup j skalhollti. skylldi eignazt j sakafie heilagrar skalholltz kirkiu þessar iarder og fasta eign.[2]) Jn primis huamm j huammsueit fyrir .lx.c Jtem asgard firir [.l. hundrud. Jtem[3]) ketilsstadi fyrir fiogur hundrud og .xx. med ollum þeim gaugnum og giædum sem greindum iörduin fýlger og fylgt hefuer at fornu og nýiu.

Suo og samþycktu erfingiar biarnar heitins [ath helmingafielag skýlldi werit hafa millum[4]) biarnar heitins gudna-

1) husfreyia, *brb.* 2) sem hier seiger, b v. *brb.* 3) [xl c ok, *brb.* 4) [upp ä ny. ad helmingafelag skyllde vera a millum, *brb.*

sonar ok[1]) ragnhilldar huspreÿiu.[2]) Reiknudu þa [goder menn j sundur fasta eignina j helminga[3]). woro sidan hluter a lagder. Hlaut [Ragnhilldur husfreyia j sinn helming iordina augur[4]) og þad sem þar war med skipt. sem reiknadizt at upphæd hundrat hundrada. tiutigi hundrut og .xijc. betur. Lagdi þa og adurgreind[5]) Ragnhilldur[6]) bǫrnum sinnum til skiptis iardernar hiardardali. sem eru at dyrleika lxxxxc Skÿlldu og aller hluter smaer og storer fram leggiazt til rettra skipta sem woru þa biorn heitinn gudnason fell fra[7]).

Woru þesser næruerandi witnismenn. sem wissu ath þessi giorningur for fram. þorgils nikulasson. ion olafsson snorri hialmsson. prestar. olafur gudmundzson. ion narfason og erlingur gislason. leikmenn. og marger adrer goder menn.

Og til sanninda hier vm festum wid ockur jnsigle med þessara fyrrgreindra manna jnsiglum fyrir þetta bref. skrifat j haga a bardastraund in decollacione sancti johannis baptiste. anno domini. ꝏd xxiiij°.

---

207. **1. September 1524. undir Múla.**

Ögmundr biskup í Skálholti kvittar Helgu húsfreyju Þorleifsdóttur um porcio Hagakirkju á Barðaströnd um 20 ár um liðin.

AM. Apogr. 1130, eptir frumriti frá Haga. Arni lýsir innsigli.

Vier Broder augmund med gudz nǭd biskup j skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefui. ath helga husfreyia þorleifsdotter hefer giort oss reikningskap af porcio þui sem fallit hefuer a kirkiunne j haga a bardastraund vm næstu .xx. ar forlidin. huat at reiknazt. xij. hundrut. hefuer hun lofat at leggia til kirkiunnar nǫckra

1) Svo. 2) husfreyu *b. b.* 3) [i helminga goder menn fastaeignina i sundur, *brb.* 4) [Hlaut husfreya Ragnhilldur i sinn helming þessar iardir. in primis augur, *brb.* „en þetta er oefad rángt", segir Árni. 5) sl. *brb.* 6) husfreya b. v. *brb.* 7) hér þraut bréfið í *brb.*

sæmiliga hluti j þessi. xijc. og at þessu til laugdu med godra manna ẏfersẏn. sem wel a næger. þa giorum wer og gefum greinda helgu husfreẏiu aullungis kuitta og akiærulausa vm fyrr sagt porcionem fyrir oss og ollum worum epterkomendum heilagrar kirkiu formonnum. Og til sanninda hier vm settum wer wort jnsigle fyrir þetta kuittanarbref. skrifat vnder mula a skalma nesi in festo sancti egidij abbatis. anno domini ϖ d xx iiij⁰.

---

**208. 2. September 1524. í Björgvin.**

Ríkisráð Noregs dæmir um erfðamál milli Gauta Ívarssonar og Ólafs Michelssonar um eignir hústrú Sunnifu Eindriðadóttur, og er biskup „Jon (Árason) j Hoole j Jslandt" einn af dómurunum á ríkisráðssamkomu þessari. Að öðru leyti kemr bréf þetta Íslandi ekki við.

(Dipl. Norv. I, Nr. 1068).

---

**209. 3. September [1524]. í Björgvin.**

Sex klerkar og átta leikmenn af ríkisráði Norðmanna birta Finnmerkrmönnum (Björgynjarmönnum), að ríkisráðið hafi sagt Kristjáni konungi öðrum upp hlýðni og hollustu og kosið Friðrik Dønakonung til konungs í Noregi, og hafi lagt á skatt þeim konungi til handa, er greiðast skuli Vincencius Lunge ríkisstjóra norðan fjalls. Er „Jonn (biscop) i Huole" einn af þeim, sem gefa út bréfið. Að öðru leyti kemr það Íslandi ekki við.

(Dipl. Norv. VII, Nr. 591).

---

**210. 6. September 1524. á Reykhólum.**

Ögmundr biskup í Skálholti fær og aptr leggr Birni bónda

Þorleifssyni þá peninga, sem honum höfðu til erfða fallið eptir Jón dan föðurbróður sinn.

AM. Fasc. XLVI, 18, frumritið á skinni. Öll insiglin eru fyrir bréfinu Niðr í nokkra af innsiglaþveingjunum hefir verið rist bréf nokkurt samtíða eða öllu eldra en þetta. Á 3. þveingnum má lesa þetta langs um: „[sta]ndande eru þeir marger hluter at hann tok med stadnum bæde ellzgogn og adrer hluter at eg hefi onga . . . . . . ballda. suo tok hann þar gamalt skip enn liet ecki j staden enn hann atti nytt skip og hafdi þad j burt og uill . . . . . .“ Þvers um á sama þveing: „Heidurso[mum herra] herr[a Augmunde biskupe j] skalho[llte]“. Á fjórða þveingnum stendr undirskript bréfsins: „filippus prestur ionsson“. Mun bréfið hafa verið sendibréf frá honum til Ögmundar biskups. Var hann prestr í Sauðlausdal. — AM. Apogr. 5703. — Afskript af þessu bréfi eptir bréfabók Ögmundar biskups er í Landsb. 62. 8vo og AM. Apogr. 2761. Þar er bréfið ártalslaust (= b). Orðamunr ómerkr.

Biskups Ogmundar Brief þar hann fær Birne Þorleifssine afftur Eigner þær Jon Dan atti.[1])

Vier Broder augmund med gudz nãd biskup j skalhollti giðrum godum monnum kunnigt med þessu woro opnu brefui. ath æ manudaginn næsta fyrir Mariumessu sidarri[2]) a Reykholum. fiengum wer og aptur laugdum birne bonda þorleifzsyni þa peninga sem honum haufdu til erfda fallit epter jon heitinn dan faudurbrodur sinn frida peninga og ofrida. fasta og lausa. hueria at hann hafdi adur j augri oss feingit til fullrar eignar. [hier j mot lofadi greindr biorn bondi[3]) at wera oss og formonnum heilagrar skalholltzkirkiu til gagns[4]) og goda j þui honum wæri mǒguligt. og at hallda þa doma [og giorninga[5]). sem dæmder hǒfdu werit af heilagr(e) skalholltz kirkiu og hennar formonnum og þad omakslaust og aklaganarlaust wera lata sem vnder kirkiuna wæri med domi komit fyrir sier og sinum erfingium.

Woru þesser giorningswottar til kallader. sira jon eireksson. olafur bondi gudmundzson og jon biǒrnsson.

Og til sanninda hier vm [settum wer wort jnsigle med

1) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1700. — Um Biörn Þorleifsson, b. 2) Þ. e. 5. Sept. 3) [med þeim skilmala ad greindur Biorn b(onde) lofade b. 4) styrks b. 5) [sl. b.

þessara fyrr greindra manna jnsiglum fyrir þetta giornings-bref skrifat j sama stad deigi sidar enn fÿrr seiger. anno domini. ᴍdxxiiij".[1])

---

211. 6. September 1524. í Björgvin.
Ríkisráð Noregs vottar, að Vincencius Lunge, ríkisstjóri Friðriks konungs í Björgvin og norðan fjalls í Noregi, hafi feingið vitnisburð um það af Skotum, lögmanninum í Björgvin og bæjarráðinu, að hann hafi einga hlutdeild átt í árás þeirri, er Þjóðverjar gerðu á Skota í Björgvin. Er „Joenn (biscop) i Hole“ einn af þeim, sem gefr út þetta vottorð, en að öðru leyti kemr bréfið Íslandi ekki við.

(Dipl. Norveg. VI, Nr. 697).

---

212. 7 September 1524. í Björgvin.
Vígslubréf handa Jóni Arasyni til biskups á Hólum út gefið af Ólafi Eingilbertssyni erkibiskupi í Niðarósi.

Landsbókasafn 61. 8vo, stafrétt afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ex transscripto membraneo fra vicelögmannenum Odde Sigurdsyne“, gerðu í Hamborg 13. Marts 1525. Frumrit þessa bréfs var á látinu, segja transscriptores, og er þetta því þýðing þeirra á íslenzku.

Ollum kristnum monnum þeim sem þetta bref siá edur heyra sendum uier Olafur med gudz nad Erchibiskup J nidarosi og paualigx sætis legatus heilsun med worum herra jhesu christo og hans modur Jungfru marie. fyrir þui at hola domkirka hefuer formanzlaus uerit sidan biskup godskalk nichulasson godrar minningar fra fiell og fyrir margra forfalla skulld for og fyrir oss kom merkiligr og heidarligr mann herra jon arason og med sier hafdi klerkanna og almugans bref og audmiukligar bæner vt af sögdu

1) [sl. *b*.

biskupsdæmi. og þar epter þess riettiligazta og verdugazta veralligx forstiora fridreks med gudz nad danmarks og noregis kongs. ath fyrir þeirra samhliodandi bæn og kirkiunnar brest willdum vier til virdazt fyrir gudz skylld og stora naudzyn. ath fullkoma til scicka og vigia fyrr nefndan herra ȷon arason. Enn medur þui at epter ʀiettum laugum til heyrer worum capitula og elskuligum sonum fyrrnefndrar kirkiu vmsion. þui med tilkalladri gudz hialp til kølludum wier virduliga fedur ȷ gude stafangurs og hamars biskupa og electus i biørguin huerer þa uoru nær oss med worum kanúkum af þrandheime. voru þeir grandliga skodandi og epterleitandi. og aller med einne raust og einu samþycki yfer eins komandi. og afseigiandi og onyt giørandi oll þau forfeingilig og oʀiettilig lyti og motkast sem nóckrer hans motstaudumenn høfdu honum til lagt. Hier epter þennan sama herra ȷon arason til min lofliga færandi og aller med einu samþycki hann utuelandi til biskup og formann fyrrnefndrar hola domkirkiu. og þui þat er skialligt ath kanúkañer færi þann sem elegeradur er til yfermannzins med einne ʀaust og audmiukligri bæn at stadfesta fyrrsagda utualning og so badu þeir oss at skoda og upp á þeinkia huersu miog fordæmiligt og skadsamligt þat kann uerda domkirkiunni og biskupsdæminu. at hun er fyrir utan sinn ʀiettañ formann. og huersu farligt plagar at uera gudz kristni ouirding høfdingianna. kristninnar. vorer fyrskrifader kæruztu brædur biskupañer og ʀikissins ʀád med æzta radi vors uirduligs capitula til hneigiandi og aller med einni raust bidiandi og epter almattigs gudz millde og þui hann uar ʀettiliga elegeradur af kanukunum og hann uar oss audmiukliga færdur. þui epter uoru paualigu ualldi og magt Erchibiskupligrar yfermanz stiettar confirmerudu uier hann litlu þar epter þenna sama herra ȷon arason electum og confirmatum med tilhialp uorra underbiskupa af stafangri og hamar og epter ʀiettiligri skipan og laganna yfersøgn og kanukanna tilsetning ȷ gudz nafni vigdum vier hann. gefandi honum fulla magt løgsaugn og tilsion yfer øllum og sierhuerium andligum og uerallzligum so sem løgliga fyrr-

sögdum holabiskupi bikuæmiliga til ber. Skickum og faum uier honum fyrrsagda holakirkiu med öllum hennar ʀietti og ʀentu til æving arar eignar. Biodum wier streingiliga og skipum vnder magt heilagrar hlydni ollum kennimonnum og leikmonnum sem eru ȷ holabiskupsdæmi. at þeir giöri honum skyllduga hlydni. heidur og virding og aungum ödrum ȷ biskupligri magt og ueralliga skylldu. suari honum og tilheyriligañ ʀeikningskap giöri. Og til æuenligrar styrkingar. sanninda og ʀiettrar vidurkenningar allra fyrrskrifadra greina þessa brefs lietum wier ȷnnscigla og stadfesta med uoru secrete sem hier er medfest gefit ȷ biörguin ȷn profesto natiuitatis virginis marie anno domini ꝏ d xxiiij.

---

**213. 13. September 1524. undir Staðarfelli.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti um ágreining þeirra síra Ólafs Guðmundssonar og Stulla Þórðarsonar um land það, er liggr fram frá Hlíðartúni og kallað er Teigr, hvort það skylldi helldr heyra til Hamraendum eða Hlíðartúni.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar í Ríkisskjalasafni Dana, Dalasýsla Nr. 6, afskript staðfest á Reykhólum 25. Júní 1703 af Gísla Jónssyni og Einari Oddssyni. — Nr. 5 á sama stað afskript með hendi Hans lögmanns Beckers fyrir Árna Magnússon eptir Nr. 6.

Þeim gődum monnum sem þetta bref siä edur heyra. sender abote Narfe Jonsson. Sira Halldor Tyrfingsson. Sira Þordur Einarsson. prestar Skalhollts Býskupsdæmis. Olafur Gudmundsson. Asmundur Klemusson. Ellingur Gislason. leikmenn. kuediu Gudz og sijna. kunnugt giörandi. arum effter Gudz burd M. D. xx. og iiij ar ä manudagenn næstañ firer krossmessu um hausted[1]) j Hvamme ȷ Hvamssveit. vorum vær j dőm nefnder af ærlegum Herra og andlegum födur. Herra Øgmunde Býskup j Skalhollte ad skoda og ʀansaka. og fullnadardőms adkuædi ä ad leggia j millum þeirra Sira

---

1) þ e. 12. Sept.

Olafs Gudmundssonar og Stulla Þordarsonar. er þa a greindi huőrum til skilldi heyra Hamrendum edur Hlıjdartűne landed er liggur fram̄ frǻ Hlıjdartűne og kallad er Teigur. Lagdi sira Olafur þar fram̄ votta bref. suo latandi ad þeir hefdu þad heirt ad greindur Teigur skilldi heira til Hamrendum. Enn greindur Stulle Þordarson hafdi kaupbref firer greindre ȷǫrdu Hlıjdartűne. so latandi ad Hlıjdartűn ætte land allt fram̄ ǻ fiall og heim ȷ þann læk sem rennur næst Reidhollte ʀiettsýnis uppa fiall ȷtakalaust. utan̄ eina selstǫdu ǻ Teigluhialla skylldu eiga Hamrendar. Þuj dæmdum vær kaupbrefed skiallegt og mindugt. Enn hitt onýtt og ad ǫngvu halldanda. og æfenlega vera og vered hafa Hlijdartűns eign tijttnefndan̄ Teig. med allri annari adurskrifadri landar Eign fram̄ ǻ fiall og j adurskrifadan̄ læk. Enn greinda selstǫdu skilldu þeir hafa fra Hamrendum. er þar bygge. enn liǻ huorke nie ǻ leigu selia. og ei firer adra pgninga enn sijna bűnýt. Samþýckti þenna vorn dom med oss nefndur Herra Augmundur. og sette sitt ȷnnsigli med vorum ȷnnsiglum firer þetta dőmsbref. huǫrt ed skrifad var under Stadarfelle ǻ sama are. deige sijdar enn firr seiger.

Þad giǫrum vier Helge Helgason. Jon Sigursson og Jon Grijmsson. gődum mǫnnum kunnugt med þessu woru opnu brefe. ad vier medkennust ad vier hǫfum sied og yferlesed suo lǻtandi dőmsbref med heilum og oskoddum hangandi ȷnnsiglum. sem hier fiıer ofan̄ skrifad stendur. og til meire stadfestu og sanns vitnisburdar hier um. setium vier adurskrifader menn vor innsigli firer þetta vort vitnisburdarbref. huǫrt skrifad var under Stadarfelle um haustед. ǻ fimtudagenn næstan̄ effter allra heilagra messu. um häusted(!) þǻ lided var frǻ Gudz burd M. D. xl og ij ar.

So lätande dom sem hier firer ofan̄ og framan̄ skriffadur er. höfum vier underskriffader menn lesed saman̄ vid þessa Transskrifft. Var hitt gamallt letur ä skinn skrifad og Tvö hängande innsigle firer. Til merkiss vor nöfn med eigen̄ höndum hier underteiknud j Hitardal 2 Martij Anno 1651.

Þordur Jonsson med eigen̄ h. — Halldor Jonsson med eh.

Helge Grimsson med Eh. — Eijrekur Vigfusson Eh.

Ad þetta hier ofanskrifad sie riett Coperad effter hier næst skrif-

adra manna eigeñ handa underskriffadre Copiu votta underskriffader. Reykholum d. 25. Junij Anno 1703.
Giiffsle Jonsson Einar Oddsson meh.

---

214. 14. September 1524. í Snóksdal.

Ögmundr biskup í Skálholti samþykkir Nr. 188.

Eptir afskript Magnúsar Einarssonar á Jörfa meðal Hamrenda og Snóksdalsbréfa (hjá mér) gerðri c. 1730—1740, að því er virðist stafrétt eptir frumriti.

Vær augmundur med guds næd biskup j skalholti giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe at vær samþyckium þann reikningskap sem sira halldor tyrfingsson vor profastur hefer teket af dada gudmundzsyne kirkiuꝥar vegna j snoksdal epter þvi brefe sem hier er med fest[1]).

Ok til sanninda hier vm settum vær vort jnsigle fyrir þetta samþyktarbref er skrifat var j snoksdal jn exaltacione sancte crvcis anno Domini ꝏ d xxiiij.

---

215. 30. September 1524. í Skálholti.

Ögmundr biskup í Skálholti kvittar Ragnhildi Bjarnadóttur og Torfa Björnsson um hundrað hundraða og fjórtán hundruð betr í jörðum og lausapeninga, sem biskupi ánægði, í sakaferli Björns heitins Guðnasonar, en þau lofuðu að vera Skálholtskirkju og biskupi til gagns og góða.

AM. Fasc. XLVI, 12, frumritið á skinni með innsigli biskups. — Afskript ártalslaus eptir bréfabók Ögmundar biskups er í Landsb. 62. 8vo og AM. Apogr. 2728 (= *b*).

Ragnhilldur lætur vte jc c. j jǫrdum og xiiijc betur fyrer misferle Biǫrns Gudnasonar 1524.[2])

1) Sjá bréf frá 21. Mai 1524. 2) Utan á bréfinu með hendi Eggerts Hannessonar. — Kvittunarbref *b*.

Vier broder augmund med gudz nad biskup j skalhollte giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe ath vier haufum ordet vnder eins og utaf giort vid ragnhillde huspreyu[1]) biarnardottur[2]) vm þad gialld sem hvn lofade oss og heilagri skalhollzkirkiu til forna j huamme j nordurardal fyrir þau sakaferle sem biorn heiten gudnason hennar bonde var[3]) skylldugur heilagri skalhollz kirkiu og vorum foruerara biskup stephan godrar miningar gud hans sal nade. hefur hun golldet oss med rade og samþykke torfa sonar hennar og hans systra hundrat hundrada j iordum og .xiiij. hundrud betur og þar til lausapeninga sem oss vel a næger. hier med hafa þau lofat ath vera heilagri skalhollzkirkiu og oss til gagns og goda hier epter j aullum þeim hlutum sem þeim er mauguligt. Þui giorum uier og gefum greinda ragnhillde biarnardottur[4]) og aull hennar baurn aullungis kuitt og akærulaus fyrir oss og aullum vorum epterkomendum [heilagrar kirkiu[5]) formonnum vm adr greint sakaferle[6]). Og til saneñda hier um [festum vier vort jnsigle fyrir þetta kuittunarbref skrifat j skalhollte ipso die sancti iheronimi prestbiteri[7]). Anno domini ꝏ d xx. iiij[8]).

---

## 216. [1524].

Skrá um sakaferli erfingja Björns heitins Guðnasonar „í hinum síðasta dómi“.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM Apogr. 2769 með hendi Árna Magnússar „ur brefabok Ogmundar biskups. sine anno“. „pertinet ad annum circiter 1524“ (AM.).

Um Sakferle Biarna(r) Gudnasonar.

Svo miked reiknadest sakferli uppá Erfingia Biarna(r) heitins Gudnasonar i hinum sidasta domi.

Jn primis Domkirkiunne i Skalhollte stort hundrad mark. tiutige mark ok sex merkur.

1) husfreyu *b.* 2) Svo bæði. 3) vard *b.* 4) Svo bæði. 5) [kirkiunnar *b.* 6) sakferli *b.* 7) Svo. 8) [et cetera *b.*

Jtem reiknadest fyrer kirkiu inngôngu uppá eitt ár lxc. ok xvjc betur.

Jtem kirkiunne i Vatsfirde. lx. marka ok tvær betur.

Jtem kirkiunne i Grunnavik. xx. merkur ok vij betur.

Summa kirkiunum ôllum tvo hundrud marka. siôtiu mark ok fimm merkur betur.

Jtem Sera Jone Eirekssyne niutiu mark.

Þessa peninga hefur Ragnildur[1]) hussfreya golldid oss vegna sin ok barna sinna.

Jn primis xc i gulle og silfre i Hvamme i Nordurærdal. xc. i skreid ok smiôre vestur á fiordum.

ijc. sende hun oss med . . . . bonda til alþingis.

xüijc. i gulle og silfri upp á Laurentius heima i Øgre.

Summa lc. ok vj. betur.

Svo mikler peningar i Arnarfirde til sagder biskupinum Ogmundi af hende . . . . . .

Jn primis. Selvogar med fiorum kugilldum ok hundrad i landskylld.

Jtem . . . . . . er liggur i eyde.

Jtem Lokinhamrar med Dalsdal .ijc. i landskylld. . .

Jtem . . . . . . med fiorum kugilldum. halft annad hundrad i landskylld.

Jtem Skialldfônn med fimm kugilldum. Landskylld . . . . . .

Jtem Borg med .v. kugilldum og niu aura landskylld.

Dyniandi med . . . kugilldum. landskylld . . .

Horn med iiij kugilldum. hundrad i landskylld.

Laugabol. Half Alvidra ok Skage þar ut frä.

---

**217. 1. Oktober 1524. í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti kvittar bróður Jón Jónsson á Skriðuklaustri, sem er nokkuð nytsamlegr utan kirkju og innan, af fyrstu barneign með Oddnýju Hallvarðsdóttur, en þau voru að frændsemi í annan lið; — svo og gefr hann

1) leiðr.; Ragneidur, bæði.

Jón og Guðrúnu skólabörn á Skriðu kvitt af þeim bernskupörum, er þeim bar til, með öðru fleira, sem bréfið hermir.

AM. 914. 4to afskript Skriðuklaustrsskjala staðfest í Berufirði 28. Sept. 1697 af Guðmundi Árnasyni og Brynjólfi Haldórssyni; var bréfið „ä kalfskinn med gamla skrifft rifed og lued og innsiglesläust". — AM. Apogr. 4442 (eptir 914. 4to). — AM. 265. 4to afskript Skriðuklaustrsbréfa staðfest á Skriðuklaustri 26. Apr. 1704 eptir afskript staðfestri á Skorrastað 17. Sept. 1697. Prentað á latínu í Finni Johannæi Hist. Eccl. Isl. IV, 118—119.

Kuittunar Bref Brődur Jons a Skriduklaustre 1524[1]).

Wier brooder Øgmund med gudz nǻd biskup i Skalhollte giörum goodum monnum kunnigt med þessu voru opnu breffe saker þess vier hőfum fregnad. at broder Jőn Jonsson a Skriduklaustre se[2]) nockud nitsamlegur vtañ kirkiu og innañ. huad vier lofum vel. Sőmuleidis kom hann sialfur firer oss og tiǻde saker sinna misferla til forna sier ifergiefest hafa. Þui giefum vier ǻdurgreindañ brodur[3]) Jon kuittañ ok ǻkiærulausañ fyrir oss og ollum Biskupum ȷ Skalhollte vorum effterkomendum. af þeirre[4]) prima prolificatione sem hann openber ath vard med Oddnӯu Hallvardsdottur[5]) in secunda[6]) gradu affinitatis. Enn lausn ok skriffter sieu sem honum hafa settar vered af herra Stephane uorum forverara. eda þeim hann þar til sette. so oc hañs skolabőrn Jőn og Gudrunu giefum vier kuitt vm̃ þau bernskupőr sem þeim bar til. hafande hendur a vigdum hlutum edur ővigdum. Hier med aller dugandes samchristner menn sem nockut hafa þar til hialpad vm̃ klaustur og kirkiugardenn. skorit edur stungit klaustursens[7]) ȷőrd og hőggved þess skog af hañs raadum. skulu qvitter og ǻkiærulauser um þær tiltekter. Hier uppǻ hefur broder Jőn lofad oss fram̃veiges at stirkia heilaga kristne oc klaustred vm̃ skoolahalld. Þui setium vier optgreindañ brodur[8]) Jőn sacristanum ifer kirkiu og klaustur ǻ Skridu. Skal hann sitia og fram̃sӯngia ·[őll hatijdleg hőlld[9])

1) Ártalið með hendi AM í 914 4to og af honum svo leiðrétt í 265 úr „1584" (!). 2) 265; sl. 914; 3) 265; broder 914. 4to; 4) 265; þeirra 914. 4to. 5) [265; dotter 914; 6) Svo bæði; 7) 265; klaustursíjns 914; 8) 265; broder 914; 9) [ollum hätijdlegum hölldum 265.

þeim stundum sem Priorinn er ecke heima eda vid kirkiuna. Og til sannenda hier vm̄ settum vier vort innsigle fyrer þetta qvittunarbref. skrifad ȷ Skalhollti sabbato post festum Michaelis Archangeli anno Domini Millesimo qvingentesimo vigesimo[1]) qvarto.

---

**218. 2. Október 1524. Í Gröf.**

Viðingargerð á peningum þeim, er Narfa Sigurðssyni hafði til umboðs fallið eptir Ívar heitinn Narfason, son sinn, en Ingvildi Ívarsdóttur til erfðar eptir greindan föður sinn.

AM. Fasc. XLVI, 14, frumrit á skinni. Af 4 innsiglum eru 2 fyrir bréfinu.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Sigurdr narfason. augmundr tyrfingsson. tumas oddzson. arne helgason. olafur þorualldzson og þordur palsson kuediu guds og vora. kunnigt giorandi. þa er lidit var fra gudz burd ꝏ. xv.c xx. og. iiij. ár ȷ ytra fagrada(l) ȷ saurbæ ȷ stadarhols kirkivsokn. a midvikudagin næsta fyrir hvitasunnu[2]). vorum vær til nefnder at virda þa peninga sem narfa sigurdzsyni hafdi til vmbods fallit epter ȷuar heitinn narfason son sinn. enn ȷnguolldi ȷuarsdottur til erfdar epter ȷvar heitinn narfason fodr sinn sem gud hans sál nadi. virtuzt oss þar so peningar.

Jn̄ primis .v. avrar ȷ bordbunadi. ȷ ofridu. x. alnar ȷ tolupeningum. ein kista fyrir .x. aura. sængr fyrir ofritt hundrad. halft annat hvndrad ȷ kervm og kistum og trogum. vı. tueimur pottum rifnum og bættum katli. vard þetta allz halft fiorda hundrad. Enn kuilldi til virdingar halft hit fiorda asaudar kuilldi. ij. kyr og giordar(!) ofan á .v. aurar huora og bænhws kuilldi eitt. var þetta ȷ fagradal. enn á heinabergi. iiij. asaudar kuillde og heyra prestinum sira halldori

1) bæði hdrr. hafa ranglega „octuagesimo“. AM. leiðréttir það í 265 svo: „corrige *vigesimo* potiusqvam *trig*“. Í Apogr. 4442 er ártalið óhikað sett 1524. 2) þ. e. 11. Maí.

a stadarhuoli til tuo sem se. iiij. kuillde á heydalsæ at ecki var at sed. iij ær (a) holi ȷ innstædu .vi. kuilldi med leidolfsstodum ovirt. Og til sanninda hier vm settum vier fyr nefnder virdingarmenn og so virdingarvottar gudmundur ellindzson og þordur snorrason vor ȷnnsigli fyrir þetta virdingarbref er giort var ȷ grof ȷ dolum sunnudagin næsta epter sæluviku vm haustid epter a sama are sem fyr seiger.

---

219. **12. Oktober 1524. á Reykjum í Ölfusi.**

Helgi ábóti í Viðey selr með ráði og samþykki Ögmundar biskups og conventunnar Arnbjörgu Stulladóttur og dætrum hennar jarðirnar Úlfljótsvatn og Hlíð í Grafningi fyrir jarðirnar Kiðafell, Valdastaði, Bollastaði og Háls, allar í Kjós, svo og Snartastaði í Borgarfirði.

AM. 238. 4to bl. 66, skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

Bref fyrir kýdafelle oc xc j valldastodvm oc xc j bollastodvm oc xc j halsé sem at liggia ȷ kios. vlfliotzvatñi oc hlid j grafninge.

Þad giorvm vid þostein jonson oc greipvr loptzson prestar skalholltz biskupsdæmis godvm monnvm viturlegtt med þessv ockrv opnv brefe. at vier vorvm þar j hia savm oc heýrdum æ ord oc handaband þessara manna af einne alfv herra abota hellga med gudz nad at videýarklavstre. eñ af annare alfv añbiargar stvlladotter. at svo fyrir skilldv. ad adrnefndvr abote hellge med rade oc samþýcke verdvgrar nadar herra avgmvndar med gvdz nad biskvp(s) j skalhollte oc med samþýcke conventvnnar selldi hann jo(r)dina vlfliotzvatñ adur·nefndri añbiorgv stvlladottur oc dætrvm hennar er liggur j grafninge oc þar med hlid xxc er liggur j vlfliotzvatz kirkiv sokñ. med ollvm þeim goğñvm oc giædvm sem greindvm jordvm fýllger oc fýlgtt hefir at fornv oc nýiv til æfinligrar eigñar og frials forrædis fyrir sier oc ollvm sinvm eptirkomendvm klavstvrzens formonnvm. Hier j mot gaf optt nefud añbiorg oc dætvr hennar þessar jarder oc

jardar parta: kidafell xx$^{c}$ er liggvr j kios j savrbæar kirkiv sokñ oc x$^{c}$ j valldastodvm. x$^{c}$ j bollastodvm. x$^{c}$ j halse er liggia j kios j Reynivalla kirkiv sokñ. Snartastader xvj$^{c}$ er liggvr j borgarfirde j lvndar kirkivsokñ til æfinligrar eignar vnder klavstrid oc þess formenn vndan sier oc sinvm erfingvm. oc j sodan mata villdv stvlkvrnar tala vp a modvr sina þa þær væri af omaga alldri. þa skýlldv hvorer ganga aptvr ad sinvm jordvm. var advr nefndr herra avgmvndvr med gvdz nad forsagnarvottvr hier vm oc sette sitt insigle med abotans insigle oc ockrvm insigllvm fyrir þetta jarda kavps bref. hvort er skrifat var a reykivm j olvis[1]) midvikvdagenn næstañ fyrir festvm reliqviarvm. arvm epter gvdz býrd. m. d. xxiiij ar.

---

**220. 29. Oktober 1524. á Illugastöðum.**

Vitnisburðarbréf um landamerki Tungu á Vatnsnesi og um þrætueingi nokkurt milli Ásbjarnarstaða og Tjarnar.

Eptir pappírsafskript frá 1727, kominni frá Tjarnarkirkju á Vatnsnesi í Landsskjalasafn. Stór spilda er glötuð úr afskriptinni; hefir týnzt frá um brot á bréfinu.

[Þad giorum vid . . . . .] son. og Amunde Gunnarson. gódum mönn[um kunnigt med þessu ockru op]nu brefe ad vid vorum vistfaster og . . . . . . . . [a V]asnese vppa fiögur ær þa Sera Sig . . . . . . . dañ. Epter þad főru vid til Tungu [a Vasnese j Tiarnar kirkiu] sókn. a stadarens jordu. biuggu vid . . . . . asbiarnarstödum var þa haft og hald[id] . . . . . . . . . . . og tungu atölulaust fram ad . . . . . . . . . . [e]r liggur Riettsýnes austur j . . . . . . . . [fa]rveg þeim sem liggur hia As[biarnarstödum. vit]um vid eje annad sannara enn þad mu[ne landamerke . . .] tungu bæde vera og verid hafa . . . . . . . . leingur. srjdan vid vissum. var . . . . . . [þ]eir sem vőru a Tiörn og . . . . . . . . . ñ lanztdrottne ber ad

1) Svo.

hafa j ád[ur greindu takmarke mille] skurdanna[1]) þar sem æin hefur ʀunn[id. og alldrei hőfum v]id annad vitad enn þad hafe vered kirkiunnar Eing æ Tiőrn a [Vasnese]. enn aldrei Asbiarnarstada Eing. suo leinge sem vid hőfum til vitad. og hier epter vilium (vid) sueria bőkar Eid .ef þurfa þicker. Ok til sannenda hier vm̄ setium vid fyrrnefnder menn ockar jnsigle firer þetta vitnisburdarbref. er skrifad var æ Jllugastődum æ Vatnsnese. laugardag næstañ epter Simonis et ivde[2]) Apostolorum þa lided var fra hingad burd vors herra Jesu Christi M. D. xx og fiogur ær.

Ad þetta ofañ skrifad sie samhlioda sıȷnum original. vottum vnderskrifader menn sem samañlasum ad kirkiuhuamme vid midfiord d 2. Junij 1707.

Eigill Einarsson Ꞓgh. Biarne Sueinsson Egh.

Riett Coperad epter sıȷnum Original vottum ad Tiőrn a Vatnsnese d 17 Septembris 1727.

Þorsteirn biørnsson Bergur Magnusson.

---

**221. 18. eða 25. November 1524. á Munkaþverá.**

Jón Magnússon geingr í borgan um þá sex tigi hundraða, sem Jón Hallsson á að hafa til kaups við Guðrúnu Finnbogadóttur.

AM. Fasc. XLVI, 19, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá.

Bref ȷ borgan geingid.

Þat giorer eck ȷon magnusson Godum monnum viturligt med þessu minu opnu brefue ath ec hefuer ȷ borgan geingit ok lofuat ath giallda ath næstum fardaugum þau lx hundrada sem ȷon hallsson skal hafua til kaups ok giptingar ȷ motz vid gudrunu finnboghadottur epter minne lofuan ok handsaulum sem ec giorde fyrir uottum vid abota einar ok sira finnbogha a munka(þuera) ȷ eyafirde þa þessara adr

1) Á miða hjá þessu skjali er ritað:

„i Skurdin nordan i Þroskuldinum og frá Skurdinum til Hraksiduar og sem Hraksidua helldur til Gaungusk(ards) á(r) og rædur so Gaungusk(ards)á til Fornaos“.

En hvort það á hér nokkuð heima, verðr ekki með vissu sagt. 2) vide, afskr.

greindra manna jons ok gudrunar hiuskapar kaup giordizt. Og til sanninda hier vm̄. heinger ec mitt incigle fyrir þetta bref er skrifuat var a munkaþuera faustudaginn næstañ vor frv messu presentacionis marie[1]. aarum epter guds burd þushund fim hundrut xx ok iiii aar.

---

**222. 26. Nóvember 1524. Í Skálholti.**

Dóm sex klerka útnefndr af Ögmundi biskupi um kærur biskups til Ólafs „skrifara“ Ásbjarnarsonar, að hann hefði „forlagt“ sína „eiginkvinnu“ og tekið sér aðra „hjálpskonu“, að hann hefði forsómað kirkjunnar erindi og gert verkaföll sakir drykkjuskapar og hefði neitað biskupsins skipan.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2765 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ogmundar“ (AM.).

Um Olaf skrifara.

Ølllum mǫnnum et cetera. senda Jon Hiedinsson Rădzmann i Skalhollti. Eirekur kirkiuprestur sama stadar. Þorlakur Landbiartsson. Þormodur Gunnlaugsson. Þosteirn Jonsson ok Snorri Hialmsson prestar Skalholltsbiskupsdæmis. kvediu guds og sina kunnugt giǒrande ad sub anno gratiæ M. D.⁰ xx.⁰ iiij⁰. laugardagin næstan epter Andreasmessu i Skálhollti vorum vier i dom nefnder af heidursamligum herra ok andligum fǒdur herra Øgmund med guds năd biskup i Skalhollti. ad skoda og ransaka ok fullnadar dom ă ad leggia um þă akiæru er biskupinn klagadi til Olafs Asbiarnarsonar. J fyrstu ad hann hefde forlagt sina eiginkonu. og seinkad sinu hionabandi. enn teked sier adra hialpskonu. J annari grein ad hann hefde med fullre ohlydne forsomad kirkiunnar Erinde. ok giort verkafǒll. saker dryckiuskapar ok ősamþickes ă mote þess vilia sem yfer var skipadur Domkirkiunnar farmaskip og gotz. Jtem i þridiu greiñ ad hann hefde nei sagt biskupsins skipan med þvi mote

---

1) Það getr bæði verið 18. og 25. Nóv. þetta ár.

ad hann fære ecke ődra enn hann hefde sett sier. hvad hver segde. Kallade herra biskupinn Olaf þar under lôg. so vier sǎum og heyrdum sialfum Olafi samþyckiande. Þvi dæmdum vier hann rietteliga fyrer kalladañ. J fyrstu grein syndi Olafur einga lôgliga afbôtun fyrer seinkan sins hionabands. og eingin mein lauglig fundust ǎ millum konunnar og hans. Þvi hann hafde giðrt laga Brudkaup til hennar. Þvi ad h(eilags) anda nad tilkalladre. ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier greindan Olaf fallinn i hordom ok sekañ þremur morkum. ok skylldugan ad taka lausn og skrifter. Enn sekan fyrer kirkiu inngaungu og þionustutekiu sem kirkiunnar lôg utvisa. Jtem fyrer þǎ sok ad Olafur hefur forsomad þad verk. sem hann var tilskipadur ǎ kirkiunnar farmaskipe med fullre ohlydne mot þess vilia. sem yfer var skipadur. Reiknadi Biskupinn þat vered hafa .xij. daga. ok kiendist Olafur þar .iiij. daga ut af fyrer oss. Her med hafde greindur Olafur lofad Biskupinum og adrer hasetar i Vestmannaɛyum adur þeir foru a farmaskiped ad vera hlydner og audvellder i allre sinne þionustu þeim sem yfer þǎ voru skipader. Vissum vier heilagre Skalholltskirkiu ongvan skada mejra giaurdan meiga vera enn þennañ ad forsoma þetta hennar eyrende og skip. þar sem inne var komid vín oc hveite og adrer naudsynleger hluter stadarins og Domkirkiunnar. Svo og finnum vier liosliga skrifad standa i Ritningum. ad af ohlydni og sundurlyndi koma aller iller hluter bæde fyrer lijf og sal. sem sialfur sannleikurinn talar. enn Sanctus Lucas skrifar i xı. capitula sinnar bőkar: Omne regnum in se divisum desolabitur et cetera. Þvi dæmdum vier herra biskupinn skylldugan ad leida sannindaprőf. hversu marga daga Olafur hefde suo leged af sinum dryckiuskap ad hann hefde ecke verid fær til formensku. segls. ok annarar skipmanns þionustu. og ad vitnunum leiddum dæmdum vier adur nefndañ Olaf sekañ. lx. morkum vid heilaga Skalholltskirkiu. ok audrum .lx. morkum vid herra biskup Øgmund fyrer hveria .iij. daga sem hann forlagde sitt verk. fyrer sitt dryckiuskapar svall og ohlydne. ok skylldugañ ad taka lausn ok skripter. Jtem fyrer þridiu grein. ad hann

sagde nei ad fara ődara enn hann setti sier. enn biskupsins bodskapur kom til hans. Dæmdum vier hann skylldugan ad sveria Eid. ok tvo skilvisa menn med hőnum. hier fyrer. innañ mắnadar. Enn ef hann fielle ắ Eidnum dæmdum vier hann sekan .xxx. mőrkum.

Samþyckte et cetera.

---

**223. 5. December 1524. í Haga.**

Helgi Gíslason lýsir því, að hann vilji halda löglegan í allan handa máta samning þann, er þeir gerðu hann og Eyjólfr heitinn Gíslason bróðir hans um tollverið í Miðhlíð og skógarhögg í skóga hans, svo og að Helgi hafi gefið sancti Nikulási tilkall sitt til Drápskerja, jafnframt því sem hann gefr öll peningaskipti þeirra bræðra kvitt.

AM. Apogr. 1129, eptir frumritinu frá Haga. Árni lýsir innsiglinu.

Þat giore eg helge gislason godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe at eg medkeɴvmzt at þann sama giorning sem vid eyiolfur heiteɴ gislason broder miɴ sem gud hans sal nade giordvm med ockur vm̀ tollveret ȷ midhlid og vm̀ skogarhoggit ȷ hans skoga at fra skildre breɴeskridu vil eg giarna loglegann hallda ȷ allaɴ mata suo og medkeɴumzt eg at þat sama tilkall sem eg hefe haft til drapskeria hefe eg gefet sancte nichulase til euenlegrar eignar svo og aull þav peningaskipte sma og stor sem ockar foru ȷ mille gef eg aullungis kuitt og akærulaus fyrir mier og ollvm minum erfingium og epterkomendvm. Ok til sannenda hier vm̀ setta eg mitt ȷnsigle fyrir þetta kuittunarbref skrifad ȷ haga æ bardastrond manudageɴ næsta fyrir mariv messv a ȷolafostu. þa er lidit var fra hingadburd vors herra ȷhesv christi þusund fimm hvndrut tvttugu og fiogur ær.

---

224. 5. December 1524. í Haga.

Vitnisburðr, að Helga húsfreyja Þorleifsdóttir og Helgi bóndi Gíslason lofa að halda gjörning þann, sem þeir bræðr Helgi og Eyjólfr Gíslasynir, gerðu um tollverið í Miðhlíð og annað fleira, svo sem bréfið hermir.

AM. Apogr. 1128, eftir frumritinu frá Haga. Arni lýsir innsiglinu.

Þat giorum vid eyiolfur prestur sigurdzson[1]) og þordur halldorsson godum monnum kunnigt med þessu ockrv opnv brefe. at þar vorum vid j hia savm og heyrdum æ ord og handaband þessara manna helgu husfreyiu þorleifsdottur af eiꝁe alfu og helga bonda gislasonar af aꝁare at þau skylldu hafa og hallda þann giorning stodugann og stadfastann sem þeir brædur hefde giort med sier. eyiolfur heiteꝁ gislason sem gud hans sal nade og adr greindur helge gislason um tollverit j midhlid og vm̃ skogarhoggit j hans skoga og hoggua at skadlausu og lia aungum. eꝁ ef svo kynne at verda jorden midhlid geinge vndan bornum helga gislasonar og sigridar andresdottur þa skyllde þesse giorningur ogiordur, atte þar at ganga teinæringur og þadan af miꝁe. tvo ef hann uillde og hafa elledvid j midhlidarskoge sem þarfadezt. Ok til sannenda hier vm̃ settum vid fyrr nefnder menn vor jnsigle fyrir þetta bref skrifad j haga æ bardastrond manvdagiꝁ næsta fyrir mariumessu æ jolafostu. þa er lidet var fra hingadburd vors herra jhesv christi þusund fim̃ hvndrvt tvttvgu og fiogur ær.

---

225. 1524. á Grund.
26. Marts 1530. á Eyvindará.

Margrét Þorvarðsdottir selr Birni Jónssyni til fullrar eignar jörðina Njarðvík í Borgarfirði austr fyrir jörðina Nes í Borgarfirði.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Norðrmúlasýsla Nr. 2, af-

1) Sigdurdzson, frbr.

skript staðfest á Skriðuklaustri 7. Marts 1704 af Hávarði Magnússyni og Sigurði Magnússyni.

Copie af jardaskiptabrefe Margretar Þor(v)ardsdőttur. systur Hőlmfrijdar Þorvardsdőttur konu Biørns Jőnssonar. er hun sellde Bijrne Jonssyne Niardvijk fÿrer Nes.

Þad giorum vier Þorsteirn Fim̃bogason. Benedikt Einarsson og Teitur Magnusson goodum mønnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. þá er lided var frá hijngadburde vorz Herra Jesu Christi ᴍdxx og fiőgur ár. á Grund j Eyafirde. vorum̃ vier hiáverande. ad Margret Þorvardzdőtter sellde jőrdena Niardvijk er liggur j Borgarfijrde Bijrne Jőnssyne med handsőlum̃ til fullrar Eignar og friálz forræðess med őllum̃ þeim gőgnum̃ og giædum̃ sem greindri jőrdu filger og filgt heffur ad fornu og nÿu. og nefnd Margriet var fremst Eigande ad ordeñ. Hier j moote gaf nefndur Biőrn jőrdena Nes er liggur j Borgarfijrde og j Mÿrarstadar kÿrkiusőkn. ad upplage og sampicke Hoolmfrijdar konu sinnar. med øllum̃ þeim gőgnum og giædum̃ sem greindri jőrdu filger og filgt hefur ad fornu og nÿu. og þau hőfdu fremst eigande ad orded. skillde hvőrt fyrir sig hallda til laga sijnu kaupe á greindum̃ jőrdum̃. Enn þad svara lagarifftingum̃ sem med lőgum̃ á ad svara ef af kann ad ganga. Og til sanninda hier um̃ settum̃ vier fyrrskrifader menn vor jnnsigle fÿrer þetta jardarkaupz href. er skrifad var á Eivindará laugardagenn næstañ effter Annunciationem Sanctæ Mariæ. árum̃ effter gudz burd ᴍdxx og tiju.

---

226. [1524].

Ögmundr biskup í Skálholti lýsir því, að Jón bóndi Einarsson hafi boðið sig í hlýðni við heilaga kirkju um brot sín, lofi að halda dóm biskups um Ánastaðaarf (Nr. 177), og að koma til Alþingis með öll sín próf og gögn um þeirra ágreiningar.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfa-

bók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2770 „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM). „Immixtum variis literis scriptis 1524. itaqve verisimile est hasce et scriptas 1524“. (AM.) Bréf þetta sýnist vera ritað í Febrúar 1524 (Sbr. Nr. 177 og 197).

Um Anastada arf.

Vier broder Ogmund med guds nad et cetera.

giörum godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad Jon bonde Einarsson hefur komid fyrer oss. ok boded sig til hlydne vid gud. heilaga kirkiu ok oss. þad hann er brotligur. ok teked lausn þar uppá. Her med hefur hann lofad ad hallda þann dom sem vier hofum lated dæma um Anastada arf. ok skila ollu aptur vorum umbodzmanni i fardögum þad hann og hans kvinna hafa til sin teked. under hans svarinn Eid. þad vier fáum ecke sanna bivising til. Enn ad alþingi komi hann med oll sin prof og vitni til afsakanar. um allar adrar vorar akiærur. og giörest þá þar ad med godra manna tillogum ok alite endilegur vegur um allar ockar agreiningar. þvi bidium vier um goda menn i hans syslu ad vera hönum greider og godsamer epter gamalli veniu. uppá kongdomsins vegna.

Ok til sannninda et cetera.

---

227. [1524].

Dómr tveggja klerka og fjögurra leikmanna útnefndr af Ögmundi biskupi um ákæru biskups til Hákonar Björgólfssonar, að frá skutlazt hefði kirkjunnar kúgildi, þá er Hákon hafði umboð Lopts Eyjólfssonar yfir Indriðastöðum.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Øgmundar“. — AM. Apogr. 2759 „Ur brefabok biskups Ögmundar“ með hendi Árna. „Þetta bref stendur i bokinni medal brefa dateradra 1524. mun ä sama are daterad. iafnvel þo bokin sie vida confuse digesta“ (AM). — Þetta bréf sýnist seinna gert en Nr. 230.

Um Jndridastadi.

Ollum monnum et cetera senda Biörn Þorgilsson ok Snorri Hialmsson prestar Skalhollts biskupsdæmis. Jon

Hallsson. Jon Biörnsson. Torfe Biörnsson ok Jon Torfason leikmenn et cetera.

klagadi herra Biskup Øgmund til Hakonar Biörgolfssonar. ad þă hann hafde haft um̄bod Lopths Eyolfssonar yfer Jndridastödum hefde fargast eda fraskutlast kirkiunnar kugilldi þar. þvi ad svo profudu oc fyrer oss komnu. dæmdum vier adurskrifader Domsmenn Hakon skylldugañ ad sveria logligan bokareid fyrir biskupinum. edur hans umbodsmanni. ad hann hefde hverge fargad. golldid nie gefed edur avöxtu af teked af fyrsögdum kugilldum medan hann hafde um̄boded. Enn ef Hakon fiellist ă Eidnum. dæmdum vier hann sekan vid biskupinn. epter þvi sem heilagrar kirkiu lögmăl utvisar et cetera.

---

228. [1524].

Ögmundr biskup fær Dagstygg Helgasyni til fullrar eignar jörðina Kolsholt í Flóa fyrir jarðirnar Hárlaugsstaði og Hús í Holtum.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa-Bok Biskups Øgmundar". — AM. Apogr. 2762 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar". „Þetta bref stendur í Bokinni mille brefa dat. 1524. mun ä sama äre daterad. jafnvel þo bokin sie vijda confuse digesta". (AM.).

Um Kolshollt.

Vier broder Ogmund med guds nad et cetera.

medkennunst med þessu voru opnu brefe ad vier höfum feingid Dagstigg Helgasyni ȷaurdina Kolshollt sem liggur i Villingahollts kirkiusokn med öllum þeim gögnum og giædum sem greindri ȷaurdu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. ok vier urdum fremst eigande ad. Her i mot hefur hann feingid oss til fullrar eignar og frials forrædes Hærlaugstadi ok Hus. sem liggia i Kalfholltskirkiu sokn. med öllum þeim gognum oc giædum. sem þessum fyrrnefndum ȷaurdum fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. Skulu hverer fyrer sig. vier og Dagstiggur. afhenda jardirnar i fardög-

um i vor nu ad kemur. halda til laga og svara lagariftingum sem lög giora rad fyrer.

Ok til sanninda her um̄ et cetera.

---

229. [1524].

Ögmundr biskup í Skálholti úrskurðar þá Haldór og Magnús Magnússyni vera löglega dóttursyni Magnúsar Þórólfssonar, með þeim greinum, er bréfið hermir.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2763 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“. „Þetta bref stendur i bokinni mille brefa dat. 1524. mun ä sama are daterad. jafnvel þott bokin sie vida confuse digesta“ (AM.)

Um skilgetning og Arftoku.

Vier Broder Øgmund med guds nad et cetera.

ad vier hofum sied ok yferlesed bref med innsiglum godra manna. hver ad fullnadar sanninda vitne baru. ad Magnus Þorolfsson hefde veitt vidgaungu ok uppfæde Margretu dottur sinne. ok alldrei hefde (hann) heyrt annad talad. eda tvimæle ä leika. ad henne hefde norkurn tima feinginn[1]) verid annar fader enn greindur Magnus Þorolfsson. Nu af þvi ad kirkiunnar lögmal svo utvisar og skipar. ad fyrer heilagrar kirkiu vallde. skal skodast og dæmast. hversu hver er lögliga getinn et cetera. Þvi i guds nafne amen. segium vier med fullum domi og laga urskurde Halldor Magnusson dotturson adurskrifads Magnusar Þorolfssonar skilgetinn og lögliga til kominn allra arfa þeirra sem hönum hafa til fallid. edur kunna til ad falla epter almeneligu Erfdatali. og Landslaga bokin̄ innehelldur. Her med saum vier bref Magnusar Þorolfssonar med hans heilu og ősköddudu hanganda Innsigle. ad hann lysti Halldor og Magnus vera sina dottursyni. Rädum vier öllum lærdum og leikum ad hindra ecke nie motfalla skilgetning eda erfdatöku fyrr-

1) feingid, hdr.

nefnds Halldors her epter. hins annars megi þeir koma i storañ skada þar fyrer.

Og til sanninda et cetera.

---

230. [1524].

Ögmundr biskup í Skálholti fær Snæbirni Gíslasyni til fullrar eignar Arnarbæli og hálft Fjall í Ölvesi, fyrir jarðirnar Haukaberg og Rakstaði á Barðaströnd og Indriðastaði í Skorradal.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir hréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2764 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar". „Þetta bref stendur i bokinni mille brefa dat. 1524. mun ä sama are daterad. jafnvel þott bokiñ sie vida confuse digesta" (AM). Sbr. Nr. 227.

Um Arnarbæli.

Vier Broder Ogmund med guds nad et cetera.

ad vier hǫfum giǫrt soddan kaupskap vid Snæbiorn Gislason. ad vier hofum sellt og feingid honum Arnarbæli og halft Fiall sem liggur i Ølvese til fullrar eignar. med ǫllum þeim gǫgnum og giædum sem greindum jǫrdum fylger oc fylgt hefur ad fornu og nyu bæde til sios og lands. Her i mot hefur hann feingid oss til fullrar eignar þessar jarder Haukaberg oc Rakstadi. sem liggia ꝗ Bardastrǫnd i Haga kirkiu sokn ok Jndridastadi i Skoradal i Hvann€yrar kirkiusokn med ǫllum þeim gǫgnum og giædum̃ sem þessum fyrrsǫgdum jǫrdum fylger og fylgt hefur ad fornu og nýu bæde til sios og lands. Skal Snæbiǫrn svara lagariptingum ꝗ þessum jǫrdum sem hann fær oss. enn vier ꝗ þeim jǫrdum sem vier faum̃ hǫnum. enn hvor fyrer sig hallde sinu kaupe til laga et cetera.

---

231. 1524.

Reikningsgrein Jóns skálds Hallssonar um greiðslur nokkurra skulda Vigfúsar Erlendssonar.

AM. 191. 4to, bls. 14, bréfabók Jóns skálds Hallssonar rituð samtíða á skinn.

anno domini. ꝏ⁰ d. xx. iiij.

Jtem annat arit golldit petre skradara af þeirre skulldu sem hann atti hia uigfuse ellenssýne hundrad j fiskum og uadmalum. enn ep(t)er stendr. vj. tiger fiska og fyrir eina vindu er jon stullason tock uid.

Jtem hans vod vadmals þeim sem̄ atti fyrir ararnar.

Jtem clauuss jarmar viiij alner uadmals uoder[1]) uadmals og aptur skinnastak er hann hafde selt fusa.

Jtem joni brun .iij^c og xx.

Jtem joni mel .c. fiska af skulld fusa.

---

232. 1524.

Skrá um peninga á Hallormsstöðum í Skógum, þegar síra Einar Árnason afhenti, en Oddr Arason tók við.

Máldagabókin gamla í Biskupsskjalasafni, skr. 1601, bl. 143b og 148a.

Hallormstadir.

Anno domini ꝏ⁰. ð⁰. xx⁰. iiij.

Suo mycklir penijngar vtlucktir a hallorm̄stödum þa Sijra einar ärnason afeñte enn oddur arason (tok) med.

Jn prijmis viij kýr gilldar oc uiiij asaudar kugilldi gilld. jtem iij naut veturgomul j hundrad. jtem ij hestar oc ij hross.

[Jtem vij vppgiordar keraulld. Jtem ij katlar oc ein huarña[2]). jtem vj trediskar oc ij tinfot oc kanna. jtem iiij skälir. v spænir. viij skerdiskar. stockur oc kista bæde loklaus[3]). Þetta alt samañ var giortt fyrir .ij. huñdrud.

1) Nokkuð óvist. 2) [kemr inn seinna á bls. 143; 3) hér kemur inn klausan nýefnda.

Jtem brandreid var ad auk oc tialld tötur rifid j sundur. jtem sæng ærulaus. slitur var hun. oc ij hæginde furduveyk. [Þetta a kirkian jnnan sig[1]). [Jtem fimm alltarisbunijngar. iij liettir et cetera[2]). Jtem ij messuklæde alfær oc j hokull et cetera. vj. kluckur. x Bækur et cetera.

---

**233. 1524.**

Skrá um peninga með Háls stað í Hamarsfirði, þá er Eyjólfr Ólafsson afhenti, en síra Þorsteinn sonr hans tók við.

Máldagabók Biskupsskjalasafnsins hin gamla, skr. 1601, bl. 147a bl. 134b (lakari = b).

Vndir Hálse.

[anno domini ∞⁰ d⁰ xx⁰ iiij⁰.[3])

[Voru suo micklir penijngar lucktir med halz stad[4]) þa eyolfur [olafsson afenti enn Sijra þorsteinn sonur hans med tok[5]).

Jn prijmis v kyr [et cetera[6]). lx asaudar. 8 saudir tuæuetrir. [hestur tolf vetra. oc annar þrettan vetra. hross fullroskid. oc eirn fole tuævetur. ij hross ueturgomvl. aller fyrer[7]) iij^c. [hundrud j koplum[8]).

[Þetta jnnan gatta[9]). xxx skiolna keralld. oc[10]) annad xvj skiolur vont. [og eij mathellt[9]). vj.[11]) trog. vj vppgiordar kerauIld. vj.[12]) skalir vj[12]) spænir. [eirn strockur. jtem eitt tinfat. jtem ij raud fot oc iiij diskar adrir. jtem[13]) iij borddiskar et cetera [eirn dukur. et cetera. tint bråkud. jtem raud kanna. jtem stor munnlog beitsleigin. jtem v skiolna ketill oc x marka panna. jtem pundare oc vog. jtem sæng ælfær[14]). jtem iiij einhoglldvngar. jtem atta mei kur jarns. j sigd. jtem hardsteinn. jtem lxxx fiskar oc ij fiordungar smiors. jtem færærtt[14]) skip. jtem jnnan kirkiu ein messuklæde oc stakur hokull. jtem eirn kalekur et cetera. j klucka lijtil oc j bialla et cetera. jtem ij merkur vax et cetera[15]).

---

1) [vantar i á bls. 148; 2) [vantar i á bls. 143. 3) [sl. *b*. 4) [Anndres kirkia vnndir halse atte suo vordna penijnga *b*. 5) [þa eyolfsson (!) *b*. 6) [og *b*. 7) *b*; et cetera *a*. 8) [sl. *a*. 9) [b. v. *b*. 10) *b*; et cetera, *a*. 11) *b*; ij *a*. 12) iij, *b*. 13) [ij diskar. ein kanna *b*. 14) Svo *a*. 15) [einn tueggia skiolna ketill bættur. ein sigd og brijni. j hrijfa. j reidijnngur og ij einhoglldunngar *b*.

234. 1524.

Skrá um peninga með Þvottárstað, þá er Hafliði Jónsson afhenti, en síra Þórarinn Þorsteinsson tók við.

Máldagabók Biskupsskjalasafnsins hin gamla, skr. 1601, bl. 147 a—b.

Þuotta.

anno domini ꝏ. d. xx. iiij.

Voru suo mycklir penijngar lucktir med þuottárstad þä haflidi jonson afeñte enn Sijr(a) þorarinn þorsteinson med tok.

Jñ prijmis vj kýr og tuttugu ær oc iiij betur. jtem hundradzhestur oc fullroskid hross.

Jtem iij vppgiordarkeraulld. iij trog. j skiola oc j strockur voñdur oc iij skalir oc iij spænir oc diskar iij. jtem ij[1]) storker. bedur oc hægiñde.

Jtem jnnañ kirkiu ein messuklæde oc kalekur et cetera. iij kluckur oc ij biollur.

var stadurinn giordur fyrir xxc. enn kirkian fyrir xc.

Sor haflidi hier ad fullañ bokareid ad hann hefde ecki meiri penijñga med tekid nema minna være.

---

235. 1524.

Skrá um biskupstíundir og Rómatoll í nokkrum þingum í Austfjörðum.

Máldagabók Biskupsskjalasafnsins hin gamla, skr. 1601, bl. 148b.

Anno domini ꝏ (d) xx iiij war suo mikill penijñga vöxtur j modrudalz þijnguñ stod vppa lxc.

J kirkiubæiarþijñgum ij huñdrud huñdráda oc x tijgir betur.

J hofteigs þijñgum iij huñdrad oc viij tijgir.

J assþijñgum iijc huñdrada oc xvc huñdrud[2]) oc átta týir.

1) eða: vj. 2) Svo.

J skeggiastadar þijñgum xuiij[c] oc lx hæd vii[c] huñdrada oc vij tijir betur[1]).
Romatollur saman talin halft huñdrad þridia.

---

**236. 1524.**

Skrá um góz á Helgastöðum í Reykjadal, þá er síra Jón Finnbogason skildi við, en Þorsteinn Sturluson tók með.

Stockh. Isl. membr. 16. 4to bl. 1b með samtíða hendi.

[Anno domini] ϖ⁰. ð⁰. xx⁶. iiij. þetta var goz a helgastodum er sira jon finbogason [skild]i vid enn þosteinn sturlason tock med. v kugilldi oc eind[1]) hestur. ornamentvm kirkiunnar[2]).

---

**237. 3. Janúar 1525. í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti selr Gizuri Sighvatssyni alla jörðina Stóra-Botn í Hvalfirði fyrir jörðina Hallkelsstaði í Hvítársíðu.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2700 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“.

Um Botn ok Hallkelsstade.

Vier broder Øgmund med guds nad et cetera.

ad vier höfum giört soddan kaupskap vid Gissur Sigvatsson. höfum vier sellt hönum ȷaurdina alla StoraBotn er liggur i Hvalfirde i Saurbæar kirkiusokn. med öllum þeim gögnum oc giædum sem greindre ȷaurdu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. ok vier urdum fremst eigande ad. fyrer xx[c]. Her i mot hefur hann feingid oss til fullrar eignar ȷaurdina alla Hallkelstade er liggur i Hvitārsidu i Gilsbacka kirkiusokn med öllum þeim gögnum og giædum. sem greindre ȷordu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu.

1) Svo. 2) Meira hefir aldrei verið ritað,

ok hann vard fremst eigande ad fyrer .xx^c. og þar til tvo kugilldi. er þar standa med. Skal hann svara lagariptingum ä sagdre ȷaurdu. enn vier hallda til laga. ok svo skulum vier giðra fyrer þa er vier selldum.

Voru vitnismenn ad þessum vorum giorninge Siera Jon Hiedinsson Radzmann. ok Jon Magnusson. ok settu sin ȷnnsigli med voru ȷnnsigli upp ä þetta bref. skrifat i Skalhollti in octava Sancti Johannis Evangelista. anno Domini. M⁰. D⁰. xx⁰. v⁰.

---

238. **13. Janúar 1525. Í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti kvittar Helgu húsfreyju Guðnadóttur um reikningskap kirkjunnar í Klofa, á Leirubakka, í Marteinstungu og í Hjörsey.

Gamla máldagabókin í Biskupsskjalasafni, bl. 158b—159a, skr. 1601. — Landsb. 108. 4to bls. 467—68 (máldagasafn síra Jóns í Hitardal; fyllir skallana).

Vtskrift af Gömlu briefe.

Wier Brodir Øgmundur med Gudz nad Biskup j skalhollti Gi[orum] Godvm mönnum kunnigt med þessu voru opnu brefe at helga husfreyia Gudnadottir hefur Giort oss Reijkningskap af portiunne a þe[im] kirkium sem henni ber fyrir ad suara med þeim skilmala sem hier seigir.

Jn primis ȷnnstæda kirkiunnar j klofa. x. malnitukugilldi. hundrad j koplum oc ij^c j þarflegum peningum.

Jtem jnnstæda leirebacka[1]) kirkiu viij malnitukugilldi. hundrad j koplum. iij^c j þarfligum peningum.

Jtem med marteinz [tungu[2]) kirkiu xij kugilldi. hundrad j koplum. ij^c j þarflegum peningum.

Jtem med hierzeyar kirkiu xij kugilldi. hundrad j koplum. ij^c j þarfligum peningum.

Summa hefur greind helga husfreya lofad at hallda sijnar kirkiur hiedan j fra med heidri oc æru sem til ber oc henni er möguligt. Þui Giorum vier oc giefum firnefnda

1) Svo. 2) [vantar í bæði.

Helgu husfreyu oc hennar forelldra aulldungis kuitta oc akiærulausa vm firrsagdra kirkna Reikningskap oc portionem þann sem hingad til hefur fallit oc henni oc hennar forelldrum hefur borit ad suara fyrir oss oc oll[um vorum] eptirkomendum heilagrar kirkiu formonnum. Oc til [sanninda hier] vm setium vier [vort] jnnsigli fyrir þetta bref skrifad j [Skal]hollte vltima die octauarum epiphanie dominj. Anno domini millesimo quingentesimo vicecimo quinto.

Þetta firrskrifad bref med hangandi jnsigle var j Herzeÿ Anno 16. .[1]).

---

239. 13. Marts 1525. í Hamborg.

TRANSSKRIPTARBRÉF.

Landsbókasafn 61. 8vo, stafrétt afskript eptir frumritinu gerð fyrir Árna Magnússon. „Tvö jnnsigle hafa vered under brefenu. sem nu eru i burtu“ (AM.). Frumritið fékk Árni frá Oddi lögmanni Sigurðssyni.

[Hér kemr:

1. Erkibiskupsdómr í Björgvin 9. Aug 1524 milli síra Jóns Arasonar og síra Jóns Einarssonar, vegna Ögmundar biskups, Nr. 202.
2. Vígslubréf Ólafs erkibiskups handa Jóni biskupi Arasyni dagsett í Björgvin 7. Sept. 1524. Nr. 212].

Þath medkennunzt vier Broder helgi aboti ath þingeyrum og olafur prestur hialltason at wier höfum sied og yferlesit eitt latinu bref med heilu og hölldnu jnnscigli virduligs herra. herra Olafs med gudz nád Erchibiskups j þrandheime og pavaligx sætis legatus þuilikañ skilning jnne halldandi med öllum greinum sem hier fyrrskrifat stendr. So og höfum sied og yferlesit eitt domsbref med þriggia biskupa jnnsciglum og siau signetum kanunkanna af þrandheime so hlydandi ord epter ord sem hier j fyrstu skrifat stár. Og til sanninda hier vm settum vier vor jnscigle fyrir þetta transkriptarbref skrifat j hamborg manudaginn næstañ fyrir goda gudmundar dag are sidar enn fyrr seiger.

---

1) Ártalið hefir aldrei verið skrifað út, heldr að eins „16“.

240. 12. Júní 1525. á Leirá.

Dómr sex manna út nefndr af Jóni bónda Þórðarsyni kongs umboðsmanni millum Hvítár í Borgarfirði og Botnsár um gjafir þær og peninga, er Lýtingr Einarsson beiddist dóms á, og Oddi heitnum Einarssyni bróður hans höfðu gefizt til giptingar.

Bisk. Skalh. Fasc XIX, 59, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum var eitt ólæst fyrir um daga Árna Magnússonar. — AM Apogr. 2401 „accuratissimé, etiam qvod ad mendas".

Domsbref a millum brædranna lytings einarssonar og Odds.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda hakon biorgolfsson. runolfur hoskullson. andres onunzson. eyolfur oddzson. þordur jonsson og Brandur Gudmunsson kuediu gudz og sina kunnigt giorande þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christe. ꝏ. d. xx.[1]) og fim ar. a leiraa j leirarsueit a þingstad rettum manudagin næsta fyrir dyradag um sumarit. uorum uier j dom nefnder af ærligum dandemanne jone bonda þordarsyni kongs umbodzmanne j millum huitar j borgarfirde og bodzar. at skoda og fullnadardom a at leigga[2]) um þær giafer og peninga sem leytingr[2]) einarsson beidizt þar doms a. ad odde heitnum einarsyni brodur sinum hefde uerit gefner til giptingar. en þeir peningar uoru alldre golldner a medan oddur heitin lifde. kom lytingr einarson þar fram med bref þeirra manna sem peningana gafu opp(t)nefndum odde heitnum j hueriu þeir medkennazt sinar giafer og settu sin jnnsigle þar fyrir. þui dæmdum uier fyrnef(n)der domsmenn med fullu doms atkuæde þetta sama giafabref fullmyndugt og laugligt j allan mat(a) og optt nefndan leyting[2]) rettiliga heimte mega þessa peninga af þeim sem þa hallda. vttan jon þorgilsson suerie fullan bokareid j moti þessu sinu brefi

1) „Arataled er so skrifad i Originalnum ad i linunne er ritað ꝏ. *d. z. fim.* enn *xx.* standa ä spatiunne, og er hier innbodad med gamla blekinu sem ä brefenu er, hoc modo: ꝏ d X z fim. X x x X. Synest i fyrsta alite sä sidare krossenn vera *x.* enn þad er eigi. þvi hann er ödruvis formeradur enn þau *xx.* og ä ad visu ad vera innbodunarmerke, eins og sa fyrre enn ecki ad lesast fyrer *x.* Er so ärstaled *xx.* enn ecki *xxx*". (AM.). 2) Svo,

og innsigle at hann hafi alldre þennan giorning giort. samþyckti þennan uorn dom med oss fyr nefndur jon þordarson kongs umbodzman og setti sitt jnsiglle med uorum fyrnefndra domsmanna jnsiglum fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad deigi og are sem fyr seiger.

---

**241. 30. Júní 1525. á Þingvelli.**

Veitingabréf Jóns biskups Arasonar fyrir Skagafjarðarsýslu útgefið af Jóhanni hirðstjóra Pétrssyni.

MSteph. 27. 4to bl. 25–26, Svartskinna, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar, c. 1730, eptir transskripti frá 1625: „Uier effterskrifader menn (sem) hier under skrifum vor nofn (hvor) med sinne eigennhende medkennum ad uier hofum sied og skodad so latande hofudsmans bref i Jslendsku. sem hier firir framann stendur ord effter ord skrifad a pappijr med under þricktu signete effter huoriu herra Oddur Einarsson biskup i Skalhollte let skrifa 20 Augusti Anno 1625.
Hier hafa under skrifad biskupenn Oddur Einarsson med eiginn h(ende)
skolameistarinn Jon Gissursson med e. h.
kirkiupresturinn Vigfus Jllugason m. e. h.“ — Meðal Apogr. AM. 3705 er alveg samskonar afskript „Epter hende sira Jons Erlendzsonar i Villingahollte“ (leiðrétt hér eptir því, þótt stafsetningin sé frá 27. 4to). Bréfið er prentað í Sýslumannaæfum I, 331–332, eptir afskript af þessu transskripti, en hleypr þó yfir kafla i miðju bréfinu.

Veitingarbref hofudsmansins firir Skagafiardarsyslu sem veitt var biskup Jone Arasyne Anno M°. D.° xx.° v.°

Eg Johan Petursson hirdstiore og hofudsman yfer allt Jsland geri godum monnum uiturlegt med þessu minu opnu brefe. ad eg hefe unt og veitt verdugum faudur med gude biskup Jone Arasyne ä Holum mins herra kongsins syslu og umbod [hallda og hafa[1]) j millum Ulfsdalafialla og Hrauns ä Skaga med sköttum og skylldum. rekum og renningum. huolum og hafrekstrnm og med öllum þeim retti og rentu. sem kongdomenum og mier til heyrer. og ej er ädur loglegur sattmäle[2]) ä komenn. skal hans näd oll mäl smærre

1) [3705; sl. 27. 2) 3705; skilmäle 27.

sekta og sækia. semia og nidur setia. firir sig stefna. prof ǻ taka. dom yfer nefna edur nefna lǻta. þar sem þess þarf med og hanz skyllda tilber.

skal hans nad mins herra kongsens[1]) vijseyrer samañ taca edur taca lata j greindu takmarke. bæde fornañ og nyañ. og mier þar riettann ʀejkningskap af standa og giora. ad afluktum[2]) nefndarmonnum sin þingfararkaup.

[skal hans nǻd eignast oll sex marka mǻl og þar firir jnnañ. sier til liettis fyrir sitt starf. enn ef stærre mǻl kunna til ad falla. sem gud lǻte færre enn fleiri. þa skal þaug sækia under kongdomenn og mig[3]).

skal hans nǻd fulla magt og valld til hafa þeim monnum dag ad gefa. sem j vandrædi kunnu ad falla edur falled hafa. edur adrar utlegder. og þar med semiu og sattmǻla og fulla kuittan ǻ gera med godra manna rǻde sem eg siǻlfur. sierdeiliss þeim sem a kirkiunnar nǻder komast.

So og skal hans nǻd fullt valld til hafa ad stefna þeim monnum aptur j sina syslu eda þa(r) sem þeir hafa brotleger orded. ef þeir hlaupast i adrar sueiter.

Bidur eg um alla goda menn og sierlega mins herra kongsins og mina vine. ad þier sieud firrnefndum [verdug fader[4]) biskup Joni greider og goduiliuger i huoriu hellst hann kann med þurfa. og lǻted vel og reidelega at[5]) komast þann goduilia sem þier uilied hans nǻd gert hafa.

Skal og firrnefndur biskup Jon fullt valld til hafa audrum manni umbod ad gefa. log og ʀett ǻ ad gera j ǻdurgreindre Skagafiardarsyslu[6]) ǫllu jafnfullu sem fullmektugur syslumadur ǻ ad gera.

Byd eg fornefndum verdug fodur biskup Jone edur hans umbodzmonnum. ad þeir tale log og rett til huors mans og þo med vægd og miskunn. þar sem þad til heyrer. enn þrioskum og þralyndum sie hann edur hans umbodzmenn rettur domare og refsingasamur.

[[Og til sannenda hier um [set ek mitt innsigle fyrer

1) vegna, b. v. Sýsl. 2) afluklu, Sýsl. 3) [sl. Sýsl. 4) [3705; faudur 27. 5) *leiðr;* af, hdrr. 6) að, b. v. Sýsl.

þetta bref er[1]) skrifad var ä[2]) þingvelle laugardagin næstan[3]) epter Petursmesso og Päls Anno domini M.⁰ D.⁰ xxv.⁰

---

242. 1. Júlí 1525. á Öxarárþingi.

Dómr sex manna út nefndr af vel bornum manni jungkæra Erlendi Þorvarðssyni lögmanni sunnan og austan á Íslandi um ákæru Pétrs Loptssonar til Eyjólfs Einarssonar vegna Sigríðar Þorsteinsdóttur konu sinnar um þann arf, er fallið hafði eptir Ragnheiði heitna Eiríksdóttur.

AM. Fasc. XLVI. 20, transskript á skinni frá 30. Aug 1525.

Domur vppa .xlc. hia eyolffe Einarssyni.

Ollvm monnum sem þetta bref sia edur heyra Sendum uær ȷon eireksson. ȷon helgason. Steinn Þorgeirsson. skulthomasson. gudmundur gudmundzson. og Biorn arnorsson kuediu gudz og sina kunnigt giorandi arum epter gudz burd .ɱ. d. xx og fim äar æ faustudaginn næsta epter peturs messo og pæls[4]) æ almenneligv auxarærþingi vorum vær til doms nefnder af uel bornum manni jungkæra erlindi þoruardzsyni logmanni sunnan og austan æ ȷslandi ath skoda og ıansaka og innuirdiliga dom æ ath legia vm þa akærv er petur loptzson kærdi til eÿolfs einarssonar vegna sigridar þorsteinsdottur kvinnu sinnar vm þann arf er fallit hafdi epter ragneidi heitna eirekzdottur modur sina. kom þar fram bref med dandi manna ȷnsiglum huert ȷnne hiellt hennar mäala ath hæd reiknadizt þat lxc sem æ hennar part kæmi. hafdi fÿr nefndur petur þangat stefnt adur greindum eyolfi. kom hann þar ecki og eingi hans vmbodzmann. var stefnan suaren af tueimur skialligum monnum. þui dæmdum uær stefnuna logliga og eyolf riettiliga fyrir kalladan og sekan mork ȷ stefnufall og ath suo profudu mali dæmdum uær fÿr nefnder domsmenn opt nefndan petur skylldugan ath sveria bokareid[5]) og ij loglig vitni med honum at hann hefdi eigi meiri peninga vpp borit ne kuitta gefit og þann sama eid sőr hann

1) [3705; et cetera 27; [[et cetera, Sýsl. 2) 3705; sl. 27. 3) [3705; næsta dag 27; 4) þ. e. 30. Júni. 5) eid, tviskrifað.

Jtem ȷ annari grein dæmdum uær eyolf skylldugan at sveria eid innan manadar ath heyrdum dominvm at hann vissi ecki þessa skulld ȷ gardin og ath honum vnnvm dæmdum uær ath hann skylldi giallda xlc sinna uegna og brodur sins erlendz ȷ aullum peningum fvlluirtum med leigum enn ef hann fiellizt æ eidinum þa dæmdum uær hann skylldugan ath giallda med laga ævexte sidan heimt var. skylldi þessir peningar gialldazt ath næstum fardogum ath heyrdum dominum.

Samþyckti þenna vorn dom erlendur þoruardzson logmadur og setti sitt ȷnsigli med uorum ȷnsiglum fyrir þetta domsbref sskrifat ȷ sama stad ogære nott sidar enn fyr seigir.

---

**243. 6. Júlí 1525. á Þingvelli.**

Vitnisburðr tveggja presta, að Snæbjörn heitinn Gíslason hefði gert sitt testamentum og í því gefið jörðina Arnarbæli í Ölvesi í vald Ögmundar biskups, og beiddi biskup að taka að sér son sinn Gísla Snæbjarnarson.

Landsbókasafn 108. 4to bls. 537 með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal: „Effter rotinne Brefa Bok H(erra) Gisla Jonssonar".

Testamentisgiof Snæbiarnar Gislasonar á Arnarbæle.

So felldan vitnisburd beru vid Jon prestur Jonsson og Arne prestur Sigurdsson. ad i arnarbæle i ölvese vorum vid hia sáum og heyrdum á. ad Snæbiörn heitinn Gijslason giorde sitt Testamentum i sinn sıȷdasta tijma so látande ord fyrer ord. sem hier effter fylger.

J fyrstu gaf hann sig under vernd og vilia almáttugs guds. hier med taladi hann so. ad hann legde ȷördina Arnarbæle i valld Biskups Øgmundar til fullrar eignar og friáls forrædis. og alla sijna peninga þa sem af geinge hans löglegum skulldum. hier med beidde hann greindan Biskup audmiuklega ad sier ad taka sinn eigenn son Gisla Snæbiarn-

arson. og honum ad skicka þad sem hans nadarsamlegur vilie til være. þvi hann treysti honum þar best til allra manna.

Og til sanninda hier um þrickium vid ockar ȷnnsigle upp a þetta Bref skrifad á Þingvelle fimtudagin næsta efft-er Peturs messu og Páls Anno 1525.

---

**244. 18. Júlí 1525. á Þingeyri.**

Skiptabréf milli þeirra Guðrúnar Björnsdóttur og Solveigar Bjarnadóttur, dóttur hennar, á peningum þeim, sem Solveigu höfðu til erfða fallið eptir Bjarna Andrésson föður sinn.

AM. Fasc. XLVI, 21, frumrit á skinni Af 6 innsiglum eru 3 fyrir bréfinu. — AM. Fasc. XLVI, 22, transskript á skinni frá 20. Júlí 1525. — Landsbókasafn 115. 4to I, 301—302, með hendi síra Jóns í Hítardal c. 1720 (og afskript þar af í ÍBfél. 126. 4to). — Kriegers-safn 2. 4to bls. 325—229 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700 (eptir XLVI, 22).

Skiptabref ȷ millum Gudrunar biornsdottur og solueigar biarnadottur.

Þat giorum vier þorleifur ornolfsson. ȷon narfason. ȷon þorsteinsson. ketill þorsteinsson. ȷon þorlaksson. ȷon helgæson. godum monnum witurligt[1]) med þessu woro opnu brefi at vær medkennunzt. manudagin næstan fyrir torlaci episcopi[2]). arum epter gudz burd .ɱ. d. xx. og v. ær woro vær beidder og til kallader af ærligum monnum hans egertzsyne og hans kuinnu gudrunar[3]) Biornsdottur æ at lita og suñdr telia þæ peningæ sem gudrun biornsdotter atte og solueig [biarnar-dotter[4]). dotter hennar. og greindre solueigu hafdi til erfda fallit epter fodr sinn biarna heitin andresson. sem gud hans sal nadi. reikñadizt þetta med fyrsta. iiij. c. hundrada af beggia þeirræ parte. med fridum peningum og ofridum. var þat ȷardagozet[5]) suñdr reiknad ȷ. ij. stadi til retz helmingæ-skiptis. med adur greindum mædgum gudrunu og solueigu.

1) kunnigt XLVI, 22. 2) þ. e. 17. Júlí. 3) Svo bæði. 4) [sl. XLVI, 22. 5) — goz XLVI, 22.

var þar fyst ȷ annan stad reiknad. halfur lækur fyrir .xv. hundrud. stackur[1]) og lambavatn. tueimur hundrudum fatt ȷ attatige hundrada. kolzuik[2]) fiorum hundrudum og. xx. tungan ȷ hofn. xx. hundrud. vazdalur atian hundrud. hlijd .xvı. hundrud. fossa[3]) fiorum hundrudum og[4]) xx. ij hundrud ȷ hamre. hundrad ȷ audnum. reykiarvik[5]). atta hundrud. geygurin fiorum hundrudum. sunddalurin. vj. hundrud. halfur bær .x. hundrud. hella þriu hundrud. hier til. xiij. hundrud J lausagoze. komu þessi fyrr skrifud ȷardagoz æ part solueigar at rettum lagaskiptum.

Enn ȷ annan stad reiknazt ȷ partt optt skrifadrar gudrunar biornsdottur þau attatige hundrada ȷ ȷordum. sem hun hafdi ȷ sina heimanfylgiu. þar til ȷ fystu .xv. hundrud J læk atian hundrud. anolfstader[6]) fiorum hundrudum og .xx. rauzdalur. geirseyr[7]). xxx. hundrudum. fimtan hundrud J tungu ȷ talknafirde. finnbogastader. xvj. hundrudum. ȷngolfsfiordur. xij. hundrudum. eyr atta hundrudum. halfur bær. x. hundrudum. half hella .iij. hundrudum. hier til þrettan hundrud ȷ lausagoze.

Jtem ȷ annare grein beide þratt skrifut[8]) gudrun biornsdotter oss fyrr skrifada menn. at reikna og wr at telia sina fiordungsgiof ur peningum greindrar solueigar epter þui sem biarne heitinn andresson hafdi henni gefit vr ollum sinum peningum. epter þui sem þeirra kaupmalabref þar vm giortt vt uisær. Woro þar ȷ reiknadar þessar ȷarder. tunga ȷ hofn. vazdalur. reykiarvik. halfur bær og .iij. malnytu kugilldi.

[Og til saninda hier vm settum vier fyr nefnder menn vor ȷnsigle fyrir þetta skiptabref. skrifat a þingeyre ȷ dyrafirde æ sama are deige sijdar enn fyr seiger[9]).

---

1) XLVI, 22; 22; stack XLVI, 21. 2) kollzvıȷk XLVI, 22. 3) fossaa XLVI, 22. 4) b. v. XLVI, 22. 5) XLVI, 22; reykiavik XLVI, 21. 6) anoddzstader XLVI, 22. 7) gesseyre XLVI, 22. 8) nefnd XLVI, 22. 9) [sl. XLVI, 22.

245. 20. Júlí 1525. á Þingeyri.

TRANSSKRIPT.

AM. Fasc. XLVI. 22, frumtransskriptið á skinni, og eru bæði innsiglin dottin frá. — Krigerssafn 2. 4to bls. 225 og 229 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Skiptabref ȷ millum Gudrunar biörnsdottur og Solueigar Dottur hennar. trañskrifftt þar vt af.

Þat medkennuzt wid ȷon ȷonson og olafur sigurdz(son) godum monnum kunnigt (giorandi) med þessu ockru opnu brefi. at uid hofum heyrt og sied yfer lesit so latanda bref og ord fyrir ord sem hier epter skrifat stendur med heilum og oskoddum hangandi innsiglum.

[Hér kemr skiptabréf milli Guðrúnar Björnsdóttur og Solveigar Bjarnadóttur frá 18. Júlí 1525, Nr. 244].

Og (til) sañinda hier vm setium vid ockr ȷnnsigle fyrir þetta transkriftarbref er skrifat var a Þingeyre þorlaksmesso dag a sama are sem fyr seiger.

---

246. 26. Júlí 1525. í Skálholti.

ÖGMUNDR biskup selr Teiti bónda Þorleifssyni Hvamm í Hvammssveit og aðrar fleiri jarðir fyrir norðan og vestan land fyrir Bjarnanes í Hornafirði med Bjarnanesseignum, ásamt fleirum jörðum í Austr-Skaptafellssýslu.

Bisk. Skalh. Fasc III, 5, frumrit á skinni. Af 6 innsiglum er nú 1 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2527.

[giorningsbref biskups ogmundar og teitz bonda[1])
[vm Biarnarnes og austurȷarder 1525[2]).

Vier broder Augmund med guds nad biskup j skalholti giorvm godum monnum kunnekt med þessv vorv optnv brefui at vier hofum giortt sodan kauppskap med teit boñda

1) [með hendi frá 16. öld. 2) [með hendi frá 17. öld, en ártal með hendi Árna Magnússonar.

þorleifsson sem hier seiger. upp á heilagrar skalhollzt kirkiu vecna[1]).

Jn primis hofum vier sellt honum til fvllrar eignar og frials forrædis jordina alla huam j huamssueit sextiger hundrudum at dýrleika. jtem jordina asgard .l. c. jtem magnusskoga og ketelsstadi huora vm sig fyrir .iiij. c. og. xx. halfa glerarskoga fyrir .xv. c. breidabolstad fyrir .iiij. c. og .xx. allar j huams kirkiv sokn uerandi. jtem blondubakka fyrir. xl. c. j hoskullsstadar kirkiu sokn. huam á vaztnese fyrir. xl. c. j tiarnarkirkiv (sokn). tungu j bitrv fyrir .iiij. c. og xx. er ligur j eýrar kirkiu sokn. fiardarhorn halft fyrir. xij. c. er ligur j prestbacká kirkiu sokn. állar þessar adurskrifadar jarder hueria um sig med aullum þeim gognvm og gædum. sem greindum jordum fýlger og fýlgt hefer at fornu og nýiu sem vier og heilvg skalhollzt kirkia hofum[2]) fremst eigandi at ordit. sem brief og giorningar þar um giorfer vtuisá.

Her j moti selldi oss teitur bondi þorleifsson jordina alla biarnarnes j hornáfirdi fyrir. lx. c.[3]) fiordur fyrir iiij. c. og xx. dalr. x. c. þinganes. xui. c. hafnarsnes[4]). xij. c. dilksnes .ui. c. krossbær. xx. c. hollt þriatiger .c. borg .xx. c. halft fell. xx. c. kvíjsker. ui. c. holmur. viij. c. kellduhollt. iiij. c. skeren. xij. c. halfer holar atta c. ʀeken fyrir vppsalá landi. iiij. c. allar þessar fýr skrifadar jarder med aullum þeim gognum og gædum sem greindum jordum fýlger og fýlgt hefer at fornu og nýiu so sem teitur bondi uard fremst eigandi ad. undan sier og sinum erfingium enn under herra augmund og heilaga skalhollzt kirkiu og hennar formenn. skilium vær þat til vm jordina huam j huamssueit at hun sie vndan vorri eign og heilagrar skalhollzt kirkiv. en til æfelegrar[1]) eignar teite bondá þorleifssýne og vnder hans erfingia og allar þessar fyrr skrifadar jarder. skýlldi og vera kuitt porzio[1]) kirkiunnar j huamme og allur ʀeikningsskapur. en teitur bondi skýlldi svara sialfur ʀeikningskap kirkiunnar j biarnarnese. epter moguligum heitum. áttu

---

1) Svo. 2) hm̄ (!) frbr. 3) Hér kemr eyða í frumritinu fyrir hér um bil 1/3 úr línu. Þar hefir eitthvað ofskrifazt í öndverðu og verið skafið út. 4) Svo.

bader at suarā laga ʀipttingum ā þeim ȷordum er huor fyrir sig selldi audrum ok somuleidis hallda til lagā. enn gāga domlaust aptur at siṅum eignum huor vm sig ef þat geingi af med ʀiettum laugum.

for þesse giorṅiṅgr fram med handābaṅdi ȷ biskupsstofunne ȷ skalhollti in crastino festum ȷakobbi apostoli.

uoru þesser giornings uottar til kallader og nær ueraṅdi. sera ȷon hedinsson ʀadsmadur ȷ́ skalhollti. ȷon biorṅson sýslumann ȷ ārnesþiṅgi. og ȷon boṅdi magnuss son. þorleifur gudmundzson. setto þeir siṅ ȷnnziglle med ockrum ȷnnziglum fyrir þetta kaupbref er skrifad uar ȷ samā stad og dag sem fýr seiger. ᴀʀum efter guds burd. ᴍ. u. c. xx og fim ār.

---

## 247. 3. August 1525. í Skálholti.

Ögmundr biskup fær Ásgrími Ásgrímssyni jörðina Hof í Öræfum til fullrar eignar og lofar að kenna Gunnlaugi syni Ásgríms til prests, en Ásgrímr fær biskupi það, sem hann og kona hans máttu fremst eiga í Stórahvoli og Miðhúsum. en jörðina Kvísker fær biskup Ásgrími og jörðina Breiðármörk með sex álna trjáreka, en Ásgrímr fær biskupi Fjörð og Svínhóla í Lóni.

Bisk. Skalh. Fasc. III, 16, frumrit á skinni. Öll (3) innsiglin eru nú dottin frá. — AM. Apogr. 2540.

Vier augmund med gudz nad biskup ȷ skalholti giorum godum monnum kunnigt med þessu voʀu opnu brefe at vier haufu giort sodan kaupskap vid asgrim asgrimsson at vier haufum feingit honum hof ȷ auræfum til frials forrædis og fullrar eignar. so og hofum vier lofat at lata læra gunnlaug son hans so hann megi vigiazt prestur med gudz myskunn. so framt sem þat er hans lagṅadur og vili þa hann er so til alldurs kominn. hier ȷ mot hefer hann feingit oss til fullrar eignar allan þann hluta sem hann og hans kuinna mattu fremzt med laugum eiga ȷ stora huole og midhusum epter fodur gudrunar og modur. So og eigi sidur hofum vier feingit asgrime ȷordina kuisker med ollv þui henni

til heyrer. hier med jordina breidarmork med .vj. alna triam og þar fyrir jnnað. Enn stærre haupp. tre edur huali eignazt skalhollzkirkia sem adr hefur verit.

hier j mot hefer hann feingit oss jardernar minna fiord og suinhola er liggia j stafhollz[1])kirkiu sokn til fullrar eignar og frials forrædis. skal huor ockar fyrir sig suara laga riptingum á þeim jordum er selldi en huor hallda til laga. þeim er keypti.

voru þesser giorningsvottar til kallader sira jon hiedinsson radzmadur. jon hallzson og jon þoruardzson.

Og til saninda hier vm setium vier fyrr greinder menn vor innsiglle fyrir þetta jardakaupsbref. er skrifat var j skalhollti jn translacione sancti olafi regis et martiris. anno. domino[2]). M. d. xx. v.

**Ad 247. 26. Júní 1584. á Svartbæli.**

Vitnisburðir um næsta bréf hér á undan.

Bisk. Skalh. Fasc. III, 16, frumrit læst saman við kaupbréf Ögmundar biskups og Ásgríms Ásgrímssonar frá 3. Aug. 1525.

Þat medkennunzt eg þorsteinn oddzson at þa lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi M. d. l. ij. at eg uar uid staddur æ hlidarenda j fliotzhlid. þa er þormodur jsleifson liet vpp lesa fyrir logmannenum Pale vigfussyne. þetta hid sama gamla jardar kaupbrief. huert hier er nu saman stungit med minu jncigli uid minn uitnisburd. uar þat þa med teimur jnnciglum. Suo oc hef ec sidan fyrst eg sa þetta sama jarda kaupbrief alldre heyrt tuimæli æ þui leika. at skálholltz domkirkia ætti ecki bædi trie oc huali epter þui sem þetta

Þat medkenunzt eg Eirekur jonson at þetta hid sama gamla jarda kaupbrief sem hier er nu samán stungit med minu jncigli uid minn uitnisburd. at nu fyrir fæum ærum uar þat med tueimur brakudum jnnciglum. oc nu um sumarit fyrir skomum tíjma er eg reid til alþingis. þa synda eg Herra Gisla jonssyne þetta sama jarda kaupbrief med slikum hætti sem eg nu fra seigi j timburstofunne j skalhollti morgum fromum manni nær uerandi. Og j þeirre somu ferd fyrir mina uangiætslu forgeingu med ollu þessi bædi jncigli fra þessu

1) Svo, frbr.; *rétt:* stafafellz. 2) Svo.

kaupbrief jnnehelldur. Og hier epter ma eg sveria ef þurfa þiker. Og til sanenda hier um set eg mitt jncigli fyrir þennañ minn uitnisburd. skrifadur æ suartbæli under eyiafiollum sietta oc tuttugasta dag junij anno 1584.

jarda kaupbriefi. Og hier epter ma eg sueria ef þurfa þikker. Og til sannenda hier um set ec mitt jnncigli fyrir þennañ minn uitnisburd skrifadur æ suartbæli under eyiafiollum. sietta oc tuttugasta dag junij. anno 1584.

---

**248.** **18. August 1525.** **Í Viðey.**

Prófentubréf Önnu Snjólfsdóttur, en hún geingr í prófentu í Viðeyjarklaustr.

AM. 238. 4to bl. 8, skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

Bref vm skravthola.

Vier broder ogmvndvr med gvdz nad biskvp j skalholti giorvm godvm monnvm kvnnigtt med þessv vorv opnv brefi at æ fostvdeiginn næsta epter assvmpcio sancte marie virginis Anno domini m d xx v sem vier vorvm j vorri visitatione j videý giordvm vier soddañ skilmala vid onnv sniolfsdotter med radi ok samþyckie vors kæra brodvrs herra hellga med samri nad abota j videý oc hans conventvbrædra at greind anna skýllde fa advr nefndv videýar klavstri xx$^{c}$ jordo skravthola sem liggvr ǘ kialarnesi j bravtarholtz kirkiv sokñ til æfinligrar eignar oc frials forrædis med þeim gognvm oc giædvm sem greindre jordv fýllger oc fýlgtt hefir at fornv oc nýiu bædi til sios oc landz. þar til skýllde hvn fa klavstrinv vj$^{c}$ j fridvm penningvm ok iiij$^{c}$ j ollvm þarfligvm penningvm. Hier j mot skýllde advr nefnd anna snioolfsdottir hafa æfinliga profentv oc framfæri ǘ klavstrinv j videý efter þvi sem gomvl profentv bref vtvisa oc inne hallda. lofadi abotinn at hvn skylldi fa arliga x alner vadmals oc halfmork j klædi oc leripti. skýrtv leriptt oc tvenn por sko. Hier med skýllde hvn hafa iij merkvr miolkur med feska miolk hvern dag oc svo konv sier til þionvstv svo leinge hvn kostadi hana sialf.

Og til sanninda hier vm settvm vier vortt insigle ok abotin klavstvrsins conventv insigle fyrir þetta bref skrifad j sama stad deige oc ari sem fÿr seiger.

---

249. 26. August 1525. á Eyjólfsstöðum.

Jón prestr Koðransson, prófastr og almennilegr dómari milli Gilsár í Skógum og Reyðarfjarðar, leysir Þorstein Þorvaldsson og Þuríði Hafliðadóttur af fyrstu barneign, og kvittar Þorstein um allar sex marka sektir, er hann kynni að hafa fallið í.

AM. Apogr. 4463, með hendi Árna Magnússonar „Ex originali Biörns Peturssonar ä Bustarfelli". „Sigillum abest. Þetta bref er ritad ä afskurdargeira ur gamalle lestrarbok. sköfnum innan til þar sem ä er skrifad. enn aptan ä brefenu er gamla skriften óskafen".

Þad giore ek Jon prestur Kodransson profastur og almenniligr domari æ millum gilsær i Skogum og Reydarfiardar. godum monnum kunnekt med þessu minu opnu brefi ad ek hefi afleyst Þostein Þorvalldzson og Þuridi Haflidadottur af þvi broti er þau urdu opinber ad um fyrstu[1]) barneign. hefi ek sett þeim tilheyreligar skripter og fulla fiesekt upp bored sem mier vel ænæger upp[a] heilagrar kirkiu uecna. þvi gef ek ædrgreinda menn Þostein og Þuridi aurlungis kvitt og ækærulaus fyrir mier og ollum minum epterkomendum og kirkiunnar formonnum i Skalhollte. og svo id sama gef ek Þostein Þorvalldzson orlungis kvittan og ækærulausan um ǫll sex marka mæl og þar fyrir innan sem hann hefur brottligr matt verda i minu umdæmi medan ek hefe profastur yfer honum verid. Ok til sanninda hier um setta ek mitt insigle fyrir þetta kvittunarbref skrifad æ Eyolfstǫdum æ vǫllum sunnudagin næsta fyrir augustinusmessu arum epter gudz burd ꟾꟾ. Dxx og v[2]) betur.

---

1) „hier er skalle. ä hvern alldri hefur skrifad vered þau .2. ord *barn eign* sem standa epter skallann. eru og raderud. so þau verda varla lesen. kannske eitthvad annad hafi att hier ad skrifast" (AM.).
2) „hier er og skalle. sem alldri hefur ä skrifad vered. Er hann stærre enn sambiode iij eda iiij" (AM.).

**250.** **29, August 1525.** **Í Bæ.**

Vitnisburðr, að Sigmundr heitinn Brandsson (lögmanns Jónssonar) hefði lýst því „í sinni dauðstíð“, að synir Jóns heitins Sigmundssonar, Sturli og Grímr, væri sínir löglegir erfingjar og eignarmenn eptir sinn dag að jörðunni Bæ í Súgandafirði, með öðru fleira, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XLVI, 23, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá — AM. Apogr. 815.

Vitnessburdur um bæ.

Svo felldan vitnisburd ber ec sira thomas olafsson at ec var hia sigmundi heitnum brandzsyne ȷ sinne dauds tid og ueitte honum allt kristilegt embætte þat sem kristňvm manne ber at hafa adur en hann for af heimenum. lyste hann þui fyrir mier og fleirvm odrvm at syner ȷons heitens sigmundzsonar stulle og grimur vęre siner logliger erfingiar og eignarmenn epter sinn dag at ȷordune bę er liggur ȷ sugandafirdi ȷ stadarkirkiu sokn. Suo og lyste fyr nefndur sigmundur þui fyrir mier at hann hefdi alldri gefit ȷordina bę halldore syne sıȷnvm framar enn hann feinge þa konv er hann sagdiz þa bidia skylldv. So og ætte halldor aungua peninga ȷ sinn gard. Suo og sagdizt þratt nefndur sigmundur hafa golldit .ij. kugilldi til alltamyrar vegna halldors sonar sins og eitt kugilldi gallt hann ȷone biornssyne dan med modur hans. og ath avke hefdi hann haft hana xij manadi til framfæris. Suo og sagdiz titt nefndur sigmundur hafa feingit þratt nefndum halldore hest og laugbok goda og sæmeligan duk. Enn hefdi halldor frekara giafabref vm iordina bæ en nv hefe ec sagt. þa hefer hann frekat þat at aungu minu forlagi og eigi neitt insigle fyrir þat gefit. Sagdiz hann suo vilia niota heilags sacramentis sem hann þa satt segdi. Og til sanninda hier um festa ec mitt insigle fyrir þetta uitnisburdarbref skrifat ȷ bæ j sugfirdi[1]) ȷ stadar kirkiv sokn decollacio ȷohannis baptiste anno domini ꝏ⁰ d⁰ xx⁰ v⁰.

---

1) Svo.

251. **29. August 1525. í Bæ í Súgandafirði.**

Ágrip af vitnisburði um það, að Jón Sigmundsson (Brandssonar lögmanns, Jónssonar) hafi fest sér til eiginkonu Sigríði Þórisdóttur.

AM. Apogr. 842 „Ex originali Sira Hannesar ä Snæfiöllum. Excerptum“ með hendi Árna Magnússonar.

Sera Thomas Olafsson segest hafa vered hia i kirkiunne á Stad i Sugandafirde. þa Jon Sigmundzson feste sier til eigenkonu Sigride Þorersdottur. helldust þau hion um fimm ar. svo ecki tvimæli liek a. var þar nær staddur sera Olafur Teizson er þa hiellt kirkiuna. hiellt hann hana fyrir festarkonu og leiddi hana med liose i kirkiu. Til sannenda hier um fester Sera Thomas sitt innsigle fyrir þetta *festingarbref* skrifad i Bæ i Sugandafirdi i Stadar kirkiusokn decollatio Johannis baptiste anno M°. D°. xx°. v°.

*Sigillum appendet.*

Sidarsta linan ä brefenu (ɔ: dies et annus) er raderud og skrifad i aptur, þo med coæva manu. so þar synest eckert fals under vera.

---

252. **30. August 1525. í Ytra Djúpadal.**

Transskriptarbréf.

AM. Fasc. XLVI, 20, frumtransskriptið á skinni. Annað innsiglið er fyrir.

Þath giorum vit Sæmundur simonarson og jon ionsson. Godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi ath vit haufum yfer lesit opit bref med heilum og oskauddum hangandi jnsiglum suo latanda ord epter ord sem hier epter skrifath stendur:

[Hér kemr alþingisdómr um mál Pétrs Loptssonar og Eyjólfs Einarssonar 1. Júlí 1525, Nr. 242].

Ogh til sannenda hier um setium vid fyr nefnder menn ockur ȷnsigli fyrir þetta transkriptarbref er skrifat uar ȷ ytra diupadal ȷ eyiafirdi midvikvdagin næstan fyrir egidiusmesso. Arum epter gudz burd m d xx og fim ǻr.

---

## 253. 1. Oktober 1525. á Hafrsá

Vitnisburðr, að Þorkell Erlendsson meðkendist, að hann hefði fyrir mörgum árum selt Þorvarði príor á Skriðu jörðina Seljamýri í Loðmundarfirði, og kvittar hann nú fyrir andvirðinu.

AM. Fasc. LXXIII, 15, frumrit á skinni; 1 innsigli og brot af öðru er fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2887, afskript gerð stafrétt eptir þessu frumriti, sem áðr var í safni Árna Fasc. XLVI, 24. Afskript af bréfi þessu er og í klaustraskjalabókinni í Landsskjalasafni og í AM 280, 4to, sem báðar eru með hendi Hákonar Ormssonar c. 1640.

Vm ȷordena seliamýre.[1])

Þat giorum vier Einar prestur arnason. oddur nupsson. arne gudmundsson. sueinn ormsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ǻ vade ȷ skriddal sunnudagen næsta efter michels Messo vorum vier ȷ hia saum og heyrdum ǻ ord og handaband þessara manna herra þorvardar prior(s) ǻ skridu og þorkels ellendssonar ad greindur þorkell medkendizt ȷ sinu handabande ad hann hefdi sellt fyrir mǫrgum arum prior þoruarde ȷordena seliamyre er liggur ȷ lódmundarfirde ȷ klifstadar kirkiu sóckn med ollum gǫgnum og gædum og honum hefdi til erfda fallit efter fǫdur sinn. hier med kuezt þorkell vpp hafa borit fulla og alla peninga fyrir greinda ȷord atta hundrut ad hæd sem herra prioren hafdi honum fyrir gefit ȷ ollum peningum. prioren skylldi hallda nefndri ȷǫrd til laga enn þorkell suara laga riptingum sem flest oll kaupbref vt visa en þat var þui ecki giort ad

1) Utan á bréfinu með fornri hendi. Þar stendr og með hendi frá 17. öld: „Skriduklausturshref austur i fliozdal".

kaupvottarner voru aller dauder sem hia hǒfdu verit þeirra kaupskap og villde prioren þui hafa hans medkenning. Og til sannenda hier vm settum vier vor ȷnsigle fyrr nefnder menn fyrir þetta vitnisburdarbref skrifat æ hafursǎ ȷ fliotzdalshierade sunnudagen næsta efter michelsmessu arum efter gudz burd. ꝏ. d. xx. og og v. áár.

---

254. **10. Oktober 1525.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna útnefndr af Ögmundi biskupi um kæru biskups til Guðmundar Jónssonar, að hann héldi fyrir sér tíu hundruðum í jörðunni Bryggjum í Landeyjum, sem Helgi heitinn Oddsson setti kirkjunni á Völlum á Landi til panta fyrir innstæðu.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Domur um .xc. ȷ Bryggium.

Øllum mǒnnum et cetera.

senda Jon Gutthormsson. Halldor Þorsteinsson. Salamon Henriksson prestar Skalhollts biskupsdæmis. Jon Magnusson. Jon Þorvardsson. Erlingur Gislason kvediu gudz og sina kunnugt giǒrandi ad sub anno gratiæ M°. D°. xx°. v°. þridiudagin næstan fyrer Calixtusmessu vorum vier i dom nefnder af virduligum herre i gude herra Ogmund med gudz nǎd biskup i Skalhollti ad skoda og ransaka og fullnadardom ǎ ad leggia um þad mǎl sem biskupinn klagade þar til Gudmundar Jonssonar. ad hann hiellde þau xc i jǒrdunni Bryggium er liggur i Krosskirkiu sokn. sem Helge heitinn Oddsson[1]) setti til fyrer ȷnnstædu kirkiunne ǎ Vollum ǎ Lande. þǎ er hann hafde ‚ardaskipte vid Magnus heitinn Magnus-

1) „Þesse Helge Oddsson mun vera sá er lǒgmadur var 149(3). og af hǒnum munu Storu Veller a Lande kallader vera *Lǒgmanns-veller*. Hann hefur haft jardaskipte ǎ Vollum og Krosse (sem synest) vid Magnus Magnusson. kañske son Magnusar Jonssonar. er drepinn var ǎ Krossi i Landeyum“. (AM.).

son. Medkendest biskupinn þar fyrer oss ad hann hefde sied og yferlesed opid bref med hangande jnnsigli biskup Stephanar heitins Jonssonar. gud hans sal nade. so latande ad hann medkendist ad hann hefde samþyckt allan þenna þeirra giörning um þad sem kirkiunne tilkom á Vóllum. Var greindur Gudmundur Jonsson þar stefndur af Biskupinum fyrer þetta mál. þvi ad heilags anda nad tilkalladre. ad so profudu. oc fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms atkvæde. stefnuna lögliga og greindan Gudmund Jonsson retteliga fyrerkalladan. og skylldugan ad leggia aptur kirkiunne á Vollum saugd xc i jördinni Bryggium. Enn af Erfingium Magnus heitins Magnussonar dæmdum vier einfalda landskylld epter þesse xc. á hveriu áre sidan Magnus heitin Magnusson bio ecke sialfur á Völlum. enn ádurnefndan Gudmund Jonsson dæmdum vier eiga laugliga heimtu ad erfingium Magnusar heitins Magnussonar um önnur xc. fyrer sagda jörd.

ok til sanninda et cetera.

---

**255. 13. Oktober 1525. á Svínavatni.**

Dómr sex manna útnefndr af Hrafni Brandssyni lögmanni fyrir norðan og vestan á Íslandi um það, hvert afl hafa skyldi sala á beit í Marðarnúpsland til Guðrúnarstaðamanna.

ÍBfél. 309. 8vo bl. 130, skr. c. 1620 með hendi Ara Magnússonar í Ögri (Öxnafellsbók).

Domur vm þa beit sem mardarnwpsmenn selldu burt j Mardarnwpsland Gudrunarstadamönnum.

Þat giorum vier Narfe Jngimundason. Halldor Jonsson. Þorarinn Jonsson. Laugrettumenn. Sygurdur brandsson. Jon Þorlaksson og Eirekur pietrzson (godum mönnum kunnigt) ad þæ lided var (fra) gudz burd 1520 og 5 ar a miduikudagenn næstann firir lucazmessu[1]) æ suijnavatnne æ asum

1) þ. e. 11. Okt.

a þijngstad riettum vorum vier j dom nefnder af Erligum manne Hrafne branndzsyne Laugmanne firir nordann og vestann a Jslande ad skoda oc rannsaka og fullnædar domz atkuæde a ad leggia huertt afl edr fullkomna magt hafa skyllde þat brief. er Gudmundur Jndridason kom þar fram med firir Laugmannenn og oss. vnder heylum og oskauddudum hanngannde jnnsiglum godra Manna suo hliodande ad Eygnnarmadur Mærdarnupz j vatzdal. sellde þeim sem atte gudrunarstade þar næsta framm fra. beijt j mardarnupz jaurd. allz fienadar. gudrunarstadamanna. nauta. kapla oc saudfiar. huar sem villde j Mardarnups jaurd. ad oskaudd-udum taudum og eijngium. Beijdde og krafde Gudmundr Jndridason hier domz a. oc saker þess. ad oss leyst briefid skiælegt j aullum sijnum greijnum. þa dæmdum vier jtakid laugligt j allann mata og þa slijku seka sem laugbok vottar sem fyrer stannda edur a burt reka. oc ey hyggia til goda giaura. Gudrunarstada peninga vr Mardarnupz jaurdu.

Samþyckt(i) þennann vornn dom med oss ædur nefndr Hrafnn laugmann og sette sitt jnnsigli med vorum jnnsiglum firir þetta domsbrief. er skrifad var j sama stad tueijm nottum sijdar enn fyr seyger.

---

**256. 2. November 1525. á Hólum.**

Jón biskup á Hólum selr Birni Björnssyni jörðina Gilhaga í Tungusveit með hálfkirkju skyld fyrir jörðina Tyrfingsstaði í Skagafirði.

AM. Fasc. XLVI, 25, frumrit á skinni. Af 3 innsiglum eru 2 fyrir bréfinu.

Kaup Bref vm gilhaga og tirfingsstade
j skagafijrde.

Þad giorum wier petur prestur palsson. gisle hakonarson. jon grimsson. benedict einarsson. Godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ath þá lidid war fra gudz burd. m. d. xx. og fim ar miduikudagin næstan fyrir

allra heilagra messu[1]) ȷ flatatungu ȷ skagafirdi worum wier ȷ hia saum og heýrdum ǫ́ ord og handaband þessara manna. wirduligs herra ȷons med gudz nǭd biskup(s) ǫ́ holum og biorns biornssonar. og suo fýrir skildu ath greindur werdugur herra selldi fyrr skrifudum birne biornssyni ȷordina gilhaga ȷ tungusueit ȷ guddala kirkiusokn fyrir. xxxc. med aullum þeim gognum og giædum sem greindri ȷordu fylger og fýlgt hefur ath fornu og nýiu. og hun[2]) hefur fremzt eigandi ath ordit. Sagdi biskupinn halfrar kirkiu skýlld ǫ́ ȷordunne. lofadi fýr nefndr biorn ath giora upp kirkiuna. Enn biskupinn feck honum widinn til ǫ́ domkirkiunnar rekum. hier ȷ mot gaf opt nefndr biorn biorsson[2]) ȷordina týrfingsstadi ȷ skagafirdi er liggur ȷ silfrastada kirkiv sokn fyrir. xxc. med aullum þeim gognum og giædum sem greindri ȷordu fylger og fýlgt hefur ath fornu og nýiu epter þui sem hann hafdi fremzt eigandi ath ordid epter logum og þar til iiij kugilldi og. ijc. ȷ gelldfie. og. iiijc. ȷ aullum þarfligum peningum. skýlldi huor suara lagariptingum ǫ́ sinne ȷordu. Enn sa hallda til laga sem hefdi ǭdr greindar ȷarder.

Ok til sannýnda hier wm settum wier fyrr skrifader menn wor incigle fyrir þetta ȷardakaups bref skrifad ǫ́ holum ȷ hialltadal fimtudaginn næstan̄ epter allra heilagra messo ǫ́ sama ǭre sem fýr seiger.

---

**257. 10. November 1525. í Reykjaholti.**

Dómr tveggja presta og fjögurra leikmanna út nefndr af síra Ólafi Gilssyni, prófasti og almennilegum dómara milli Gilsfjarðar og Hrutafjarðarár, um ákærur Ólafs prests til Jóns Dagstyggssonar fyrir það, að hann hefði sundrað samvistum Einars heitins Bjarnarsonar og Þórkötlu Arnadóttur, og lagt heiptugar hendr á Jón Dagstyggsson bróður sinn.

AM. Fasc. XXXVII, 26, frumrit á skinni. Öll (8) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 1505.

1) þ. e, 25. Okt. 2) Svo.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda jon ionsſſon. biorn þorgilsſſon. prestar. jon þordarſſon. þorgils olafsſſon. jon ionsſſon. gudmundur ellendsson. leickmenn[1]. kueidiu.[1]) guds og sína kunnigtt giorande. anno domini [.ꝏ. ꝏ.° v°. quinto[1]) fostudagen næsta fyrir marteinsmesso j reyckiaholltte. vorum vier j dom nefnder af ærligre personu sira olafi gilsſſyne er þa uar profastur og almenneligur domare j millum geirholms oc hrutafiardarar (at) skoda ransaka oc fullnadardom a ath leiggia[1]) um þa ækiæru sem greindur sira olafur gilsſſon klagade til jons dagstýgsſſonar ath hann hefde hamlat e(i)nare heitnum biarnarſſyne[1]) samuister uid þorkottlu arnadotter konu sina og sundrat samuister þeirra bæde med ordum oc uerckum. Jtem fyrir þa adra sock ath hann hefdi lagtt heiptugar hendur æ jon dagstýgsſſon brodur sinn upp a helgan dag og hann hefdi eicki[1]) halldet sitt laga brudlaup. uar stefnan suaren. þui dæmndum[1]) vier hana logliga oc mannen retteliga fyrir kalladan oc seckan morck j stefnufall. kom þar fram bref oc jnnsigle herra augmundar so latanda ath greindur[3]) sira olafur gilsſſon skylde meiga retteliga fyrir sick stefna heim j reýckiahollte og yfer dæma ollum þrigia marcka malum oc þadan af stærum sem j hans profastzdæme kann til falla. Ok ath heilagſſ anda nad til kalladre ath so profudu oc fyrir oss komnu dæmndum[1]) uier jone dagstýgsſſyne settareid ath hann hefde aldre hnýckt eda jarduarpat. sleigit eda dregit heilagt eda rumheilagt einar heiten biarnason[1]) oc af ongre hans tiluerkan orda edur giorda hefde hann þurft ath flýia samuist eda sambud uid þorkotlu konu sina. skýllde hann sueria fyrir profasti jnnan halfs manudar[1]) ath heýrdum domenum. skýlldi opptt nefndur sira olafur gilsſſon fa honum þria eidamenn. Enn ef hann fellr ath eidnum dæmndum[1]) uier hann j so hatt bann sem biskup leggur æ og skýlldugan ath tacka lausn af profasti oc seckan þrim morckum j þionustuteckiu. enn fyrir kirkiu inngongu seckan tolf aurum og sex aurum sem laug giora rad (fyrir).

---

1) Svo. 2) [Svo. Það mun eiga að merkja: millesimo quingentesimo vicesimo quinto. 3) hér hefir fyrst verið skrifað: „at hann greindur", og „greindur" síðan dregið út, en það á alt að falla úr.

Enn fyrir þat rusk og athuick sem hann ueitte jone brodur sinum dæmndum[1]) uier honum eiñeide. enn fyrir brudlavpsgiordena dæmndum[1]) uier hann seckan tolf aurum ef hann hefur loaugliga[1]) uered aa mintur. skýllde alltt sackfelle golldit ath næstum fardogum.

Samþýcktte þenan uorñ dom greindur sira olafur gilsſon og sette sitt jnnsigle med þessum fyrr skrifadra domnsmanna[1]) jnnsiglum fyrir þetta domnsbref[1]) skrifad j reyckiaholltte sama stad are og deigie sem fyrr seiger.

---

**258. 12. November 1525. í Haukadal.**
**13. Janúar 1530. á Stað á Ölduhrygg.**

Kaupmálabréf Jóns Torfasonar og Þórunnar Einarsdóttur.

AM. 254. 4to bl. 66a (dómabók Einars sýslumanns Hákonarsonar skrifuð um 1620).

Kaupmala Bref Jonz heitens Torfasonar og Þorunnar Einarsdotter ann 1525.

Þad giorum vier Einar Snorrason. Snorre Jonsson. prestar Skalholltz Biskupsdæmiz. Gijsle Gudmundzson og Jon Snorrason godum monnum kunnugtt med þessu voru opnu brefe ad sunnudægenn næstañ fyrer festum sancti Brijckij Episcopi et confessoris j Haukadal Anno Domini m d xxv foor so felldur kaupmale fram a braudkaupz[1]) deigie Jons Torfasonar og Þorunnar Einarzdotter so fyrer skıjldu ad Helga husfreyia Gudnadotter gaf Jone Torfasine syne sijnum so peninga til þeirra sem hann ædur atte ad hann skillde eiga hundrad hundrada og. xl. hundrud j jǫrdum og kugilldum og ǫdrum þarflegum peningum.

Hier j mot gaf s(iera) Þordur Einarsson Þorunne systur sinne peninga til þeirra sem hun atte adur so hun skyllde [eiga] lxxx^c. Þar var tilskiliñ jǫrdeñ Krossholt er liggur j Kolbeinstadahrepp fyrer. xxx. hundrud nema þau Jon og Þorunn villdu helldur hafa adra peninga j jǫrdum og ku-

1) Svo.

gilldum og ǫdrum godum peningum. gaf Jon Torfason Þorune konu sinne fiordungzgiǫf vr sijnum peningum. Kiðre (siera) Þordur Einarsson Þorune sistur sijna malakonu j gard Jonz Torfasonar. reiknadizt þa malenn med giðfenne hundrad hundrada.

Og til sannenda[1]) hier um setium vier firskrifadir menn vor innsigle fyrer þetta bref skrifad a Stad a ǫlldurhrigg infra octava Epiphaniæ[2]) anno domini m d xxx.

---

**259.** **2. December 1525.** **í Hvilft.**

Vitnisburðr, að Magnús Þorkelsson handfesti Jóni Jónssyni að sverja þá frændsemi, sem hann taldi millum Guðfinnu Indriðadóttur og Guðrúnar Þorgautsdóttur, og meðkendi Magnús, að hann hefði aldrei heyrt þeim lýst Jóni Jónssyni og nefndri Guðfinnu.

AM. Fasc. XLVI, 26, frumrit á skinni, og eru bæði innsiglin dottin frá.

So felldan uittnesburd bervm vid Bardur prestur peturssoñ og jon þorsteinsson ath vid vorum hia stadder ꝏ hofda j dyrafirde j myrakirkiu sockñ. ath magnus þorkelssoñ handfeste jone jonssyni ath sveria þꝏ frændseme sem hann talde j millum gudfinnv jndridadottur og gudrvnar þorgavtzdottur sem hans uittnesburdarbref vtvisar. Suo og eigi sidur medkendizt hann magnus ath hann hefdi alldri heyrtt þeim lyst jone jonssyni og gudfinnv jndridadottur og eingenn hefdi epter leitad vid sig af kirkivnar formonnum vm þa meinbuge sem ꝏ voru med þessum fyrrnefndum monnum jone jonssyni og gudfinnv jndridadottur. Og til sanninda hier vm̃ settum vid ockur jncigle fyrir þetta vitnesbvrdarbref skrifat æ hvilptth laugardagin næstan epter andreasmessv arum epter gudz burd þushund fim hundrut xx ar og fim.

---

1) sañnende (!), hdr. 2) Epiphnaniæ, hdr.

**260. 15. December 1525. á Staðarhóli.**

Kaupmálabréf Erlends lögmanns Þorvarðssonar og Þórunnar Sturludóttur.

AM. 238. 4to bl. 91, skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

Kavpmalabref Erlendz Þorvardzsonar og Þorunar stulladottur.

Jn nomine domini Amen.

Var svo felldur kaupmali lystur og stadfestur ꜳ brudkaupsdeigi. milli herra Erliñds Þoruardzsonar og hustru þorunar stulladottur. Jn primis gafu þau stulli bondi og gudlaug husfreyia þorunni dottur sinni ijc. hundrada. voro þar til skildar jardernar ballaræ. vigolfsstadir. og suiney sem liggia j skardz kirkiusokn. hrafnkelstadir og alftarbacka ꜳ myrum og backa ꜳ skagastraund. allar þessar fyrrsagdar jardir skylldi hun hafa fyrir ijc hundrada og þar til .xl. kugilldi. xxc. j silfri.

Hier j moti lagdi herra Erlindur .iiij.c hundruta. voro þar til skildar jardirnar strond j selvogi og nes med þeim jordum sem þar til liggia. og þartil. jc hundrata kugilldi og silfur. Jtem kiori stulli boñdi hustru þorunni dottur sina helmingakonu af þessum .vjc. hundrata. og þvi jatadi herra erliñdur. skylldi hvn og hennar erfingiar eignast .iijc. hundrata. huortt þeirra sem leingur lifdi af fyrskrifudum peningum. var þar til skilit af hans peningum þeim sem ad hann hafdi til kaups vid hana henni til eignar og hennar erfingium. Nes j selvogi .lxxxc og þar til .xl. kugillda. nema hun villdi sialf helldur hafa jardernar hlidarenda. breidabolstad og littllaland. allar fyrir lxxxxc og þar til .xxx. kugillda. Skylldi þessa fyrskrifada peninga hustru þorunn hafa j sinn helming ꜳtaululausa. huortt sem vegx eda þuerr peninga herra Erlindz og alla þa gripi sem hann gæfi henni fyrr edur sidar ad auki þessara peninga skyldi hun eiga fyrir vtañ fyrrsagdañ helming. Jtem ef henni fielli peningar til arfs. giallz edur giafar skylldi hun oc hennar erfingiar eignast ad auki fyrskrifadra peninga.

for allur þessi giorningur fram j stofunni vñdir stadarfelli

maurgum dandimonnum nærverandi. Voro þessir brudlaups vottar olafur gudmundsson. Pall olafsson. Halldor tyrfingsson. prestar. þorleifur palsson. petur loptsson. hakon biorgolfsson leikmenn. med maurgum audrum dandimonnum. Og til sannenda hier um festum uær fyrrskrifader menn vor jnnsigli fyrir þetta kauppmala bref. Skrifat á stadarholi j sarbæ laugardaginn næstan eptir translaucio[1]) magni martiris. Anno domini m. d. xx. v. ar.

---

261. 1525.

Ögmundr biskup gerir þann kaupskap með Krýsuvíkrkirkju og Viðeyjarlaustri, að klaustrið skal eignast þann part í Vatnsleysulandi, sem Krýsuvíkrkirkja hefir átt, en Helgi ábóti skal hér í mót greiða síra Guðmundi Steinssyni í Krýsuvík fjögur hundruð, er prestr eignist, en fái kirkjunni alfæran áttæring.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2774 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM.).

Um Krysuvik.

Vier Øgmund et cetera.

ad med ráde og samþycke vors kiæra brodurs sera Helga med samre nad abota i Videy. ok sera Gudmundar Steinssoar Beneficiatoris i Krysevik. hôfum vier giort svoddan kaupskap á millum klaustursins i Videy og kirkiunnar i Krysevik. ad abote Helge ok Videyarklaustur skal eignast allan þann part i Vatzleysulande med gôgnum oc giædum. bæde til sios og lands sem Krysuvikur kirkia vard fremst eigande ad med lôgum. Her i mot skal greindur abote Helge fa sera Gudmunde ok adurnefndre Krysuvikurkirkiu iiij. hundrud. hvur[1]) hann hefur utgolldid. so prestinum vel næger. skal greindur sera Gudmundur eignast þesse fyrrsaugd iiij. hundrud. enn fá optnefndre Krysuvijkur kirkiu alfæran attæring.

---

1) Svo.

Ok til sannenda her um et cetera Anno Domini. M.° D.° xxv°.

---

262. [1525].

Samningr Ögmundar biskups og Lazarusar bartskera, að Lazarus „skal græða og heila og um trúðt (búa) fyrir oss tíutigi menn af sárasótt, þá sem oss líkar, og fulla borgan hafa", með fleirum greinum, er bréfið hermir, en biskup fær honum jörðina Skáney í Reykholtsdal til fullrar eignar. en áskilr sér forkaupsrétt.

Landsbóksafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfaók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2773 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar" (AM.). — Ártalið „1525" er ritað í hornið með hendi Árna Magnússonar (Apogr. 2773)".

Um Skaney.

Vier Ogmund med gudz nád biskup i Skalhollti giörum godum mônnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad vier hôfum giört svoddan kaupskap og skilmála vid Lazarus Barskera. ad hann skal græda og heila oc um trudt (bua) fyrer oss tiutige menn af sárasott. þá sem oss lijkar. og fulla borgun hafa. Skal hann kaupa smyrslin sialfur til þad besta hann kann. Enn vier skulum bitala helftina fyrer þau. Her i mot hôfum vier feingid greindum Lazarus barskera til fullrar eignar og frials forrædis ȷordina alla Skáney er liggur i Reýkhollts kirkiu sokn med ôllum þeim gôgnum ok giædum sem greindre ȷordu fylger ok fylgt hefur ad fornu og nyu. ȷ suoddan máta. ad hann selie oss fyrstum aptur fyrr nefnda ȷaurd. ef hann vill selia hana. Svo og hefur Lazarus lofad ad vera vor mann og heilagrar Skalhollts kirkiu. svo leingi sem haun er hier i landet. Voru þesser giôrningsvottar tilkallader. Sera Jon Radzmann ok Sera Erekur Jonsson kirkiuprestur.

Ok til sanninda her um et cetera.

---

263. [1525].

Bréf Ögmundar biskups í Skálholti til allra manna í Vestfirðingafjórðungi, þar sem hann lýsir Teit bónda Þorleifsson sinn mann og heilagrar Skálholtskirkju, og tekr hann og hans góz í vernd, frið og forsvar.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. „Brefed i Bokinne. sem næst er fyrer framan þetta er daterad 1539. enn þau sem epter þad fylgia. eru daterud 1525. og sidan koma bref daterud 1526—27. annars er bokin vida confuse samantekin. Þo væri likast til ad geta. ad þetta Teitsbref munde daterad 1525. j sama sinn sem Teitur og Øgmundur keyptust vid um Hvamm og Biarnarnes. ef hier ecke stæde um satt giörda vid Teit sem likast er meinist sattargiörd su er um vored 1526 framfor mille biskups Jons og Teits. þä Teitur feck Joni Vijdivelli og Kalmans Tungu. So kynni þä brefed daterad vera 1527. i sama sinn sem Ogmundur biskup afhendte Teiti Hvam um vored. nockrum tima epter Seiludominn geinginn af Hrafne Brandzsyni, og þetta synist bid likasta til ad geta. — Ecki er þad su sattargiörd sem hier meinast. þvi Ogmundur segest vid sättina vered hafa. enn ecke kom hann nærri þeirri er giördist 1526. adhuc itaqve incertus est annus harum literarum“ (AM.). Upp í horninu er fyrst skrifað ártalið 1527, en síðan er yfir því ritað ártalið 1525 svo sem réttara.

Um Teit Bonda Þorleifsson.

Vier Ogmund med gudz nad biskup i Skalhollti heilsum ǫllum godum mǫnnum þeim sem byggia og bua i Vestfirdinga fiordungi lærdum og leikum kiærlega med guds kvediu og vorre.

Kunngiǫrum vier ydur kiære(r) viner ad Teitur bondi Þorleifsson er vor mann og heilagrar Skalholltskirkiu. þar fyrer hofum vier nu teked hann oc hans gots fast oc laust under vora vernd frid oc forsvar til rietts lǫgmals i allan mäta vors nädugasta herra konungs rette oc kirkiunnar oforkreinktum. fyrerbiodandi ǫllum og sierhverium ad bigirna vid hann hier epter nockurn uppsteytt. forfang edur olaug. ok einkanliga þeim sem opinbera satt hafa giǫrt vid hann oss ok ǫdrum godum monnum nærverundum. bidium vier ydur alla kiærlega Gudz vine og vora at styrkia og hiälpa fyrrskrifudum Teiti bonda svo hann verde ei af lǫgum bor-

inn. þar þier kunnid med ad komast. Væntum vier til hans ok bidium kiærliga ad bigirna vid ôngvañ mann fyrr nock urn oriett. Enn hallde sinu ok svare Reikningsskap sinna kyrkna laugligum umbodzmanne heilagrar Holakirkiu.

Ok til sanninda et cetera.

---

**264.** **1525.**

Skrá um biskupstíundir í nokkrum þingum í Austfirðingafjórðungi.

Máldaga-bókin gamla í Biskupsskjalasafni, skr. 1601, bl. 148a.

Tijunndar reiknnijnngur,

Anno domini ꝏ° ð xx° v° war suo mikill penijnga voxtur j maudrudalz þijnngumm iijc oc lx.

J kirkiu bæiar þijnngumm ij hunndrada[1]) oc x týir betur.

J hofteigs þijnngumm ij hunndrud oc ättatýer.

J asþijnngumm iijc hunndrada oc xuc lxxx[1]).

J skiggiastada[1]) þiinngum. xiiij. hundrud oc lx. enn vijc hunndrada oc xiiij betur. enn golldnnar eru summa. xiij vodir oc xvj alnnir.

---

**265.** **1525.**

Skrá um Rómatoll í nokkrum þingum í Austfirðingafjórðungi.

Máldagabókin gamla í Biskupsskjalasafni, skr. 1601, bl. 148 a—b.

anno domini ꝏ.° ð. xx. v.°

Fell suo margur roma skattur.

j kirkiubæiar þijnngumm vj. naglar oc x týir.

J assþijnngum xv oc ätta týer.

J hofteigs þijnngumm xiij naglar oc 40.

J Skeggiastadarþijnngumm 3 naglar. samann talner 14 naglar og fiorutygir ä þridia hunndradi.

---

1) Svo.

266—278. 1525.

Elzti hlutinn af *Sigurðarregistri*, sem hefir inni að halda máldaga Hóladómkirkju, þegar Jón biskup Arason tók við, máldaga klaustranna og nokkurra kirkna fyrir norðan land.

Eptir frumritinu af *Sigurðarregistri*, í Biskupsskjalasafninu í Reykjavík, og er það ritað á skinn. Er það alt frá grundvelli ritað með hendi síra Sigurðar Jónssonar á Grenjaðarstað (d. 1595) sonar Jóns biskups Arasonar, og við hann er bókin kend; er þessi elzti kafli frá 1525 á 1.—5. og 14.—28. bl. skinnbókarinnar. Næsti kafli bókarinnar (bl. 6—13) er skrá um eignir Hóladómkirkju og Hólastóls frá 1550 eptir lát Jóns biskups Arasonar. Þriðji kaflinn er skrá um eignir Hólastóls og máldagar kirkna nyrðra 1569—1571 eptir fráfall Ólafs biskups Hjaltasonar og svo þegar Guðbrandr biskup tók við (bl. 13 a—b, 29—43). Að lyktum er ritaðr á 25. bl. skinnbókarinnar máldagi Víðidalstungukirkju frá 1590 með hendi Guðbrands biskups, sem víða hefir ritað smáklausur í bókina. Efnisyfirlit það, sem er framan við bókina og hér er prentað, er ritað samtíða því, sem elzt er í henni. Afskriptir af Sigurðarregistri hafa aldrei verið margar til. Ein er í safni Árna Magnússonar 269. 4to með hendi síra Snorra Jónssonar á Helgafelli, gerð kringum 1710—1711, og við höndina hefi eg haft afskript með hendi Jóns rektors Þorkelssonar (d. 1904). Við máldagana hefi eg sett hér rómverska tölu áfram haldandi, svo sem gert hefir verið áðr hér í safni þessu í útgáfum hinna eldri máldagabóka.

bonum principium habet bonum finem.

J nafne fodur og sonar og anda heilags. Vpp byriazt hier og epter fylger registrum heilagrar hola domkirkiu ȷ islande og allra klaustra og soknarkirkna ȷ hola biskupsdæmi. So samsett sem þesse rubrica til visar.

Fyrst ȷ bokinne registrum sialfrar domkirkiunnar a holum.

Munkaþuerárklaustur.

Þingeyraklaustur.

modruvalla klaustur.

Reynes stadar klaustur.

Greniastadur[1]) beneficium.

Breidabolstadur ȷ vesturhopi. beneficium.

Melstadur beneficium.

Mulastadur beneficium.

Saurbæiarstadur beneficium.

1) Svo.

Laufasstadur beneficium.
Hrafnagilsstadur beneficium.
Wallastadur beneficium.
Mælifellzstadur beneficium.
Myklabæiarstadur ȷ blonduhlid. beneficium.
Hauskolldzstader beneficium.
Stadaıbacki beneficium.

Grimstungur beneficium.
Bard ȷ fliotum beneficium.
Nupufell beneficium.
Hals ȷ fnioskadal beneficium.
Skinnastadur beneficium.
Husavikur stadur beneficium.
Saudanes stadur beneficium.
Sualbard beneficium.
Prestholar beneficium
Gardur beneficium.
Nes ȷ adaldal beneficium.
Helgastadur beneficium.
Stadur ȷ kinn beneficium.
Hofda stadur halfur beneficium.
Þonglabacki beneficium.
Glæsibær beneficium.
Askogur beneficium.
Wpsastadur beneficium.
Tiarnarstadur beneficium.
Kuiabeckur beneficium.
Fellstadur beneficium.

---

I ÞANN TIMA sem lidith var fra hingad burd vors herra ȷehsu kristi þushund. fimm hundrud. tuttugu og fimm ár. Medtok biskup ȷon arason domkirkiuna á holum. med biskuplegre stiorn. og á sama áre liet hann skoda og saman reikna med skialigra og skiluisra. manna ýfersýn. alla hola domkirkiu peñinga. og so allra annarra kirkna ȷ hola biskupsdæmi. þar sem hann visiterade. a þui sama are. fyrir

vestan heradzvotn. Ꞓn ǻ næsta are þar epter. skodade hann og saman reiknade kirknanna goz fẏrer nordan hieradzvotn. Sidan liet hann þad allt vpp skrifa ȷ þessa bok sem honum med godra manna rǻde sẏndizt rettilegazt. Þui ȷ þann tima voru marger hluter vm uernder. moti þui sem gomul registur kirknanna inne hielldu. sumt med logligum eignaskiptum. og enn nockud af nidurfalli kirknanna. og so af fẏrnd og burtmissu bokanna. ok annara ornamenta og audæfa sem adur hafdi domkirkiunum til heẏrt. og enn ȷ nockrum stodum hafdi forbetraz fyrer godra manna tillogur.

I. Domkirkiunnar eigner ǻ Holum.

Jnnan kirkiu. sancte ȷohannis hofud giort med silfur forgylltu mẏtre med viravirke. og steinum sett. proficiatorium[1]) stort forgẏllt og einn gullkalekur med gullpatinu er vegur nær halfa niundu mork. Sancte ȷohannes skrin yfer hǻaltarenu og goda gudmundar skrin og tuau smǻ skrin. sancte ȷohannis hond allt til olboga gior med silfur. og steinum sett. og vida med forgylltu viravirke. litid proficiatorium[1]) med silfur. silfur calekar. xix. med patinum. stor texte med silfurspiallde forgẏlltur. amaleradur med viravirke. og annar silfurtexte med forgylltu spiallde. og enn tueir textar buner med huitt silfur. glodarker. ij. med silfur. eitt fingurgull. þrir mensurar. koronur. ij. med silfur. crismafloskur. iij. med silfur og silfurhomplar .ij. hǻalltaris brun med skiolldum og silfurbuningi. stortt agnus med silfur. einn koparkross forgẏlltur med understodum. mariu likneskiur tuær ȷ mariustuku. og eru gylltar badar. gudmundar likneski gẏllt. Jons likneski stort forgẏllt. olafs likneski gẏllt. annad olafs likneske med stein. litt gẏllt. kross uppe ẏfer kordyrunum gẏlltur. og þar þriu likneske med stein litt gẏllt. tumas likneski eda nicholai. J onnu stuku mariu likneski gẏllt .ij. likneski med stein. og meẏia likneski. iiij. ȷ kapellu .ij. hoklar. ein[2]) messo klædi. v. messubækur. ein Jslendzk. og tuau brefere. ein lesbok. og prima lestra bok. einn psalltari. einn tinhompoll. v. likneski. Jnnar i kirkiunne skip og einn lampur. J krosstuku. kross med vnderstodum.

1) Svo. 2) tvískrifað í frumriti.

J skrudhusi. latinu bækur .v. og. xl. annars hundra(d)s. J kor historiu bækur .viij. ein framestodu bok. er helldur kringum ared med commone. ordur .ij. ix. salltarar .iiij. af þeim miog gamler. þrir ýmnarij .ij. common. ij. salutíjd(a) bækur. viij. lesbækur. ein med de tempore. fra adventu til de trinitate. onnur lesbok er tekur til de natiutate domini med de tempore. vm jol og de sanctis fram til ad vincula petri. ein hatíjda lesbok med óll summa festa. ȷ kringum ared. annur[1]) de sanctis bok. vm oll dupplex. vm paska og jol. ein de sanctis bok fra felici og fram ýfer katerine. de tempore bok vm sumarid fram til adventu. ein bok de sanctis er tekur til . . . . [2]) og fram til thome apostoli med commons lese og humilium[1]). Enn aunnur de sanctis bok er tekur til ad marcellini og fram ýfir thome apostoli. med commons lesi og humilium[1]) .iiij. grallarar syngiande med commone. ij. lesgrallarar. annar vm sumar. enn annar vm vetur .ij. canabækur med nockrum messum .ij. pistlabækur. tekur onnur ȷ kring vm ared. med de tempore og de sanctis. enn aunnur fra adventu til paska .iiij. capitularlij. er einn nýr af þeim. eitt messudagakuer og iiij. predikunarkuer. og ein prima lestra bok .iiij. processiunalar. og er einn nýr af þeim og med honum kiriall. og annar kiriáll forn. ein messobok med historium de tempore nockrum fám. ein de sanctis bok fra ȷons messo baptiste. til mariu messo fýrre. ij. canabækur .iiij. handklæde glitud .iiij. sacrarium handklædi. vænger huersdaglega. eitt hvldduklædi ýfer ȷons hofdi. annad ýfer proficiatorium[1]). silki ýfer audru. einn fostuvængur .ij. merkis krossar. glergluggar .xij. og eru .vj. brotner af þeim. viij. fram j kirkiunne. og .vij. brotner af þeim. xv. fram j becknum nýer. og er einn brottenn af þeim. iiij. litler lectarar á aulltornum[1]) .iij. klukur j skrudhusi kolflausar .vij. smábiollur. ȷ stoplenum uppe .xij. klukur. og ein kolflaus nidri .ij. koparhaufud .ij. formessokuer. ein bagalstong med taunn silfurbuin. ij. faustutiolld og er annad vont. koparhompull .ij. textakoddar. iij. brikur. ij. med alabastrum af þeim og ein med stein .iiij. einglar gýllter. og ȷons

1) Svo. 2) Autt bil i skinnbókinni svo sem fyrir tveim orðum.

muka[1]) .iij. vætter halfs[1]) fluttning[1]) med þessvm reca og skipan. gunnarsstada reka millum holknáár og haralonsáár skal skipta hual ȷ .v. stade. og .ij. af þeim skal skipta ȷ þriáá stade og áá mulastadur .ij. enn brædur einn. og so ȷ flutningum. fra holknáá og til háralonsáár skal skipta ȷ fim stade. og fimti af þeim skal skiptazt ȷ fim stade og eiga brædur einn.

Mȯdruvallaklaustur áá afrett áá horgáárdal fram fra griotáá og til vikingsáár med halfum griotáárdáál fyrir sunnan fram. og fra griotáá til diupagils og fram til lusar áá horgáárdalsheide Jtem áá modruvallaklaustur skogarpart er heiter mariuhris og stendur ȷ asȷȯrdu ȷ horgáárdal millum audbreckuskogs og vindheimaskogs. ʀædur vt vid audbreckuskog ȷardkross lagdur af steinum. og suo langt sudur sem er rettsýne ofan áá áásgerde. og suo vt af gerdenu ed nedra til moz vid audbreckuskog enn upp so langt sem skogur vex. skőgarparta áá vaglaȷordu. Sudur fra fornhagaskogi. og til kidialækiar. fra dýnhagaskogi og suo ofan þadan.

V. Anno domini. m. d. xx. v.

Reikning(ur) kirkiunnar og klaustursins ȷ ʀeyninese.

Jn primis. ȷnnan kirkiu .ij. krossar med unde[rstodum]. mariu likneski ȷ hurdum. þorlakss likneske. katerinar likneski med alabastrum. ȷohannes. thomas postuli. og olafs likneske med alabastrum. alltari .v. med þrennum buninge. alltaressteinar .iij. skrin buith med kopar. med textaspialld med silfur. mariuskript j hurdum og beitslegid med silfur. einn koparhialmur. iiij. koparstikur. eitt merke .ij. glodarker. ij. brikur og .ij. brikarklæde. Messuklæde .vij. alfær. nema brestur til einn serk. kalekar .v. med patinum. propiciatorium med silfur .viij. kluckur. og .ij. smááklu(c)k(u)r. vij. kistur j kirkiunne og .ij. ȷ kapitulanum. ein jarnstika. iiii. formar.

Jtem ȷ bokum. .iij. grallarar og .v. sequenciubækur. tuennar tolmanudu[1]) bækur er hallda ottusongua sýngiande. de sanctis de tempore. lesbækur de tempore og de sanctis per anni circulum. ij. messubækur de tempore de sanctis. ij canabækur. salltarar .vij. capitularij .iij. processionall einn.

1) Svo.

mariu saga. biblia. barlanus saga. vitas patrum. martinus saga. niculaus saga og gudmundar saga. þorlaks saga og jons saga. antoneus saga. ij. bækur med jarteignum af mariu og kallamagnus saga.

Þetta j fasta gozi. reýkiavalle. daufá. backe. reykiarhool. jpesholl. fiall. skardzá. skordugil. kiartanstader. pafastader. tuennar grafer. holtzmuli. þraum. land. dukur. geirmundarstader. melur. steinstader. kelldudalur. hroalzdalur. ketu. hamar. kárastader. feriuhamar. tungá. vedramot. heidi. jnsta land. holakot. skidastader. skefelstodum. half selá. brokarlækur halfur. þridiung j mallande. þridiung j hraune. efra nes. fiall á skagastrond. hof. half eingihlid. leifstader. krossar á árskogsstrond. skard j fnioskadal.

Jtem eýdijarder. hrýgger med ollum vididal. ꝛugludal. hól. dæli. nupur. bruarland og huamskot.

Reka allañ med kothuame og vt til raudalækiar. med selá halfa alla reka motz vid holzmenn. med brokarlæk halfer rekar úr midri torfgrof. og bós þann med sem inn er fra fagrabasi til motz vid selnes ath helminge vid vidimyrarkirkiu. vr midium hualbasi og vt til huallækiar. medur mallande. fiordungur vm heimavik. vestan fra skarde og austur. á tanga vm alla austurfioru og inn til motz vid ketumenn át(t)ungur vt fra skarde og vt til látra. halfañ vidreka vm aull hóóp. Enn fiordungur j hualreka bæde vm hoop og keflavik. halfan vidreca j oosvik hinne vestri. fiordung j vidreca vestur fra fornu vór og til þriggja steina. allañ vidreka á langafioru.

Þessar jtólur á klaustrid. lambs elde vm halfañ skagafiord. holm og hegranes. fra hraune á (skaga). og til hofs j dól um. Jtem kugillde med jordum .c. og lxx. heima j fridum peningum. kýr .xl. og v. gelld naut .xxx. og .v. tuætur naut gelld. xij. og .x. veturgomul med kuigum. xij. kalfar. asaudur. halft annad hundrad. gelldingur gamall .c. og .lxxx. veturgamalt fe .xx. og .c. hestar .xvj. hros(s) .xiij. .iij. hros(s) tuæuetur. einn hestur veturgamall.

Þetta j kosti. smior nær halft annad hundrad vætter. skreid áttatige vætter. skýr. l. tunnur.

VI.

Kirkia á greniastodum er helgud gudi og jungfru mariu. sancte martino og nichola(o). hun á innan kirkiu pislarmark med vnderstodum. og .iiij. pislarmork aunnur. jhesus likneski .ij. brikur .ij. gýlltar. paxspiolld .ij. mariu likneski med alabastrum. og annad Mariu likneski forgýllt. martinus. nicholaus. johannis baptista likneski[1]). jacobbus likneski gýllt. lika kros(s) med silfur gamall .ij. koparstikur. ij. jarnstikur. ij. formar. dukar .ij. ýfer likneskium. merki .ij. klukkur .ij. litlar og .iiij. stærri og ein klukka stor broten. kalekur gýlltur og .ij. kalekar goder. og einn kalekur litill. og kalekur brakadur med eirpatinu. propiciatorium med silfur gýllt. corporalshus .v. corporalar .vij. messoklædi .v. alfær. og .iiij. serker slitner ad auki. sloppar .iiij. forner. kápur. iiij. gamlar .iiij. dálmadickur. ij. bruner med háalltari. ij. brikarklædi .ij. vænger .vj. alltarissteinar. eitt skrin litid. half fimta mork vax. ordubok god er helldur j kringum áret. textabok. prima lestra bok. grallarar .ij. sequenciubok. einn kiriáll .ij. processiunalar. einn collectarius. og einn capitularius. ein commons messobok. ein kanabok. gudzspiallabok med pistlum vm áret. aspiciensbækur .iiij. sumar bækur. ij. de tempore de sanctis. lesbok á hátider vm áret. dominicu lesbok á sumar. og de sanctis lesbok á sumar og onnur á vetur. lesbok vm jol og fram ýfer páska tíjma og ein lesbok er kallazt requisitare vm árid. jrskur grallari vm jol og fram j efstu viku. dominicubok fra jolum og fram ýfer paska .iiij. psalltarar. common sýngiandi. og annad commons brefer sýngiand(i). commons messobok irsk. látinubok dextera pars. martinus saga j norænu. passionale[2]) apostolorum j latinu.

Kjrkian á allt heimaland med aullum vmmerkium. brunaland. asgeirsstade. birnustade. hrisaland. klambrarland. silalæk. eýiarland. geitafell. breidavik med ollum gognum.

1) þetta orð er tvíritað í skb. 2) passionali, skb.

langavatn. hooll. holmavad. liotstade. brecka. hraun. midhuamur. ýzte huamur. og ʀauf. og .ij. hluter ȷ sigurdarstodum. ǿa.vegg og vndervegg ȷ kellduhuerfi. er sira ȷon biarnason lukti kirkiu fýr nefndri fyrir porcionem og mortalia. voteý. knappeý. arngerdareý. odeiluhoolmur. torfkrokshoolmar. graslafa[1]). grakuollur[1]). breidavollur. sooleýiarteigur. ketilsteigur. finzteigur. þorunnareý. hoolmur enn micli. husabacki. eingimýr. eskiueý. selfor til kringluvaz. selfor ȷ skardi uppi .v. hrossum hagi ǿa efri mela. enn fiorum ǿa nedri mela. afrett ȷ nǿattfaravik halfu fiorda hundradi sauda. helmingur ȷ þingeý vid einarstade[2]). einarstadi[2]). backa land.

Jtem ʀekar sagdrar kirkiu. fiordung vr hualreca fyrir alla nǿattfaravik. og ǒll flutning fyrir ýtstabool. enn fyrir midbool half. og so vidu og fiskver ad helmingi þar og so fyrir skǿala reke ǿa sande. .xij. c. fadma med ollum fridendum. halfur tungureki med ollum fridendum. þridiung vr hualreca ǿa nesi. fiordungur vr langa reca. ǿattungur vr hualreca ǿa kallbak med fluttningum. laxveidur ȷ ǒsi. ij hluter vndz .vi. hluter eru. þadan fra ǒll. halft egguer ȷ osi. selueidur aull ȷ flioti. reki med ollum gognum ǿa sande er gudmundur gaf. vidreki a sandi er fylgt hefur gardz lande. fiordungur ȷ hualreca. enn flutning halfu minne ȷ litlu fioru og vt til suinǿar. rekar þesser hafa fýlgt klipshaga. enn nu eiga staderṅer bader. greniastader ij hluti þeirra allra. enn mulastadur þridiung .vi. vætter (af) kleifarreka ef ǿa eru[3]) vætter. iij. ef minna er. ecki ef minna er enn. x. vætter. af hluta þeim er ǻtt hafde einar prestur hauskolldzson. gýiarhorn skal liggia vid gnupenn. þat er ʀekamark. siǿa afreidzla er þar huort sem fluttur er eda rekur. vi vætter ef ǿa eru .xx. vætter. enn .iij. vætter ef minna er. enn ecki ef minna er enn. x. vætter. huort sem ʀekur eda fluttur er. ȷ leirhofn attungi minna enn halfur hualur ef recur. ecki ef fluttur er. J griotnesreka halfur hualur huort sem rekur eda fluttur er. afreidzla .xij. vætta vt fra hofdaskǻla af oskiptum ef rekur. ella ecki. siǿa reki geingur vt ȷ giǿa ȷ ʀaudagnup. ȷ vellankotlu vestri halfur hualur

1) Svo. 2) Þetta orð er svo tvíritað í skinnbokinni. 3) hér sýnist eitthvað vanta, líklega: „xx".

ef fluttur er. enn ef recur fiordunginn og .vj. vætter. enn ȷ eẏstri vellankotlu halfur hualur huort sem recur eda er fluttur. af osk(iptum) reida. xij. vætter. ꜵ hestanesi. vj. vætter ef ꜵdur hefur mulastadur helming sinn. og sie þꜵ epter. xx. vætter eda meira. enn .iij vætter ef minna er. ecki ef minna er enn x. vætter. ȷ straumlone reka og fluttning med ollum gognum og suo fyrir sigurdarstodum. þui staderner eigu lǫndin bæde. og so þorbiarnarstade. Þessi ʀeki er austur fra straumlons osi og til hins forna oss. hier fẏlger og egguer halffimtung medal ǿsa. ꜵ rifsreka. vj vætter. ef ꜵ eru .xx. vætter. .iij ef minna er suo ȷ skinnalone. suo ath tiornum huort sem ʀekur. eda er. fluttur. ꜵ hardback. xx. vætter. ef fluttur er. og sie ꜵ .c vætta hinum fẏrsta enn. vi. vætter þadan fra .iij. vætter ef recur. skotmanzhlutur er ath helmingi medur þeim reka. ꜵ asmundarstodum fiordungur huals ef rekur. ȷ au(r)fẏriseẏ fimtungur huort sem recur eda er fluttur. og af oskiptum þeim fiordungi. settung. enn giallda af sextanda hlut ef recur af oskiptum hual. ȷ ʀaufarhofn helmingur ef rekur. og giallda af ꜵttung af aullum saman og .iiij. vætter og. xx ꜵ hundznesi tolfti hlutur ef rekur. ȷ kros(s)avijk sex vætter ef ꜵ eru .xx. vætter. iij. ef minna er. ecki ef minna er enn .x. vætter. huort sem rekur eda er fluttur. ȷ kollavijk slikt hith sama. slikt og ȷ flautafellzreka. slikt ȷ heriolfsvijk ef rekur af þeim hlut er einar prestur ꜵtti.

Jnnan gꜵtta. storkerolld .iiij. ȷ ȷordu. eitt uppi. vppgerdarkerolld .ix. aull vond. xuij. trog. .iiij. fotur vondar. einn strockur. ketill. tekur halfa adra tunnu. og annar vm .vj. skiolur. og .ij. katlar smꜵer. pottur heill. annar brotenn. eitt mortel. piparkuern. ein skꜵl med eirbeit gẏlltri .xix trefot. eitt tinfat. annad brotid. skerbord ꜵtta .ij. kistur. einn stockur. einn ulldukur slitinn. annar med lin .ij. sængur alfærar. iij. dẏnur og .iij. hæginde ath auk. og .ij. aklædi ath auki. einn huorbusteinn .iiij. bord. munnlaug .iij. vazkallar .vi. konnur med illum og godum. vj. altunnur heilar. .ij. botnlansar .iiij. halftunnur .iiij. lꜵsar .v. kufar .vij. klẏfberar. aller vonder. pꜵlbrot .ij. skerar. og er annar vondur. einn hardsteinn. ein ox heil. pundari. ȷarnsleggia.

upp ꜳ .ij. hesta reip. ein kýrhud. half kapalhꜳ. ꜳ .ij. hesta hrip. ꜳ. ij. hesta krokar .iij. klꜳrur .iij. hrifur. eitt net vont og litid. stiki med. ix. stikum. .iiij. liꜳer. eitt skip. ein not. half fimta mork vax .ij. c. tolgar.

VII.

Kiskian ꜳ breidabőlstad ȷ vesturhőpe er helgud med gude og[1]) hinum heilaga olafi kongi. Jn primis innan kirkiu. historiubok fra ȷonsmesso og til þorlaksmesso vm veturenn og lesbok tekur suo micith. de sanctis bækur. grallare med sequencium. aspiciensbok til pasca. gudspiallabok fra athventu og til pasca. processiunale. lesbok fra adventu til pasca de tempore. gudzspial(l)abok vm sumarit. og nockud af vetrarhluta. orda per anni circulum. gudspiallabok fra paskum de tempore vm sumarit. ij. messobæk(ur). lesbok ath ȷolum fram yfer annuńciacionem marie. grallaraskrꜳ. psalltare. historiubok fra aduentu til pascha. hoklar .iiij. einn enn fimti slitinn. messoserkur. stola. handlin. messoklædi ad aullu. þrir krossar. mariuskrift. olafs likneski. katarinar likneski. ij. smꜳlikneski. skrin. brik og tabulum. paxblad. merki .iij. koparstikur. glődarker. elldbere. liett alltarisklæde. brun og dukur .ij. kalekar med patinum. eitt corporale. fonzvmbuningur lëttur. einn glergluggur lestur. iiij. kluckur og .ij. biollur. olafs saga. ij. formar. einn stoll. ein kista olæst. þar skal vera .ij. prestar. diakn og subdiakn. þar skal sýngia daglega messo og ottusong. syngi slꜳumesso .iij. daga ȷ viku ef rumheilagt er .ij. messor daglega vm langafőstu.

Hier til liggia .ij. bænhus og halfkirkia. og kirkia su er sungid er til huern dǎg helgań. tiund. heýtőllur og lýsitollur af .xiij. bæium. Kirkian ꜳ allt heimaland. foss. grund. sida. hurdarbak. almenning. þorgrimsstade. alla sigridarstade. er sira einar haflidason gaf. þꜳ er herra ȷon biskup vigde kirkiuna olafsmesso einu[2]) seirne. med þeim skilmꜳla ath þar skýllde sýngiazt æevinliga sꜳlumessa ꜳstijd(ar)dag hans. ȷtem lambs eldi af huerium þeim bonda sem rekur fie sitt ȷ stadarens afrett.

---

1) Þessu orði er ofaukið. 2) Svo.

Þetta innan gátta. sæng ad ollu .iij. kerolld j jordu. iiij. uppgiordarkerolld. x. trog. vj. skáler .vj. spæner .vij. diskar. tinfat vont. ketilhrof. matarlok .ij. býrdur storar.

Gaf sira einar haflidason .ij. hluti j reca nidri á sande austur at brandzlone og j storgýe. enn áádur átte kirkian þridiungenn. allañ reka jtolulausañ fyrir almenningi er liggur á vaznese.

Jtem kuikfe .xvij. kugillde. iiij. gelldfiar hundrud .iiij. hestar gamler. veturgamallt hross .viij. hundrud fallit j porcio medan sira gilbrick hiellt vm. xvj. áár.

VIII.

(K)irkian á mel er helgud gudi og sancte stephano. Hun á allt heimaland. eýiar á hrutafirdi. land á kolbíjtzá og j saudadal. burfell. bretalæk. suedistadi. land j Renneholum. skog j nordurárdal milli suartagils og saudhuslækiar og upp j fialls brun. jtem þriggia manna jferd j saurbæiarfioru. tialldstad og hrossabeit sem þarfnazt. jtem steinstada land og hualsá. jtem settung j bakastodum[1]) huals og vida. jtem .iij. vætter huals af tuitugum. ef kemur á land ad osi hinum ýtra. vollum huorumtueggium. freysivikurbacka. karastodum.

Þetta jnnan kirkiu .iij. alltare med sinum buninge. brik og tabula ýfer háalltare. vj. krossar smáer og storer. mariu likneski. stefanus likneski. iij. smálikneski .ij. lecarar. grallare vm arit. sequenciubok vm arid. ij. bæk(ur) syngiande. aunnur fra adventu og fram ýfer jol. onnur fra .ix. vikna fostu til pascha .ij. processiunálar. messubok sýngiande fra jonsmessu baptiste til pascha. kanabok. orda. lesbok fra adventu til pascha. lesbok frá paskum til aduentu. lesbok fra andreasmesso til albani. de sanctis. iij. salltarar. ij. af þeim letter. kiriáll ofullur. capitularius med ýmnario. messobok lesande fra adventu til paska de tempore .xvij. bækur adrar .iij. messoklædi. brestur hofudlin. ein cápa og .ij. vondar .ij. sloppar. annar lettur. fontklædi. kista og stokkur .iiij. corporalshus .iij. corporalar .iij kalekar. for einn til vididalstungu. iiij. koparstikur .ij. Reýk-

1) Svo.

else. kogur. hompull .iiij. kluckur. og .ij. smáár og ein bialla. ein jarnstika. ein kola. eitt spialld. merkisslitur .iij. trehialmar.

Jtem .xij. kýr. lx. asaudar og .vj. ær betur .xuiij. sauder veturgamler og .iiij. gamler. eitt naut fiogra vetra. og .iij. naut veturgomul .iiij. hesta. iiij. sængur med þrimur aklædum. allt vont .xx. smáá kerolld med illum og godum. xij. trog. ein kanna loklaus. einer kambar.

Lukti sira jon gislason jordina halfa tannstadabacka j porcio sem fiell medan hann hiellt og fim hundrud betur.

IX.

Kirkian j mula er helgud gude og vorri fru sancte marie. og hinum heilaga nicholao. Hun áá allt heimaland millum saurlækia og eyuindarlækiar. laxáár. og kalfalækiar. stadnum fýlger hafureý og skááleý. hrisey og mioeý. med ollum vesturholmum og austurholmum. og .ix. holmar fyrir nedan eingeý. og veide alla j laxáá fra kalfalæk og ofan vm eingeý.

Þar fýlgia einarsstader. jngeridarstader. skáárastader. biarckastader. skeidzland. kraunastader. fótaskinn. fiallz land med valahrisum aullum. teig eiga menn j valahrisum. enn aungua beit. þeistareikia land. vindbelg og hnutstader og mælifell. barkarhris j kellduhuerfi. lambarekstur áá huamsheide. gomlu fe j nááttfaravik. c. og. lxxx. weidur vestur j vatni med slýum og holmum. reka skal smala þadan til skiola j vazhlid jafnan er vill. þar fýlgia teigur og kåårateigur. stadnum fýlger allur reki áá fliotzsande j millum greniastada reca og mýrar reca. halfur eýiar reki med flutningi tueimmegin laxááross. fiordungur j langa reca. áátt-ungur j kelldunesreca og allur vidreci og ǫll flutning. og .xvj. vætter af oskiptu. halfur hardbaksreci og halfur hestanesreci. hualreci halfur og vidreci og fluttning j hoskolldznesi. áá hundznesi allur vidreci og flutning nema tolftungur. tueir hluter j kollavik og flutning, og so j krossavik. halfur sævarlandzrece og flutning. j millum áá fiordungur hualreca og flutning. fyrir breckna land bædi fiordungur hualreca og flutning. fyrer gudmundarlone millum steins og staurs halfer þrir hluter reca. enn þadan fra halfer hualrekar og flutn-

ingur til marks vid saudanesmenn. fyrir hrossavollum. tolftungur og flutningar. mulastadur ǻ og þridiung ȷ ollum klifshagareca vid greniastad. ȷtem ǻ kirkian þridiung ȷ eingeẏ med .viij. holmum.

Þ€tta ȷnnan kirkiu. mariu likneski med einu gullnisti .ij. krossar. annar med understodum. nicholaus likneski. tomas likneski. ij. koparkrossar lester. ij. koparskrin lest. og einn texti. steind brik. paxspiolld tuo. ij. koparstikur. iij. ȷarnstikur. standstika sterc med ȷarn. merki. glodarker. iiij kluckur og ein lest af þeim. ein bialla. vj. alltarissteinar. v kalekar med patenum. vj. mork.[1])

X.

Kirkian ȷ saurbæ er helgud gudi og sancte Nicholai og hinne [signudu ceciliu. hun ǻ allt heimaland. sandhola. krinastader. hals. vollu. þriugsǻ. halfan diupadal. alla þriugstungu. skog ȷ kalldback fyrir nordan og upp ath þuerskilldi. ceciliu partur ȷ gnupufellz skogi. sudur fra miclagardzskogi og sudur til saurbruar hinnar ẏtri. onnur skogarstada fyrir sunnan sydri saurbru. nidur undan huassafellzskogi. og ofan ǻ gilsbacka.

Þ€tta ȷnnan kirkiu. krossar fimm. mariu liknesk(i). ceciliu li(k)neski. nichulas likneski. irskur texti med silfur. solarduckar .ij. ẏfer nichulaum og ceceliu med blam rondum. kluckur .iiij. og litil bialla ȷ kornum. ij. kalekar. iij alltaristeinar. iij. messoklædi ad ollu. corporalar .iiij. og .iij. corporalshhus. eitt sacrarium handklædi. ein cantarakapa. einn sloppur. alltarisklædi .v .iiij. bruner. vigsludukar. iij. saurdukar. iij. lectare med duk. formi litill. einn stollburdarstikur. ij. glodarker .ij. hompull. dẏmbill. eitt merki. coparstikur .ij. ȷarnstikur .iij. og hangande kola. skruda(kista) ja(r)nud og læst .ij. kistur adrar. kerstokkur. meta skǻler med .vij. metum .iiij. merkur vax. trinitatis blad. ij. skarklofar. Þetta ȷ bokum. grallari og sequenciubækur .ij. pro-

1) Svo. — Hér næst hefir verið færðr inn á auða blaðsíðu í skinnbókina (bl. 25a) reikningskapr Guðbrands biskups fyrir Víðidalstungukirkju frá 18. Aug. 1590. Þá taka aptr við gömlu máldagarnir.

cessiundꜳll. messobok med gudzspiöllum og pistlum de sanctis. missale de tempore kring vm arid. ottusongua bækur de sanctis og de tempore med lesi j kringum ꜳred. capitularius og ýmnarius kringum ꜳred. messodaga kuer med syn(g)iande salutijdum. prima lestrabok. og orda god .ij. psaltarar. er annar lasinn. common .ij. sýngiande med lesi. canab(ok). jtem ceciliu saga. mariu saga magdalena og handbok.

Þetta innan gꜳtta .ij. panzarar vonder og einn hattur. kuern. ein dýna med hæginde. saluns ꜳklæde .ij .x. asmundar .iij. hardsteinar. ein jarnsleggia. öx. pꜳlreca. munnlaug. vazkallar .ij. ij. orb. torfkrokar. ein orck. ein kista. einn stokkur .iiij. tinfot. v. fot raud .ij. vernizud fot. trediskar .ix. skerdiskar .xiij. ix. skꜳler med kerum. vigsluaskur og dryckiaraskur. lindukur. ij. konnur. vondar .iiij staup .iiij. og .ij. drýckiuskꜳler .ij. piparkuernur. .ij. katlar bætter. og einn litill. einn pottur og pottausa. einer kambar. smiorjarn. pundari. xx. trog ill og gőd. ix. uppgiordarkerolld vond. ein fata. ij. strockar. annar miog vondur .ij. storkerolld. einn floti. skꜳk og kuotra.

Jtem kuikfie .x. kýr. x. ær og .xl. gelldingar. lx. og .xx. sauder veturgamler .ij. vxar gamler .ij. v. vetra. einn fiogra vetra og veturgamall .viij kapla hundrud. ix. merkur vax. ij. c. ofritt .vj. kugilld(i) j býggingu.

Er sira eigill kuittur vm reikningskap upp ꜳ .xiiij. ar er (hann) hiellt stadinn. anno domini .m. d. xx. viij.

XI.

Kirkian j laufꜳsi er helgud gudi og hinum heilaga petri postula. Hun ꜳ allt heimaland. lomatiorn[1]). þorsteinstadi. noll. smꜳlaund aull millum gꜳsagils og upp til grofar og ofan til sikis hia neslandi. land ꜳ kursueinstodum med rettum endemorkum. selfaur ꜳ flateyiardalsheide. iiij. kuın eda .ij. hrossum og so morgum ꜳm og geitum sem sꜳ vill er ꜳ stad býr vm. vj. vikur.

Þetta j rekum. fiordungur j fim hlutum j hual(l)atra londum med ollum gögnum og giædum nema. vidrekum ꜳ

1) Fyrir aptan „loma“ hefir fyrst verið ritað „gnup“ og það síðan af máð. Á að vera; lomatiorn.

eyrarstuf ȷ hualvazfirde. þridiungur allz reka og flutningar. J keflavik .x. vætta afreidzlla af tuitugum hual ef ꝺ́ er .c. vætta og meira. so mikil afreidzla er og af þônglabacka. Jtem afrett ꝺ́ flateyiardalsheide er heiter laufꝺ́shagi ȷ millum eyvindarꝺ́r og mogils ẏtra. enn ȷtala er þar saudarekst-urs frꝺ́ sualbarde.

Jtem innan kirkiu .iiij. hluckur storar og ein litil bialla. ij. kalekar med pꝺ́tinum. enn þridie brotenn med pꝺ́tinu og vegur halfan þridia eẏri. hier til bolle ofan af kalek er vegur lika. iiij. corporalshus. og ero .j. god. iiij. corporalar. einn formadukur .ij. cantarakapur .ij. sloppar. fôstutialld gott. fontzbuningur. messoklæde .v. ad aullu. þriu smꝺ́stẏcki med messoklæda buning. eitt handlin stakt. einn hokull stakur. ein dalmadika. einn dukur med heiden stẏcki. þriggia alna langur. og alin breidur. .iiij. dukar med rondum. iiij. alltarisbruner obunar med mariualltare. alltarisklæde. vigsludukur og saurdukur med hꝺ́alltare. ij. godar brikur med gullfarg .ij. paxblaud. dẏmbill. skrudakista .vj. alltarissteinar. bokakista olæst. kross ẏfer alltare og skrin med silfur. ij. trekrossar med understôdum .ij. sacrarium handklæde. ij. koparstikur. sacrarium munnlaug. brikarklæde. tialld ẏfer hꝺ́alltare. og kringum korenn tialld liett. og annad vont ẏfer kordẏrum. ij glodarker. elldberi. ȷarnstika stőr. bokastokkur. Mariu likneski. michaels likneski. stor cross ẏfer kordẏrum. ij. eingla likneski. peturs likneski. andres likneski. ij. dukar ẏfer petri. olafs likneski .ij. merki. ȷarnstika fyrir mariu. ȷarnstika fyrir petri. lꝺ́tunshialmur .ij. kistur. badar innlæstar. metaskꝺ́ler med metum. likakrꝺ́kur. recȷarn. nafar. munnlaug. vazkall med loki. og annar rifinn. ij. konnur vondar .v. tinfot .ij. fôt vernizud. og eitt rautt. einn stor lꝺ́s .iiij. kistur. ein grof mork vax. ij. c. kerta. iij. erkur. ein pipa. eitt tialld vart .x. alner. annar refill slitinn. xiij. alner. iij. sængur vondar med hægindum. iij. aklædi vond. ȷ bordhusi .x. trefôt .v. fôt vtlend. ix. skꝺ́ler. iij. skerdiskar. lindukur einn. stokkur med loki. annar loklaus. aurk. ij. lꝺ́sar. xij. kerolld smꝺ́ .ij. fotur vondar. xij. trog. ij. uigsluaskar. sponastokkur. pundari. vj. stor-

kerolld. tunnuketill og fiordungsketill. pottur. smidia. iij. liosponnur .ij. vader. ix. hurder vondar ȷ stadnum .iiij. hurder fyrer uthýsum.

Þetta ȷ bokum. in primis .ij. grallarar. ij. sequenciubækur. iij. psalltarar. lágasaunguabok. messobok per annum ad pistlum og gudzspiollum. og lesgrallari med sama tima pistlum og gudzspiollum de tempore de sanctis. messubok fra páscaviku til aduentu ath pistlum gudzspiollum og oracium de tempore de sanctis. páscabrefer sýngiande med messum sýngianda samsett. pistlar og gudzspioll vm langafóstu. commun sýngianda samsett med missale. Messobok á sumarit. commons messur og sálumessa á einni skrá. dominicur á annari skrá. kiriáll og processiunáll. aspiciensbok fra aduentu og fram um huitadaga sýngiande med ýmnum og oracium. lesbok de tempore fra aduentu til pásca. saungbok fra páscum til aduentu med ymnum og oracium. lesbok de tempore fra aduentu til páscha. lesbok de sanctis per annum. sóngbok og lesbok de tempore fra paschum til aduentu. sóngbok fra páschum de tempore de sanctis til ȷolafóstu. sóngbok frá de trinitate de tempore de sanctis til aduentu. orda. sermonsbok. petursaga. ij. ymnarij. og .ij. capitularij. nýia halldz kuer. martirelogium[1]). ein handbok. xv. skrar. er þar ȷ capitularius. ýmnarius. og .ij. psalltarar vonder. iiij. bækur storar. helldur ein pistla og gudzspioll fra ȷolum til huitusunnu[1]). onnur fra ȷolafostu og eigi allt til páscha. þridia hefer de tempore (med) sóng og les fra páschum til adventu. hin fiorda helldur fýrst kirkiudags sóng. þá de sanctis fra crossmesso vm haust og til ȷolafóstu. fiell ȷ porcio medan sira ȷon hiellt uppá .xx. ár fiogur hundrud og halfur fimtande eýrer. voru fiogur hundrud gefin kuitt fyrer kirkiubot og sancte aunnu lik(neski).

Þetta ȷ fridum peningum .xx. og .xuiij. málnýtu kugillde. xij. gelldfiar hundrud. xiij. kapla hundrud. ȷtem kostur. vætt smiors og half tunna skýrs. heý .v. fadmar.

## XII.

Kirkian hins helga peturs postula á Rafnagili á allt

1) Svo,

heimaland. hranastadi. botn. allt nýlende. gil. kepsá. halfań. bleiksmýrardal fram fra skardzá. torfskurd ȷ sigtunaland. fyrir austan eyiafiardará. tueir eingiteigar. heiter annar geingia. enn annar kárateigur.

Þetta innan kirkiu. messoklæde þrenn og brestur til stolu og handlin. kalekur og vegur vel .x. aura. ein kantarakapa .ij. hoklar lauser. er annar allur ȷ sundur. ij. sloppar. v. alltarisklædi .iij. alltarisdukar vonder. med brunum. einn lecktaradukur blámerktur. litil skrin tuð med silfur. eitt skríjn med kopar. texti med forgýlltań kopar .vj. alltarissteinar. baxturjarn og fonsbunadur vondur. paschastong. ij. upphalldzstikur. sacrarium handklædi aungu nýtt .ij koparstikur. ein jarnstika stor brotin .vj. ȷarnstickur fýrir likneskium. kertaforme og framestoduforme. iiij. kluckur ȷ stopli .iij. (ȷ) kor. kross sæmiligur ýfer alltare. kross ýfer kordyrum. fontkross med kopar. mariu likneski. peturs likneski. nicholaus likneski. thomas likneski. gudmundar likneski. ȷeronimus likneski. katerinar likneski. margaretar likneski. sancte katerinar blad. og crucifixum blad. lik(a)kross brotenn.

Jtem ȷ bokum .ij. songbækur per anni circulum .ij. lesbækur de tempore per anni circulum. og enn lesbok um sumarit. de tempore bok fra aduentu til pascha. de tempore bok med les og sông fra de trinitate og til aduentu. de tempore bok fra paschum og til ȷolafôstu med gudzspiollum og pistlum og oracium. lágasonguabok. collectarius. capitularius. missale vm sumarit. og missale fra adventu til pascha. grallari. ýmnarius. psalltari og margar smábækur ad auki. katerinar saga. sôngbok de sanctis fra ȷonsmesso baptiste til pascha. missale de dominicis fra de trinitate til adventu med sequencium de tempore og de sanctis. psalltare og processiunall.

Þetta ȷ lausagozi .vj. kýr .vj. asaudar kugilldi .ij. naut tuæuetur .ij. sængur vondar fýrir. c. kerալd og þar til .x. aurar fyrir .ij. c tueir hestar gamler og þar til .xx. alner fýrir .c. hundrud ȷ vadmalum[1]) .xij. aurar anars hundrads ȷ uirdingargozi. uar þat .ij. kistur. pundari. metaskáler med .iiij. metum. brotinn vazkall og ketilhrof.

1) Svo.

XIII.

Kirkian á uollum er helgud gudi og sancte olafi kongi. hun á jnnan sig. ýfer háalltarenu kross med understodum. annar kross gýlltur á alltarenu. eitt skrijn og texti. einn randadukur ýfer háalltarenu. mariu likneski. olafs likneski aunnu likneski. jacobus likneski. jons likneski hola biskups. auguttu likneski. og ambrosius mýnd. sancte olafs klukka. og .ij. kluckur minni. og .iij. biollur. þrennur alltaris buningur alfær. v. messoklæde alfær. og einn hokull þar til. einn sloppur og kapa. og tuenn kapuslitur. ein dalmadica. ij. kaleckar. og enn þridie vondur. v. corporalar. iij. corporalshus. iiij. alltarissteinar. iij. kistur. frammistoduformi. og lectare. ij. jarnstikur og kirkiukola. ein koparstika. dukur ýfer sancte olafs likneski. fonsumbuningur alfær. baksturjarn.

Jtem bækur. ij. grallarar. ein sequenciubok. og onnur lett. messobok vm árit med de sanctis og de tempore lesande. ij. messobækur. onnur sýngiande og onnur lesande. fra .ix. vikna fostu til pascha. med de tempore. de tempore bok til de trinitate fra jola fostu og de sanctis med. de sanctis bok med gudspiollum og pistlum vm aret. ij. kanabækur. ij. lesbækur. onnur á sumar enn onnur á vetur med de tempore. eń þridia fra athventu til pascha. capitularius og ýmnarius lesande á einne bok. iiij. de sanctis bækur sýngiande vm svmarid syngiandi[1]). jstoriubok vm jolafostu til geisladags lesande. jstoriubok frá paschum med dominicum til adventu. common sýngiande med lesi. ein sermonsbok. jstoriubok fra adventu til pascha. einn psalltare. olafsaga. handbok. messobok sýngiande. fra jolafostu til pascha. einn processiunáll. common sýngiande. gudzspiallabok og pistla vm veturenn til de trinitate. onnur bok med gudzspiollum og pistlum vm vetur til pascha. dominicu kuer sýngiande og nockrar latinu skrædur þar til.

Jtem kuikfie. kýr .xx. og .iij. asaudar kugillde .xiiij.

---

1) Hér fyrir aptan er ritað: „ein stor bok", en punktar settir undir, sem tákna, að það sé út strykað. Orðið 'syngiandi' sýnist ofritað, aunaðhvort fyrir framan eða aptan 'sumarid'.

var þetta bædi med ȷordum og heima. eitt naut fiogra vetra og annad tuæuett. ij. hestar gamler fyrir halft annad hundrad. hros(s) med fofallde og gamall klǻr fyrir halft annad hundrad. ok einn gelldur hestur fyrir .c.

Jtem innan gǻtta. stor kerolld .iiij. uppgiordarkerolld .xij. vond. trog .xx. og .ij. erkur. iij. og kistur. iij. og diskar .x. xi. skǻler. allt þetta fyrir .iiij. c. v. katlar og .v. pottar fyrir .vij. c. linsæng fyrir. c. tialldklædi og vod fyrir .ij. c. munnlaug og vazkall og .v. tinfot. kanna fyrir .c. munnlaug. vazkall. tinfat. firfat og salltker fyrir .c. xviij. fot og. xiiij. skerdiskar. halfkann(a) og skaptpanna. ix. hornstaup og .vij. blýstaup. ij. drýckiuskaler allt fyrir. c. iij. lindukar. iij. handklæde. og einn ulldukur fyrir .c. eitt aklæde .x. merkur vax fyrir .c. einn refell. hundrad ȷ asmundum skeifum og odrum smalka.

Item ȷarder. selǻ. birnunes. hanefstader. uppsale. brautarhollt. huarf. krossholl. sueinstade. stafn. huor ǻ. kongstade. þuera. gliufurǻ. og tungufell stendur til lausnar erfingium sira gudmundar heitens. a stadurenn allañ skidadal og vesturǻrdal fram fra hőlǻrmarki til sueinstada marks. og tiornubacka fyrir handan ǻ og .ij. teiga fyrer nedan sokku ǻ bockunum er heita nastateigr og breidateigr. og einn holma ȷ ǻnne er lambhagi heiter og annar er heiter hrutholmur þar upp fra. þridie[1]).

Þetta ȷ rekum. ȷ þorgeirsfirde fyrir vestan ǻros. þat er attungur ȷ hual. fra ǻrosi til torfdælar. enn fiordungur vestur þadan til sulna.

---

**279. 3. Janúar 1526. á Hólum.**

Jón Arason biskup á Hólum tekr reikningsskap af síra Pétri Pálssyni, er þá var ráðsmaðr Hóladómkirkju, um allar staðarins eignir heima og heiman, „eptir tölu síra Pétrs,“ og átti dómkirkjan þá hafskip vel fært, er dró nær „sjötigi lesta“; um lausafé það eptir Gottskálk biskup, er bræðr

1) Svo, og vantar eitthvað.

hans skyldu erfa, hafði Jón biskup gert sama með ráði erkibiskups, og bréf sýndi hann fyrir því, að hann hefði goldið Ólafi erkibiskupi það „Guðmundar silfr og gull", sem var á Hólum að biskup Gottskalk frá föllnum, og lofaði erkibiskup að láta kanonisera „Góða-Guðmund, svo framt það væri guðs vilji".

AM. Fasc. XLVII, 1, frumrit á skinni úr safni Hólastóls („sk"). Af 3 innsiglum er 1 dottið frá. — Fært inn í frumritið að Sigurðarregistri bl. 5b. (= b).

Holastadar Reikningur þa Bipskup[1]) Jon arason tok vid 1526.[2])

Þat giorum vier broder helge med gudz nad abote a þingeyrum, olafur hialtason. tumas eireksson prestar godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefe at arum eptter gudz burd ϖ d xx ok vj ar tiunda dag jola á biskupstolnum á holum j hialtadal vorum uier i hia at biskup jon tok reikningskap af sira Petre palssyne er þa uar radzmann holadomkirkiu af fríjdum peningum oc ofríjdum sem holakirkia atte heima á stadnum oc stadarins bẅm[3]) oc j byggingum epter þeirre framtaulu sem hier epter skrifat stendur.

Jn primis innan kirkiu ornamenta med kalekum klenodia i bokum oc skrwda oc suo gamalt bordsylfur kirkiuunar oc[4]) bushlute stadarins heima æ holum oc stadarins bwm[5]). allt þetta [adur sagt suo nær[6]) sem þat ʀegistrum jnne helldur er giortt var med voru uitorde ad biskup gotskalck nikulassyne fra faullnum.

Jtem j malnytu heima æ stadnum oc aullum stadarins bwm[5]) oc j byggingum saman reiknad[7]). xvj^c kugillda oc .x. kvgillde ad med reiknudum kirkiu kugilldum þeim sem standa fyrir prestum á stadarins jordum.

Jtem j gelldum nautum æ stadnum oc stadarins bwm[5]) hundrad hundrada lxx^c ok vj^c. j gelldum saudum nietiger

1) Svo. 2) Utan á bréfinu með hinni venjulegu hendi, sem ritar á Hólabréf á 17. öld. 3) buvm b. 4) sl. b. 5) buvm b. 6) [suo nær adur sagtt b. 7) reiknudum b.

hundrada. kaplar heima á stadnum oc stadarins bwm[1]) aullum voru eigi skiallega reiknader enn sagt uar at þeir mundu vera nær hundrade oc nokrer ungkaplar at auke.

Voru þesser aller[2]) fyrr sagder peningar reiknader epter framsaugu oc taulu sira peturs enn eigi uissum uier huortt þeir uoru gillder eda gamler. sagde sira petur at þar munde uera med nockurar aureiga skullder oc maurg gaumul kugillde. atte domkirkian þa hafskip uel færtt er dro nær .lxx. lester. teinæring oc attæring. þria vj æringa. tyge stadarins uoru eigi reiknud fyrir oss oc eigi helldur silfur. katlar. klæde eda lierept þat sem biskup godskalk hafde att. þui biskup ion sagde fyrer oss at herra erchebiskupenum[3]) og rikisins rade[4]) ȷ norege hefde þat laugligt þott at brædur biskups godskalks skylldu erfa þa lausa peninga sem hann hefde ecke adur rad fyrir giortt ok at auki uoru þess inuentarij sem holakirkia atte þa biskup gotskalk med tok. Sagdizt biskup ion hafa giortt sama med erchebiskupsin(s) rade vid brædur biskups Godskalks vm sagdan arf. Synde biskup ion oss opit bref med ȷnncigle verdug herra olafs erchebiskups ȷ nidarose paualigs sætis legatus suo hliodande at erchebiskupinn hefde medtekit þat gudmundar silfur oc gull sem var á hoolum at biskup godskalk fra faullnum. oc nefndur herra erchebiskupenn hafde lofat at lata canonicera goda gudmund suo framt þat være gudz uilie.

Var þesse allur adur sagdur reikniñgskapur gior þann fyrsta vetur er biskup ion medtok holadomkirkiu ȷ biskupligv vallde.

Ok til[5]) sannynda hier um setium uier fyr skrifader menn vor ȷncigle fyrir þetta bref er giortt var ȷ stad oc deige ok sama are sem fyrr seiger. et cetera.

---

**280.** **15. Janúar 1526.** **á Grund.**

**Dómr** sjö klerka og sex leikmanna út nefndr af Jóni bisk-

1) buvm *b*. 2) sl. *b*. 3) erkibiskupenn *b*. 4) räd *b*. 5) Hér þrýtr *b*.

upi Arasyni, „er þá hafði kongsins umboð í Vöðluþingi“, um ákæru Jóns Magnússonar til Gísla prests Guðmundssonar vegna Kristínar Eyjólfsdóttur móður sinnar um aðtöku Gísla prests á arfi eptir Finn heitinn Þorvaldsson systurson Kristínar.

AM. Apogr. 764 með hendi Árna Magnússonar.

Domur um arf fins.

Þad giorum vier broder Helge abote a Þingeyrum. broder Jon med gudz forsiđ prier[1]) a Maudruvollum. Pietur Pa[ls]son. Radzmann Holakirkiu. Þorbiorn Jonsson. Jon Jonsson. Ol[afur] Hialltason. Jon Olafsson. prestar. Grimur Jonsson. Einar Einarson. Þorsteinn Þorlaksson. Oddur Þorlaksson. Pietur Tumasson og Hiallte Þorfinnson. leikmenn. godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. arum epter gudz burd 1526. a grund i Suaruardal[1]). manudægenn nærstañ epter geisladag vorum vier i dom nefnder af verdugum herra Biskup Jone. er þa hafde kongsins umbod i Vodluþinge. ad dæma um þa akiæru er Jon Magnusson kiærde thil Gisla prestz Gudmundzsonar. vegna modur sinnar. Kristinar Eyolfsdottur. ad hann hefde i setst og ad sier tekid arf og peninga epter finn heitinn Þorvalldzson. sem fyrrnefnd Kristin var modursyster adurnefnds finns heitins. Enn greindur Gisle prestur var systurson nefndz finnz heitins. Og medur þvi. ad Gisle prestur leidde brullaupsvitne. sem verid hofdu i brullaupe hans faudur og modur. Svo og vissum vier aungvañ skylldara skilgetinn til greindz arfs. þa sem i almennilegu Erfdatale standa. greindum Gisla fyrer þessum arfe. þvi dæmdum vier gisla preste gudmundzsyne þessa alla peninga til halldz og fullrar eignar. sem fallid hefde epter finn heitinn Þorvalldzson. þar til þeir verda med laugligum dome af honum sokter. Og til sanninda hier um setium vier fyrrnefnder menn vor innsigle fyrer þetta brief er skrifad var i sama stad og dag sem fyrr seiger.

---

1) Svo.

**281.** **13. Marts [1526].** **í Skálholti.**

Þormóðr Arason fær Ögmundi biskupi í Skálholti málajörð konu sinnar Galtarholt i Stafholtstungum fyrir jörðina Steinstaði í Skagafirði. ef hann mætti ekki halda jörðunni Barkarstöðum, er biskupinn hafði feingið honum og þar til tíu hundruð, „því hann sagðist hana ekki mega bíhalda sakir ofríkis biskups Jóns Arasonar á Hólum".

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2737 með hendi Orms Daðasonar „ur brefabok biskups Ögmundar" (AM.). Í hornið er ritað „forte 1527", en neðan við: „næsta brefed fyrer framan þetta er daterad 1527. Þau sem epter koma eru dat. 1517. 1521". (AM) Bréf þetta mun vera frá 1526.

Um Galltarhollt i Borgarfirdi.

Þad giörum vier[1]) Þorleifur prestur Eireksson og Andres Steinsson godum mönnum kunnugt med þessu ockar opnu brefe ad á þridiudagin næstañ epter Gregoriusmessu á längafôstu i biskupsherbergiunum i Skalhollte vorum vid[1]) i hiá. sáum og heyrdum á ord og handaband þessara manna. af einne halfu herra Øgmundar biskups i Skalhollte og annare Þormods Arasonar. ad svo fyrer skyldu oc undertoludu. ad hann feck biskupinum jordina alla Galltarhollt er liggur i Stafholltzþingum. Sagde hann þessa jörd mála konu sinnar. og hun hefde þetta samþyckt. Her i mot gaf Biskupinn greindum Þormodi jaurdina alla Steinstadi. er liggur i Skagafirde i Reykiakirkiu sokn. suo framt hann mætte ecke med lôgum hallda jordina Barckarstadi sem biskupinn hafde adur feinged hônum ok þar til x^c· þvi hann sagdist hana ecki meiga bíhallda[2]) saker ofrikis biskups Jons Arasonar á Holum. gallt biskupinn honum kross og festi gylltan[1]) þar þá strax so vid saum. vissu vid ecke betur. enn sá same krosss skyllde koma i adurgreindt jardarverd.

Og til sanninda her um et cetera.

---

1) Svo. 2) 2737; hallda 62.

282. **3. Apríl 1526.** **á Hólum.**

Jón biskup á Hólum boðar klerka milli Hrútafjarðarár og Úlfsdalafjalla til prestastefnu á Víðivöllum í Blönduhlíð föstudaginn 4. Maí (1526).

AM. Fasc. XLVII 2, frumrit á skinni með hendi Jóns biskups Arasonar.

Citatia biskups Jons.

Vier jon med gudz nad biskup a holum j hialltadal giorum godum monnum witurligt med þessu woru opnu brefe ad wier hofum sett og skipath almenniligt sinodum og prestastefnu ꝏ́ widiwollum j blaunduhlíjd j skagafirdi fostudagin næstañ epter krossmesso nv næst kæmur[1]). epter þui sem kirkivnnaʀ log vt wisa og godur gamall wane er til. Þvi bíjdium vier vm alla lærda menn og vnder skylldvga hlydne biodum þeim sem bẏggia og bua j millum hrutafiardaraʀ og ulfsdalafialla og hier epter nefnazth j þessu brefi. ad þeir kome j fyrr greiñdañ stad og dag med sinvm jnnciglum og aullu þui sem þeim ber ad hafa a prestastefnu og statuta giorer ʀꝏ́d fyrir ad traktera og skoda aull mal sem þar fram koma fyrir oss og heilaga kirkiu æ-[2]) hærer og oss ber yfer ath taka med vorum lærdum monnum. nefnum wier þar fyrstan til

sira petur palsson. ʀadzmann heilagrar hola domkirkiu.
nichulas wilhialmsson.
þorsteinn ionsson.
gilbrickt jonsson.
loptur petursson.
jon ionsson a miclabæ.
þorbiorn jonsson.
magnus gudmundzson.
gisle gudmundsson.
þorualldur olafsson.
Einar magnusson.

1) þ. e. 4. Maí. 2) og, frb.

olafur gudmundsson.
ȷon gvdmvndsson.
einar vlfsson og
bersse þorsteinsson.
presta holabiskupsdæmis.

skulu aller fyrr nefnder prestar[1]) koma ȷ adur greinda prestastefnv sem logliga stefnder wnder fulla hlýdni uid heilaga kirkiu og oss

Og til saninda hier vm sietium[2]) wier worth secretum fyrir þetta bref skrifat a holum ȷ hialltadál þridia dag paska. aʀum epter gudz burd. m. d. xx. og vi.

---

283. 8. Apríl 1526. á Reykjum.

Guðmundr Þorvaldsson fær Ögmundi biskupi til fullrar eignar allan þann arf, er Guðmundr reiknaði sér að lögum fallinn eptir Finn heitinn Þorvaldsson, gegn því meðal annars, að biskup léti kenna einum af sonum Guðmundar til prests.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2727 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabók biskups Ögmundar“ AM.

Um Fins arf.

Vier broder Øgmnnd med gudz nád biskup i Skalhollte giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. ad á sunnudagin i páskaviku á Reykium i Ølvese kom fyrer oss fatækur mann Gudmundur Þorvardzson[2]). beidde oss ok krafde uppa guds vegna. ad veita sier styrk og hiálp til. so hann og hans bǫrn skilgetin mætte ná oc fá þann arf. sem hann og fleire adrer goder menn reiknudu hans bǫrnum med lǫgum fallin vera epter Finn heitin Þorvardsson[2]). gud hans sál fride og náde. Þvi fyrer vors herra skulld. hans audmiukan̄ bænarstad. oc godra manna tillog-

1) milli lína. og er eiginlega ólesandi, en þetta orð þarf að standa hér. 2) Svo.

ur. hofum vier giört soddan giörning vid greindan Gudmund. ad hann hefur feingid oss til fullrar eignar fyrrsagdan arf allañ. Her i mot lofudum vier ad taka til vor einn af hans sonum. og lata kenna hönum suo hann mege vigiast. ef þad er hans lagnadur. svo og ad leggia hönum þar til nockra peninga. sem moguligt være. þegar vier höfum feingid og vid tekid ádurskrifudum arfe. ok peningum.

Voru þesser giorningsvottar oc nærverande menn. Sera Snorri Hialmsson. Haflidi Þordarson ok Jllugi Olafsson. hvorier ad settu sin ȷnnsigli med voru innsigli fyrer þetta giörningsbref. skrifad i sama stad ok dag sem fyrr seger. Anno Domini M⁰. D⁰. xx. vi⁰.

---

284. 9. Apríl 1526. á Reykjum.

Guðmundr Þorvaldsson fær Ögmundi biskupi til fullrar eignar, sakar og sóknar allan arf þann, er honum var fallinn fyrir norðan land eptir Finn heitinn Þorvaldsson móðurföður sinn.

AM. Fasc. XLVI, 13, frumritið á skinni. Af 4 innsiglum eru að eins leifar af hinu fyrsta fyrir bréfinu. — Afskript af bréfinu eptir bréfabók Ögmundar biskups er í AM. Apogr. 2728 og í Landsb. 62. 8vo.

Gudmundur Þorvalldsson fær biskupi Øgmunde
til eignar arf barna sinna firer nordan.[1])

Vier Augmund med gvds nád biskup j skalhollte giorum godum maunum kunniktt med þessu uoru opnv brefe æ mánadagin næstan efter paskauiku þá lidit uar fra guds burd þushundrut fimm hundrut. xx og iiij ær[2]) a reykium j auluose. kom fyrir oss einn fatækr mann sem heiter gudmundr þorualldzson beidde oss upp' æ guds uegna og laganna at hialpa sier til at hann mætte fæ þann arf sem honum uar til fallin uegna barna sinna fyrir nordañ land efter

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 2) Árni (Apogr. 2728 og Landsb. 62 8vo) vill „óefað“ telja ártal bréfsins 1526; en í bréfabókinni hefir og staðið 1524. Ártalið mun víst eiga að vera 1526.

finn heitin þorualldzson er uar modurfader fyr sagdra barna huer er uoru skilgetin og riettliga til arfs komin efter uorum riettum lands laugum. lofudum uier þa greindum gudmundi nockre hialp handa hans bornum. En hann fieck oss sagdan arf til fullrar eignar kuiktt og dautt fast og laust og eiga sauk og sokñ æ fyrrskrifudum arfe. En hann vid skildr og þeir aller kuitter sem vier kuitta gæfum. voru þessir giorningsuottar [til kallader[1]) freẏsteinn grimsson. Eẏolfur ionsson. haflide þordarson og settu sin innscigli med woru innscigli fyrir þetta bref skrifad j sama stad deige og æare sem[2]) fyr seiger.

---

**285. 9. Apríl 1526. á Reykjum.**

Meðkenning Guðmundar Þorvaldssonar um það, að hann hafi feingið Ögmundi biskupi til fullrar eignar allan þann arf, er börnum Guðmundar hafði fallið norðanlands eptir Finn heitinn Þorvaldsson.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr 2729 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar". — Í horninu stendr ártalið „1526" með hendi Arna

Um Finnz arf.

Þad medkennunst ek Gudmundur Þorvardzson[3]) ad á manudaginn næsta epter páskaviku um̄ vored anno Domini millesimo qvingentesimo vigesimo sexto. á Reykium i Olvesi. feck eg verdugum faudur i gude biskup Ogmund i Skalhollte til fullrar eignar allañ þann arf i fôstu gotse ok lausu sem minum bornum hafa til erfda falled epter Finn heitinn Þorvardsson[3]) i Nordlendinga fiordungi. Voru þesser giörningsvottar yfer og nær verande. Sera Jon Gislason. Eyolfur Jonsson. ok Haflide Þordarson.

---

1) [strykað út. 2) tvískr. 3) Svo.

Og til sanninda her um setium vier vor ]nnsigli fyrer þetta bref. skrifad i sama stad. dege ok åre sem fyr seger.

---

285. [1526].

Skrá um arfinn eptir Finn Þorvaldsson.

Landsbókasafn 62 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2730 með hendi Árna „Ur brefabok biskups Ögmundar. Þetta stendur epter bref dat[e]rad 1525 og fyrer annad dat. 1526. er annars sine anno i bokinne". Í horninu stendr ártalið „1526" með hendi Árna.

Arfur Finns.

Arfur epter Finn Þorvaldsson.
Mårstader lxc.
ok aunnur ]aurd xxc.
clx. vætter smiörs.
cc. vætter skreidar.
xxv. goder hestar og hross ad auke.
cc gelldingsklippingar.
xj. voder vadmals.
cc gelldings.
lx. Tunnur skyrs.
xx. huder.
Silfur og gull sem þeir vita er toku og aller frider peningar ad auke.

---

287. 9. Apríl 1526. í Saurbæ.
9. August 1527. á Hólum.

Tylftadómr út nefndr af Jóni biskupi Arasyni, er þá hafði kongsins sýslu og umboð í Vöðluþingi, um kæru Sigurðar Sturlusonar til Þorvalds Arnasonar um arf eða gjöf, er Sigurðr reiknaði Ólöfu Jónsdóttur konu sinni eptir foreldra sína, en Þorvaldr taldi sér hafa í erfð fallið eptir systur sína skilgetna.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Eyjafjarðarsýsla Nr. 3, afskript staðfest á Öngulstöðum 28. April 1704 af Sigurði Hrólfssyni og Jóni Þorleifssyni, eptir transskripti frá 5. Júní 1573.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Þorsteinn finnbogason. Einar Bryniolfsson. Þorgils Hakonarson. Sæmundur Simonarson. Magnus Bryniolfsson. Simon Þorsteinsson. Jon Þorlaksson. Hoskulldur Runolfsson. Þorkell Magnusson. Oddur Þorkelsson. Halldor Sigmundsson. Þorsteinn Simonarson kvediu guds og sina. kunnigt giorandi. at þa lidit var fra hingadburdi vors herra Jehsu Kristi M d xx og vj. år a manudaginn sidastan i sumri i Saurbæ i Eyiafirdi å þingstad riettum vorum vær i dom nefnder af virduligum herra biskup Jone Arasyne. er þa hafde kongsinz syslu og vmbod i Vôdluþingi. at skoda og rannsaka og dom å at leggia vm þa åkæru er Sigurdur Stullason kiærdi til Þorvalldz Arnasonar vm þann arf eda giöf er adurnefndur Sigurdur reiknadi fallit hafa Olôfu Jonsdottur kvinnu sinne epter faudur hennar og modur. Enn fyrrnefndur Þorvalldur taldi sier i erfd fallit hafa epter sýstur sina skilgetna. Nu med þvi at vær vissum ecki þar dom fyrir liggia edur nockurt skial at þeir menn hafi arf tekit sem i utlegd voro getner og frilluborner og þvi dæmdum vier þessi þeirra mål til alþingis under logriettumanna dom og þa bada skýllduga þar at koma med oll sin skilrike edur þeirra umbodzmenn. Og til sanninda hier vm setium vier fyrrnefnder domzmenn vor insigle fyrir þetta domzbref er skrifad var i Holum i Eyiafirdi faustudagin nærstan fyrir assumpcio sancte marie åre sidar enn fyrr seiger.

---

**288. 17. Apríl 1526. í Skálholti.**

Ögmundr biskup fær Erlingi Gíslasyni jarðirnar Kross og Bryggjur í Landeyjum til fullrar eignar fyrir jarðirnar Bíldudal og Dufansdal í Vestfjörðum, en Erlingr skal vera „vor mann og Skálholtskirkju til styrks og góða alla tíma“.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi GrunnavíkrJóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2718 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ogmundar“ (AM.).

Um Kross i Landeyum.

Vier broder Ogmund et cetera.

ad þridiudagin næstan epter Magnusmessu um vorid i Skalhollte Anno Domini M. D. xx. vı. giǒrdum vier soddan kaup ok ıardaskipte vid Elling Gislason. Jn primis hofum vier feingid hǒnum Kross i Landeyum og Bryggiur til fullreignar og frials forrædes med ollum þeim gǒgnum og giædum sem greindum ıordum fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu bæde til sios og landz. Her i mot hefur hann feingid oss ıardernar Billdudal i Vestfiǒrdum og Dufansdal med ollum þeim gognum og giædum. sem greindum ıǒrdum fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu bæde til sios og lands. Skal hver hallda til laga þvi er keypte. enn svare lagariptingum sem sellde. Kunne þær ıarder af honum ad gǻnga med lǒgum sem vier hofum hǒnum sellt. þǻ skal hann eiga logligan adgang aptur ad sinum ıordum. Her med skal hann vera vor mann og heilagrar Skalholltskirkiu til stýrks og goda alla tima.

Voru þesser giǒrningsvottar tilkallader. Abote Kollgrimur ur [Þyckvabæi[1]). Sera Jon Gislason. og marger adrer goder menn. et cetera.

---

**289. 19. Apríl 1526. á Eyri í Skutilsfirði.**

Dómr sex klerka, út nefndr af síra Jóni Eiríkssyni officialis Skálholtskirkju, um kæru síra Jóns vegna Vatnsfjarðarkirkju til Kolbeins Ingimundarsonar, er þá bjó í Unaðsdal á Snæfjallaströnd, að hann hefði ekki haft til reiðu torf það, er þaðan skal gefast hvert sumar til Vatnsfjarðarkirkju.

AM. Apogr. 907 „Ex originali Vatzfiord. accuraté“ (AM.). Árni lýsir innsiglunum.

Domur s(ira) Jons Eirikssonar um sekt a þvi torfskurdzhallde fyrir kirkiunne i Vatzfirde.

1) [AM. b. v.; vantaði í bréfabókina.

af unadalz eigendum. fyrir hvert halld ad
unadzdaldur fiell halfur under
kirkiuna[1]).

Ollum monnum sem þetta bref sia edr heyra sendum uier þorgils nichulassoṅ. jon olafssoṅ. halldor gunnlaugsson. olafur magnussoṅ. þorleifur biornsson. tumas olafsson klerkar kuediu gudz og sina kunnigt giorande ath sub anno gracie. ꝏ. d. vicessimo sexto a̋ fimtudagin næsta fyrir festum sancti johannis holensis episcopi vm vorit a eyre j skutilsfirde uorum vier j dom nefnder af ærligre personu sira jone eirekssyni officiali heilagrar skalholltz kirkiu ath skoda og ransaka og fullnadar dóm a̋ ath leggia um̄ þa a̋kæru er nefndur sira jon hafde og klagade uegna heilagrar uattzfiardar kirkiu til kolbeins jngimundarsonar er þa bio j unadzdal a̋ snæfiallastrond at hann hefde ecki haftt til reidu torf þat er þadan skal gefazt huortt sumar til greindrar uattzfiardar kirkiu. leiztt oss stefnan loglig og hann retteliga fyrir kalladur. beiddum uier og krofdum loglegs um̄bodzmanns þess sem logligtt suar ætte at greida fyrir greinda akæru og kom hann ecki og eigi helldur kuomu þar og fram̄ nockur prof og skilriki af hans hendi. Jtem bar greindur sira jon fram fyrir oss ath torfith hefdi alldre golldit uerith j lxxx a̋ra eda leingur. Saumuleidiz sagdizt hann hafa beidzt og heimtt af grime palsyni og þorleifi syni hans og suo af þeirra umbodsmonnum og feingit eingin skil a greindu torfe helldur ath þeir hefdi bannat þeim sem þeir bygdu at giora nockra greidzlu eda nockurt suar um̄ þessa jskylldu heilagrar kirkiu. Jtem kom þar og fram̄ fyrir oss maldagabref kirkiunar huertt ath giortt hefer herra þorarin godrar minningar biskup j skalhollte med hans oskauddu og hanganda jncigle. og af audrum parte sira snorra þorleifssonar sem uar commissarius skalholltzkirkiu generalis og specialis in spiritualibus[2]). suo hliodande j mill-

1) Þetta stóð með hendi síra Jóns Arasonar utan á transskripti af bréfi þessu og úrskurði Ögmundar biskups frá 1527, er lá meðal Vatnsfjarðarbréfa, og gert var „um þä sömu tid sem brefen eru giörd“. 2) „Þeir meina Maldagann, sem festur hefur verid vid urskurd sira

um anara orda ath til uattzfiardar kirkiu skal gefa[1]) attfedming torfs gilldan huertt sumar ur unadzdal og fǽ eyck ath færa til siofar þǽ sockttur er. Nu af þui ath vier uitum fyrir full sanninde ath domar hafa dæmder verit epter maldogum og skilrikium heilagrar kirkiu og maldagarner hafa halldner uerit fyrir stodugt logmal ȷ alla stade. þui at heilags anda nad til kalladre ath suo profudu og fyrir oss komũ dæmdum uier adur skrifader klerkar med fullu doms atkuædi eignarmenn fyrr greindrar ȷardar og suo þeirra um̃bodzmenn skyllduga ath greida attfedming[2]) torfs og hafa verit huertt sumar til kirkiunar ȷ uattzfirde. Enn sacker þess ath sira ȷon hefer beidzt opttliga ȷ þau xx ar sem hann hefer halldit titt nefnda kirkiu torfssins og eingen skil feingit dæmdum uier eignarmenn eda um̃bodzmenn skyllduga ath giallda. x. aura fyrir torfit fyrir huertt ær sidan heimtt uar ȷ fridum peningum edr friduirdum optt nefndum sira ȷone og reiknazt þat .x. hundrut. hier med dæmdum uier kirkiune ıx merkur ȷ fullrette ǽ hueriv are ȷ þau tuttugu ar er sera ȷoñ hefer halldit kirkiuna og reiknazt þetta lx hundrut og xij c. betur. skulu þesser peningar lukazt ath þrenum solum heima ȷ vattzfirde sira ȷone ȷ hond eda hans loglegum um̃bodsmanni at heyrdum dominum. fystv sol ath michilsmessu ȷ́ haust. aunnr ath næstum fardogum þar epter enn allt sie lugtt ath þrimur arum. enn ef þa eru ecki þesser peningar golldner eda forlikter uid þañn tacka ǽ þa dæmdum uier þratt nefnda ȷord unadzdal ævenliga eigñ heilagrar uattzfiardar kirkiu og þann rettelega mega ath sier taca er kirkiuna helldur enn þa skyllduga ath giallda þa peninga sem af fram̃ ganga jardar uerdenu sem þessu male eiga ath suara.

Samþyckte þennañ uorn dom med oss þratt nefndur officialis og sette sitt jncigle med uorum ȷnciglum fyrir þetta

Snorru 1360 og staðfesting Þorarins biskups 1363. hver 3 bref nu eru horfin i Vatzfirdi. enn finnast i transscripto Scalholtensi 1605. og fylgdu þä Vatzfirde. og voru þar enn þä 1649. þä Sira Jon Arason skrifadi sinar copiur“ (AM.). Þessi skjöl er nú öll að finna í Dipl. Isl. II, Nr. 380; III, Nr. 112 og Nr. 169. 1) gefazt, frbr.; AM. leiðrétti. 2) attfedmings, frbr.

domsbref er skrifat uar ȷ sama stad deige og are sem fyr seiger.

---

290. 20. Apríl 1526. á Hólum.

Jón Arason biskup á Hólum kvittar Sæmund Símonarson af reikningskap af búi Hólastaðar í Miklagarði í Eyjafirði, svo og af Hólastaðar umboðum bæði milli Varðgjár og Glerár, og milli Varðgjár og Mýrarkvíslar.

Landsbókasafn 61. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ex Orig. Gudmundar Þorleifssonar“ (AM.).

Vier ȷon med gudz nad biskup æ holum giörum godum monnum viturligt med þessu uoru opnu brefvi at ærligur mann Sæmundur simonarson hefer giört [oss] ʀeikingsskap sem oss uel æ næger af holastadar bue micklagardi ȷ eÿiafirdi og aullum þeim peningum þar til legit hafa og hann hefer umbod ÿfer haft sem er holastadar iarder um eyiafiörd millum vargiar og gleráar. Suo og hefer nefndur sæmundur giort oss ʀeikningskap af þui vmbodi sem hann hefer haft holakirkiu uegna millum vargiar og mÿrarkuislar. hefhann ȷ þessu kirkiunnar vmbodi stadit og starfat sem einn dugandismann. þui gefum uær og giörum nefndan sæmund simonarson aullungis kuittan og ækiærulausañ fyrir oss og aullum uorum ʀiettum epterkomendum holakirkiu formonnum vm allañ adur sagdan ʀeikningzskap og peninga medferder. Og til sanninda hier um setium uær vort secret fyrir þetta bref er skrifat uar i micklagardi ȷ eÿiafirdi faustudaginn næstan fyrir festum sancti ȷohannis episcopi holensis aıum epter gudz burd. ꝏ. d. xx. og vı. áar.

---

291. 28. Apríl 1526. í Geldingaholti.
16. Marts 1558. á Hólum.

Einar bóndi Oddsson og Jón Ólafsson lúka Jóni biskupi

Arasyni, í umboði Teits bónda Þorleifssonar og Ingu Jónsdóttur konu hans, jörðina Víðivelli í Skagafirði með þrem kúgildum og jörðina Ytravatn með þeim kúgilldum, er sett var í innstæðu og porcio kirkjunnar á Víðivöllum, en Teitr eigi lausn á. Hér með skyldi Jón biskup taka að sér jörðina Kalmanstungu með tólf kúgildum, og Teitr að auk lúka honum tólf hundruð í mögulegan tíma. Hér í mót skyldi Teitr sáttr, sýkn og kvittr við Jón biskup um öll misferli og hugmóð á Sveinsstaðafundi (1522), nema um víg Árna Bessasonar, auk fleiri greina, er bréfið heldr.

AM. Apogr. 3887 „Ex orig(inali) lögmannsens Pals Jonssonar Widalin. Orig(inali) inqvam, Olafs Hialltasonar, hvers innsigle hier er under, og Jons nockurs Einarssonar. hid fyrra brefed er so sem transscriptum giört af þessum tveimur mönnum" (AM.). — Apogr. 3884 (eptir sama frumriti).

Þath giorum vier grimr Jonsson. Einar Einarsson. Halldor sigrdsson. þordr gunnarsson. Gudmundr Gudmundsson. Jon Einarsson og Einar salamonsson. godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ad þa lidit uar fra Gudz burd .ϖ. D. xx. og vj ár. laugardaginn nærsta fyrir krossmessu vm uorit. j gielldingahollte j skagafirde. uorum uier j hia. saum og heyrdum æ ord og handaband virduligs herra biskups Jons arasonar af eirne alfu. og Einars bonda Oddzsonar og Jons olafssonar af annare ad suo fyrir skildu ad fyr nefnder menn Einar og Jon. j logligu vmbode Teitz bonda Þorleifssonar og hustru Jngu Jonsdottr kuinnu hans luktu biskup Jone jordina uideuelle j skagafirde med iij. kugilldum til fullrar eignar og þar med jordina ytra uatn j skagafirde. er liggr j reykia kirkiusokn. er sett var fyrir jnnstædu og porcio kirkiunnar æ uideuollum. og til skilit at Teitr bonde skyllde leysa hana til sin þa hann uillde. voru þar med v. kugillde. hier til skyllde biskup Jon arason til sin taka til fullrar eignar iordina alla kalmanztungu. og þar med xij. kugillde er kirkiañ a þar. Lofade Teitr bonde ad suara reikningskap fyr greindrar kirkiu. þat honum bære ad logum. hier til skyllde bondinn Teitr giallda biskupinum xij^c. j moguligañ tima. Hier j mote gaf og giorde biskup

Jon arason med handsolum uid adrgreinda menn Einar og Jon fyrgreindan Teit bonda Þorleifsson aulldungis kuittañ og akiærulausañ um alla þa dőma. sekter og sakferle sem hann hefer brotligr ordit vid heilaga holadomkirkiu. og biskup Jon. Suo uar og tilskilit j sama handabande ad Teitr bonde skyllde aullungis kuittr og sattr og aller hans menn uid biskup Jon. og heilaga kirkiu. vm þau misferle og hugmoda sem hann og þeir giordu a fundinum mille sueinstada og steinnes ad fraskildu uigsmalinu arna bessasonar. Skal fyrnefndr herra biskup Jon arasou mega ad sier taka frialsliga fyrgreindar jarder og peninga ad nærstum fardőgum. Enn kirkiuna a hofe skyllde bondinn Teitr lata uppgiora jnnañ xij manada forfallalaust. oc bæta hennar ornamenta. suo hun sie uel sæmd af og þar med kuittr. Suo og vm þann reikningskap og peninga kirkiunnar æ videuollum sem meire eru enn nu eru æ nefnder skal hann aulldungis kuittr um uera. fyrir asgeirsắr kirkiu peninga setr hann jord er gafl heiter. er liggr j uidedalstungu kirkiusokn. og kirkiañ uel halldiñ med sitt ornamenta. Nu ad aullu þessu til skildu skulu þeir aullungis satter sin j millum Herra biskup Jon og Teitr bonde og suo þeirra menn. huar þeir finnazt fyr edr sidar. Og til sanninda hier um settum vier fyrnefnder menn vor jnnsigle fyrir þetta bref. skrifat j glaumbæ j skagafirdi æ sama are deige sidar enn fÿr seigir.

Þath giore eg Olafr Hialltason biskup a holum og superintendens Hola biskupsdæmis. godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe ad eg visse fyrir fullnadar sanninde þath suo ordinn sattmale og skildage med fullnadar giorninge framfor mille biskups Jons heitins og Teits heitins Þorleifssonar j gielldingahollte j skagafirde og med þeirra dandemanna medalgőngu sem hier fyr skrifader standa. Og med aullum þeim sinum greinum og articulis sem j þessu fyrir skrifudu brefe standa. Og til sanninda hier vm set eg mitt jnnsigle[1]) fyrir þetta bref huert er skrifad uar a holum j hialltadal. xvj. dag marci manadar. anno Domini. ꝏ. D.lviij.

1) Fyrir bréfinu var og „s. ion : einA“. (AM.)

292. 29. Apríl 1526. á Þingeyrum.

Tveir klerkar transskribera eptir gömlum og góðum registris og rekaskrám Þingeyraklaustrs máldaga um reka fyrir Melalandi.

Eptir Klaustraskjalabók Landsskjalasafnsins með hendi Hákonar Ormssonar c. 1640. — Önnur afskript með sömu hendi er í safn i AM. 280. 4to bls. 186–187.

Wm reka fyrer Melalande.

Þad giörum vid Nichulas Vilhiamsson[1]). Þoralldur Olaffsson. prestar. godum mönnum kunnigt med þessu ockru opnu breffe. ad vid höffum sied og yfferlesed gömul og göd Registrum og Rekaskraar Þijngeyraklausturs suo latande millum annara grejna. orda og atkuæda sem hier epter filger.

Hialltabacke á Reka allann fraa Blönduöse til mots vid Gilármenn á Hunstadasand. enn Gilaarmenn eiga þadan allann reka til Hunavatsöss. þenna reka á nu allann Þijngeyraklaustnr. Þijngeyraklaustur á nu allann reka a Þijngeyrasande i millum ösa. nema þad sem tilheyrer Wndinfelle fyrer austan Osmela. Klaustrid á nu allann aasbiarnarness reka á Sigrijdastadasande frá Hoffsöse[2]) og vestur i mitt Branslön. enn Melaland á vr midiu Branslöne og vestur i Sigrijdastadaös. allann reka. á Þijngeyraklaustur. þar tuo hlute i öllum reka. og tuo hlute i Melalande.

Og til sanns vitnisburdar hier vm setium vid ockar jnsigle fyrer þetta breff. skriffad á Þijngeyrum j Hunavatsþijnge. sunnudaginn næsta fyrer tueggia postulamessu Philippi og Jacobi. Anno Domini Millesimo D°. vicesimo sexto.

---

293. 30. Apríl 1526. á Hólum.

Jón biskup Arason gefr og geldr Helgu Sigurðardóttur í sín þjónustulaun jörðina Hall-land með tíu málnytukúgildum fyrir fimtigi hundraða, en jörðina gefr Helga jafnharð-

1) Svo. 2) Svo = Hópsósi.

an Hóladómkirkju sér til prófentu, með fleirum greinum, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XLVII, 3, frumrit á skinni. og hefir aldrei verið innsiglað.

Þath giorum wier thomas prestur eireksson. rádzmann heilagrar holadomkirkiv. magnus biornsson. brandr palsson. og petur helgason leikmenn. Godvm monnum kvnnigt med þessv woro opnv brefe. at arvm eptter gudz burd. m. d. xx ok vi. Manvdaginn næstan Epter jonsmessv holabiskups. wm vorid[1]) j Salnum á holvm j hialltadæl. worum vier j hia saum og heyrdum á (at) suoddan giorningr for fram j millvm Biskups jons Arasonar ok helgu Sijgurdardottur. ad nefndr biskup jon gaf og gallt greindre helgv sijgurdardottur j sin þionvstvlaun jordina hall land og þar til .x. malnytu kugillde fyrir .l. hvndrada. Enn adur nefnd helga gæf fyrr greinda jord þá strax j prowentu med sier Heilagri hola domkirkiv sier til logligs framfæris. Suo oc sagdi biskup jon. ad greind helga sygurdardotter skylldi savma heilagri hola domkirkiv æ hweriw are til .x. avra. Medan hvn wæri til fær. hier med skilde[2]) tijtt nefnd helga sier sess hia rádzmanni. ok hafa slikt bord sem honum bæri ath hafa. Suo og atte þratt nefnd helga at hafa sina þionvstukonv. ogh Eina kw miolka wetur og svmar. þar med atte fyrr nefnd helga mega hafa hia sier Eitt sitt sonar barn edur dottur á sinn kostnad. Ef hvn villde. Ok til sanninda hier vm setium wier fyrr nefnder menn wor jncigle fyrir þetta bref Er skrifat war a holum j hialltadál æ sama áre og deige sijdar enn fyrr seiger.

---

**294.** **11. Maí 1526.** **á Þingskálum.**

Tylftardómr út nefndr af Jóni Hallssyni, kongsumboðsmanni í Rangárþingi um ágreinining hans og Sæmundar Eiríksson-

1) þ. e. 29. April. 2) Hér er i frbr. ofskrifað „helga“.

ar út af umboði því, er Jón hafði að halda vegna Hólmfríðar konu sinnar Erlendsdóttur og barna Vigfúsar heitins Erlendssonar og Guðrúnar Pálsdóttur móður þeirra.

AM. 191. 4to bls. 39—40, bréfabók Jóns skálds Hallssonar í frumriti á skinni. — AM. Apogr. 5533 að nokkru með hendi Árna Magnússonar.

Domur millum þeirra sæmundar eirekssonar og jons hallzsonar.

Ollum godum monnum sem þetta bref sia edr heyra. senda eireckur þosteinsson. jon þoruarzson. runolfur þosteinsson. tumas jonson. olafur jonsson. guidni[1]) þorarenson. jon helgason. biorn arnorsson. eireckr torfason. markus joñson. joñ jsleikson og gudmundur sigmunsson. kuediu gudz ok sina kunigt giorande med þessu opnu brefi at þa lidid var fra hingat bvrdi vors hera jesu christi. ꝳ. d. xx. og sex ǻr. fostudagin næstan fyrir halluars messu æ þingskalum æ rangarvollum æ þriggia hreppa þingstad rettum vorum ver j dom nefnder af joni hallzsyni er þa hafdi kongsins syslu oc vmbod yfer rangarþingi at skoda ok ransaka og fullnadar dom æ at legia vm þa ægreining sem var a millum þeirra adr greins jons hallzsonar ok sæmundar bonda eireckssonar vm þat vmbod sem jon hallzson hafdi ad hallda vegna holmfridar ellensdottur kuinu sinar og barna uigfus heitins ellensonar ok gudrunar pallsdottur modr þeirra sem domar þar vm giorver haufdu henne til sagt en fyr nefndr sæmundur kalladi þa til uegna gudridar vigfusdottur kuinu sinar. nu af þui at optskrifader men jon og sæmundur medkenduzt þar fyrir oss at þeir hefdi lagt þetta sama mal þa þar til laga med sier. þui at suo prouodu oc fyrir oss komnu dæmdu vier fyrr skrifader domsmenn vnderlagid logligt og optt skrifudum sæmundi uegna guidridar[1]) kuinnu sinar halft þetta adurskrifat vmbod oc titt skrifadur jon hallzson oc þau holmfridr ellensdotter med þat aullungis kuitt og med skilld vid optt skrifada eruingia uigfus heitens ellenssonar og gudrunu pallsdottur. sem sæmundur tæki vid.

Ok til sannenda hier um settum ver fyr skrifader menn vor jnnsigli fyrir þetta domsbref. hvert skrifad var æ.[2]).

1) Svo. 2) Svo endar bréfið.

295. 14. Maí 1526. hjá Einarshöfn.

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna útnefndr af „ærlegri persónu“ síra Jóni Árnasyni um kæru Ögmundar biskups til Jóns Gíslasonar, út af því að Jón hafði stungið jörð biskups í Selvogi.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2733 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM).

Domur um Landnæm Anno M⁰. D⁰. xx⁰. vi⁰.

Øllum mönnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Þormodur Gunlaugsson. Biörn Olafsson. prestar. Jon Haflidason diakne. Magnus Peturson. Þorsteirn Biörnsson ok Dagstiggur Helgason. leikmenn. kvediu gudz ok sina. kunnugt giörande ad sub anno gratiæ M⁰. D⁰. xx⁰.vi⁰. manudagin næsta epter uppstigningardag um vored nærre Einarshöfn á Eyrarbacka. vorum vier i dom nefnder af ærlegre personu sera Joni Arnasyni. ad skoda og ransaka og fullnadardom á ad leggia um̃ þá sök og akiæru sem verdugur fader i gude Herra Ogmund med guds nád biskup i Skalhollti kiærdi til Jons Gislasonar ad hann hefde stunged jord hans i Selvoge. medkendest greindur Jon Gislason þar stefnuna fyrer oss. ok so beiddunst vier þar hans svars og afbötunar. ok med þvi hann kunni ongva logliga afbötun þar framme ad hafa. þá dæmdum vier i fyrstu stefnuna löglega. ok hann löglega fyrer kalladan̄. Her med dæmdum vier hann sekan̄ fyrer landnám ok averkabot. sem landslaga bokin̄ utvisar. Ef i er ort jord kongs edur biskups. So dæmdum vier hann i forbode. ok hann skylldugan ad taka lausn og skript af biskupinum og sekan̄ fyrer ohlydne sina heilagre Skalholltskirkiu. xxx. merkur oc biskupinum annad. .xxx. marka et cetera.

---

296. 29. Maí 1526. í Skálholti.

Vitnisburðr tveggja klerka, að þeir hafi heyrt erkibiskupinn

i Niðarósi lýsa því, að bréf það, er hann ásamt ráði Þrándheimsdómkirkju hefði út gefið og sent Ögmundi biskupi til lögsagnar yfir Hólabiskupsdæmi, skyldi vera fullmektugt og hann þar fullmektugar biskup og eiga fult fyrir sitt ómak.

AM. Fasc. XLVII, 4, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 2934.

Vitnisburdur sira iorvndar oc þorkels (!) diakna vm administrationem Holastols og kirkiu Anno 1526.[1])

Þad giorum vid iorvndur prestur steinmodzson og þorstein diakni þorkelsson godum monnum kunnigt med þessv okkru opnu brefi ath vid heyrdum virduligan faudur j gudi Erchibiskup olaf lysa þui fyrir okkur vppa melhus j noregi fimta dag iola. ath þad bref sem hann med heidursamligazta radi þrandheims domkirkiv hafdi vt gefit og sent sinum brodur biskup augmundi til laugsa(g)nar yfer hola domkirkiu skylldi vera fvllmegtvgt j avllum sinvm greinvm og articlis[2]) og hann þar fullmegtvgur biskup sem j sitt eigit stikti þar til ath biskup ion kom til stolsins. og þeir skylldv skikka honum fullt fyrir sitt omak er hann hefdi nu til skikkat ath seigia laug þeirra aa millum. ef þeir kyni ecki audrv uis forlikazt. hier epter vilium vid sveria ef þurfa þiker. Og til sanenda hier vm festvm vid okkur jnsigli fyrir þetta bref skrifad j skalholti. iiij kaleñdas dag iunij anno domini ꝏ d xx vj.

---

297. 27. Júní 1526. á Þingvelli.

Ögmundr biskup í Skálholti dæmir og úrskurðar í prestastefnu börn Guðmundar „Þorvarðssonar“ löglega til arfs komin eptir Finn heitinn Þorvaldsson, undir þá grein, er bréfið hermir.

Bisk. Skalh. Fasc. XIX, 60, frumrit á skinni. Öll innsiglin (3)

1) Utan á bréfinu með tveim höndum gömlum. 2) Svo.

(3) eru dottin frá. — AM. Apogr. 2402 „accuraté" eptir frumritinu. Það, sem hér stendr í hornklofum, var dottið úr frumritinu á dögum Árna.

arfabref.[1])
Skilgetningarbref arnors kocks og hans bræðra[2]).

Vier ogmund med gud[s nad] biskup j skalhollti heilsum ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra kiær[liga me]d guds kuediu og uore kunnigt [gio]randi at sub anno gracie ꝏ. d. xx. vj. miduikudaginn næsta fyrir peturs messu og pals [a] þinguelli. j almenneligri prestastefnu kolludum uier til doms med oss ærligar personur sira einar snorrason. sira þolleif eireksson. sira narfa þorsteinsson. sira gudmund steinsson. eirek bonda þorsteinsson og jon magnusson. at skoda og ransaka um̃ skilgetning barna gudmundar þoruardssonar og aunnu finnzdottur. konu hans. og saker þess at anna kona hans uar suarin af augutto modur sinne. og sa prestur uar þar er medkendizt fyrir oss at eidinn hefdi tekid af henne. og finnur heitinn þoualldzson ueitti greindri aunnu medgaungu so goder menn heyrdu. þui j guds nafne amen oss i domsæte sitiande. og fyrgreindum personum næruerandi. dæmdum uier med fullum laga urskurdi sönu gudmundar þoruardssonar þoruard. eystein og arnor[3]) og aunnur hans baurn skilgetin̄. og logliga til arfs komin epter finn heitinn þorualldsson modurfaudur sinn. og allra annara arfa þeirra sem þeim kunnu med laugum til at falla. epter rettu erfdatali. og aunguer eru adrer nær. Samþycktu med oss þenna uorn urskurd fyrgreindar personur. og settu sin jnsigli med uoru jnnsigli fyrir þetta urskurdarbref skrifat j sama stad degi og ári sem fyrr seger.

---

1) Utan á bréfinu með samtiða hendi. 2) Utan á bréfinu með nokkru yngri hendi. 3) hér stendr í frumritinu „et cetera", sem er útstrykað.

298. 28. Júní 1526. á Þingvelli.

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna útnefndr í prestastefnu af Ögmundi biskupi um jörðina Víðimýri í Skagafirði, er Ögmundr biskup reiknaði sína eign.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2719 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM.).

Domur um Videmmyre.

Øllum mönnum þeim sem þette bref siä edur heyra senda[1]) abote Kollgrimur med guds näd af Þyckvabæ. Einar Snorrason officialis. Narfe Þorsteinsson. prestar Skalholltsbiskupsdæmis. Eirekur Þorsteinsson. Jon Þorvardsson og Jon Magnusson logrettumenn kvediu guds og sina. kunnugt giörande ad sub anno gratiæ M.° D.° xx°. vi°. fimtudagin næstan fyrer Peturs messu oc Páls i almennilegri prestastefnu ä þingvelle. vorum vier i dom nafnder af ærligum herra og andligum fôdur herra Ogmund med guds näd biskup i Skalhollti. ad skoda oc ransaka ok fullnadar Dom ä ad leggia um þad mäl sem herra biskup Ogmund bar þar fram̃ fyrer oss. ok tilkemur um ȷordina Videmyri i Skagafirdi. hveria hann reiknadi sina eign vera epter þeim brefum og skilrikium sem hann tiede þar fyrer oss. Jn primis kom þar fram̃ fyrer oss oped bref under ᴅändimanna heilum og ösködddudum ȷnnsiglum svo latanda. ad Þorsteirn bondi Finnbogason gaf Olafe Dadasyni frænda sinum med handabandi til fullrar eignar og frials forrædes ȷordina alla Videmyri er liggur i Skagafirde fyrer vestan vatn[2]) hveria hann reiknadi tiutige hundrada med ollum þeim gôgnum og giædum sem henni hefur fylgt ad fornu og nyu. svo sem hann vard fremst eigande ad. ok ad suo felldum skilmäla ad ef Olafur Dadason feinge Katrinu Torfadottur sier til eiginkonu. sem þä var äformad. ok ef misdaude þeirra kynne so verda sidar meir ad hun lifde hônum leingur. oc ættu þau eingin skilgetiñ biorn ä life. þä skillde fyrrnefndur Þorsteirn bonde Finnbogason þad til. ad greind ȷord Videmyre skyllde gialldast

1) b. v. AM.; hefir vantað í bréfab. 2) Svo.

fyrrnefndre Katrinu i sina Tilgiöf. lx. hundrada þar utj. enn hun leysa fyrer fulla peninga til sin þad jordin profadist dyrre en. lxc. Samþyckte allan þennan giörning med fullu handabande Cecilia Torfadotter egiñkvinna Þorsteins bonda Finnbogasonar. Jtem kom þar fram̃ annad bref under godra manna jnnsiglum svo lǻtande. ad þeir voru[1]) þar nærre. er Sigurdur Dadason rettur Erfinge Olafs Dadasonar brodur sins gallt Katrinu Torfadottur. lxc. i fyrrsagdre jördu Videmýre i sina tilgiöf. Enn þad sem jordiñ er dyrre en lxc. þa gallt hann henni i sinn mǻla. Jtem i þridiu grein kom þar og fram̃ in scriptis bref under dandimanna innsiglum. hvar so inne stod ad Katrin Torfadotter bifalade adurgreindum herra Øgmundi nefnda jord Videmyre til fullrar eignar oc frials forrædes undan sier og sinum Erfingium med öllum̃ þeim gögnum og giædum sem greindri jördu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. Þvi ad heilags anda nǻd til kalladre. ad suo profudu og fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms atkvæde optskrifada jaurd Videmýre vera og verid hafa laugliga retta eign herra biskups Øgmundar sidan adurskrifadur giörningur for fram̃ millum biskup(s) Øgmundar ok Katrinar Torfadottur. ok hann alla sockn og ǻkæru eiga og ǻtt hafa ǻ sagdre jördu hver sem hana helldur og hallded hefur hingad til i mot hans vilia et cetera.

---

**299.** **1526.** **á Þingvelli.**

**Dómr** útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti um vígsbætr eptir sira Vigfús Runólfsson.

**A.**

**Dómabók Landsskjalasafnsins frá Jóni bæjarfógeta Magnússyni í Fol. bl. 134a, skr. c. 1600.**

Domur sem gieck æ þijnguelli æ almenniligri prestastefnu Anno 1526.

---

1) leiðr. AM. fyrir „vore“.

[Þenna wigfus wo þoruardur[1]) ȷ brud-
kaupi Þorleifs Einarssonar ȷ hitardal.[2])

Dæmdist ȷ wijgsbætur epter sera Wighfus Runolfsson þrenn manngiaulld sem war sextijer hundrut epter Gaumlum domum og Biscupinum hæsta fullrietti.

Woru þesser menn þar til nefnder·
aboti kolgrijmur.
Einar Snorrason.
Þorleifur Eirijksson.
Halldor Týrfingsson.
Sæmundur Arnason. og
Jon Arñason. prestar skalholltz biskupsdæmis.
Eirijkur Þorsteinsson.
Jon Þordarson.
Narfi Sijgurdzson.
Jon Magnusson.
Erlijngur Gijslason. suarñer laugriettumenn.
Nefñdi biscup Augmundur þessa menn til doms.

## B.

Dómabók í 4to bl. 263 með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, skr. c. 1620 (ártalslaust = $\alpha$). — ÍBfél. Khd. 309, 8vo bl. 123 a—b með hendi Ara Magnússonar í Ögri c. 1620. — ÍBfél. Kh. 125A. 4to bl. 45—46. skr. c. 1680 eða fyrri. — ÍBfél. Kh. 205. 4to nýleg hönd. — ÍBfél. 339. 8vo bls. 40, skr, c. 1750. — Landsbókasafn 101. 4to bls. 171—172 (síra Jón í Hitardal). Ágrip af þessum dómi er til í fjölda af dómabókum.

Dőmur vm̄ prestwijg [sem gieck a þiingwelle
a almenneligri prestastefnu arum epter lausnarans
fæding 1526.[3])

Dőmsmenn Abote Kollgrjimur. Einar Snorrason. Þorleifur Eireksson. Halldőr Tirfingsson. Sæmundur Arnason oc[4]) Jon Arnason. prestar Skálholltzbiskupsdæmis. Jon Magnusson. Eirekur Þorsteinsson. Jon Þordarson[4]). Narfe Þor-

1) Svo hdr. 2) [[ritað á spássíu með annari, en samtíða hendi (c. 1600). 3) [b v. 309; ártalið er óyggjandi, og stendr í nær öllum handritunum. 4) b. v. 309, 5) Þorvarðsson (!) 125,

steinsson.[1]) [Narfi Sigurdsson[2]) og Erlingur[3]) gijslason. suarner lögriettumenn.

vtnefnder af Biskup Augmunde Pálssýne á almenniligu auxarárþijnge.

Dæmdum vier j vijgsbætur eptir sira Wigfvs Runolfsson þrenn manngiolld. sem ad er lxc. eptir gomlum dőmum. og Biskupinum hæsta[4]) fullrietti[5].)

Samþyckte þennañ vorn dom[6]).

---

**300. 1526. á Öxarárþingi.**

Tylftardómr útnefndr af Erlendi lögmanni Þorvarðssyni um þegngildi eptir sira Vigfús Runólfsson.

ÍBfél. Kh. 309. 8vo bl. 123b með hendi Ara Magnússonar í Ögri c. 1620. — Dómabók í 4to bls. 263 með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1620. (= *b*). — Dómabók Landsskjalasafnsins frá Jóni bæjarfógeta Magnússyni í Fol. skr. c. 1600. — ÍBfél. Kh. 125 A 4to bl. 46a, skr. c. 1680 eða fyrri. Ágrip af þessum dómi er til í fjölda af dómabókum.

Dæmt konge þegngilldi eptir prest.

Domur sem ellendur þorwardsson logmann dæmdi a alþingi 1526[7]) ær ad kongur skilldi taka þegñgilldi so eptir prest sem adra menn [epter þui[8]) sem adur hafa domar [um̄[8]) geingid oc þui dæmdist konginum xiij merkur [j þegngilldi[8]) epttir sijra Wichfws heitinn Runolfsson[9]).

Woru þessir domsmenn Eirekur Þosteinsson. Loptur Eyolfsson. Jon Þorwardsson[10]). Jon Eireksson. Snæbiorn Gijslason. Olafur Jousson. Skwli Tumasson[11]). Arnbiorn[12]) Einarsson. Þordur Þosteinsson. Eirekur Snorrason. Biorn Arnorsson[13]) og Gudmundur Einarsson.

huerir ad settu sijn ịnsigli [fyrir þenna dom et cetera[14]).

---

1) *a*, 125, sl. hin; 2) b. v. 125 309 o. fl. 3) 309 o. fl.; Tyrfingur *a* (!). 4) 309. 101 ofl; stærsta *a*. 5) enn konge xiij merkur b. v. 339. 6) „í brúðkaupi Þorleifs Einarssonar í Hítardal vó þennan sira Vigfús Þorvarðr“, setr síra Jón Halldórsson á spássíu í 101. 7) 1528 (!) *b*. 8) b. v. *b*. 9) b. v. ofl. 10) þormodsson *b*, 125 (!). 11) Runolfsson *b*. 12) Asbiorn (!) *b*, 125. 13) Arnason *b*, 125; er rangt Björn var sonr Arnórs Finnssonar. 14) [b. v. J. M.

[Samþyckte þennañ vorn dőm Lőgmadurinn og oll logtañ et cetera[1]).

---

301. 1526. á Öxarárþingi

Alþingissamþykt um fullrétti manna og um kaup bartskera á því að lækna menn af sárasótt.

Samþykt þessi fæst nú ekki í neinum vel fornum handritum og heldr ekki í neinni þeirri mynd, er hægt sé með vissu að fullyrða, að sé hið upphaflega ummál og orðalag samþyktarinnar. Verðr því að prenta samþykt þessa í mörgum hömum.

Ártal ssmþyktar þessarar og nafn lögmanns þess, er lét lögtaka hana, stendr að eins í yngri afskriptum samþyktarinnar. Þó er það hvorugt út af fyrir sig tortryggilegt, og árið 1526 sýnist í heild sinni koma hezt heim við báða liði þessarar samþyktar. Sárasótt er á þessum tímum svo mögnuð hér á landi, að 1525 gerir Ögmundr biskup sérstakan samning við Lazarus bartskera Mattheusson (Skáneyjar-Lassa) um lækning þessa sjúkdóms á landsfólkinu (Nr. 262 að framan). Gæti því legið beint við, að kaupalag á þessum lækningum hafi verið sett með lögum einmitt um þessi ár, og er því ártalið 1526 einmitt hið líklegasta, hvað þennan hluta samþyktarinnar snertir. Það er og eingan veginn hið ólíklegasta að því er ákvæðin um manngildi og fullrétti manna snertir, því að einmitt það ár (1526) kom til greina að meta á Alþingi bætr og þegngildi fyrir prestsvíg, sem var sjaldheyrt mál, eins og sjá má af næsta skjali hér á undan. Og gæti það hafa atvikað almennari ákvæði um réttarfar manna.

Það, sem Páll lögmaðr Vídalín telr í Fornyrðnm sínum (Rvík. 1854 bls. 410) móti lögheimild þessar samþyktar, er ekki á nægum rökum bygt.

A.

AM. 147. 4to bls. 205, skinnbók (Heynessbók), og er þessi kafli bókarinnar skrifaðr 1598 eða skömmu þar eptir. Hér kemr þetta ekki fram sem samþykt, heldr sem fróðleiks eða minnisklausa. Þó er það úr samþyktinni frá 1526.

logmans fullrietti er ıx merkur.
syslumans riettur vij merkur.

---

1) [b. v. *b*.

logriettumans v merkur.
hreppstiora iiij merkur.
sliettur madur þriar merkur.
prestur v merkur.

B.

Skrifað með hendi frá c. 1600 inn í eintak af Jónsbók prentaðri á Hólum 1578 (1580), sem eg fékk 26. Júlí 1903 frá síra Þorvaldi Jakobssyni í Sauðlauksdal.

til minniss.
Nefndarmannz fullretti .v. merkur.
hreppstiora fullretti .4. merkur.
skattbonda fullretti .iiij. mörk.
frialz mannz fullretti. .iiij. mörk.
Biskupz og Logmannz } fullretti. 12. merkur.
profastz og syslumannz } fullretti .9. merkur.
prestz og logrettumannz } mannz[1]) fullrette v merkur eda vj merkur.

---

hreppstiora fullretti. 4. merkur.
skattbonda fullretti .iiij. mörk.
frials mannz fullretti. mörk iij eda iij merkur. þar til eru ecki vtan halfrettismenn.
Diackna. og hreppstiora fullretti er .v. og half fimta mörk.
Þetta adurskrifad er alþingis samþyckt.

C.

Dómabók í 4to bls. 168, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1620. (= a). — ÍBfél. Khd. 125A. 4to bl. 30, skr. c. 1660—1680.

Þesse fullriette tekin Effter gomlum Dőmum dőmkirkiunnar[2]).
[3]) Biskups og Logmanns fullrietti .xij. merkur.

1) Svo. 2) Huad hatt fullrietti huor skal taka. Wmm fullrietti þetta Effter gomlum domum 125. 3) Domkirkiunnar, b. v. hér 125.

[Domkirkiunnar fullretti. xv. merkur[1]).
kirkna. profastz og syslumanna[2]). ix. merkur.
[presta og logriettumanna .v.[3]) merkur.
diakna og hreppstiora iiiiȷ mork.
[skattbændur og 4 merkur[4])
dugliger menn megandi iiij merkur. [edur og iiiȷ mork[4]).
almugamenn [megandi[5]) iij merkur. [þeir ecki eru ȷ skatti.
og aungum̄ oknittum̄ kiendir og iiȷ mork.[6]).
þa eru halfriettesmenn.

## D.

Landsbókasafn 65. 4to I, 14, með hendi Jóns dans Magnússonar á Eyri, um 1640.

Alþingis Dőmur vm fullriette og Barskerakaup.

Alþıȷngis samþyktiñ er.

sliettum nefndarmanni 5 merkur.

Jtem hreppstiőra nafnbőtarlausum ad ødru half 5 mork.

Jtem skattbőnda 4 merkur.

Enn þeirra manna fullriette er ei eru ȷ skatte og ad øngum őknyttum kender er 3 og iiȷ mork. þar til ecki eru vtan hălfriettismenn.

J ødru lagie Biskup og løgmadur taka ȷ fullrette huor vm sig 9 merkur. enn profastur og sẏslumadur taka 6 (merkur).

Einfalldur prestur og løgriettumadur 5 merkur enn þă þeir reka sitt embætte taka þă 2 fallt.

Var þad og dæmt ă alþıȷnge. ad barskerar skylldu ei taka meira kaup ă sărasőttarmenn enn hundrad ă þeim sem mest þyrffte. enn minna ă hina og þő med þui mőte ad þeir være nockru nær. ella græde afftur med sama kaupe. enn ef ecki tekst grædslañ. giallde so micid honum sem grædslan kostar.

Vm fullriettis hæd Jmsra manna. Biskup og logmadur 9 merkur. profastur og sýslumadur vj merkur. prestur og lögrettumadur 5 merkur. hreppstiöre halfa fimtu mork. sliettum ærligum manni iij merkur og iiȷ mork.

Barsker(a)kaup jc.

1) [sl. 125. 2) fullrietti, b. v. 125. 3) [Prestar og lögriettumenn tilkomulitler vj, 125. 4) [bætt við síðar með öðru bleki, en sömu hendi í *a*; sl. 125. 5) lijtilmagnar, 125. 6) [sl. 125.

E.

MSteph. 62. 4to, bl. 142 a—b, skr. c. 1640—1650.

Þetta Epterskrifad epter Handskrift Arna heitinz Gijslasonar.

Jafnt fullrietti skulu taca nefndarmenn sem prestar. ix merkur huorer fyrer sig epter gomlum domum. ef þeim er misþýrmt ä siälfz sijnz lijkama med ordum edur verkum. Var þad oc domur ä alþingi. ad Barskierar skylldi alldrej. meira kaup taka ä särsottarmenn enn hundrad ä þann sem mest þyrfti vid enn minna ä hina. oc þo med þui moti. ad þeir væri nockru nær elligar grædi aptur med sama kaupi. Enn ef eij tekst grædslan. gialldi fyrer so micid sem grædslan kostar.

F.

Ny kgl. saml. 1947.a 4to bl. 50a, skr. c. 1660. — Landsbókasafn 68. 4to bls. 124 (Baugstaðabók), skr. c. 1690.

[Domur á Alþingi[1]), að barskerar skyldu aldrei[2]) meira kaup taka[3]) [á sárasóttar menn[4]) en hundrað á þann, sem mest þyrfti við, en minna á hina, og þó með því móti, að þeir væri að[5]) nokkru nær, ellegar græði[6]) aptur með sama kaupi. En ef ei[7]) tekst græðslan, [gjaldi aptur[8]) fyrir svo mikið sem græðslan kostar.

G.

Landsbókasafn 6. Fol. bl. 185, skr. c. 1640 (Tiglabók).

Alþingis Samþýkt vm fullretti.

| | |
|---|---|
| Sliettum Nefndarmanni . . . . . . . . . . | v merkur. |
| Hreppstiora Nafnbotarlausum . . . . . . | half v mork. |
| Skattbonda . . . . . . . . . . . . . . | iiij. merkur. |

Enn þeirra manna fullriettj sem ecki eru i skatti og þo ad aunguum oknyttum kender iij merkur og iij mork. þar til ad eckj eru vtan halfrettismenn.

1) [Alþingisdómur 68. 2) ei 68. 3) sl. 68. 4) [sl. 68. 5) b. v. 68 6) græddu 68. 7) ecke 68. 8) [fyr gildi 68.

## H.

Landsbókasafn 788. 4to bl. 24, skrifað c 1640.

Alþyngis samþeckt[1]) vm fullriette.

Fullriette skulu neffndarmenn taka 5 merkur.

Suo lijka hreffstiorar[1]) naffnbotalauser halff eñ 5.

Skattbændur iiij merkur.

enn þeirra manna fullriette sem ecke eru ad oknittum kiender iij merkur och halff eñ þrijdiu. þar tihl ad eru ecki vtañ halffrettismenn.

Eige giorest manne fullriette firr enn halffrar merkur skade ehr á penijngum hanns. þo hann sie sleigenn edur Barinn. þar minne sem skadinn er minne.

## I.

Landsbókasafn 812. 4to bl. 52b, með hendi Hannesar Gunnlangssonar í Reykjarfirði c. 1660. — AM. 65a. 8vo bl. 10b og 11a kver Bergsteins Bjarnarsonar í Skildinganesi, skr. c. 1670 og kallast þetta þar: „Vm fullrette dæmt“ og „skamtur á manngiölldum“ (nokkuð stytt).

Alþingis Samþickt vm̄ fullrette.

Fullriette slietts mans þriar merkur.

nefndarmannz fimm merkur.

hreppstiora half 5 mork.

skattbonda 4 merkur.

þeir ei eru i skatte og þo ad ongum oknýttum kiender[2]) half 3 mork.

sijdan eru halfriettismenn.

profastur og syslumadur 6 merkur.

Byskup og logmadur 9 merkur.

sliettur prestur 5 merkur.

epter þuij skal manngiolld dæma sem madur tekur fullriette. Þrælsgiolld 15c. sa sem teckur 4 merkur i fullriette dæmist 40c.[1]) manngiolld. sa sem teckur 6 merkur i fullriette dæmist 60c [3]) i manngiolld.[4]).

1) Svo. 2) þriar merkur og b. v. 65. 3) 30 hundruð 65. 4) I Landsb. 812. 4to bl. 101b stendr enn fremr þetta:

„fullriette lærdra manna.

Einfalldz prests fullriette v merkur.

K.

AM 60. 8vo I, 47b, skr. c. 1661—1690.

Fullrietti af Logmanni Ellendi Þorvardssine sett.

Biskups, Logmanns } 9 merkur.
Profasts, Syslumanns } 6 merkur.
Prests, Logriettumanns } 5 merkur.
Diakna, Hreppstiora, Skattbændur } 4 merkur.
Odalsmanns $4^1/_2$ mörk.

Slietts manns 3 merkur.

Enn sie þessum misþýrmtt nær þeir reka sijn Erinde þæ taki Tuofalldann Riett.

Domkirkiu fullriette effter Gömlum Domum .xv. merkur.

Kirkna fullrietti ıx merkur.

L.

Bókmentafélagssafn Khd. 531. 8vo bls. 79, með hendi Hálfdanar lögréttumanns Jónssonar á Reykjum í Olfosi, ritað 1706.

Vm fullriette.

Alþıȷnges samþyckt 1526 af Erlende løgmane.

Biskupz og Løgmanns 9 merkur.

Profastur og Syslumadur 6 merkur.

Prestur og Løgriettumaduur 5 merkur.

Diakne og Hreppstiore 4 merkur.

Skattbonde $3^1/_2$ mörk.

Fatæker og Radvander 3 merkur.

---

profast(s) 6 merkur.

biskup(s) 9 merkur.

enn kunne þeir logmonnum misbioda. giallde þeim fullriette epter 6 manna skynsamra dome“.

Þa eru halfriettesmenn $1^1/_2$ mork.
Domkirkiu fullriette 15 merkur.
Annara kyrkna 3 merkur.
Fiar fullriette 3 merkur.

## M.

Advocates Library Collect. F. M. 25. 4to (21, 3, 10), skr. c. 1740—50. Bók Jóns Hjaltalíns á Rauðará.

Alþingis samþykt af Erlende Þorvardssyne logmanni vm fullrette 1526.
Biskups og logmans .vj. merkur.
Profastz og syslumanz .vj. merkur.
Prestz og logrettumans .v. merkur.
Diakna og Reppstiora .iiij. merkur.
Skattbænda .iiij. mork.
Fatækra og radvandra .iij. merkur. þar til ero ecki vtann halfrettismenn.
Domkyrkiunnar .xvj. merkur.
Annara kyrkna .iij. merkur.
Jtem ønnur de eodem.
Nefndarmanni nafnbotala'sum ad ødru v. merkur.
Reppstiora nafnbotala'sum ad ødru half fimta mork.
Skattbonda .iiij. merkur.[1])
Enn þeirra sem ej ero j skatte og ei ad oknyttum kender iij merkur. og iij mork þar til ero eckj nema halfrettismenn.

## N.

Landsbókasafn 70. 4to bls. 376, skrifað c. 1800—1820.

Um fullriette
Alþings Samþickt af Erl(endi) lögmanni Þorvardssyni
Anno 1526.
Biskups og Logmanns 9 merkr
Profasts og Syslumanns 6 —
Prests og Logriettumans 5 —

1) Í ÍBfél. Khd. 309. 8vo bls. 121 (Öxnafellsbók) stendr: „Vm fullriette manna. Jtem hefur dæmtt vered skattbonda iiij merkur j fullriette. Enn iiij merkur hreppstiora suo og v merkur nefndarmanne“.

Diakna og Hreppstiora 4 merkr
Skattbænda fullriette $3^1/_2$ —
Slietts mans 3 —
Domkyrkiu fullriette 15 —
annara kyrkna 3 —

Enn sie þessum Embættesmonnum misþyrmt nær þeir sin Eyrende Reka þa taka þeir tvofalldt fullriette.

## O.

Thottssafn 1500. 4to, párað aptan á brot af Eddu á pappír frá 17 öld; er þetta með hendi frá c. 1750. Þetta er að sumu leyti bygt á Alþingissamþyktinni 1526, en að öðru leyti fróðleiksklausa, og er á þann hátt einnig látið fylgja hér.

Fulrétti biskups, lögmanns, prests, lögréttumanns og eðalmanns og jarðeiganda meður hreppstjóra og slétts manns.

Fullrétti biskups og lögmanns er ix merkur.

Prófasts og sýslumanns fullrétti vij merkur.

Prests og lögréttumanns fullrétti er vj merkur.

En þeir sem reka sitt erindi hafa tvöfaldan rétt ef misþyrmt er.

Eðalmanns fullrétti hálf fimta mörk.

Jarðeigandi manns fullrétti iv merkur.

Skattbónda fullrétti iiij merkur.

Hreppstjóra fullrétti .iij. merkur.

Slétts manns fullrétti half þriðja mörk eða iij merkurnar, þar til ekki er utan halfréttismenn.

Dómkirkjunnar fullrétti xviij merkur.

Kirkna fullrétti ix merkur.

---

**302. 5. Júlí 1526. á Þingvelli.**

Dómr sex klerka útnefndr af Ögmundi biskupi í prestastefnu um ákærur sira Þorleifs Björnssonar til Torfa Björnssonar út af haldi á jörðunni Sæbóli.

Landsbókasafn 42. Fol. bls 132—133 með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti c. 1666. — Landsbókasafn 115. 4to I, bls. bls. 29—31, með hendi síra Jóns Halldórssonar í Hítardal c. 1730.

Dőmur wm Sæből.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra señda Kollgrijmur med Gudz nắd Abote í Þyckuabæ. Einar Snorrason. Narfe Þorsteinsson. Halldor Tyrfingsson. Þorleifur Eireksson. Sæmundur Arnason prestar Skalholtsbiskupsdæmis kuediu Gudz og sina. kunnugt giorande ad sub Anno gratiæ 1526 a fimtudaginn epter Peturs messu[1]) og Pæls a þingvelle j almennelegre prestastefnu worum vier j dom nefnder af erligum herra og andligum faudur Øgmunde med Gudz nắd biskup j Skalholte ad skoda ransaka og fullnadardom a ad leggia wm þær saker er Sira Þorleifur Biornsson kiærde til Torfa Biornssonar ad hann hiellde fyr ir sier jordum frijdum peningum og algiordu bue a Sæbole. kom þar fram fyrer oss bref Biarnar Þorleifssonar med heilu og oskoddudu hans hangande jnsigle so latande millum annara orda ad hann gaf og gallt sira Þorleife syne sinum j arflausn mots vid onnur sin syskin þessar jarder er so heita. Sæbol. Willingadalur. Brecka med ollum þeim gognum og giædum sem greindum jordum fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu og hann vard fremst eigande ad epter sinn faudurbrodur Jon heitinn Biornsson. Hier med skyllde hann allañ abata og avogst bæde sækia og sekta og semia og fullar saker a gefa sem hann sialfur ætte þeim sem þa hafa rangliga halldid. So og kom þar fram bref sira Jons diakns Gudmundssonar med hans oskoddudu hangañde jnsigle so latande ad hann medkiende ad hann var þar j hia og[2]) sa og heyrde[3]) ad Sira Þorleifur Biornsson stefnde Torfa Biornssyne j almenneliga prestastefnu midvikudaginn edur fim̃tudaginn næstañ epter[4]) Peturs messo [og Pals[5]) nu j sumar ed kemur fyrir heidarligañ herra og andligañ faudur biskup Ogmund fyrir þa sok hann hiellde rangliga fyrir honum þeim parte er hann hafde ad sier tekit epter faudur sinn Biorn Gudnason af arfe Jons[6]) heitins Biornssonar. Og fyrir

1) 115; sl. 42. 2) sl. 115. 3) á b. v. 115; 4) 115; fyrir 42. 5) [b. v. 115. 6) 115; Jon (!) 42.

þær fleire saker er j stefnunne standa. og Torfe stod so nær ad hann matte heyra stefnuna ef hann villde. war þar og hia Jon Þorgautsson og fleire adrer hans menn og mattu þesser aller heyra stefnuna. þui giaurdum wier stefnuna loglega ad svordum eide diaknans og Torfa Biornsson loglega fyrer kalladan. og sekan mork j stefnufall. þvi ad Heilags anda nad tilkalladre ad ollu so profudu og fyrir oss komnu dæmdum vier fyrrnefnder dőmsmenn med fullu doms atkuæde epter þeim brefum. domum og vrskurdum sem ædur hafa dæmder verit wegna Biorns Þorleifssonar faudur fyrrgreinds sira Þorleifs Torfa Biornsson og alla adra þa sem hallda og halldit hafa fyrrskrifada peninga skyllduga aptur ad skila jaurdum og frijdum peningum med laga avegste jnnan halfs manadar ad heyrdum dőmenum. Enn Sæbole og þvi bue þar til heyrer og Biorn tok þegar strags ad Þorleifur heimter edur hans loglegur umbodsmadur. Enn jordunum er Sigrijdur Biornsdotter helldur Gerdhőmrum. Arnarnese og Skaga. og ollum audrum jaurdum med landskulldum og tollum med sama hætte sem fyrr seiger jnnan halfs manadar [ad heyrdum dőminum[1]) optnefndum sira Þorleife edur hans logligum vmbodzmanne. Enn villde þeir ej aptur leggia þa skyllde sira Þorleifur riettelega meiga ad sier taka fyrrskrifadan arf. jarder og peninga. hvar [sem[1]) þeir standa.

Samþyckte þennan vorn dom med oss virdugligur herra biskup Øgmundur og sette sitt jnsigle med vorum jnsiglum fyrir þetta domsbref. skrifad j sama stad et cetera.

---

**303.** **3. Agúst 1526.** **á Skriðu.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna útnefndr af Ögmundi biskupi, þar sem jörðin Dvergasteinn í Seyðisfirði, er dæmd eign kirkju og biskups fyrir fyrning, fornan reikningsskap, innstæðu og ornamenta.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups.

1) [b. v. 115.

Domur um Dvergastein Anne M° D° xx° vı°.

Ollum mǒnnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. senda Brandur Hrafnsson. Jon Kodransson. Gamle Magnusson prestar Skalhollts biskupsdæmis. Sniolfur Hrafnsson. Magnus Arnason. Ellingur Gislason laugrettumenn kvediu gudz og sina. kunnugt giǒrandi ad sub anno gratiæ M°. D.° xx°. vı°. faustudagin næsta fyrer[1]) Laurentiusmessu um̃ sumarid ǎ Skridu i fliotsdalsherade vorum vier i dom nefnder af virduligum herra i Gude biskup Øgmunde i Skalhollte ad skoda og ransaka ok fullnadardom ǎ ad leggia um þad mǎl herra biskup Ogmund bar þar fram̃ fyrer oss ok tilkemur um jordina Dvergastein i Seyresfirde[2]) hveria hann sagde fallna vera fyrer nidurfall kirkiunnar ok fordiǒrfun hennar ornamentis. Ei sidur fratekin gǒmul jnnstæda. ok einginn Reikningsskapur stadin um langan tima. kom þar fram prior Þorvardur ok sera Jon Markusson ok baru uitne um ad þar hefde einginn Reikningsskapur stadinn vered i þeirra minne. ok fargad hefde vered allre hennar innstædu oc ornamentis. Enn kirkian sialf legid nidre lǎnga tima. Syndist her eingi afbǒtun af þeim er halldid hafde jordina til forna. þvi kaupahlutinn reiknadist ecke meira enn xijc. |þvi ad h(eilags) anda nǎd tilkalladre. ad svo profudu og fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms atkvæde jordina kirkiunnar eign vera og biskupsiñs. Enn Erfingia Fusa heitins er jǒrdina hǒfdu ǎtt. dæmdum vier skyllduga aptur ad giallda alla hennar jnnstædu og allan Reikningsskap i lausafe og smǎjordum. sem Rettarbot kong Kristierns en forna utvisar og innehelldur. ok ornamenta. ok þǎ sliku seka upp ǎ hvert ǎr er kirkian hafde nidur leged sem lǒg segde þeim ǎ hendur.

Ok til sanninda her um et cetera.

---

1) Svo, en það er = Olafsmessa síðari 3. Aug. 2) „ita extat“, hdr., = Seydisfirdi.

304. 9. August 1526. á Skriðuklaustri.

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna, út nefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um áklögnn biskups til Snjólfs bónda Rafnssonar um hald á jörðunni Hólmum í Reyðarfirði, er biskup taldi sína eign og heilagrar (Skálholts)kirkju.

Bisk. Skalh. Fasc X, 18, transskript á skinni frá 22. Dec. 1544. — AM. Apogr. 2625 „accuraté“ með orðamun eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. Senda prior þoruardur. sira brandur hrafnsson. [Sira ion kodransson[1]). magnus arnason. biarne erlendzsson og erlingur gislasson. kuediu gudz og sina. kunnigt giorandi ad sub anno gracie ꝏ d xx vi fimtadaginn næsta fyrir laurenciusmessu vm sumarit a skriduklaustri j fliotzdalsheradi worum wier j dom nefndir af uerdugum herra j gudi biskup Augmund j Skalholti. ad skoda og ransaka og endiligan̄ ueg ꝗ̄ ath giora um þa aklaugun. er herra Augmundur klagadi til sniolfs bonda hrafnssonar heilagrar Skalholltz[2]) kirkiu uegna ad hann hefdi ad hallda jordina holma. er liggur j reydarfirde. og herra augmundur kalladi sina eign og kirkiunnar. sakir gamals reikningskapar. er fallit hafdi a medan̄ þeir hielldu marteinn og isleifur og þeirra forelldrar. Jtem j fyrstu grein kom þar fram fyrir oss maldagenn kirk(i)unnar (ꝍ holmum[3]) at hun ætte fiordung j heimalandi og xuiijc. j gilldum og godum peningum. og atauk ornamentum. Suo og bar prior þoruardur [og sera Jon Markusson[4]) uitne ad hann hefdi sied opid bref gudmundar heitins Magnussonar. er jordena atte. ad hann gaf henni xc i heimalandi og x malnytu kugilldi. medkendizt og herra biskupinn. ad suo latanda bref lægi heima j skalhollti. reiknadizt þa xxc þad er kirk(i)an atte j jordinne enn xc. [er leikmenn att haufdu[5]). Suo og medkendizt sniolfur bondi og þeir sem honum selldu at þa hefdi stadit xlc reikningskapur okuittur og litel eda eingin̄ innstædan̄. eigi sidur kom[6]) þar fram̄ suoddan̄ sakir a þa

1) [sl. bréfab. 2) b v. bréfab. 3) brb; holum X, 18. 4) [b. v. brb. 5) [þad er leikmenn haufdu átt, brb. 6) kuomu.

marteiñ og isleif. ad þeir hefdi oforsialiga sleigit biskup steffan heitinn gud hans sal nǫ́di med suo ordnu tilferli ad þeir snorudu steine framan ǭ hambokena.[1]) er biskupinn hafdi ǭ briostenu. suo og slogu og skammfærdu hans menn med fullum illuilia. Nu saker þess at reikningskapurenn uard miklu meiri enn jordeñ uar uerd og [fyrgreindra saka[2]). þui ad heilags anda nad til tilkalladri og at suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum wier fyrnefndir domsmenn med fullu doms atkuædi jordena holma fallna j reikningskap og kirk(i)unnar eign og biskupsins eign wera og uerit hafa. suo og alla þa peninga sem þeir marteinn og jsleifur og þeirra fylgiarar mættu[3]) med laugum eiga dæmdum vier biskupsens eign og kirk(i)unnar fyrir adur saugd sakferli [et cetera[4]).

---

305. 14. August 1526. í Vallanesi.

Úrskurðr og úrlausn Ögmundar biskups i Skálholti um fiskitoll Mýrarstaðar (Desjarmýrar) upp í jörðina Ölduhamra.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir afskript úr bréfabók Ögmundar biskups staðfestri í Skálholti 9. Okt. 1711 af Arna Magnússyni, Ormi Daðasyni, Þórði Þórðarsyni og Páli Hákonarsyni, og ern ú í AM. Apogr. 2724 með hendi Orms Daðasonar.

Um Fisketoll Myrarstadar i Austfiördum.

Vier broder Øgmundur med gudz nad biskup i Skalhollte giörum godum mönnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad ǭ þridiudagin næstan fyrer Assumptionem Sanctæ Mariæ Virginis i Vallanesi i Vallasveit[5]) Anno Domini M⁰. D⁰. xx. vi. kom ǭ stefnu fyrer oss Biörn bondi Jonsson. beidde oss ransaks og riettrar skodunar med hverium hætte ad su fiskevist skyllde vera. sem Sera Sumarlidi þottist eiga vegna kirkiu sinnar Myrarstadar upp i jaurdu hans Aullduhamra. Nefndum vier .vj. dandimenn til doms lærda og leika. Kom þeim ecke saman. Þotte sumum presturinn eiga fiskevist fyrer so mörg skip og menn sem hann giörer heiman fra

1) handbokena, brb 2) Svo. 3) mattu, bréfab. 4) [b v. bréfab. 5) 2724; vallna-, 62.

stadnum. Enn sumum eitt skip. ok þeir menn sem þar á være. ok þeim villdum vær vera samþycker. Enn saker þess ad presturinn var þar eige til kalladur oc eingi af hans hendi. þvi sagdest þar einginn domur ad þvi sinne. Enn þo kom oss þad öllum ásamt ad halfa Tolla skyllde hvorer hafa af þvi skipe eda skipum. sem þar af stadnum være ut giörd. suo leingi ad hverer tueggiu kiæme i prestastefnu med sin bref ok máldaga. oc þad þar giördist skylldi standa obrigdulega upp á badar sidur. et cetera.

---

**306. 27. August 1526. í Bjarnanesi.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna útnefndr af Ögmundi biskupi um hjónabandsmál Eiríks — sonar Þóru Eiríksdóttur — og Önnu Þorgilsdóttur.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2725 með hendi Orms Daðasonar „ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM).

Domur um̄ Hionabands mæl.

Ollum mönnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. senda Hallur Sigurdsson. Salamon Henreksson. Þorarinn Þorsteinsson. prestar. Jon Biörnsson. Ellingur Gislason ok Olafur Narfason leikmenn. kvediu guds og sina. kunnugt giörande þa lidid var frá hingadburd vors herra Jesu Christi M. D. XXVI. manudaginu næsta fyrer Augustinusmessu um haustid i Biarnanese vorum vier i DOM nefndir af virdulegum herra i gude biskup Ogmundi i Skalhollte ad dæma og skoda hvert afl hafa skyllde þau handsaul sem Þora Eireksdotter hafde haft vid Þorgils Þorkelsson vegna Eireks sonar sins ok Aunnu dottur hans. ad so fyrer skildu med anefndum peningum ad hann handlagde henni,[1]) dottur sina. enn syni hennar til fullrar eignar med vilia og samþycki dottur hans. Her á mot sagde Eirekur nei fyrer. ad þetta hefde ecke vered sinn vilie. Enn saker þess ad þar kom fram̄ Sera Oddur Þorsteinsson og bar um vitni. ok sor fullañ Bok-

1) 2725; honum 62.

ar€id. ad hun hefde leitad þess med vilia sonar sins. ok hann hefde beidt sig kaupa. og lysa med þeim i heilagre kirkiu. Nu saker þess ad so stendur i kristin rett. ad forelldrar konunnar meige festa hana hverium sem þeir vilia med hennar samþycki. Ok þess annars ad hann hafde leiged konuna uppá þenna giörning. þvi ad h(eilags) anda nád tilkalldre ok ad so profudu ok fyrer oss komnu dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms atkvæde. þennañ giörning stödugañ og myndugan. ok adur nefndan[1]) Eirek skylldugan til ad eiga konuna epter þeirre lysing sem presturen sor. ok giöra til hennar fullnadar hionaband epter þvi sem lög utvisa.

Samþyckte þennan dom med oss biskupinn og marger adrer goder menn.

oc til sanninda her um et cetera.

---

**307. 27. August 1526. í Bjarnanesi.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna útnefndr af Ögmundi biskupi um ágreining þeirra síra Odds Jónssonar og Ketils Bjarnarsonar út af hestahaldi.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2732 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ogmundar“ (AM.).

Um hesta medferd.

Øllum mönnum þeim sem þetta bref siá edur heyra senda Hallur Sigurdsson. Þorarinn Þorsteinsson og Salamon Henreksson. prestar. Jon Biörnsson. Ellingur Gislason og Olafur Narfason. leikmenn. kvediu guds og sina. kunnugt giörande ad sub anno gratiæ M°. D°. xx°. vj°. á manudagin næsta fyrer Augustinusmessu i Biarnarnese um hausted vorum vier i dom nefnder af verdugum herra i gude biskup Ogmund. ad skoda og ransaka og fullnadardom á ad leggia um þær ákiærur er voru i millum þeirra Sera Odds

1) b. v. AM. hefir vantað í bréfabókina.

Jonssonar og Ketils Biarnarsonar. Jtem i fyrstu grein klagade Ketill til Sera Odds. ad hann hefde hallded fyrer sier heste i þriu ár. er hann hefde lied hönum i rettre Tru. Ok um annañ hest er hann hafde lied hönum sudur i Skalhollt. og heim aptur til sin. enn hann hefde hallded þeim hestinum v. vikur i ongvo sinu leyfe. Her i mot vændest Sera Oddur. ad hann hefde lied sier hesten þann timan. enn hinn villde þad ecke kiennast. Enn sera Oddur sagde annan hestenn drepest hafa i ferdenne fyrer þeim med for. ok þvi ad sá átti eingan hest til. þá sagdist hann hafa látid meta og upp bioda fulla verdaura fyrer hestinn i hverium fardögum. Her i mot klagade fyrrskrifadur Sera Oddur þad til Ketils i umbode Eireks Eigilssonar ad hann hefde ad hallda hest er hann atte. enn Ketill vændest þar kaupe fyrer af audrum manne. Nu af þvi ad sera Odde fullnudust vitne þar ad. ad hann hefde peningana meta lated ok uppboded epter lögum. þvi ad h(eilags) anda nád tilkalladre ad so profudu og fyrer oss komnu dæmdum vier fyrnefnder domsmenn med fullu doms atkvæde sera Odd skylldugan ad giallda Katli þad hundrad er hönum likade vel ad taka i næstu fardögum. Enn um hinn hestinn dæmdum vier sera Odd skylldugañ ad leida tvö loglig vitne ad hann hefde lied hönum hestinn þann timann er hann hiellt hönum. Enn ef þau leiddust ecke innan xiiij natta. þá dæmdum vier Sera Odd sekan Eyri á hverre viku fyrer rángleg medferd og .iij. merkur i fullrette. Enn um þann hest Sera Oddur klagade til hans. syndi Ketill kaup fyrer þvi. dæmdum vier Sera Odd skylldugañ ad leida tvö logleg vitni ad fyrrskrifadur Eirekur hefde att hestinn. ok ef þau leiddust. giaurdum vier sera Odde hestinn med þeim alldre sem inn kom. Enn Katle annan hest jafngodan fyrer. af hönum sem sellde et cetera.

---

**308.** **12. September 1526.** **í Lambey.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna, út nefndr af Ögmundi biskupi, um ágreining þeirra Jóns Hallssonar og Sæmundar Eiríkssonar út af umboði því, sem Jón hafði vegna

Hólmfriðar Erlendsdóttur konu sinnar og barna Vigfúsar heitins Erlendssonar, en Sæmundr klagaði vegna Guðríðar Vigfúsdóttur konu sinnar.

AM. 191. 4to bls. 61—62. (bréfabók Jóns Hallssonar á skinni). — AM. Apogr. 5534 með hendi Árna Magnússonar (eptir 191. 4to). — Landsbókasafn 62. 8vo og AM. Apogr. 2726 eptir bréfabók Ögmundar biskups (= 62).

Um peninga Fusa heitins Ellendssonar[1].

Ollum gődum[2]) monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda jon gislason. sæmundur arnason. salamon henreksson. prestar skalholltz biskupsdæmis. Eirekur þorsteinsson. jon þoruardzson og erlingur gislason. logrettumenn. q(uediu) g(udz) og sina kunnigt giorande [med þessu [voru] opnu brefi ad[3]) þa lidit uar fra hingatburd uors herra jhesv christi. m. d. xx. og uj ar miduikudagen næstan fyrir krossmessu vm haustit j lambey æ þingstad rettum uorum uier dom nefnder af uerdugum herra [og andligum fodr[4]) j gude herra[4]) aogmund j skalhollte ad skoda og rannsaka og fullnadar dom æ ad leggia um þa agreining sem[5]) var æ[6]) millum þeirra jons hallzsonar og sæmundar eirekxssonar um þad umbod sem [adr greindr[7]) jon hallzson hafde ad hallda uegna holmfridar erlendzdottur og barna uigfus[8]) [heitens[7]) erlendzsonar en sæmundr eireksson klagade til uegna gudridar uigfusdottur[9]) konu sinnar. hafdi domur fallid æ millum þeirra ad halft umbodit[10]) skyllde[11]) hafa huor[12]). suo og beiddizt jon hallzson doms og skodanar huar hann skyllde atgang [ad[7]) eiga fyrir þa peninga er hann sagdizt golldit hafa utlendzkum og jnnlendzkum [uegna [adur] greindz uigfus heitens[7]) j skullder þær [er[7]) hann [hafdi giort[13]). svo og eigi sidur kom þar fram biskupinn og beiddizt jnnstædu kirkna[14]) þeirra sem hann hafdi halldit og bar um[15]) uitni og marger adrer [goder menn ad þeir[16]) hefdi heyrtt uig-

---

1) 62. 2) b. v. 62. 3) [sl. 62. 4) biskup 62. 5) er 62. 6) i 62. 7) [sl. 62. 8) Vigfusar 62. 9) Fusadottur 62. 10) umbod 62. 11) skylldu 62. 12) hvorer 62. 13) [giorde 62. 14) kirkiunnar (!) 62. 15) b. v 62. 16) [ad hann 62.

fus[1]) heitten lysa þui ad aller þeir frider peningar sem hann hefdi[2]) ad hallda uæri kirknanna[3]) eign. Suo og hafdi dæmtt uerid ȷ skalhollte fyrir biskupenum af lærdum monnum og leikum um þau sakferli[4]) er hann uar brotligr ordin uid gud og heilaga kirkiu huad ad reiknuduzt storar saker og ha feegiolld. [Nu af þui ad titt skrifadur [ȷon] hallzson uar þa þar rettiliga fyrir kalladur af herra aogmundi biskup ȷ skalhollte lagasuar ad gefa fyrir adurgreindra kirkna fie[5]). þui at heilax anda nad til kalladri og[6]) ad suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum uier fyrr nefnder domsmenn med fullu doms attkuæde [opt nefndan[7]) ȷon hallzson skylldugan ad giallda biskupenum alla þa frida peninga sem[8]) hann hafdi[9]) ad hallda uegna eruingia uigfus[10]) heittens. og þar med kuittan og vidskildan uid [opt greinda eruingia[11]). sem þeim semde honum og biskupi þar um. Enn jǒrdum og ofridum peningum skyllde þeir skipta ad helmingum. ok svara sidan biskupinum sakeyrernum hvor af sinum parte. enn um þa peninga sem Jon Hallsson þottist űt hafa golldid. meir enn hann tok. kunnu vier ecke ad dæma. þvi þar var eingi med logum fyrer kalladur. utan oss leitst hann eiga ad hafa fullt fyrer sina peninga þă þad være til laga leidt af Erfingiunum.

---

## 309. 30. September 1526. á Hólum.

Kaupmálabréf Rafns lögmanns Brandssonar og Þórunnar Jónsdóttur, biskup Arasonar.

Landsbókasafn 873. 4to með hendi Snæbjarnar Torfasonar, á Kirkjubóli c. 1650. — Bibl. Bodl. Oxford Coll. FM. 55. 4to bls 37—38 með hendi Guðbrands prófasts Jónssonar í Vatnsfirði c. 1680—1690. — MSteph. 27. 4to bls. 49 með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1730. — ÍBfél. Khd. 67. 4to bl. 75 með hendi síra Eyjólfs á

---

1) Fusa 62. 2) hafde 62. 3) kirkiunnar (!) 62. 4) sakaferli 62. 5) [sl. 62. 6) sl. 62. 7) [fyrr skrifadan 62. 8) er 62. 9) hefde 62. 10) Fusa 62. 11) [Erfingiana 62. Hér þrýtr 191, og er það, sem eptir fer, einungis að finna í 62 og 2726.

Völlum (d. 1745). — MSteph. 60. 4to bl. 39—30, ágrip einnig með hendi síra Eyjólfs. Jón Espólín telr í Árbókum sínum (III, 88) bréf þetta gert 1527, og segir hann, að „*Gunni* Jónsson" sé einn af kaupvottunum, en það hefer án efa afbakazt hjá honum úr nafni *Gríms* Jónssonar, sem stendr í öllum afskriptum bréfsins.

Kaupmaala Brieff Raffnz[1]) og Þorunnar[2].)

Þad giorum vier bröder helgi med Guds naad abooti a Þyngeyrum. Sera Pietur Palsson beneficiator i grijmztungum. Sera Olaffur hialltason. Sera Tumas Eyreksson prestar. Sniölffur[3]) Raffnsson. magnus Arnason. Grymur Jonsson. Skwle Gudmundsson leykmenn goodum mønnum kunnugtt med þessu voru opnu Breffi. arum effter Guds burd. m. d. xx og vj. sunnudæginn[4]) næstan effter Michaelismesso um haustid a hölum i hiallt(a)dal. vorum vier i hia saaum og heyrdum a ord og handaband virdugligz herra[5]) Biskup Jonz af eirnre alffu Enn Raffnz Brandssonar logmannz aff annare alfu[6]) ad so fyrir skildu ad greynädur Jon Biskup gipti adur nefndum Raffne Brandssyne Þorunne Jonzdoottur doottur sijna med hennar samþycke taldi fyrr nefndur Raffn logmann sier til kaupz vid Þörunne[7]) vjc hundrada. loffadi sera Brandur fader Raffnz og Snioolffur Raffnsson og abbadis[8]) Solveyg. Magnus Arnason og Jon Magnusson at[9]) Raffn skilldi eyga suo micla peninga sem fyrr skriffad stendur med þeim peningum er Raffn atti adur. gaff nefndur Raffn laugmadur Þorunne lxc j tilgiöff j jardagotze. loffadi verdugur herra Biskup Jon Þoorunne [Jonzdottur[10]) [iijc hundrada[11]) j jørdum og þar til lxc j fullvirdis[12]) peningum. Kiøre Biskup Jon Þorunne doottur sijna maalakonu j gard Raffnz. þä skilldi hennar maale vera ivc hundrada.

Samþicktti þennañ giørning biskup Jon og Raffn logmann og adur greinder menn.

Setium vær fyrr greinder menn vor innzigle fyrir þetta

---

1) yngra lögmanns Brandssonar, b v 67. 2) Jonsdottur Biskups Arasonar, b. v. 67. 3) Brynjúlfr (!) 67; 4) fimtudæginn 55 (= 4. Okt.) 5) b. v. 67. 6) sl. 67. 7) konuna 55; hana 27. 8) 67; arndyz (!) 55, 873. 9) 67; sl. 55, 873. 10) [dottur sinne 27. 11) [67, 55, 27; iijc (!) 873. 12) -gildis 27.

kaupmaala Breff. hvortt skriffad var j sama stad og dag sem firr seiger[1].

---

310. 6. og 7. Oktober 1526. í Viðey.

Helgi Jónsson ábóti í Viðey selr síra Jóni Ásmundssyni jarðirnar Neðraskarð í Svínadal og Steinsholt fyrir jörðina Háls í Kjós.

AM. 238. 4to bl. 25, skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

Bref fyrir halsi i kios oc nedraskardi oc steinsholt(i) j svinadal vestur.

Þad giorvm vier olafvr prestvr kolbeinsson oc bardvr prestvr jonsson. narfi sigvrdzson oc blasivs ormsson. hrafñ gvdmvndzson leikmenn godvm monnvm kvnnigtt med þessv vorv opnv brefe lavgardeigen næstan epter Michaelis messo dag þa lidit var fra gudz býrd m. d. oc xxvj ar. j videý vorvm vier j hia savm oc heýrdvm ǻ ord oc handaband þessara manna. af einne alfv verdvgasta herra. herra hellga jonsonar med gvdz nad abota j videý. af annari alfv sira jons asmvndzsonar. faldizt þad oc skildizt vnder þessv þeirra handabandi. at fyrrnefndvr aboti hellgi selldi advr greindvm si(r)a joni asmundzsyni jarder ij er svo heita. ed nedra skard j svinadal j leirar kirkivsokñ fyrir xxx c oc þar til jordina steinsholt fyrir x c. med avllvm þeim gogñvm oc giædvm sem fyrrgreindvm jordvm hefir fýlgtt at fornv oc nyiv oc hann vard fremst eigandi at. til fvllrar eignar oc frials forrædis vndañ sier oc sinvm erfingivm. Hier j mot gaf nefndvr sira jon jordina hals j kios enn nedra j reynivalla kirkiv sokñ. fyrir xxx.c med ollvm þeim gognvm oc giædvm sem fýrgreindri jordv fýlgir oc fýlgtt hefvr at fornv oc nýiv oc nefndvr Sira jon hafdi fremst eigandi at ordit vndan sier oc sinvm erfingivm. eñ advrnefndvm abota hellga til æveñligrar eignar oc frials forrædis. Svo oc skýllde hvor vm sig fyrrnefndra manna. Aboti hellgi oc Sira jon hallda þessvm

1) Og til sannenda hier um, b. v. 27; etc. etc. etc. 55.

sinvm jordvm tillaga oc svara laga riptingvm hvorir a sinvm jordvm.

Og til sanninda hier vm settvm vier fyrnefnder menn vor innsigli fyrir þetta jardarkavps bref er skrifat var j sama stad oc are. deige sidar enn fyrr seiger.

---

311. 6. og 7. Oktober 1526. í Viðey.

Helgi ábóti í Viðey selr Narfa Sigurðssyni jörðina Hvítanes í Kjós fyrir tuttugu hundruð og þar til lest skreiðar fyrir jarðirnar Neðraskarð í Svínadal og Steinsholt í Leirárkirkju sókn.

AM. 238. 4to bl. 25b—26, skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

Bref vm hvitanes j kios oc nedra-skard j Sv(i)nada(l) oc Steinsholt.

þat giorvm vier ion asmunzson. olafvr kolbeinson. bardvr jonson. prestar. blasivs ormson. hrafñ gvdmvndzson. leikmenn. godvm monnvm kvnnigtt med þessv vorv opno brefe. at þar vorvm vier j hia savm oc heyrdvm a laugardeiginn næstan epter michaelis messo dag vm havstid. þa er lidit var fra gvdz byrd. m. d. xxvj ar. j klavstvrbadstofvnne j videy. at þeir tokv hondvm samañ. af einne alfv herra aboti helgi med gvdz nad aboti j videy. eñ narfi sigvrdzson af annari alfv. skildizt þat oc faldizt vnder þeirra handabandi. at advr nefndvr aboti hellgi selldi advr nefndvm narfa jordina alla hvitanes er liggur j Reynivalla kirkiv sokñ. fyrir xxc. oc þar til lest skreidar til gilldis med ollvm þeim gogñvm oc giædvm. sem advr greindre jordv fylger oc fylgt hefer at fornv oc nyiv oc hann vard fremst eigandi at til fvllrar eignar. eñ vndan sier oc sinvm erfingivm. eñ narfa til æfinligrar eignar oc frials forrædis. eñ hier j mot gaf advr greindvr narfi abota hellga jordina alla nedra skard er liggur j svinadal fyrir xxxc oc þartil jordina steinsholt fyrir xc. sem liggvr j leirar kirkiv sokñ. med öllvm þeim gognvm oc giædvm sem fyrrgreindvm jordvm hefir fylgtt at fornv oc nyiv oc hann vard fremst eigandi at. til fvllrar eignar oc frials for(r)ædis. vndañ sier oc sinvm erfingivm,

eñ fyrrnefndvm abota hellga til æfiñligrar eignar oc frials for(r)ædis. Svo oc skillde hvorr vm sig fyrrnefndra manna. Aboti[1]) hellgi oc narfi hallda þessvm sinvm jordvm til laga oc svara laga riptingvm hvorr ɑ̃ sinvm jordvm. Og til meiri sanninda hier vm settvm vier fẏrnefnder menn vor insigle fyrir þetta jardarkavps bref er skrifat var j sama stad oc are deige sidar enn[2]) fyrr seiger.

---

312. 10. Oktober 1526. í Skálholti.

TRANSSKRIPTARBRÉF.

Bisk. Skalh. Fasc. III, 7, frumtransskript á skinni. — AM. Apogr. 2529 eptir Skálholtsbréfinu.

Jardabref Teits gunnlaugssonar afa magnusar.[3])

Þat giorum uid þollakur lambiartson og arne arnorsson prestar skalhollz biskupsdæmis godum monnum kunnegt med þessu ockru opnu brefi ad uid haufum sed og yfer lesit opin bref uñder heilum og oskauddum insiglum dandimanna so latanda ord epter ord sem hier epter steñdur skrifat.

[Hér kemr:

1, bréf frá 19. Dec. 1467, Dipl. Isl. V, Nr. 447.

2, bréf frá 13. Mai 1454, Dipl. Isl. V, Nr. 109.

3, Tjörfabréf frá 25. Mai 1483, Dipl. Isl. VI, Nr. 432].

Og til sanninnda hier um settum uit fyrnefnder prestar ockur insigle fyrir þetta transkriftarbref skrifat j skalhollti jn festo gereonis sociorumque eius anno domini. ꝏ.d. xx. uj.°

---

313. 6. November 1526. í Reykjahlíð.

TYLFTARDÓMR út nefndr 28. Sept. (1526) í Spjaldhaga af Jóni biskupi Arasyni, er þá hafði kongsins sýslu og umboð í Vaðlaþingi, um ákæru Páls Grímssonar til Páls Þórálfssonar fyrir það, að hann hefði gripið jörðina Björg í Kinn, yrkt hana og á setið í aungvu sínu leyfi.

Dómasyrpa Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni, bls. 160—161, og er þetta skrifað c. 1600—1620 (= *a*). — AM. 199. 4to bl. 99—100 skr. c. 1604 (= *b*). — Landsbókasafn 791. 4to (afskript frá 17. öld).

1) Abota, hdr. 2) sem, hdr. 3) Utan á bréfinu.

Ollum monnum sem þetta Bref siæ edur heyra senda Sniolfur Raffnsson. Magnus Arnason. Hallgrijmur Þorsteinsson. Petur thumasson. Audun Sigurdsson. Hauskulldur Runolfsson. Sæmundur Sijmunarson. Þorleifur Þorleiffsson. Bessi Þorlæksson. Þorstein Jonsson og Einar Haldanarson og Biorn Jngimundarson K(uediu) G(uds) og sijna kunnugt giorandi ad j spialldhaga j Eyiafirdi fostudaginn næstañ fyrir mikelzmesso[1]) vorum wier j dom nefndir þa lidit war frá G(uds) B(urd) 1526 af heidarligum manni H(erra) Joni Arasyni Hola Biskupi. huor þa hafdi kongsinz syslu oc[2]) wmbod J wodluþijngi ad skoda Ransaka [med fullu doms atkuædi[3]) vm̃ þa ækiæru Er Pall Grijmsson kiærdi til Pals Þoralfssonar[4]) [sem war[5]) ad hann hefdi gripid jordina half Biorg J kinn. jrkt hana og a setid j onguo sijnu leyfi. wændist Þorkiell Magnusson. sem þa war svaramadur nefndz pals þoralfssonar[4]). ad hann hefdi greinda jord tecid vndir þa grein. ad hann hugdi hun hefdi til erfda fallid gudrunu konu sinni Eptir fodur sinn Jon h(eitinn) Einarsson. Enn optnefndur Pall Grijmsson vændist ad Pall Brandsson afi sinn hefdi skipad Einarzstadakirkiu þessa halfua jord Biorg j kinn j sinni daudz tijd þa hann giordi sitt testamentum huar wier saum bref vm̃ giortt huort oss leijtst j godañ mæta giortt hafa werid med ollum þeim greijnum sem þad Bref jnnehelldur. stod suo skrifad j sama testamentis Brefi Palz Brandssonar ad hann lysir sig skylldugañ xiijc[6]) Bornum Jonz Einarssonar. Medkiendust þessir menn pall grijmsson oc þorkell magnusson ad þeir hefdi sitt mál lagt til spialldhaga vndir þann dom sem Biskup Jon Arason yfir nefndi. þui dæmum wier vndirlagid logligt og þa bada Riettiliga fyrirkallada. Nu med þui ad suo stendur skrifad. Ecki skulu wær oss ad gripdeilldum giora med þeim ordum þar Eptir standa. þa dæmum wer pal þoralfsson[7]) skylldugañ ad leggia aptur þessa somu jord half Biorg sem hann hefur ologliga ad sier tekid fyrir optnefndum pali Grijmssyni og þo sekan fullretti

1) þ. e. 28. Sept. 2) b. v. *b*. 3) [*b*; og med fullu doms atkuædi æ ad leggia *a* 4) *b*; Þorleifssonar *a*. 5) [sl. *b*. 6) Svo. 7) *a*; Þorleifsson *b*.

Pals grijmssonar. eru þad vj merkur. Enn kongi iij aura. Enn pal grijmsson dæmum wær skylldugan̄ ad læta meta averka huorn pall þoralfsson[1]) [hafdi giora latid[2]). dæmum wier [pali grijmssyni[3]) þā landnām jafnmicid [sem[2]) averka Bőt þar til Averki verdur tueggia marka. Kom fram̄ fyrir oss ad pall þoralfsson[1]) hefdi opt lyst ad hann þottist vanhalldinn vegna gudrunar konu sinnar [vm þau fieskipti sem haftt hafde gudridur þorkielsdotter moder gudrunar konu hans[2]) og pæls h(eitins) Brandssonar og hann þottist ecki na riettu af Grijmi h(eitnum) palssyni[4]) fodur Pæls bonda. Beiddist fyrrnefndum þorkiell doms a huor þeim fyrrnefndum fie[5]) skacka suara skylldi. þui dæmum wær pal grijmsson og Erfingia Grijm(s) h(eitins) ad riettri tiltolu skyllduga ad giallda Bornum Jon(s) h(eitins) Einarssonar xiiijc[5]) med xij alna abata huertt hundrad ā huoriu ari sijdan̄ þrattnefndur[4]) Pāll heimtadi mad vitnum peninga ad nefndum grijmi Pālssyni. fallist honum vitnin̄ þa dæmum vier hann skylldugan̄ ad sueria lyrittar Eid ad hann hafi logliga heimtad[6]) ad grijmi palssyni og feingidei og suo einninn þann annan eid ad hann hafe ei vppborid fie af optnefndum grijmi fyrir þessi xiiijc[5]) nie gudrijdur magkona hans suo hann vissi. hier med dæmum vier fullrietti pali þoralfssyni[1]). Er þad [iiij merkur[7]). fielli hann ad þeim eidi ad hann hefdi ei[8]) fie vppborid eda kona hanz af tijttnefndum grijmi fyrir þess(i). xiiijc. [9]) skylldi suo micid aptur ganga ad riettri tiltolu sem pæll suer ei fyrir ad hann hafi ei vt tekid, Enn ad eidnum vnnvm dæmum vier ad gialldast skylldi allir þessir fyrrgreindir peningar ad næstum fardogum þorkieli magnussyni eda hans vmbodzmanne. [Og til sanninda hier vm̄ setium vier fyrrnefnder domsmenu vor jncigle fyrir þetta bref er skrifad var j Reykiahlijd vid myvatn þridiudaginn næstan̄ fyrir marteinsmesso vm̄ veturinn a sama are sem fyrr seiger[10]).

---

1) skammstafað í *b*. 2) [b. v. *b*. 3) [*b*; honum *a*. 4) [b. v. *b*. 5) Svo. 6) heimt *b*. 7) [iiij mork *b*. 8) sl. *b*. 9) xiijc *b*. 10) [*b*; samþyckte *a*.

314. **13. Nóvember 1526. á Hólum.**

Prófentubréf Einars Jónssonar og Guðrúnar Jónsdóttur.

A.

AM. 240. 4to bls. 38—39 með hendi Jóns lögmanns Jónssonar c. 1592, og er framan við þessi athugasemd: „handskrift biskupz Olafz hialltasonar er áá (þessi domr ber vitni j fyrstu greininne ad aller halfer peningar einars voru dæmder fallner adur enn hann gaf profentuna. profentubref annarz) þessum ordum“. Þetta á við dóm um fé Einars Jónssonar 1522. — Landsskjalasafn 94. 4to bl. 42a—b með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — MSteph. 56. 4to bls. 281—82 með hendi Snæbjarnar Torfasonar 1646.

ProuentuBrief Einars Jonssonar[1]).

Þad giorum vid thomas eireksson rædzman heilagrar hola domkirkiu og sueinn finbogason prestar holabiskupzdœmis[2]) godum monnum kunigt med þessu ockru[3]) opnu brefi ad áá holum j hialltadal fimtudagin nærstan firir marteinsmesso[4]) vorum uid j hia saum og heyrdum áá ord og handaband þessara manna verdugz herra biskupz Jonz af einni alfu enn einarz Jonssonar og gudrunar Jonsdottur kuinu hanz af annari ad suo firir skildu ad biskup Jon gaf og giordi fyrr greindan einar Jonsson kuittan og ækiærulausan af aullum þeim saukum domrofum malefnum sem hann hefdi[5]) opinberlega brotligur ordid vid holadomkirkiu og biskupligt ualld j holabiskupzdæmi. hier firir gaf og gallt nefndur einar biskupinum þessar jarder mardarnup og haukagil j vatzdal. audunarstadi. klumbur og myri. þoreyarnupur[6]). er ligia[7]) j vesturhopi j hunavatzþingi. hier med j sama handabandi gaf nefndur einar sijna æfinliga profentu og gudrunar konu sinnar til heilagrar holakirkiu. og þar til lagdi hann tuær jarder gudrunar konu sinnar er heita vindæli og enni er liggur j hunavatzþingi og þar med alla þáá peninga er hann reiknadi teit þorleifsson hafa ad sier tekid og einari Jonssyni til heyrdi og gudrunu[8]) konu hanz. hier j mot skyldi optnefndur einar og gudrun kona hanz hafa æfinligt framfæri heima áá holum eda áá stadarinz buum med sæmi-

1) 94. 2) 94; vantar í 240. 3) 94; voru 240. 4) þ. e. 8. Nóv. 5) hafde 94. 6) — nup 94. 7) liggur 94. 8) sl. 94.

ligt bordhald sem frialsum monnum vel heyrer og þar til smáá[1]) uod vadmalz áá hveriu ari og xij stikur klædis og x stikur liereptz og ij skogiærur. lofadi biskupin ad giallda einari lxc þáá hann uilldi heimta.

Og til meire audsyningar hier vm̃ settum vier herra Jon vort secretum med fyrrskrifadra presta Jnnciglum firir þetta bref er giort uar j sama stad þridiudaginn næstan epter marteinzmesso Anno domini millessimo quingentissimo vicessimo sexto[2])

**B.**

AM. 240. 4to bls. 50—51 með hendi Jóns lögmanns Jónssonar c. 1592, og mun þýðingin vera eptir hann.

Profentubref Einars.

Vij Tumas Eriksønn den hellige hole domkirkis vmbodsmand och Sueiu Finbogesønn prestmend wdi ħole stichtt gior gott folk vitterligt med dette vorre obne breff adt paa ħolum j hialltedal Torsdagin nest for Morthensmesse war vj hous och heyrde ord och saa handsél verdige herr bisps Jon paa denn eine sıȷde. og Einer Jonssenn med hands Quinde Gudrun Jonsdotter paa den andeñ sıȷde. medt slygen Contract. ad fornette bisp Jon gaff og giorde forbenette Einer Jonssenn kuitt och angerlôss wd aff alle de sager. domsbrôde och andere stÿcker som hand haffde brøte obenbarleg j mod ħole domkirk och j mod bispernis magt wdi ħole stichtte. Og der for gaff og bethallde fornente Einer bispen disse Garder. Mardarnup och Haukagil j watsdal. Audunarstadi. Klombur og mÿre Thoreyargnupur som ligger j vesturhope

1) sina 94; *rétt:* eina? Sbr. B(„jenn"), sem þó ruglast hér. 2) „handskrift biskupz olafz hialltasonar er áá þessum epterskrifudum ordum:

Eru aptur af geingnar þessar ȷarder bædi firir sakafallid og profentuna.

audunarstader lxc.

klombur xxc.

myri xxc og

þoreyarnupur xlc.

og þar lagt vt firir einar vatzhorn xxc og xc Joni thumassyni firir augad sitt".

wdi hunevatsthing. der till medt wdi samme deris handtegtt gaff fornente Einer medt sig och sijn kuinde Gudrun til en Euig fledførsel. som vij kalder profentu. tho Jorder som til hørde hans kuinde forbenefte Gudrun. som kalldist Vindæle och Enne som ligger j hunevatsthing. sommuledis alle de pendinge som hand bereignede adt Teiter Thorleiffsenn hafde till sijn taged och Einer Jonssenn thil hørde og hands kuinde forneffde Gudrun. Der j mod beuilliged Bispenn ad Einer och hands kuinde Gudrun skulle haffue Euindeligen sijn werelse og føde paa ħolum eller paa ħole domkirke bujorder mett velbereitt bord som frijuillige mend bør ad haffue. der thil jenn vod vādmal med smaa vendmal huor aar og xij alin klede x alenn lereptt. tho skoffeld. Loffede Bispen att giellde Einer Lxc naar som hand kreffuer.

Og thil ydermeire vindnesbyrd her om sette vij ħer Jon vor secretum medt forne tho preste signet for dette breff det giortt war j samme sted Torsdagin[1]) nest effter Morthensmesse Anno domini millesimo Quingentesimo vicesimo sexto.

---

**315. 4. December 1526. í Gnúpufelli.**

Sigurðr Sturluson gefr vegna Ólofar Jónsdóttur konu sinnar Þorvald Árnason ákærulausan um alt tilkall til peninga þeirra, er fallið höfðu, og stóðu á Æsistöðum í Eyjafirði, og þau máttu eiga eptir Jón Jónsson föður Ólofar og Sigríði Árnadóttur móður hennar, en Þorvaldr skyldi gjalda Ólofu tíu hundruð (Sbr. Nr. 338).

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Eyjafjarðarsýsla Nr. 3, afskript staðfest á Öngulstöðum 28, April 1704 af Sigurði Hrólfssyni og Jóni Þorleifssyni eptir transskripti frá 5. Júní 1573.

Þat giörum vier Jon med gudz nād biskup at holum. Sera Eigill Hallsson. Sniolfur Rafnsson. Magnus Arnason. Audun Sigurdzson. Biarne Stullason. Gisle Finnbogason. Þorleifur Þorleifsson og Gunnsteinn Oddzson godum monnum

1) Svo. Á þó án efa að vera: *Tirsdagen.* Sbr. *A.*

kunnigt med þessu voro opnu brefi. at þa er lidit var fra gudz burd m. d. xx. og .vi. ár a midvikudagin næstan fyrir michaelsmesso[1]) i kirkiugardinum á modrvuollvm i Eyafirdi vorum vier i hia saum og heyrdum á ord og handaband þessara manna. þorvalldz arnasonar af einne alfu og Sigurdar Stullasonar af annare. at suo fyrir skildu at Sigurdur Stullason gaf Þorvalld arnason aullungis kvittan og ákiærvlausan vegna Olófar Jonzdottur konu sinnar vm allt þad tilkall og ákiæru sem hann og hon mattu þeim peningum veita sem fallit hofdu epter Jon heitin Jonzson faudur hennar og Sigridi heitna arnadottur modur hennar og saman stodu á Œsestódum i Eyiafirdi i faustu og lausu. hvort helldur þad være med erfd edur giof og vm allan þeirra ʀeikningskap hinn fyrra og hinn seirna i hveriu hellst sem þad være. Enn Þorvalldur arnason skyllde giallda Sigurdi Stullasyni vegna Olofar Jonsdottur konu hans .x. hundrud. fimm hundrud i þeirra gamla ʀeikningsskap. og þar til skylldi hann leggia aunnr v^c med suodan fridleika iiij malnytu kugilldi og .iij. hundrut i koplum og gelldfe og iij hundrud i ollum peningum suo sem hann mætte selia i sveitinni og giallda a tveimr arum. so framt sem Olof Jonsdotter kona Sigurdar samþickte allan þennan giorning. Var eg Sniolfur Rafnsson forsagnarvottur fyrir ollum þessum giorningi. Og til sanninda hier vm setium vær fyrrnefnder menn vor insigle fyrir þetta kvittunarbref er skrifat var i gnupufelli i Eyafirdi þridiudagin næstan fyrir Nicholausmessu vm veturinn á sama are sem fyrr seiger.

---

**316. 1526.**

Vitnisburðir tveir um reka og ítök Skálár í Sléttahlíð **(Falsbréf).**

AM. Fasc. XLVII, 5, frumrit á skinni skrifað á uppskafning af öðru bréfi, og sjást innsiglaförin frá gamla bréfinu gegnum skinnið fyrir ofan innsiglaförin síðari (að þessu bréfi). Utan á bréfið ritar Árni „fb", sem merkir það, að hann telji þetta *falsbréf*. Eptir útliti

1) þ. e. 26. Sept.

bréfsins er það skrifað á 16. öld, og þarf það ekki að vera miklu síðar en bréfið sjálft segir. Tveir innsiglaþveingir eru við bréfið, en auk þess eru för fyrir fjóra.

skalarbref.

Svo fell(d)an vitnesbvrd ber ec brandur palsson at skalarkirkia ætte fiordvng fra fornaosi og vt at raufarberge bædi huals og vidar j fellzreka. ok allan reka fra skarbasteine bædi hvals og vidar. og vt j hladberg: og skipstavdv æ stravmnesi oc elldevidar tak j kellna landi. vorv þessar ijtavlvr hafdar og hallnar hennar obrigdanlig eign̄ þa minn fader atte skalæ. var hladberg halldit vt vm markit j millvm myrna ok kelldna. hier eppter vil eg sveria ef þvrfa þiker[1]).

Svo felldan vitnesbvrd ber ec jon einarsson at ec bio æ skalæ vpp æ v ar. Voru þessar jtavlvr hafdar og halldnar skalarkirkv eign̄ fiordung hvals oc vidar fra forn̄aosi og vt at ravfarberge j fells reka. skipte mier siera bessi jonsson þa hann var j felle fiordvngin af þvi sem þa rak. og allan̄ reka fra skarbasteine hvals oc vidar oc vt j hladberg. skipstavdv æ stravmnesi oc elldividartak j kielldna landi: lysti þessvm jtavlvm fyrir mier ellingur heitin þordarson er var elstvr manna hier med oss. hladberg sagdi hann halldit hefdi verit vm markit og millum myrna og kieldna en̄ ec bio æ brædra vpp æ xii ar oc fylgdu þessar jtavlur skalæ. og hier epter vil ec sveria ef þvrfa þiker. og þetta vita fleire goder menn.

arum epter gudz burd ꝏ d xx oc vj.

---

**317. (Haustið?) 1526. [Í Björgvin].**

Bréf Ólafs biskups Þorkelssonar í Björgvin um ýms málefni, og meðal annars um svör til Þorleifs „Íslendingsins".

Dipl. Norv. IX, Nr. 571 (eptir frumriti á pappír meðal Münchenarskjala í Ríkisskjalasafni Norðmanna, Nr. 2195). Hér er að eins það tekið úr bréfinu, er snertir Þorleif.

---

1) Þrír punktar eru milli bréfanna, og byrjar síðara bréfið í sömu línu og fyrra bréfið endar.

. . . . . Jtem quad eder nade tycker ieg skall suare Torleiff Islendingen om thet han begærer som hans breff luder som finsth bland andre och om eder nade vill nogeth skriffe her abot i Lyse till . . . .

---

318. [1526].

Ögmundr biskup í Skálholti selr Lopti bónda Eyjólfssyni „sjálfa höfuðeyna Papey, er liggr fyrir Álptafirði í Austfjörðum“ fyrir tuttugu hundruð, dómkirkjunni í Skálholti til handa fyrir tuttugu hundruð í jörðunni Borgarhöfn í Hornafirði.

Bisk. Skalh. Fasc. X, 18, transskript á skinni frá 22. Dec. 1544. — AM. Apogr. 2625 „accuraté“. Bréf þetta er transskriberað saman með bréfi frá 9. Apr. 1526, og segir Árni Magnússon, að þetta bréf muni „á sama ári daterað vera“. — AM. Apogr. 2721 og Landsb. 62. 8vo eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Um Papey[1]).

Vier augmund med gudz nad biskup j skalhollti. giorum godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ath wier haufum giort suodan kaupskap uid lopt bonda Eyiolfsſſon. med domkirkiunnar rad j austfiord(um). feingum uier[1]) honum sialfa hofuteyna papey er liggur fyrir altafirde j austfiordum til fullrar eignar med aullum þeim gaugnum og giædum sem þui landi fylger og fylgt hefur ad fornu og nyiu. Hier j mot gaf hann oss og heilagri skalholltzkirk(i)u xx$^{c}$ i jordinne borgarhaufn med þui ollu er þeim hluta fylger og fylgt hefer. Skal huor lagariptingum er selldi sem laug seigia. uoru þessir giorningsuottar sira jon Markusſſon officialis. sniolfur hrafnsson og erlingur gislason.

---

319. [1526].

Ögmundr biskup fær Haldóri Magnússyni jörðina Hof á Kjal-

1) 62; sl. X, 18.

arnesi, og skilr hana undir sig aptr, deyi Haldór erfingjalaus, en Haldór lofar að vera maðr biskups og Skálholtskirkju með allan þann styrk, er hann má.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2716 með hendi Orms Daðasonar. „Þetta bref stendur i bokinne medal brefa dateradra 1526. mun á sama áre daterad vera. jafnvel þo bokiñ sie confuso ordine. vida". (AM.).

Um Hof å Kialarnesi.

Vier broder Ogmund med guds nåd biskup i Skalhollti giörum gődum mőnnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad vier hőfum feingid Halldori Magnussyni jördina Hof å Kialarnesi til fullrar eignar i svodañ måta. ad hann skal hallda jaurdina i alla sina lijfdaga. og ef hann å skilgetid barn. þå skal þad erfa jordina epter hann. Enn ef hann å eingan skilgetin erfingia. þa skilium vier fyrrgreinda jaurd aptur under oss. Her med hefur hann lofad ad vera vor mann. ok heilagrar Skalhollts kirkiu. ok veita oss allañ þann styrk sem hann må og hőnum er moguligt et cetera.

---

320. [1526].

Ögmundr biskup í Skálholti fær Haldóri Magnússyni jörðina Hof á Kjalarnesi, með sama skilorði og í fyrra bréfi, að því við bættu, að Haldór leggr á móti Barkarstaði í Svartárdal.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. „Þetta bref stendur i bokinni medal brefa dateradra 1526. mun og á sama áre daterad. jafnvel þott bokiñ sie vida confuso ordine samantekin".

Um Hof a Kialarnesi.

Wier Ogmund med guds nad et cetera.

giörum godum mőnnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad vier hőfum feingid Halldori Magnussyni jaurdina Hof er liggur å Kialarnese til eignar og hans erfingium. ef

hann á skilgetin børn. med þvi skilorde ad hann skal selia oss fyrstum greinda jörd. Her i mot hefur hann feingid oss Barkarstadi er liggia i Svartárdal med aullu þvi henne tilheyrer ad fornu ok nyu. Her med hefur hann lofad ad vera vor mann oc heilagre Skalholltskirkiu til goda þad honum er møguligt. et cetera.

321. [1526].

Ögmundr biskup í Skálholti fær sira Jóni Gíslasyni til fullrar eignar jarðirnar austasta Skála og Miðskála undir Eyjafjöllum fyrir jarðirnar Gýarhól, Kelldn(a)holt og Brú í Biskupstungum.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir brefabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2717 með hendi Orms Daðasonar. „Þetta bref stendur i bokinne medal brefa dateradra 1526. mun og á sama áre daterad vera. iafnvel þott bokin sie confuso ordine saman tekeñ". (AM).

Um Gyarhol.

Vier broder Ogmund med gudz nad biskup j Skalholte giorum godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad vier høfum giört soddan jardarkaup oc peningaskipte vid sera Jon Gislason. Jn primis ad vier hofum feingit hønum til fullrar eignar ok friáls forrædes jarderner austasta Skála og Midskala under Eyafiöllum med ollum þeim gögnum og giædum sem greindum jördum fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu bæde til sios og lands. Her i mot hefur hann feingid oss jardernar i Biskupstungum Gyarhol. Kellnhollt[1]) ok Bru med þeim kugilldum sem þar med fylgia. med ollum þeim gögnum og giædum. sem greindum jordum fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. skal hann hallda sinu kaupe til laga. og svara lagariptingum hvor fyrer sinar jarder. et cetera.

1) „nockrer kalla nu þessa jörd *Kiarnholt* in numero plurali. adrer kalla hana *Kielldnholt* sömuleides in plurali. contracté *qv: Kielldnaholt.* og er þetta óefad rettara". (AM.)

322. [1526].

Ögmundr biskup í Skálholti selr Runólfi bónda Þorsteinssyni hálfa jörðina Geldingalæk á Rangárvöllum fyrir jörðina Villingadal í Haukadal í Breiðafjarðardölum, en biskup setr Skálholtskirkju í staðinn tuttugu hundruð í Gegnishólum í Flóa.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2731 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar". „Þetta bref stendur i bokinne næst epter bref daterad 1526. Enn þad sem nærst kemur epter er daterad hier um 1537. 38. eða 39. er um Tiund i Vestmannaeyum". (AM.). Bréfi þessu er í handritinu skipað meðal bréfanna frá 1526.

Um Gelldingalæk.

Vier broder Øgmund med Guds nád biskup i Skalhollte giǒrum godum mǒnnum kunnugt. med þessu voru opnu brefe. ad med ráde og samþycke rádzmannsins Sera Jons Hiedinssonar og Sera Eireks Jonssonar kirkiuprests sama stadar. hǒfum vier selldt Runolfe b(onda) Þorsteinssyni jaurdina halfa Gelldingalæk er liggur [á Rángárvǒllum[1]) i Gunnarshollts kirkiusokn. til æfinlegrar eignar og frials forrædes hǒnum og hans erfingium. Her i mot hefur hann feingid oss jaurdina alla Villingadal er liggur i Haukadal. i Vatshorns kirkiusokn i Breidafiardardǒlum. med ǒllum þeim gǒgnum og giædum sem greindri jaurdu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. ok hann vard fremst eigande ad epter lǒgum. undan sier og sinum erfingium. enn vier setium heilagre Skálhollts-kirkiu i stadinn xx^c. i Gegnisholum i Flóa. ok ef þesse jaurdin kann aptur ad gánga sem vier selldum hǒnum. þá skal hann gánga domlaust aptur ad sinne jaurdu. Her med hefur hann lofad ad vera vor mann ok heilagrar Skálholltskirkiu ok oss til styrks og gagns og goda. sem honum er mǒgulegt. ok vier segium hǒnum til.

---

323. [1526].

Ögmundr biskup í Skálholti fær Snjólfi bónda Rafnssyni til fullrar eignar jarðirnar Norðfjarðarnes í Skorrastaðarkirkjusókn

1) [b. v. AM.; vantaði í bréfab., en stendr í 62.

og Aurriðavatn í Fellum; kvittar biskup Snjólf og af öllum brotum og sérlega umboðum heilagrar kirkju í tíð Stepháns biskups, en Snjólfr lofar að vera biskupi og heilagri Skálholtskirkju til styrks og hjálpar.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2722 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM.). „Þetta bref stendur i bokinne medal brefa dateradra 1526. mun og á sama áre daterad vera. iafnvel þott bokin sie vida confuso ordine samañ tekiñ“ (AM.).

Um jardakaup i Austfiördum.

Vier hofum feingid bondanum Sniolfi Rafnssyni jördina alla Nordfiardarnes i Skorastadar kirkiusokn. ok jordina halfa Auridavatn i áskirkiusokn med öllu þvi sem greindum jordum fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. hönum til fullrar eignar og frials forrædes. Suo og ei sidur höfum vier gefid greindan Sniolf kvittan um allt þad sakferli sem hann hefur her brotlegur vorded oc hann hefur oss tilsagt. sierliga heilagrar kirkiu umbod öll þau hann hafde i vors forverara tid biskups Stephans godrar minningar. Her i mot hefur fyrrskrifadur Sniolfur lofad ad veita oss og heilagre Skalholltskirkiu þann allañ styrk hiálp og utvegu sem hönum er moguligt oc vier segium hönum til. ok vera vor mann ok heilagrar Skalholltskirkiu æ jafnan.

Ok til sanninda her um et cetera.

---

**324.** **1526.**

Ögmundr biskup í Skálholti fær Hannesi Larsakaunnu Berunesstað í Berufirði til fullrar eignar fyrir tuttugu hundruð í góðum peningum og áskilr, að Hannes setji tíu kúgildi til kirkjunnar, svo að hún eigi fimtán hundruð í innstæðu; leyfir biskup Hannesi að taka lausn af prófasti og lénar honum Flatey um næstu þrjú ár.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2723 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM).

Um Berunes i Berufirdi.

Vier hôfum feingid Hannes Larsakauñu jordina alla Berunesstad í Berufirde hônum og hans lôgligum innlendum Erfingium og Epterkomendum til fullrar Eignar ok frials forrædes. Her i mot skyllde adurskrifadur Hannes gefa .xxc. i godum peningum oc setia x kugillde til kirkiunnar þar heima-ok er þar þá .xvc. i innstædu. Her med skal hann vera vor mann oc heilagrar Skalholltskirkiu oss til gagns oc goda þad hônum er mogulegt. ok ef hann kann brotligur vera vid gud og heilaga kirkiu þa take lausn af profaste. enn eige vid oss sialfa um sektina fyrer sig og sina menn i Berufirdi ok i Hierade uppe. Lent hôfum vier hônum Flateÿ i næstu þriu ær.

Ok til sanninda her um Anno Domini M. D. xxvi.

---

325. [1526 eða 1527].

Ögmundr biskup í Skálholti selr Brandi Krákssyni jörðina Kýraugastaði á Landi fyrir þrjátíu hundruð í góðum peningum, er gjaldist út á fjórum eða fimm árum.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2734 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar" (AM). „Næsta brefed fyrer þetta i bokinne er daterad 1526. og þau sem næst epter koma eru daterud 1527. er so likast ad þetta muni daterad á ödru hveriu þessu áre. þó er ecke bokin allstadar digesta ordine annorum". (AM.).

Um Kyraugastade.

Vier Ogmund med guds náð biskup i Skalhollte. giörum godum mönnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. ad vier hôfum giört soddañ kaupskap vid Brand Kráksson. ad vier hôfum sellt hônum jordina Kýraugastadi er liggur i Landmannahrepp i Vallakirkiusokn med ollum þeim gögnum og giædum. sem greindre jördu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. oc vier urdum fremst eigande ad. ad til greindum þeim landamerkium millum Launarshollts. stadarins jardar i Skalhollte. sem radzmadurinn ridur á med skinsamra

manna rđde oc yfersion. og hinna ellstu manna frásǫgn. Her i mot skal gefa oss greindur Brandur Kráksson. xxxc. i godum peningum fridum og ofridum. ok giallda ut đ fernum. xii. manudum eda fimm umbodsmanne stadarins i Skalhollti. þeim sem þar er til settur. skulum vier svara lagariptingum đ greindre ȷǫrdu. Enn fyrrnefndur Brandur hallde til laga. voru giǫrningsvottar ad þessu voru kaupi Sera Sæmundur Arnason ok Jon diakni Olafsson.

Ok til sanninda her um et cetera.

---

326. 21. Janúar 1527. á Seylu.

Tylftardómr útnefndr af Rafni Brandssyni lögmanni norðan og vestan á Íslandi, er þá hafði kongsins sýslu og umboð í Húnavatnsþingi, um ákærur lögmanns til Teits Þorleifssonar fyrir óspektir og mannslag á Sveinsstaðaþingi (Sveinsstaðareið 1522).

AM. Apogr. 3844 „Ur Vidimus 2ia leikmanna [1. Sept.] 1540 og 2ia presta [29. Júlí] 1547“ (AM.). = *a*. Þessa afskript hefir Árni borið saman við frumrit dómsins og ritað þaðan orðamun: „Variæ lectiones in marginibus eru teknar ur original þessa dóms. hvern mier liedi Biarne Petursson á Stadarhóli (nu á Skarde)“ (AM.) = *b*. Þessari afskript fylgir ennfremr afskript frá c. 1605 eptir vidimus frá 28. Mai 1558, og ritar Árni á hana „Ex chartis herra Oddz biskups fra Leyrárgördum“. Dómr þessi er allviða til í dómabókum, en allar eru þær afskriptir langt um lakari en sú, sem hér er fylgt, því að hún er ígildi frumritsins.

Þat giorum vier Þorsteinn finnbogason. Einar brýniolfsson. audun sygurdzson. petur tumasson. asmundur clemensson. þordur gunnarsson. Jon Þorlakssou. Þorsteinn simonarson. gudmundur indridason. Stigur hoskuldzson. Þorvalldur arnason og marteinn þorualdzson. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. at arum epter gudz burd. m. d. xx. vij. ar đ[1]) manudagen næstan[2]) fyrer palsmessu a Seylu ȷ skagafirde. vorum vier i dom nefnder af Rafne brandzsyne. logmanne nordan og vestan a ȷslande. er þa hafde

1) b. v. *b*; 2) *b*; næsta *a*.

kongsins syslu og umbod i hunavatzþinge[1]). at dæma um þa akæru. er nefndur rafn logmann kiærde til teitz þorleifssonar. at hann hefde ridit med vopnat folk a þat sama þing sem sett var nær sveinstodum i hunavatzþinge og sleigit[2]) og skipat at sla upp a þa menn sem a þingenu voru. og i þui sama slage var i hel sleiginn arne heitinn bersason[3]). og marger adrer [særder og slegner[4]) med griote og vopnum. og þar hefde verit sleginn logmadurinn [og syslumadinn[5]) med griote og skotum. var þar svarin stefnan. og suo teitur þorleifsson[6]) hefde verit heima i glaumbæ i skagafirde at sinu logheimile þann sama tima sem rafn las þar stefnuna. Þui dæmdum vier somu stefnu logliga. og greindañ teit retteliga fÿrerkalladañ. og sekañ mork i stefnufall. þvi hann kom ecki [i greindan stad[7]) og eingenn hans svarsmadur[7]). var þar upplesinn logriettumanna domur suo hliodande[9]). at teitur þorleifsson skyllde aungu sakadur um sama malefne. nema þat syndizt med skilriki. at hann hefde i sama stad giort nockur lagabrot[10]) med ord eda verk. J annare grein kom þar fram vitnisburdarbref tolf skilvijsra manna med inciglum. suo hliodande. at teitur þorleifsson hefdi sagt a fyrgreindu þinge at þar skylldu aunguer domar ganga. og hann villde eingen log þola. og hann skipade sijnum monnum at sla og stinga. og hann sialfur hiő fyrstur æ sama þinge. ok i þvi sama athlaupe var i hel sleiginn arne heitinn bersason[11]) og marger menn særder ok suiuirttir. eigi færre enn .x. þeir sem averka feingu. ok þetta greint mannslag og averka giordu medfylgiarar teitz þorleifssonar. var þesse allur adursagdur vitnisburdur svarinn af þremur logriettumonnum þar fyrer oss. ok þvi syndizt oss sa same logriettumanna domur sem þar um hafde dæmdur verit aungva magt hafa til afsakanar teite þorleifssyni um greind malefne. Beiddizt berse þorlaksson. fader greindz

1) „Biörn á Skardzá hefur *Skagafirde.* og eitt óvandad pappirs Exemplar sömuleidis *Skagafirde.* aliæ chartæ habent *Hunavatzþ.* og svo á þad ad vera“ (AM.). 2) *b;* sleit *a.* 3) *b;* bessason *a.* 4) [slegner og særder *a.* 5) [*b;* sialfur *a.* 6) b. v. *b.* 7) [b. v. *b;* 8) *b;* — mann *a.* 9) *b;* hlydande *a.* 10) *b;* logbrot *a.* 11) *b;* bessason *a.*

arna heitins berssasonar. riettar sins og bota fyrer sagt mannslag. visar suo logmalit til. at þar skulu grid halldazt sem sett eru af logmanne edur[1]) valldzmonnum. þvi dæmdum vier berssa þorlakssyni [sextie hundrut[2]) i tuefaldar vixbætur af þeim sem greindañ arna hefde i hel sleigit. enn fyrer þvi at þat var svarit og synt. at teitur þorleifsson hefde verit flocksforinge at greindu slage og hernade. og svo stendur skrifad i bokenne. at þar sem madur rædur manni banarad eda sara. eda giorir þat nockud eda talar at madur sie life sinu at firr eda nockri skomm at nær ef þat være giortt er hann mælir. bæte eptter dome konge og frændum. enn hinn er giordi halldi upp fullum botum. þvi dæmdum vier berssa þorlakssyne þriatige hundrud af peningum teitz þorleifssonar fyrer ræd og atvist er hann hafde giort um sagt mannslag enn kongenum tvefalldañ þegn af þeim sem greint mannslag giordi. Stendur og svo skrifat i riettarbotum hakonar kongs. at þeir svare landrada sauk sem samhelldi hafa til þess at styrkia illgiordamenn mote krununnar riette og landzins logum. þvi dæmdum vier teit þorleifsson utlægañ til slikrar myskunnar sem kongur vill a giora. enn greindañ rafn laugmann riettiliga mega at sier taka alla [peninga fasta og lausa þa[3]) sem teitur þorleifsson hafde att þa hann fiell i þessa sok. og giallde þar af allar logligar skullder og sakeyre. og at þvi afgreiddu dæmdum vier optnefndañ rafn logmann skylldugañ at hallda alla adursagda peninga. þar til logligur erfinge teitz þorleifssonar tilkiemur. sa sem fullar vorslur[4]) hefur. ok afhende honum alla halfa peninga avaxtalausa[5]). enn ef erfinge teitz hefdi eigi fullar vorslur[4]). þa skylldu þeir frændur teitz hallda mega fyrsagda peninga sem næster være erfdum og fullar vorslur[4]) hefdu. suo leinge og þar til kongur sialfur giorde adra skipan á med godra manna rade. svo og skyllde nefndur rafn logmann mega riettiliga hallda fyrsagda [halfa peninga[6]) kongdomsins vegna þar til kongur sialfur setur þar annañ myndugañ umbodzmann ýfer. og rafn logmann giallda honum aptur þessa peninga avaxtalausa[5])

1) *b;* eda *a.* 2) [*b;* lxc, *a,* 3) [*b;* þa peninga fasta og lausa *a.* 4) *b;* vordzlur *a.* 5) *b;* avaxtarlausa, *a.* 6) *b;* [peninga halfa *a.*

svo hafa[1]) sem hann medtok. afreiknudum ollum loglegum skulldum og sakeyre.

Samþýckte þennan[2]) vorn dom adursagdur valldzmann og allur almuge er a sama þinge voru.

Og til sanninda hier um setium vier fýrskrifader logriettumenn vor incigle fyrer þetta domsbref er skrifat var i gelldingahollte i skagafirde deige sidar enn fýrr seier[3]).

---

327. 23. Janúar 1527. á Breiðabólstað.

**Dómr** sex klerka útnefndr af síra Þorleifi Eiríkssyni officiali heilagrar Skálholtskirkju um ákæru hans til síra Guðmundar Árnasonar fyrir hald á jörðunni Hólmum í eystriLandeyjum, er Haldóra heitin Guðmundardóttir hafði gefið kirkjunni á Breiðabólstað í Fljótshlið eptir sinn dag.

AM. Apogr. 2114 „Ex. orig. Breidabolst. Fliotzhlid. accuraté“. Af 7 innsiglum voru 2 fyrir bréfinu 1721.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia eda heyra. senda ȷon gislason. salamon henreksson. olafur simonarson. pall olafsson. ȷon þordarson og pall eigilsson prestar skalhollzbiskupsdæmis. kuediu guds og sina. kunnekt giorandi. ad sub anno gracie ꝏ⁰. d⁰. xx⁰. vij⁰. manudagin næsta fyrir conuersionem pauli apostoli[3]) æ kirkiulæk ȷ fliotzhlid. vorum vær j dom nefnder af heidursamligri personu sira þolleifi eirekssyni officiali heilagrar skalhollzkirkiu ad dæma og skoda um þa akiæru er adur greindur sira þorleifur klagadi til sira gudmundar arnasonar ad hann hafi halldit ȷordina holma er liggur ȷ eystri landeyium ȷ kross kirkiu sokn er halldora heitin gudmundardotter hafdi gefit kirkiunne æ breidabolstad epttr sinn dag fyrir sinni sal. vændizt fyrr skrifadur sira þolleifur þar ad godra manna vitne um giofina. var fyrr nefndur sira gudmundur þar þa stefndur stundarstefnu. suo uær heyrdum æ. þui ad heilax anda nad til

1) *b;* haafa *a.* 2) *b;* þenna *a.* 3) þ. e. 22. Janúar.

kalladri. og ad suo profudu og fyrir oss komnu. dæmdum uær adur skrifadir domsmenn med fullu doms atkuædi stefnuna logliga og opt nefndañ sira gudmund rietliga fyrir kalladan og jordina holma eign kirkiunnar æ breidabolstad vera og hafa uerith sidan halldora heitin andatizt ath leiddum tueimur skilrikum uottum ath þad suæri ad halldora heitin gudmundardotter hefdi gefith kirkiunne æ breidabolstad jordjna holma. Skylldi þessi uitne leidazt jnnan manadar eda ed seinsta fyrir fardaga. Og saumuleidis dæmdum uær opt nefndum sira þolleifi landskyllder og landskylldaleigur. sidan halldora heitin andadizt. nema þrattnefndur sira gudmundur yne eid og .ij. skilrikir menn med honum jnnan .xiiij. daga ad hėyrdum dominum fyrir titt nefndum sira þolleifi ath hann uisse ecki ad jordin hefdi gefin uerit kirkiunne. enn ath unnum eidunum falli nidur landskyllder og leigur. enn jordin æfinleg eign kirkiunnar ath leid(d)um uitnunum· Samþyckti þennañ vorn dom þratt nefndur sira þolleifur officialis med oss og setti sitt insigle med vorum jnsiglum fyrir þetta domsbref. huert skrifath uar æ breidabolstad j fliotzhlid æ sama are og deigi sidar en fyrr seigir.

---

**328. 13. Janúar 1527. á Svínavatni.**

Jón biskup á Hólum selr Guðmundi Þorsteinssyni jörð dómkirkjunnar á Hólum Hól í Svartárdal fyrir jörðina Gil eð yzta í Langadal.

Landsbókasafn 61. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Epter original hia Sigurdi Einarssyne (biskups) accuraté“ (AM.).

Þat giorum uer einar einarson. einar bryniolfsson. þorarin ionsson. kodran olafsson godum monnum kunnigt med þessu woro opnu brefi arum epter gudz burd. ꝏ. d. xx og vii. ar þridiudagen næstan epter palsꝏesso um ueturenn[1]) a audkulu i suinadal vorum vær i hia saum og heýrdum a ord og handaband af eirne alfu herra ions med gudz nad

1) þ. e. 29. Jan.

biskup a holum en af anare gudmundar þorsteinssonar ad suo fyrir skildu at greindur herra ion selldi gudmundi þosteinssyni domkirkiunnar iord sem holl heiter ȷ svarttardal i berggstada kirkiusokñ til fullrar eignar med ollum þeim gognum og giædum sem greindri iordu fẏlger og fẏlgt hefur ad forñu og nyu og greindur herra vard fremzt eigandi at heilagrar kirkiu uegna og sinna. her i moti gaf og selldi gudmundur þosteinsson biskupenum iordena gil ed ẏzta er ligur i langadal i holltastada kirkiu sokñ med ollum þeim gognum og giædum sem greindri iordu fẏlger og fylgt hefur at fornu og nẏu og adur nefndur gudmundur vard fremzt eigandi ad. skẏlldi huor suara lagariptingum a þeim iordum er selldi en hallda til laga þeirri er keẏpti. Og til sannenda hier um setium ver fyrr nefnder men uor insigli fyrir þetta bref skrifat a suinavatne a asum fimtudagen næstañ fyrir purificatio sancti marie a sama ari sem fyrr seier·

---

329. **16. Febrúar 1527.** **Í Skálholti.**

Jón Haldórsson fær, í umboði Herdísar Gunnlaugsdóttur konu sinnar, Ögmundi biskupi í Skálholti til fullrar eignar alt tilkall það, er hann ætti í jörðunni (Bæ og) hálfu Horni og öllum jarðarpörtum öðrum, sem henni hefði fallið til erfða í Austfjörðum eptir föður og móður móts við Guðrúnu systur sína, fyrir þrjátíu hundruð í góðum og gildum peningum.

Bisk. Skalh. Fasc. III, 8, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2533 með hendi Árna Magnússonar; þar með er og orðamunr eptir afskript af bréfinu, sem stóð í bréfabók Ögmundar biskups. Afskript af þessu bréfi er í bréfabók Gizurar biskups AM. 232. 8vo 71b 72a

Giorningsbref ȷons halldorssonar vid
b(iskup) Augmund vm̄ halfft horn.

Vier ogmund med gudz næd biskup i schalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ath a lavgardaginn næsta fyrir ıx vikna faustu anno domini ∞. d. xxvij. giordum vier suodan giorning og kaupskap vid jon halldorsson j vmbode herdisar gunnlaugzdottur konu sinnar. ȷn primis fiek hann oss til fullrar eignar allt þat til-

kall sem hann matte eiga vegna konv sinnar j [jordum[1]) og halfu horni og allar þær iarder og jardar partar sem henni til motz vid systur sina gudrunu hafde til erfda fallit j austfiordum epter favdur og modur med aullu þui[2]) þeim tilheyrer. Hier j mot lofudum uier honum .xxx. hundrudum j godum peningum og gulldum honum þa strax. xıxc. suo honum vel likade.

Voru þesser giorningsvottar tilkallader og nærverandi. [3])eirekur ionsson kirkiuprestur. olafur gilsson og thorlakur landbiartson prestar. biarne torfason og pall fusason. og settu sin insigle med uoru insigle fyrir þetta giorningsbref skrifat j skalhollte æ sama degi og are sem fyrr seger.

---

**330. 23. Marts 1527. á Reynistað.**

Solveig abbadís á Stað í Reyninesi fær, með samþykki Jóns biskups á Hólum og systra á Stað, Rafni Brandssyni frænda sínum til fullrar eignar jörðina Skarð í Fnjóskadal með sex kúgildum, en jörðin Skarð hefir „verið vor gömul ættareign, og með oss gefin til sama klausturs“.

AM. Apogr. 124 „Ex originali Greniadarstad. Þetta originalbref Solvegar abbadisar var medal þeirra brefa er eg feck af Sira Skula Þorlakssyne (so vel sem hin önnur Greniadarstadarbrefen). Enn med þvi eg sie ad þad mun þad sama bref sem stendur i Greniadarstadar brefa Registre þä sende eg þad Sira Magnuse Markussyne 1724. til ad kasta þvi saman vid hin Greniadarstadarbrefen. iafnvel þo þad ecki i minnsta mata kæmi kirkiunne eda stadnum vid. helldur mun þad slædst hafa fra hustru Þorunne Jonsdottur til Sira Sigurdar brodur hennar (kannske hann hafe eignast Skard) og hefur so sleingst medal kirkiu brefanaa. Qvicqvid sit. brefed mä vel liggia þar frammveges ad implendum numerum“ (AM.). Árni getr þess, að kapitula innsigli Reynistaðarklausturs hafi verið fyrir bréfinu.

Vier syster Solueg med gudz forsia abbadíjs æ stad i Reynenese. giorum godum monnum kunnigtt med þessu voru opnu brefe. at med samþycke virduligs herra jons med gudz nad biskups æ hoolum og vorra systra. haufum vier gefit

1) [iordunne Bæ brb. 2) sem b. v. brb. 3) Sera b. v. brb.

ok afhentt vorum frænda Rafne brandssyne jordina skard i fnioskadal er liggur i laufas kirkiu sokn med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindre iordu hefer fylgtt at fornu og nýu og vier og vorer frændur vrdum fremst eigande at. hefer greind iord skard verit vor gaumul ættar eign og med oss gefin til sama klansturs. skal fyrr nefndur Rafn mega frialslega at sier taka greinda iord med .vı. kugilldum at næstum fardaugum sier og sinum eptterkomendum til æuenlegrar eignar. Ok til meire audsyningar og sanenda hier um lietum vier setia capitula incigle fyrnefndz klausturs fyrir þetta bref (er) giortt var æ stad i Reynenese laugardagen næsta fyrir Mariumessu i langafaustu arum eptter gudz burd M. d. xx. og vij ar.

---

**331. 24. Apríl 1527. í Hvammi.**

Teitr Þorleifsson geldr Ingu Jónsdóttur konu sinni jarðirnar Asgeirsá í Víðidal með ánefndu búi og ítökum, Lækjamót í Víðidal, Krossanes á Vatnsnesi og eyðikotið minni Ásgeirsá, fyrir þær hennar jarðir og lausagóz, er hann hafði áðr í burtu feingið í Borgarfirði: hálfa Galmanstungu, Fljótstungu, Þóroddsstaði, Kornslæk og Hvamm í Hvítársíðu.

Landsbókasafn 63. 4to bl. 113b—114b. skr. c. 1640.

JardakaupsBref Teijtz Þorleifssonar og hanz kuiñu Jngu Jonzdottur.

Þad giorum vier Þorsteirn Sugurdsson. Gunar Jonsson. Jon Bardarson og Jon Grijmsson Godum monnum viturligt med þessu voru opnu Brefj. ad þa lidid var fra hingadburd vorz herra Jesu Christi 1527 ár sunnudæginn næstan fyrir Palzmessu[1]). j Badstofunnj á Asgeirsa j Vijdedal. vorum vier þar j hia saum og heyrdum á ord og handaband þessara manna Teijtz Þorleifssonar og Jngu Jonzdottur kuinnu hanz. ad so fyrir skildu. ad nefndur Teijtur Þorleifsson gallt og greyddi til fullrar eignar adur nefndri Jngu konu sinni

1) þ. e. 20. Jan.

gardinn jordina Asgeijrsa j Vijdedal. og þad Bued sem þar var samañ komid vtañ gards og jnañ. kuika peninga og dauda. aller til skilder. enn onguer frá vndañ tekner. vtañ þeir peningar sem heilog kirkia á Asgeijrsa á. og þad xv^c j heijmalandi. og viij malnitu kugilldi. fiordung j veijdikierum. halfañ Nýstada Reka. og Afriett á Arnavatnzheijdj. effter þuj sem maldaginn þar greiner. Hier til gallt hann Jngu Jonzdottur jordina Lækiamot er liggur j Vijdedál j Asgeijrsár kirkiusokn. og þar med vj kugilldi. og jordina Krossanes. er liggur j Hola kirkiu sokn. og þar med v kugilldi. og ëydikot minni asgeijrsa er liggur j Vijdedál. Þessar allar fyrsagdar jarder med ollum þeim gognum og giædum sem adur greindum jordum filgir og filgt hefur ad fornu og nýu. og hann vard fremst eigandi ad. Skilldi offtnefnd Jnga Jonzdotter eignast alla fyrskrifada peninga fyrir þær hennar jarder og lausagoss sem tijttnefndur Teijtur hafdi adur j Burtu feingid j Borgarfijrdj. Halfa Galmaltztungu (!) fyrir lx^c. fliotztungu og þorodstadj Kornzlæk og huamm er liggur j Gilzba(c)ka kirkiusokn. Skylldi þesse giorningur standa obrigdañligur. nema þratt nefndur Teijtur Þorleiffsson villdi sijdar meijr þennañ giorning afftur taca med sijnu Brefj og jnncigli. enn giallda Jngu Jonzdottur þar þa peninga sem þeim semdi vel badum. og hier effter vilium uier sueria ef þurfa þiker. Og til sanninda hier vm setium vier fyrskrifader menn vor jncigli fyrir þetta Vitnis Burdar Bref. er skrifad var j Huammi j huamzsveit. a midkudæginn epter[1]) Jonz messo Holabiskupz á sama ari sem fyr seigir.

[So l]jatandi Bref liggur a [Vest]fiordum hia Ormi [Jon]ssyni j Gufudal [frem]ri sem fyr skrifad stendur.

---

**332. 25. Apríl 1527. á Eyrarbakka.**

Ögmundr biskup í Skálholti samþykkir það, að síra Þorleifr Eiríksson hefir selt Sæmundi Eirikssyni bróður sínum hjáleig-

1) „fyrir", hdr. sem mun rangt fyrir „eptir", því að það væri miðvikudagrinn fyrir skírdag, langafrjádag og páska, sem án efa væri miðað við, en ekki Jónsmessu Hólabiskups, sem er 23. Apr.

una minni Kollabæ undan Breiðabólstaðarkirkju í Fljótshlíð, þó með því móti, að síra Þorleifr „skikki“ annan jarðarpart í nánd jafnvirðan.

AM. Apogr. 990 „Epter originalbrefe fra Sæmunde Magnussyne á Hole i Bolungarvík“, og er afskriptin staðfest í Skalholtti 5. Dec. 1710 af Þorleifi Arasyni, Þórði Þórðarsyni og Þorgils Sigurðssyni. Afskriptin er með hendi Árna Magnússonar.

Vier Augmund med gudz nad biskup i Skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ad vier hofum samþyckt og stadfest þann kaupskap og umskipte er sira Þorleifur Eireksson hefur sellt Sæmundi Eirekssyni brodur sinum hialeiguna minna kollabæ. sem er atta hundrud ad dyrleika. er att hefur kirkiañ æ Breidabolstad. ȷ sodan mata ad fyrskrifadur sira Þolleifur skal skicka kirkiunne annan ȷardarpartt ȷafnvirdan. þar nalægan kirkiunnar ȷordum. Og til sanninda hier um settum vier vort insigle fyrir þetta stadfestingarbref. skrifad æ Eyrarbacka feria qvinta pasche. anno Domini ꝏ⁰. d⁰. xx⁰. vij.

---

**333. 29. April 1527. á Svalbarði.**

**Þorsteinn** bóndi Finnbogason fær, í umboði Magnúsar Árnasonar, Jóni Magnússyni til fullrar eignar þann hluta í jörðunni Svalbarði á Svalbarðsströnd, er Magnús átti, fyrir fulla peninga eptir loforði. Lýsti Þorsteinn því og, að hann hefði feingið og feingi nú að nýju þeim Jóni og Ragnheiði (Pétrsdóttur konu hans) sinn hluta í Svalbarði.

AM. Apogr 190 „Ex originali Svalbardensi accuraté“. „4 innsigle hafa under brefenu vered, nu er ei nema 3. brefed er ritad á pappir“.

Þad giorvm wer þorkel magnusson. sæmundur ȷonsson. andres stefansson. gudmundr ȷonsson godum monnum witurligt med þessu voru opnv brefi ad þa er lidit var fra gudz burd ꝏ. d. xx. oc vij. ar ȷ skridu [i] Reykiadal a fostudagin fystan ȷ þora[1]) vorum ver ȷ hia saum oc heyrdum æ ord

1) þ e. 11. Janúar.

oc hādaband þessara manna þorsteins bonda finbogasonar oc jons magnussonar ad sua fyrir skilldu ad þorstein finbogason feck jone magnussyne j umbodi magnus arnasonar þan sama jardar part sem adur nef(n)dur magnus atte j jordune sualbarde a sualbardzstrond jone magnussyne til full(r)ar eignar oc frials forrædis fyrir fulla peninga epter þui sem þeir hefdi adr med lofazt. sagdizt þorstein hafa laga vmbod af magnusi til þessa giornin(g)s um fyr nef(n)dan jardar part. hier efter lysti þorstein þui fyrir oss ad hann hefde feingit jone oc Ragneide sinn partt j þessare somu jordu sualbarde oc feck þa ad nyu þeim badum þena sama jardar partt med handabande þeim til full(r)ar eig(n)ar oc sagdizt opt nef(n)dan partt uid onguan man hafa pantat ne vedsett fyr Ɛn uid jon oc ragneide. her efter megum uær sueria ef þurfa þicker. oc til sanenda her um settum uær vor jnsigli fyrir þetta uitnisburdarbref huort er skrifad var a sualbarde a sualbardzstrond manudagin næstan fyrir tueggia postula Messo a sama ari sem fyr seiger.

---

**334. 6. Maí 1527. á Breiðabólstað.**

Vitnisburðr, að Haldóra Guðmundardóttir hafi gefið kirkjunni („Maríunni“) á Breiðabólstað í Fljótshlíð jörðina Hólma í eystri Landeyjum.

AM. Apogr. 2112 „Ex originali Breidabolst. Fliotshlid. accuraté“. „6 innsigle hafa fyrir brefinu vered, eru nu öll burtu“.

Svo feldañ vitnisburd baru þessir menn jsolfur arnorsson og jon ormsson æ breidabolstad j fliotzhlid. med fullum bokareidi. hueru er þeir soru fyrir sira þorlleifi eirekssyni. er þa var officialis heilagrar skalholtz kirkiu at fyrr nefndur jsolfur taladi suo felldum ordum. j sinum eide. ath ec var uid staddur æ eyvindarMula j fliotzhlid og heyrda ec æ ad halldora heitin gudmundardottir taladi suo felldum ordum ath hun sagdizt gefa jordina holma kirkiunne æ breidabolstad epter sinn dag og hun skylldi sier þangat fylgia

daudri nær kristur kalladi sig. Jtem fyrr skrifadur jon ormsson taladi suo felldum ordum j sinum eidstaf. ath eg var þar uid staddur. at halldora heitin gudmundardotter taladi suo felldum ordum ad hun sagdiz gefa jordina holma Mariunne æ stadnum. og þann[1]) hygg ec sannañ og særañ sem Jsolfur añorsson hefur hier frekara um suarit.

Voru þessir menn nær staddir. þa eidarner voru suarner. salamon henreksson. pall olafsson. jon þordarson prestar. jon eireksson. gudni þorarinsson og sueirn holmfastsson leikmenn. huerir til meire sanninda hier vm settu sin jnsigli fyrir þetta uitnisburdarbref. er (giort uar) j sama stad sem fyrr seigir. in festo sancti johannis ante portam latinam. anno domini. M⁰. d⁰. xx⁰. vij⁰.

---

335. [Maí] 1527. á Breiðabólstað.

Vitnisburðr, að Haldóra Guðmundardóttir hafi gefið jörðina Hólma í eystri Landeyjum kirkjunni á Breiðabólstað í Fljótshlíð.

AM. Apogr. 2113 „Ex lacero originali pertinente ad Templum Breidabolstadeñ Fliotzhlideñ", med hendi Árna Magnússonar. „Þad sem i þessarre Copiu er understrikad. [hér í útgáfunni í hornklofum] er allt burt rotnad ur originalnum". (AM.).

Þath giore ec jon þoruardzson godum monnum kunnigt med þessu mínv opnu brefi ath (ec) var þar nær staddur æ Eyuindarmula i fliotzhlid oc heyrda ec æ ath Halldora heitin gudmundardotter taladi suo felldum ordum ad hun sagdizt gefa iordina Holma kirkiunne æ breidabolstad epter sinn dag og hun skylldi sier þangat fylgia daudri nær kristur kalladi sig og aun[gvan] annañ veg sagd[izt hun æ]tla fyrir henni ad giora nema þennañ. [Oc til sannenda hi]er um sett[a ec mitt] insigle fyrer þetta uitnisburdar[bref er skrifat var] æ [Brei]dabolsta[d i fliotzhlid]. æ fostudagin næs[ta] . . . . . . . . . . arum epter gudz burd. þusund fim hundrud tu[ttu]g[u] og vij.

---

1) Svo (*ekki:* eid).

336. 14. Maí 1527. á Hattabergi.

TRANSSKRIPTARBRÉF.

AM. Apogr. 5514 „eptir copiu med hendi Sr Biarna Hallgrimssonar“ og saman borið við afskript með hendi Jóns biskups Vídalíns. En orðamunrinn er alveg ómerkr. „Þetta bref er med tveimur nokkud skauddudum Jnnsiglum“.

Dett bekenne vij effthersкrijfne meister Geble Peterson Erchideknn ȷ Beren. Guttorm Nikelsson lagmann sama stadar. Thord Matzson Rådmann. och Thorleiff Grimson med thette vort opid breff ad vij haffve siött og offverlesit suo hliodandis opit bref med sinu heilu og oskauddu hangende Jnnsigle ord effther ord sem her effthir seigir.

[Hér kemr skuldskeyting Þorleifs Björnssonar frá 25. Mai 1482 um 100 Rínargyllini til herra Jóns smjörs, D I, VI, Nr. 397].

Og till meire sanninge vch bevijsing heer vm heingium vij vor Jnnsigli nedann for detta brief skrifvat vpp a Hattaberg ȷ Krounu[1]) heradi ȷ Norege a nøsta thyrsdag for Hallvardsmessu dag vm vorit Anno Domini Millesimo Qvingentesimo vigesimo septimo.

---

337. 16. Maí 1527. í Njarðvík.

VITNISBURÐR, að Þorvarðr Bjarna(r)son hafi gefið Hólmfríði dóttur sinni jörðina Nes í Borgarfirði.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Norðrmúlasýsla Nr. 2. afskript Njarðvíkurbréfa staðfest á Skriðuklaustri 7. Marts 1704 af Hávarði Magnússyni og Sigurði Magnússyni og kallast „Nockrar Copiur af Lángfedga Eignarskiölum fyrir jördinne Niardvíjk“.

Svo felldañ vitnisburd ber eg Jon prestur Kodranzson. ad eg var þar vidstaddur. og fleiri gooder menn adrer. ȷ badstofunne å Valþiöfstad ȷ fliotzdal fim̃tadagenn nærsta effter purificationem Mariæ[2]). og fleiri gooder menn adrer. ad Þorvardur bõnde Biarna(r)son lýste þui fyrer oss. ad hann

1) Krvunu, afskr. Sr. Bjarna. 2) þ. e. 7. Febr.

heffde gefed Hőlmfrijde dőttur sinne jördina Nes j Borgarfyrde er liggur j Mýrarstadar kýrkiu sőkn til æfinligrar eignar og friđlz forrædess. Og til sanninda hier um̄ setta eg mitt Jnsigle firer þetta vitnissburdarbref skrifad j Niardvíjk fim̄tadagenn nærsta effter Hallvardzmessu. ǻrum̄ effter Gudz burd ꝏ d xx vij betur.

---

338. **27. Maí 1527.** **á Æsistöðum.**
**26. Marts 1528.** **í Gnúpufelli.**

Ólöf Jónsdóttir samþykkir allan þann gjörning, er biskup Jón og aðrir dandimenn höfðu gert á Möðruvöllum (Nr. 315) milli Sigurðar Sturlusonar bónda hennar og Þorvalds Arnasonar, og kvittar hún Þorvald Árnason um öll þeirra skipti.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Eyjafjarðarsýsla Nr. 2 og 3, tvær afskriptir, báðar staðfestar á Öngulstöðum í Eyjafirði 28. Apríl 1704 af Sigurði Hrólfssyni og Jóni Þorleifssyni, eptir transskripti frá 5. Júní 1573.

Þat giörum vær Simon Þorsteinssson. Jon Þorlaksson og Erlendur Erlendzson gődum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefui at þa lidit var fra gudz burd md xx og vij ǻr ǻ æsistodum i Eyiafirdi a manudaginn i fardagaviku[1]) vorum vær i hia saum og heÿrdum ǻ at þau voru aull i einu handabandi Þorvalldur Arnason og Sigurdur Stullason og Olof Jonsdotter kona hans at suo fyrir skildu. at Olof Jonsdotter samþyckti allan̄ þann giorning sem biskup Jon og adrer dandimenn giordu med þeim a maudruvollum og þat brefid innehelldur sem þar er um giort. og i sama han̄dabandi gaf Olof Jonsdotter kona Sigurdar Þorvalld Arnason aullungis kvittan um aull þeirra skipti. fyrst um jordina æsistade og alla peninga adra eptir sinn fodur og modur. Og til sannenda hier vm setium vær fyrnefnder menn vor insigli fyrir þetta bref er skrifat var i nupufelli i Eyiafirdi laugardagin næstan fyrir Marie messo Magdalene [a sama ǻre og[2]) fÿr seiger.

---

1) þ. e. 27. Maí. 2) [Svo; en blýtr að vera rangt fyrir: are sydar en, — því að conversio Mariæ Magdalenæ er 1. Apr.

**339.** **6. Júní 1527.** **á Þingeyrum.**

Guðmundr Indriðason transsskríberar bréf Eilífs Ólafssonar frá 28. Júlí 1403.

AM. Fasc. VI, 13 transsskriptarbréfið á skinni og er innsiglið fyrir.

Þath giôrir ec gudmundur jndridason godum monnum kvnnigt med þessu minv opnu brefi at eg hefi sied oc yfir lesit bref eilifs olafssonar med hans heilu oc oskavddu hanganda jnscigli. so latanda ord eptir ord sem hier seigir.

[Hér kemr bréf Eilífs frá 28. Júlí 1403, D I, III, Nr. 572].

Og til sanz uitnisburdar her vm set ec adurnefndur gudmundur mitt jnscigli firir þetta transkriptar bref er skrifat uar a þingeyrum fimtudag næsta eptir vppstigningardag arum eptir gudz bvrd. ꝏ d xx oc vij áar.

---

**340.** **27. Júní 1527.** **í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti kvittar Ara bónda Andrésson af umboði því, er hann hefir haft fyrir biskup í Vestfjörðum, og af greiðslu nær tveggja hundraða hundraða, er Ari var biskupi skyldugr vegna Hans Eggertssonar, og það, sem á vantaði, lofaði Ari að greiða í mögulegan tíma.

Bisk. Skalh. Fasc. XIX, 61, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2403 með hendi Árna Magnússonar „accuratissimé. Það, sem trosnað var úr frumritinu á dögum Árna, er sett hér í hornklofa.

Kuittanarbref Ara Andressonar.

Wier augmund med [gudz] nad biskup j skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu [bre]fi. at are bondi andresson hefur giort oss og stadit glaugguañ og rett[a]n reikningskap af þui umbodi sem hann hefur af oss haft j uestfiordu[m] yfer faustum peningum og lausum. so og hefur hann golldit oss so nær þau t[u]o hundrud huñdrada sem hann uar oss skylldugur negna hans egertzsona[r]. enn þad æ brestur hefur hann lofat at giallda j mauguligañ tima [þa] uier seium honum til. þui giorum uier

hann og gefum aurlungiss kuittañ [og ꝍ]kærulausañ. um fyrsagt umbod. og peningagialld fyrir oss og aullum uorum epterkomendum. heilagrar skalhollz kirkiu formonnum. Og til sanninda hier um̄ settum uier uort jnnsigli fyrir þetta kuittanarbref skrifat j skalhollti ulltima die octauarum corporis christi. anno domini. ꝏ. d. xx. uij.

---

**341.** **27. Júní 1527.** **í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti staðfestir og samþykkir dóm frá 19. Apr. 1526 (Nr. 289).

AM. Apogr. 908 „Ex orig. Vatzfiord. accuraté". Árni lýsir innsiglinu.

Wier augmund med guds nad biskup ȷ skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu woro opnu brefi. at uier haufum glaugliga skodat þenna sama dom sem hier er med festur þessu woro brefi. og .lizt oss hann ȷ allañ mata skialigur og laugligur ȷ aullum sinum greinum. þeim hann ȷnne helldur. þui ȷ guds nafni amen styrkium uier og stadfestum hann og laugligañ samþyckium og urskurdum ȷ aullum sinum greinum og articulis og fyrirbiodum huerium manni at hindra he(i)laga uazfiardar kirkiu eda hennar formann um þettta sama jtak enn huer þat giorer ma koma ȷ storañ skada þar fyrir seinna meir. Og til sanninda hier um setium uier uort ȷnsigli fyrir þetta bref fest med fyrsagdañ dom. skrifat ȷ skalhollti. ȷn octaua corporis christi. anno domini .ꝏ d xx uij°.

---

**342.** **1527.** **á Alþingi.**
**1528.** **á Húsafelli.**

Sáttargerð þeirra biskupanna Ögmundar í Skálholti og Jóns á Hólum um alt, sem þeim hafði á milli borið, og lofa þeir að innleiða hvorugr „i annars biskupsdæmi nokkra villu, leynt eða ljóst"; þeir gera og upp með sér „kláran" reikningskap um ȷarðirnar Víðimýri og Kalmanstungu.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Um Galmans-Tungu. Anno M°. D°. xx°. vii°.

Vier Ogmund med guds þolinmæde biskup i Skalhollte. giðrum godum mönnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad á almenneligu Øxarárþinge Anno Domini M°. D°. xx. vii. morgum dandimönnum nærverundum. var almenneleg sátt giðrd millum vor ok vors brodurs biskups Jons. ad nidurslegnum öllum hugmod ok misþyckiu sem þar til hafde á millum ockar komid. hver satt ad sidan var á sama áre fullkomliga stadfest. ok ut af giörd á Eyrum i Hrutafirde med suo ordnum skilmala millum annara orda. ad vid skylldum hallda ockart andligt broderni i gude. ok hvorge innleida i annars Biskupsdæmi nockra nyung leynt eda liost. fundustum vid á Husafelle i Borgarfirde Anno Salutis 1528. ok giörðum ut af klaran Reikningsskap um Videmýre sem liggur i Skagafirde ok Galmars Tungu i borgarfirde med þeim skilmála hann skyllde hafa jördina Galmars Tungu til byggingar og hallda gardinn og kirkiuna rielega ok skiællega ok giallda af .ccc. arliga vorum umbodsmanni. utan þá vier ridum i vora visitatio þá skýlldi falla nidur landskylld fyrer gisting. Var þad þá svarid og stadfest af fiorum heidarlegum personum af beggia hende. ad su satt sem vier og hann hefdum adur giört skyllde standa obrigdanleg þott vier sialfer eda okkart folk ættunst lög vid. ok ockart andlegt broderne i gude hielldist. ok hvergi innleiddi nockrar nyungar i annars biskupsdæmi. Voru þesser nærverande menn Herra Halldor[1]) abóte ad Helgafelle. Sera Eirekur Jonsson. Sira Snorri Hialmsson. Sira Freisteinn Grimsson prestar. Jon Hallsson. Jon Biörnsson leikmenn med mörgum ödrum dandimonnum.

Ok til saninda her um festum vier vort innsigli med fyrrskrifadra dandimanna innsiglum fyrer þetta bref. Skrifad ad Husafelle á sama áre sem fyrr seger.

---

1) *„corrige puto.* Narfe" (AM.).

243. 2. Júlí 1527. á Alþingi.
3. Júlí í Hafnarfirði.
5. Júlí í Skálholti.

Samningr um verzlun, vikt og mæli milli Hamborgarríkis og enskra kaupmanna af einni álfu og Alþingis fyrir hönd Íslendinga af annari álfu.

Bréf þetta er áðr prentað í Alþingistíðindum 1909, B, Nr. 533, bls. 811—814.

A.

AM. Fasc. XLVII, 7, frumritið á skinni. Fyrir bréfið hafa aldrei komið nema 7 innsigli. Af þeim eru nú 4 fyrir bréfinu. — Afskript í bréfab. Gizurer biskups (1540—1547) AM. 232. 8vo bl. 92a—93a (=*b*). — Afskript, sem stafar frá þessum texta bréfsins, er í Landsbókasafni 67. 4to bl. 118—119 með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti, með raungu ártali (1520). Hefir þetta frumrit bréfsins fyrrum legið í Skálholti og heyrir án efa til skjalasafns stólsins þar, því að svo stendr aptan við þessa afskript: „Þetta Bref skrifar Herra Oddur ad sie i Skalholti med siö hangandi osköddum jnnsiglum Anno 1549“. En hér við bætir síra Jón í Hítardal þessari athugasemd á spássíu: „1594 mun riettara því hitt stendst ecki“.

bref vm kaupskap vtlensk(r)a.[1])

Vier skipherrar og kaupmenn j hafnarfirdi [klawus mul.[2]) kortt blom. vilkin rvgg. petur rik.[3]) didrik meyar. hanz rohollt. jacob to(d)i[4]) handborgarmenn.[5]) skipherra hanz kokk [skipherra j breimin[6]). jon mor og matteus eingelska menn giorum godum monnum kunigt med þessu uoru opnu brefi þa er lidit war fra hingat bvrdi worz herra jesu christi ꝏc. vc. xx og vij ar tveimur nottum epter peturz messo og pallz æ almeniligu auxarar[7])þingi war þetta samþykt af ollum almuganum at wori boñ þyskra og eñgelskra at hier skylldi ganga fyrir sunan half fiorda weitt[8]) æ wog fyrir gillt .c. fiska med hreina fiska harda og kuistada. hier j mot jataudum wier og wiliuglega lofudum at flyt(i)a falslausan warning og

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. — Samþycktarbref utlendzkra um uiktena *b*. 2) [Clauus. mul. *b*. 3) Risk *b*. 4) tode *b*. 5) hamborgarmenn *b*. 6) [á spássíu óinnvísað, en er sett svo inn í *b*; má og lesa: bremum; *b* les: bremiñ. 7) *b*; auxar (!) *a*. 8) uætt *b*.

giora gomul halfstyckiz k(a)up sem at fornu hafa werit tueggia tunnu þuňga j hueriu .c. k(a)upi og hafa jslendskan puňdara rettan og so jslendskar stikur þa sem þingmællt wæri. hier med skylldum wier hafa rettan mæli þriatigi marka attvńg. tvo huňdrut marka tunnu. skylldi huer madur mega med fri k(a)upa þar hann willdi. So og lofudu wier at auňgwer vtlendsker menn huerkie þyskier ne eňgelskier skylldu giora hier skip ne menn til sios og eigi helldur liggia hier j landit wetrardag nema skipbrodzmenn[1]) eda smadreingier þeir sem auňguan k(a)upskap hafa. En ef vtlendskier kunne ecki at fa frackt og hier wæri ecki skreid til þa skylldum wier mega fa j hendur nockrum jslendskum manne trulyňdum wort goss og selia og þo auňguan pening dyrra a vetur enn a sumar geingur j rettri k(a)uptid. lofudum wier fyrr nefnder þyskier menn at fa bref af handborgar radi at þessi giorningur skylldi halldazt. somuleidiz lofudu engelskier af sinum parti at þetta skylldi obrigduliga staňda. enn huer[2]) hier af bryggde skylldi sliku sakader[2]) wera sem dæmt war j tijd gamla piningz. war þetta samþygt med lofataki af ollum almuganum badi jnan logrettu og utan[3]) j tid johan petursson er þa war hirdstiori og hofu(d)sman j[4]) jsland. og til sanninnda hier wm settum[5]) wier wor jnnsigli fyrir þetta samþyktarbreif[6]) skrifat j hafnarfirdi a sama ari deigi sidar en fyr seigier.

Nu med þui ef wier k(a)upmenniner kunnum ecki at fa wora frackt og vilie eingin mann tacka wora peninga þa wilium wier fa ydar nad þa edur logmannenum at selia þa fyrir oss. enn wili þit ecki þa wilivm wier setia epter wora menn at wier megum fa sellda wora peninga einz a vetur og a sumar [enn vili þier þat ecki þa skal.[7])

## B.

Ríkisskjalasafn Dana „Island & Færö" Fasc. I, 10, transskript á skinni frá 1544 gert í Núpufelli 7. Marts af Ara lögmanni Jónssyni og fleirum.

---

1) skipbrotzmenn *b*. 2) Svo. 3) *b*; inan *a* (!) 4) *b*; sl. *a*. 5) setium *b*. 6) — bref *b*. 7) Öll þessi klausa er rituð neðan við bréfið með sömu hendi; [er strykað út. Í *b* er þessari klausu slept allri.

Vier augmvnd med gvdz náád biskup j skalhollti. Herra jon med samri náád biskup áá holvm. johann petursson hirdstiori oc hofudzman yfer allt jsland. Erlendr þorvardzson lögman firir svnnan oc austan áá jslandi. Rafn brandzson lögman firir nordan et cetera. narfi sigvrdzson. Eirekr þorsteinsson. Biörn þorleifsson. Olafr gvdmvndzson. vigfus þordarson. Sniolfr Rafnsson. loptr eẏolfsson. petr arason. jon olafsson. þorsteinn finnbogason. avdvn sigurdsson ɢiorvm godvm monnvm kvnnigt med þessv uorv opnv brefi. at þáá er lidit var fra hingatburd vors herra jesv christi ꝏ d xx oc vij áár. tveimr nottvm epter peturs messo oc páals. áá almenniligv öxaráárþingi. var þetta samþẏkt af öllvm almvga at bon oc avdmivkri beidzlv. vtlendzkra manna. þẏskra oc eingelskra. suo heitandi. klaws mvl. kort blom. wilkin ʀugg. petr rijk. Didrik meyiar. Hans hrohollt. jacob tode. hanis kock. handborgarmenn. Jon mor oc mattheus eingelsker menn.

Jn primis at þeir bááдv at hier firir svnnan skylldi ganga. half fiorda vætt áá uog firir gillt hundrad fiska med hreina fiska kuistada oc harda.

Hier j mot jatvdv þeir oc uiliugliga lofudu at flytia falslausan varning. oc giora gömul halfstyckiskavp. sem at fornv hefer verid. tueggia tvnnv þvnga j hveriv hvndradz kavpi oc hafa jslendzkan pvndara ʀettan oc jslendzkar stik(u)r. þær sem þingmælltar væri.

Hier med lofvdv þeir at hafa ʀettan mæli. xxx. marka attvng. ij^c. marka tvnnv. skylldi hver madur mega med frij kaupa þar sem hann villdi.

Suo oc lofudu þeir at aunguer vtlendzker menn huorki þysker ne eingelsker skylldi giora hier skip ne menn til sios oc eigi helldr liggia hier j landit vetrardag. nema skipbrotzmenn eda smáádreingir þeir sem aunguan kavpskap hafa. enn ef utlendzker kvnna ecki at fáá frackt oc hier uæri ecki skreid til. þáá skylldi þeir mega fáá j hendr nöckrvm jslendzkvm manni trvlyndvm sitt godz. enn selia aungvan pening dyrra áá vetr enn svmar geingr j ʀettri kauptijd. lofudv þeir fyr nefnder þysker menn at fáá bref. af handborgara Raadi at þessi giörningr skylldi halldazt. Somvleid(is) lofudu eingilsk-

er a sinvm parti at þetta skylldi obrigdanliga standa. Enn huer af brýgdi skylldi slijku sakadr vera sem dæmt var j gamla piningz tijd.

Var þetta samþykt med lofataki af aullvm almuganvm bædi jnnan logʀettv oc vtan j tijd johann(s) peturssonar er þǿ var hirdstiori oc hǒfudzman j jslandi.

Og til sanninda hier vm setivm uær uor jnsigli firir þetta samþýktarbref hvert er skrifat var ǿ þinguelli ǿ sama ǿre deigi sijdar enn fýr seigir.

C.

Add. British Museum 11, 242. 4to, bl. 39b 40a, skr. c. 1543. (Syrpa síra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ).

Domr vm gillding oc mæler allan.

Vier avgmvnd med gvdz nad biskvp j scalhollti. herra jon med samre nad biskup æ holvm. johann petvrsson hirdstiore oc hofvdzmann yfer allt island. Erlendr þorvardzson logman firir svnnan oc avstan ǿ islande. Hrafn brandzson logman nordan oc vestan ǿ islande. jon hallzson. Eirekur þorsteinsson. Runolfur þorsteinsson. Biorn þorleifsson. Ólafur gvdmvndzson. Wigfvs þordarson. sniolfur hrafnzson. loptur eyolfsson. Petur arason. þorsteinn finbogason. jon olafsson oc avdvn sigurdzson. lavgriettumenn. ɢiorvm godum monnum kvnnigt med þessv voru opnu brefi at sub anno gracie. ꝏ. d. xx.⁰ uij⁰. tueim nottum epter Peturz messo oc pals[1]) ǿ avxarar þingi. war þetta samþyckt af almvganvm at bæn oc avdmivkri beislvn[2]) vtlenskra manna þyskra oc eingelskra svo heitandi vilken rvgg. petur rig. didrik meyar oc hanz rovlld handborgarar. jon mos oc mattevs oc jacob skipherra hanz kock af bremen.

Jn primis beiddiz þeir at firir svnnan skylldi ganga half fiorda vætt ǿ vog firir gillt hvndrat fiska med hreina fiska oc harda oc kvistada. Hier j moti loívdv þeir oc vilivgliga jatvdv at flytia falslausan varning oc giora halfstyckis kavp sem at fornv hafa verit. tveggia tvnna þvnga j hveriv hvnd-

1) þ. e. 2. Júlí. 2) Svo.

radz kavpi oc hafa islenskan pvndara riettan oc svo islenska stikv. þa sem þingmælt væri. hier med skylldi þeir hafa riettan mæle. xxx. marka attung. ijc. marka tvnnv. Skylldi hver madr med fri kavpa þar hann villdi. Svo oc lofvdv þeir at avngver vtlensker menn hvorki þysker nie eingelsker skylldi giora hier menn nie skip til sios oc ei helldr liggia hier j landit vetrardag nema skipbrozmenn eda smadreinger þeir sem avngvan kavpskap hafa. enn ef vtlensker menn kynne ecki at fa frackt oc hier væri ecki skreid til. þa skylldi þeir fa j hendr nockrvm jslenskvm manni trvlyndvm sitt godz oc selia þo avngvan pening dyrra æ vetur en æ svmar geingr j rett[a] kavptid. Lofvdv þesser fyrnefnder kavpmenn þysker at fa bref at handborgar radi at þessi giorningr skylldi halldaz.

Savmvleidiz lofvdv eingelsker af sinvm parti at þetta skylldi obrigdvliga standa. En hver er hier af brygdi skylldi slikv sakadr sem dæmdt var j tid gamla piningz.

War þetta samþyckt med lofataki af avllvm almvganvm bædi vtan logrettv oc jnnañ.

Og til sannenda hier [vm] setivm vier vor jncigli firir þetta samþycktarbref er skrifad uar j skalhollti tercio nonas jvlij á sama ari oc fyrr seiger.

---

**344. 10. Júlí 1527. á Reykjum.**

Jóhann Pétrsson hirðstjóri og höfuðsmaðr yfir alt Ísland kvittar, fyrir meðalgaungu Ögmundar biskups, Bjarna Erlendsson af því sakferli, er móðir hans varð brotleg fram hjá Erlendi Bjarnasyni bónda sínum.

AM. Fasc. XLVII, 6, frumrit á skinni, og er innsiglið enn fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2936.

kuittunarbref biarna Erlindzsonar.

Þad medkennunst eg iohann petursson hirdstiore og haufudzmann ofer allt island at verdug fader j gude biskup egmund hefur forlikast med mig vm þad sakferli sem biarne

erlenzson var mig skulldugur kongdomsens vegna. vppa þat malefne sem moder hans vilborg loptzdotter hafdi brotlig ordit fram hia bonda sinum erlendi biarnarsyne. þui gef eg og giorer adur skrifadan biarna erlensson aulldungis kuittan og akærulansan fyrir mier og aullum minum efter komendvm mins nadugasta herra konungsens vmbodzmonnum vm adur skrifat sakferli og peningagialld. og til sannenda hier vm feste eg mitt insigli fyrir þetta bref skrifat a reykium j auluosi ipso die septem fratrum. anno domini ꝏ d xxuij.

---

**345. 13. Júlí 1527. Í Skálholti.**

Transskriptabréf um Teitsmál (Sveinsstaðafund).

AM. Fasc. XLVI, 6, frumtransskriptið á skinni. Öll (6) innsiglin eru dottin frá. Sbr. AM. Apogr. 3836, með hendi Árna Magnússonar.

Transscriptum nokkurra brefa um Sveinstadafund 1523 (!) giört 1527.[1])

[Hér kemr:

1. Alþingisdómr Hannesar Eggertssonar 30. Júní 1523, Nr. 123, að framan;
2. Staðfesting Erlends lögmanns á þeim dómi 1524, Nr. 192 að framan;
3. Kvittunarbréf Hannesar hirðstjóra Eggertssonar 3. Júlí 1523, Nr. 129 að framan].

Þat giorum uier þorsteirn þorleifson. jon biornsson. biarne torfason. og olafur narfason. petur arason og jon loptzson godum monnum uiturligt med þessu woru opnu brefi at uier medkennuńdzt at uier hafum heÿrt sied og ÿferlesit suo latańdi domsbref med laugmannz urskurde og þar med kuittunarbref af kongdomsens foueta med hangańde innsiglum heilum og oskoddum suo latanda ord fyrir ord

1) Utan á bréfinu með hendi Árna. 2) Í Apogr. 3836 lýsir Árni Magnússon innsiglum þeim, sem þá voru fyrir transscripto, og dregr upp hundsmynd úr innsigli Jóns Björnssonar, og segir þar um : „Mun ecki þesse Jon Biörnsson vera sonur Biarnar Gudnasonar. tempora conveniunt et canis ille in sigillo“.

sem hier a fÿr skrifudum brefum standa. Og til meiri stadfestu og audsÿningar hier um setium uier fÿr nefnder menn uor jnnsigle fyrir þetta uitnisburdarbref huert er skrifat uar J skalhollte jpso die sancte margarete uirginis anno domini ꝏ. d. xx. vij.

---

346. 14. Júlí 1527. í Níðarósi.

Bréf Ólafs Engilbertssonar erkibiskups í Niðarósi til Dr. Zutpheld Wardenbergs umboðsmanns síns í Rómaborg um ýmisleg málefni, og meðal annars um það að taka Guðmund „góða" Arason Hólabiskup í tölu heilagra manna.

Dipl. Norv. VII, Nr. 640 (eptir samtíða afskript í Ríkisskjalasafni Norðmanna, Münchenarsafn 2246). Hér er að eins það tekið úr bréfinu, er snertir Guðmund biskup.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Extunc eciam auxiliante deo vlterius procedemus apud sedem apostolicam vestro adiutorio jn canonisatione bonj patris Gudmundj Jslandensis et aliis variis causis nos et ecclesiam nostram concernentibus prout dominationem vestram certiorem litteris nostris eo tempore faciemus . . . . . Ex curia nostra archiepiscopalj Nidrosiensj anno dominj millesimo quingentesimo vigesimo septimo die vero 14 mensis Julij nostro sub signeto presentibus subimp(re)sso.

---

347. 15. Júlí 1527. í Hvammi.

Ögmund biskup í Skálholti fær Teiti bónda Þorleifssyni til fullrar og æfinlegrar eignar jörðina Hvamm í Hvammssveit undan sér og heilagri Skálholtskirkju og lausafé eptir kaupbréfi þeirra; þar með kvittar biskup Teit um fornan og nýjan reikning Bjarnanesskirkju.

Bisk. Skal. Fasc. XIII, 3, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2456 „accuratissimé".

bref fyrir huame j huamzsueit. wm kaupsk(ap)
Biskups Ogmundar og teitz.

Þat giorvm ver þorleifur palson are andresson petr loptsson þorsteinn þorleifson ion biornson og hening þordarson godvm monnum viturligt med þessv vorv oppnv brefi arvm epter gvdz b(u)rd ꝏ. v. c. xx. og vij ær fimta dagenn næstañ fyrir dyra dag[1]) vm̃ vorid j hvamme j hvam sveit vorvm ver j hia saum̃ og heyrdvm æ ord og handaband þessara manna herra avgmvndar med gvdz nad biskup j skalahollti og teitz þorleifssonar at svo fyrer skildv[1]) at greindr herra augmvnd afhente adr greindvm teite þorleifsyne gardinn jordina hvamm j hvammsveit med avllvm þeim gavgnvm og gædvm sem adr greindre jǫrdv fyllger og fylgt hefer at fornv og nyv og hans nad hafdi fremzt eigande at ordid vñdan sier og sinvm epterkomendvm heilagrar skalholltz kirkiv formonnum enn vñder adrskrifadan teit þorleifzson til æuenligrar eignar og frials forrædiss edr hvad hellzt opt nefndr teitr þorleifzson villdi sialfr ʙad fyrer adr greindvm gardi giora. afhente og oppt nefñdr herra augmund titt skrifvdvm teite þorleifzsyne j sama hañdabañdi alla þæ peninga kvika og davda fasta og lavsa epter þvi sem þeirra kavpbref jnnehelldr. hier med j sama hañdabañdi gaf titt nef(n)dr herra augmvnd þratt greindan teit þorleifzson avlldungiss kvittan og ækærvlavsan vm̃ allañ reik(n)ingskap heilagrar kirkiv j biarnanesi fornañ og nyañ fyrir sier og sinvm avllum̃ eppterkomendvm kirkivnnar formonnum. vorvm ver til kvadder af virdoligvm herra biskup avgmund at bera hier vm fullnadar vitni og hier epter vilivm ver sveria ef þ(u)rfa þiker. og til meire stadfestv og ædsyningar hier vm settvm̃ ver fyr nefnder menn vor jnnsigli fyrir þetta vitnisb(u)rdar bref hvert er skrifat var j hvamme j hvammsveit æ manvdagen næsta fyrir þorlaks messo vm svmarid æ sama ære sem fyr seigeʀ.

---

**348. 20. Júlí 1527. á Hólum.**

Jón biskup á Hólum skipar Ólaf prest Hjaltason prófast

1) 13. Júní.

og almennilegan dómara milli Vatnsdalsár, Vatnsskarðs og Hrauns á Skaga.

AM. Fasc. XLVII, 8, frumritið á skinni úr safni Hólaskóla; innsiglið er dottið frá.

Sira Olafur Hialltason skickadur af Jone biskup profastur milli vass skardz og Skaga 1527.

Vier ȷon med gudz ;náád biskup a holum ȷ hialltadal heilsum aullum godum monnum ȷ mille vazdals ár hrau(n)s áá skaga og vazskardz met gudz kuediu og vorre. vier vilium ydur viturligt giora at vier hofum skipat vorn̄ kiæra son̄ sira Olaf hialltason profast og almenneligan̄ domara med ydur vm þau mal sem heilaga kirkiv og oss áá hrærer. skal hann prof a taka yfer dæma og afleysa og setia peneten̄cias competentes þeim sem brottliger verda og ordit hafa at fra skildum prestum og þeirra frillum. hann skal sia at kirkium og kirkna eignum og áá aullu þui vakt og aahyggiu hafa sem kristendomenum til heyrer og þeirra riett vardar. petursfe og vintolla og biskupstiunder skal hann saman taka ȷ sogdu takmarke og færa heim til hola vnder riettan̄ reikningskap. biodum vier fyr nefn̄dum sira Olafe at tempra alla sina doma met ȷafnre skynsemdar vog og geyma rettvise allra manna ȷ millum og sie miskunsamvr vid hlydna og auduelldа enn þrioskum og þralyndum verde hann riettur domare. hann skal hafa sier til liettis helptina af ollum ıx marka máálvm og þar fyrir ȷnnan. enn ef stærre máál kvnno til at falla. sem gud giefe helldur færre enn fleire. þeim skal hann fyrir oss stefna og vnder heilaga kirkiu og oss sækia og þau aunnur sem hann vill til vor bioda og hann þikizt ecki mega yfer taka. bidivm vier vm alla goda menn og sierliga vora vine at þier sevd fyr nefndum sira olafe hlydner og epterlater greider og godviliuger ȷ òllvm þeim hlutum sem hann kann ydvar met þurfa áá medan hann stendur ȷ þessu heilagrar kirkiu starfe og voro vmbode. skal þetta vort vmbod standa til næstu ȷon̄smesso baptiste og þat leingur sem vier giorvm ei adra skipun áá. Og til sanninda hier vm setivm vier vort ȷnnsigle fyrer þetta bref skrifat áá hol-

um ı hialltadal þorlaksmesso vm sumarit arum epter gudz burd .ꝏ. d. xx og vii.

---

**349. 15. August 1527. á Bergenshúsi.**

Vincencius Lunge ritar Ólafi erkibiskupi Engilbertsssyni um tvennar kærur frá Skotakonungi um tvö skip frá Skotlandi, er tekin hafi verið við Noreg; hafi menn sínir og teingdamóður sinnar tekið annað þeirra, en þó feingið skipstjóranum, Valter Skotta, það óðara aptr, en hitt hafi erkibiskupsins menn tekið; þeir hafi og tekið skip frá Kampen, en skipinu hafi þeir skilað aptr, en gózið alt tóku þeir og fluttu til Túnsbergs. *„Sydenn ville the løbe vndher Yslandt at tage paa the Engelske“*. Bréf þetta kemr Íslandi ekki við að öðru leyti.

(Dipl. Norv. VIII, Nr. 562).

---

**350. 16. August 1527. í Skálholti.**

Sakir þess að conventubræðr i Viðey vilja ekki halda þann prófentuskilmála, er Ögmundr biskup i Skálholti gerði við Önnu Snjólfsdóttur, af því að sá misgáningr varð að setja það í bréf hennar, að hún skyldi hafa frí hús í eynni, þá skipar biskup, að Anna hafi og haldi meðan hún lifir það hús, sem næst er „fram“ fyrir kirkjuna, með þeim greinum, er bréfið hermir.

AM. 238. 4to bl. 8—9, skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

breff vm hus aunnv sn(i)olfsdottur.

Vier broder oggmvndvr med gvdz nad biskvp j skalholti giorvm godvm monnvm kvnnigtt med þessv vorv opnv brefi. Sakir þess ad conventvbrædvr j videẏ villia ecki hallda þan skilmala sem vier skildvm fyrir avnnv Snioolfsdottvr profentvkvinnv j videẏ fyrir þan skylld at þat hefir ordit

misganingvr ad skrifa ok setia þat i hennar bref at hvn skýllde hafa fri hvs j eýne. et cetera. þvi biodvm vier nv og skipvm med þessv voro brefi ad greind anna snioolfsdotter hafi og halldi svo leinge hvn lifir þat sama hvs sem næst er fram fyrir kirkivna med þeim skilmala sem vier sialfer (hofum) fyrir sagdan med fyrsta þa hvn skillde hafa profentv j videý at abotinn skillde þar inn leggia þat hann þýrfti klavstvrzins vegna. svo at fýrnefnd anna hefdi avngva hindrañ eda þreýngsl vt af. þar med a(r)liga skýrtvleriptt og tvenn por sko. Somvleidis villivm vier og stadfesta vp á ný med þessv voro brefi þetta bref sem hier med hanger mýndvgtt og fullmectvgtt med ollvm sinvm greinvm oc articulis.

Og til sannenda hier vm festvm vier vortt insigli fyrir þetta bref skrifad j skalhollti feria ij infra octavam assvmptionis sancte marie virginis anno domini [1517 m d xvij.[1])

---

351. **20. August 1527.**

Ögmund biskup í Skálholti fær undan sér og heilagri Skálholtskirkju Jóni bónda Þorvarðssyni jörðina Skúmsstaði í Landeyjum, með ánefndum kirkjujörðum og innstæðu, til fullrar eignar fyrir jarðirnar Holtsmúla á Landi, Brekkur í Holtum og Lágafell og Stakkholt í Landeyjum.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2736 með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ogmundar“ (AM.).

Um Skumstadi i Landeyum.

Vier Øgmund med guds nád biskup i Skalhollti giörum godum mönnum kunnugt med þessu voru opnu brefe ad á þridiudagin epter Assumptionem Sanctæ Mariæ Virginis Anno Domini M⁰. D⁰. xxvii. giördvm vier svoddan kaup og jardaskipti vid Jon bonda Þorvardsson. Jn primis feingum vier hönum jordina Skumstadi sem liggur i vestrum Landeyum

1) [Svo; *rétt*: md xxvij.

at tilgreindum þessum ȷordum kirkiunnar. ȷn primis Skeggiastader. Klasbardar tvenner. ok ein eydejord. sem þwfa heiter. med ollum þeim gögnum og giædum sem greindre ȷordu fylgør og fylgt hefur ad fornu og nyu bædi til sios og lands. og vier og Skalholltskirkia urdum fremst eigande ad med lögum og epter dőndimanna domi. Svo og hofum vier lagt til kirkiunnar ȷnnstædu .v. malnytu kugillde. Her i mot hefur fyrrnefndur Jon b(ondi) Þorvardsson feingid oss þessar ȷarder er svo heita. Jn primis ȷordina Holltsmula xxc. sem liggur i Vallakirkiu sokn. jördina Breckur xc. sem liggur i Arbæiar kirkiu sokn. Jtem ȷördina Lágafell xxc. er liggur i Krosskirkiusokn. Jtem ȷördina Stackhollt xc. er liggur i somu kirkiusokn med ollum þeim gögnum og giædum sem þessum adurskrifudum ȷördum fylger og fylgt hefur ad fornu og nýu bæde til sios og lands. ok hann vard fremst eigande ad med lögum. skal hver svara lagariptingum sem selldi. enn hallda til laga sa ed keypti. Kunne þessar ȷarder af hönum ad ganga med lögum. sem vier höfum hönum sellt. þő skal hann eiga lögligan adgang aptur ad sömu ȷördum. Svo og hefur opt skrifadur Jon bonde lofad ad lata giöra upp kirkiuna ő Skwmstödum. hallda kirkiuna med heidur og kiennemenn. sem tilber og möguligt er. vera vor madur suo leingi sem vier lifum. Þar i mot höfum vier lofad ad hann skal vera frij og frials fyrer kirkiunnar ʀeikningsskap so leingi gud vill ad vier lifum et cetera.

---

352. **22. August 1527. 18. Janúar 1528.** **á Auðkúlu.**

Jón biskup á Hólum fær Þórarni Jónssyni til fullrar eignar jarðirnar Ása og Tungunes á Ásum, og komi kæra á Tungunes, þá eignist Þórarinn Klömbur í Vestrhópi; en Þórarinn leggr í mót með upplagi og samþykki Þuríðar Haldórsdóttur konu sinnar jarðirnar Galtafell í Hrunamannahrepp og Bergstaði í Biskupstungum, með fleirum greinum, er bréfið hermir.

AM. Apogr. 393 eptir frumritinu, sem fyrrum hafði verið með 4 innsiglum. „Þetta bref er riett coperad efter gömlu brefe nú innsiglalausu. Þad vottum vid underskrifader. Arne Magnusson. — Päll Häkonarson".

ihesus.

Þat giorum vier þorsteinn ionsson. þormodur snorason. prestar. einar einarsson og biarni stullason leikmenn godum monnum kunnigt. med þessu uoru opnu brefi. at þa lidit uar fra guds burd ꝍ. d. xx. oc uij. ár. á fimtudaginn næstan bartholomeus ꝍesso. á audkulu í suínadal uoru uier j hia saum oc heyrdum á ord og handaband uerdug herra biskup ions arasonar oc þorarins ionssonar. at suo fyrir skildu. at greindr herra seldi fyr skrifudum þorarni ionssyni til fullrar eignar þessar jarder. asa oc tungunes. er liggia á asum j hunauatzþingi j suinauatz kirkiu sokn med ollum þeim gögnum og gædum sem greindum iordum fýlger og fylgt hefer at fornu oc nýiu. oc biskupinn uard fremst eigandi at heilagrar kirkiu uegna og sinna. enn ef nockur itök eda klogun med dandimanna domi kæmi upp j iördina tungunes. þa skýlldi þorarinn eda hans erfingiar eignazt iordina klaumbur j uesturhopi j breidabolstadar kirkiusokn. og fyrir kom sagda iord tungunes. hier í mot gaf oc selldi þorarinn ionsson biskupinum suo heitandi jarder. j sunnlendinga fiordungi galltarfell er liggr í hrunamannahrepp j holakirkiu sokn oc belgstadi j biskupstungum. er liggr j brædratungu kirkiu sokn. til fullrar eignar italalausar med ollu. med upplagi og samþýcki þuridar halldorsdottur konu sinnar. ʀeiknuduzt þessar iarder iiij hundrudum odýrri. huad biskupinn sagdizt gefa sagdri þuridi. og í sama handabandi lagdi þorarinn mala adr nefndrar þuridar ur þeim iordum er hann selldi hennar uegna. upp í iordina hafstadi á skagastraund. er liggur í hauskullzstada kirkiu sokn. og honum þa tilheyrdi. Reiknuduzt þat .xl. hundrada at forngilldu. ennn iordin fimtigir hundrada. skýlldi huor suara lagaʀiptingum á þeim iordum sem seldi. enn bader hallda til laga þeim iaurdum er keypti. Og til saninda hier um setium uier nor innsigli fyrir þetta bref skrifat á kulu í suínadal laugardaginn næstan fyrir palsꝍesso um ueturinn. ari sidar enn fyʀ seiger.

353. 25. September 1527. á Þingeyrum.

Jón Jónsson gefr klaustrinu á Þingeyrum með sér í prófentu jörðina Bersastaði á Miðfjarðarnesi, fyrir tólf hundruð, og þar til átján hundruð í lausafé, með fleirum greinum, er bréfið sér líkast hermir.

Eptir frumriti á skinni, mjög nudduðu og skemdu, meðal Þingeyrabréfa í Landsskjalasafninu. — AM. Apogr. 472 eptir frumritinu, sem þá (1712) var orðið skemt, en Árni hafði við höndina afskript með hendi Hákonar Ormssonar (A.M. 280. 4to) og Þorkels Guðmundssonar, báðar gerðar meðan bréfið var allæst.

Bessastadabref 1527.

Jn nomine domini amen. Giordizst suo fellt profentukaup æ millum herra abota helga a þyngeyrum med vithand og samþykt virduligs herra herra jons med gudz nad biskups a holum og conventubrædra þess sama klausturs af einne alfu en jons jonssonar af annare alfu. j fyrstu at adurnefndur jon giefur med sier til þyngeyra til æfenligrar eignar jordiñ alla bessastade a midfiardarnese j melskirkiu sokn fyrir .xijc. og þar til fiogur malnytu kűgillde. hest fyrir .ijc. og .ijc. j busgagne. skyllde þetta lukast at næstum fardogum. þar til skyllde hann giallda .xc. j þarfligum peningum jnnañ tueggia ara. hier j mot skilde jon sier af stadnum sæmeligt bordhalld sem frialsum manne ber og godur gamall vane være til og tűitűga vad arliga og gelldings klypping og hafa hus a stadnum vt af þat er aboten anefnde. skyllde jon hafa med sier til stadarins sæng og kistu. skal staduren hallda sængena ferdűga en eignast huortuegia epter hans dag. skyllde oppt nefndur jon koma a profentuna at næstum fardogum. skyllde staduren eignast halfa peninga epter handabandit en alla þegar hann kæme a profentuna. Voru þesser kaűpvottar tumas arnason og olafur jonsson leikmenn. Og til meyre styrktar og audsyningar hier vm sette herra jon biskup sitt insigle. abote og brædur sin jnsigle med fyrr nefndra manna insiglum fyrer þetta bref. for adur skrifud profentugiof fram a þyngeyrum jn die firmini episcopi et martiris anno domini ⅿ⁰. d⁰. xx. vij⁰.

[Tveir af þveingiunum under þessu brefe eru skorner ur odru brefe [frá 17/3 1503] nedan af þvi. og er skriften á þeim so sem epter fylger:

med silfur og eina tannskak. Ok til sanneñda hier vm. settvm vid fyrrnefnder menn ockur jnc[igli fyr]ir þetta bref er skrifad uar æ holvm ȷ hialltadal fostudagenn næsta fyrir chathedram petri. anno domini ꝏ⁰. d⁰. tercio[1]).

---

354. **27. September 1527. í Spjaldhaga.**

Tylftardómr útnefndr af Jóni biskupi á Hólum, er þá hafði kongsins sýslu og umboð í Vöðluþingi, að gera lagaskipti eptir Grím heitinn Pálsson frá fallinn.

A.

AM. 234. 4to bls. 510–513, skr. c. 1624 fyrir Odd biskup. — AM. 211D. 4to bls. 1—3, skr. c. 1700. — Prófastsbókin úr Ísafjarðarsýslu (= áðr ÍBfél. Khd. 79. 4to) skr. c. 1690 (= *b*). — AM. Apogr. 5762 (mjög svipað AM. 211D. 4to). — MSteph. 27. 4to bls. 340—342, Svartskinna með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1730. — Prentað í Sýslumannaæfum I, 179—181 (ekki góðr texti).

Skiptta Brief eptter Grijm heitinn Pælzson sem var á maudruvollum.

Þad giorum vier Ormur Jonsson. Bessi Þorlakzson. Simon Þorsteinsson. Jon Þorlaksson. Þorleifur Þorleifsson. Sæmundur[2]) Simonarson[3]). Petur tumazson. Þorstejrn Þorlakzson. Þorsteirn Simonarson[3]). Þorvalldur[4]) Árnason[5]). Gunnstejrn Oddzson og biorn[6]) Jonsson Godum monnum kunnigtt. med þessu voru opnu Brefe. ad arum eppter Gudz Burd m. d. xx og vij ar ȷ Spialldhaga ȷ Eyafirde. faustudaginn næstañ fyrir[7]) Michaelzmessu. vorum vier til domz nefnder af verdug[8]) herra Biskup Jon er þa hafde kongzinz syslu. og um̃bod ȷ vaudluþijnge. ad giðra lagaskiptte a arfe

---

1) [AM. Apogr. 472. Þveingirnir eru nú týndir. 2) Sigmundur (!) *b*. 3) Snorrason (!) 211, 5762. 4) Þorvarðr (!) 27, 211, 5762, Sýsl. 5) Arason (!) 27, 211, 5762, Sýsl. 6) Bjarni 27, Sýsl. 7) effter 79, Sýsl. ofl. (= 4. Okt.). 8) verdigum 27, 5762, Sýsl. ofl.; virdugligum *b*.

og peningum. eptter Grijm heitinn Palsson frǿfallenn. voru laugarfar Grijmz heitinz[1]). Þorleifur. Pǻll.[2]) Gudny. solveig. ingibiorg. Laugdu þesser fyrrnefnder brædvr Þorleifur og Pǿll. og Bændur þeirra[3]) fyrrgreindra kuenna. allañ fyrrsagdañ arf. til rettra lagaskiptta. under vora skodun og skiptti. og lofudu med handsaulum vid Biskup ion. oss [aheyraundum[4]). ad þeir skýlldu sijn ǿ millum hafa og hallda sem laugsamdañ dǿm. [5])um alldur og æfe. þad[6]) skiptte sem vier a giaurdum. þeirra j mille. Enn medur þuj. ad þar kom ei fram̄ fyrer oss. og eige vissum vier. ad nockur lagaskiptte hefde a fallid med Þorleife Grijmssyne. og grijme palssyne. um̄ þǻ peninga. sem greindum Þorleife. og grejndum Benedicktt[7]) fiellu til arfz eptter Pæl hejtinn Brañdsson faudurfaudur sinn. enn sogdum grijme hafde til Erfda fallid eptter Benedicktt heitenn Grijmsson son sinn. Kom þar eigi fram̄ fyrir oss nockur reijkninguskapur a þejm lausagodzum. sem ȷ sagdañ arf hafde fallid. eptter pæl Brandsson. þuj samañ reijknudum vier med kunnigustu manna [rǻde og[8]) skodañ. og eptter þuj sem fyrrnefnder Erfingiar fram̄ tauldu. og þeir lietu[9]) sier samþyckiligtt verda. ad greindur arfur eptter pæl heitinn Brandsson. munde verid hafa .xx^c.[10]) hundrada. og lxxx^c j ȷardagodze. Enn ȷ lausagodze v^c hundrada. Þuj ȷ fyrstu skipttum vier Þorleife Grijmssyne helmijng sagdra peninga. og þuj voru þeir peningar sem Baurnum Grijmz haufdu til Erfda fallid eptter hann xiij^c hundrada og fiorutigir hundrud. skipttist hvorium þeirra Brædra af arfe Grijmz. iij^c hundrada. lxxx^c. v^c.[11]) og iiij[12]) agillde. Enn hverre þeirra þriggia systra skipttist af arfe Grijmz hundrad hundrada .lxxxxx^c. ij^c og v agillde. var þǻ oskiptt xx alnum millum adurgreindra syskyna. Reijknadist ad Pæll hafdi uppborid iiij^c hundrada og vj^c af þeim peningum sem Grijmur hafde ǻtt. Var þad fyrst Einarstader ȷ Reykiardal og hof a haufdastraund. med þessum vtjordum Þrastastaud-

---

1) börn hans skilgetin, b. v. Sýsl. 2) Benedict, b v. Sýsl. 3) þessara *b* ofl. 4) [öllum fyrskrifudum mönnum aheirande *b.* 5) 234 b. v. það, sem er ofaukið. 6) þau *b.* 7) Grímssonum b. v. Sýsl. 8) [sl. Sýsl. 9) lýstu (!) Sýsl. 10) xxj, Sýsl. 11) sl. *b*, Sýsl.; 12) þrjú, Sýsl.

um . hraune. stærre Breckum. minni Breckum. Svijnavaullum. Jsolfstaudum a tiornesi. half Biorg j kiun. halfer hallbiarnarstader ȷ Reykiadal. Dattstader. skőgar ȷ hnioskadal. og þar til lausagodz. skipttust Gudnyu Grijmzdottur ȷ sinn partt þeir peningar sem hun hafde upp borid. var þar til Reıȷknadur halfur mannskapzhőll ꜳ haufdastraund. Grilli. þverꜳ. Reykiarhőll j fliotum. og þar til lausagodz. Enn Solveigu Grijmzdottur ȷ sinn partt skipttust þeir peningar sem hun hafdi upp bored sem var til Reiknad. Gardza ȷ Eyafirde med tuejmur eydejordum. er [Þremur heita[1]). fyrer lxc. holl. Brecka. Sverttingzstader. lxxc. og þar til lausagodz. skipttist ingibiorgu Grijmzdőttur ȷ sinn partt af greindum arfe þessar ȷarder. Gil og mælifellzꜳ j Skagafirde. stafnzhőll. og stafn og Gil j Suarttardal. og þar til lausagodz suo mykid hver þeirra systra. sem hver þeirra hafde sinn hlut fullañ. sem fyrr skrifad stendur. Enn Pall Grijmsson skillde apttur (leggia) adurgreindum siskynum sijnum suo mykid sem tala rennur til ad hann hafe meira haftt. enn suo mykid kome a hverz hluta. sem fyrer skrifad stendur. Enn maudruvelle ȷ Eyafirde. og Silfrastadi j Skagafirde. og alla adra fasta peninga. og lausa. sem oskıȷptter voru. og fallid hofdu ȷ arf eptter Pæl Brandsson og Grijm Pꜳlsson. dæmdum vier og skipttum til arfz og Eignar Þorleifi Grijmzsyne. kunne greindur Þorleifur eda adrer Erfijngiar Grijmz nauckra þa peninga ad sækia. edur kiæra. af odrum monnum. sem af greindum arfe til koma. þꜳ sem þeir hafa nu ej ad hallda. þꜳ skal þad koma til riettra skiptta med þejm.

Samþycktte þennañ vorn dom fyrr grejndur herra. og adur sagder Erfingiar. og um̃bodzmenn og lagaskiptte greindra syskina j mille.

B.

Landsbókasafn 67. 4to bl. 135—137, með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti c. 1650.

Skipta Bref eptter Grijm Pꜳlsson.

Þad giorum vier Ormur Jonsson. Besse Þorlaksson. Si-

1) [þ(r)aum huor heiter *b*.

mon Þorsteinsson. Jon Þorlaksson. Þorleifur Þorleifsson. Sæmundur Simonarson. Petur Tomasson. Þosteinn Þorlaksson. Þorsteinn Simonarson. Þorualldur[1]) Arnason. Gunnsteinn Oddsson og Biörn Jonsson. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad árum eptter Gudz burd 1527 á Spialldaga j Eyiafirde föstudagenn næstañ fyrir Michaelis messo. vorum vier til doms nefnder af werdugum herra Biskup Joni Arasyne er þa hafdi kongs syslu og vmbod[2]) ad giora lagaskiptte á arfe og peningum eptter Grijm heitinn Pálsson fráfallinn. voru lögarfar Grijms heitins Börn hañs skilgetin. Þorleifur. Páll. Gudny. Solueig. Jngebiörg. Lögdu þeir fyrrgreinder Brædur Þorleifur og Páll og Bændur þeirra fyrrnefndra kuenna allañ fyrrgreindan arf til vorra lagaskipta. vnder vora skodun og skipte. og lofudu med handsölum vid Biskup Jon oss áheyrundum. ad þeir skylldu sijn á millum sem lögsamdañ dom. vm alldur og æfe. hallda þad skipte. sem (vier) á giordum þeirra ȝ millum. Enn med þui ad þar kom eigi fram̃ fyrir oss. og eigi vissum vier. ad nöckur lagaskipte hefdu á falled med Þorleifi Grijmssyne. og Grijmi heitnum Pálssyne. vm þa peninga sem greindum Þorleifi og Benedict Grijmssyne fiell til arfs eptter Pál heitinn Brandsson födurfödur sinn. Enn sögdum Grijme hafdi falled til arfs eptter Benedict Grijmsson. son sinn. kom þar ei fram̃ fyrir oss nockur Reikningskapur af þeim lausagotzum sem ȝ sagdañ arf hafdi falli falled eptter Pál Brandsson. þui saman reiknudum vier. eptter kunnugustu manna skodun. og eptter þui sem fyrrnefnder erfingiar fram̃ töldu. og þeir lietu sier samþyckilegt verda. ad greindur arfur eptter Pál heitinn Brandsson mundi vered hafa ȝ iardagotze xxc hundrada jc hundrada[2]) og lxxxc. Enn ȝ lausagotze. vc. hundrada. Þui ȝ fyrstu skiptum vier Þolleifi Grijmsyne [helming sagdra[2]) peninga. oc þui voru þeir peningar. sem Börnum Grijms hafdi til arfs falled eptter hann xiijcc og xlc. skiptist huorum þeirra brædra Þorleife oc Pále af arfi Grijms iijcc lxxxvc og iiij agillde. Enn huerri þeirra systra skiptist af arfe Grijms jcc llijc og v agillde. var þa oskipt xx alnum á millum ádur

1) Þoruardur, hdr. 2) Svo. 3) *[leiðrétt;* holum og stigra (!) hdr.

greindra syskina. Reiknadist ad Páll hefdi vppbored iiijc lxc af þeim peningum sem Grijmur hafdi átt. var þad fyrst Einarstader j Reykiadal. og Hof á Hôfdaströnd. med þeim vtiördum. Hrauni. stærri Breckum. minne Breckum. Suijnavöllum. Jsolfsstödum á Tiörnese. Biörg j kinn. halfer Hallbiarnarstader j Reykiadal. Dattstader[1]). Skogar á[2]) Hnioskadal og þar til lausagotz. Skipttist Gudnyu Grijmsdottur j sinn part þeir peningar sem hun hafdi vpp bored. var þar til reiknadur halfur mannskapshöll á hôfdaströnd. Griller. Þuerá. Reykiarholl[3]) i fliotum og þar til lausagotz. Enn Solueigu Grijmsdottur j sinn hlut skiptust þeir peningar. sem hun hafdi vpp bored sem var reiknad Gardza[4]) j eyiafirdi medur ij eydiiördum [edur þrimur fyrir xlc heita[5]). Holl. Brecka. Suertingsstader. xxxc. og þar til lausagotz. skiptist Jngibiörgu Grijmsdottur j sinn part af greindum arfe þessar iarder Gil og mælifellsá j Skagafirde. Stafsholl. stafn og Gil j suartárdal. og þar til lausagotz. so micid huerri þeirra systra. so huer þeirra hafdi sinn fullan hlut. sem fyrr skrifad stendur. Enn Pall Grimson skylldi apttur leggia vid adurgreind syskin so micid sem tala rennur til. ad hann hefur meira haft. enn so micid komi á huers hlut sem fyrr skrifad stendur. Enn Mödruuelli j Eyiafirde og Silfrastadi j Skagafirde. og alla adra fasta peninga og lausa sem oskiptter voru og falled höfdu j arf eptter Pál Brandsson og Grijm Pálsson. dæmdum vier og skiptum til arfs og eignar Þorleifi Grijmssyne. Kunne greindur Þorleifur edur adrer erfingiar Grijms nockra þa peninga sækia edur kiæra af ödrum mönnum. sem af greindum arfi til koma. þa sem þeir hafa nu ei ad hallda. þa skal þad koma til riettra skipta þeirra j milli.

So og skylldu þeir allir skulldum giegna ad iafnadi. þeim sem hier til hafa á komid. edur riettiliga kunna vpp a ad kiærast. so kirkiugotze sem odru vitafie. Reiknadi fyrr greindur herra Biskup Jon j ádurgreindum peningum eptter gomlum Registrum eigi minna enn vjc.

1) Dallstader, hdr. 2) Svo. 3) Reykiaholt, hdr. 4) |-o-| hdr. 5) [svo; *rétt:* er þremur heita fyrir lxc. 6) Svo; *rétt:* lxxc.

Samþycktti fyrrgreindur herra og ádur sagder erfingiar og vmbodzmenn þennañ vorn dom og lagaskipti greindra syskina á mille. Og medur þui ad vier Biskup Jon tilköllud-um med oss ærligar personur kirkiunnar og suarna lögrettu-menn landzins ad giora þesse skipti greindra syskina ȷ mille. og þui ad Gudz nafni tilköllúdu samþyckttum vier þennañ dom og lagaskipti og setium vort Secretum med fyrrgreindra manna ȷnsiglum fyrir þetta giorningsbref. skrifad a sama áre deigi sijdar[1]) enn fyrr seiger.

---

**355. 1. November 1527. í Gottorp.**

Friðrik konungr I. staðfestir Seyludóm Rafns lögmanns Brandssonar frá 21. Janúar (1527) um Teit Þorleifsson og eignir hans (Nr. 326).

**A.**

AM. Apogr. 3845 með hendi Hans Beckers „Ex chartis Hr. Oddz Einarssonar biskups. fra Leyrargördum“ (AM.), sem Árni fékk hjá „þeim Sigurdzsonum“.

Kongsbref og Stadfesting uppá þann Dom sem dæmdur hafde vered á Jslande vm peninga Teits Þorleifssonar.

Vij Fredrik medt guds naade Danmarkis Wendiss och gottis koning wdwalltt koning thil Norigis. Hertug i Slesswijg. Holsten. Stormarn och Dithmersken. Greyffue i Oldinborg och Delmenhorst. giöre alle witterligtt adt oss elskelige Johañ Peturson wor fovite paa Jslandt haffuer nu weridt thil huss oss medt thenne nærverendiss dom. som Raffn logmandt norden och westen paa Jslandt haffuer dömtt och wdgiffuid paa Teit Thorleiffsson och hans pendinge som samme dom inneholder och wdwijser. huilcken dom wij haffuer nu fuldburdt. stadfest och samtögtt. och medt dette wortt obne breff fuldburde samtöcke och stadfeste wdi alle sine

1) 28. Sept.

ord och puncte som thenne inneholder. Thij adt oss ticker thenn adt were Rettferdig effter Norgis lôg.

giffuidt paa vortt sloth gottorp alle heilige dag ar m. d. xx. vij.

B.

AM. Apogr. 3845 með hendi Hans Beckers „Ur vidimus 2ja leikmanna [1. Sept.] 1540. og 2ja presta [29. Júlí] 1547" (AM.) = *a*. — Landsbókasafn 63. 4to bl. 111b með hendi Haldórs Guðmundssonar c. 1640 = *b*.

Kong Fridrichz Bref vpp a sama Dom.[1])

Vier Fridrik med gudz nad [Dañmarcks. Wendis oc gotis konung. utvaldur kongur til Noregis. Hertuge i Slesuik. Holsteñ. Stormaren oc[2]) Didtmersken. greife i Oldenburg oc Delmenhorsth[3]). giorum ollum viturligth at vor elskulige Johañ Petursson. vor foete i[4]) Jslande. hefer nu[5]) verit [nær oss[6]) med [þennan fyrskrifadan[7]) dom. sem Rafn logmann nordan oc vestan ꝍ Jslande hefer dæmtt oc utnefntth[8]) vppa[9]) Teit Þorleifsson oc hans peninga. sem same domur innehelldur oc utuijsar. hvern dom vier hofum nu [fullmyndugañ giortt. samþycktt oc stadfesth[10]). oc med þessu voru opnu brefe fullkomliga [samþyckium oc stadfestum[11]) med[12]) ollum sinum ordum oc punctum sem hann innehelldur. þui oss þiker hann vera riettferdugur epter[13]) Noregis Logum.

Gefit uppa vortt slotth [Gotturpp[14]) allra heilagra messu. [ærum et cetera[15]) M. D. xxvij.

---

**356. 1. Nóvember 1527. í Gottorp.**

Friðrik konungr I. heimilar Rafni lögmanni Brandssyni þær eignir Teits Þorleifssonar allar, sem konungi eru dæmdar

1) *b*. 2) leiðr. AM.; „til" stóð í *a*. 3) [Danmerkur. Noregs. Vindlandz og Gautlandz kongur et cetera *b*. 4) a, *b*. 5) sl. *b*. 6) [hia oss nærverandi *b*. 7) [þann *b*. 8) vtgiefid *b*. 9) *b*; a, *a*; AM. vill leiðrétta í: um. 10) [fullkomliga stadfest og samþyckt *b*. 11) [*b* og leiðrétting AM.; samþycktt og stadfesth (!) *a*. 12) j, *b*. 13) tvítekið í *a*, og vill AM. gera úr því síðara „epter": riettum, sem þó stendr ekki í danska textanum. 14) [Gottorpe a, *b*. 15) [sl. *b*.

með Seyludómi 21. Janúar (1527; Nr. 326), en gjalda skal Rafn Jóhanni Pétrsssyni fógeta konungs á Íslandi 300 Rínargyllini fyrir eignirnar, og komi Teitr sjálfr síðar og bjóði konungi hærra verð, þá sé Rafn skyldugr að greiða konungi eins mikið og Teitr býðr.

A.

**AM. Apogr. 3846 með hendi Hans Beckers „Ex chartis Hr. Oddz biskups Einarssonar. fra Leyrargordum" (AM.).**

Kong Majestatis Breff um̄ Teits peninge
och Kiöb med Raffn Logmandt.

Vij Fredrik med guds naade. Danmarkiss. Vendiss oc Gottis koning. wdwaltt koning thil Norigis. Hertug i Sleswig. Holsten. Stormarn och Dittmersken. greyffue i Oldenborg och Delmenhorst. giőre alle witterligtt adt wij haffue nu aff woris sunderlige gunst och naade wndt och tilladidt oss elskelige Raffnn Lőgmandt for norden och westen paa Jslandt maa och skal haffue. nýde och beholde all thenn gotsz som oss er thil dőmt af Teits Thorleiffssonar penninge. som thenn dom liuder och wdwijser. som her paa er giort och sagtt. dog med saa skeel adt handt ther for skal giffue och fornőge oss elskelige Johan̄ Petursson wor Fowite der paa Jslandt. thre hundrede Rinske gýllene. dog saa. at dersom forne Teitur Thorleiffsson sijdan thil oss kommendiss worder. och will giffue oss meere for samme gotsz och penninge. thaa skal Raffn lőgmandt giffue oss derfor saa miged som Teitur Thorleiffsson oss biudendiss worder.

giffuidt paa wortt slot Gottorp alle heiligen dag ar m. dxxvij.

wnder vortt Signeth.

B.

**Landsbókasafn 63. 4to bl. 111b—112a (með hendi Haldórs Guðmundssonar) c. 1640.**

Annad Kong Fridricks Bref.

Wier fridrich med Guds nad Danmerkur. Vinlands og Gautlands kongur. Utualinn kongur til Noregs et cetera.

Giorum ollum vitañligt. ad vier hofum nu aff vorri sierligri Gunst og nad vnt og tillatid oss Elskuliga Raffni Logmanni fyrer nordañ og vestan á Jslande. meigi og skuli haffua. nýta og behallda aull þau goss sem oss eru til dæmd aff Teijtz Þorþeilfssonar peningum sem sa domur hlyder og vtuijsar. sem þar vp a er giordur og sagdur. þo med sodan skilmala ad hann þar fyrir giefi og fornægi oss Elskulegum Johan Peturssyni vorum foeta þar vpp a Jslandi þriu hundrud Rijnsk Gyllini þo ef so skier ad fyrnefndi Teijtur Þorleifsson sıjdañ til vor komandi verdur og vilie gefa oss meıjr fyrer sama goss og peninga. þa skal Raffn Logmann giefa oss þar fyrer so micid sem Teıjtur Þorleifsson oss Biodandi verdur.

Giefid vpp a vort slot Gottorpe a Allheýlagra messu Ar 1527.

---

357 **3. Nóvember 1527. á Höskuldsstöðum.**
**1. Febrúar 1531. á Skarði.**

Kaupmálabréf Sveins Jónssonar og Haldóru Einarsdóttur.

AM. Fasc. XLVII, 10, frumrit á skinni. Öll (4) innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 597. Árni ritar utan á bréfið „1527 31".

Jn nomine domini amen

Var svo felldur kavpmale lystur og stadfestur a brudkavpsdeigi milli þessara manna sveins ȷonssonar af eirne alfv enn halldorv einarsdottur af annare alfv þa er lidet var (fra) gvdz burd ꝏ d xx vii æ svnnvdagenn næstan epter allra heilagra messo ȷ storv stofvnne a hoskollzstodvm a skagastrond at svo fyrir skilldv at einar bardarson gipte nv ȷ þenna tima halldorv einarsdottur dottur sina fyrr greindvm sveine med svo greindv fekavpe at sveirn ȷonson talde sier til kavps vid halldorv einarsdottur xx^c ȷ ollvm þarfligvm peningvm. Hier ȷ mot skyllde halldora einarsdotter hafa x^c ȷ þridivnga peningvm. Jtem gaf opt nefndur sveirn ȷonson kvinnv sinne halldorv einarsdottur fiordvns[1]) giof vr fe sinv. skilde

1) Svo.

einar bardarson halldorv dottur sina malakvinnv ȷ gard sveirns[1]) ȷonsonar. og hier med feste sveirn ȷonson halldorv einarsdottur sier til logligrar eigenkvinnv med þeim bokarinnar ordvm sem þar til heyra at æheyrendvm þessvm brvdkavpsvottvm og morgvm odrvm dande monnvm hiaverondvm ȷ fyrstv aboti helge æ þingeyrvm. þormodur arason. skvle gvdmvndz(son). hallur styrkarson. jon sigmvndzson. ȷon gvdmundz(son). Og til sanneñda hier vm̄ setivm vier vor ȷnsigle fyrir þetta kavpmalabref skrifat æ skarde ȷ langadal æ midvikvdagen næsta epter palsmessv vm̄ veturenn æ þritvsta[1]) are og eiṅv betur enn fyrr seiger.

---

## 358. 20. Nóvember 1527. á Reykhólum.

Vitnisburðarbréf um lofan Björns Þorleifssonar við þá mága sína Eyjólf Gíslason, Grím Jónsson og Guðmund Andrésson, er heimtu að honum föðurarf kvenna sinna, svo og við Kristínu systur sína, er og heimti föðurarf sinn.

AM. Fasc. XLVII, 9, frumrit á skinni, feyskið. Af 3 innsiglum er 1 dottið frá — AM. Apogr. 1184 og 5763. — AM. Fasc. XLI, 18, afskript á pappír frá c. 1527 eða nokkru síðar, töluvert skemd af fúa.

bref um lofan biarnar þorleifssonar uit maga sina grim og eyiolf..[2])

Þat giorvm vær helgi ȷons(son). ȷon hôskavlldzson og Sveinbiorn steingrimsson godvm monnvm kvnnigt med þessv vorv opnv brefi. at vær vorvm ȷ flateẏ æ breidafirde vm̄ havsted þa sem þar var halldit festaravl þeirra biarnar þorleifssonar og ȷngibiargar palsdottur. So og vissvm vær fyrir fvll sanniṅde at þar uorv þæ og komner magar greiṅdz biarnar. Eyolfr gislason. Grimr ȷonsson og gvdmvndr andresson. þar var og komeṅ kristiṅ þorleifssdotter syster biarnar og aller heimttv þessir æ biorn favdr arf qveṅna sinna. Samaleidis giorde og kristiṅ æ sinna vegna sialfrar. og for þat fram efter þvi sem skipttabrefit sialft jnne helldr og vt visar. Enn efter þat heimttv þeir eyiolfur og grimur skvlld

1) Svo. 2) Utan á XLVII, 9.

og gialld a greindan biorn. lxxx. hvndrvt allz. sín .xl. hvndrvt hvor þeirra firir sigh uegna qvenna sinna helgv og gvdnýiar sem þeim þotte efter standa af heimanfylgiv þeirra er moder þeirra ȷngvelldr helgadottr hafde lofat þeim er þær giptozt. en adr greindr biorn hafde lofat modr sinne at leýsa sagda skvlld. þa bavd optnefndr biorn savgdvm monnum eyiolfe og grime þa þar j flateý vpp ýfer alla þessa eňv savmv[1]) skvlldina af þeim peningvm sem vorv firir nordan heide og hann atte at eiga. huortt at þeir villdv hafa af adalvikreignvm edvr vathzfiardar eignvm so micit sem þeim stæde efter og hann hafde lofat at giallda sem fyr seiger. enn þeir þverneittv bader og geingv med þat j bvrttv og vt j kirkivna til fyrrsagdrar ȷngvelldar modr biarnar og heimttv þar af henne greinda skvlld. en hvn gieck þa heim a hladit med þeim þangat sem thitt nefndr biorn stod vthe firir kalldyrvm og marger dande menn þar j hiaa honum og heimtte a han þessa[2]) skvlld og hans lofvn. en hann sagdizt hafa bodit þeim hana. en bæde hun og so þeir sogdvzt ongva peninga adra vilia hafa enn eyiarnar er þar læge nærre. hvalatur og skaleyiar. og var þat þa so giortt. skyllde þa þrattnefňdr biorn þorleifsson vera ollvngis kvittvr og akærvlavs vm̄ optnefnda skvlld. og so vm̄ favdrarf og modr og allt annat er þeir þottvzt meca[3]) thil hans thala a þeirra qvenna uegna. hier efter vilivm uær[4]) fvllnadar vithne vm̄ bera ef dande monnum þyker þess þavrf vinna. og thil meire saninda hier vm̄ settvm vær fyrrnefnder menn uor ȷnsigle firir þetta vithnisbvrdarbref er skrifat var j flateý a breidafirde jn die thranslacionis sancti edmundi. anno domini millesimo quingentesimo. xx. septimo.

---

**359. 9. December 1527. á Reykjahólum.**

Vitnisburðarbréf um það, að Staðarkirkja á Reykjanesi eigi

1) XLI, 18; sama XLVII, 9. 2) greinda XLI, 18. 3) Svo (m$^{c}$a) XLVII og XL. 4) b. v. XLI, 18.

þriðjung i hvalreka og viðreka á Nesodda á milli Hvalsár og Seylu þeirrar, er geingr úr Gullsteinum.

AM. Apogr. 2312 með hendi Árna Magnússonar „Ex originali lacero fra Stad á Reykianese“. Það, sem þá var fúnað úr frumritinu og hér stendr í hornklofum, hefir Árni fylt „mikinn part ur visitatiu Mag. Bryniolfs yfir Stadarkirkiu 1647“. — Afskript stafrétt frá 18. öld er í Landsskjalasafni (= *b*).

Um ʀekapart i nesodda[1]).

Þat gio[ri ec ion prestr halldors]son godvm monnum kvnnigt med þes[svm minvm v]itnisbv[rdi. at eg hefer set og] yfer lesit m[aldaga tungukirkiu i ste]ingrimsfirde hvat[2]) at so er hlio[dande æ mille] ann[ara greina og art]ickvlis er i h[onum st]anda at kirkian æ stad æ reykianese eige þridiv[ng] i hvalreka og [vidr]e[k]a i [nes]odda æ mille [hv]alsær og seylu þeirrar er geingr wr gvllsteinvm. iafnvel i ey sem æ meginlande. So medkenn[izt ec og m]ed þessu minv brefi at eg hefer haft vm̄vernd og vm̄bod æ gre[indvm re]ka vegna sira ioń[s] heitins [ion]ssonar sem gvd hans saal nade þa stvnd er hann hiellt stadar stad og var þ[etta þa so ha]lldit og so fyrir þat fram [þat lein]gsta er eg mæ mvna thil. Og thil sanninda hier vm̄ setur ec mitt inns[igl]e fyrir þetta vitnisbvrdarbref [er] giortt var æ reykholvm æ reykianese manvdagin næstan efter co[ncept]ionis marie virginis [anno do]mini millesimo quingentesimo .xx. septimo.

---

360. **12. December 1527. á Jörfa.**
**22. Febrúar 1528. á Kaldárbakka.**

Jón Bjarnason og Þorgerðr Haldórsdóttir selja Einari Guðmundssyni hálfa jörðina Jörfa í Kolbeinsstaðahrepp með hálfum Arneyjum fyrir tíu hundruð í lausafé.

Eptir afskript Helga prests Sigurðssonar (d. 1888) af Jörfabréfum, sem hann hefir gert eða gera látið eptir transskripti frá 1619. — Til samanburðar alla leið og leiðréttingar hér og hvar er höfð

1) *b*. 2) *corr.* hver AM.).

afskript í Landsskjalasafni eptir sama transskripti, með hendi Jóns háyfirdómara Pétrssonar frá c. 1850.

Dagsetning og ártali þessa bréfs eru örðugleikar á að koma saman á annan hátt en hér er gert, sem þó verðr að eins með því að skoða svo, að orðin síðast í bréfinu „á sama ári“ merki „á sama vetri“, eða þá með því að skoða „á sama ári“ sem ritvillu eða lesvillu fyrir „á sama vetri“. Og þar að auki er sá galli á, að laugardaginn fyrir Matthíasmessu ber 1528 upp á sjálfa Pétrsmessu (22. Febr.), sem er meiri hátíð en Matthíasmessa og því eðlilegra að miða við. Á hinu verða þó enn þá fleiri annmarkar að skoða svo, að miðað sé í öndverðu bréfinu við Magnúsmessu 16. April; er þar dagsett „á fimtudaginn næstan fyrir Magnúsmessu *um vetrinn*“, en það yrði 9. April 1527 og stendr það heima, að það er einmitt sumardagrinn fyrsti þetta ár, svo að ekki fær það staðizt. En gerði maðr ráð fyrir því, að bréfararnir hefðu vaðið reyk um sumarkomuna, þá kemr þó strax annar þröskuldrinn, og hann er sá, að breyta yrði Matthíasarmessu — sem þá yrði að skoðast ritvilla — í Matthæusarmessu (21. Sept.), en þá tekr ekki betra við, því að laugardaginn næstan fyrir hana — við hann er miðað síðast í bréfinu — ber 1527 upp á krossmessu sjálfa á haust, sem var meiri hátíð en Matthæusmessa og því eðlilegra og einfaldara að miða við.

Það giørum vier Sueinbiørn Hallsson og Ormur Jonsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefe arum epter Guds burd þusund og dc. xx og vij ær æ fimtudaginn næstan fyrir Magnus messo vm veturinn æ Jørfa i Kolbeinstada hrepp enn Krossholtz kirkiu sokn. vorum vid i hiæ saum og heyrdum æ ord og handaband[1]) þessara manna. af einni alfu Jons Biarnasonar[2]) og Þorgerdar Halldorzdottur. enn af annare alfu Einars Gudmundzsonar at svo fyrir skildu. at fyrrgreindir menn Jon og Þorgerdur selldu adur nefndum Einari fyr skrifada jørd Jørfan halfan og þar med hælfar Anneyiar med øllum gøgnum oc giædum sem fyr nefndre jørdu fylgier oc Eyium. oc fylgt hefur at[3]) fornu og nyiu og þau vrdu fremst eigandi at. vndan sier og sijnum erfingium en under Einar og hans erfingia. med suo felldum frijdleika at titt nefndur Einar skyllde gefa ædurgreindum monnum Joni og Þorgerdi fyrir halfan Jørfan oc Eyiar. iiij mælnytu kugilldi oc j h(undrad). iij

1) — bond JP. 2) Svo bæði. 3) Hér er „og“ ofaukið í afskr. síra Helga.

gielldfiar hundrud. ij hundrud i øllum peningnm. skylldu þesser aller peningar golldner æ næsta hauste eptir. heimiludu þau honum allt þat er i jørdu findist oc ꝏ̃. Lofudu titt nefnder menn at svara lagariptingum æ jørdunne. enn Einar at hallda til laga. Og til sanninda hier vm. setium vier fyrnefnder menn ockur insigle fyrer þetta kaupmala bref skrifad æ Kaldærbacka laugardagin næstan fyrer in festo sancti Matihas apostoli æ [sama ære[1]) sem fyr seiger.

---

**361.** **31. December 1527.** **á Hólum.**

Jón biskup á Hólum kvittar Benedikt Einarsson um þá sök, að hann varð brotlegr með giptri konu, er Margrét Erlendsdóttir heitir.

Landsbókasafn 61. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ex transscripto 1571 die 8. Junii"

Kvittunarbref Benedicts Einarssonar.[2])

Wier ȷon med gudz nad biskup ad holum giorum godum monnum vitanligt med þesso voru opnu brefi ad vier hꝍfum leyst og skrift sett benedict einarssyni fyrir þa sꝍk ad hann vard brotligr med eirne giptre kuinno sem margret erlendzdotter heitir. þui giefum vier fyrnefndan benedict kuittan fyrir oss (og) vorum epterkomendum̃ kirkiu(nnar) vegna vm adr sagda sauk. til sannenda hier vm setium vier vort secret fyrir þetta bref skrifad a holum ȷ hialltadal siðunda dag iola anno domini 1527.

---

**362.** **1527.**

Ögmundr biskup í Skálhotti selr Erlendi lögmanni Þorvarðssyni tíu hundruð í jörðunni Reykjum í Mosfellssveit fyrir jörðina Öxnalæk í Ölfusi dómkirkjunni í Skálholti til handa.

1) [Svo bæði = sama vetri? 2) með hendi AM

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Kjósarsýsla Nr. 2, staðfest afskript frá 6. Júlí 1705.

Vier Augmundur med guds nad biskup j Skalholte giorum godum monnum kunict med þessu voru opnu briefe ath med rade og samþycke vors radsmannz sira Jons heidinssonar[1]) og oss[1]) haufum vier giort suodañ kaupskap vid erligan danumann erlend Þoruardzson laugmann fyrir sunnañ og austañ ꝺ islande at uier haufum feingit honum til fullrar eignar og frials forrædis. xc. j jordinni Reÿkium er liggur j mosfells kirkiu sokn. Hier j mot feick[1]) hann oss og kirkiunne j skalholte jördina auxnalæk er liggur j auluusi j reykia kirk(i)u sokn ath aullu þuj til skilldu ꝺ bꝺdar sidur sem gaumul jardakaupsbref utuisar.[1]) Datum briefsins .ꝋ. d. xx. vij.

Þetta ofañskrifad ad vera riett Coperad Effter sijnum original vottum vnderskrifader ad Sudur Reikium j mosfellssueit þann 6. Julij Anno 1705.

Einar Jsleifsson mppria — Arne Benedictsson med e h.

---

363. [1527 eða síðar].

Vitnsiburðr um Seyludóm frá 21. Janúar 1527 (Nr. 326) um eignir Teits Þorleifssonar.

AM. Apogr. 3844 „Ex chartis herra Oddz biskups. frá Leyrárgördum“ (AM.) og eru hér gömlu blöðin sjálf, skrifuð c. 1605.

Þad medkiennist eg Þorlakur Þorersson. ad eg heyrde þa logriettumenn lÿsa fyrir mier samdægris sem j dom voru nefnder a Sejlu j Skagafirde vm malefñe Teits Þorleifssonar. med soddañ atridisordum sem þetta Copium jnnehelldur sem hier fyrir ofañ er ritad ord eptter ord ad þeir hefdu vm Teit Þorleifsson dæmtt alla hans peninga vnder kong og erfingia. Og skyllde Rafn Logmadur ad sier taka. og afgreida

1) Svo.

allar lôglegar skullder og sijdan lôglig skiptte a giôra millum kongs og erfingia. Og til sannenda hier um̄ set eg mitt ȷnnsigle hier fyrer nedañ.

---

**364.** **1527.**

Dómr sex presta og sex leikmanna, út nefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um kaupskap og jarðaskipti þeirra biskups og Teits Þorleifssonar (og dæma þeir kaupskap þann myndugan og fullmektugan).

Landsbókasafn 63. 4to bl. 114b, skr. c. 1640. — Dómr þessi hefir ekki feingizt öðruvísi en í þessu ágripi.

Domur xıȷ manna vm kaupskap Biskupz Augmundar og Teijtz.

Suo latandj domur vj presta og vj leikmanna liggur ȷ Asgardi. vt nefndur aff Biskup Augmundj. til ad ẏfer vega og skoda. huort sa kaupskapur skẏllde mindugur. er Teijtur haffdj giort vid Biskup Augmund. og fyrir þann skulld ad fram fyrir oss heffur komid xij logriettumanna domur. ad Teijtur mætti frialzliga selia og kaupa vid huorn mann sem annar fullmindugur madur. Var og med þeim domj logmannz vrskvrdur loglega vrskurdadur. Jtem kom og fyrir þa kuittun Hannesar Eggertssonar. er þa var hofudsmadur yfer Jslandj. ad hann gaf teijt olldungis kuittan og Akiærulausañ. vm̄ allt þad sakferli, er hann þottist meiga til hanz tala k(ongligrar) m(aiestetz) vegna ad til greindu þuj sakferlj sem hann edur hanz menn hafa mått Brotliger verda a Sueinstadafundj.[1])

Datum ȷ domnum er 1527.

---

1) Botninn vantar hér í, og hefir aldrei í ágrip þetta verið skrifaðr, er hermdi það, að þeir, að svo prófuðu og fyrir þá komnu, dæmdu allan kaupskap þeirra Teits og Ögmundar biskups myndugan og fullmektugan.

365. 31. Janúar 1528. á Staðarhóli.

Haldór prestr Tyrfingsson lýsir því, að hann hafi goldið Jóni djákna Haldórssyni (syni sínum) jörðina Dögurðarnes á Skarðsströnd í arfleiðslu fé fyrir þrjátíu hundruð, en Haldór prestr skilr sér og börnum sínum forkaupsrétt á jörðunni fyrir sama verð og Jón djákni má öðrum selja.

Eptir afskript Magnúsar Einarssonar á Jörfa meðal Dögurðarness og Dímonarklakkaskjala, gerðri stafrétt eptir frumritinu c. 1730—1740: „Næst framanskrifud Copia er ordriett epter heilu órotnu og vellæseligu Briefe Ritudu ä kalfskinn med einu hängande Jnnsigle aldeilis óbriäludu“.

Þad giori ec halldor prestur tyrfingson. Godvm monnum viturligt med þessu minv opnv brefi at eg medkennunzst at ec hefi golldit ȷoni diakna halldorsyni ȷordina daugurdarnes sem liggr ȷ skardzkirkivsokn ȷ þꝍ peninga sem eg gaf honum i hans arfleizlu. og bref þar um giortt vt visar fyrir xxx hundrvt med ollvm þeim gognum og gædvm sem greindri ȷordu fylger og fẏ(l)gtt hefer ad fornv og nẏu og eg uard fremzt eigande at. Skylldi ȷon halldorson mier fystum selia fyrskrifada ȷord edꝍ minvm bornum þꝍ hann uill sialfur seliꝍ med ȷofnu verdi sem hann mꝍ odrum seliꝍ og uilie nockvd þeirrꝍ þꝍ kaupꝍ er hann uill selia. Og til sannindꝍ hier um festa eg mitt ȷnnsigli fyrir þetta bref sem skrifat var ꝍ stadarholi ȷ saurbæ fostudagin næstꝍ fyrir pvrificacio sancte marie virginis arum epter guds burd. ꝍ. d. xx. og viij. ær.

---

366. 7. Febrúar 1528. á Reykjum.

Samningr gerðr af Ögmundi biskupi milli þeirra Erlends lögmanns Þorvarðssonar og síra Þórðar Einarssonar vegna barna Orms heitins Einarssonar (bróður Þórðar prests, en Erlendr hafði vegið Orm).

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Giorningur mille Erlendz Lôgmanns.

Jn Nomine Domini Amen.

var so felldur skilmꝍle ok fullkomligur giôrningur giôrdur af verdugum herra i gude biskup Ogmund ok

þeim fleirum godum mønnum sem hann kallade til med sier á Reykium á Skeidum føstudaginn næstan fyrer niuvikna føstu anno Domini M⁰. D⁰. xx⁰. viij⁰. á millum þeirra Erlends Þorvardssonar Laugmans og sera Þordar Einarssonar vegna barna Orms heitins Einarssonar. Jn primis var þad þeirra vilianligur giørningur. ad epter rettri sundurtalningu godra manna á alþingi skylldu hvorer fyrer sig eignast þad jardagoss oc fastaeign sem þeir høfdu ad sier tekid. Enn hvad børn Orms heitins vantade uppá. skyllde fyrrnefndur Erlendur løgmadur og Hakon Biørgolfsson aptur leggia og i godan mata uppfylla. Her med lofade Erlendur Løgmann ad koma til Kalldadarness nærre krossmessu i vor ad kemur ad forfallalausu. ok hann skyllde þar fram̄ segia ok fulla grein giøra upp á sin sanninde. hversu mikla peninga fasta edur lausa hann hefde medteked epter sinn faudur og modur ok riettañ Reikningskap á giøra. hvad edur hversu miked hann hefde útgollded i kirknanna Reikningskap edur adrar skullder sidan hann tok vid.

---

**367. 23. Marts 1528. Í Skálholti.**

Tveir prestar votta, að dómar þeir, er Jón Sigmundarson lögmaðr og líka Björn Guðnason dæmdu, hafi verið dæmdir ónýtir og að eingu haldandi, því að Jón hafi verið í banni beggja domkirknanna.

AM. Fasc. Lxxii, 2b, stórt transskript á skinni frá c. 1528—1530, og hafa verið sjö innsigli fyrir. — AM. Apogr. 3895 eptir transskripti á skinni frá c. 1530, sem Árni Magnússon gaf Páli lögmanni Vídalín, en ekki sýnist það þó geta verið sama transskriptið, sem nú er í Fasc. LXXII, 2b, og hér er nú fylgt. — AM. Apogr. 3893 „Epter ovidimeradri Copiu" (AM.). — AM. 240. 4to bls. 39—40, með hendi Jóns lögmanns Jónssonar c. 1592. — Landsskjalasafn 94 4to bl. 34b, skjalabók með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — MSteph. 56. 4to bls. 282, með hendi Snæbjarnar Torfasonar á Kirkjubóli 1646.

Vitnisburdur uppa Jon Sigmundsson.[1])

Þad giorum wijd jon einarsson. og þorlakur landbiartzson prestar Godum monnum kunnigt med þessu ockrv[2])

1) 3893; vitnisburder vm doma Jonz Sigmundssonar 240, 2) 3895; ofl.; woru Lxxii, 2b.

opnu brefi. ad vid vitum firir full sanninde. ad aller þeir domar sem jon heitinn sigmundson liet vth nefna[1]) medan hann war laugmadur. og lika biorn gudinason[2]). hafa verit dæmder onýter og at aungw halldandi þvi[3]) hann war þa[4]) j forbodi bædi heilagrar skalholltz kirkiu og swo holadomkirkiu. Suo og haufum vid vith[5]) werit j dome med audrum ærligum personum ad dæma adurnefnda doma onyta wpp hiedan og at aungu halldandi þa sem þeir hafa dæmt. Og til sanninda hier vmm setium[6]) vid ockur jnsigle firir þetta bref huortt skrifat war j skalholte manudagin næstan firir mariumessu dag annunciacionis. anno domini .ꝏ⁰. d⁰. wigesimo octauo.

---

**368. 31. Marts 1528. á Reykjum.**

Jón biskup á Hólum fær og geldr Magnúsi Björnssyni alla jörðina Steinstaði í Tungusveit til fullrar eignar fyrir þrjátigi hundraða upp í þá sextigi hundraða skuld, er Magnús átti hjá biskupi fyrir hálfa Kalmanstungu; þar með skyldi Magnús hafa við af Hólakirkju rekum fyrir utan Laxárdalsheiði — nema stórviðu — þar til jörðin á Steinstöðum væri húsuð svo, að hún væri leigufær.

AM. Apogr. 4115 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali" á kálfskinni.

Þat giörum uid halldor jonsson og þorgrimur gudmundssen godum monnum uiturligtt med þessu ockru opnu brefi ărum epptter gudz burd. m. d. xx og viij. ar. ŏă holum j hiallttadal sunnudaginn næstan fyrir ambrosiusmesso[7]). vorum vid j hiŏă sŏăum og heyrdum ŏă ord og handaband þessara manna af eirne ŏălfu uors verduga herra og ăndarligs favdur jon med gudz nad biskup ad holvm enn af annare alfu magnus biornssonar ad svo fyrir skildv ad fyrnefndur herra biskup jon fieck og galltt til fullrar eignar og frials forrædis fyrnefndum magnuse biornssyni jordina alla

1) á, b. v. 240. 2) 3895; gudnason LXXII, 2b. 3) þá 240. 4) b. v. 3895. 5) sl. flest hin. 6) settvm 3895. 7) þ. e. 29. Marts

steinstadi ȷ tungusueit er liggur ȷ reykia kirkiu sokn med ollum þeim gognum og giædum sem greindri ȷordu fylger og fylgtt hefur ad fornu og nyu og hann vard fremztt eigandi ad ordinn fyrir xxx hundrada. upp ȷ uerdit fyrir þau ui tige huñdrada er biskupinn var honum skylldugur fyrir halfua kalmanztungu. skylldi biskupin svara lagaripttingum ꝺ̃a þesse fyrgreindri jordu enn magnus hallda til laga. Suo og skylldi magnus biornsson at frialsu mega hafua vid af holakirkiu rekum fyrir utan laxardalsheide hvar sem hann villde at frateknum storuidum þar til ad hann hefdi lꝺ̃atid husa upp adurgreinda ȷord steinstadi so hun væri leigufær. Og til sanniñda hier vm settum uid fyrnefnder menn ockur ȷncigle fyrir þetta giorningzbref er skrifad var ꝺ̃a ʀeykium ȷ tungusueit ꝺ̃a sama ꝺ̃are tueimur dogum sidar en fyr seiger.

---

**269.** **3. Apríl 1528.** **Í Skálholti.**

Sendibréf Ögmundar biskups í Skálholti til Jóns biskups á Hólum um, að hann sjái til, að Björn bóndi Þorleifsson fái lög og rétt af Einari Ólafssyni um fjárgreiðslur nokkurar af erfð eptir Einar heitinn Björnsson fyrir það, er Einar Björnsson hafði goldið í misferli sín af erfðafé Björns eptir Þorleif Björnsson föður sinn, en Einar Ólafsson var dæmdr erfingi Einars Björnssonar.

AM. Fasc. XLVII, 13, frumritið á *pappír* með eiginhendi Ögmundar biskups, — Apogr 1185. — Eptirmynd *(facsimile)* af þessu bréfi er í Palæografisk Atlas. Ny Serie. Oldnorsk-isl. Skriftpröver c. 1300—1700. Ved Kr. Kålund. Khavn 1907, Nr. 46.

Reuerendo in christo patri ac domino domino
johanni eadem gracia episcopo holensi fratri
suo carissimo h(ec) l(itera) p(resentetur).[1]

Fraternali dileccione sinceraque in domino caritate ante lata.

Kunngiorum wier ydur kære broder at biorn bondi þorleiffson hefwer klagat sig fyrir oss huersu ad hans faudur-

1) Utan á bréfinu með hendi biskups.

broder einar heitinn biornson heffde golldit fyrir sin misferle og sekter þa peninga sem honum fiell j arff effter faudur sinn þorleif heitin biornson heilagre skalholtz kirkiu og hennar formonnum sem er bær j borgarfirde. og aungua peninga j gen feingit vt aff einari olaffsyne sem dæmdr heffur verit erfingie adr greindz einars biornsonar. Єn aff þui ad greindr einar olaffson er ydar man og vnder ydur geffin. þui bidium wier ydart broderne ad þier willet giora fyrir wora skulld og skicka suo ad hann fae laug og rett aff opt neffndum einare þa hann kemur a ydarn fund. þui morgum godum monnum lizt þad hart ffyrir hann ad hans [arffur eign[1]) heffur werit vt golldin en hann heffr eintijd feingit jgen.

Cum hijs waleat wigetque westra fraternitas jn jllo qui est summum bonum optimumque.

Ex propria residencia Tercio Nonas aprilis. anno salutiferi partus 1528.

Nostro Manuali sub signeto.

Augmundus dei gracia
Єpiscopus skalholltensis.

---

**370. 9. Apríl 1528. á Hólum.**

Jón biskup á Hólum selr Páli bónda Grímssyni jarðirnar Glaumbæ í Reykjadal og hálf Björg i Kinn, fyrir jörðina Hof á Höfðaströnd, og galt Páll kirkjunni á Hofi jarðirnar Þrastastaði og Svínavelli á Höfðaströnd, en skildi af sér að öðru leyti kirkjureikning.

AM. Fasc. XLVII, 11, frumrit á skinni, og eru öll (4) innsiglin dottin frá. — Apogr. 1503 og 2886. og 289 (eptir transskr. 1594) og Apogr. 5644 (eptir öðru frumriti).

Kaupbref Biskup Jons og Pouls[1]) vm Glømbæ
1528.[2])

Þath giorum wier þorsteinn gunnason. þormodr snorrason prestar. Marteinn einarson og jon hallzson Godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ath arum epter

1) [Svo. 2) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

gudz burd. ∞. d. xx og viij. ár manudaginn næstañ fyrir annunciaconis marie[1]) á holum j hialltadal vorum vier[2]) j hia saaum og heyrdum á ord og handaband þessara manna. verdug herra biskups jons og pals bonda grimssonar ath suo fyrir skildu. ath biskup jon selldi greindum pali jordina glaumbæ j Reykiadal og jordina halldorstadi j laxárdal og halfa jordina hallbiarnarstadi j Reykiadal og halfa jordina biorg j kinn og þar til eina xx hundrada jord þá sem þeim semdi. Hier j mot gaf greindur pall biskup joni jordina hof a hofdastrond med þessum jordum ytri brecku sydri brecku og hraun er allar liggia á hofdastrond. luckti pall kirkiunni a hofi j sinn reikningskap þessar jarder. þrastastadi og jordina á suinavelli er liggia á hofdastrond. skildi pall sig kuittañ vm kirkiureikning á hofi og allañ reikningskap sem honum bar ad suara af sinum parte til motz vid onnur sin syskin. sem bref þar vm giort vt visar. selldu huorertueggiu fyr sagdar jarder med ollum þeim gögnum og giædum sem greindum jordum heilum og halfum eiga med rett ad fylgia og þeir vrdu fremzt eigandi ad. skylldu huorertueggia hallda þeim jordum til laga er keyptu. enn suara lag(a)riptingum á þeim sem selldu.

Og til sanynda hier vm setium vier fyr skrifader prestar og leikmenn vor insigli fyrir þetta bref. skrifat á holum j hialltadal in cena domini. á sama ari sem fyr seiger.

---

**371. 14. April 1528. á Hólum.**

Jón biskup á Hólum selr Rafni lögmanni Brandssyni og Þórunni dóttur sinni jörðina Hof á Höfðaströnd með jörðunum ytri og syðri Brekku, Hólakoti, Hrauni og eyðikotinu Garðshorni, er allar liggja á Höfðaströnd, fyrir jarðirnar Lögmannshlíð í Eyjafirði og Hofstaði við Mývatn, er Þórunn átti, og Skarð í Fnjóskadal, er Rafn átti, með fleirum þeim greinum, er bréfið sér líkast hermir.

AM. Apogr. 5646, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali“ á kálfskinni. — AM. Apogr. 290 með hendi Árna Magnús-

1) 23. Marts. 2) uid 5644.

sonar, að því er virðist, eptir sama frumriti og Landsbókasafn 61. 8vo, sem er afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ex Transscripto 1571 die 8 Junii“ gerðu á Hólum í Hjaltadal af Arngrími presti Jónssyni og Vigfúsi Þorsteinssyni, og er afskript þessi staðfest í Skálholti 13. Dec. 1710 af Árna Magnússyni, Gísla Bjarnasyni, Þórði Þórðarsyni, Þorgilsi Sigurðssyni og Grími Magnússyni. — Afskript af þessu bréfi er í Syrpu Guðbrands biskups í Biskupsskjalasafni, og önnur með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745) er í ÍBfél. Khd. 67. 4to bl. 77b—78 og MSteph. 60. 4to bl. 32.

## Um Hof á Hôfdaströnd.[1])

Þath giorum vid[2]) hallsteinn eirecsson og tumas Brandsson. godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi ath arum epter gudz burd. ꝏ. d. xx. og viij. ar. a[3]) hofi á hofdastrond. miduikudagin næstañ fyrir[4]) palmsunnudag. vorum vid i hia saum og heẏrdum á ord og handabañd þessarra manna verdugs herra biskups ȷons og Rafns[5]) brandzsonar logmanns og Þorunnar ȷonsdotter[6]) hans kuinnu. ad suo fyrir skildu. ath biskup ȷon selldi greindum hrafni[7]) ȷordina hof a hofdastrond i skagafirdi. og þar med ȷordina ytri brecku og ȷordina sydri brecku. ȷordina holakot og ȷordina hraun. og eitt eydikot er gardzhorn heiter. er allar adurgreindar ȷarder liggia i hofskirkiusokn. hier i mot gaf greindr hrafn[7]) lôgmann ȷarder þorunnar kuinnu sinnar. logmannzhlid i eẏiafirdi. og ȷordina hofstadi vid mẏvatn og sina ȷord skard i fnioskadal. selldu huorer þessara fẏrgreindra manna allar adr sagdar ȷarder med aullum þeim gognum og giædum sem greindum ȷordum á med logum ath fẏlgia. sagdi biskup ȷon ath kirkian á hofi ætti ȷordina þrastarstadi[8]). og eẏdiȷord i unadal er suinaveller heita. lofade biskup ȷon ad giora upp kirkiuna á hofi so sæmiliga ath kuitt skẏlldi ôll kirkiu goz sem þar til fallid hefdi. feck greindur Rafn logmann þorunne kuinnu sinne til fullrar eignar hof med þeim tilgreindum peningum sem til heyra upp á riettan reikningskap fyrir þa peninga sem hun atti i hans gard. kynne

1) 61, með hendi Árna Magnússonar. 2) vier 67. 3) at 67. 4) eptir 67 (án efa rangt); það yrði 8. Apr.; miðvikudagrinn fyrir pálmasunnudag er 1. Apr. 1528. 5) Svo 5646 og 61. 6) — dottur 61. 7) Rafn 61. 8) þrastastaði 61.

jardernar gardzhorn og holakot med logum af ath ganga þǫ́ skýlldi Rafn eignazt jordina stafshol er liggur i hofskirkiu sokn þui biskup jon hafdi keýpt hana fyrir sina peninga. skylldu huarer[1]) hallda þeim jordum til laga sem keýptu en suara lagariptingum ǫ́ þeim jordum sem selldu. Ok til meiri sannynda hier vm settum vid fýrskrifader menn ockur insigli fyrir þetta bref skrifad ǫ́ holum i hialltadal enn þridia dag i paskum ǫ́ sama ari sem fýr seiger.

---

372. 5. Mai 1528. í Reykjahlíð.

Jón prestr Finnbogason arfleiðir með samþykki Þorsteins bróður síns Málfríði dóttur sína að jörðunni Héðinshöfða, en önnur börn sín til annara sinna peninga.

AM. Fasc. LXV, 20, skrá á skinni frá c. 1541, sem 5 innsigli hafa verið fyrir, og kölluð er „gomul bref vm hiedinshofda“ (utan á skránni).

Þad giorum vier arñe branzson. þorsteirn gvdmvndsson. Þorolfur Olafson og teittur sygurdson godum monnum viturligt med þessv vorv oppñv brefi þa er lidit var fra gvdzs bvrd þvshvndrat v^c xx og atta ar j laufase j eyiafirdi vorv vier hia saum og heýrdvm æ ord og giorninga er fram forv med sira jone finbogasyne og þorstein(e) finnbogasyñe fyrir kirkiv dyrunvm j lavfasi at fyrr greindr sira joñ finbogason arfleiddi born sin malfridi dottur siña til hiedinshofda efter þeirre giof sem hann hafdi adr gefid en onnur born þav er hann atti arfleiddi hann til annara sinna peninga. samþycktte fyrr skrifadur þorsteirn finbogason og vpp gaf siña erfd alla efter fyrr skrifadan brodur sinn malfride sýstur sinne hiedinshofda til eignar en adra hans peninga odrvm sinvm syskinvm bornum sira jons finbogasonar þad ad avck være. for þessi allvr giorningvr logliga fram so sem stendr skrifad j ættleidingar capitvla þar fyrir kirkiv dyrunvm. Og til sannenda hier vm settivm vier fyrr skrifadir menn vor jnsigli

---

1) huorir 61.

fyrir þetta vittnisburdar bref er skrifad var j reyckiahlid a þridivdagin næstan efter krossmesso vm vorid.

---

**373. 12. Maí 1528. í Núpufelli.**

Jón biskup á Hólum lýsir því, að hann hafi, þegar hann hafði umboð og yfirsýn Munkaþverárklaustrs peninga, selt Egli Hallssyni presti í Saurbæ til æfinlegrar eignar undir Saurbæjarstað skipstöðu og naustgerð við Naustabúr fyrir þrjú hundruð í þarflegum peningum; skyldi höggvast viðr í skógi klaustrsins til uppihalds naustinu.

AM. Apogr. 180, afskript gerð eptir frumriti á skinni og staðfest á Grenjaðarstað 20. Mai 1728 af Magnúsi Þorvaldssyni og Gísla Magnússyni (síðar biskupi).

Vier ion med gudz næd biskup æ holvm giorum godum monnum kunnigt med þessu uoro opnu brefvi þa vær høfdum vmbod og yfersyn æ munkaþveræar klaustursins peningum selldum uær Sira eigli hallssyni er þa uar beneficiatus Saurbæiar kirkiu til æfinligrar eignar vnder saurbæiarstad j eyiafirdi eina skipstødu og naustgiord vid naustabur. hier i mot gaf nefndur sira eigill klaustrinv iij^c i þarfligum peningum. Skillde hauggvazt vidur i klaustursins skogi æfinliga at hallda vpp sogdv navsti. for þessi giorniugur fram a mukaþveræ med ræde conventubrædra klaustursins. Og til sannenda hier vm setium vær vort secretum fyrir þetta bref er skrifat var i nvpvfelli þridia daginn næstan fyrir hallvardsmesso ærum epter gvdz burd ꝏ d xx og viij.

---

**374. 13. Maí 1528. á Flugumýri**

Jón biskup á Hólum selr Magnúsi Björnssyni til fullrar eignar jörðina Nautabú í Skagafirði fyrir jarðirnar Róðugrund og Ásgrímsstaði.

AM. Fasc. XLVII, 12, frumrit á skinni frá Eggert Snæbjörnssyni á Kirkjubóli. Bæði innsiglin eru dottin frá. Frumritið er með hendi Jóns biskups Arasonar.

Þath giorum vid petur helgason og þorgrimur gudmundsson godu[in monnum] kunnigt med þessu ockru opnu brefi þa lidit var fra gudz burd ꝏ d xx og uiij ắr. a flugumyri j skagafirdi fimtudaginn næsstan fyrir halluardsmesso. vorum vid j hia saum og heÿrdum æ ord og hañdabañd. virduligs herra biskups jons ắrasonar af einni alfu[1]). Enn magnus biornssonar af annare. ad so fyrir skildn. ad biskup jon seldi greindum magnusi jordina nautabu er liggur j mælifells kirkiu sokn med ollum þeim gognum og gædum. er greindri jordu æ med logum ad fylgia. hier ắ mothi gaf greindur magnus jordina Rodugrund j flugumyrar kirkiu sokn og jordina asgrimsstadi er liggur j borgaʀ kirkiusokn med ollum þeim gognum og gædum sem greindum jordum ắ med logum ad fylgia. skildi huor hallda til laga þeim jordum keypti eñ suara lagaʀiptingum (æ) þeim jordum sem seldu. Og til sanninda hier vm setium vid fÿrr skrifader menn ockur innsigli fyrir þetta bref. skrifad j sama stad og dag ari sem fyrr seiger.

---

**375. 19. Maí 1528. í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti selr Eiríki bónda Torfasyni til fullrar eignar jörðina Gröf í Áverjahrepp, fimtán hundruð að dýrleika, með fimm kugildum, fyrir jörðina Grafarbakka í Hrunamannahrepp, en Grafarbakka, sem metinn var þrjátigi hundruð að dýrleika af sex skynsömum mönnum, geldr biskup síra Jóni Héðinssyni í ráðsmannskaup um þrjú ár fyrir dómkirkjuna í Skálholti.

AM. Fasc. XLVII, 17, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Vier augmund med guds nad biskup j skalhollti giorvm godvm monnum kvnnigt med þessv vorv opnv brefi ath vier havfvm giort svodañ kavpskap vit eirek bonda torfason ath vier haufvm sellt honum jordina gravf er liggur j æveriahrepp fyrir .xvc. medur avllvm þeim gavgnvm og giædvm sem greindri jordv fylger ok[2]) fylgt hefur ath fornv og nyio

1) tvískrifað í frbr. 2) Svo hér.

og þar med .v. kvgillde. hier j mot hefur hann feingit oss til fvllrar eignar og frials forrædis alla jordina grafarbacka er liggur j ytrahrepp j hrunakirkiv sokn med fvllv vpplagi og samþycki jngegerdar tvmasdottur konv sinnar. skylldi hvor ockar vm sig svara laga riptingv æ þeirri jordv er selldi. enn hall(d)a til laga þeirri er keypti. Og þessa somv jord grafarbacka havfvm vier golldit sira jone hiedenssyne j sitt radzmanzkavp fyrir þav iij. ar er hann hefer vel og truliga stadit og þionat j heilagrar skalhollz kirkiv vmbodvm. var þessi jord vird af .vj. skynsavmvm monnum fyrir. xxxc. Skal hann fyrrgreinda jord ath sier taka til fvllrar eignar og frials forrædiss og þad af giora. sem honum vel likar. Og til sanninda hier vm setivm vier vort insigle fyrir þetta bref skrifat j skalhollti ipso die sancte praxedis virginis anno domini. ɱ⁰· d⁰. xx. viij.

---

376. 7. Júní 1528. á Hólum.

Kaupbréf þeirra Jóns biskups Arasonar og Þorgríms Guðmundssonar um jarðirnar Álfgeirsvelli í Skagafirði, Brekku í Óslandshlið og Álegstaði.

AM. Fasc. LXXIII, 26, frumrit á skinni, sem 2 innsigli hafa verið fyrir. Skinnbréf þetta fanst milli 1880—1890 í bandi á handriti í safni Árna Magnússonar 89. 8vo, klipt í sundr, en feingust þó allir partarnir, svo að bréfið náðist heilt. Á bréfið er párað með hendi frá öndverðri 17. öld: „Drottenn minn vardveite mig fra ollu illu til lŋfs og salar. amen“, og tvívegis nafnið „Þorunn Eigelzdottur“.

[Þ]ath giorum vid tumas prestur eireksson ok are jonsson. godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi ꝺ̃a holum ȷ hialltadal sunnudaginn næstañ fyrir chathedra sancte petre apostoli[1]) þæ lidid var fra gudz burd .m. d. xx og viij ꝺ̃r vorum vid hia sꝺ̃um ok heẏrdum ꝺ̃a ord ok handaband þessara manna verdugs herra biskups ȷon(s) arasonar ok þorgrims gudmundssonar. ad so fyrir skildu[2]) adr sagdr herra biskup ȷon sellde fyʀ skrifudum þorgrime gudmundssyni ȷordina ꝺ̃geirsvelle[2]) ȷ skagafirdi ı ʀeẏkia kirkiu

1) þ. e. 16. Febr. 2) Svo.

sokn med ôllum þeim gognum og giædum sem greindri ȷôrdu æ med lôgum ad fýlgia. hier j mot gaf greindr þorgrimur ȷordina brecku ȷ oslandzhlid ȷ miclabæiarkirkiu sokn fyrir. xxxc. og koted ꜳlegstadi ȷ hofskirkiu sokn fyrir. vijc. med ollum þeim gognum og giædum sem greindum iordum ꜳ med (lôgum ad fylgia). Hier til gaf adur sagdur þorgrimur .vj. kugilldi ok vijc ȷ ollum þarfligum peningum. skýlldu huorer suara lagaʀiptingum ꜳ þeim ȷordum sem selldu enn hallda til laga þeim er keýptu. Ok til sannynda hier vm settum vid fyʀ skrifader menn ockur incigle fyrir þetta bref skrifad a holum ȷ hialtadal upp ꜳ sialfan dag de trinitatis. ꜳ sama aʀi ok fyrr seiger.

---

**377. 7. Júní 1528. á Hólum.**

Jón biskup á Hólum selr Þórarni Steindórssyni til fullrar eignar jarðirnar Bólstaðarhlíð og Enni í Langadal, en Þórarinn geldr á mót jarðir Oddnýjar Jónsdóttur konu sinnar syðri og ytri Laugar í Reykjadal norðr, með þeim orðum og endimörkum, sem bréfið hermir.

AM. Apogr. 5590 „Ex originali“ á kalfskinni, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna.

Vier broder helge med gudz nad abote a þingeyrum oc einar einarsson. gudmundr þorsteinsson og ȷon olafsson giorum godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefe ad a audkulu i hunavaztþinge þridiudagenn næstan fyrir huitasunnu[1]) vorum vier ij hiæ sæum oc heyrdum æ ord oc hañdaband þessara manna verduga herra biskups ȷonss af einne halfu enn Þorarins Steindorssonar af annare ad suo fyrir skildu ad biskup ȷon sellde þorarne steindorssyne ȷôrdena bolstadarhlid i hunauaztþinge oc ȷordena enne i langadal med ollum þeim gaugnum oc gædum sem greindum ȷordum a med logum ad fylgia oc biskup ȷon vard fremzt eigañde ad. sagde biskup ȷon ad kirkian i bolstadarhlid ætte eina iord er botnastader beita er liggur vnder saumu kirkiu

1) Þ. e. 26. Mai.

enn aull aunnur kirkiugotz forn oc ny skylldu kuitt þau sem greindre bolstadarhlidar kirkiu hefde til heyrt nema þorarenn skyllde suara suo mycklu ornamentu(m) kirkiunnar oc innstædu sem biskup ion liete honum afgreida oc þeim reikn ingskap sem hier epter kann til falla. hier i mot gaf nefndur þorarinn iarder konu sinnar ornyar jonsdottur med hennar samþycke. heita þær iarder sydre laugar oc ytre laugar er liggia j reykiadal i einarsstadar kirkiu sokn med ollum þeim gaugnum oc gædum sem greindum iordum a med logum ad fylgia. hier med skyllde adr greindr þorarin kuittur og ækærulaus vm þat sakfelle oc fiegialld sem efter stod af þeim peningum sem biskup jone hafde dæmt verit af greindum þorarne. skylldu huorer hallda til laga þeim iordum sem keyptu enn suara lagareptingum[1]) a þeim sem selldu. Og til sannenda hier vm setium vier fyrnefnder menn vor insigle fyrir þetta bref skrifat æ holum i hialtadal sunnudagen de trinitate arum efter gudz burd ꝏ. d. xx viij.

---

378. **8. Júní 1528. í Bæ í Borgarfirði.**

Tylftardómr klerka, út nefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, þar sem þeir kunna hvergi að finna annað í gömlu registri heilagrar Skálholtskirkju en Skálholtsbiskupar hafi alla lögsögu yfir Oddastað haft sem öðrum kirkjum, er erkibiskupsveizla er á í Skálholtsbiskupsdæmi, og dæma því, að biskup hafi mátt réttilega taka að sér Oddastað til allrar forsjár og kennimanna skipanar, með fleiri atriðum, er bréfið greinir.

Landsbókasafn 62 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups (= *a*). — Ny kgl. saml. 1847, 4to A bl. 31a—b með hendi Guðbrands prófasts Jónssonar í Vatnsfirði 1669 (= *b*), lakari afskript.

Domur um Oddastad.[2])

Ollum godum mônnum. sem þetta bref sia edur heyra. senda Narfe med guds nad abote ad Helgafelle. Gisle med

1) Svo. 2) „Dómr um erkibiskupsgarða, herra Ögmundar biskups 1528“, *b*.

samre nád abote i Videý. Einar Snorrason. Jon Eireksson. Halldor Tyrfingsson. Hallur Øgmundsson. Olafur Gislason[1]). Olafur Gudmundsson. Bardur Jonsson. Olafur Kolbeinsson. Narfe Þorsteinsson og Biörn Þorgilsson prestar Skalhollts biskupsdæmis kvediu guds og sina kunnugt giörande ad sub anno gratiæ M. D. xx. ok vm. á manudagin næstan fyrer festum corporis Christi vorum vier i dom nefnder af ærlegum herra og andlegum fôdur herra Øgmund med guds nád biskup i Skalhollte. ad skoda og rannsaka og fullnadar dóm á ad[2]) leggia. hveria medgiörd hönum edur ödrum lôglegum Skalholltsbiskupum bære ad hafa yfer Oddastad. eda ödrum þeim er Erchebiskups veitsla er á i Skalholltsbiskupsdæmi. þá ransôkudum vier þetta mal fra upphafe og[3]) til enda. og kunnum vier hverge ad finna annad i gomlu Registri heilagrar Skalhollts kirkiu. enn Skalholltsbiskupar hafe alla lôgsôgu yfer þeirre kirkiu haft. sem[4]) ǫllum ödrum þeim er i Skalholltsbiskupsdæmi liggia. þvi[5]) ad heilags anda nad [til vor[6]) kalladre. ad so profudu og fyrer oss komnu. dæmdum vier adurskrifader domsmenn[7]) med fullu doms atkvæde. adur skrifadan herra Øgmund hafa mátt rettelega taka ad sier Oddastad med þeirre innstædu sem hönum tilheyrde. og setia þar ræktara og radzmann fyrer og kennimenn. gudz tidum ad hallda. svara skurde ollum og eignast avôxt allan. bitala allar lôgligar skullder. og giallda aptur so mikla innstædu sem hann tok. være og nokkrir þeir. sem ránglega hefdu haft fra kirkiunne. þá skyllde biskupinn audvelliga giöra þeim lôg og rett. sem lôglegur eignarmadur kiæme af Erchebiskups hende. og þvi[8]) leitst oss öllum æ jafnan vera eiga. þvi oss leitst med eingu mote staderner rádstafalauser blifa meiga.

Samþyckte med oss þenna vorn dom greindur herra Øgmundur biskup og marger adrer goder menn. bæde leiker og lærder. Og til sanninda her um sette hann sitt jnnsigli med vorum fyrrnefndra manna jnnsiglum fyrer

1) Pálsson, skrifað upphaflega í *a*, en svo leiðrétt í *Gislason* fyrir ofan línuna; *Pálsson* stendr í *b*. 2) b. v. *b*. 3) alt, b. v. *b*. 4) og b. v. *b*. 5) Og *b*. 6) [með oss *b*. 7) kennimenn *b*. 8) Svo.

þetta domsbref. skrifad i sama stad[1]). dag og år sem fyrr seger.

---

379. [1528].

Jón prestr Einarsson kærir yfir því, að Ögmundr biskup í Skálholti hafi tekið af sér Oddastað, dregið sér af honum allan ávöxt í fjögur ár, síðan síra Jón fékk erkibiskupsveitingu fyrir staðnum — og dæmt undir sína forsjá, — og skýtr prestr öllu þessu máli sínu, með þeim greinum, er bréfið hermir, fyrir erkibiskupinn og klerkaráðið í Þrándheimi.

Eptir frumriti á skinni í Frumbréfasafni Jóns Sigurðssonar Nr. 10 í Landsbókasafni. Innsiglið er dottið frá. Sbr. dóm Ögmundar biskups frá 8. Júní 1528, Nr. 378. — AM. Apogr. 2136 eptir þessu frumriti: „Ex pagina membranea. originali ut videtur. sine anno. Tabulam illam membraneam mihi communicavit Haqvinus Johannis judex territorii Rangarvallensis in Islandia. qvi eam. si recte memini. mutuo acceperat i Ase epter Markus Snæbiörnsson“ (AM.). — Um höndina á þessu bréfi ritar Árni svo: „Med sömu hendi sem protestatio Sira Jons Einarssonar eru ritud.

(1). Vitnisburdur um Vatzfiord hvernig hann er beneficium ordinn 1519. liggur medal Skalholltzbrefa. (= DI, VIII, Nr. 543).

(2). Kirkiureikningur a Hnerri under nafne Sira Jons Einarssonar 1532. liggur medal Skalholltzbrefa. um þessi tvö er eckert dubium. ad þau. ad visu. eru ritud med sömu hendi.

(3). Supplicatia Jslendskra til Fridericum 1um. ad Þorleifur Palsson meige vera lögmadur helldur enn Are Jonsson. 1530. er og manifesté med sömu hende sem greind protestatio. Eg mä þad bref feinged hafa af sira Halldore Palssyne.

(4). Dispenseranarbref Augmundar biskups um hionaband Þordar Ketilssonar og Sigridar Jonsdottur. i fiormennings mægdum 1535. er og manifesté med sömu hende. liggur ä medal Skalholltzbrefa.

(5). Biskups Ögmundar kaupbref fyrir Medalfelli i Kios. af Biarna Narfasyne. fyrir Sæbol ä Jngialldzsande 1538. (liggur medal Skalholltzbrefa) er og annad hvert med sömu hende. eda annarre allt eins. nema skriften er nockru stærre ä þessu Medalfellzbrefi.

(6). Schedula um ofrike Tyla Peturssonar. sine anno (daterud

---

1) Staðar er ekki getið áðr hér í bréfinu, en dómrinn hefir verið dæmdr á prestastefnu *í Bœ í Borgarfirði* þenna dag. Sjá Nr. 381 hér á eptir.

circa 1519). synest og vera med sömu hende. enn skriften er þar stærre og feitare. (= DI, VIII, Nr. 559).

(7). Commendatio Ögmundar biskups fra Jslande 1519 i þysku. synest og vera med þessarre sömu hende. ad visu. allteins skriftarforme. enn skriften er hier enn nu stærre (= DI, VIII, Nr. 533).

Kannske Sira Jon Einarsson hafe ritad öll þesse bref.

Annars er ei olikt. ad nockrer hafi i gamla daga likt skrifad. þä hver heḟr lært af ödrum. og skriften var settare enn nu

J einu Skalholltzbrefe. hvar Sira Jon Einarsson var vid ridin. er med þessare sömu protestationis hende sett eitt ord á spatiunne. sem vantad hafde i textann eda misskrifast.

Jn Summa: Eg concludera. ad þetta sie hönd Sira Jons Einarssonar.

(8). Biskups Stephans samþycktarbref um halft Belgsholt gefid Amunda Höskulldzsyne. dat. in circumcisione domini 1518. synest og vera med sömu hendi sem protestatio Sira Jons Einarssonar. nema skriften er stærre og feitare i þessu samþycktarbrefi (= DI, VIII, Nr. 493). Þad er vïst. ad þad er riett med sömu hendi sem Schedula um ofrike Tyla Peturssonar 1519.

(9). Med sömu hendi sem protestatio Sira Jons Einarssonar. er manifesté ritad virdingarbref Hiardarholltzkirkiu og stadar i Laxárdal. daterad 1514. hvar fyrir fyrst er skrifadur Sira Jon Einarsson. og liggur þetta bref ad Hiardarholltzkirkiu (= DI, VIII, Nr. 375).

(10). Med sömu hende sem protestatio Sira Jons Einarssonar. synist mier og vera 6. presta og 6. leikmanna domur um Sandgerdi. ä alþingi 1539. sä same sem Ögmundr biskup heḟr confirmerad. liggur sa dómur medal Skalholltzbrefa. höndeñ ä honum er og smä. ad visu eru þar nockrer bokstafer ei allt eins giörder. enn flester eru eins ȷ. ' titlar og annad fleira er allt eins. Jtem d. f. f. h."

## Klôgumaal Sira Jons Eynarssonar vppa biskup Øgmund.[1])

Þat giôrer eg ȷon prestur Einarson Curatus oddastadar godum monnum kunigt med þessu minu opnű breffi. ad eg lyse þui fyrir godum monnum ad eg wijll alla þa hlýdne og reuerenciam weita werdug herra biscűp Aűgmund sem mig ber og tijlhoreligt er epter þui sem miner forwerar[2]) og retter vmbodsmenn og forwerarar[2]) haffa giort fýrir mier ȷ Odda salűo honore domini mei graciosissimi. Og þat witna eg under alla goda menn lærda ellr leika ad epter minne fatækre makt þikiunzt eg þetta haffa ġiort j þui sem hans

1) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1700. 2) Svo.

nad heffur mig tijll sagt eda seigia latid og swo wijll eg og hier epter giora j aullu þui er Oddastadar kirkia er skadlaűs vtj og eg hennar wegna straffanarlaűs. ef eg kan ad fa þad med godu. Nu aff þui ad eg fornem ad þann werdug herra biskup augmund wijll framar meir leggiazt a heilaga Odda kirkiu og mig en laűg tijll standa a mote heilagrar kirkiu retti og gaumlum uana [suo ad jeg fæ eingin laug edur rett hworke aff honum eda aff nockurum[1]). Jn primis dragandi vnder sig allan auoxt heilagrar Oddakirkiu j næstu forliden .iiij. ar sidan min herra Erchibiskupin unte mig med sinne Collacione adur greinda kirkiu Cum cura animarum tijll medferdar og ýffersýnar. þar sem eingin minnizt ad nockur biskupa fyrir honum haffe þetta fyrre giőrt. hier med halldande fyrir adur greindre Odda kirkiu tueimur jordum witz witandi er suo heita bergwad og selalæk a mote heilagrar kirkiu j odda maldaga heilum og orasűrudum. og j mote sinu eigin jnsigle sem hans nad heffr sialff űt geffit. Jtem j þridiu grein leggiande oddastadar peninga og jnstædu vnder dom lærdra manna og leikra. dæmande hennar eign vnder sig og heilaga skalholltzkirkiu. En Odda stadur heffur en ecki sina fulla jnstædu sem henne ber og tijl hőrer. hier a offan leggiande a mig hatur og aűffund fyrir þat ad eg wijl ecki þessa kirkiunnar peninga vte lata. eda hier ýffuer þeigia ad heilug kirkia j Odda skule suo missa sina eign og peninga. Þui fyrir þessa grein og allar adrar appellera jeg aull min mal og heilagrar kirkiu odda fram fýrir min werdugazta herra Erchibiskupin og hans Elskulegazta capitula j trandheimi. En vndan herra biscűp Augmunde og hans prelatum. wiliande þat j allan mata giarnsamliga hallda sem hans werdűgazta nad med sinum elskulega Capitula hier vt yfwer seiger eda seigia lætur. Þui fyrirbyd eg huerium manne leikum eda lærdum vpp hiedan og jn tijll þess ad þessi kirkiunar mal og min eru rannsaukud fyrir minum herra og hans werdűga Capi-

1) [á faldi bréfsins, og er ekki vísað inn.

tűla ad leggia nockurn dom eda laugsaugn a mig eda mina peninga. þui[1]).

---

**380. 28. Júní 1528. í Skálholti.**

Vottorð tveggja manna, að „Jón Jakobsson og Roðbert og skipherra Hamund og Robert Rickmann og Jón Jónsson“ hefðu meðkenzt, að Jón heitinn Eyjólfsson hefði lýst því í þeirra áheyrn, að hann ætti að gjalda Þorleifi Gíslasyni tvö hundruð í þeim peningum, er honum líkaði að taka fyrir tvö nobil og grott, svo og gæfi hann honum hest sinn í testamenti sínu.

Bisk. Skalh. Fasc. XIX, 63, frumrit á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá, nema brot af því síðara. — AM. Apogr. 2405 „accuraté“ eptir frumritinu.

Þat giorvm vid markus jonson og gisle simionson godvm monnum kvnnigt med þessv ockrv opnv brefi ath vid vorvm þar j hia og savm og heyrdvm æ ath jon jacobsson og rodbert[2]) og skipherra hamvñd og robert rickman og[3]) jon jonson medkendist ath þeir hefdv heyrt lysing jons heitens eyolfssonar ath hann hefdi lyst fyrir þeim ath hann ætti ath giallda þorleifi gislasyni iic j þeim peñingvm sem hann villdi sialfur lata sier licka at hafa fyrir ii nobil og grott hier med gaf fyrgreindur jon adurnef(n)dvm þorle(i)fi hest sinn og reidskap j sinne testamentvm giord. Og til sanninda hier vm̄ setvm vid ockur jnsigli fyrir þetta vitnisbvrdarbref skrifat j skalhollti svnvdaginn næsta fyrir peturss messo og palss anno domini m dc xx0 viij0.

---

**381. 8. Júlí 1528. í Hjarðarholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti selr Daða Guðmundssyni til fullrar eignar jörð kirkjunnar í Hjarðarholti í Laxárdal, Hamrenda í Dölum, tuttugu og fjögur hundruð að dýrleika, með selför í Hlíðartúnsland, fyrir jörðina Sauðhús í Laxárdal, sextán

1) „reliqua membranæ vacant“ (AM Apogr. 2136). 2) *db* í þessu nafni er stungið saman. 3) leiðr. AM.; ath., frumrit.

hundruð að dýrleika, og kaupa þeir jörðunum jöfnum fyrir þá grein, að Sauðhús liggja betr við Hjarðarholtskirkju.

AM. Apogr 2282 „Epter originalbrefe sem liggur i Hiardarhollte i Laxärdal", og er afskriptin staðfest í Skálholti 16. Januarij 1711 af Þorleifi Arasyni skólameistara, Gísla Bjarnasyni dómkirkjupresti, Vigfúsi Jóhannssyni heyrara, Þórði Þórðarsyni, Grími Magnússyni og Magnúsi Einarssyni, og nákvæm afskript eptir 2282 er í Þinglýsingaskjalabók Orms sýslumanns Daðasonar 1729—1736, bls. 43—45, kominni að gjöf til Landsskjalasafnsins 16. Sept. 1909 frá Boga kaupmanni Sigurðssyni í Búðardal. — Afskript í Landsskjalasafni frá 1701 meðal Hjarðarholtsbréfa, staðfest af Jóni biskupi Vídalín. — Afskript með hendi Magnúsar Einarssonar á Jörfa (d 1752) meðal Hamrenda- og Snóksdalsbréfa, gerð c. 1730—1740 eptir frumritinu — Landsbókasafn 108. 4to bls. 544—545 með hendi síra Jóns í Hítardal c. 1720—1730.

Bref um kaup Øgmundar biskups og Dada Gudmundssonar á Hamarendum og Saudhusum Anno 1528.[1])

Vier augmund med guds nad biskup j skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu uoru optnu brefi ad vier medkennuzt at uier hofum sellt Dada gudmundssyni kirkiu jord j hiardarhollti hamrenda[2]) er liggia j saudafellz kirkiu sonck[3]) iiij^c og xx at dýrleika med aullum þeim gaugnum og gædum er greindre jordu fýlger og fýlgt hefer at fornu og nyiu og wer urdum fremst eigande at. til skilinne[4]) þeirre selfor sem greinder hamrendar eiga j hlidartvns jord kirkiunnar uegna undan oss og uorum epterkomendum kirkiunnar formonnum [enn under adur greindan Dada og hans laugliga erfingia og epterkomendur[5]). hier j mot gaf og seldi fyrrskrifadur dade os og heilagri hiardarhollz kirkiv jordina saudhuss er liggur j laxardal j hiardarhollz kirkiu sokn xvj^c at dyrleika med aullum þeim gaugnum og gædum sem greindri jordu fylger og fyllgt hefer at fornv og nyiu og hann hafdi fremst[6]) eigandi at ordit vndan sier og sinum erfingium enn under oss og heilaga hiardarhollz kirkiu til æfinligrar eignar og þar til atti þrattnefndr dadi at lata giora bænhus æ hamrendum upp æ sinn kosnad[7]). medkenn-

1) 108. 2) Hamarenda 108. 3) sockn, Jörfa afskr. og 108. 4) skildre, Jörfaafskr. 5) [felt úr í 108. 6) framast 108. 7) Svo.

unzt vier at vier keyptum og býttvm[1]) þessum ȷordum ȷofnum[2]) fyrrskrifudum hamrendum og saudhussum fyrir þa grein at adur nefnd saudhus ligga[3]) bettur uid hiardarhollz kirkiu enn fyrnefnder hamrendar og tittnefndur dadi atti at giora bænhuset.

Samþyckti þenna uorn giorning sira olafur gudmunsson er hielt hiardarhollt. skylldi huor um sig suara lagariptingum æ sinne ȷordu og hallda sinu kaupi til laga.

for þessi giorningr fram ȷ bæ ȷ borgarfirdi ȷ allmennilígre prestastefnu manudægin næsta fyrir festum corporis christi.[4]) þessum godum monnum nærverandi biarna narfasyni eireke gudmunssyni og ȷoni olafssyni.

Og til sanninda her um setium uier uort ȷncigli fyrir þetta ȷardarkaupsbref. huert er skrifad uar ȷ hiardarhollti ȷ breidafiardardolum ipso die sanctorum in celis.[5]). anno domini Millesimo v(c). xx. viij.⁰

---

**382. 15. Júlí 1528. á Mælifelli.**

Vitnisburðr, að skarðið, sem geingr vestr fyrir framan Hafgrímsstaðahnúk í Skagafirði hafi verið kallað Kiðaskarð.

AM. Apogr. 4071 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali“ á kálfskinni

Þath giori eg biarne biornsson godum monnum viturligt med þessu minu opnu brefe ath eg hefi verith ȷ tungusueit xiij. ár og xx en eg hefi nu xiiij. uetur og sextijge og hefi eg aldrei annad heýrt enn þat skard sem uestur geingur fyrir framan hafgrimstadahnuk hafi kallad verid

1) bytum, Jörfaafskr. 2) fell úr í Jörfaafskr. 3) Svo. 4) þ. e. 8. Júní. 5) „*Celis.* stendur skirt i originalinum. Mun eiga ad vera *Seliu* manna messa helldur enn Sanctorum *Celio* ɔ: Septem Dormientium“ (AM.). — Seljumannamessa er 8. Júlí, en Sjö sofendr standa í hinum prentuðu gömlu íslenzku rímkverum við 27. Júní og eins í hinum prentuðu íslenzku almanökum, og svo mun leingi hafa verið haldið í Danmörku og, ef til vill, á öllum Norðrlöndum. Annars var dagr Sjö sofenda halldinn 27. Júlí af kirkjunnar hálfu.

kidaskard. enn alldrei annad aurnefni og suo sogdu mier enu elldri menn. Og til sanninda hier um set eg mitt jnsigle fyrir þetta vitnisburdarbref er skrifat uar á mælifelle j tungusueit midvikudaginn næstañ fyrir þorlaksmesso um sumarid. arum epter gudz burd ꝏ d xx og vııı áar.

---

383. 19. Júlí 1528. á Eyri.

Páll Bjarnason selr Guðlaugi hónda Loptssyni þann hluta, sem honum hafði til erfða fallið eptir Bjarna heitinn Óttarson föður sinn, í Þyrisvöllum í Víðidal í Steingrímsfirði, og áskilr sér framfæri af Guðlaugi fyrir andvirði jarðarinnar.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Strandasýsla Nr. 3, afskript „orðrétt“ gerð „eptir pergamentsbréfi, er liggur á Skarði á Skarðsströnd,“ staðfest 12. April 1704 af Lýð Magnússyni og Þórði Egilssyni. Árni ritar á blaðið „fra Skarde“.

Pall Biarnason selur Gudlauge Bonda Loptzsyni sinn part i Þyrissvøllum ꝏ d xx viij.

Þad giðrum vier Arni Jonsson. Þordur Asgrimsson oc Arni Þorsteinsson godum monnum kunnugt med þessu voro opnu brefe. ad vær vorum þar hiá saum og heirdum a ord oc handaband þessara manna. Gudlaugs B(onda) Loptssonar oc Páls Biarnasonar ad so fyrir skilldu ad ádur greindur páll selldi Gudlauge Loptzsyni þann jardarpart sem honum hafdi til erfda falled epter fødur sinn Biarna heitenn Ottarsson i jordunni Þýrissvøllum er liggur j vıjdidal i Steingrimsfirdi i Stadar kirkiu sökn med øllum gøgnum og giædum þeim sem firr greindum jardar parti filger og filgt hefur aformu oc nyu til ytstu ummerkia og hann vard fremst eig andi at løgum. Skilldi firr nefndur Pall þennan sama jardarpart undan sier og sıjnum erfingium. enn under Gudlaug Loptzson og hans erfingia. til æfinligrar eignar og frials forrædess. Hier i möt skilldi tijdtt nefndur páll sier framfæri æ þeim ælnum sem Gudlaugur Loptzson fieck honum fyrir þennan sama jardarpart. og skilldi hafa fyrir honum so leingi sem hann lifdi. til æfenligs framfæris. Og til sanninda

hier um settum vær firr nefnder menn vor insigli fyrir þetta vitnisburdarbref. skrifat a Eyri a Skogarströnd i Altafirdi a sunnudaginn næsta firir Þorlaksmesso nm sumarit þa er lidit var fra hijngadburd vors Herra Jesu Christi m d xx og viij ar.

---

384. 31. Júlí 1528. í Svignaskarði.

Helgi Steinmóðsson gefr „föðurnafni sínu“ Steinmóði syni Jörundar Steinmóðssonar hálfa jörðina Steinanes í Arnarfirði, og reiknaði Helgi þessa gjöf löggjöf úr tíutíu hundruðum.

AM. Fasc. XLVII, 14 frumrit á skinni Af 4 innsiglum er 1 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 1673.

Þat giore eg jon jonsson. þolleifur einarsson. helge joñsson. leikmenn godvm monnum kunnyckt med þesu vorv opttnv brefe. at þa er lidit var frá hingatbvrd vors hera iehsu christi m d. xx. og viii ár. á gliufra j stafhollzkirkiv sokñ. worvm vær j hia og heyrdvm æ. ord og hand(a)bañd þessara manna hellga steinmodzsonar. En af annare sera jorundur steinmodzson. at svo fyrer skyldv og vnder toludu. at helge steinmodzson gaf favdurnafne sinv steinmode jorvndzsyne jordina steynanes[1]) halfa. sem lygur j otradals kyrkiv sokn til æfenligrar eygnar. og hans erfingvm. Reiknade optt nefndur helge þetta sina lavggiof vr tivtiv c.

logsamde og samþyck(t)e þenañ giorning snore helgason. sem þa var til aldurs kvomen.

Og til sandinda[2]) hier vm settivm vier fyr nefnder menn vor jnsilge[2]) fyrir þetta vytnes bvrdarbref. skrifat j svignaskarde j borgarfyrde j stafhollz kyrkiu sokn. favstvdagen næstan fyrer petturs Messo á sama ære sem fyr seiger.

---

385. 10. August 1528.

Álitsgerð sex manna, eptir tilnefning Ögmundar biskups í Skálholti með ráði Gísla ábóta í Viðey ofl., um landamerkja

1) — nes, tvískrifað. 2) Svo.

ágreining milli jarða dómkirkjunnar í Skálholti og Gauksstaða í Garði, jarðar Viðeyjarklaustrs, svo og sáttmáli um lyngrif og þangskurð milli nefndra jarða.

Bisk. Skalh. Fasc. XIX, 62, frumrit á skinni. Öll innsigli (3) eru nú dottin frá. — AM. Apogr. 2404, afskript staðfest af Árna Magnússyni, Þórði Þórðarsyni og Ormi Daðasyni, og er afskr. með hendi Árna sjálfs.

Þetta er æreidarbref vm landamerki suo og fullur vrskurdur.

Vier broder augmund med gudz nad biskup i skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi æ laurenciusmesso um sumarit. anno domini m°. d°. xx°. octævo. at vier med kirkiunar radi j skalhollte næruerandi æbota gijsla j uidey et cetera. nefndum vier vi menn til skodanar vm þa ægreining sem verit hafdi i millum stadarins iarda j skalhollti og klaustursins iardar j videý gaukstada j garde. leist þad ollum sem sæ gardur skylldi rada landamerkium j millum gaukstada og vara sem fram gengi at sio og upp under heide. vrdum vier og abote gisle j videý æ þad satter med vilianlegum sattmala at sa sem a gaukstodum bygge skylldi hafa lýngrif j heide ȷ stadarins iordum j skalhollti. Enn þeir sem æ stadarins iordum bygge skyllde hafa þangtak fyrir gaukstadalandi. Og til sanninda hier um setium vier vort jnscigle fyrir þetta bref skrifad j sama stad og ære deige sijdar enn fyr seiger.[1])

---

**386. 26. August 1528. á Hólum.**

Jón biskup á Hólum veitir Magnúsi djákna Jónssyni (syni sínum) prófastsdæmi milli Hrauns á Skaga og Hofs í Dölum, en Gísli prestr Sigurðsson fari með prófastsdæmið.

AM. Fasc. XLVII, 15, frumrit á skinni úr Hólabréfum („sk") og er innsiglið dottið frá. — Landsbókasafn 115. 4to II, 59—60 (bréfsafn séra Jóns Haldórssonar í Hítardal). — ÍBfél. 126. 4to bls. 331—332.

Profastsdæmi Magnusar diakna"[2]).

Vier jon med guds nad biskup a hollum giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad

1) þ. e. 11. Aug. 2) 115. „þetta ȷ Registre 128 1528" XLVII, 15 með venjulegri hendi, sem er á Hólabréfum.

vier hofum vnt magnuse diackna jonssyni profastsdæme millum hrauns ᴓ́a Skaga og hofs i dǫlum. med soddan skildaga. æd sira gisli sigurdzson skal magt og valld til hafa. ad regera sama profastsdæmi sem fullmýndugr profastur. skal hann afleýsa og setia pænitencias competentes. sekta og sækia. og vnder vorn dom stefna (þeim). sem brotliger verda eda ordid hafa. og eigi hefur ᴓ́adur lǫglig kuittan ᴓ́a komit. eda vm semia med godra manna ʀᴓ́de þeim ath skadlausu sem profastsdæmit tilheýrer. skulu þeir aller kuitter fyrir oss og adrgreindum magnusi diakna. sem sira gisle logliga kuitta giǫrer j þessu sinu vmdæme. skal hann boda til hola ad oskudeigi og skirdeigi ollum þeim storskriptamǫnnum sem þangad eiga sina lausn ad sækia. skal hann saman taka tiunder. Romaskatt og vijntolla j sama takmarki og skila heim til hola ᴓ́a jonsmesso baptistæ. skal hann sækia aull .ıx. marka mᴓ́al og þar fyrir innan vnder ʀettañ ʀeikningskap. og hafa þar af fyrir sitt starf. so hann sie vel halldenn. skal þetta vort vmbod standa j nærsta ᴓ́ar epterfaranda. og þat leingr sem ver eigi adra skipun ᴓ́a giǫrum.

Ok til sannýnda her vm setium vier vort secretum fyrir þetta bref. skrifad ᴓ́a holum j hialtadal miduikudaginn nærstañ epter bartholomeusmessv vm sumarid. þæ lidith var fra gudz burd þwshund fimm hundr(u)d tuttugu og ᴓ́atta ᴓ́aʀ.

---

**387. 30, August 1528. í Holti í Fljótum.**
**25. Febrúar 1529. á Holtastöðum.**

Kaupmálabréf Koðrans Ólafssonar og Guðnýjar Brandsdóttur.

AM. Fasc. XLVII, 16, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum er að eins innsigli Jóns biskups eptir fyrir bréfinu.

festingarbref kodranar.

Jn nomine domini amen

lýstizt oc stadfestizt svo felldr kavpmali ᴓ́a brudlaupsdeigi millum þeirra kodrans Olafssonar og gudnyiar brañdzdottur sem hier seiger. at kodran taldi sier til kaups uid gudnyiu hvndrad hundrada ȷ́ iǫrdum og lausafie. hier ȷ mot

gaf brandr bondi gudnyiu dottur sinni. lx. hundrada. xxc jaurd og þar til fioratigi hundrada. gaf kodran henni fiordvngsgiöf ur sinum peningum. ef hun lifdi honum leingr. og svo huort þeirra audru. skildi brañdr dottur sina malakonu. og sidan festi kodran olafsson gudnyiu brandzdottur lögliga efter bokarinnar ordum.

for þessi giorningr fram j hollti j fliotum. sunnudaginn næsta efter decollacio johannis baptiste. þa lidit var fra guds burd .m. d. xx. oc viii ár nær uerañdi virduligr herra jon arason biskup át holum. sera þorsteinn jonsson. sera þormodr snorrason. sera jon brandzson. grimr jonsson. þorsteinn gudmundzson og thomas brandzson. og marger adrer goder menn. Og til sañnda hier um settu uær fyr nefnder menn uor innsigli fyrir þetta kaupmalabref skrifat á holltastaudum j langadal fimtudagin næsta efter messudag mathias postula æri seirna enn fyr seiger.

---

**388. 12. September 1528. í Miklagarði.**

Dómr sex manna, útnefndr af Hrafni Brandssyni lögmanni fyrir norðan og vestan á Íslandi, um ákæru Eyjólfs Einarssonar til Guðrúnar Jónsdóttur um jörðina Möðrufell í Eyjafirði.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Um halft Modrufell.

Þad giörum vier Einar Bryniolfsson. Halldor Jonsson. Jon Þorlaksson. logrettumenn. Þorsteirn Einarsson. Bryniolfur Jonsson. Gudmundur Gunnarsson [godum mönnum kunnigt[1]) med þessu voru opnu brefe. ad þá er lided var fra gudz burd M. D. xx. ok viii. ar faustudagin næstan epter festum nativitatis Virginis Mariæ[2]) i Spialldhaga i Eyafirde. á þingstad rettum vorum vier i dom nefnder af ærlegum herra Hrafne Brandssyne lögmanne fyrer nordan og vestan á Js-

1) [þ. v.; vantar í hdr. 2) þ. e. 11. Sept.

lande. ad skoda og rannsaka og fullt doms atkvæde å ad leggia hvad oss litist rettast um þå åkiæru er Eyolfur Einarsson kiærde til Gudrunar Jonsdottur um jördina halft Mödrufell i Eyafirde. Birte fyrrsagdur Eyolfur sin bref þar fyrer oss under godra manna innsiglum. ok þann dom sem adur hafde a falled þetta mål. Dæmdum vier þenna dom. er adur var dæmdur. fullmegtugañ. ok ådurnefndum Eyolfi jördina alla Mödrufell til fullrar eignar. þar til ad önnur bref fram̃ koma. þau er lögligre syndest.

Samþykte þenna vorn dom med oss herra lögmadurinn. setiande sitt jnnsigli med vorum jnnsiglum fyrer þetta domsbref. er skrifat var i Miklagarde å sama are. degi sidar enn fyrr seger.

---

**389. 14. September 1528. á Gottorp.**

Friðrik konungr I. kvittar Hrafn lögmann Brandsson um 300 Rínargyllini í gulli, er hann hafi greitt sér fyrir jarðagóz það, sem konungi hafði verið dæmt af Teiti Þorleifssyni fyrir víg Árna Bessasonar (Sveinsstaðareið).

A.

AM. Apogr. 3847, tvær afskriptir: *a*, með hendi Árna Magnússonar „Ex orig. in membrana"; *b*, „Ex chartis Hr. Oddz biskups Einarssonar fra Leyrargördum".

Kong Majestatis Breff och Kuittantz giffuen Raffn Brandsson Lögmandt.[1])

Wii Frederick mett guds naade. Danmarcks Wenndis oc Gottis konning. wdtuoldt konning till Norge. Hertug vdi Slesuig. Holstenn. Stormarnn oc Ditmerschenn. Greffue vdi Oldenburg oc Delmenhorst. giöre alle wittherligt. att oss elskelige Raffnn Brandsson Lagmand nordenn oc westenn paa wortt lannd Jslañđ. haffuer nu till gode rede betallit och fornögitt oss try hundrett Rinske gyllene i guld. som hand oss giffue schulle for thet gaads. som oss war tildömpt aff Titer Torloffsson for eñ karll ssom hede Arnt Besseson hañd lod slaa

1) *b*.

ihiell. som samme dom vduisser oc indholler. Thii lade wii forne Raffnn Brandsson logmand och hanns arffuinge frii. quit. ledig oc loss for all ythermere kraff eller tiltall for forne try hundre[tt] gyllene i guld oc forne gaads. aff oss. wore arffuinge oc efftherkommer. koninger vdi Danmarck vdi alle maade. och haffue wii wnndt och tilladett. och mett thette wortt opnne bref wnnde oc tillade. at forne Raffnn Brandssonn och hanns arffuinge maa och schulle nyde bruge och beholle samme gaads effther thett breffs lydelse. wii hannom tilfornn ther om giffuett haffue.

giffuet paa wort slott gottorp. hillige korssdag Exaltationis aar et cetera m d xx viii.

Wnnder wortt Signett.[1])

B.

AM. Apogr. 3847, með hendi Hans Beckers „Ur vidimus 2ia leikmanna [1. Sept.] 1540 og 2ia presta [29. Júlí] 1547" (AM.). — Landsbókasafn 63. 4to bl. 112a með hendi Haldórs Guðmundssonar c. 1640 (með ártali, en ódagsett; laus ísl. þýðing).

Vij Fredrick med gudz naade. Danmarks. Vendis oc Gotis konung. utualdur konung til Noregs. Hertugi vtij Slesuijk. Hollsten. Stormaren oc Ditmersken. greife i Oldenborg og Delmenhorst giorum ollum viturligt at vor elskulige Hrafn brandzson. Logman nordan oc vestan uppa vort Land Jsland. hefur nu til goda reidu betallit [oc] fornøget oss trij hundrett Rijnske gyllene i gulle. sem hann oss gefa skýllde fyrir þat gotz sem oss var til dæmt af Teite Torleifssýne fyrer ein karl. sem het Arne Bessason. en hann let i hel slæ. sem sami domur utvijsar oc innehelldur. Thij latum vij forne Rafn Brandzson logmann oc hans erfingia frij kuitta liduga og lausa fyrir alla framar meire krof eda tilkall fyrer fýrnefnd iijc. gyllene i gulle og fýrnefnt goz af oss vorum erfuingium oc efterkomendum kongum vtij Danmark vtij allan mata. oc hofum vij unt oc tillatid og med þetta vort opna bref unnum oc tillatum. at forne Rafn brandzson oc hans erfingiar mega ok skulu niota bruka oc bijhallda sama gotz efter þvi sem þat bref hliod-

1) „Sigillum Regium, qvod olim appensum erat, nunc desideratur" (AM.).

ar. sem vij honum tillforna þar vm̄ gefit hofum. gefit uppa vort slott Gottorp helga krossdag exaltationis. arum et cetera M D. xxviij.

Under vort Signet.

---

**390. 16. September 1528. Í Kirkjubæ.**

Skrá um itök klaustrsins í Kirkjubæ á Síðu, einkum um skipstöðu í Yztabæli undir Eyjafjöllum og um ítak í Skaptafellsskóga, svo og um nokkur gjöld klaustrsins.

AM. Fasc. LXXIII, 1b, skinnrolla með skrár klaustrsins í Kirkjubæ, bæði kristbúa máldagana fornu og þessa skrá. Er skrá þessi öll rituð 1541 eða síðar, því að hún getr láts Ögmundar biskups. Í I. bindi Fornbréfasafnsins bls. 195 er sagt, að skráin sé rituð um 1500, en þess er þar ekki gætt, að hún er öll með hendi Gizurar biskups Einarssonar, einungis skrifuð í þrem köflum, sitt í hvert skiptið. Um skinnrollu þessa segir Árni: „Þetta innlagt er mitt, hefi eg þad fenged i Kaupenhafn fra Jslandi (kannske frä Mag. Birne) og heyrer med riettu Kirkiubæiarklaustre til sem eg nu sie. Þordur Þorleifzson þecker þar eckert til, og hefur þad alldri fyrri sied“. — AM. Apogr. 2860, afskript gerð eptir þessari rollu. — AM. Apogr. 2862, afskript gerð í Skálholti 7. Sept. 1708 eptir transskripti frá 1652. Sbr. Dipl. Isl. I, bls. 195—196.

Jtem gaf sira gudmundur ærnason klaustrinu j kirkiubæ skipstaudu vm xij manude j ẏtzsta bælis jord. enn hann ætti þa ytzsta bæli. hier med gaf hann navstgiord oc hwsgiord oc elldhws. skulv þeir sem j kirkivbæ rada mega setia þesse hws hvar sem þeir vilia ad skadlausv vtan ecki komi audru uid. enn torf skvlv þeir stinga þar nærri sem sem ádur hefer stvngit verid oc heimabondi stingvr til sinna naudsynia. vtan skadlavst megi nærr stinga hvsgiordinne. gaf hann þetta itak klaustrinv til æviñligrar eignar morgvm godvm monnvm nærverondvm. godrar minningar biskvp avgmvnde palssyne. abbadis halldoru sigualldadottur. sira salamon heinrekssyne. sira brynivlfe halldorssyne oc morgvm audrum godvm monnvm j storu stofunni j kirkiubæ miduikudaginn j ymbru viku vm haustid. anno domini millessimo d.º xxº. octauo.

Jtem er þar enn[1]) grein til audsyningar a klaustursins vegna j þyckabæ at þat hefer sellt skipsatur klaustrinu j kirkiubæ til æfinlig(r)ar hefdar oc eignar oc hefer haft aauallt ef þeir hafa skip til haft oc hafa enn j dag at allra manna uitordi oc eingin at fundit.

Jtem gaf Eirekur þorsteinsson kirkiubæiar klaustri allañ þann skog sem hann hafdi fremst eigande ad ordit j skaptafellz heide til æfinligrar eignar oc frials forrædis j suo mǻta ad þeir j svinafelli byggi oc æ knappauollvm skyllde hafa þar elldivid epter þvi sem þvi þarfnazt. uoru þar hia marger goder menn. sira brynivlfur halldorsson. gunnsteinn biarnason oc fleire adrer. for þesse giorningur fram j kirkivnne æ kirkiubæ.[2])

Jtem eru so margar skyllder klaustursens j kirkiubæ fra þyckuabæiar klaustre sem hier seier.

jn primis. ad raufarbergi half uet host.

j haurzdal .u. aurar uoru.

a refzstodum ad fodra .u. lomb.

a karstodum hundrat ok er þat kuit firir jskyldena i holm at hingat til kirkiubæiar a at gialldazt af holme . . . uett smiors oc tolf fiordungar[3]) miols.

j uik sydre fodra ku.

a geirlande fodra ku.

a fliotum ad fodra ku.

j holte .x. aurar uoru oc fodra iiij kyr oc halfan fiordung host.

Suodan dyrleike er æ klaustursins iordum sem hier seger.

jn primis smyrlabiorg xx hundrud.

hestgerde xij hundrud.

gvdmundarnes xij hundrud.

hatun xx hundrud.

---

1) er, skskr. 2) Milli þessa og þess, sem eptir fer, er langt bil. 3) firodũgar (!), skskr.

391. 24. Oktober 1528. á Hofi.

Testamentisbréf Rafns lögmanns Brandssonar.

AM. Apogr. 613, með hendi Árna Magnússonar „Epter Transscripto .2. presta og 4. leikmanna 1594".

Testamentum bref Rafns Logmannz.

Jn nomine Domini amen.

Saker þess ad einginn daudlegur madur má sier nockurs aurugleiks setia um leingd sinna lifdaga. þui giore eg Rafn Brandsson logmann. heill ad samvisku. enn nockud krankur i likama. so fallid testamentum fyrir minni salu. sem hier epter skrifad stendur. ad þessum monnum nærverundum: Haldani Narfasyni. Tumase Eirikssyne. prestar. Halldori Jonssyni. Eirike Peturssyni. leikmenn.

Jn primis. ad eg gef mig allan og mina sal gudi i valld og hans blezudu modur Mariu. Sancte Petro og ollum helgum. Hier med kys eg minum mollduglega likama legstad á Holum. Bid eg um alla goda menn. rika og fátæka. ad þier giorid fyrir gudz skulld. og fyrergiefid mier. hvort þad helldur (er) med ord edur verk ad eg hefi þeim i moti brotid. Gef eg þessum sama stad mier til bænahalldz fyrer minni salu. halfa iordina Hnæfesdal. sem stendur austur i Jokulsdal i Hofteiks kirkiu sokn.

kirkiunni a Hofi messuklædi og einn kiertahialm med kopar.

fatækum xc.

Minum Herra biskup Joni .ij. mannzhluti i Grindavik.

Sira Brandi fodur minum minn besta stack.

Þeim presti sem mig smyr og syngur til molldar stack minn og hosur. og. xv. alner hverium korpresti. og þann sama hest sem mig ber til graptrar gef eg Holakirkiu.

Eirike Peturssyne ein tye.

Eyolfi Þordarsyni ku ad vore.

Helgu Sigurdardottur mannzhlut a Starnese.

Sira Tumasi Eirikssyni hest.

Jsleifi syni minum logbok mina.

Halldore Jonssyni æfinlegt framfæri ó minum peningum med iayrdi konu minnar.

Systur Margretu vi. stikur klædis.

Er eg skylldugur Þorunni Jonsdottur. minni eiginkonu .xxxc. Hier med gef eg fyrrnefndri Þorunni Jonsdottur. minni eiginkonu. i minar loggiafer. fyrst Krossavik er stendur austur i Vopnafirdi i Refstada kirkiusokn. og þa peninga sem þar med standa. og þar til adra peninga fasta og lausa og lausa. suo framarliga. sem eg ma fremst med logum giefa.

Hier med bid eg um alla goda menn. og sierliga þa menn. sem þessar minar salugiafer þiggia. ad þier bidied gott fyrir minni sal. og ei sidur bid eg mina erfingia og eptermælendur ad þeir lati þetta mitt testamentum obrigduliga halldast i ollum sinum greinum og articulis. svo sem þeir vilia svara fyrer gudi.

Og til sanninda hier um set eg mitt insigli fyrir þetta bref. er giort var a Hofi ꝺ́ Hofdastrond. laugardaginn næstan fyrir Simonsmessu þa lidid var fra hingadburd vors herra Jesu Kristi M. d. xx og viii.

---

**392. 1. Nóvember 1528. á Laugum.**
**25. Febrúar 1530. í Bólstaðarhlíð.**

Kaupmálabréf Þórarins Steindórssonar og Oddnýjar Jónsdóttur.

AM. Apogr. 5589 „Ex originali“ á kálfskinni, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna.

Jn nomine domini amen.

lystizt og stadfestizt suo felldr kaupmali a festingardeigi milli þorarins steindorssonar og odnyiar ȷonsdottur. at greindr þorarinn lagdi og feck odnyiu kuinnu sinni til fullrar eignar fyrir mala sinn ȷordina bolstadarhlid er liggur i laṅgadal j hunauatzþingi og þar til iordina þuerd́rdal i bolstadarhlidar kirkiusokn badar fyrir niutigi hundrada huora um sig med ollum þeim gognum og gædum sem greindum iordum ꝺ́ at fylgia at fornu og nyiu og þorarinn vard[1]) fremst eigaṅdi

1) Svo.

ad ordinn.[1]) og þar til xxx hundrada i ollum peningum. gaf hvort fyrgreiadra hiona ödru fiordungsgiöf ur fe sinu þat leingur lifer. og kiorgrip. sidan festi þorarinn kuinnu sina odnyiu lögliga epter bokarinnar ordum. for þessi giorningr fram á laugum ȷ Reykiadal á allra heilagra messu um veturinn. arum efter guds burd. ꝏ. d. xx og viij. þessum monnum nærveraundum. sira teitur magnusson. pall grimsson. ȷon hallzson. finnbogi ȷonsson og ȷon starkadarson. huerir eʀ settu sin innsigli fyrir þetta festingarbref skrifad j bolstadarhlid fostudag næstan fyrir vij vikna föstu um veturinn tueimuʀ arum seirna enn fyʀ seigeʀ.

---

393. 6. November 1528. í Skálholti.

Dómʀ sex presta útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti um ákærur biskups til síra Þórðar Pálssonar (í Hraungerði) um nautnan á jörðunni Læk í Flóa.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Apogr. 2738 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM.).

Domur um sira Þord Palsson.

Øllum mönnum sem þetta bref siá edur heyra senda Jon Hiedinsson. Arne Arnorsson. Teitur Þorsteinsson. Stephan Þorgilsson[2]). Biorn Þorgilsson ok Pall Egilsson. prestar Skálholltsbiskupsdæmis kuediu gudz og sina. kunnugt giörande ad sub anno gratiæ M⁰.D⁰. xx⁰. viii⁰. in festo sancti Leonardi i Domkirkiunne i Skalhollte vorum vier i dom nefnder af virduligum faudur herra Øgmund med gudz náð biskup i Skalhollte ad dæma og skoda þá akiæru sem biskupinn kiærdi til Sira Þordar Palssonar. ad hann hefde yrkt og nautnad ȷaurdina Læk i flóa er liggur i Hraungerdis kirkiusokn. ok kastad sinne eign á sierlegan part i fyrrgreindre ȷördu. Medkendest fyrrnefndur sira Þordur ad hann hefde handlagt sig i greindan stad. og dag. þvi ad h(eilags) anda

1) Svo. 2) b. v. 2738.

nǻd tilkalladre. ad svo profudu og fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms adkvæde hann rettelega fyrerkalladañ. Nu saker þess ad Radzmadurinn i Skalhollte ok .vj. skinsamer menn med hönum. ok fyrrnefndum Sera Þorde nærveranda. haufdu ǻ rided. ok leitst þeim öllum vera kirkiunnar eign i Skalhollte. var ǻ margar reisur ad funded vid hann af þeim sem um̄bod hafde yfer adurgreindre jaurdu. þǻ leitst oss hann rǻnglega visvitande hafa haft yrkt og nautnad optgreinda ȷord Læk. þvi dæmdum vier hann skylldugan ad tvigillda aptur heyed. ok sekan fyrer landnǻm og ǻverka sem logbok utvisar. Enn fyrer ranglega adtekt kirkiunnar peninga. þǻ dæmdum vier hann sekañ .lx. morkum vid kirkiuna. ok audrum .lx. mörkum vid biskupinn. ok skylldugan ad taka lausn og skrifter. Skal þridiungur fiǻrsekta gialldast innan mǻnadar. annar ad fardögum i vor. enn allt ad Michaelismessu ad hauste. Samþyckte þenne vorn dom med oss et cetera.

---

**394. 23. November 1528. á Hofi.**
**12. Febrúar 1533. á Hólum.**

Virðingargerð á peningum Rafns lögmanns Brandssonar, að honum fráföllnum, og útgreiðsla á mála Þórunnar Jónsdóttur konu hans.

AM. Apogr. 191 „Ex originali Svalbardensi accuraté. eda riettara pagina pergamena þvi einge innsigle eru under brefenu. og eigi nema 3 göt ä brotinu nedst. og er enn þä övist hvert þar i hafa nokkurn tima reimar vered. Skriften ä brefinu er annars coæva.“ (AM.). — AM. Apogr. 5645 „Ex originali“ með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna, og hafa 3 innsigli verið fyrir því frumriti.

Þath giorum vier grimur ȷonsson. ȷon olafsson. magnus biörnsson. halldor ȷonsson. eirekur petursson og andres olafsson godum monuum kunnigt med þessu voru opnu brefi. anno domini. ꝏ. d. xx. viij. ǻ hofi ǻ hofdastrond. clemensmesso dag ad rafni brandzsyni fra föllnum. virtum vær og giordum so fallna peninga sem hier

eptir stendr skrifad. [Jn primis[1]) jordina heima at hofi. .lxxx. hundrud. jordina á hrauni. xxc. jordina holakot. xxc. jordina sydri brecku. xvjc. jordina ytri brecku .xxxc. eitt eydikot er gardzhorn heiter fyrir xc. liggia allar fyr sagdar jarder þar under j hofs kirkiu sokn. Jtem heima á hofi. viij. malnytu kugillde og .xx. [Jtem[2]) med greindum jordum j byggingu .xx. [kugilde[3]) og tuo. atta hundrud j gelldum saudum og nautum .x. kapla hundrud. j ofridum peningum .xxc. og vij. j silfri .xxxc. lukte biskup jon er þá var dæmdr fiarhalldzmadur jsleifs rafnssonar. þorunni jonsdotter j sinn mála og heimanfylgiu sem hun hafdi átt j gard hrafns heitens brandzsonar er verid hafdi hennar bondi alla fyr sagda peninga fasta og lausa frida og ofrida enn j þau .lxc. sem nefndr Rafn heitinn brandzson hafdi gefid greindri þorunne j tilgiof [þann tid[4]) þau komu saman. lukte biskup jon henne halfa jordina sualbard á eyiafiardarstrond. vissum vær fyrir full sannyndi. ad fyr nefndri þorunni var so miclum peningum lofad ad brudkaupsdeigi þeirra rafns heittens þui vier vorum aller j þui sama brudkaupi. Og til sannynda hier vm settum[5]) vier vor insigli fyrir þetta bref skrifad [j sama stad deigi og ári sem fyr seger.[6])

---

**395. 24. Nóvember 1528. á Stað í Grunnavík.**

Kaupmálabréf Lazarus Mattheussonar (Skáneyjar-Laza) og Guðrúnar Ólafsdóttur.

Landsb. 115. 4to I, 421—22 skjalabók séra Jóns Haldórssonar í Hítardal, c. 1720—1730. „Effter original a pergamente", stendr á spássíu.

Kaupmálabref Lazarus Mattheussonar og Gudrunar Olafsdottur Anno 1528.

Jn Nomine Domini Amen

for svo felldur skilmále fram j mille Lazarus Mattheussonar og Gudrunar Olafsdottur á Stad i Grunnavijk þridiu-

1) [b. v. 5645. 2) [sl. 5645. 3) b. v. 5645. 4) [þa 5645. 5) sietium 5645. 6) [a holum j hialtadal miduikudagen epter scolastice virginis anno domini xxxiij. 5645.

dagenn næsta effter Clemens Messu arum̄ effter Guds burd ꝍ. d. xx. og viij. ath Olafur Bonde Eireksson kiðrer dőttur sina fýrrnefnda Gudrunu helminga konu. feingens fiắr og ofeingens og ef þau ætte ecke skilgetenn erfingia. og lifde hun hőnum̄ leingur. þắ skillde ắdurnefndur lazarus gefa tijttnefndre Gudrunu fiordungsgiǒf ur ǒllum̄ sinum̄ peningum̄.

voru þesser festingarvottar. Jon Olafsson. Jon Tum̄ason. prestar. Jon Narbason. Magnus Þordarson. leikmenn.

Og til sanninda hier um̄ settum̄ vær firrnefnder menn vor ȷnnsigle fýrer þetta kaupmắlabref. hvurt ath skrifath var i sama stad. deige og are sem fýrr seiger.

---

396. **1. December 1528.** **í Skálholti.**

Vilborgastaðadómr Jóns sýslumanns Hallssonar um húsmenn og kaplatǒlu í Vestmannaeyjum.

AM. Apogr. 5910. „Epter original fra Hlidarenda"; er afskriptin með hendi Árna Magnússonar, og er staðfest í Skálholti 6. Marts 1705 af Magnúsi skólameistara Markússyni, Arngrími ráðsmanni Bjarnasyni, Þorkeli Árnasyni kirkjupresti og Vigfúsi heyrara Jóhannssyni.

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Sæmundur Eireksson. Tumas Jonson. Gudni Þorarinsson. Jon Eirekson. Olafur Jonsson. Erlingur Gislason. Jon Jsleiksson. laugriettumenn. Jon Tumasson. Jon Magnusson. Magnus Narfason. Jon Bergþorsson. Jon Palson. Sygurdur Jonson qvediu gudz og sina. kunigt giorandi ath þa er lidith var fra hingatburdi vors herra Jhesu Christi M. D. xx. og viii. ær betur æ Vilborgarstaudum i Vestmannaeyium æ þingstad riettum. fostudagin næsta epter Huitasunnu.[1]) vorum vier i dom nefnder af ærligum Dandimanni Jone Hallzsyne. kongs umbodzmanne. ath skoda ransaka og fullnadardom æ ath leggia um þa akiæran er Jon Hallzson klagadi til þeirra er i Vestmannaeyium bygdi.

Jtem i fyrstu um þa husmenn er þeir tæki þar inn i eyiarnar framar meir enn laug lofa.

1) þ. e. 5. Júní.

Svo ok um þann kaplafiolda er þar væri fleire enn adur var sidvenia eda gamall vani til.

Nu af þui ath vær haufdum sied og yferlesit xij. laugriettumanna dom er dæmdur var æ alþingi. og samþycktur var af laugmanninum og ħirdstioranum. og eigi sidur af almuganum innan laugriettu og utan. ad huer sa madur sem þar hus tæki til leigu eda lanz med minna fie enn hann ætti halft fiorda hundrath. en hver sem ath audruvis giordi skyldi husiñ oheilug og upptækt allt þat þeir ætti af kongs umbodzmanni. Suo og heyrdu vier þa bera vitni um er þar voru innfædder i eyiunum. at þeir hefdi eigi annat heyrt seigia sina forfedr enn þar ætti ath vera .xvj. kaplar ath taulo. en þegar þeir hafa fleire verit hefur kongs umbodzmadur latid drepa þa eda giora annat rad fyrir. Því at svo profudu og fyrer oss komnu dæmdum vier fyrsagdir domsmenn medur fullu doms atkvædi alla þa husmenn burt ur eyiunum. ellegar upptækt fyrer þeim af kongs umbodsmanni allt þat þeir ættu. Enn huer(er) er þa hefdi haft sekir iiij. morkum vid kongenn i domrof. Svo og skylldi upptækt vera fyrer aullum þeim sem reri fyrer Eingelska menn. Enn alla þa kapla þar væri fleiri enn adur var greint. dæmdum vier alla kongs umbodsmanninum. hvort hann villdi eignazt þa eda giora annat rad fyrer þeim. nema hiner hefdi burt flutt innan .xiiij. natta ath færu uedre.

Og til sanninda hier um samþyckti þennan vorn dom Jon Hallzson kongs umbodsmann og setti sitt innsigli med fyrskrifadra manna innsiglum fyrer þetta domsbref er skrifath var i Skalholti. þridiudagin næsta eptir Katerinar[messu anno Domini[1]) M⁰. D. vicessimo viii. deigi ok stad[2]) sem fyrr seiger.

---

**397. 1528.**

Gunnar Bárðarson selr Erlendi lögmanni Þorvarðssyni til fullrar eignar tíu hundruð í jörðunni Suðreykjum (í Mosfellssveit) fyrir tíu hundruð í lausafé.

---

1) [máð í frumritinu; sett eptir gátu Arna. 2) Þannig.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Kjósarsýsla 2, afskript staðfest 6. Júli 1705.

Þad giorum vit Þordur Þorsteinsson og biorn Þordarson godum monuum kunnigtt med þessu ockar opnu briefe at uid vorum j hia saum oc heyrdum á ord og handaband þessara manna af annari alfu Herra erlends Þoruardzsonar logmans sunnan og austan á jslandi. Enn af annari Gunnars bardarsonar. uar þad under þeirra handabandi at Gunnar Bardarson selldi Erlendi logmanni. x° j sudur Reykium fyrir viij malnytu kugilldi og .ij° j audrum þarfligum peningum vndan sier og sijnum erfingium enn vnder Herra erlend og hans og erfingia. Datum þessa brefs. m. d. xx og viij ar.

Þetta ad vera riett Coperad Effter sijnum Orginal med Einu hangande jnsigle brakudu þo med nockrum læselegum bokstofum og synelegu merke j midiunni enn ödru af fǫl(l)nu Vottum Vnderskrifader ad Sudur Reykjum j Mosfellssueit þann 6. Julij Anno 1705.

Einar Jsleifsson mppria — Arne Benedictsson med eh.

---

398. **19. Janúar 1529.** **á Hólum.**

Ellefu prestar lýsa því, að þeir hafi samþykt það á prestastefnu, að Jón biskup Arason megi gefa og gjalda alla þá peninga, sem hann hefir aflað, hverjum, sem honum líkar, þó svo, að Hóladómkirkja sé vel haldin og heyrilega; lofar Jón biskup dómkirkjunni fjórðungi aflafjár síns upp héðan, falli hann frá án þess að hafa gert testament sitt, en klerkar samþykkja jarðakaup þau, er biskup hefir gert fyrir dómkirkjunnar hönd.

AM. Apogr. 4072 með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna „Ex originali". — AM. Apogr. 3706 með hendi Grunnavíkr-Jóns „Efter Transscripto 2. presta og 4. leikmanna 1594".

Uier finnbogi med gudz nád aboti á munckaþuerá. broder helgi med samri nád aboti a Þingeyrum. broder Jon med

gudz forsia Prior ä modruvollum. Petur Palsson. eigill hallzson. Þorsteinn Jonsson. Jon finnbogason. Jon Jonsson. tumas eirecksson. gilbrigt Jonsson. Þorbiorn Jonsson. prestar holabiskupsdæmis. giðrum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad vier hofum samþyckt j almenniligri prestastefnu. ad biskup Jon arason gefi edr gialldi hverium honum likar alla þa peninga. sem hann aflad hefur eda afla kann. j þann mata ad heilög holadomkirkia sie vel halldin og heyriliga. og hun hafi sitt fullt inventarium. fast og laust. sem þæ var er greindur herra biskup jon medtok hana i biskupligu valldi. Kunni þad so ad skie ad biskup jon falli fra. so hann giori ecki skialigt testamentum. þa lofadi hann ad gefa holakirkiu fiorda part vt af þeim fasta eignum er hann hier epter afla kann eda vnder koma. Skal þad greidast af þvi jardagozi. sem hann hefur eigi ödrum gefid. eda rad fyrir giort. fyri enn hann fra fellur. Suo og hofum vier samþyckt þau jardaskipti. sem hann hefur hier til haft holakirkiu vegna. Og eigi vitum vier betur enn þad sie kirkiunne skadlaust. Samþyckte þennañ giorning biskupsins og vorn aller prestar og kennemenn. sem þa voru æ somu prestastefnu. Og til meiri audsyningar her vm setium vier vor insigli fyrir þetta bref skrifad ä hölum i hialltadal þridiudagin næstan epter Geisladag anno[1]) m. d. xx. ix.

---

**399. 26. Febrúar 1529. á Reykjum.**

Dómr sex presta útnefndr af síra Þorleifi Eiríkssyni um ákæru Ögmundar biskups í Skálholti til Jóns Sigurðssonar, „sem kendr er Andrésson“, og annara systkina hans, fyrir þá sök að síra Jón Jónsson móðurbróðir þeirra hafði vanrækt að sækja undir dómkirkjuna í Skálholti það stórmæli, sem tilféll í Kirkjubæjarklaustri á Síðu, þá er þar var skammfærðr Indriði smiðr við kirkjudyrnar.

Bisk. Skalh. Fasc. XIX, 64, frumrit á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 2406 með hendi Árna sjálfs eptir frumrit-

1) Domini b. v. 3706.

inu „ordriett“. Orðamun hefir Árni tilfært á spássíum eptir bréfabók Ögmundar biskups „hvar þesse domur stendur fram til mids“, en alt niðrlag hans var þar fúið úr.

Domur Biskups augmundar og jons sigurdssonar.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. Senda Gudmundur ionsson. ion gislason. Steffan gislason. sæmundur arnason. biarni þorleifsson og olafur simonarson prestar skalhollz [biskupsdæmis[1]) quediu guds og sina (kunnigt giorandi) ad sub anno gracie ꝏ. d. xxix. a reykivm a skeidum faustudag nêstañ epter chathedram sancti petri uorum vier j dom nefnder af ærligri personu sira þorleifi Eirikssyni. ad dæma og skoda þa akæru sem herra augmund med gudz nad biskup j skalhollti kiærdi til jons sygurdarsonar. sem kendur er andresson. og annara systkena hans. fyrer þa sok at sira jon jonsson. modurbroder þeirra hafdi uanrækt at sækia under domkirkiuna j skalhollti þat stormæli sem tilfiell j[2]) kirkiubæiarklaustri a sidu. þa þar var skamfærdur indridi smidur vid kirkiudyrnar. var greinz jons beitt og krapt[3]) epter þeim domi sem gieck a dorholmum[4]) j haust. og dæmdum (vier) hann sekan iiij morkum j domrof. ef hann hefur bodin feingit. En sæker(!) þess at oss leist advrskrifadur sira jon helldur hafa hyllt þetta mal enn straf(f)at edur epter leitad. þar sem hann var næri. og eingin var j tigi til utan hann og hans menn og lafrans nichalsson[5]) sem xij[6]) eid sor fyrer. þvi leist oss allt þetta sakfelli uppa prestzins erfingia koma. adurskrifadan jon og hans sysken[7]). svo leingi þeir peningar (hrycki) sem erfingiarner toku epter. Nu saker þess at optskrifadur sira jon heitin hafdi forsmad[8]) at sækia malid. helldur hyllt med sinvm monnum j þessum glæp. og af þvi at kirkiunnar lavg svo utuisa j einvm stad. con(s)cientes et agentes pari pena punientes.[9]) þeir sem giora og þeir sem samþyckia eitt otilheyriligt verk skulv vnder einni pinv blifa. þvi at heilags anda nad tilkalladri. og (at) svo

1) [bréfab. Ögm. bps; vantar í frumrit. 2) á, brbók. 3) krafed, brb. 4) Dyrholmum, brb. 5) nikulasson, brb. 6) tylftar, brb. 7) „hactenus in codice [þ. e. bréfab.], reliqva omittuntur“ (AM). 8) svo frumrit.; „lege: forsomad“ (AM.). 9) Svo; „lege: punientur“ (AM.).

profudu og fyrer oss komnu. dæmdum vier med fullv domsatkuædi suodan sakferli uppa erfingia sira jons heitins. jn primis klaustrinu ȷ kirkiubæ .lx. merkur. biskupinum xu merkur. ȷ anari grein domkirkiunni ȷ skalhollti c. merkur. ȷtem biskupinum ȷ annari grein fyrer kirkiu inngaungur og þionustutekiu sem kirkiunar laug seigia fra þvi sem verkit uar unnit og til þess at presturin deydi. ȷtem dæmdum uier tittskrifadan jon skylldugan enn uppa ny at koma ȷ þann stad og dag sem biskupin honum tilseiger med allar sinar afbataner og svara þar þa svo sem stefndur þeim saukum sem hann ma med laugum til hans tala. og giorist þa salastefnur a fyrrskrifudu sakafie. Samþyckti þenna vorn dom med oss adurskrifadur sira þorleifur og marger adrer goder menn og setti sitt insigli med vorum insiglum fyrer þetta domsbref er skrifad var a sama degi og ari sem fyrr segir.

---

**400. 27. Febrúar 1529. í Skálholti.**

**Dómr** sex presta útnefndr af síra Þorleifi Eiríkssyni um jörðina hálfa Hamra í Kálfholtskirkjusókn, sem Eyjólfr Þorvaldsson hafði gefið kirkjunni í Skálholti til eignar, en Eiríkr Þorsteinsson klagaði upp á.

Bisk. Skalh. Fasc. XI, 5, frumrit á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá, og fyrsta línan er skorin ofan af bréfinu. — AM. Apogr. 2432 með hendi Árna Magnússonar. Hefir Arni fylt eyðuna í upphafi bréfsins, bæði eptir dómi um Jón Sigurðsson (Mr. 399), sem gerðr er sama stað, dag og ár sem þetta bréf, og eptir stafadráttum þeim, sem enn standa eptir af fyrstu línu bréfsins.

Vm efri hamra ȷ kalfholttz kirkiusokñ[1])

[Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda gudmundr ȷonsson. biarni þorleifsson. sæmundr arnason. ȷon gislason.[2]) ȷon][3]) ȷonsson. steffan gislason kuediu

---

1) „Efri Hamrar i Holltum eru Oddakirkiu iörd halfer. Sydri Hamrar er bondaeign" (AM.) 2) „Þetta gisla(son) er hid ovissasta af öllu, og kynni eitthvað annad ad vera" (AM). 3) Þó að Jón Jóns-

guds og sina. kunnigt giorandi med þessu uoru opnu brefi þa lidid var fra gudz burd. ꝺ. d. xx. og ix. ar. faustudagin næstan eptter chadetra petri[1]) æ ʀeykium æ skeidum worum uier j dom nefnder af erligum dandimanni sira þorleife eireksyne er þa uar officialis. ad skoda um̃ hálfa jordina hamra er liggur j kalfholzkirkiu sokn. sem eyolfur þorualdzson gaf kirkiune j skalhollti til fullrar eignar. enn eirekur þorsteinsson klagadi upp æ. komu þar ecke fram̃ uegna greindz eireks jnsiglud bref fyrir nefndri jordu sem login tiluísa. þvi ad heilagx anda nad tilkalladri leizt oss formadur heilagrar skalholz kirkiu mega rettliga hallda greindri jordu til rettra laga. Og til sanninda hier um̃ settum uier uor jnsigle fyrir þetta bref skrifath i skalholti laugardagin næstan eptter ꝺathiasmessu. sam̃a are og deige sidar enn fyrr seiger.

---

**401.** **10. Marts 1529.** **í Björgvin.**

Jóhann Kruko selr Ögmundi biskupi í Skálholti þær jarðir og peninga, sem Björn Þorleifsson seldi og fékk Hans Kruko bróður hans, til fullrar eignar, sóknar og sekta fyrir 600 mörk í öllum flytjanda eyri, með þeim sölum, er bréfið greinir.

AM. Fasc. XLVII, 18, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Kaupmalabref biskup(s) augmundar og iokan kruko.
[vm jardagoss ħans kruku[2]).

Þat bekenist eg johan kruko med þetta mitt oppna bref. at eg hefur selt ok feingit uerdaug herra j gudi biskup augmund j skalhollt j island þær jardir goz og peninga sem

---

son standi ekki í dómnum um Jón Sigurðsson, ætlar Árni þetta þó svo rétt fylt, til þess segi rúmið að svo sé „enda annad (nafn) iafnstutt“, og hefir hann þá komið í stað Ólafs Símonarsonar, sem í hinum domnum stendr.

1) þ. e. 26. Febr. 2) Utan á bréfinu; [með hendi frá 17. öld; hitt eldra. 3) Svo hér. 4) Svo.

biorn thorleifsson selldi og feck minn brodur hans kruko godrar minningar med ollum þeim gognum og giædum hlutum og hlunnendum. sem greindu gozi og peningum fylger og fyllgt hefur at fornu og nÿiu. og fyrnefndur biorn thorleifsson uard fremst eigandi at. epter faudur sinn. Skal fyr sagdur biskup augmund þessa peninga at sier tacka. brucka og bihallda til efinligrar eignar. Saumuleidis skal hans nad mega sækia og seckta alla þa sem rangliga hafa at sier teckid edur halldit edur umbod yfer haft fyr saugdu gozi og peningum. ok[1]) eignazt þatt sem hann kann med logum af þeim at fa. Er þatt suo at hofudgozit adaluikin er mig med logum fra komin. sem eg hefur spurt af skiluisa goda menn. eller nockur onnr jord. þa hefur biorn thorleifsson uilkorid sig at retta upp þann skada jgen et cetera.

Hier j mott skal adur nefndr biskup augmund gefa mig. vic mark j ollum flytianda eyri. sem er klæde. lerifte. gulli. silfri. skreid. uadmali og odrum godum peningvm. skulu þesser peningar gialldazt j þrimur saulum forfallalaust. Skal j fyrstu saul gialldazt þridiungur þessara peninga. annar þridiungur j annari norigs ferd. og allt ut golldit j hinne þridiu biskups augmundar wtsending til norigis. Skal ec suara laga riptingum a adr greindum jordum og gozi. Enn herra biskup augmund hallda til laga. Ok[1]) til sannenda hier vm sett[1]) eg mitt jnsigle fyrir þetta jardakavpsbref skrifad uar j berin miduickudagin næstan fyrir festum sancti gregorij paui[1]). anno domini m d xxix°.

---

## 402. 20. Marts 1529. í Vatnsfirði.

Vitnisburðr um Bolungarvíkrtolla Vatnsfjarðarkirkju.

AM. Apogr. 909 „Ex orig. Vatzfiord. accuratè.“ Innsiglið var fyrir bréfinu og örn í. — Apogr. 1077, afskript staðfest í Skálholti 17. Dec. 1707 af Magnúsi Markússyni, Þórði Þórðarsyni og Helga Jónssyni, gerð eptir transskripti dagsettu í Vatnsfirði 7. Maí 1554 þeirra Jóns Þorleifssonar, Jóns Þórðarsonar, Ólafs Magnússonar presta og Jóns Illugasonar. — Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 12 transskript á skinni frá 19. Apr. 1605.

1) Svo hér.

Þat giore ec lanbiartur bardarson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi at ec uar leinge hia þorleife heitnum biornssyne j uatzfirdi. so hefi ec og sidan jafnan vered uistfastur j jsafirde og giorla til uitat um tolla jtauk og intekter heilagrar uatzfiardar kirkiu huat reiknast siautiger ara og hefi ec heyrt um alla mina daga at allur fiskatollur af bolungaruik hefur uerit eignadur heilagre uatzfiardar kirkiu og þangad golldin arliga so leinge sem ec man og langt fyrir þat fram. hefi ec og heyrt at þar ætti huer madur heimilan rodur sem uillde og so budagiord. hier med elldiuidartak j hlidar iaurd og huerge af bolungaruik toll-laust skip nema undan hlid. Jtem hefi ec og heyrt at kirkian j uatzfirdi ætti lambselldi a uij bæie ı alftafirdi er biorn heitin einarsson gaf kirkiunni. so og saumuleidis hefi ec og heyrt at kristin dotter hans gaf opt nefndre uatzfiardar kirkiu lambsellde a allar þær iarder sem hun atte a langadalsstraund. hefur þetta haft uered og halldit um mina daga og einge i mot talad so ec uiti.

Og til saninda hier um festa ec mitt insigli fyrir þetta bref skrifad j uatzfirdi jn festo sancti chutberte episcopi et confessoris anno domini ꝏ. d. xxix.

---

**403. 4. Apríl 1529. í Skriðu.**

Vitnisburðr, að Þorsteinn Finnbogason hafi lýst því, að hann hafi aldrei feingið Magnúsi Árnasyni þann tuttugu og fimm hundraða part í Svalbarði, sem Einar Hallsteinsson fékk Þorsteini, framar en svo, að Jón (Magnússon) hefði hann ekki, og aungum hefði hann feingið þennan part, nema Jóni bónda.

AM. Apogr. 4218 afskript gerð eptir frumriti á kálfskinni frá Hallgrími Sigurðssyni á Svalbarði og staðfest á Grenjaðarstað 18. Sept. 1726 af Þorleifi Skaptasyni presti í Múla og Magnúsi Markússyni presti á Grenjaðarstað.

Suo felldan vitnissburd berum wid jon hallsson. pall grimzsson ad uid heyrdum bondan þorstein finbogason lysa

þvi fyrir ockur ȷ reykiahlyd uid myuathn ad hann hefde all(d)re feinge(t) magnuse arnasyne þann sama partten ȷ Svalbarde .u. c og xx. sem Einar hallsteinsson feck þorsteini framar en svo ad ȷon hefdi hann ecki. en hann medkendest fyrir ockur ad hann hefdi aungum þennañ partt feinget nema ȷone bonda. Ok til sanninda hier um heingium vid ockar inncigli þetta bref er skrifad war a skridu i reykiadal æ sialfan ambrosiusdag þa er lidid var fra gudz burd ꝏ d xx og niu ar.

---

**404. 12. April 1529. í Flensborg.**

Friðrekr konungr I. skipar Diðrik af Bramstad „fyrir margfalda, trúa, þægilega þjónustu“ fógeta sinn á Íslandi um fimm ár frá næsta ári að telja.

Ríkisskjalasafn Dana, Freder. I, Tydske Registrant, bl. 110.

Dirich vaget tho Bramstede Begnadunge vyff ȷarlanck myt der vagedie des landes Jsslandt. Anno xv$^{c}$ xxix$^{0}$.

Wy Frederich von gots gnadenn tho Dannemarckenn et cetera. Khoning et cetera. Dhoen hirmit kundt vor vns. vnnsse eruenn. nhakamelinge. vnnd vore mennichlichenn Bekennende. Dat wy vnnsserem leuenn getrwenn Dirick vaget tho Bramstede vth gnadenn vnnd gnediger thoneyginge. ock vmme synere mennichfoldingenn getruwenn angenhemme dienste wyllenn. gnedichlich gegunnet vnnd begnadett. dat he vnnsere landt Jsslandt. alsse vnnssere vagett vyffjarlanck. von dem negestfolgendenn Jare. wenn menn druttig schryuende werdtt. anthorekende. beszokenn. vnnd jnn vnnssere nhamenn datsulue vorwessenn. vnnd den Jnwanerenn geburlichs Rechtenn vorhelpenn schole. Gunnen. tholathenn vnnd szettenn ohne alszo vor vnnssernn vagett dessuluigenn landes ȷn vnnd myt disszem vnnszem Breue. Jodoch vnnd alszo. datt he vns. vnnszenn eruenn vnnd nhakomenn daruann ȷarliches dho vnnd gheue wes daruan by tyȷdenn vnnssers Broders Khoning Hanszes. hoichlofflicher gedechtnussze. vnnd

hervññ Cristiernn etwann Khoninges tho dennemarckenn. dhaen gegeuen vnnd gegangenn js.

Darup allenn vnnd jsslichenn vnssen leuenn getrwenn. geistlichenn vnnd weltlichenn vnderszathenn hirmit ernstlich Beuelende. gadachtenn Diriche. an an ssollichere vnnssere Begnadunnge keine Jndracht. vorkortbinge ader voreweldunge thodhoende. Sunder darby sehuttenn vnnd handthauenn tho rechte.

Datum up vnnssem Slathe Flenszeborch. Am Mandage nha Misericordias dominj. Anno xv<sup>c</sup> xxix<sup>0</sup>.

---

**405. 30. Apríl 1529. á Grenjaðarstað.**

Jón Hallsson selr Jóni biskupi á Hólum jörðina Presthvamm í Reykjadal með Kristfjár skyld, — en kaupahluti væri tuttugu og fjögur hundruð, — fyrir jörðina hálfa Velli í Bárðardal og fimm hundruð að auki.

AM. Apogr. 125 „Ex originali Greniadarstad". Árni skýrir frá því, að aldrei hafi nema þrjú innsigli verið fyrir bréfinu.

Þat giorum vier Þorsteinn finbogason. Jőn magnusson. Þorsteinn Gudmunzson. biarne Stullason. Pall grim̃zson godum monnum viturligtt med þessu voru opnu brefe. æ greniadarstodum j Reẏkiadal fǒstudagen næstañ fyrir tveggia postula messu vm vorid vorum vier j hia saum og heẏrdum æ ord og handaband vors verdugasta herra og andligs fodur biskups Jons Arasonar æ Holum af einne alfu enn Jons Hallzsonar af annare ad suo fyrir skildu ad nefndur Jon Hallzson sellde biskup Jone presthvamm j Reẏkiadal j greniadarstadar kirkiu sokn. er var mǻlajord hans kuinnu og hun hafde upplagt vottum hiaverundum med ollum þeim gognum og gædum. hlutum og hlunnendum. eignum og jtǒlum sem greindre jordu fyll(g)t hefur ad fornu og nẏiu. Sagde Jon Hallzson biskup Jone þar kristfie j jǒrdunne enn iiij. c. og xx kaupahluta. Hier j mot fieck biskup Jon Jone Hallzsyne halfa volluna j bardardal j lundarbrecku kirkiusokn med ollum þeim gognum og giædum. eignum og jtolum sem

fyrr greindre halfre ȷordu hefur fyllgtt ad fornu og nýu og þar til .v. c. ij kuillde og .iij. c ȷ odrum fridum peningum. Skillde Jon Hallzson sig kuittañ um kristfie ȷ Presthuamme a medañ hann hefde hallded fyrr nefndre jordu. Enn biskup Jon gaf þar ȷaord til. Hier med skýllde huor hallda til laga sinu kaupe enn sa svara lagaripttingum er sellde. Ok til sanninda hier um setium vier vor ȷncigle fyrir þetta ȷarda kaupsbref er skifad var a greniadarstodum xx og niu ar.[1])

---

**406. 7. Maí 1529. á Kotferju.**

Ágrip af sáttargerð þeirra Erlends bónda Þorvarðssonar og síra Þórðar Einarssonar um arfaskipi og eptirstöðvar vígabóta eptir Orm Einarsson.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups, og er rifinn helmingrinn af blaðinu, en fylla má eptir afskript í Landsbókasafni 122. 4to bls. 329—330, frá c. 1770.

[Her effter[2]) kemur bref i brefa] Bok Biskups Øgmunds.

[Um Ellend Logmann da]t. 1529 fostudagin næstañ epter inventionem Sancte crucis um̃ vorid.

[Brefed hefur inne ad hallda Sattm]ála mille logmannsins Ellinds [bonda Þorvardssonar ok sira Þo]rdar Einarssonar um̃ arfaskipte [vegna barna heitins Orms Einars]sonar. og epter stod af vigsbotum [effter fyrrskrifadan Orm Einars]son. Samdist þad þá ad þad arfa[skiffte skyllde standa er giort var] á alþinge. Enn þad Sera Þordu[r þottest vanhalldenn bæde sinna vegna] og barnanna. lagde lögmadurinn [af ȷordena Mela og 4 kugillde. Vot]tar Sera Jon Jonsson. Ornolfur [Gudmundsson. Sira Þormodur Gu]nnlaugsson oc Sera Arne Arnorsson. [Þessare sáttargiord lyser Og]mundur biskup at fram̃ fared hafe ad [Kotferiu i Floa dat. ut supra].

---

1) „So er arstaled skrifad, sem hier seiger, og undanfellt: arum epter gudz burd M D.“ (AM.). 2) þ. e. eptir Stóruvalladóm 6. Okt. 1529,

**407.** **19. Maí og 18. Juní 1529. á Holtastöðum.**

Jón biskup Arason selr Skúla bónda Guðmundssyni jarðirnar Syðriey á Skagaströnd, Hvamm og Kúgastaði í Svartárdal fyrir jörðina Holtastaði í Langadal og part í Kagaðarhóli.

AM. Fasc. XLVII, 19, frumrit á skinni. Bæði innsiglin eru fyrir bréfinu.

Biskup Jon selur sẏdri eẏ og kuastadi[1]) og huam
fyrir holltastadi 1529.
Eyiarbref a skagastrond.[2])

Þat giorum vid grimr jonsson og jon olafsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. at þa lidit uar fra guds burd. m. d. xx og ix áar miduikudaginn næstañ efter huitasunnu[3]) á havskvlldzstavdvm á skagastraund voru vid j hia saum og heyrdum á ord og handaband þeirra virduligs herra biskup jons arasonar og skula bonda gudmundzsonar. at suo fyrir skildu. at greindr herra biskupinn seldi fyrr skrifudum skula iordina alla sydri eẏ er liggr á skagastraund j havskulldzstada kirkiv sokn. og þar til ii tuttugu huñdrada jarder. huam og kúgastadi er liggia j suartárdal. j bergstada kirkiv sokn. med ollum þeim gognum og gædum sem fyrr greindum jordum æ med lögum at fylgia. hier j mot selldi skuli herra biskupinn jördina alla holltastadi er liggr j lañgadal. at til skildum iardarpartinum er skuli atti j kagadarholi. med ollum þeim gögnum og gædvm sem greindri jordu holtastödum á at fylgia med lögum. skylldi skuli kuittur um porcio kirkiunnar medan hann hefer halldit. skildi skuli af sier hrörnun á kirkiunni. skylldu huorer hallda til laga þeim iordum er keypti. enn suara laga riptingum á þeim iordum er selldi.

Og til sanninda hier vm settu uid fyrr nefnder menn ockur innsigli fyrir þetta iardakaupsbref skrifat á holltastodum j langadal fostudag næstañ fyrir jons messo baptiste á sama ári oc fyrr seiger.

---

1) Svo. 2) Utan á bréfinu með þrennslags höndum frá c. 1600. 3) þ. e. 19. Maí.

**408.** **7. Júní 1529.** **á Hólum.**

Jón biskup á Hólum gefr og afhendir „vorum kæra frænda" Ara Jónssyni (syni sínum) jörðina alla Holtastaði í Langadal með öllum peningi og búi, er þar stendr, sem og jarðirnar Vatnahverfi, Lækjardal, Sæunnarstaði, Gautsdal, Strúg og Refstaði, hverja um sig með sex kúgildum.

AM. Fasc. XLVII, 20, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá. — Apogr. 1504.

Hollttastadabref sem Biskup Jon gaf Ara Hollttastadi Anno 1529.

Vjer Jon med gudz nád biskup á holum giörum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad vier hofum gefid og afhent vorum kiæra frænda ara ionssyni iordina holltastade i langadal med öllum þeim gognum og giædum sem greindri iordu á med logum ad fylgia. og so med þui bui og penningum. fridum og ofridum sem þar saman standa. og oss til heyra. Hier med hofum vier gefit greindum ara iordina vatnahuerbi med .vj. kugildum. og iordina lækiardal. med .vi. kugilldum. iordina sæunarstade med .vj. k(ugilldum). iordina gautzdal med .vj. k(ugilldum). iordena strug med .vj. k(ugilldum). iordena refsstade med .vj. k(ugilldum) med ollum þeim gognum og giædum sem ollum ádr greindum iordum á med lögum ath fylgia. skal ádursagdur are eignazt og ad sier taka sagdar iarder og peninga nær hann vill. Og til sannynda hier vm setium vier vort insigli fyrir þetta bref skrifad æ holum i hialtadal. manudaginn næstañ epter fardagaviku árum epter gudz burd .m. d. xx. ix. ár.

---

**409.** **8. Júní 1529.** **á Æsistöðum.**

Þorvaldr Árnason ættleiðir Björn son sinn til alls fjár eptir sig með samþykki Guðrúnar systur sinnar og Brands Símonarsonar manns hennar.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Eyjafjarðarsýsla 3, afskript

staðfest á Öngulstöðum 28. April. 1704 af Sigurði Hrólfssyni og Jóni Þorleifssyni eptir transskripti frá 5. Júní 1573.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Þorleifur grimsson. Gunnsteinn Oddzson. Kolbeinn Jndridason. jon Thomasson og Gudmundur Eireksson kvediu gudz og sina kunnigt giorandi at þa er lidit var fra hingadburd vors herra Jehsu Kristi m. d. xx og ix. ar a hvítasunnudag vm vorit[1]) a modrvuollum i Eyafirdi vorum vær i hia. sáum og heyrdum a fyrir kirkiudyrum i saugdum stad at þau hielldu oll fiogur á einne bok. Þorvalldur Arason og Gudrun Arnadotter syster greinds Þorvalldz og brandur Simonarson. eiginmadur adurgreindrar gudrunar og Biorn son fyrrnefndz Þorvalldz. at Þorvalldur Arnason ættleidde greindan Biorn son sinn med svo felldum ordum sem hier seiger. Eg Þorvalldur Arnason ættleidi þennan mann Biorn Þorvalldzson son minn til fiar þess er eg gef honum jordina Æsistadi i Eyiafirdi er liggur i Nupufellz kirkiu sokn og alla mina peninga adra fasta og lausa.[2]) frida og ófrida til gialldz og til giafar. til sess og til sætis og til allz þess riettar er lögbok skyrer at ættleidingur a at hafa at logvm at vitne allra þeirra manna sem ord min meiga heyra. samþyckte þessa ættleiding og giof adursagda Gudrun arnadotter syster optnefnts[3]) Þorvalldz arnasonar og Brandur Simonarson madur hennar med fullu handabandi oss fyrrnefndum monnum áheyrandum og siaendum þenna fyrrsagdan þeirra giorning. Og til sanninda hier vm setium vær fyrr skrifader menn vor insigli fyrir þetta bref er skrifad var a æsistodum i Eyiafirdi þridiudaginn næstan fyrir Barnabe apostoli á sama are og fyrr seiger.

---

**410. 15. Júní 1529. á Hólum.**

Jón biskup Arason selr síra Pétri Pálssyni alla jörðina ytri „Lauga" í Reykjadal fyrir jörðina syðri Ey á Skagaströnd.

1) þ. e. 16. Maí. 2) lausta(!), afskr. 3) Svo.

AM. Fasc. XLVII, 25, frumrit á skinni, og eru bæði innsiglin fyrir bréfinu. — AM. Fasc. XLVII, 21, frumrit á skinni, sem aldrei hefir verið innsiglað.

eyarbref a Skagastrond 1529 Num 63[1])

Jeg sendi þetta bref til hinna sem fleire eru.[2])

Þath giorum vid þorsteinn prestur jonsson og philippus runolfsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. ad ærum epter gudz burd þusund fim hundrud tuttugu og niu ǽar ǽ holum j hialltadal manudaginn næstañ fẏrir botolfi vorum vid j hiǽ sǽum og heẏrdum ǽ ord og handaband. verdug[3]) herra biskups jons arasonar og sira peturs palssonar ad so fyrir skildu ath greindur herra biskupinn selldi fẏr skrifudum sira petri jordina alla ẏtri lauga j reẏkiadal j einarsstada kirkiu sokn med ollum þeim gognum og gædum sem greindri jordu ǽ [med logum ath fẏlgia.[4]) hier j mot gaf adur greindur sira petur jordina alla sẏdri eẏ er liggur ǽ skagastrond j hoskolldzstada kirkiusokn med ollum þeim gognum og giædum sem greindri jordu ǽ ath[5]) logum ath fẏllgia. skẏlldu huorer hallda til laga þeirre jordu er keẏpti. enn suara lagariptingu ǽ þeirre er sellde. Og til sannẏnda hier vm settivm vid ockur innsigli fyrir þetta bref skrifad j sama stad og ǽre deige sidar enn fẏr seiger.

---

**411. 21. Júní 1529. á Hólum.**

Jón biskup á Hólum ritar bréf til Alþingis um lögmanns kosning fyrir norðan og vestan á Íslandi.

AM. Fasc. XLVII, 22, frumrit á skinni úr skjalasafni Hólastóls („sk"). Innsiglið er dottið frá, en Árni ritar á miða: „innsigled hefur hier fyrrum vid hangt. vidi ex apographo". Prentað í Safni til sögu Íslands II, 201—202.

---

1) Utan á bréfinu í XLVII, 25, með hendi frá 17. öld: „1529. Kaupbref fyrir ytre laugum j Reykiadal" XLVII, 21. 2) Utan á bréfinu í XLVII, 25, með hendi Guðbrands biskups. „Datum er rangt. Þar a ad vera þus: fimm c. XX. og IX ar" XLVII, 21, með hendi Guðbrands biskups. 3) verdugs XLVII, 21. 4) [ad fẏlgia med lögum XLVII, 21. 5) med XLVII, 21.

Bref Biskups Jons um logmans kosning 1529[1]).

Vier Jon med gudz nóád biskup á holum. Heilsum ýdr őllum lőgrettismonnum og vors heygbornasta herra kongsins þegnum med gudz kuediu og vorri.

kunngiorizt ydr ath fyrir nockra forfalla skulld kunnum vier eigi vid ad komazt ath vera á alþingi. enn vier vilium giarnan stýrkia kongdomsins rett og landzsins lög j ollum greinum eptir vorri skýlldu. þickir oss stor naudsyn ath þier vtvelid einn ærligann mann til lőgmanz nordan og vestan á islandi. má þat verda gagnligt fyrir landit ad almuganum verdi samþyckilegt huern þar skal til hafa og hann fáe sidan vors heygbornazta herra kongsins bref þar uppá. vilium vier þann samþýckia sem almuganum þikir best til fallenn med soddan skial og forord ad hann hafi eiginligt bu og peninga j nordlendinga fiordungi sem leingstum hefur gamall vani til verid.

Og til sannýnda hier vm setium vier vort jnsigli fyrir þetta bref skrifad á holum j hialltadal manudaginn næstann fyrir jonsmesso baptiste arum epter gudz burd. m. d. xx. og .ıx. áár.

---

**412. 6. Júlí 1529. á Bessastöðum.**

Jóhann Pétrsson hirðstjóri og höfuðsmaðr yfir alt Ísland fær Jóni Hallssyni umboð um eitt ár yfir Skógum og Skógaeignum og Mörk og Merkreignum í Rangárþingi.

AM. 191. 4to bls. 33 (bréfabók Jóns Hallssonar á skinni samtíða). — AM. Apogr. 5536 eptir 191. 4to.

Þad medkenunzt ec ȷohan petursson hirdstiore og hofudsmann yfer alltt ȷsland at eg hefer vntt og feingid ȷone hallzsyne vmbod yfer mins herra kongsens ȷordum ollum þeim sem ligia ȷ rangarþinge. skogum og skoga eignum. mork og merkr eignum og ollv þvi þar fylger og fylgt hefer at fornu og nyu. rekum og kugildum. skal adr greindr ȷon

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

giallda mier og greida edr minum logligum vmbodsmanne .vj⁰ fiska til gildes halfu[1]) fiordu vett j huort hundrad ef ecke semur vm gilding. vj uetra gamalt naut og .iij. vetter smiors. hier j mot skal hann hafa og eiga allar þær landskyllder og kugilda leigur sem af adr greindum kongs eignum takazt eiga nu j haust og at vore komanda j fardogum. Somuleidis skal hann eiga og alla gagnsemnd[1]) af hafa þeim rekum. eignum og jtokum. sem þratt skrifudum skoga eignum og suo merkur eignum til heyra til næsta oxararþing(s) fyrir vtan allan reikningsskap vid kongdomen oc mic framar meir en hier er adr vm skilid.

Og til sanenda hier um set eg mitt jnsigli fyrir þetta bref skrifad a bessastodv(m) æ áltanes(i) þridia dagen næstan epter peturs Messo og pals þa lidit var fra gudz burd. M. d xx og ix ar.

---

**413. 7. Júlí 1529. á Bessastöðum.**

Jóhann Pétrsson hirðstjóri veitir Jóni Hallssyni sýslu um Rangárþing til næsta Öxarárþings, og það leingr, sem ekki er önnur lögleg skipan á gerð.

AM. 191. 4to bls. 31—32 (bréfabók Jóns Hallssonar á skinni). — AM. Apogr. 5525 (eptir 191. 4to). — Afskript frá c. 1608 er í dómabók Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni bls. 44—45 (= *b*). — Ennfremur eru ártalslausar afskriptir af þessu bréfi, að ónefndu nafni hirðstjórans og sýslumannsins, en að tilgreindri sýslunni, í dómabók Landsskjalasafnsins í Fol. bls. 119, frá Jóni bæjarfógeta Magnússyni, skrifaðri c. 1600, og í Landsb. 69. 4to bl. 32—33, skr. c. 1640.

Sysluveitingar Bref.[2])

Ollum monnum þeim sem byggia og bua j millum jokulsar á sof(h)e(i)masandi og þiorssar. og [kaullud er[3]) rangarþing. heilsar eg johan peturson[4]) hirdstiore og hofudzmann yfer allt jsland. kiærliga med [gudz kuediu ok minni.[5])

Wil eg ydr [kunnigt giora.[6]) at eg hefe unt oc skipad

---

1) Svo. 2) *b*. 3) [kallast *b*. 4) N. N. son *b*. 5) [gudi *b*. 6) *b*; kunnigt giorandi 191.

vel kendum manne ȷone hallzsyne[1]) mins herra kongsins syslu ok vmbod. hier med ydr suo sem fullmegtugum syslumanne ber ad hafa ok vor landz laga bok vt visar med skauttum ok skylldum rekum og reningvm. huolum. hafrekstrum ok ollum þeim riett ok rentu sem kongdominum ok mic til heyrer ok eigi er adr [kwittan full fyrir[2]) ok logligr sattmale ꝍ́ gior. skal nefndr ȷon hallzson[1]) avll mal smæri ok stærri sekta oc sækia oc saker ꝍ́ gefa suo oc sætta oc semia oc nidrsetia for sig stefna prof æ taka oc doma yfer nefna. skal hann mins herra kongsins ȷarder bygia (og) bæla ȷ greindu takmarki. og landskyllder vpp bera. og viseyri saman taka eda taka lata vnder fulla grein og reikningskap vid mic oc færa skattin til bessastada og lata komen vera .viii. nottvm eptir alþing hid sidazta forfallalaust at af lyktum nefndarmonnum sitt þingfararkaup. skal fyr greindr ȷon hallzson fulla magt og valld til hafa þeim monnum dag at gefa sem ȷ vandrædi kunu at falla edr falled hafa og boda þeim til min sem skiotast kunu þar.[3]) skal hann ok fullt valld til hafa at stefna þeim monnum aptur ȷ sina syslu sem þar[3]) hafa brotliger ordid ef þeir eru komner ȷ adrar sueiter. skal opt nefndr ȷon hallzson eignast oll sex marka mal ok (þar) fyrir innañ sier til lettis og eignar fyrir utan allan reikningskap vid kongdomen og mig firer sitt armædi og starf. en ef stæri mal kunnu til at falla sem gud lati færi en fleire. þau skal hann sækia vnder kongdomin oc mic. bid(i)um (vier) alla goda menn sierliga mins herra kongsins vine oc mina þier sieud tittnefndum ȷone hallzsyni greider og godviliuger hvers sem hann kann vid ath þurfa og latid hann vel og reiduglega ath komazt þeim goduilia sem þier vilit honum giort hafa. byd eg opt nefndvr[4]) ȷohan petursson titt nefndum ȷoni hallzsyne at hann tale lavg og riett til huers manz þo med vægd og myskun þar sem þat til heyrer. en þrioskum og þralyndum sie hann riettur domare. og refsingasamur. skal optnefndur ȷon hallzson gefa

---

1) N., b. 2) [full kuittun fyrir komin *b*. 3) Svo. 4) nefndvm, skb.

þeim manne vmbod sem hann vill til kiosa at giora log oc rett at aullu jafnfullu sem hann sialfur ȷ fyr greindri syslu. þegar titt nefndr ȷon hallzon er eigi sialfur ȷ (hia). Hier ȷ mot skal hann nægia mier ȷ syslvgialld einn alfæran utrodramann og lata hann komin vera til bessastada fyrir pals ɱesso. skal eg þat eignazt sem hann fær um uertidina huort þat kan verda meira edr minna en adr skrifadr ȷon hallzson þar med olldungis kvittur vm fyr greint syslugialld. skal hann þessare mins herra kongsins syslu og umbodi at fylgia til næsta auxararþings og þat leingr sem eigi er annar[1]) lauglig skipan a gior.

Og til sanninda hier um set eg mitt ȷnnsigli fyrir þetta syslubref. huert er giort var a bessastodum a alftanesi midvikudag næstan epter octava petri et pauli. þa er lidid var fra gudz bvr(d) ɱ. d. x(x) og viiii ar.

---

**414. 10. August 1529. á Jörfa.**
**27. November 1530. í Miklaholti.**

Jón Bjarnarson selr með upplagi og samþykki Þorgerðar Haldórsdóttur konu sinnar Einari Guðmundssyni alla jörðina Jörfa í Kolbeinsstaðahrepp, sérdeilis tilskildum Arneyjum, með tilgreindum landamerkjum, en Einar gefr í mót sextán hundruð fríðvirð og þar til fjögur hundruð, er þeim Jóni og Þorgerði líkaði vel að taka.

Eptir afskript í Landsskjalasafni með hendi Jóns háyfirdómara Péturssonar eptir transskripti frá 1619, borinni saman við afskript frá síra Helga Sigurðssyni gerðri 1872 eptir sama transskripti.

Øllum monnum þeim sem[2]) þetta Brief siæ eda heyra sendi[r] Jon Hallsson og Eiolfur Grȷ́msson kvediu Guds og siȷ́na kunnigt giorandi med þessu okkru opnu[2]) Brefe. Ad þæ lidit var fræ hingad burd vors Herra Jeshu Christi þusund fim hundrut. xx uetur oc. ıx ǽr ǽ Jørfa i Kolbeinstada hrepp og i Krossholltz kirkiu sokn þridiudaginn næstañ

1) Svo. 2) sl. HS.

fyrir ma̋riu messo fyre vm sumarit vorum vier i hia̋ sæum og heyrdum a̋. ord og handaband þessara manna. Einars Gudmundzsonar af einne alfu. en Jons Biarnarsonar af annare. med fullu upplagie og samþyckie Þorgerdar Halldorsdottur konu ædur skrifadz Jonz. suo fyrir skildu at Jon Biarnarson selldi ædur skrifudum Einare jørdina alla[1]) Jørfa er liggur i ædur greindum hrepp og kirkiu sokn med øllum gaugnum og giædum og halfum[2]) vmmerckium þeim sem greindre jørdu fylger og fẏlgt hefer at fornu og nẏiu og þav vrdu fremst eigandi at. sierdeilis tilskildum Arneyum. til fullrar eignar oc frials for(r)ædis. med þessum landamerckium sem hann seigier. vr ædaklett i margrof. þæ rædur margrofarlækur i mirardy. þadan i tottavatzenda. og suo i gard þann sem geingur i hrauntiørn. þadan oc i vegghamraborger svo[3]) sem þær hallda þadan i krossstein. vr krosssteine oc (i) græstein. svo i vatn þad sem miosyndislækur fellur vr. þæ rædur miosyndislækur i þacktiarnir. þæ rædur lækur vr þaktiørnum oc fram at lerum.[4]) þadan sionhending i halldingsskier. Hier (i) mot[5]) gaf ædur greindur Einar sextan hundrud fridvird. og þar til fiøgur hundrud þau sem þeim lijkadi vel[6]) at taca Jone og Þorgerdi. Selldi optskrifadur Jon og Þorgerdur þessa jørd Jørfa vndan sier og sijnum erfingium en vndir Einar og hans erfingia. skylldi titt skrifadur Einar hallda greindre jørdu til laga. enn Jon oc Þorgerdur suara lagariptingum. skilde þrath skrifadur Einar sier suoddan penninga af Joni og Þorgerdi edur þeirra erfingium sem [fyrr] grein[er][7]) ef iordin geingur af med løgum.

Og til sanninda hier vm setium vier fyrrnefnder menn ockar innsigle fyrir þetta jardakaupa bref. er skrifad var i miklahollte i miklaholltz hrepp enn fimta kalendis[8]) dag[9]) Desembris manadar ær(e) sijdar enn fyrr seigier.

---

1) sl. HS. 2) Svo, báðar afskrr. 3) HS; sl. JP. 4) lerum, stendr í báðum; á líklega að vera: *leirum*. 5) med, HS(!) 6) vt, JP.(!) 7) . . . golldner HS. 8) Svo. 9) b. v. Í HS. er hér eingin eyða, en í JP. standa . . ., sem merki þess að orð vanti hér.

**415.** **20. September 1529.** **í Kálfholti.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um arfleiðslu Snæbjarnar heitins Gíslasonar, er hann arfleiddi Gísla son sinn.

Bisk. Skalh. Fasc. XIX, 65, frumrit á skinni. Öll (4) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 2407 „accuratè" eptir frumritinu með hendi Árna Magnússonar.

Domur um arfleiding gisla snæbiarnarsonar Anno 1529.

Ollum godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda þorleifur eireksson. jon einarson. snorre hialmsson. prestar schalholltsbiskupsdæmis. jon hallson. ion biornson. arne einarson. leikmenn. kuediu guds og sína kunnigt giorande ad sub anno gracie. ꝺ. d. xx. ix. manudaginn næstan epter krossmessu vm̄ haustid j kalfhollte vorum uier j dom nefnder af heidursamligum herra og andligum faudur herra ogmund med gudz nad biskup j skalhollte. ath skoda og dæma vm̄ arfleizlu snæbiarnar heitens gislasonar sem gud hans sal nadi er hann arfleidde gisla son sinn. kom þar fram̄ arfleizlubrefid med dandimanna insiglum. huert er inne hiellt med ollum greinum og artikulis efter þui sem j æt(t)-leidingar kapitula inne stendur. med samþycke og upplagi brædra hans sira ions og erlings gislasonar er þa uoru hans erfingiar. þui ad heilags anda nad tilkalladri ad so profudu og fyrir oss komñu. dæmdum uier fyrrnefnder domsmenn adur greindan gisla snæbiarnarson riettliga til arfs kominn efter fodur sinn og allra annara arfa þeirra sem riettum ęt(t)leidinge ber ath logum. Samþyckte þenna uorn dom fyrskrifadur biskup ogmund og setti sitt jnnsigle med uorum insiglum fyrir þetta domsbref skrifad j sama stad are og degi sem fyr seger.

---

**416.** **22. September 1529.** **í Felli.**

Þorsteinn Einarsson festir Guðrúnu Bessadóttur sér til eininkonu eptir að þau höfðu átt þrjú börn, Guðrúnu, Jón og Gunnvöru; lýsti Þorsteinn því að Guðrún ætti hjá sér fimm hundruð, er faðir hennar hefði gefið henni, og fimm hundr-

uð gaf Þorsteinn henni nú, og skyldi hún þá eiga tíu hundruð frið í hans garð, að undantekinni jörðinni Miðskytju.

JSig. 66. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir frumriti, sem eitt innsigli hafði verið fyrir. „collatum“.

Jn nomine Domini Amen.

for so felldur giorningur (fram) med handsolum ꝺ́a millum þeirra þorsteins einarssonar og gudrúnar bessadottur. þa þav hőfdu att þessi þriv baurñ sin i mille so heitandi gudrunu. ȷon og gunnvőru æ Skalæ ȷ Slettahlíjd þridiudagin næstan fyrir Krossmessu vm̄ vorid[1]) at fyrnefndur Þorsteinn Einarsson feste adur greinda gudrunu bessadottur sier til laugligrar eiginkonu. epter rettum bokarinnar ordum. hier med lýste fyrnefndur þorsteinn einarsson at gudrun ætti hia sier .v. hundrud er fader hennar hefde gefid henne og þar (til) gaf þratt nefndur þorsteinn nefndri gudrunv bessadottur konv sinne frid .v. hundrvd. skýlldi hun eiga þá j hans gard frid x hundrud at vndantekinne ȷordinne midskytiu. vorv þesser festingarvottar sira halfdan narfason og ragnhildur þorsteinsdotter.

Og til sanninda hier vm set eg mitt jnsigle fyrer þetta bref er skrifat var j ferlle j slettahlid miduikudagin næstan fyrer michelsMesso wm haustid ærum epter gudz burd. M. d. xx. og .ix. ar.

---

**417. 4. Oktober 1529. í Miklagarði.**

Lýsing Pétrs prests Pálssonar um för sína á konungs fund í umboði Rafns lögmanns Brandssonar að kaupa þau góz og peninga, er konungi hafði dæmt verið (með Seyludómi 21. Jan. 1527, Nr. 326 að framan) af eignum Teits Þorsteinssonar, svo og um kostnað við förina og útgreiðslur þeirra Rafns og Ara Jónssonar.

AM. Apogr. 3848 „Ur vidimus 2ia leikmanna 1540 [1, Sept.] og 2ia presta [29. Júlí] 1547“ (AM).

1) þ. e. 27. Apríl.

Þat giore eg petur prestur palsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe. at þann tima eg for af jslande fyrer minn herra konginn. þess erindis. at kaupa þa peninga af herra konginum sem honum voru tildæmdir af teite þorleifssýne. kostade mig su sama ferd med moguligre tæring oc brefalausn .xlvj. rins gylldene. giorde minn herra kongurinn kaup vid mig. at eg keýpte greinda peninga eptter bon og vmbode Rafns logmannz. lofadi eg minum herra konginum .iij^c^ rins gyllene sem mins herra kongsins jnciglad kaupbref innehelldur. suo oc vissa eg med sannyndum at Are Jonsson afgreidde kongsins vmbodzmanne fyr greinda peninga .iij^c^ sleien gyllene. xxvij skildinga lybiska i huert gyllene. suo og vissa eg at fyr nefndan Ara Jonsson kostade su reisa til oc fra med brefalausn oc moguligre tæring .xxvij. rins gyllene eda meir. enn allt þetta reidugialld sem eg utlagde og Are Jonsson gallt kongsins vmbodsmanne þat fieck eg honum i hond af biskups Jons peningum. og fyrnefndur rafn brandzson logmann fieck mier aungua peninga þar til vtan eitt rijns gyllene er hann gaf mier þa hann bad mig at bera sitt bref fyrer minn herra kongin. Og til meire audsyningar hier vm set eg mitt jnncigle fyrer þetta bref er skrifad var i myklagarde i eyiafirde manudagenn næstan eptter mikelsmessu arum eptter gudz burd m d xxix.

---

**418.** **6. Oktober 1529.** **í Skálholti.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um áskilnað þeirra Jóns Helgasonar (lögmanns Oddssonar) og Eiríks, „sem sagðr er Egilsson“ (Helgasonar lögmanns Oddssonar) um erfðahluta í jörðunni Stóruvöllum á Landi, með þeim atriðum og greinum, sem bréfið hermir.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir bréfabók Ögmundar biskups, og er rifið af blaðinu að endilaungu, en það má fylla eptir afskript í Landsbókasafni 122. 4to bls. 327—329, frá c. 1770.

Um Storu-Velle [austur á Lande].

Ollum mönnum þeim sem þ[etta bref siá edur heyra senda] Gudmundur Jonsson. Jon Hiedinsson [ok Snorri Hialmsson prestar] Skalholltsbiskupsdæmis. Sniolfur Hraf[nsson. Jon Hallsson. ok Jon] Þorvardson. leikmenn. kvediu guds og sina. [kunnugt giorande ad sub] anno M⁰. D⁰. xxix⁰. midvikudaginn [næsta effter Sancti Fran]ciscus dag um hausted i Skalhollte ad [verdugur herra og fader] i gude biskup Øgmundur nefnde oss þessa [adurskrifada menn ad skoda] og ransaka og fullnadar dom a ad [leggia um̄ þann askilnad sem] var ä millum þeirra Jons Helgasonar [og Eireks sem sagdur er] Eigilsson. um þann part i jördunni [Storuvollum a Lande sem] greindur Eirekur sier reiknade til [Erfda hafa falled effter sinn] faudurfaudur Helga Oddsson. J a[nnare grein þotte fyrrsogdum] Joni Helgasyni börnum sinum skilgetnum [þesse jardar partur til] erfda hafa falled med lögum epter afa [þeirra Helga heitinn Odds]son. fyrer þä sök ad Idunn. kvinna [Jons Helgasonar sor full]nadar bokareid fyrer þä sakargift. sem [Jon heitinn Oddsson] hafde gefed þeim bädum. Idunni kvinnu [Jons ok Þoru Ei]reksdottur. kvinnu Egils heitins Helgasonar. [enn Þóra ecke] moder Eireks. Þvi ad h(eilags) anda nad til [kalladre. ad svo profudu] ok fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrne[fnder dómsmenn med] fullu doms atkvæde fyrrsagda Þoru Eir[eksdottur skyllduga ad] sveria Bokareid. og ættfæra þenna sama [sinn son Eirek Eigilsson]. ad Eigill Helgason sie svo sannarligur han]s holdlegur fader sem] hun er hans kiötleg moder. Skulu þe[nna Eid sanna med henne] tvær skilvisar kvinnur sem vor[u i navistum̄ og henne] kunnugar þann tid hun var ä Rángárvöllum. [Skal hun þenna Eid] hafa unnid hid sijdasta Þorlaksmessu ad [sumre nu kemur ad] forfallalausu fyrer herra biskup Øgmund [edur þeim sem hann til] skipar her ä Rángárvollum. Enn ad unnum [þessum Eide dæmdum vier] þenna optnefnda svein Eirek lögliga til [arfs komenn i mots] vid born Jons Helgasonar.

Samþyckte þenna v[orn dóm med oss offtnefn]dur biskup Øgmund. ok þryckte sitt signe[t med vorum innsiglum]

nedan fyrer þetta bref. Skrifad i sama stad [are og dege sem fyrr seger].[1])

---

**419. 21. Oktober 1529. á Reykhólum.**

KAUPMÁLABRÉF Jóns Einarssonar og Margrétar Björnsdóttur.

Eptir frumriti á skinni í Landsbókasafni, komnu úr dánarbúi Jóns háyfirdómara Pétrssonar haustið 1898. Öll (6) innsiglin eru dottin frá. Prentað í Tímariti Jóns Pétrssonar IV, 61—63.

Kaupmalabref Jons E(inars)s(onar) og Margrietar B(iorns) D(ottur).

Jn nomine domine amen var so felldr kaupmale gior og stadfestur ȷ mille ȷons Einarssonar og margretar biornsdottur. at so fyrir skildv. at einar þorleifsson fader greindz ȷons gaf syne sinvm thil quonvmvndar thil mothz uid adr greinda margrethv biornsdottur .xl. hvndrvth og hvndrat hvndrada., ȷ ȷordvm̄ og kugilldvm. ȷ fridvm peningvm og ofridvm. at thil greindvm þessum ȷordvm er so heita. Melgrafseyre med rekaparttenvm þar fyrir nordan æ. hnettilsstade[2]) og kothit odkavtlvstade er sel[3])stadan er ȷ. fyrir fiorethige hundrvt. Skialldfavnn sexttan hvndrvdvm er liggia æ langadalsstraund ȷ ȷsafirde ȷ kirkivbols kirkiv sokn og þar thil ȷordina stadr ȷ adalvik fyrir fiorvm .c. og .xx. med avllvm þeim gognvm og gædvm sem greindvm ȷordvm fylger og fylgt hefr at fornv og nyiv og greindr einar uard

---

1) Í 62 er rituð svo látandi ættartala, er að þessu bréfi lýtur:

„Oddur
- Helge*
  - Jon mun hafa vered laungetiñ
    - born hans skilgetiñ.
  - Eigill⊕
    - Eirekur.“
- Jon.

2) JP. les: hecttilsstade; sýnist upphaflega hafa verið skrifað; heettilsstade, en síðan úr því gert: hnettilsstade (sbr. Knyttilstaði, Johnsens Jarðatal bls. 203). 3) á spássíu.

* „Þetta er oefad Helge logmadur“.

fremst eigañdi ath. Hier j mothe gaf biorn þorleifsson og Jngibiorgh palsdotter quinna hans dottur sinne margrethv .lxxx. hvndrvd j jordvm og silfre. þessvm jordvm tilgreindvm. hlid er liggr j þorskafirde j stadar kirkivsokn fyrir iiij hundrvdvm og xx. hofstader og kinnastader tvær sextan hundrata jarder er liggia j þorskafirde j reykiahola kirkiv sokn. og þar thil sexttan hundrata jord er eyre heiter j kollafirde j gvfudals kirkiv sokn med avllvm þeim gavgnvm og gædvm er greindvm jordvm fylger og fylgt hefur at fornv og nyiv og greind hion biorñ og jngibiorgh vrdv fremst eigande ath og þar thil atta hvndrvt j silfre. er þetta þa allz atthathige hvndrvd. Enn af þeim peningvm sem einar hafde gefit syne sinvm jone thil motz vid margrethv og fyr seiger. þa gaf optnefndr jon med fvllv jayrde samþycke og handabande favdurs sins einars. margrethv biornsdotter .xl. hvndrvd j sina fiordvngsgiof og uorv þessir peningar þar j greinder. fyrst stad j adaluik fyrir fiorum hvndrvdvm og xx og þar thil j kvgilldvm og audrvm fridvm peningvm. være þat og so at þessi jord stadr geinge af þeim fedgvm med rettv lavgmale þa skyllde hvn eda hennar erfingiar eiga adra jord jafngoda af þeirra peningvm j stadenn. Kiore biorn dottvr sina margrethv malakonv j gard jons einarssonar. Telst hennar peningar og male uera at hæd og thilthavlv. hvndrat hvndrada med fiordvngsgiǫfvnne[1]) þa j hans garde. Jtem var þat og thilskilit j sama giorninge. at hvortt þeirra hiona joñs og margrethar er leingr lifde skyllde eignazt kiorgrip vr annars eigv.

Voru þessir ærliger menn uid stadder er so heita. olafur magnusson. jon jonsson og halldor gvnlavghson prestar. olafur gudmundzson. jon steinsson og jon þordarson leikmenn. og morgvm avdrvm hiæ verandvm j stavfvne[1]) æ reykiaholvm æ reykianese svnnvdagen næstan fyrir mikaelsmessv vm̄ havsted þa þesse giorningr og lavgligh festingh for fram fyrr greindra manna æ mille jons einarssonar og margrethar biornsdotter. Og thil meire vithnis(burdar) og sanninda hier vm̄ sethivm vær fyrr nefnder menn vor jnsigle fyrir þetta kavpmalabref er skrifat var æ reykiaholvm æ reykia-

1) Svo.

nese fimttvdaginn næstan efter lucasmesso. þa lidit var fra gudz bvrd þvssvnd fimm hvndrvt xx og nijv ær.

---

420. 1. December 1529. í Skálholti.

Staðarbréf útgefið af Ögmundi biskupi í Skálholti handa Jóni presti Gíslasyni fyrir Gaulverjabæ í Flóa, er Jón prestr Árnason hefir viljanlega upp gefið.

Bisk. Skalh. Fasc. XI, 7, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 2434 „accuratissimè".

Collationisbref Sira Jons Gislasonar.
Veiting fyrir Bæar stad Anno 1529.

Vier ogmund med gudz nad biskup i skalhollte giorum godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ath saker þess ath sira ion arnason hefur vilianliga resignerad og vpp gefit staden og kirkiuna hinnar blessudu drotningar jungfru sancte marie i gaulueriabæ i floa. Þui haufum uier nu unt veit(t) og gefit vorum kæra syni sira ione gislasyni greindan stad suo leinge hann lifer med aullum þeim gaugnum og gædum j faustu godzi og lausu fridu og ofridu i minna hlut og meira sem þar til liggur og legid hefur ath fornu og nyu. preter porcionem ecclesie. skal hann hafa fulla makt og valld af oss epter ath tala kæra og krefia allt þad gotz sem ranglega er fra kirkiune komit dregit eda halldit og fullar saker a gefa sekta og sækia og laugliga fyrir oss stefna eda vorn vmbodzmann þeim sem þad giort hafa. hier med skal hann eignast allt þad sem kirkiunne er gefit og minna er enn hundrad ath fra teknum bokum og ornamento sem gefast kann skal kirkiañ sialf eignast. hier med skal hann veita heidur og holla hlydni sem hans vigslueidur inne helldur og vt visar oss og vorum epterkomendum lauglegum skalhollz biskupum. Og til sanninda hier vm setium vier vort insigle fyrir þetta bref skrifat i skalhollti proxima die post festum sancte andree apostoli. anno domini ꟽ d xxix.

---

421. [1529]. Í Klofa.

Vitnisburðr um útlúkning Bjarna Torfasonar á þeim peningum, er Þórunn Einarsdóttir erfði eptir barn sitt og átti undir þeim bræðrum Torfasonum, og að Þórunn hafi kvittað þá bræðr Bjarna og Eirík Torfasonu um útgreiðsluna (sbr. Nr. 258).

AM. 254. 4to bl. 66 a-b (dómabók Einars sýslumanns Hákonarsonar skrifuð um 1620).

Vitniz Burdur ad Biarne Torfason gallt vt Þorunne einarsdottur þann arf sem hun erfde epter barn sitt þad erft hafde Jon Torfason fǫdur sinn.

Þad giorum vier Olafur Jonsson. Jon gudmundzson. Jon magnusson. kolbeijrñ Sigurdzson. Arngrijmur Arnbiarnarson. Erlendur Gislason godum mǫnnum kunnugtt med þessu ockru opnu brefe at vier vorum ȷ hia og heyrdum a skarde á lande ȷ lañmannahrepp fǫstudægenn firstañ ȷ vetre þa Biarne Torfason gallt vt þa peninga er Þorun einarsdotter var þa eigande ad ordeñ epter barn sitt vnder þeim brædrum og þar hôfdu metner verid af .vj. skynsǫmum mǫnnum xj hundrud ad haustlæge ȷ nautum og saudum og kauplum. Heirdum vier Biarna Torfason þui lysa ad S(iera) Jon skillde þa med aunguo frelse hvorke afmarka nie ȷ burtu ad hafa. vtan hann tæke þa ad haustlæge. Enn fyrrnefndur s(iera) Jon gaf þad svar ad hann tæke vid þui sem hann gillde. Hier med heirdum vier adurskrifadañ s(iera) Jon giǫfa fyrrskrifadann Biarna aulldungiz kuittañ og akærulauslausañ bæde sıȷnna vegna og Eijriks brodur sinz med handabande[1]) vm þessa peninga so mikla sem þar voru vtgolldner. hier epter vilium vier sueria ef þurfa þicker.

Og til sannenda hier um settum vier fyrrnefnder menn vor insigle fyrer nedan þetta kuittunarbref skrifad ȷ Klofa a lande arenu[2]) epter gudz burd 1523.[3])

---

1) handabanda(!) hdr. 2) Svo. 3) Ártalið er svo skýrt, en mun eiga að vera 1529, að réttu lagi. Föstudagrinn fyrstr í vetri mun þá hafa verið talinn fyrsti vetrardagr = 1523 hinn 16. Okt., en 1529 hinn 15. Okt. Að réttu tali 1523 hinn 23. Okt., en 1529 hinn 22. Okt.

422. 1529.

Jón biskup á Hólum fær, samkvæmt því umboði, er hann hefir yfir „öllum eignnm og peningum, sem Þorleifi bónda Grímssyni tilheyra", Bjarna Narfasyni fult og löglegt umboð yfir garðinum á Mýrum í Dýrafirði.

Landsbókasafn 62. 8vo afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ur brefabok Ögmnndar biskups" (AM).

Umbodsbref ýfer Myrum 1529.

Vær Jon med Gudz nåd biskup å Hőlum giörum gődum monnum viturligt med þessu voru opnu brefe.' ad epter því umbode sem vier hőfum yfer öllum eignum ok peningum. sem Þorleife bőnda Grimssyne tilheyra. hőfum vier fengit Biarna Narfasyne vort fullt og löglegt umbod yfer gardinum å mýrum j Dyrafirde. ok öllum þeim eignum ok peningum sem greindum Þorleife bonda Grimssyne tilheyra j Vestfirdinga fiőrdunge. Skal hann jarder byggia. landskyllder ok kugillda leigur uppbera. ok oss þar rettañ reikningsskap af giöra. Skal hann med frialsu meiga byggia greinda jaurd Myrar. edur hafa fyrer mögulega landskylld. Skal fyrrnefndur Biarne[1]) sekta og sækia þå sem őskil giöra j þessu sama umbode. Skulu aller kvitter fyrer oss ok nefndum Þorleife. sem greindur Biarne löglega kvitta gefur j þessu sinu umbode. Skal þetta vort umbod standa til næstu fardaga.

Ok til sanninda her [um] þryckium et cetera.

---

423. 1529. á Hvanneyri.

Ögmundr biskup í Skálholti kvittar Jón Þórðarson um allan reikningsskap kirkjunnar á Hvanneyri í Andakíl.

AM. Apogr. Nr. 1732, með hendi Árna Magnússonar eptir skinnblaði, sem hafði verið framan við bók Hvanneyrar kirkju, og sira Þórðr Jónsson á Staðastað léði Árna.

---

1) leiðr, AM.; Björn, hdr.

Þa er lidit var fra hingatburd vors herra Jehsu Ghristi ꝏ. dº xx. og ıx ar a Hvanneyre. þa biskup Augmund var þar. let hann sia ad kirkiunne er þa var nygiord. Var Jon Þordarson þa skylldugur um atian hundrud. leizt þeim þa med þat sizta at hvorir skylldu vera kvitter vid adra. þvi gaf adurnefndur herra Augmund Jon Þorda(r)son olldungis kvittan um allan reikningskap kirkiunnar æ Hvanneyri. at þessum monnum nærverondum sira Einari Snorrasyni offi-[ciali]s og sira Narfa þorsteinssyni og morgum fleirum dandi monnum leikum og lærdum.[1])

---

**424.** **[1529].**

Ögmundr biskup gerir svo feldan kaupskap við Jón Egilsson „frænda vorn“ og Hallvöru Teitsdóttur konu hans, að Jón og Hallvör fá biskupi til eignar jörðina Kjalardal á Akranesi, en biskup geldr þeim „Drambholtsstaði“ í Biskupstungum og greiðir þeim þar með í sín þjónustulaun jörðina Belgstaði í Bræðratungukirkjusókn.

AM. Apogr. 2740 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM.). Uppi i horninu setr Árni ártalið „1529“.

Um Drambholltsstade ok Belgstade.

Vier Øgmund med gudz nad biskup i Skalhollte giorum godum monnu kunnugt med þessu voru opnu brefe ad vier hofum giort suoddan kaupskap og iardaskipte vid Jon Eigilsson frænda vorn og hans kvinnu Hallvǒru Teitsdottur. hafa þau feinged oss iordina Kialardal er liggur a Akranesi i [Garda[2]) kirkiu sokn med ollu þvi henne til heyrer og fylgt hefur ad fornu og nyu. bæde til sios oc lands. Her i mot hofum vier feinged adurgreindum hionum iaurdina alla

---

1) „Hæc qvarta manu exarata sunt, diuersa a superioribus; estque hac eadem ultima manu scriptum qvod superius hic annotatum est: Mariu kirkia a hvanneyri a bok þessa. id qvod in hac pagina ultimum et infimum locum occupat“. (AM). 2) [bætt við; vantar í hdr.

Drambholltzstade er liggur i Eystre tungu i Haukadals kirkiu sokn. med ollum þeim gognum. eignum og giædum sem greindre iaurdu fylger oc fylgt hefur ad fornu og nyu. Eigi sidur hofum vier golldit greindum hionum i sin þionustulaun iaurdina alla Belgstade er liggur i Brædratungu kirkiu sokn. med ollu þvi greindre iordu fylger ok fylgt hefur ad fornu ok nyu. Skulu vier svara lagariptingum a greindum iordum. enn hann hallde til laga. Voru þesser giorningsvottar et cetera.

---

425. 2. Janúar 1530. í Hjarðarholti.

Ólafr prestr Guðmundsson prófastr og almennilegr dómari milli Skraumu og Skoruvíkrár afleysir Daða bónda Guðmundsson af fyrstu barneign í einföldum hórdómi með Ingvildi Árnadóttur, setr honum skriptir og kvittar hann um fésekt.

Landsbókasafn 115. 4to I, 265, með hendi síra Jóns Halldórssonar í Hítardal c. 1730.

Qvittantia Sira Olafs Gudmundssonar Anno 1530.[1])

Þad giore eg Olafur prestur Gudmundsson profastur og almennelegur domare i millum Skraumu og Skoravikurár godum monnum viturlegt med þessu mijnu opnu Brefe saker þess sa verduge Herra i gude Byskup Øgmund hefur mier unt og befalad ýfer at taka öll heilagrar kyrkiu mál inn til őbőtamála i mijnu profastsdœme þaug er eg villda. þvi medkennest eg. ad eg hefe afleýst Dada Bonda Gudmundsson af þeirre fyrstu barneign. er hann hefur opinber ad orded med Jngvellde Arnadottur i einfolldum hordome. og odrum og þridia. ad sagt er þau sieu ad frændseme. Hier med hefe eg sett honum hier fýrer mogulegar skriffter.

---

1) Fyrirsögn fyrir öllum þessum bréfum í bók síra Jóns er: „Qvittaner Dada Gudmundssyne utgefnar fyrer hans Barneigner med Jngvöllde Arnadottur“, og kemr svo hver kvittan með tölu og fyrirsögn. Á spássíu ritar síra Jón: „Sira Olafur var mägur Dada þvi Jngerıjdur syster Dada var barnamoder Sira Olafs“.

Somuleidis hefe eg og fulla og alla fiesekt upp borid. so sem mier vel lijkar og anæger h(eilagrar) kyrkiu vegna. Þvi giöre eg og gief eg adur skrifadañ mann Dada bonda Gudmundsson hier fyrer ölldungis kvittañ og akiærulausañ fyrir mier og ollum mȷnum effterkomendum og kyrkiunnar formönnum i Skalhollte. þessum gődum monnum nærverande. er eg utgaf þessa mȷna kvittun Eireke Gudmundzsyne og Helga Þorsteinssyne.

Og til sanninda hier um set eg mitt ȷnnsigle med þessara fyrrnefndra manna ȷnnsiglum fyrir þetta kvittunar Bref. hvört skrifad var i Hiardarhollti i Laxårdal upp å octavodag Sancti Stephani Protomartyris Anno 1530.

---

**426.** **22. Janúar 1530.** **á Hólum.**

Jón biskup á Hólum gefr „þeim unga manni Gottskálk Jónssyni" (síðar presti í Glaumbæ) til fullrar eignar jörðina Krossnes í Eyrarsveit.

Eptir afskript gerðri 3. Ap. 1703 á Geirrauðareyri, staðfestri af Guðmundi Þorleifssynı, J(óni) Jónssyni og Birni Jónssyni eptir frumritinu.

Vier Jőn med guds nåd biskup å Hoolum giörum gődum mönnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. ad uier höfum giefid þeim unga manne gottskålk Jonssyne[1]) til fullrar eignar og friåls forrædis ȷördina Krossnes er liggur ȷ eirarsueit ȷ Setbergs kirkiu sőkn. med ollum þeim gögnum og giædum sem greindri ȷordu a ad filgia ad lögum oc uier urdum framast eigande ad. skulu hans forelldrar eda umbodsmenn meiga friålslega ad sier taka greinda iörd hans uegna ad næstu fardögum. Og til sanninda hier um settum uier uort jncigle fyrir þetta bref er skrifad var å Hoolnm ȷ hialltadal laugardaginn næstañ fyrir pålsmessu Arum effter Guds burd M. D. og xxx.

---

1) þ. e. Gottskálk, er síðar var prestr i Glaumbæ.

**427. 24. Janúar 1530. á Helgafelli.**

Dómr sex klerka útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti um ákærur biskups til síra Þórðar Einarssonar í Hítardal út af orðum í biskups garð, fyrir vígslueiðsrof, vanrækslu á kennimannsskap, trjátöku og frillulifnað.

Landsbókasafn 62. 8vo afskript gerð fyrir Arna Magnússon „Ur brefabok Ögmundar biskups".

Um Sera Þord j Hitardal.

Ollum gődum monnum þeim sem þetta bref siá edur heyra senda Narfe med Gudz nád áběte ad Helgafelle. Olafur Gudmundsson. Jon Asmundsson. Einar Snorrason. Snorre Jonsson og Biőrn Ossurarson. (kvediu gudz og sina). kunnigt giőrande ad sub anno gratiæ M°. D°. xxx°. mánudaginn næstañ fyrer conversionem Sancti Pauli Apostoli á Helgafelle j Helgafellssveit vorum vær j dőm nefnder af ærligum herra ok andligum faudur Øgmunde med Guds nád biskup j Skálhollte. ad skoda ok ransaka og dæma um þær saker sem hann kiærde til Sera Þőrdar Einarssonar. Jn primis ad Sera Þőrdur hefde sagt ad biskupinn hefde skipad jőrd undan Hitardalskirkiu og under leikmenn. Þá adra sők ad Sera Þőrdur hefde rofed sinn vigslueid. ok veitt ecke heilagre Skalhollts kirkiu ok sier heidur ok holla hlydne sem hann hefde lofad. J þridiu grein ad greindur Sera Þordur hefde vanrækt sinn kiennemannskap. hafandi hvorke handbok nie helgañ krisma sem hőnum bære. Þá fiőrdu sők ad hann hefde ad sier teked og sundur hőggved þriu trie ur Hvolzeyium[1]) þau sem biskupinum hofdu vered tilsőgd og heilagre Skalholltskirkiu. Su var en fimta ad hann hefde átt .v. bőrn j frillulife. ok ongva lőglega lausn fyrer teked fyrer en sidustu ok messad svo j ofdirfd.

Trakterudum vær ok álitum allar þessar fyrr skrifadar saker ok margar adrar fleire þær sem herra biskupinn hafde fram̃ fyrer oss bored honum á hendur. Virdtust oss þær miklar ef sannar være. ok nőgar til suspensionis officij. ef herra biskupinn villde svo. Kom þar fram̃ fyrer oss oped

1) „Hvalseyiar *heita þær nú*" (AM á spássíu).

bref med heilu ok óskauddu hangande innsigle fyrrskrifads Sera Þórdar Einarssonar j hvoriu hann bad herra biskupinn Ogmund ad giefa sig fri ok frialsañ þar til hann kiæme til Hitardals. ok lagde vid Gudz nafn ok gódra manna vitord. ad hann være ecke fær ad koma j þenna stefnudag. saker krankleika. Þvi ad h(eilags) anda nád tilkalladre. dæmdum vær fyrrnefnder dómsmenn optnefndañ sera Þórd Einarsson skyllduguñ ad koma til prestastefnu. ad vore komanda. med öll sin próf ok skilrike til afbötunar sinna saka. epter þvi sem hann er j færum um. ok afleggia sinn messusaung. Enn stadinn fallinn under Erckibiskups valld.

Samþyckte þennan vorn dóm med oss ádurgreindur herra Ogmund ok sette sitt insigle med vorum insiglum fyrer þetta dómsbref et cetera.

---

**428. 25. Janúar 1530. í Miklaholti.**

Samningr þeirra Ögmundar biskups í Skálholti og Narfa ábóta á Helgafelli um „fjórðung tíundar“, sem gjaldast á árlega af Helgafellsklaustrs eignum; svo og selr biskup klaustrinu Kambana báða í Breiðavík fyrir jörðina Gröf í Stafholtstungum og þar til sextán hundruð í þriðjungapeningum.

AM. Apogr. 1663 með hendi Árna Magnússonar „Ex lacero orginali Scalholtensi“, sem eyðilagðist, þegar Árni var að afskrifa bréfið. — AM. 232. 8vo bl. 73 a-b, bréfabók Gizurar biskups Einarssonar í frumriti 1540—1547 eptir frumritinu á meðan það var enn heilt og óskaddað (= *b*).

Samningur æ millum biskups Augmundar og abota Narffa vm quartam partem decimæ[1]).

Vier Augmund med guds nad biskup i Skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe at med radi og samþycke sira Einars snorasonar[2]) uor[3]) offi-

1) *b*. 2) „snoraſſ . . . . officialiſ. stood i originalnum. Eg true þad hafe vered skrifad *sonar* med fullum stofum. og of aukid þvi fyrirfarande ſ. Eg get ei annad ord funded sem passe sig hier til, *skalhollzkirkiu* getur þad ei vered. þvi platsed er ei nog. *vors* er þad ei helldr þvi leggur enn sa nedre a ſ. er klár“ (AM.). 3) b. v. *b*.

cialis hofum vier [under eins[1]) ordit vid herra Narfa med samri nad abota a Helgafelli og hans conventubrædrum[2]) um quartam partem decime sem gialldaz a af heilags Helgafellzklausturs eignum arliga. skulu vier lata os nægia fim hundrud hvert ar. Var skilit xviij. vætter skreidar og v. voder vadmals. skal skreidin gialldaz tveim meigin a Snæfellznesi. a[3]) hiallasandi og i Dritvick. skal þessi ockar giorningur standa um ockra daga. Svo og seldum[4]) vier þeim og klaustrinu iardernar Kambana er liggia i Breidavik i knarar[5]) kirkiu sockn til fullrar eignar med aullum gognum og gædum sem fyrgreindum iordum fylger og fylgt hefur at fornu og nyu. hier i mot gafu þeir jordina Storu grof er liggur i Stafhollz kirkiu sockn. og þar til xvj. hundrud i þridiunga peningum. malnytu kugilldum. skreid. i gulle og silfre. gialldiz a þrimur[6]) arum. Skylldu hvorir fyrir sig hallda iordunum til laga og svara lagariptingum a iordunum epter laugum. skylldu og fim kviilldi[7]) fylgia kirkiunne þar i grof at aucke þess sem adur var skilit. Og til sanninda hier um setium vær[8]) vor innsigli og þeir conventu innsigli og adur skrifadur sira Einar officialatus insigli fyrir þetta giornings og jarda[9]) kaups bref er skrifat var i Micklahollti in conversione Sancti Pauli Apostoli anno domini M. D. xxx.

---

**429.** **26. Janúar 1530.** **á Hvoli.**

Dómr sex manna, útnefndr af Jóni Hallssyni kongs umboðsmanni í Rangárþingi, um ákærur síra Jóns Einarssonar til Eiríks Torfasonar og bræðra hans í umboði Þórunnar Einardóttur systur sinnar um þá peninga, er átt hafði Jón heitinn Torfason og honum voru til erfða fallnir eptir barn sitt skilgetið.

AM. Fasc. XLVII, 23, frumrit á skinni, og eru öll (6) innsiglin dottin frá.

1) [samrada *b*. 2) Svo bæði *a*. og *b*. Árni vill leiðrétta það í: brædur. 3) og(!) *b*. 4) selldu *b*. 5) hnarar *b*. 6) þrim *b*. 7) kugillde *b*. 8) wier *b*. 9) *b*; var fúið úr *a*.

Ollum godum monnum sem þetta bref sia edur heÿra senda tumas jonsson. jon eireksson. gudni þorarensson. olafur jonsson. jon helgason. biorn anorsson svarner logrettumenn quediu guds og sina kunnigt giorandi þa lidid var fra hingadburd uors herra jehsu christi [.d. hundrud .v. hvndrvd og .xxx.[1]) ar æ hvoli j hvolhrepp a þingstad rettum midkudagin næsta epter pallsmessu wm ueturin uorv uer j dom nefnder af ærligum dani manni joni hallssyni kongs wmbodsmanni j rangarþingi ad skoda og ransaka og fullnadardom æ ad leggia wm þa ækiæru er sira jon einarsson klagadi til eireks torfasonar og brædra hans j wmbodi þorunar einarsdottur systur sinar wm þa peninga er att hafdi jon heitin torfason og honum uoru til erfda fallit[2]) eptir barn sitt skilgetit. hafdi adur skrifadur sira jon stefnt eireki torfasyni þangat fyrir wm haustit til rett(z) ansuars. klagadi sira jon einarsson þa fÿrstv sok til hans ad hann hefdi halldit þessum peningum rangliga og þa adra sok wm þa peninga er eirekur hafdi vt golldit og meta latit wm haustit ad haustlagi enn sira jon villdi lata bæta þa ad uorlagi svo ok[2]) þotti honum hun eiga leigur og landzskyllder og allan æuoxt ꝍ́ peningunum þann sem æ hafdi fallit þetta arit. uar stefnan suarin og sanngior af tueimur uitnvm. dæmdv þui vier adur skrifadan eirek rettiliga fyrir kalladan enn af þui ad suo stendur j logbok uorri huar sem madur tekur arf fyrri en rettur erfingi en menn hyggi hann þo rettliga til komin þa skal hann þann arf allan apttur gialda þa ad erfingi prouast utan landskyllder edur annan æuoxt. þess anars ad erlingur gislason er logligt fossuar[2]) hafdi af hendi eireks las þar fyrir oss .vi. manna dom j huerium ad suo stod ad eireki uar dæmt þetta allt wmbod til næstu fardaga suo og las hann þar anat bref ad eirekur hafdi uirda latit alla þessa peninga .vi. skynsama menn og þeir enu somu hofdu ad sed ollum þessum peningum epter jon heiti(nn) fra fallin. nv ad so profudu og fyrir oss komnu dæmdu uier fÿr nefnder domsmenn med fullu doms adquædi eireki torfasyni

1) [Svo = 1530, enda ritar Árni það ártal utan á bréfið. 2) Svo.

og brædrvm hans leigur ok[1]) landskýllder og allan ꜵuoxt af þessum peningvm til næstu fardaga enn þa skýlldugа aptur ad gialda alla þa peninga sem af fram geingu af logligum skulldum epter þvi sem jnn komu og uirter uoru en ef fýr skrifud þorun einarsdottur[1]) gæfi titt skrifudum e(i)reki þad ad sok ad hann hefdi fargad or bvinv medan ad þad stod eda eigi lagt alla peninga fram þa ad uar sed og profadist þad suo þa skylldi eirekur þad allt aptur giallda og uinna at bokareid og tuo skælig vitni med honum en wm þa peninga er sira ȷon hafdi tekit en eirekur hafdi vt golldit kom fýr skrifadur erlingur þar fram med uitnisburdarbref vnder .ui. manna ȷnsiglum þeirra sem baru ad biarne toruason hefde lýst þui þa ad hann afenti sira ȷone peningana ȷ skardi ad hann skylldi suo fremi peningana med frelsi af marka eda ȷ burtu hafa ad hann tæki þa ad haustlagi epter þui sem þeir hefdi metner verit. þui dæmdu vier optt skrifada (menn) eirek og biarna þar med kuitta og uid skillda enn sira ȷon skylldi svara sýstur sinni fyrir þurd edur uanholld þar hefdi æ ordit.

Og til saninda hier wm setti ȷon hallsson kongs wmbodsmann sitt ȷnnsigli med uorvm ȷnnsiglvm fyrir þetta domsbref hvert er skrifad var ꜵ (sama) ari deigi sidar enn fyr seger.[2])

---

**430. 22. Febrúar 1530. á Kirkjubóli.**

Dómr sex manna, útnefndr af Ólafi Guðmundssyni kongs umboðsmanni milli Geirhólms og Langaness, um ákærur Einars Jónssonar i umboði Valgerðar Einasdóttur til Jóns Sturlusonar, að hann hefði setið á ótekinni jörðunni Veðrará hinni meiri í Önundarfirði, með þeim fleirum greinum, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XLVII, 24, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum eru nú 3 fyrir bréfinu. — Apogr. 2887.

---

1) Svo. 2) þ. e. 27. Jan.

Domur um uedraræ er geck æ mosuollum.

Þad giorum vær jon narfason og anar jon narfason. jon olafsson. markvs sveinsson. teitur jonsson og ellingur jonsson godum monnum vitvrligt med þessv vorv opnv brefi ad þa er lidit var fra hingatbvrd vors herra jesv christi. .ꝏ. d. xxx. ar. þridivdag hinn næsta fyrir purificacio sancte marie[1]) æ mosuollvm j avnundarfirdi æ þingstad rettvm. vorum uær j dom nefnder af olafi gvdmvndzssyni kongs vmbodsmanni j mille geirholms og langanes at skoda og ransaka og fullnadardoms atkvædi æ at leggia hverra svara edur segta at jon stvllason ẏrdi skẏlldugr einare jonssyni er honum hafde þa þangat stefnt j vmbodi valgerdar einarsdottur fyrir adur greindan valldzmann fyrir þa savk at hann kærdi [þat til hans at hann sæti æ otekine jordunne vedraræ enne meire er þar liggr j avnvndarfirdi og adr greind valgerdr hielldi eign sinna barna. en þav erft hafa epter sinn favdr jon biornsson. þui at fyrsta parti kom þar fram fyrir oss stefnan. hveria at vær skodudvm og yfirlasvm med aullvm sinvm greinvm og sakargiptvm. medkendizt og þa þar fyrir oss adr greindr jon at hann hefdi þessa savmv stefnv heẏrt. og þui leidz oss hvn j allan mata skiallig og lavglig og mannen rettiliga fyrir kalladan. Jtem j fystv grein kom þar fram fyrir oss bref sera jons eirekxsonar med heilu og oskauddv hans jnsigli. huert at jnne hiellt at hann hefdi heyrt biorn bonda gudnason þui lysa at jon biornsson sonr sinn ætti adr greinda jord vedraræ. og hann hefdi þat bref at geyma aí jon heiten biornsson er danvr var kendr. hefdi golldit hana jone syne sinvm j sarabætur. og gefit med samþicki og jayrdi kvinnv sinnar kristinar svmarlidadottur. med sama hætti kom þar og fyrer oss bref med heilv jnnsigli eyiolfs magnvssonar at so jnne hiellt at hann hefdi hia uerit j badstofvne ꜳ́ hrafnseyri. heyrt þeirra ord og sied æ handaband jons bonda dans og jons biornssonar. at hann hefdi gefit honum og golldit þessa somv jord vedraræ med samþẏcki kristinar kvinv sinnar. Af þridia parti kom þar biarne

1) þ. e. 1. Febr.

hauskauldzson og bar so feldan vitnesbvrd at aullv sem adr greindur eẏolfur. at hann hefdi ȷ hia veret ȷ badstofune æ hrafns(eyre) sied og heyrt ord og handaband og allan lagagiorning þessara opt skrifadra manna ȷons dans og ȷons biornssonar vm þratt skrifada ȷord uedraræ at hann hefdi gefit hana og golldit þratt skrifudum jone biornssyni til æuenligrar eignar med samþẏcki kvinv sinnar kristinar og hier ad sor adr greindr biarne fullan bockareid. þar æ þinginv. so og eigi sidr dæmdvm uær adr greindan eyolf skẏlldugan at sveria epter sinv ȷnsigle. en fyrir þessi leidd sionarvitne og lavglig gavgn. leidz oss hier eingin andvitni ȷ moti eiga at koma. og þui dæmdum vær fyr nefnder domsmenn med fullu doms atkuædi at aullv so profvdv og fyrir oss komnv þessa titt nefnda ȷord vedraræ ena meira verit hafa eign ȷons heitens biornssonar og nv fullkomliga hans erfingia sidan og þa hana rettliga mega hallda bẏggia og bæla fyrir hverivm manni vtan þat synizt lavgliga at ȷon danvr og hans hustrv kristin hafi ecki med laugum hana matt gefa edr giallda. Enn opt nefndan ȷon stvllason dæmdum uær hafa setit æ otekinne ȷordune. tolldvm uær landeiganda eiga þar lod alla en hann skylldvgan at leysa bv sitt ut fullu landnami sem laugbok vtvisar.

samþyckti þennan uorn dom med oss adur greindur syslvmadur og setti sitt ȷnnsigli med vorum fyrr nefndra domsmanna ȷnsiglvm fyrir þetta domsbref. hvert er skrifat uar æ kirkivboli ȷ langadal in cathedra sancti petri apostoli æ sama are og fyr seigeʀ.

---

**431. 23. Febrúar 1530. í Viðey.**

Dómʀ sex klerka, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um ákærur biskups til sira Jóns Einarssonar fyrir hlutdeild hans í og ráð um forrægingarbréf síra Þórðar bróður hans um biskupinn, er hann vildi fram færa fyrir erkibiskup; í öðru lagi, hver hafa skyldi vernd og forsjá yfir staðnum í Hítardal og hans peningum.

Landsbókasafn 62. 8vo afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ur Brefabok Ögmundar biskups“ (AM.).

Um Hitardal [og Sira Jon Einarsson.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref siá edur heyra senda Þorgils med Gudz nád abote j Widey. Þorleifur Eireksson officialis. Gudmundur Jonsson Radsmann. Þórdur Olafsson prófastur. Bardur Jonsson. Olafur Kolbeinsson prestar Skalholltsbiskupsdæmis. kvediu Gudz ok sina. kunnugt giðrande ad sub anno gratiæ m⁰. d⁰. xxx⁰. midvikudaginn næstan fyrer translatio sancti Augustini. j Videy j sundum. vorum vier j dóm nefnder af verdugum herra ok faudur j Gude biskup Ogmund af Skalhollte. ad skoda ok ransaka ok fullnadar dóm á ad leggia um þá akiæru. er biskupinn klagade til Sera Jons Einarssonar ad hann (hefde) verit j giðrd ok rádum med sera Þórde Einarssyne. bródur sinum. ad giðra þad forrægingarbref er hann hafde giðrt uppa biskupinn. ok hann villde framfæra fyrer Erchibiskupsins nád.

Jtem j annarre grein hver hafa skyllde vernd ok forsiá yfer stadnum j Hitardal. ok þeim peningum sem þar til heyra.

Nu um þad er biskupinn klagade til Sera Jons Einarssonar. ad hann hefde vered j giðrd ok rádum um þad forrægingarbref er Sera Þordur Einarsson. hanz broder. hafde giðrt uppa biskupinn. þá leitst oss þat en hæsta sðk ef sðnn være. medkiendist fyrrskrifadur Sera Jon. ad hann skyllde þar svara lðgum sem stendur. Þvi dæmdum vier hann rietteliga fyrerkalladan. Þvi ad h(eilags) anda nád til kalladre. ad svo profudu ok fyrir oss komnu. þá dæmdum vier fyrrnefnder dómsmenn. med fullu dóms atkvæde. greindan Sera Jon Einarsson skýlldugan ad sveria strax eid þar fyrer biskupinum. hann hefde þetta ecke giðrt. Enn ef Sera Jon Einarsson fellur á eidnum. þá dæmdum vier hann sekan tvennum niutiu mðrkum vid kirkiuna ok biskupinn. ok skylldugan ad taka lausn ok skripter af biskupinum. Enn um stad-

1) [b. v. með hendi Árna.

inn j Hitardal. dæmdum [vier[1]) optnefndañ Sera Jon Einarsson fullmektugañ umbodzmann yfer stadnum ok hañs peningum til næstu fardaga. ok svara þar óllum kiennemanns skylldum. ok þá skylldugañ ad afhenda stadinn Hitardal ok hañs peninga biskupinum edur hañs umbodsmanne. svo ok allar þær skullder. er sógdum sera Þorde Einarssyne. hañs bródur. ber ad svara ad lógum et cetera.

---

**432. 7. Marts 1530. á Reykjum.**

Tylftardómr klerka, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um ákærur biskups til síra Jóns Gíslasonar um meðferð elds þann dag, er kirkjan brann í Holti undir Eyjafjöllum.

Landsbókasafn 62. 8vo afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ur brefabok Ogmundar biskups" (AM.).

Vm bruna kirkiunnar j Hollte.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siá edur heyra senda Þorleifur Eireksson officialis Skalholltskirkiu. Gudmundur [Jonsson[2]) rádsmann. Eyiolfur Grimsson kirkiuprestur sama stadar. Jon Einarsson. Jon Arnason. Sæmundur Arnason. Hallur Þorsteinsson. Stephan Gislason. Freysteinn Grimsson. Salomon Henreksson. Olafur Jonsson ok Snorre Hiálmsson. prestar Skalhollts biskupsdæmis. kvediu Gudz og sina. kunnigt giörande ad sub anno gratiæ $m^{0}$. $d^{0}$. $xxx^{0}$. manudaginn næstañ epter transtationem Sancti Johannis Episcopi Holensis á Reykium á Skeidum. vorum vier j dóm nefnder af heidursamligum herra ok andligum faudur herra Øgmund med Gudz nád biskup j Skalhollte. ad skoda ok ransaka. ok fullnadar dóm á ad leggia um þá ákiæru ok klógun sem biskupinn hafde til Sera Jóns Gislasonar. ok hann hafde med sinu brefe hann þangad fyrer kallad. Jn primis klagade biskupinn. ad honum hafde flutt vered svo. ad sera Jon hefde siálfur med elld fared þann sama dag sem kirkiañ

---

1) [b. v. AM, 2) [b. v. AM. og setr við „adde",

brann j Hollte under Eyiafiöllum. J annare grein klagade herra biskupinn til greindz sera Jons. ad hann hefde ecke haft þá hlute sem honum bære ad hafa. ok login bióda. til siñs kiennemannzskapar. svo sem er handbók ok Crisma. brefiere ok bækur et cetera. Kom nefndur Sera Jon þar fram fyrer oss. ok afsakade sig. ad hann hefde hvorke bored elld. nie fared med liós. edur láted fara. upp á þann dag sem kirkiañ brann j Hollte. svo ad kirkiañ mætte af brenna. ok eingenn hans heimamadur hefde þangad elld bored á þeim morgne. Þvi ad h(eilags) anda nád til kalladre. ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder kiennemenn med fullu dóms atkæde ádurnefndañ Sera Jon skylldugañ ad sveria eid. ad Holltskirkia hefde ecke brunned af hans vóllldum. vite nie vilia. Sor Sera Jon þenna eid þar strax j dóminum fyrer herra biskup Ogmunde ok vj. skilrikir prestar med honum. Þvi dæmdum vier prestenn skylldugañ ad borga kirkiuna og hennar ornamentum ad helminge. af þvi ad oss leitst sem kirkian mundi vissuliga brunnid hafa af nockrum voveifligum þar heima ellde á stadnum. þótt þad hafe skied utan prestsins vólld edur vitord. Jtem fyrer þá adra sók sem biskupinn klagade til optnefndz Sera Jóns. ad hann hefde ecke haft þá hlute. sem hann skyllde hafa. til sins kiennemannsskapar. ok hann hefde vanrækt þad embætte sem hann er skylldur ad fremia. Nu af þvi ad sera Jon afsakade sig ok sagde þar fram fyrer oss. ad hañs bækur. ok adrer þeir hluter sem hann þurfte ad hafa til kiennemannlegs embættis. hefde innebrunned j kirkiunne. þá dæmdum vier ádurskrifadañ Sera Jon skylldugañ vered hafa. teked krisma innañ þriggia mánada. þar epter ad kirkiañ var brend. handbók ok þad henne til heyrer innañ sex mánada. Common ok psalltara innañ xij. mánada. enn allar tidebækur innañ þriggia ára. Enn fyrer hvern hlut ok prestliga reidu[1]) sem hann hefur ecke feinged ad lidnum þeim tima. þá dæmdum vier hann sekañ epter þvi sem

1) Hér í milli stendr í afskriptinni: „innañ þriggia ara. Enn fyrer hvern hlut," og er því ofaukið; innsvigar Árni það, og ritar við „delenda".

kirkiunnar lǫg utvisa. Stendur liőslega skrifad ȷ Statuto virduligs herre Gyrdz biskups[1]) gődrar minningar. xij. alnum fyrer hvern hlut hann misser. ok hefer ecke. Enn hañs heidur under biskupsins nǻder et cetera.

---

433. **20. Marts 1530.** **í Vatnsfirði.**

Jón Jónsson lýsir því, að hann hafi sæzt við síra Jón Eiríksson um þann skógarpart og afhendir honum hann, „sem liggr fyrir neðan hamrahjalla þann, sem inn geingr eptir skóginum fyrir ofan mýri þá, er kölluð er Krafsmýr", og síra Jón hafði beiðzt af Jóni heitnum murta Einarssyni föður Jóns, og síra Jóni þótti hann hafa lofað sér.

AM. Apogr. 913 „Ex orig. Vatzfiordensi accuraté". Fyrir bréfinu voru tvö innsigli: s. iohani. ions. sonar og s. olaui. godem. „Jnnan i innsigle Olafs Gudmundzsonar. Er sidklædd persona med langt här cg koronu ä hofde. halldande a barne i hægra arme sier. Synest eiga ad vera Maria. Enn er likare storskornum trollkarle. so illa er þetta myndad". (AM.)

Medkenningarbref (Jons) Jonssonar ad hann afhendt hafe s(ira) Jone heitnum Eirikssyne þann Laugabols skogarpart sem fader hans hafde hǫnum lofad.[2])

Þat giore ec ȷon[3]) ȷonsson godum monnum kunigt med þessu minu opnu brefi at ec medkennunst at ec hefi forlikst uid sira ȷon eireksson um þan skogarpart sem hann hafdi beidst af faudur minum heitnum ȷone heitnum murta einarssyni og greindum sira ȷone þotti hann hafa lofad ȷ þeirra sættargiord hefi ec afent honum med radi og samþýcki brædra minna gisla og gudmundar allan skogarpartin þann sem liggur fyrir nedan hamrahialla þan sem inn geingur epter skogienum fyrir ofan myre þa er kaullud er krafs

---

1) frá 23. Apr. 1359, Dipl. Isl. III, bls. 129 § 4. 2) Þetta var ritað utan á bréfið með hendi síra Jóns Arasonar eða að hans forlagi. 3) „nafnenu er gleymt i originalnum. En Jon Jonsson heitir hann i innsiglenu". (AM).

myr [1] utan ur deilldarlægienni og at þeirre lægu sem kaullud er skyrgeil [2] Enn fyrnefndur jon heitin murte fader minn godrar minningar hafdi adur afent adur skrifudum sira jone þann skogarpart allan sem liggur firer utan deilldarlægiena og ut at landamerkia lagienni. uoru þesser giorningsuottar þar uid stadder olafur bondi gudmundsson sira biarne sumarlidason og ion bondi einarsson faudurbroder min og settu sin insigli med minu jnsigli fyrir þetta bref skrifad j uatzfirdi in festo sancti chutberti episopi et confessoris anno domini ϖ d. xxx.

---

434. **27. Marts 1530.** **í Skálholti.**

Staðarbréf, útgefið af Ögmundi biskupi í Skálholti, handa Sigmundi presti Eyjólfssyni fyrir Vallanesi, er síra Jón Markússon hafði viljuglega sagt frá sér.

Bisk. Skalh. Fasc. X, 6, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 2613.

Collationis Bref.

Vniuersis christifidelibus presentes litteras visuris vel audituris. augmundus dei gracia episcopus Scalotensis. Salutem jn domino sempiternam. Noueritis nos ecclesiam sancti Johannis baptiste jn Vallanes. per liberam resignacionem domini Johannis marcij sui ultimi rectoris vacantem. dilecto nobis in christo filio domino Sigmundo eyiolphi presbytero nostre diocesis cum omnibus suis juribus. libertatibus et

---

1) „hier er skalle i brefinu mille *myr* og *utan* eins stor og i þessare utskrift. hefur alldrei neitt þar ä skrifad vered. enn synest ad skrifast hafi att eitt ord. sem nu vante“ (AM). 2) „Hier er aptur skalle. eins stor og i þessare utskrift. hefur aldrei neitt þar ritad vered. enn óefad. ritast att. og er þesse skalle i midre linu. Orded *skyrgeil* er i orginalnum ritat skyrgell. Enn synest sem efre parturenn a þvi fyrra l. sie raderadur ad fornu. so þar ur mune hafa ätt ad giora i. Kynni og vera ad skifarenn hefde ætlad ad rita *geill* enn óvarlega undanfellt. i. Endilega kann ske ad örnefned heite *skyrgell*. en ecki *geil*“. (AM).

pertinencijs habitis et habendis. preter porcionem et ornamenta ecclesie si dantur. cum cura animarum. rite ac canonice contulisse perpetuis temporibus iuste et libere possidendam. dummodo nobis nostrisque successoribus canonice ȷntrantibus debitam exhibuerit obedienciam reuerenciam pariter et honorem. Jn cuius collacionis testimonium. sigillum nostrum est presentibus appensum. Datum ȷn residencia nostra Scaloth. dominica letare hierusalem. anno domini. Millesimo quingentesimo tricesimo.

---

**435. 28. Marts 1530. í Kiel.**

Friðrik konungr fyrsti skipar Ara Jónsson lögmann norðan og vestan á Íslandi og fær honum Húnavatnsþing í lögmannskaup.

Landsbókasafn 61. 8vo með hendi Arna Magnússonar „Ex Transsumto orig.“ frá 31. Mai 1544. „Transsumtum þetta er giört af 4. mönnum. i Mödrufelli i Eyafirde 1544 laugardaginn fyrir Hvitasunnudag. Og seigia þeir þad giört vera epter original-kongsbrefi med heilu innsigle under. Brefid liedi mier 1703 Biarne Petursson ä Stadarhole“. (AM.)

Vii fredrik med guz nade Danmarks Wendis oc Gottis koning. udvald koning til Norige. Hertug uti Slesvik Hollstenn Stormaren oc Ditmersken. greffue uti Oldenborg oc Delmenhorst. helse Eder alle vore kiære undersatte. bønder oc menighe almuge som bygge oc boo uti vort skatland Jsland kiærligen med gud oc vor nade. Vider kiære venner. at vii hafum nu aff vor sønderlige gunst oc nade tiltroet oc skicket. oc nu met thette vort opne breff tiltroe oc tilskicke. at os Elskelige Are Jonsen skal vere Eders logman norden oc vesten paa Jsland. med ald sin rente oc rettighed som aff gammel tid sedvane veret haffuer. oc ret logman bør at haffue med rette uti thet samme logmansdømme efter the privilegier som gammel Jslandsk log utviiser[1]). oc hans farefarer til forne for hannem haftt haffue.

1) Hér setr AM. „NB“ við á spássíu.

Saa oc skal fornefnde Are Jonsen sværie for vor fogethe at hand skal holde log oc landzrett saa vel med then fattige som med then rige. Thii bede vii Eder alle kiærligen oc biude aff uor kongelig makt. at j holde thenne samme Are Jonsen logman med log oc landzret. hielper oc styrker hannum til ald ret. Thet ville vii gierne oc kiærligen med Eder alle oc hver serdelis forskylde. Skal hand haffue uti sit logmanzkiöb. som gammel sed er paa Jsland. en Syssel som ligger uti Hunauatzthing i mellum Hrauns a Skaga oc Hrutafiardarår med ald konglig renthe saa lenge hand er logmand. Befalendis Eder gud. Giffuit uti vor Stad Kiil. mandagen næste effter Midfaste aar et cetera M. D. xxx.

Under vort Signet.

---

**436. 1. Apríl 1530. í Njarðvík.**

Vitnisburðr, að Þorvarðr bóndi Bjarnason góðrar minningar hafi haft og haldið, bygt, bælt og tíundað jörðina Njarðvík í Borgarfirði ítölulausa, nema það, sem heilög Njarðvíkrkirkja á í heimalandi; er og lýst landeign og rekum Njarðvíkr, skálavist, skipsiöðu og vervist á Fiskabjargi.

Frumrit á skinni í Landsskjalasafni komið frá Njarðvíkrkirkju í Borgarfirði 1. Okt. 1902. Öll (5) innsiglin eru dottin frá.

niardvikrbref.

Þat giorvm vier olafr jndridason. joñ eyvindsson. jon eireksson. þorarenn arngeirsson ok jon arnorsson godvm monnum kvnegt med þessv woro opnu brefi. at þat vissum vier fyrir full sanendi at þoruardr bondi biarnason godrar minningar hiellt ok 'hafde. bygdi og bælde. tivndadi og siña eign halldandi jordiña niarduik er liggr j borgarfirdi jtolvlavsa mille fiallz ok fiorv. nema þat sem heilog niarduikrkirkia æ j heimalandi ok rekum. ok alldre heyrdum vær hier vm tvímæla æ vera. fylgia þessir rekar greindre jordu. nordan fra gripdeilld sudr at bôlmod. enn landeign sua vijd sem vatzfoll deilazt at niarduik. Suo og eigi sidr heyrdum vier fyrr skrifadir menn at sogdu skilvisir dandimenn hinir ellri. ok sua sogduzt þeir heyrt hafa af siñum foruer-

urum. at niarduikr kirkia ætti holma þann er liggr fyrir hafnar landi j borgarfirdi. ok skala, skipstodu ok ueruist æ fiskabiarge. þar sem heiter j Runu er sumer kalla tofaskala ok hier epter vilivm vier sveria ef þurfa þiker. Ok til sannenda hier um settum uier adr nefndir menn vor jnsigle fyrir þetta uitnisburdarbref. er skrifad war j niarduik fostudagenn næstañ epter annunciacio sancte marie. þa er lidit war fra hingad burd uors herra jhesv christe. ꝏ. d. xx. ok tijv ar.

---

**437. 16. Apríl 1530. í Vatnsfirði.**

Vitnisburðr um fiskatolla Vatnsfjarðarkirkju í Bolungarvík, búðagerð og torftak í Grímsmýri, svo og um lambseldi kirkjunnar í Álptafirði og á Langadalsströnd.

AM. Apogr. 912 „Ex origin. Vatzfiord. accuraté". Innsiglið var fyrir bréfinu. — Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 12, transskript á skinni frá 19. Apr. 1605.

Þat giore ec einar þorleifsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi at ec hefi uerit heimilisfastur j isafirde nær sextiger ara. en ec er nu meir en half attrædur at alldre og hefi ec heyrt um alla mina daga at allur fiskatollur af bolungaruik hefur uerit eignadur heilagre uatzfiardarkirkiu og þangad golldin arlega so sem ec man og langt fyrir þat fram̄. hefi ec heyrt at þar ætti huer madur heimilan rodr sem uilldi og so budagiord hier med torftak i grimsmyre og huergi af bolungaruik toll laust skip nema undan hlid. Jtem hefi ec heyrt at kirkian j uatzfirde ætti lambselde a uij. bæi j alftafirde er biorn einarsson gaf kirkiune so og saumuleidis hefi eg heyrt at kristin dotter hans gaf opt nefndri uatzfiardar kirkiu lambseldi æ allar þær iarder sem hun atti a langadals straund. hefur þetta haft uerit og halldit um mina daga og eingi i mot talad so ec uiti. Og til saninda hier um setta ec mitt insigli fyrir þetta bref skrifad j uatzfirdi in festo sancti magni martiris anno domini ꝏ. d. xxx.

---

438. **19. Apríl 1530. í Skriðu.**

Fjórir prestar transskribera tvenna máldaga Ljósvatnskirkju frá 1380 (1480) og 1390 (1490).

AM. Apogr. Nr. 51 og Nr. 52 „ex pagina pergamena frá síra Ólafi Stefánssyni". Árni segir að Nr. 51 hafi átt að verða transscriptum, en aldrei orðið.

Þeim godum monnum sem þettæ bref siæ edur heyræ sendum vær prestar siræ teitur magnusson siræ einar hællsson jon olæfsson þorælfur jonsson kuediu guds og sinæ kunnugt giorænde æd vær sọ̈um og yfer læsum [so skrifædann mældægæ liosævætz[1]) ord epter ord sem hier stendur.

[Hér kemr í 51 máldagiun frá 1380, Dipl. Isl. III, Nr. 304, en í 52 máldaginn frá 1390, Dipl. Isl. III, Nr. 374.]

Og til sannendæ hier vm setium vær ædur skrifæder prestar vor jnsygle firir þetta transkriptar bref huort er[2]) skrifæd var j[3]) Skrydu j reykiædæl þridiæ dæg pæskæ ærvm epter gudz bvrd ꝏ⁰. ð. xxx ær.[4])"

---

439. **23. Apríl 1530. á Eyri í Seyðisfirði.**

Vitnisburðr um fiskatolla Vatnsfjarðarkirkju í Bolungarvík.

AM. Apogr. 911 „Ex original. Vatzfiord. accurté". Brot af innsigli var fyrir bréfinu. — Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 12, transskript á skinni frá 19. Apr. 1605.

Þat giori ec þorleifur aurnolfsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi at ec medkennunst at ec hefi verit heimilisfastur i isafirdi upp a fiora uetur og fioratiger. so uar ec uistfastur j vatzfirdi um þriu ær so ec atta medgiord a gardinum og kirkiunar reikningsskap tollvm og audrum hennar skulldvm. so uoru mier og afgreidder allir tollar j bolungaruik heilagrar kirkiu vegna j vatzfirdi so sem hennar bref og maldagar ut uisa. hefi ec og siet og

---

1) [suo oskrifat(!) Registrum og maaldaga liosavatz kirkiu, 52. 2) b. v. 52. 3) a 52. 4) b. v. 52.

yferlesit þat kaupbref er keyptur var allvr tollur af bolungaruik til kirkiunnar og gardzins ȷ vatzfirdi og so verit haft og halldit klaugunarlaust huer epter anan þeirra sem vatzfiord hafa halldit. So hefi ec og siet eg yferlesit þan dom er sira narfi heitin liet dæma vpp a eirn mann er eigi villdi giallda toll til kirkiunnar ȷ vatzfirdi en roit hafdi a osi ȷ bolungaruik og var tollurinn og saukin dæmd kirkiunni ȷ uatzfirdi. var adur greindur narfi prestur þa proffastur ȷ millum geirholms og langaness. hefi ec aunguan mann heyrt klaga edur heimta þessa tolla huar sem roit hefur verit ȷ allri bolungaruik nema þa sem vatzfiord hafa.[1])

Og til sanninda hier um festa ec mitt insigli firir þetta bref skrifat a eyri ȷ Seydissfirdi in festo iohannis episcopi holensis. arum epter guds burd. ꝳ. d. xxx.

---

**440. eptir 26. Maí 1530. í Vatnsfirði.**

Vitnisburðr um fiskatolla Vatnsfjarðarkirkju í Bolungarvík og lambseldi kirkjunnar í Álptafirði og á Langadalsströnd.

Eptir frumriti á skinni meðal Vatnsfjarðarskjala í Landsskjalasafni, og er bréf þetta afhent mér 1. Júlí 1894 af Þórarni prófasti Böðvarssyni í Görðum. Utan á bréfinu stendr: „Upplesid fyrer Rette ad Hoole i Budlungavik þann 30ta April 1746 vitnar Erlendur Olafsson.“ — AM. Apogr. 910 „Ex orig. Vatzfiord. accurate“. Þá var innsiglið fyrir bréfinu, en er nú dottið frá. — Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 12, transskript á skinni frá 19. Apr. 1605.

Vitnisburdur Sueins Jonssonar um fiskitoll ȷ Bolungaruiik og lambselldi ȷ Alptafirde og a langadalsstrond.[2])

Þat giore ec suein jonsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe at ec hefi upp uaxit ȷ isafirde og þar uerit alla mina daga og þo leingstum uistum ȷ uatz-

---

1) „I transscripto sem eg til lans haft hefi fra Holi i Bolungaruik. giördu 1554. stendur: *nema þa sem Vatzfiord hafa halldit.* recte qvidem ad complendum sensum. Sed non ad tenorem originalium“ (AM.). 2) Utan á bréfinu með hendi síra Jóns Arasonar.

fiardarþingum. hefe ec uitad at allur fiskatollur af bolungaruik hefur uered golldenn til uatzfiardar kirkiu arlega um næstu sextiger ara klaugunarlaust og so sagde mier minn fader at suo hefde uered um sina daga at aller þeir sem ryru[1]) ȷ greindu tolluere ȷ bolungaruik gulldu aller toll til uatzfiardar kirkiu utan skip undan hlid. þat eitt uære tolllaust ȷ allre bolungaruik. ȷtem hefe ec og uitad at heilagre uatzfiardar kirkiu hefer eignad uered lambselde a siau bæe ȷ alftafirde er biorn einarsson gaf kirkiunne og so saumuleides hefe ec heyrt at kristin dotter hans gaf og opt nefndre uatzfiardar kirkiu lambselde a allar þær iarder sem hun atte a langadalsstraund. hefur þetta haft uered og halldit um mina daga og langt fyrir þat og einge mote talad so ec uite. Og til saninda hier um festa ec mitt insigle fyrir þetta bref skrifad ȷ uatzfirde post festum ascensionis. anno domini. m⁰. d. xxx.

---

**441. 27. Maí 1530. á Ökrum.**

Dómr sex lögréttumanna, útnefndr af Magnúsi Björnssyni, er þá hafði kongsins sýslu og umboð í Hegranessþingi, um lagaskipti á jörðunni Ökrum (hinum syðri) í Blönduhlíð milli Gríms Jónssonar, vegna Guðnýjar Þorleifsdóttur konu sinnar, og Helgu Þorleifsdóttur.

AM. Apogr. 4116 með hendi Jóns bróður Árna „Ex originali". — AM. Apogr. 287 með hendi Árna Magnússonar „Ex Transscripto" Jóns prests Jónssonar, Ólafs prests Semingssonar, Einars Einarssonar, Magnúsar Björnssonar og Brynjólfs Jónssonar, leikmanna, gerðu á Reykjum í Skagafirði 1541, en ódagsett. Lýsir Árni innsiglum. „Originallenn kom til min fra Ormi Dadasyne ur sterbbui Torfa Jonssonar. Eg gaf hann sonum Eggertz ä Ökrum. accur. collatum. Originalen af þessu brefi sendi eg Jone Magnussyne 1727. til ad gefa sonum Eggertz Jonssonar a Ökrum" (AM.)

Þath giorum vier Gisle hakonarson. tumas tumasson. stigur hôskulldsson. þordur gunnarsson. narfue jngemundarson og halldor ionsson. logriettumenn. godum monnum viturligt med þessu voro opnu brefe. arum epter guds burd

1) Svo.

ꝳ. d. og xxx. ꝗr ath æ sudrum Aukrum i skagafirde ȷ blaunduhlid. faustudaginn j fardogum. vorum vier til doms nefnder af ærligum manni Magnusi biornssyne. er þæ hafde mins herra kongsins syslv og vmbod j hegranęsþinge. til ad skoda. ransaka. og fullnadardoms attkuædi æ ath leggia. huortt afl eda fullkomna makt sv stefna skylldi hafa. er grimur ionsson hafdi giora latid sinn logligann vmbodsmann asmund clemensson. helgu þorleifsdottur. til iardaskiptis vid sigh. heim til sudre Akra j skagafiord. til laugligra skipta æ þessare fyrrgreindre jǒrdu Aukrum og aullum þeim peningum odrum. sem honum bar med logum til skipta ad leggia vid adurgreinda helgu vegna Gudnẏiar þorleifsdottur. kvinnu sinnar. efter þvi sem stefnan vtvisar ogh inne helldr. Jtem i fyrstu grein syndizt vmbodit þar fyrir oss logligt. So og sor brañdur helgason þar strax ꝗ þinginv so felldan bokareid. ad hann var j haga æ bardastrond þridiudaginn næstañ fyrir crossmessv nu j vor. og hann heẏrdi Asmund klemensson svo tala vid helgu þorleifsdottur. ath þat var[1]) sitt erendi þangat.[2]) ad hann ætti ad giora henne lagastefnv til jardaskiptis vid grim ionsson til sẏdre Acra i skagafiord nv j fardogum. og hann heyrdi helgu þorleifsdottur þvi lẏsa. ad hvn væri nu stefnd. og hvn skylldi hallda sig sem stefnda fyrir biskupsins skulld. og sonur sinn hefdi sagt sier hvad stefnan jnnehielldi. og þessu ẏrdv þau samhlioda bædi. kom þar og fram fyrir oss vitnisburdur gudmundar sveinssonar. so hliodañdi. ad hann hefdi hia verid ȷ fẏrrsagdan stad og dag. þa þau skiptuzt suo felldum ordum vid. Asmundur klemensson og helga þorleifsdotter. sem fyrr seiger. og j eidnum stendur. Og þvi dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu domsatkuedi þetta vera fullnadar lagastefnu til jardarskiptis. og helgu þorleifsdottur þar rettiliga fyrirkallada. skẏlldi gudmundr sveria epter sinv brefe jnnañ manadar ad forfallalausu. beiddizt grimur ionsson þar helgu þorleifsdottur eda hennar logligs vmbodsmanns. enn þar kom einginn til añdsuara af hennar heñdi. Syndi þrattnefndur grimur þar fyrir oss opid bref vnder godra manna

2) væri 287. 2) b. v. 287.

jnciglum. svo latanda millum annara orda þeirra er þar jnne stodu. at Biorn Þorleifsson hafdi feingid þeim eyiolfi gislasyni og grimi ionssyni. uegna sýstra sinna helgu þorleifsdottur og gudnyiar þorleifsdottur jordina Sudre Akre j skagafirde til logligra skipta sin i mille med þeim iordum fleirum. sem þar til greiner. og brefit sialft ýtar meir vtvisar og jnne helldur. Og þui ad so profudu. sem þæ kom þar fram fyrir oss. laugdu vier nefnder domsmenn fullnadar lagaskipti ǫ́ þessa opttnefnda jord sudri akra. skiptandi husvm og tǫ̂duvollum svńdur j helminga. epter þvi sem hier sieger. þvi þar sauzt eigi logskipte ǫ́ lańdi adur. hlaut helga nv i sinn helming halfañ skalann þann enn sýdra hlutan. og þar med ańdyra [loptportid[1]) og husid þar nidur vńder. skemmvna þar[2]) sudur ǫ́ hlǫ́dinu og halfa storu badstofuna. enn sydra hlutann litlu stofvnar badar og nǫ́dhusid. halft fiosid þar[2]) vpp a vellinum. enn austara hlutann. og heýtoptina halfa þar sudur fra. halft fiosid sudur ǫ́ vellinum. enn fremra hlutann. allan vollinn fyrir svnnañ lækinn. og kottun. og dura[3]) viku verkid þar med. Enn grimur i sinn hlut vegna gudnýiar. halfań skalann. enn nýrdra hlutann. og skemmuńar badar þar nordur af storu stofuna og klefan þar jnnar af. litlu badstofuna og halfa storu badstofuna. halft fiosid svdur ǫ́ vellinum og halftt heima ǫ́ vellinum. vollinn allan fyrir ofan gotuna. sem stadurinn stendur ǫ́. ok orbabriotinn fyrir nedañ gautuna. og þar med breckukot. Ogh gaung aull skýlldu vera huorumtveggium jam[4]) heimil. enn telia kvikfie j vthaga epter iardar dýrleika. sem log skipa. Eingiar. reka og jtauk. sem jordunne tilheyra. hafue hvorir at helmingi. Lýsti grimur þessv lagaskipte æ optnefndre jordu Sýdrum Aukrum þar ǫ́ þinginu. epter þvi sem log skipa. Skylldi þesse vor lagaskipti standa obrigduliga vm alldur og æfi hier epter. nema tittnefnd helga leidi two loglig vitne med svornum eidum fyrir ena næstu fardaga ad vore komanda. þar jnnsveitis j Skagafirdi. fyrir kongs vmbodsmanne þeim sem þar er. grime ionssyni nærverańda. eda hans vmbodsmanne. ad þessare iordu. sudri aukrum

1) [loptid. portid 287. 2) b. v. 287. 3) dyra 287. 4) jamn 287.

hafi adur med logum skipt verid epter þvi sem logbokiñ ꜳ kvedur vm eignarskipte. þa stañdi þat epter þvi sem þat hefur giort verid. Svo og baud grimur sig til og beiddizt ad hafa þessa sǫmu jǫrd halfa akra. med svoddan leigu og lañdsskýld. sem skýnsamer menn villdu af henne meta. vñder allra þeirra vitne. sem þar voru. Ogh til sanneñda hier vm settum vier þrattnefnder domsmenn vor jnncigle fyrir þetta skiptabref, er giort var j sama stad. dag og ꜳr sem fyr seiger.

---

442. 27. Júní 1530. í Skálholti.

Tylftardómr klerka, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um sakir þær, er biskup kærði til síra Þórðar Einarssonar fyrir að hafa sagt, að biskup hefði skipað jörð undan Hítardalskirkju og undir leikmenn, fyrir sundrhögg á trjám fyrir Skálholtskirkju, fyrir frillulífi, fyrir áflog við annan prest, fyrir rof á vígslueiði sínum, fyrir kennimannsskapar vanrækslu og fyrir illyrði um biskupinn.

Landsbókasafn 62. 8vo afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ur brefabok Ögmundar biskups“.

Dómur um Sera Þord Einarsson.

Ollum mǫnnum þeim sem þetta bref siꜳ edur heyra senda Gudmundur Jǫnsson Radzmann j Skꜳlhollte. Eyiolfur Grimsson kirkiuprestur. Sæmundur Arnason. Stephan Gislason. Þorlakur lambiartsson. Olafur Jonsson. Magnús Gislason. Freysteinn Grimsson. Pall Eigilsson. Þordur . . . . . .[1] son. Gisle . . . .[1] son. Skegge kodransson. kvediu Gudz ok sina kunnugt giorande ad sub anno gratiæ. M⁰. D⁰. xxx⁰. manudaginn næstañ fyrer Peturs messu ok Pꜳls j Skalhollte ꜳ almenneligre prestastefnu. vorum veir j dom nefnder af erligum herra ok andligum faudur herra Ogmund med Gudz nꜳd biskup j Skalhollte ad skoda ok ransaka ok fullnadar-

---

1) „hier eru lacunæ somuleidis i bokinne“ (AM.)

dőm ā ad leggia um þær saker sem hann kiærde til Sera Þőrdar Einarssonar.

Jn primis. ad nefndur Sera Þordur hefdi sagt ad biskupinn hefde skipad jaurd undan Hitardals kirkiu og under leikmenn. Jtem fyrer þā adra sôk. ad hann hefde ȷ sundur hôggved þriu trie. er Skalhollts kirkiu tilheyrde. Jtem fyrer þā þridiu sôk. ad hann hefde att fimm bôrn j frillulife. ok ongva lôglega lausn teked. fyrer ed sidasta. ok messad svo j őhlýdne. Jtem fyrer þā fiordu sôk. ad hann hefde flogest ā Bartholomesumessu vid annañ prest. ok ongva lausn fyrer teked. ok messad svo somuleidis j őhlýdne. Jtem fyrer þa fimtu sok. ad hann hefur rofed sinn vigslueid. ok ecke veitt oss nie heilagre Skalhollts kirkiu heidur ok holla hlydne. sem honum ber. sem nu er ôllum liőst. Her med hefur hann vanrækt prestlegt embætte. og Gudz þiőnustu. hafande hverke handbők nie krisma. farande heiman ātiān stőrhātider. sem er ȷőladag. þrettanda dag. Mariumessu ok allra heilagra messu et cetera. og talad svo openberlega. ad herra biskupenn hefde sviked sig.

Kom þar frañ domur .xij. presta ok prelata dőmur. hvorier ādur. hôfdu tracterat þessar flestar saker. ok birtust[1]) nőgar til suspensionis officii (et) beneficii. ok dæmdu[2]) þrātt nefndañ Sera Þőrd skylldugañ ad koma j prestastefnu ok afbata þar allar sinar saker ef hann kynni. Var hañs beidt ok krafed. ok kom (hann) ecke. ok ecke svar af hañs hende. utan eitt forrægingarbref.[3]) er hann hafde giôrt med sinum felôgum uppa biskupsins bak frañ fyrer Erckebiskupinn. Leitst oss þad őnýtt. ok aungva makt hafa. helldur bera vitne um hañs þriőtsku ok ofbellde ő mőte biskupinum ok heilagre Skalholltskirkiu. ok sanna upp ā hann þær flestar saker. sem hann hafde ecke ādur medkieñst. Þvi ad h(eilags) anda nād tilkalladre. ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier ādurskrifadañ sera Þőrd Einarsson fullkomlega fallenn j forbod og suspensum af officio et Beneficio. ok skylldugañ ad koma j Skalhollt ok taka þar lausn ok skripter. Þad fyrsta sem hann fær sannenda fregn af

1) Svo; *ekki*: virtust. 2) leiðr. AM.; dæmdum, hdr. 3) *d* er skrifað yfir fyrra g-ið í þessu orði, eins og lesa ætti: forrædingarbref.

þessum dőme. Enn vill hann ecke koma. þă sie hann riett tekenn under skripternar. ok sekur fiőrum mǫrkum ȷ dőmrof. Enn fyrer þad hann hafde framed Gudligt embætte j fullre þriőtsku og þrǻe vid Dőmkirkiuna og biskupinn . . . . . . . . . . . . .[1])

---

## 443. 30. Júní 1530. á Öxarárþingi.

Bréf af Alþingi til Friðriks konungs hins fyrsta um lögmannskosningu Þorleifs Pálssonar og Ara Jónssonar.

AM. Fasc. LXV, 21, frumrit á skinni „Brefed feck eg fra Sira Halldore Palssyne i Selárdal. enn hann mun feingit hafa epter mäg sinn Magnus Magnusson“ (AM). Fyrir bréfið hafa aldrei komið fleiri en 14 innsigli, sem nú eru öll dottin frá, en allmörg þeirra voru enn föst við bréfið á dögum Árna, og lýsir hann þeim undir Apogr. 5775—5776; eru þar tvær afskriptir bréfsins. Í innsigli Hannesar Eggertssonar segir hann sé „skiölldur med einhyrning ä og ofan ä skilldenum hialmur. og ä badar sidur vid hialmenn tveir bokstafer H. E.“ Ennfremr segir Árni: „Þad synest. ad lògrettumenn ur Sunnlendinga fiordunge hafi ecki brefed innsigla viliad.“ Þá ritar Árni all-langt um það, hvernig því víki við, að Hannes Eggertsson sé talinn síðastr Vestfirðinga: „Hannes Eggertsson. sem stendur i lögmanns utvalningu Þorleifs Palsonar 1530. er. än efa. sä same sem vered hafdi hirdstiore. þó þad sie undarlegt. ad hann stendur þar allra sidastr. So er og hans innsigle — jnnsigled fra brefinu hefi eg. og er þar i ad visu einhyrningurinn, Hannesar vapen. Eru og einger af hinum nobiles. so þeim kynni þetta innsigle til ad heyra — þad allra sidasta fyrir brefid sett. og öldungis eingen epter þad. Er so annad hvert. ad menn hafa i þa daga lited hirdt um rangen (hvad þo ei synist af þessu brefi. þvi fyrst stendr hier biskupens nafn og innsigle. sidan höfudsmannsens. og so lögmannsens. hvad og accorderar med annara ejus ævi documenta constitutione). Eda og ad Hannes hefur. nu nafnbotalaus. ei viliad vera ofan fyrir lögrettumonnum. licet id absurda modestia esset. Eda og ad biskup Ögmundr hefur. af hatre og forakte vid Hannes. ut ur Vatzfiardar mälasoknum þeirra. þessu til leidar komed. og er þä þó undarlegt ad Hannes villde þar standa. Þad synizt sem ecki hafi miog mikid ur Hannese orded ä þessu alþinge 1530“. — Bréfið er prentað í Safni til sögu Íslands II, bls. 202—203.

---

1) „reliqva desunt og er ætladur skalle i bokinne fyrir þvi sem vantar“ (AM.)

Bref vm logmanskior ara jonssonar og
þorleifs palssonar.[1])

Worum høgbornazta herra kong fredrek heilsum wij augmund med gűdz nad bisckűp j skalhollti. Didrek af bramstade hirdstiore och hoffudzmann offwer allt jsland. Erlend thorwardson lagman suuan og austan a jslandi. thorleif gudmundzson. olaff gudmundson. fuse thordason. sigurd odzson. dade gudmundson. gisle gudmundson. thorleif einarson. orm gudmundson. gudmund gudmundson. biorn jonson. jon jonson og hannes eggertson. bøndur og lagrettis mend j westfirdinga fiordunge. Eirek thorsteinson. hakon biorgolfson. jon eirekson. runolff thorsteinson. biorn arnorson. hrafn gudmundson. jon gislason. jon arnason. olafur narfason og biarna[2]) narfason. bøndur och lagrettis mend j sunlendinga fiordunge. kørlega med gud og hans nad.

Wij wilium edher høgbornazta nad witurlegt giðra ad a almennilegu aűxarar thinge fimtudagin nøstan effther pethers messű dag vm sumarit kom fram fyrir oss j laugrettűna med edhers nadar breff Erleg Dandi swein are jonson swo hlydandes ad hann skýllde blijffwe lagman nordan og westan a jslande. eň þar var þa j þann sama tijd nockur sűndurgreining med þeim dandi men sem þar eru jnbyggiandes j sűo mata ad j fyrra sumar woru þesser tueir men tijll neffnder Erleg og well burdug man thorleiff palson. og den dandi swen are jonson. En for den skulld ad anad theres breff og skrijwelse kom ecki fyrer ydra werdugazta nad j den tijd sem wera skullde. þa wijlium vij nu vnderwijsa ydar høgbornazta nad ad oss lizt þessi dandi swein vngur ad haffa sliksn wanda. En thorleiff palson er fulkomen tijll alldurs og witzmuna spektar og sidsemdar og j godu rűchte wijd alla goda mend þui haufum wier med almugans samthycki j greindu takmarke kioret hann tijl laugmanz. bidiandis ydra høgbornazta nad ødmiuklega ad j willet þessu voru samtale samthycker verda.

Og tijll meire audsyningar og saninda hier vm heingi-

1) Utan á bréfinu, og ártal 1530 með hendi Árna. 1) Svo,

um wij wor jnsigle nedan fyrir þetta samthychtar breff hwert skrijfwat war a sama deige sem fyr seiger. anno domini Millesimo quingentesimo wigesimo decimo.

---

444. [30. Júní] 1530. á Öxarárþingi.

Tólf lögréttumenn og bændr í Húnavatnsþingi lýsa því, að þeir hafi „með almúgans samþykki á Alþingi tilkjörið og samþykt, að heiðarlegr mann Ari Jónsson væri vor lögmann norðan og vestan á Íslandi", og samþykkja þeir það konungsbréf (Nr. 435), er Ari, sem svarið hafði sinn lögmannseið, hefir samkvæmt ósk þeirra feingið um lögmannsdæmið.

Landsbókasafn 61. 8vo með hendi Árna Magnússooar „Ex orig. Stadarhol." „J þessu brefi eru eru. uppi yfer *ium*" uppe yfer *u* (ü). puncta fyrer commata, og: fyrer punctum vel clausulam periodi. .[punktr] yfer ý. Jnsiglen under brefinu eru i allre annarre röd enn nöfnen in fronte ɔ: nullo ordine, ut puto, appensa sunt" (AM.)

Þat giorum vier Jon Olafsson. Jon Einarsson. Skuli Gudmundzson. Þormodur Arason. Þorarinn Steindorsson. Gudmundur Jndridason. Brandur Olafsson. Gisli Jousson. Asmundur Clemensson. Gudmundur Þorsteinsson. Þorlakur Þoresson. Kodran Olafsson logriettumenn og bændur i Hunavatzþinge godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe at vier hofum med allmugans samþycke æ alþingi tilkiorit og samþyckt at Heidarligur mann Are Jonsson væri vor logmann nordan og vestan a Jslandi. sem gamall vane er til at einn logmadur skuli vera yfir þeim tveimur landzfiordungum. Nordlendinga fiordunge og Vestfirdinga fiordinge. Þui hofum vier audmiukliga bedit vorn heygbornasta herra kong Fridrek. at hans herradomur villdi unna greindum Ara Jonssyne at hafa sama logmannsdæmi. Og nu hofum vier sied og yferlesit kongzins bref med hans heilu og holldnu insigle sem hans herradomur hefer utgiefit nefndum Ara Jonssyne um adur sagt logmannsdæmi. þui samþyckium vier sama kongsins bref myndugt og stodugt i ollum greinum. Hefur fyrrskrifadur Are Jonsson svarid sinn logmannz-

eid i logriettu fyr kongxins foueta. epter þvi sem kongxins bref inne heldur. Og til meire audsyningar og sanninda hier um setium vier fyr skrifader menn vor insigle fyrer þetta bref er giort var a Auxarárþinge arum epter gudz burd M. d. og xxx.

---

**445. 1. Júlí 1530. á Öxarárþingi.**

Dómr tuttugu og sex manna, háðr á Öxarárþingi eptir skipan Friðriks konungs af Danmörk og Noregi, um kærur Hannesar Eggertssonar til Ögmundar biskups í Sálholti, að biskup héldi fyrir sér og Guðrúnu Björnsdóttur konu sinni fjórum jörðum, Vatnsfirði, Aðalvík, Hvammi og Ásgarði, og dæma þeir meðal annars Vatnsfjörð fullkomna eign heilagrar Skálholtskirkju.

Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 4, frumrit á skinni, nú stórlega skemt, og eru öll innsiglin dottin frá, sem virðast muni hafa verið hér um bil jafnmörg og nöfn þeirra manna, sem fyrir dóminn eru ritaðir. — AM. Apogr. 2470; var þá bréfið (um 1710) „rifid og miog lased orded, og so ad seigia under eydilegging komid" (AM.), en þó alt læst. — Skalh. Fasc. XIV, 5, transskr. af dómi þessum án efa eptir XIV, 4, ártalslaust, en gert eptir dauða Ögmundar biskups (1541), og er eptir því tekinn vitnisburðrinn hér aptan við dóminn. — AM. Fasc. XLVII, 27, transskript á skinni frá 30. Okt. 1542, komið frá Lopti Jónssyni í Flatey. — AM. Fasc. XLVII, 28, transskript á skinni frá 19. Febr. 1546. — AM. Apogr. 790 (eptir XLVII, 28). — AM, Apogr. 940 (eptir kopíum af Vatnsfjarðarbréfum með hendi sira Jóns Arasonar 1649), — AM. Apogr. 991, með hendi sira Ólafs Jónssonar á Stað í Grunnavík 1704 eptir kopiu á skinni, ekki mjög gamalli, frá Sæmundi Magnússyni á Hóli í Bolungarvík, með orðamun eptir XLVII, 27. — Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 8, transskript á skinni frá 12. Dec. 1611 eptir transskripti frá 25. Júní 1545. — Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 9. transskript á skinni frá 24. Maí 1614 eptir transskripti frá 25. Júní 1545. — AM. Apogr. 2474—2475 (eptir þessum transscriptis). Margar fleiri afskriptir á pappír eru til af dómi þessum, sem opt hefir í dóma borinn verið, en allr afskriptasamanburðr við þenna texta, sem er eptir frumritinu sjálfu er þýðingarlaus, því að orðamunr er venjulega, þegar svo á stendr, ekki annað en afbakanir. — Dómr þessi er prentaðr í Kirkjusögu Fins biskups Jónssonar II, 259—263.

Domur um vatzfiðrd. hvam̄. asgard og adalvik.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Ellindur Þoruardsson. Logman Sunnan og awstan æ ȷslande. Þorleifur pǻlsson. Eirekur þorsteinsson. Rwnolfur Þorsteinsson. Hǻkon biorgolfsson. Narfe sigurdsson. Steingrimur jsleifsson. Biorn ȷonsson. jon eireksson. Brandur gudmundsson. Gudmundur gudmundsson. Olæfur gudmundsson. Dade gudmundsson. Sigurdur oddsson. ȷon arnason. ȷon olafsson. Skwle gudmundsson. petur arason. petur Loptsson. Hrafn gudmundsson. Olǻfur ȷonsson. þordur þorsteinsson. Skwle tum̄æsson. Gudmundur gudmundsson. Grimur kærason og ȷon ȷonsson. k. G. og sina. kunnigt giorande. ad sub anno gracie. m. d. xxx. a fimtudagin næsta epter peturs Messo og páls[1]) á almenneligu auxarærþinge. vorum vier saman komner epter bode og skipan uors heẏgbornazta herra fysta kong vorn fridrek af danmarck og norege et cetera. ad skoda ransaka og fullnadar dom a at leggia um þa aklaugun sem hannes egertsson klagade til uerdug fader j gude biskups Ogmvnd af skalhollt ad hann helldi firir sier og sinne kuinnu gudrunu biornsdottur iiij gaurdum er suo heita. vazfiordur. adaluijk. huammur og asgardur et cetera. Jtem stod so j kongsens brefe ad hannes hefde sagt ad biorn þorleifsson hefde gefit biskup steffane godrar minningar til mǻlafylges ij garda uazfiord og adaluijk. huad titt skrifadur hannes gat alldri med sannindum bijuisad. þui leizt oss þad hid stæsta rog firir kongenum upp a biskupsens bak. þui hann tiede þar firir oss ad greindur gardur uazfiordur hefde fallit j .iij. reisur under heilaga skalhollz kirkiu med domum og fullum raukseinda giorningum verdugra herra og andligra fedra. erkibiskupa[2]) j nidarose. og skalhollz biskupa og þeirra ærligra prelata og presta.

---

1) þ. e. 30. Júní. 2) Hér stendr í frbr. „Gautonis", en því er ofaukið, og segir Árni Magnússon: „delenda omnino est hæc vocula. extat tamen in originali". Þetta orð stendr ekki í transskriptarbréfunum.

Jn primis a daugum Arna biskups helgasonar. þa lidit uar fra gudz burd. ꝳ. ccc og viij. ar.

J annan tima þa biorn einarsson hiellt gardenn uazfiord. voru þa kristz ar. ꝳ. ccc lxxxx og iij ar.

J þridia sin ȷ tid herra Erchibiskups Gautonis godrar minningar epter þui sem hans bref og jnsigle med fullum rauksemdar giorningum þar um ut uisar. þa lidit var fra gudz burd ꝳ. D. og i ar. Enn vm skrifada tima hefur greindur gardur uatzfiordur verit gripen og[1]) halldin af omilldum monum og burt tekner hans peningar med brefvm og skilrijkium. a mote ollu laugmale og frelsi heilagrar kirkiu.

Þui j gudz nafne amen. Seigium wier med fullum dome og laga wrskurde adurskrifadan gard uazfiord uera og uerit hafa fullkomliga eign heilagrar skalhollz kirkiu og adur greindan hannes skylldugan at leggia biskupenum j hand þau bref og skilrijke sem hann hefur haft og hefde upp a greindan gard uatzfiord. vtan hann synde a næsta avxararþinge fullkomet sannindaprof. at halldsmenn greindz gardz hefdi leẏst eda bodit lawsn laugligum skalhollz biskupe firir greindan gard uatzfiord.

J anare grein þar hannes egertson klagade til huamms og asgardz. leidde þar biskupen firir oss a þingenv ij lauglig uitne med suordum bokareidum at Ragnhilldur husfreyia biarnardotter med samþycke torfa sonar sins og anara barna sinna gallt optskrifudum herra augmund[2]) adur skrifadar iarder j sakferle biarnar heitens gudnasonar bonda sins. Þvi dæmdvm vier ȷardenar biskupsens eign og hannes egertzson ecki til þeirra tala meiga. Enn bondan biorn heiten og born hans kuitt suo miket sakferle sem til war skiled j sǻttenne.

J þridiu grein vm þa aklaugun sem hannes hafde vm adaluijk og þa peninga þar til heyra. liet biskupen birta þar firir oss biskups wrskurd og laugmannz med xij presta og xij laugrettvmanna dóme epter bijfalning heidursamligazta herra konung kristierns.[3]) a millum biarna(r) gudnasonar og

1) vantar i XIV, 4; b. v. XIV, 5. 2) augmundi XIV, 5. 3) kristiens XIV, 5.

biarna(r) þorleifssonar.[a] j hueriu alycktarorde þeir dæmdv biorn þorleifsson laugliga hafa golldit hans krvkv fyr skrifada peninga j norege. J annare grein liet biskupen birta þar firir oss sitt kawpbref vnder godra manna jnsiglum huort giort uar epter dominn. og wt golldenn þridiungur af uerde erfingium hans krvkó j norege. þui leist oss sem biskupen mætte hallda sinu kaupe til laga vnder skila dóm. En hannes egertzson og biorn þorleifsson skylldugan at fara fram firir kongen næsta ár at forfallalavsu med þau bref sem þeir hefdi uppa greinda jord adalujk. og lata sier þad nægia sem konguren þeim til seiger.

Jtem klagade biskupen at hannes egertzson hefde rægt sig. og sinn föruerara biskup Sthefan firir kongenum. leist oss þad stæsta sok ef til dóms kæme. Enn firir uórn bænastad og þeirra anara er þar uoru j laugrettu gaf biskupen þessa sok ofur. j suodan mata at hannes skyllde alldri motsnuen uera heilagri skalholltzkirkiu ne biskupenum med órétt.

Samþyckte þenna uórn dóm med oss adur skrifadur herra augmund og Dijdrek fóuete af briamsstad og allur almuge sem þa uar j laugrettv.

Og til sanninda hier vm. settv þeir sin jnsigle med uórum jnsiglum firir þetta domsbref. skrifad j sama stad. deige sidar enn fyr seiger.

---

Þat medkiennuzt vier epter skrifader menn Ellendur Þoruardzsson. Dadi Gudmundzsson. Jon Jonsson. Biorn Jonsson oc Sygurdur Oddzsson med þessu voru opnu vitnisburdar brefi. Vier medkiennunzt at vier vorum æ alþingi oc med audrum morgum suornum logriettumonnum j dom sitiandi epter bodan og bifalningu vors heygbornazta herra kongs Fridreks yfer Danmark oc Norege. Suo og epter vtnefningu Didreks fan Briamsted huer ad þa var vors nadugazta herra kongsins hier j landit fovite. huer domur ad dæmdur var æ milli Biskups Augmundar Godrar minningar og Hannesar Egertzssonar. huerra beggia sæl ad Gud gledie. vm þa æklogun sem fyrr skrifadur Hannes heitinn Egertzson veitti adrnefndum salugum herra Biskup Augmundi vm vatzfiord oc adrar eigner et cetera. Vissu uær þennañ dom þar þa æ þinginu dæmdan vppsagdan samþycktan skrifadan oc jnsigladan. huern dom at vier siaum

nu epter ordunum riettan vera. enn ad jnsiglunum[1]) raskadañ. enn vier vitum þo eigi anars sannara enn þetta sie sa hinn sami domur med aullum þeim greinum oc articulum sem j þeim sama domi voru tracteradar med aullum þeim somum ordum sem j þessu copio eru jnnskrifud. huert copium epter fyrr skrifudum rauskudum̃ domi er klarliga skrifad oc med þessu voru vitnisburdar brefi fest. Og j sannleika ad suo er. Setium vier fyrr nefnder menn vor jnsigli firir þetta bref.

---

**Ad 445. 25. Júní 1545. 12. December 1611. 24. Maí 1614. í Skálholti.**

Vidimus af Vatnsfjarðardómi 1. Júli 1530.

Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 8 og 9, hvorttveggja frumtranskript á skinni; *a* bæði í XIV, 8 og 9; *b* að eins í XIV, 8; *c* að eins í XIV, 9.

a) Þad giorum vier Brýniolfur halldorsson. Jon Einarsson. Simon Jonsson prestar. Olafur Asbiarnarson. Magnus Nicholasson. Liotur Þoruardsson Leikmenn goðum̃ monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe ad vier hőfum sied og yferlesed suo latanda domsbref ord fyrer ord sem hier fyrr skrifad stendur med heilum og oskauddum dande manne jnnsiglum. Og til sanninda hier vm þryckium̃ vier vorum jnnsiglum vppa þetta bref. Skrifad j Skalholltte fimtudaginn næzta epter Jonsmessu Baptiste vm sumarid. Arum epter Gudz burd M. D. xl. v. ᴀʀ.

b) So felldañ vitnisburd berum vier epterskrifader menn Jon Sigurdsson skolameistare j Skalhollte Sera Jon Biarnarson kirkiuprestur j Skalhollte Sera Gijsle Þormodzson. Skűle Jonsson suarinn Løgriettumadnr. Halldor Jonsson og Jlluge Jonsson. Ad vier haufum sied og yferlesed suo latande bref ord epter ord sem hier fyrir ofañ skrifad stendur skrifad æ pappijr vnder þrycktum sex jnnsiglum. var þad med ollu orasurat og orifed vtañ j einum stad brosted suo valla vard lesed þad ejnasta ord *huams.* enn ad ollu odru leizt oss þad oskaddad. Og til sannenda hier vm festum vier vor jnnsigle hier fyrir nedan þetta transskriftarbref. Skrfat j Skalholltte þann xij dag decembris. Arum epter christi fæding m.dc. og xj.

1) jnnsigludum, frbr.

c) Suo felldañ vitnisburd berum vier epterskrifader menn Sera Brýniolfur Biarnarson. Sera Þórarinn Sigurdson. Sera Gijsle Þormodsson. Skule Jonsson og Audun Jonsson ad vier hofum sied og yferlesed suo lætande domsbref ord fyrer ord sem hier fyrer ofañ skrifad stendur suo þar ber ecki ord æ milli. Var þad skrifat æ pappijr vnder þrýckt vj manna jnnsiglum. Og til sannenda hier vm festum vier fyrr skrifader menn vor jnnsigle hier fyrir nedañ þetta transskriptarbref. Skrifat j Skalholltte þann xxiiij dag Maij árum epter christi fæding m dc xiiij.

---

**446. 4. Júlí 1530. á Þingvelli.**

Diðrik fóviti, hirðstjóri og höfuðsmaðr yfir alt Ísland veitir Jóni bónda Hallssyni til næsta Öxarárþings og það leingr, sem ekki er önnur skipan á gerð, Skóga og Skógaeignir, Mörk og Merkreignir undir Eyjafjöllum fyrir sex hundruð fiska til gildis, tunnu smjörs og sex vetra gamalt naut, enn fremr umboð yfir öllum konungsjörðum í Rangárþingi, og gjaldi þar fyrir 2 ensk nobil.

AM. 191. 4to bls. 33—34, *bréfabók Jóns sýslumanns Hallssonar* í frumriti á skinni. — AM. Apogr. 5537.

Bref didrik(s) fouita fyrir kongs eignum.

Þat medkenunzt eg didrik fouite hirdst(i)ore og hofudzmann yfer allt Jslañd med þessu minu opnu brefui. at eg hefi untt og ueitt jone bonda hallzsyne kongs eigner vnder eýiafiollum. skoga og skoga eigner. mörk og merkur eigner med ollv[1]) þui sem þessum greindvm eignum fylger og fylgt hefuer at fornu og nyiu. rekum og skogum. eignum oc jtaukum. Skal greindr jon hallzson eignazt og at sier taka allar landskyllder og kugillda leigur af fyrr skrifudum eignum fyrir suodan gialld. jn primis. vjc fiska til gilldis. tunnu smiorz og sex vetra gamallt naut. Hier til skal jon hallzson fullt og logligt vmbod hafa yfer ollum þeim kongsins jordum og jardarpaurtum bygdum oc obygdum sem ligia j

1) ollum, skb.

Rangarþinge millum markarfliotz oc þiorsar. skal hann eignazt og at sier taka allar þær landskyllder. greida oc goduilia sem hann kann þar af at fa oc giallda mier eda minum vmbodzmanne íj eingel(sk) nobil at sumre komanda. Skal opt nefndr ȷon hallzson þetta fyrr skrifat vmbod og lieni bruka og bijhallda til næsta avxararþings og þat leingr sem ecke er onnur lauglig skipan á gior.

Og til sanenda hier vm þrycki eg mitt ȷnnsigle vpp a þetta vmbodzbref skrifat á þinguelli manudaginn næstan epter peturs messo oc pals. ano tercio[1]) Christi. m. d xxx°.

---

**447.** **23. Júlí 1530.** **í Kalmanstungu.**

Dómr sex klerka og sex leikmanna, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um spjöll á kirkjunni í Kalmanstungu, skort og fordjörfun á bókum hennar og skrúða og um reikningsskap kirkjunnar fornan og nýjan.

Bisk. Skalh. Fasc. VIII, 16, frumrit á skinni skemt af fúa. — AM. Apogr. 2603 „accuraté“ með orðamun eptir bréfabók Ögmundar biskups. — AM. Fasc. XLVII, 29, transskript á skinni frá 16. Iúní 1531, komið frá Ásmundi Einarssyni i Enni á Höfðaströnd til Árna Magnússonar.

Þetta er kalmanztungudomur.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda. [sigmundur eyulfsson. olafur gilsson. freysteinn grimsson. snorre þorgilsson. Biorn þorgilsson og sueirn þorbiarnarson prestar skalhollzbiskupsbæmis.[2]) ȷon hallzson. ȷon biornsson. hakon biorgolfsson. Erlingur Gislason. ȷon ȷonsson og snorre þormodsson suarner laugrettumenn. q. gudz og sina. kunnigt giorandi. ad sub anno gracie. m. d xxx. a laugardagen næsta fyrir festum sancti ȷacobbi apostoli vm sumared j kalmanztungv uorum uier j dom nefnder af [ærligum herra og

---

1) Svo. Árni setr hiklaust ártal „1530“ við þetta bréf. 2) [Freysteinn Grimsson. Sigmundr Eyolfsson. Snorre Þorgilsson. Biörn Þorgilsson. Olafur Gilsson og Sveinn Þorbiarnarson kennimenn Skalholltzbiskupsdæmis, bréfab.

andligvm faudur herra augmund med gudz med nad biskup af skalhollti. at skoda. rannsaka og fullnadardom a at leggia huer suara skylldi fyrir spioll[1]) a kirkiunne skort og fordiaurfun[2]) a bokum og skruda. oc reikningskap kirkiunnar fornum og nyium. kom þar fram̄ fyrir oss oddur þorkelsson[3]) med vmbodzbref biskupsens[4]) ᷑ holum at hann skylldi vera umbodzmadur yfer gardenum. og þeim peningum fleirvm et cetera. þui leizt oss hann [eingi in[5]) suaramadur kirkiunnar til nauckurs forsuars. Skodudum uær bækur kirkivnnar og skruda. leizt oss .xx. hundrada spioll a kirkiunne fordiaurfun og forgun ᷑ bokum og skruda. Somuleidis reiknudu uier gamlañ og nyiañ reikningskap kirkiunnar og epter uitnesburd og tilsaugn [hinnu ellztu manna[6]) j sueitinni. reiknadizt at kirkian ælli xl^c j heimalandi. og xl^c j innstædu med þeim iij^ur[7]) kugilldum er arne jonsson gaf kirkiunni. Jtem somuleidis. xiij^c. og xx. er fallit hafdi j porcio sidan arne jonsson medtok. og at auk .x. aurar upp a huert ared þar til at syndizt lauglig kuittvn fyrir reikningskap og porcio kirkiunnar. uar þar biuisat fyrir oss j domenvm at biskup stephan godrar minningar hefdi[8]) sent þangat vpp a. ij. reisvr .ij. skiælliga menn. at beidazt þar reikningskapar og annarar biskuplegrar skylldu. og fiekz eingin eij[9]) sidur. hefur Biskup augmund verit hier j land viii ar og vpp a hit ix^a.[10]) uisiterat og kom nu sialfur personuliga j sinne uisitacione og uar þar þa einginn laugligur suaramadur vpp a kirkivnnar uegna. Þui at heilags añda nad tilkalladri at suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum uier[11]) laugliga halldzmenn greindz gardz um forlidna tima Teit þorleifsson og grim jonsson skyllduga at koma j galmastungu j haust manudagen næstan epter sæluuiku og standa þar reikningskap kirkiunnar fyrir biskupenum eda hans laugligum vmbodz-

---

1) [heidursamligum herra biskup Ogmunde af Skalhollti hver svara skylldi fyrir spiöll, bréfab. (stytt). 2) fordiorf. brb. 3) Þorgilsson XLVII, 29. 4) biskups, brb. 5) [einginn, brb. 6) ellztu var mjög máð þegar Árni las, og er enn; [enu elldstu menn, brb. 7) þrimur, brb. 8) hafi brb. 9) eigi, brb. 10) niunda, brb. 11) med fullu doms atkvæde b. v. brb.

manne. enn allur reikningskapur staden at næstum fardaugum. leizt oss greind jord alldrei hafa matt seliazt eda burtfazt at ospurdum skalholltzbiskupi. Þui dæmdum uier heimalandet þar æfuenliga eign heilagrar skalholltzkirkiu og biskupen mega at sier taka j næstum fardaugum.

Samþyckti þenna uorn dom med oss adur greindur herra augmund og marger adrer goder menn og festi sitt jnsigle med uorum jnnsiglum fyrir þetta domsbref. Skrifat j sama stad og are deigi sidar enn fyrr seiger.[1])

---

448. 8. August 1530. í Stafholti.

Dómr sex klerka og sex leikmanna, útnefndr af Ögmundi biskupi um, að síra Jón Einarsson skyldi vera löglegr afgreiðslumaðr staðarins í Hítardal og hans peninga vegna síra Þórðar bróður síns, er biskup hafði dæmt frá staðnum, þótt mál og staðarforráð standi til erkibiskups, með öðru fleira, er bréfið hermir.

Landsbókasafn 62, 8vo afskript gerð fyrir Árna Magnússoon „ur brefabok Ögmundar biskups" (AM).

Um sera Þőrd ok Hītardal.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siā edur heyra senda Einar Snorrason officialis. Narfe Þorsteinsson. Jon Asmundsson. Einar Jonsson. Biőrn Þorgilsson og Olafur Gislason prestar Skālholltzbiskupsdæmis. Fuse Þőrdarson. Jon Biőrnsson. Gisle Gudmundsson. Snorre Þormődsson. Gudmundur Gudmundsson. Ellingur Gislason. svarner logriettumenn. kvediu Gudz ok sina. kunnigt giőrande ad sub anno gratiæ ꝏ⁰. D⁰. xxx⁰ j Stafhollte j Stafholltstungum. manudaginn næstañ fyrer laurentiusmessudag um sumared. vorum vier j dőm nefnder af ærlegum herra ok andligum faudur j Gude herra Ogmund med Gudz nād biskup j Skālhollte. ad skoda og ransaka. ok fullnadardom ā ad leggia um þā laga ākiæru. sem herra biskupinn beiddest dőms ā.

1) þ. e. 24. Júní.

hver laugligur afgreidslumadur skyllde vera stadareñs j Hitardal ok hañs peninga. J fyrstu kom þar fram̄ fyrer oss dandemanna dőmur. hver dæmdur var j videy. ok svo var lătande. Sera Jon Einarsson brőder fyrrnefndz sera Þőrdar. var dæmdur lǒgligur afgreidslumadur ok umbodz fẏrrgreindz Hitardals stadar. ok hañs peninga. vegna brődur sins. svo framt sem ecke fiñdest annarr lǒglegre. Let herra biskupinn beidast þar. ef nockur bref edur bivising mætti finnast. ad Sera Þőrdur hefde nockrum sitt umbod bifalad. eda lagasvar. hvad enginn kunne ad bivisa med uockuru skiale. Þvi ad h(eilags) snda năd tilkalladre. ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu dőms atkvæde sagdañ Sera Jon skylldugañ ad afgreida þad herra biskupinum. Fyrst kirkiuna ok stadinn Hitardal. ok alla kirkiunnar peninga kvika og dauda. fasta ok lausa. innañ gardz ok utañ. jafnvel portio ok mortualia ok stadarbőt. nu j haust þad seinasta ad Michilsmessu. med leigum ok landskylldum þeim sem ă hafa falled. sidan lǒglegur dőmur fiell ă hañs saker ă Helgafelli j Helgafellssveit. ok herra biskupinn riettelega hallda meiga kirkiuna ok stadinn. ok alla kirkiunnar peninga uppă herra Erchibiskupsins vegna til fyrersiőnar. Svo ok j annarre grein hefur Sera Þőrdur optlega lẏst sig ok sina peninga under biskermelse herra Erchibiskupsins j Þrandheimi. Þvi leist oss biskup Ogmundur riettiliga hallda meiga ok bivara alla þă peninga sem Sera Þőrdur Einarsson hafde medferdis. þă[1]) dőmur fiell ă hañs măl. ok herra biskupinn mă ăhenda. þar til ad ădurnefnder brædur. Sera Jőn ok Þőrdur. giallda ok afhenda hverium sitt ad lǒgum. ef nockud kynni af fram̄ ganga stadareñs peningum og biskupsins sakferli. Enn þær saker sem biskupinn gaf Sera Þőrde j stefnubrefe. ok hann var dæmdur j almennelega prestastefnu til andsvara. ok þær adrar saker sem oss leitst hann munde hafa ă sig felldt vid biskupinn. litust oss svo miklar ok margar. ad ecki munde prestsens peningar hrǒckva til fiebőta fyrer greindar saker. Ok þő ad vier dæmdum ecke herra biskup skylldugan ad senda ut af

1) AM. leiðr.; ok(!), hdr.

landinu um mál Sera Þórdar. þá virdtist oss ok leitst ráðlegast. ok honum full þörf ok naudsýn. ad senda nockurn skilvisañ duganda mann til herra Erchibiskupsins med bref. og med duganda manna innsiglum. ok segia honum sannleik af sökum ok málum optnefndz Sera Þórdar. upp á hañs kostnad. Jtem reiknadist innstæda kirkiunnar j nautum ok saudum ok köplum lxx° voru heima á stadnum vij° ok fiorutiu gilld. Enn a leigustödum iiij. ok lx.[1]) til tals. enn ecke öll gild. et cetera.

---

**449. 13. August 1530. í Holti.**
**13. September 1531. í Skálholti.**

Dómr sex klerka og sex leikmanna, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um það, hver afgreiðslumaðr skyldi reikningskapar kirkjunnar á Hóli í Bolungarvík og annara löglegra skulda, er þar áttu að greiðast eptir Einar Jónsson frá fallinn, með öðru fleira, er bréfið greinir.

AM. Fasc. LXVII, 4, frumtransskript á skinni. Öll (3) innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 992 eptir LXVII, 4, sem var komið frá Sæmundi Magnússyni á Hóli í Bolungarvík, með hendi Árna Magnússonar. Þar með fylgir orðamunr eptir bréfabók Ögmundar biskups (=b). — AM. Fasc. XLVII, 30, skinnrolla skrifuð c. 1536 (=c) eptir LXVII, 4. — AM. Apogr. 2938 (eptir XLVII, 30).

Vm̃ lysing solveigar og lavngetning britar og hennar sysgiña
og svo þær skyllde hvorke arftækar efter modur
(sina) ne einar heiten edur hans brædur.[2])
Liet Biskup augmundur dæma þeim manne Magnuse sem
biskupinn diktade skillde wera brodurson Eýnars Jonssonar. þessi domur gieck i Hollti i Ønundarfirdi
anno 1530 af lonbornum Solueygar sem var
af brigete og hennar bornum oc Olafs
Eirekssonar manns hennar.[3])
Ollum monnum þeim sem þetta bref siá edur heýra.

1) Svo. 2) Utan á bréfinu með samtíða hendi. 3) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld, „Eg meina med hendi Sæmundar Arnasonar (Gislasonar)" (AM).

Senda halldor týrfingsson. þorgils nikvlasson. halldor jonsson. prestar skalholltzbiskupsdæmis. [Olafur gvdmundzson. jon biornsson. ion jonsson[1]. leikmenn. kvediv gudz og sina. kvnnigt og giorandi.[2]) ad[3]) subb anno gracie. ꝏ. d. xxx. ǫ́ fóstudagenn næsta eptir lavrenciusꝏesso j hollti j lꝯdmundarfirdi[4]) worvm vier j dom nefndir af werdugvm herra og andarligvm[5]) fꝯdur j gudi. biskup aǘgmund[6]). at skoda[7]) rannsaka og fullnadardom[8]) ǫ́ ath leggia. hver at vera skýlldi lꝯgligur afgreislvmadur allz reikningskapar kirkivnar a holi j bolungarvik og anara lꝯgligra skullda þeirra sem þar attu at greidazt eptir einar heitenn jonsson fra fallenn sem gud hans sǿl nǿ́di. Kom þar fram fyrir oss olafur bondi eireksson. og lýsti konv sina birgitu lꝯgligañ erfingia epter fýrgreindan [einar brodur sin[9]) til iafns vid adrar hennar systur. en vier wissvm sanliga at til var[10]) brodurson skilgeten af skilgetnum fꝯdur komin. Birte fýr greindur olafur þar fyrir sin bref og skilrike. hver at svo jnne hieldv.

J fyrstv grein kom þar fram orskvrdarbref biskup stephans godrar minningar. at hann orskurdadi adurgreinda brigit og hennar sýstur festarkonv born.

Jtem i annare grein kom þar fram fyrir oss annat [hans bref[11]) hvert er jnni heilt[12]) þꝯ skipti sem hann hafdj giort med þeim bornvm sem solveig biornsdotter lysti sin lꝯngeten born j sinv testamentvm brefi. En þat war opt greind brigit og hennar sýsken hvert hann hafdj giort tveimur vetrum seirña enn sinn wrskurd.

Jtem i þridiv grein kom þar fram fyrir oss dandi manna bref med heilvm og oskodvm[13]) jnnsiglvm ath þeir hefdi hia werit og heýrt wpp ǫ́ at fýrgreind solveig biornsdottir sor fvllan bokareid at sig hefdi eingi madur keýpt nie fest anar en pall ionsson bondi hennar. en fyrir þǫ́ grein at sagt

1) [Jon Biornsson, Jon Jonsson. Olafur Gudmundzson *b*. 2) med þessu voru opnu brefe b. v. *b*. 3) sl. *c*. 4) „ita clarè. carrige *Aunundar*(firdi)“ (AM). — Aunundarfirdi *b*, *c*. 5) andligum c. 6) augmunde *c*. 7) og b. v. *c*. 8) fullnadardoms atkvæde *b*. 9) tvískrifað í *a*, *c*. 10) [brodur sinn Einar til iafns vid adrar hennar systur. Enn af audrum parte var til *b*. 11) [bref hans *c*. 12) Svo. 13) oskoddvm *c*.

skiptingarbref biskupsens[1]) war seinna giort en hans wrskurdur. þvi leizt oss [fýr sagt skiptingarbref þann sama hans vrskurd onýtan giora og ængu [halldanda. bædi fyrir hans bref og hennar bokareid og þessi born þratt greinda brigit og adrar hennar sýstur hvorki eptir sina modur nie eptir greindan einar eda adra hans brędur arftæk wera.[2]) þvi at heilax anda nǭd til kalladri at svo profudu og fyrir oss komnv dæmdvm vær fýrnefndir domsmenn med fvllv doms atkvædi adurgreindan brodurson magnus jonsson lægligan erfingia og añsvarsmann epter greindan einar ionsson og biorn fædurbrædur sina og skylldvgañ allar lægligar skulldir at greida og hans lægligur wmbodzmadur[3]). En þar[4]) þeir birtu i sinvm brefum at solveig biornsdotter hefdi verit fest af ione þollakssyni. en wier vissvm fyrir full sannendj at hun var keýpt og fest af pale heitnvm ionssyni leizt oss þad til sterra[5]) sekta horfa nær at biskupen villdi klaga. en þvi at wær worvm [þar ei[6]) til nefndir kunnu wier þar ecki doms atkvædi ǭ at leggia.

Samþýkti þenna worn dom med oss adurskrifadur herra Avgmund og margir adrir godir menn.

Og til sannenda hier wm setti hann sitt jnsigli med vorvm jnsiglvm fyrir þetta domsbref skrifat i sama stad og are deigi sidar en fýr seigir.[7])

Medkennvzt wier eýiolfur grimsson. ion arason[8]) prestar skalhollz biskupsdæmis. eirekvr gvdmundzson. petur arrason[9]) ad wier hofvm sied og ýfirlesit svo latanda dom med heilvm og oskædvm jnsiglvm ord fyrir ord sem hier fyr skrifat stendur.

Og til sannenda hier wm settvm vier vor jnsiglli fyrer þetta transkriptarbref hvert er skrifat war j skalholti midvikvdagen næstan fyrir exalltacio sancte crucis wm hæstid þǭ lidit war fra gvdz burd ꝏ. d⁰. xxx⁰. primo.

---

1) sl. *c.* 2) [þad þryckia hans urskurde med hennar bokareide, og hennar born þesse i ongvan mata arftæk eptir Einar Jonsson edur adra hans brædur *b.* 3) — mann *c.* 4) þui at *b.* 5) storra *b*; stora *c.* 6) [ecke þar *b*; þar eigi *c.* 7) Árni getr þess að í *b* hafi jafnan staðið „Brijt", en á einum stað „Byrgit". Dagsetning hér 13. og áðr 12. Aug. 8) *c*; arna(!) *a.* 9) arason *c.*

**450.** **13. August 1530.** **í Holti.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna, útnefndr af Ögmundi biskupi i Skálholti um ákærur biskupsins til Vigfúsar Magnússonar fyrir það, að hann hefði brugðið við sig lofan um þjónustu, hvatt Hannes Eggertsson til að taka að sér Sæból, verið í ráðum með Hannesi og Torfa Björnssyni um rógsbréf um biskup til konungs, að Torfi mágr hans hefði sært mann í kirkjugarði fyrir Álfadal og um affall bænhússins í Hjarðardal.

Landsbókasafn 122. 4to bl. 185—188, skr. c. 1770 eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Um̄ Watnsfiörd ok Rógsbref.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siá edur heyra senda Jon Eireksson. Hallur Augmundsson. Jon Gudmundsson. prestar Skalholltsbiskupsdæmes. Jon Hallsson. Jon Þorsteinsson ok Ellingur Gislason leikmenn kvediu Guds og sina kunnugt giörande þá lided var frá hingadburde vors herra Jesu Christi M. D. xxx ár um sumared tveim nóttum fyrer Assumptio Sanctæ Mariæ i Hollte i Ønundarfirde. vorum vier i dóm nefnder af verdugum̄ herra i Gude biskup Øgmund. ad skoda ok ransaka ok fullnadardoms atkvæde á ad leggia um̄ þær akiærur. er biskupenn klagade til Wigfus Magnussonar. J fyrstu grein. ad hann hefde giefest i hans valld. ok lofad hönum̄ sinne þiónustu ok þar ecke af hallded. Jtem i annare grein. ad hann hefde eggiad Hannes Eggertsson ad taka ad sier jördena Sæbol. Jtem i þridiu grein ad hann hefde vered i Rádum̄ ok samþycke med Hannese Eggertssyne og Torfa Biörnssyne um̄ þau forræ(g)ingarbref er þeir socktu fram̄ fyrer kongenn upp á hans bak ok heilagrar Skalhollts kirkiu. J fiórdu grein ad Torfe heitenn broder hans qvinuu særde mann i kyrkiugarde fyrir Alfadal. og hefde ecke nægelse þar fyrer giört heilagre Skalhollts kirkiu. J fimtu grein ad af er falled bænhused i Hiardardal. ok nidre leged lánga tima. ok hefde hann ecke láted upp giöra. ok ecke hans forelldrar. enn þeir voru þo offt amin̄ter af sinum̄ yferbodum.[1]) hefde fyrr skrifadur Wigfus lofad ad

1) yfirbodurum, hdr.

svara biskupenum þar sem stefndur. hvad er hann kieñdest þar fyrer oss dómsmonnum. þvi dæmdum̃ vier þar hann lòglega fyrerkalladañ. Enn um̃ þær saker er biskupenn klagade til hañs um̃ hylle ok samþycke ok rádagiòrdum̃ med þeim Hannese og Torfa um̃ þau forræ(g)elsesbref sem þeir socktu upp a biskupenn og kirkiuna. baud hann fyrer bokareid. Þvi ad svo profudu ok fyrer oss komnu dæmdum̃ vier fyrrskrifader dómsmenn med fullu doms atkvæde hann skyllduguañ ad vinna siòttareid. hvern er hann sor þar fyrer biskupenum ok oss dómsmonnum. so látanda ord effter ord sem her seger. ad hann hefde hvòrke lagt til rád nie samþycke. ok ei hans kvinna ad sinu vite. ok ei um̃ beded nie nockra peninga til gefed um þau bref sem Torfe heitenn ok Hannes Eggertsson hafa sokt fyrer kongenn um̃ Watnsfiord ok onnur gótz. þvi leitst oss hann þar vid skildur. Enn um̃ þær saker sem biskupenn klagade til hans og hans qvinnu. vegna Torfa heitens. er þá var ordenn hans Erfinge. leitst oss horfa til harra saka ok stórra. þvi oss þótti i þeim brefum̃ er hann sokte vera bæde rofeñ sátt su er giaurd var á millum̃ kyrkiunnar ok Erfingia Biarna(r) Gudnasonar. ok forræging upp á biskupenn. Þvi dæmdum̃ vier fyrr skrifadañ Fusa vegna sinnar qvinnu. ok adra Erfingia Torfa heitens skyllduga ad giallda biskupenum tiutiu merkur. ok adrar vegna kyrkiunnar. Enn ef biskupenn hefde grunsama nockra frændur Torfa edur teingdamenn ad þeir hefdu vered ad þessum rőgə edur rugle med þeim. þá dæmdum̃ vær þá skyllduga ad vinna jafnañ eid ok Wigfus hefur unned. Enn hvòr sem ad a hònum̃ fellur leist oss sekur tvennum̃. lx. mòrkum vid kyrkiuna ok biskupenn. Enn um̃ þad logbrot sem Torfi giaurde i kyrkiugards saurgunenne dæmdum̃ vær biskupenum̃ og kyrkiunne. xv. merkur. Enn um̃ bænhused dæmdum vær hann skylldugañ upp ad giòra. ef þad bevisast ad þad hefde átt þar ad vera. ok svara slikre sòk sem lògeñ utvīsa et cetera.

**451.** **29. August 1530.** **á Staðarhóli.**

Dómr sex klerka og sex leikmanna, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um innstæðu og reikningsskap kirkjunnar á Mýrum í Dýrafirði, er Þorleifi Grímssyni eignarmanni kirkjunnar bar fyrir að svara.

Landsbókasafn 62. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ur brefabok biskups Ögmundar".

Dőmur um Mýrar j Dýrafirde.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siä edur heyra. senda Hallur Øgmundsson. Þorleifur Biőrnsson. Pall Olafsson. Olafur Magnússon. Klemens Asmundsson ok Jngemundur Runolfsson prestar Skälholltsbiskupsdæmis. Þorleifur Pälsson. Þorleifur Gudmundsson. Olafur Gudmundsson. Ellingur Gislason. Sigurdur Oddsson ok Jon Hallsson leikmenn. kvediu Gudz og sina. kunnugt giaurande ad sub anno gracie M⁰. D⁰. xxx⁰. jn festo decollationis Johannis baptistæ. ä Stadarhőle j Saurbæ. vorum vær j dom nefnder af verdugum herra ok faudur j Gude biskup Øgmund af Skalhollt. ad skoda ok ransaka ok fullnadardőms atkvæde ä at leggia hversu fara skyllde um kirkiuna ä Myrum j Dyrafirde. um̃ hennar innstædu og reikningskap. Hafde ädur skrifadur biskup Øgmund j sinne visitatio krafest ok bedist lőgligs andsvarsmanns fyrer allañ fyrrgreindañ reikningskap sagdrar kirkiu. Svo ok hafde hann optlega ädur her äminningar ä giort eignarmanne sagds gards Þorleife Grimssyne. Nu af þvi ad þar var einginn lőglegur umbodzmadur ädur greindz Þorleifs innañ fiőrdungs. sem lőg giaura räd fyrer. Þvi ad svo profudu ok fyrer oss komnu. þä dæmdum vier fyrrnefnder dőmsmenn med fullu doms atkvæde sagdañ Þorleif Grimsson skylldugañ. edur hañs lőgligañ umbodzmann. ad vera komenn til optnefndz gards Myra j Dyrafirde. edur j Skalhollt fyrer biskupenn. ef honum þætti þad inndælla. ok giőra þar ok standa fullañ ok allañ reikningskap þrättnefndrar kirkiu ä Myrum j Dyrafirde .xiiij. nőttum fyrer fardaga ad forfallalausu. ok ad heyrdum dőminum .x. vikum fyrer fardaga. Enn ef hvorke kemur optnefndur Þorleifur Grimsson.

ok ecke hañs lòglegur umbodzmadur j nefndañ tima. þá dæmdum vier tidtnefndañ gard á Myrum j Dyrafirde j valld ok uñsiá biskupsins til annara fardaga. Enn ef þá er eingenn lòglegur reikningskapur stadinn af kirkiunnar innstædu portio ok mortuaria. þá dæmdum (vier) optnefndañ gard á Myrum j Dyrafirde fallinn under heilaga Skalholltskirkiu. ok hennar eign þadañ af æfeñlega vera eiga.

---

452. 19. September 1530. á Grenjaðarstöðum.

Síra Brandr Rafnsson lykr og geldr Jóni biskupi á Hólum alla þá peninga, sem honum höfðu til arfs fallið eptir Ísleif Rafnsson sonarson sinn eptir því, sem dómr og herra kongsins bréf þar um gert út visar, en biskup svari til, ef konungr eða Teitr Þorleifsson ákærir gózin; kvittar biskup síra Brand um þau þrjú hundruð og sjötiu Rinargyllini, er Hrafn Brandsson var honum skyldugr og lofar að annast útgreiðslu á löggjöfum Þórunnar Jónsdóttur, en síra Brandr kvittar biskup um meðferð fjánna.

AM. Apogr. 3849 „Ur vidimus 2ja leikmanna [1. Sept.] 1540 og 2ja presta [29. Júlí] 1547“ (AM.). Þar með fylgir og orðamunr með hendi Árna Magnússonar eptir „chartis Hr. Oddz Einarssonar biskups. hveriar eg feck hia nidium hans i Leirárgördum“ (= *b*). — Gömul afskript af þessu béfi er í Landsbókasafni 63. 4to bl. 112—113, frá c. 1640.

Giorningsbref a millum biskups Jons Arasonar og sera Brands Rafnssonar.[1])

Þat giorum vier Petur Palsson. Kietill jonsson. jon olafsson. prestar. þorsteinn finnbogasson. einar bryniolfsson. audun Sygurdzson leikmenn. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. at arum eptter gudz burd m d xxx. manudagen næstañ eptter Exalltationem Sancte crucis a greniadarstodum j reykiadal vorum vier i hia saum og heyrdum a ord og handaband verdug herra biskup Jons af einne alfu og sira brandz hrafnssonar af annare. at suo fyrer skildu. at nefndur sira brandur lucktti og gallt biskup jone alla þa

1) *b*.

peninga. fasta og lausa. frijda og ofrijda. sem honum [haufdu til arfs[1]) fallit eptter Jsleif[2]) rafnsson sonarson sinn. þa sem[3]) kongurinn hafde sellt rafne heitnum brandzsyne. eptter því sem domur og herra kongsins bref[4]) þar vm giortt vtvisar. med þeim skildaga at ef herra kongurinn eda teitur Þorleifsson. sem greinder peningar voru af dæmdir. akiærdu greinda peninga. þat skyllde biskup ȷon forsvara. enn huerer adrer sem akiærdu eda skullder heimtu vppæ greinda peninga. þa skyllde biskup ȷon hallda til laga. enn sira brandur svara lagaripttingum. [Sierliga var[5]) tilskilit i sama handabande. at ef nockur veiter akiæru þeim tveim hlutum [sem teite þorleifssyne hofdu tilheyrtt i ȷordunum asgeirsæ og lækiamote i hunavatzþinge.[6]) þeim skyllde biskup ȷon hallda til laga. enn ef þær kynne med logum undan[7]) ad ganga. þa skyllde Sira brandur suara biskup ȷone suo miklum peningum sem greinder ȷardarparter være verder. Hier i mot gaf og giorde biskup ȷon sira brand aullungis kvittañ [og akiærelausañ[8]) um þau. iijc og lxx. rijns gyllene sem biskup ȷon synde þar med skilrikium at Rafn heitinn brandzson hafde[9]) honum skylldugur verit. lofade biskup ȷon at giallda þorunne [ȷonsdottur[10]) suo mikla peninga vegna sira brandz sem henne bære[11]) med logum at hafa i þær loggiafer sem rafn heitinn brandzson bonde hennar hafde henne med[12]) logum gefit. gaf sira brandur biskup ȷon kvittañ vm halld og medferd er hann hafde haft á ollum þeim peningum sem opttnefndum sira brande hafde til arfs fallid epter Jsleif heitinn rafnsson. Og til sannynda hier um setium vier fyrskrifader menn vor ȷnncigle fyrer þetta bref skrifad i sama stad deie og are sem fyrr seiger.

---

1) [hefde til erfda *b.* 2) heitinn b. v. *b.* 3) herra b. v. *b.* 4) kaupbref *b.* 5) [Svo og var þad *b.* 6) [i jordunum Asgeirsa og Lækiamot i Hunavatnsþinge og Teite Þorleifssyne hafde tilheyrt, *b.* 7) af, *b.* 8) [sl. *b.* 9) hefde *b.* 10) [dottur sinne *b.* 11) bar *b.* 12) ad *b.*

453. **13. Oktober 1530. á Möðruvöllum.**
**10. November 1530. í Miklagarði.**

Kaupmálabréf Ara lögmanns Jónssonar og Haldóru Þorleifsdóttur, er Jón biskup Arason var forsagnarmaðr að.

Syrpa Guðbrands biskups í Biskupsskjalasafni 4to bl. 4—5, skr. c. 1590 (= *a*) — ÍBfél. Khd. 67. 4to bl. 78 með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745). Ágrip þessa bréfs með sömu hendi er í MSteph. 60. 4to bl. 34—35.

vm fiordungsgiof dætra ara logmans [1])

Þad giörum vier magnus ȷonsson beneficiatus a Greniadarstaudum. Eigill hallsson beneficiatus ȷ saurbæ. halldor prestur benedictzson. pietur loptsson. Einar Bryniolfsson. Audun Sugurdzson. Jon Þorlaksson. Simon Þorsteinsson. Þorualldur Arnason og Olafur Ormsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. ad arum eptir Gudz burd 1530 fimtudag næstañ fyrir Lucæ Euangelistę a mődruuollum ȷ Eyiafirdi. vorum vier ȷ hia. saum og heyrdum a ord og handaband ærligra manna Ara Jonssonar lőgmanns af annare alfu. Enn Þorleifs bonda Grijmssonar af annare alfu.[2]) ad[3]) suo fyrir skildu. ad greindur Þorleifur gipti fyrrnefndum Ara halldoru þorleifsdottur dotter sıȷna. lofadi verdugur Biskup Jon med handsőlum. ad Are Jonsson skyllde hafa til kaups med greinda halldoru vj^c hundrada. ad medreiknudum þeim peningum er nefndur Are atte ǻdur. Enn Þorleifur Grijmsson lofadi. ad fyrrnefnd halldora skillldi hafa til kaups med Ara Jonsson iij^c hundrada. ad tilskildum[4]) þeim peningum sem fyrrnefnd halldora atte adur. Gaf fyrrgreindur Þorleifur [adur[5]) sagdre halldoru þorleifsdottur alla ȷőrdina Mődruualle[6]) ȷ Eÿiafirdi med þeim skilmala ad nefndur þorleifur skillde hallda adur sagda ȷord vel og ærliga ȷ sıȷna lijfstijd. nema hann villde fyrr afgreida somu ȷőrd. skilldi Þorleifur fa sőgdum Ara suo mykla peninga til halldz og medferdar sem greind ȷord er verd. og þa saumu pen-

---

1) (Útskripat) af kavpmalabrefi Ara lögmanns Jonssonar biskups og Halldoru Þorleifsdottur 67. 2) sl. 67. 3) 67; Er *a*. 4) og med reiknudum, b. v. 67. 5) [Grimsson fyrr 67. 6) Mödruvelli 67.

inga skyllde nefndur Are hallda sem sijna eígn. þar til fyrr sögd jord være afgreidd. gaf Are Jonsson halldoru þorleifsdottur fiordungsgiof vr sijnum peningum.

[Samþyckti fyrrnefndur[1]) Are Jonsson og Þorleifur Grijmsson med handsölum alla [adur sagda[2]) forsögn og giorning. ad hiaveranda og samþyckianda fyrrnefndre halldoru þorleifsdottur. Var nefndur herra Biskup Jon forsagnarmadur ad aullum adur skrifudum giorninge. og setti sitt secret[3]) med vorum jnnsiglum fyrir þetta bref er giört var j Myklagarde j Eyiafirde fimtudaginn næstañ fyrir marteinsmesso a sama are og fyrr seiger.

---

## 454. 6. Nóvember 1530. á Möðruvöllum.

Kaupmálabréf Ara lögmanns Jónssonar og Haldóru Þorleifsdóttur, er Þorleifr Grímsson léta gera.

Advocates Library Edinb. 21, 7, 14, (FM. 64.) 4to með hendi síra Björns Haldórssonar í Sauðlausdal c. 1770—1780. — MSteph. 27. 4to bls. 51 með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1730. — JSig, 308. 8vo með hendi síra Ásgeirs Bjarnasonar c. 1770.

Kaupmalabref Ara Jonssonar og Halldóru Þorleifsdóttur [sem þorleifur grijmsson let gera.[4])

Jn Nomine Domini amen.

Var so felldr[5]) kaupmali lystr [og stadfestr[6]) á brúdkaupsdegi [heidarlegs manns[7]) Ara Jonssonar logmans[8]) og Erlegrar[9]) qvinnu Halldóru Þorleifsdottur med so felldum[5]) skilmala og feskifttum.[10])

J fyrstu talde Are Jonsson ser til [kaups og konumundar.[11]) vjc hundrada.[12]) J fyrstu jordina Holtastadi i langadal fyrer. jcc og þar til iijc [13]) hundrada i ödrum utjordum og . ijcc i silfri og ödrum þarflegum peningum. Her á mót

---

1) [Samþyktu fyrrnefndir menn 67. 2) [þessa áðurskrifaða 67. 3) innsigli 67. 4) [b. v. 27. 5) latandi 27. 6) 308; festr 64; frá [sl. 27. 7) [sl. 27. 8) b. v. 27. 9) hans, 27. 10) fékaupum 27. 11) [mots vid Halldoru Þorleifsdottur 27. 12) Hér stendr í 64: „i fasteign", en undirpunktað til merkis um, að það á að ganga út. 13) vc (!) 27.

talde Þorleifr bonde Grímsson dóttur sinni Halldóru .iijc hundrada med sinum modurarfi. ad[1]) aungum peningum[2]) til[3]) skildvm. þá spurdi biskup Jon Arason Þorleif bonda Grímsson hvort hann gæfe ecke dóttur sinni [Halldóru[4]) til heimanfylgiu jǫrdina Mǫdruvelli [i Eyafirde.[4]) enn Þorleifr [bondi sagde þar þvert neij fyrer. at hann gæfe henni ei þann gard. edr gilde i heimanfylgiu.[5]) Gaf Ari Jonsson sinni qvinnu Halldoru [fiordungsgiǫf úr fe sinu.[6]) kiǫre Þorleifr [bondi Grímsson[4]) sina dottur [Halldóru[4]) malakonu i gard [þrattnefnds[4]) Ara Jonssonar.

fór [allr[4]) þesse giǫrningr fram i [storu[7]) stofunni á Mǫdruvǫllum [mǫrgum danumonnum hiaverande lærdum og leikum[4]).

Voru desser [epter skrifader[8]) menn kaupvottar [og brudkaupsvitne.[9]) Halldor Benedictsson. Thomas Jonsson prestar. Teitr Magnússon. Jngialldr Magnusson.[10]) Gudmundr Einarssen. Þorlákr Finnbogason. Kolbeinn Jndridason. Bryniulfr Jonsson. Gudmundur[11]) Eireksson. Þorvalldr Arnason og Steinn Jonsson leikmenn.

[Og til sanninda her um sette Þorleifr bondi Grímsson sitt jnnsigli med vorum[12]) fyrskrifadra manna jnnsiglum firir þetta kaupmalabref. hvǫrt er[13]) skrifad var á Mǫdruvǫllum i Eyafirde.[14]) sunnudaginn næstan effter allra heilagra messu [þá lidid var fra Guds burd 1530.[15])

---

## 455. 17. Nóvember 1530. í Skálholti.

Dómr sex klerka og sex leikmanna, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um kærur biskups til Orms Guðmundssonar, að hann hefði rægt sig fyrir útlendum mönnum og sagt, að hann héldi jörðum fyrir sér með rangindum.

---

1) b. v. 27. 2) peninge 308. 3) 27, 208; frá 64. 4) [sl. 27. 5) [afsagde henne þa jord giallda edur gefa 27. 6) [Þorleifsdottur lxc i tilgiof 27. 7) [b. v. 27. 8) b. v. 308. 9) [b. v. 308, 27. 10) Hognason 27. 11) Guondur 27. 12) vorra 308. 13) ed 308. 14) [sette bondenn Þorleifur sitt innsigle med uorum hier firir a Modruvollum 27. 15) [1536, 27.

Landsbókasafn 62. 8vo afskript gerð fyrir Árna Magnússon „ur brefabok biskups Ömundar".

Dőmur um Orm Gudmundzson.

Ollum monnum sem þetta bref siá edur heyra senda Jon Hiedinsson officialis heilagrar Skalholltzkirkiu. Gudmundur Jonsson profastur. Jon Biarnason kirkiuprestur sama stadar. Pall Haflidason. Freysteinn Grimsson. Eir(e)kur Grimsson. prestar Skalhollts biskupsdæmis. Jon Biőrnsson. Haukur Arnason. Olafur Asbiarnarson. Jon Þordarson. Aurnolfur Martheinsson. Gunnsteinn Biarnason. leikmenn. Qvediu Gudz ok sina kunnugt giaurande ad sub anno gratiæ M⁰. D⁰. xxx⁰. á fimtudagenn næstañ fyrer præsentationem Sanctæ Mariæ Virginis j Skrudhusinu j Skalhollte. vorum vier j dőm nefnder af vorum virduligum herra biskup Augmunde j Skalhollte. ad skoda ok ransaka ok fullnadardőm á ad leggia um þá akiæran[1]) sem biskupinn klagadi til Orms bonda Gudmundssonar. Var hann stefndur og kom stefnan innsiglud j daginn. þvi dæmdum vier stefnuna lauglega ok hann riettelega fyrerkalladañ. Var hans bedist og krafed. ok kom ecke. Þvi dæmdum vier hann sekañ mőrk j stefnufall. Jn primis klagadi biskupinn þad til Orms Gudmundssonar. ad hann hefde rægt sig fyrer utlendskum mőnnum. og sagt ad hann hiellde jőrdum fyrer sier med rangindum. Þvi ad heilags anda nád tilkalladri. ad svo profudu ok fyrer oss komnu dæmdum vier fyrrnefnder dőmsmenn med fullu dőms atkvæde ádurgreindañ Orm skylldugañ ad sveria lyritareid ok tveir skilviser menn med honum. ad hann hafi alldreigi rægt biskupinn fyrer utlendskum mőnnum hvorke leyndt nie liőst. Enn ef hann fiellist á eidnum. þá dæmdum vier hann riettañ rőgsmann. ok sliku sekañ sem biskupinn være ef hann være sannur ad sők. ok sekañ .lx. mőrkum vid heilaga Skálholltzkirkiu. skylldi eidurinn unninn fyrer jol. fyrer biskupenum. edur hans umbodzmanne.

J annarre grein leitst oss biskupinn eiga ad leida tvő lőgleg vitni. med hvoriu skilorde ad Are heitinn Andresson

1) Svo.

lofade Orme nockrum peningum. ok ad þeim leiddum. þã leitst oss Orm(ur) eiga ad svara fyrir þã menn. sem þad sõru. ad Are heitenn hafde giefed hõnum þessa peninga forordslaust.

---

456. 13. December 1530. 16. Marts 1531. } í Þykkvaskógi.

Þorleifr Gamalíelsson selr Bjarna syni sínum tíu hundruð í jörðunni Jörfa í Haukadal, en galt honum fimm hundruð í jörðunni fyrir þau fimm hundruð, er „Gamael“ (Gamalíel) faðir Þorleifs gaf Bjarna sonarsyni sínum, og kvittar Þorleifr Bjarna um andvirði hálfrar jarðarinnar Jörfa.

AM. Apogr. 2268 með hendi Magnúsar Einarssonar eptir frumritinu á skinni meðal Jörfabréfa „accuraté collatum“.

Þat giorum vit sira pall prestur olafsson og þorleifur gudmundzson godum monnum kunnegt med þessu ockrv optnu brefui j stofunne ȷ þÿckuãskogi uppa sialfan magnusmessudag. þa uar lidit fra gudz burd. ꝏ. d. xx. og tíju ãr. þar uorum uit ȷ hia saum og heÿrdum uit uppã ord og handaband þessara manna þorleifs gamalelssonar[1]) og biarna þorleifssonar. sonar hans. þat faldizt og skildizt j og under þessarã manna handabañdi at fyri skrifadr þorleifur gamalelisson[1]) selldi sÿne sinum biarnã þorleifssÿne .x. hundrvt [vpp] j jordina ȷorfua i haukadal er liggur ȷ uazthorns[1]) kirkiu sokn uñdan sier og sinum erfingium. en under biarna og hans erfingia enn hier fyrir þa gaf biarne faudur sinum þorleifi .x. c. ȷ malnÿtu og fridum peningum. ȷ annare grein gallt þratt nefndur þorleifur biarna sÿne sinum fim .c. upp ȷ fyrr nefnda ȷord ȷorfua ȷ haukadal fyrer þau fim .c. er gamael[1]) gaf biarna þorleifssyne sonarsÿne sinum. upp j jordina kolgrafer. skÿldi biarne eignazt þann helming jardarennar sem þorleifur keÿpti at magnuse biornssÿne med aullum sinum gognum og gædum. Suo og medkennunzt ek opptnefndr þorleifur gamalelsson[1]) at ec hefer ut teket og uppbored af

1) Svo.

syne minum biarnđā fulla ok allđā peninga fyrir nefnda jord halfan jorfa .xu. hundrud at dýrleika suo sem mier uel likar og anæger. Þui gef ec hann aulldungis kuittan og akærulausan fyrir mier og aullum minum erfingium og epterkomeñdum um greindrar jardar uerd. en til meire stadfesstu og sannenda hier um set ec þorleifur gamalelsson[1]) mitt jnnzigle med fýrrnefndra manna jnnsiglum fyrir þetta giorningsbref huertt er skrifad uar j þýckuaskogi j middolum gudmundardac[1]) um ueturenn đāri sidar enn fýrre greiner.

---

457. 1530. Í Hjarðarholti(?)

Ögmundr biskup í Skálholti fær Ólafi bónda Guðmundssyni fult umboð yfir garðinum Hóli í Bolungarvík og öllu því gózi, sem þar til heyrir.

Landsbókasafn 122. 4to bls. 204—205, með hendi c. 1770 eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Um̄ Hól i Bolungarvik.

Vier Øgmund med Guds nád biskup i Skalhollte giôrum̄ gódum monnum kunnugt med þessu minu opnu brefe. ad vier hôfum bitalad Olafe bonda Gudmundssýne fullt valld og umbod yfer gardenum̄ Hóle i Bolungarvik med ôllu þvi Gótse faustu ok lausu sem þar til heyrer.[2]) med þeim jôrdum sem þar under liggia. skal hann þar i ollum̄ hlutum̄ fullmegtugur forradsmann blifa. sier sialfum til gagns og góda gardenum̄ ok kyrkiunne til uppreistar. Kann þar ad reka hval edur vidu skal þad leggiast til gardsens. utañ þau Tre sem heilagre Skálhollts kyrkiu kunna ad koma til nytta. þau skulu ecke fargast. Skal þetta vort umbod standa næstu þria xij mánude ok þat leingur vier giorum̄ her ecke adra skickan á. Ok til til sannenda her um um̄ þryckium vier Jnnsiglum̄ vorum̄ á þetta bref skrifad i [H(iardar)h(ollte)[3]) Anno M. D. xxx.

---

1) Svo. 2) heyra, hdr. 3) [„H. H.“, handr. og sú athugasemd (AM.) við: „forte Hiardarhollte“.

458. [1530.]

Ögmundr biskup í Skálholti selr Klemusi Jónssyni jörðina Indriðastaði í Skorradal fyrir þrjátigi hundraða, en landbúar Skálholtsstaðar í Heyness umboði skulu hafa þar skógarhögg æ jafnan, og greiða friðvirt hundrað þeim, sem á Indriðastöðum býr; þar með hefir Klemus lofað að vera biskupsins maðr honum og dómkirkjunni til styrks.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Árna Magnússonar „ur Brefabok biskups Ögmundar", og er afskriptin staðfest í Skálholti 9. Okt. 1711 af Árna Magnússyni, Ormi Daðasyni, Þórði Þórðarssyni og Páli Hákonarsyni. „Bref þad sem i bokinne er næst fyrir framan þetta Jndridastadabref. er af dato 1523, þau sem næst epter koma eru daterud 1530. og kynni þetta Jndridastadabref ä sama äre (1530) daterad vera. Þó er eckert vist argument her af ad taka. þvi bokin er vida confuse digesta. Þad er vist ad brefed er elldra enn 1538. þvi þess getur i einum dóme daterudum ä þessu äre 1538." (AM.) — AM. Apogr. 2706 óstaðfest afskript með hendi Árna Magnússonar, og setr hann þar ártal „ante 1538".

Um Jndridastade.

Vier Ogmund med gudz nad biskup i Skalhollte giorum godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad vier hofum setlt Clemus Jonssyne iordina alla Jndridastade er liggur i Skoradal. Her i mot skal hann gefa oss .xxx c i þeim peningum sem oss vel likar. hofum vier upp borid x^c sem oss vel anæger. Skulu stadarins landbuar i Heyness umbode hafa þar skőgarhőgg æ iafnan sem þa naudsyniar til rapta ok kola. oc greida fridvirdt hundrad þeim sem a Jndridastodum byr. þa skogurinn er nautnadur. Her med hefur hann lofad ad vera vor mann. ok veita oss ok heilagre Skalholltskirkiu þann styrk sem honum er mogulegt et cetera.

---

459. [1530].

Ögmundr biskup í Skálholti afleysir og kvittar Solveigu Björnsdóttur af fyrstu barneign í fjórmennings frændsemi með síra Filippusi Jónssyni.

Landsbókasafn 122. 4to bls. 203—204, með hendi frá c. 1770 eptir

bréfabók Ögmundar biskups. „Næstu brefeñ fyrer framañ þetta eru dat. 1530. Þad sem næst effter fylger 1531. mun so þetta á odru hveriu þessu áre dat. vera. Þo er þetta ecke vist þvi bokeñ er vida confuso ordine digesta“ (AM).

Kvittun Solveigar Biðrnsdóttur.

Vier Øgmund et cetera.

giorum gódum̃ monnum̃ kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad vie hôfum afleïsa láted Solveigu Biornsdottur af þvi misferle. sem hun hefur i ratad med Sira Philippus Jonssýne in prima prolificatione ok quarto gradu affinitatis. ok sett henne pænitentias competentes sem brotenu tilheyrer. svo ok hefe(r) hun blifed i hlydne ok forlikun vid oss. sem oss vel ánæger. Þvi giðrum vier hana ok gefum olldungis kvitta ok ákiærulausa fyrer oss ok ðllum vorum Effterkomendum heilagrar Skalhollts kyrkiu formonnum um̃ fyrr skrifad brot et cetera.

---

460. [1530].

Ögmundr biskup í Skálholti tekr Guðrúnu húsfreyju Finnbogadóttur í prófentu á staðinn í Skálholti, og hefir Guðrún gefið með sér tuttugu hundraða jörð í Austfjörðum og þrettán hundruð í góðum peningum.

AM. Apogr. 2744 með hendi Árna Magnússonar „ur brefabok biskups Ogmundar“. „Sira Gudmundur Jonsson var radzmadur 1530. Jtem 1538“ (AM).

Profentubref.

Vier Ogmund med guds nad biskup i Skalhollte. giorum godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad med rade ok samþycke Radzmannsins Sera Gudmundar Jonssonar hofum vier giort svoddan kaupskap vid Gudrunu husfreyu finnbogadottur. hefur hun gefed kirkiunne i Skalhollte ok oss tuttugu hundrada iord i Austfiordum. ok þar til xiij° i godum peningum. Her i mot skal hun hafa æfinlegt fram̃fære ok proventu a stadnum i Skalhollte. sess i badstofu enn sæng i skǒla. ok litla kofann sem vier hofum̃

giaura lated fyrer framan prestaskála. vod og skirtulierept sier til klæda. ok skoledur sem hana naudsyniar. Ok til sanninda her um et cetera.

---

461. [1530].

Ögmundr biskup í Skálholti fær Ólofu húsfreyju Björnsdóttur til eignar jörðina Höfn í Hraunskirkjusókn (við Dýrafjörð), sökum þess að Ólof hefir verið biskupi og kirkjunni til styrks og góða og lofar að gera svo framvegis.

AM. Apogr. 2713 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ogmundar". „Brefin sem hier eru næst fyrir framan eru daterud 1530—31. Annars er bokin hier og annarstadar confuse digesta."

Um iordina Hőfn.

Vier Øgmund med guds nad et cetera.

saker þess ad Olof husfreyja Biőrnsdotter hefur vered oss oc heilagre Skalholltzkirkiu til styrks oc goda. ok hefur lofad oss ad giora svo framvegis. þvi hofum vier feinged greindre Olufu husfreyu iordina Hőfn er liggur i Hrauns kirkiu sokn. til til fullrar eignar med ollum þeim gognum oc gædum sem greindre iordu fylger og fylgt hefur ad fornu oc nyu. bæde til sios og landz.

Ok til sanninda her um et cetera.

---

462. [1530].

Fúsi (Sigfús) bóndi Brúnmannsson fær Őgmundi biskupi í Skálholti jörðina Dal í Valþjórsdal (Valþjófsdal) til meðferðar, en biskup fær honum í mót til aftekta jörðina Dynjandi, þrjú eyðikot í Arnarfirði, Kirkjuból og Hóla í Dýrafirði; svo hefir og Fúsi feingið biskupi til fullrar eignar þann part í jörðunni Hjarðardal, sem honum og Ólofu Bjőrnsdóttúr konu hans kemr til, með fleira, er bréfið greinir.

AM. Apogr. 2714 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ogmundar". „Næst fyrir framan þetta bref er bref um Hofn

i Hraunskirkiusokn, sine anno, en þau sem epter koma eru confus, so þar er ecki upp ä ad byggia". (AM).

Um iordina Valþiorsdal.

Vier Ogmund med gndz nad et cetera.

ad Fuse bonde Bruñmañsson hefur feingit oss til medferdar jordina Dal i Valþiorsdal. Enn vier hofum feingit honum annan iarda dyrleika til aftekta. er þar til nefnd iordin Dyniande. ok þriu eydekot er þar liggia nær i Hrafnseyrar kirkiu sokn. Kirkiubol oc Hola i Sandakirkiu sokn. svo leinge ad vid giorum þar fullañ kaupskap upp a. Svo oc hofum vier undirbundist ad forlikast vid Sera Bard um þau xij^c^. sem i þvi kaupbrefe standa sem Snæbiorn heitinn gislason giorde vid petur heitinn Vigfusson. Sömuleidis hefur adurnefndur Fuse. feinged oss til fullrar eignar þann part i Hiardardal sem honum til kemur oc hans kuinnu Olofu Biornsdottur.

Ok til sanninda her um et cetera.

---

**463. 1530.**

Skrá um landamerki ȷarðarinnar Presthvamms í Grenjaðarstaðarþinguni.

AM. Apogr. 125, og var það ritað aptan á bréfið um Presthvamm frá 30. Apr. 1529 (Nr. 405) „með hende eigi miog nyrre, þö nyrre enn brefed sialft er" (AM.)

anno ꝏ d xxx.

Þessi ero landamerki ȷardarinnar presthuams:

fyrir vtañ rædur gardur sa er gengur wr laxȧ og upp eptir hvarfe oc so yfer vm hȧls oc ȷ gard þann er girdir fyir ofan slij. rædur sıȷdan sa gardur allt ut i kalldakijl nema klømbur a þar xviij skȧra annadhuort ȧr: ȷ iarfollvm ȧ presthuammur manadar beit a svmar enn langavazmenn hingat a hals a vetur þa þarf frañ fra a laxærdal rædur gardur sa er geingur vndan grasteini til ær oc rettsyni a fiall vpp·

En fyrir austañ halsinn rædur þvfa sv er stendur vid æna undan hor ærhoolum[1]) oc so rettsyni vestur a fiall.

---

464. 1530.

Skrá um eignir staðarins á Hallormsstöðum í Skógum, þá er Oddr Arason afhenti, en síra Bartholomeus Egilsson tók við.

Máldagabókin gamla í Biskupsskjalasafni, bl. 142 b skr. 1601.

Hallormstadur.

Anno domini m. d. xxx⁰.

Suo mycklir penijñgar vtlucktter æ hallorm̃stðdum þa oddur arason afeñte enn sijra bartholomeus eigilson med tok.

Jn primis fiðgur(ra) vetra gamallt naut j huñdrad. viij. kýr gilldar med þuj ad xix alñir oc xx voru lagdar ofañ a þriar kyrñar. ix asaudar kugilldi gilld. halft v. ærgillde fyrir kapal. tuæuetur kapall .v. vetra gamall hestur j huñdrad. annar hestur ix vetra gamall,

Jtem stockur oc kista.

Jtem ij katllar voñdir oc j pottur.

Jtem j bediar slitur oc j hægiñde voñt.

Jtem iiij trediskar. tinfat oc kanna. fimm spænir. iiij skalir .v. vppgiordarkerǫlld. allt þetta giortt fyrir .c. ad auk var [braudreid[2]) og tialldslitur.

Jtem foñz vm̃bunijngur med krosse. vj klukkur. ij messuklæde alfær. ij kalekar messufærir. ij kañtarakäpur. onnur miog voñd. tuttugu bækur. et cetera.

---

465. 1530. í Stafholti.

Virðingargerð á stað og kirkiu í Stafholti og skrá um eignir þeirra, þá er Narfi prestr slepti, en síra Freysteinn Grímsson tók við.

Eignaskjalabók Stafholtskirkju í Landsskjalasafninu, og er þetta

1) Svo Apogr. 2) braud reid, hdr.

skrifað c. 1680 (= *a*). — AM. Apogr. 3244 „ex charta Stafholt. non originali“, og sýnist þessi afskript ekki geta verið gerð eptir nefndri skjalabók (= *b*).

Anno Domini M D xxx.

Voru so mikler peningar i Stafhollte. þa Sira Narfe sleppti Enn Sira freýsteinn tők vid. xx. kýr. xviij ǻsaudar kugillde. Var þetta allz og allz. med þui sem ǻ jördunum var. xiij^c i gielldum saudum .iij^c i gielldum nautum og xi kaplar.

Jtem var þetta jnnan gǻtta. ij strockar. viij kerölld og voru bædi lasin og laggbrotin. iij ker. sǻer miog lasner. Býrda ejn og [ur botnenn. ij fotur og eirn[1]) drýckiaraskur. x. skerbord. vij smǻskǻler. ij dukar vonder. ij konnur og önnur loklaus. ij katlar miög ellder. eirn pottur. og var gat ǻ. ij sængur gamlar og dunlitlar. ij^c med ǻklædenu og öllu saman.

Var kýrkian giörd fyrir xxv^c. Enn stadurinn allur med uthusum xx^c.

Voru þesser mǻtzmenn. S(ira) Olafur gilzson. S(ira) Biorn Þorgilsson. S(ira) Halldor gijslason. Hakon biörgolfsson. gudmundur gudmundsson. og Olafur gijslason lejkmenn.[2])

---

466. [um 1530].

Lögfesta Tumasar prests Eiríkssonar fyrir landi Mælifellsstaðar í Skagafirði.

Kirkjustóll Mælifellskirkju í Landskjalasafninu, og er þetta skrifað 1752, og afskriptin staðfest af síra Jóni Magnússyni á Mælifelli.

---

1) [*b*; felt úr í *a*. 2) Í Landsbókasafni 108. 4to bls. 392 stendr þessi klausa með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal, tekin eptir síra Jóni Eigilssyni í Stafholti: „Þá síra Freysteinn Grímsson meðtók Stafholt, en síra Narfi slepti, var datum 1530. Síra Freysteinn hélt staðinn 38 ár. Þorvaldur Björnsson meðtók staðinn eptir síra Freystein Anno 1568 og hélt hann og hans kvinna í 3 ár, og hann hafði kistu í Nikulásskeri fyrsta ár og veiddi þar í. Þar eptir meðtók Jón prestr Egilsson Anno 1571, og hefur haldið hann í 23 ár (lof guði), en nú er Anno 1594. Summa 64 ár frá því síra Freysteinn meðtók staðinn og til þessa“.

Copia af Logfestu Sira Tomasar Eirekssonar til hvorrar vijsad er i hier fyrer framan skrifudum vitnisburdum um̃ Mælefells landeign.

Eg Tumas prestur Eireksson logfeste hier i dag first stadenn Mælefell ut ad Mælefellsá og riettsynes ofañ med Mælefellsá. so med Svartæ sudur i markgard og riettsýne upp ur markgarde og upp i urdardal og fram̃ med Mælefellsá þessu meigeñ og allañ Mælefellsdal frá læk þeim sem næst er Reikia Reit fýrer framañ hniukamýrar. hlaupkinn og Einarsdal. halft Tiarnargil þessu meigiñ og sudur i hæringsgil. og riettsýne ur hæringsgile og austur i heidar i mots vid Gilhagamenn. Þar med akra og Todur eingiar og skoga. haga og allar landsnitiar er þvi lande eiga ad filgia ad fornu nýu til utmerkia þeirra er adrer menn eiga i mote bæde ad ordfullu og logmale Riettu. Firerbýd eg hvorium manne hiedañ af ad nýta sier edur i ad vinna nema mitt sie lof edur leife til ad vitne þijnu og þijnu N. og allra þeirra er ord mijn heira.

Þesse Sira Tumas var annar prestur a Mælifelli þad næst verdur komist af gomlum halfskinsbrefum sem vid kyrkiuna hafa leigid a hvorium ad finst þessi logfesta.

---

467. [um 1530].

Skrá um landamerki Starrastaða í Skagafirði.

Kirkjustóll Mælifells í Landsskjalasafni, skr. 1752. Á undan þessu er í bókinni Lögfesta sira Tumasar Eirikssonar: „Þessi Sira Tumas var annar prestur a Mælifelli þad næst verdur komist af gomlum kalfskinsbrefum sem vid kyrkiuna hafa leigid a hvorium ad finst þessi logfesta“.

Þesse eru landamerke Starastad(a):

ad austañ Svartæ þegar hun reñur under hafgrijmsstada laugar hől.

ad nordañ markgardur sem geingur upp ur itra presthől víd Svartá og ur honum til fialls uppi urdardal.

eñ ad suñan űr Torfhől ep(t)er garde og til fialls under heidar hofud. rædur þa rigguriñ ad vestañ.

---

468. [um 1530].

Vidimus af bréfum, er snerta arf eptir Solveigu Björnsdóttur, Víðidalstunguvíg (1483) og dóma Jóns lögmanns Sigmundssonar.

AM. Apogr. 3894 og 3895 „Ex transseripto membraneo, sem nu er i eigu logmannsens Pals Ionssonar Widalin". „Bæde þesse transscripta eru rituð með einne og somu hende. Eg ä morg bref sem eg ætla Biorn Þorleifsson (Biarnarsonar hins rika) hafe skrifad. þyker mier honden ä þeim, (hellst þeim sidare af sogdum brefum) vera i morgu lik hendenne sem er ä þessum tveimur transscriptis, Enda eru sumer, staferner riett oliker. Er eg so i efa um, hvert hönden ä þessum tveimur transscriptis sie su hin sama, sem eg eigna Birne þorleifssyne, eda onnur henne i morgu, enn eigi ollu, lik. Og er eg nær þvi ad þad mune ecki hin sama hond. Enn þad er vist, og af skriftar formenu ä þessum 2ur transscriptis, audsied, ad þau eru ritud hier um anno Christi 1530. og ad visu ecki miklu sidar." (AM).

Þad giorvm vier þorsteinn ketelsson. arñe olafsson. Eyviñdur marteinsson. joñ olafsson og suartur palsson godum monnum kunnigt med þessv voru opñu brefi. ad uier hofum sied og lessit. og heyrtt yfer lessit suo fellda doma og onnur uitnisburdarbref er þessum domum til heyra bæde lęrdra og leikra. Med þeirra heilum og oskoddum hanganda jnnsiglum so latañde ord epter ord sem hier eptter æ greiner. Enn sacker margra hluta er j greindum domum standa. og margmęltra orda. sem þar ero jnsett. og þessum epterfaranda greinum varlla einvirduliga til koma. Og ero þvi þesser hluter og articulis vr adursaugdvm domvm teckner. sem einkanliga hlioda og utskyra. fyrst vm̃ þann dom̃. sem dæmdur var j bolstadarhlid j langadal [o. s. frv. og kemr þá:

1. ágrip af Bólstaðarhlíðardómi um arf eptir Solveigu Björnsdóttur frá 21. Júní 1497 (= DI. VII, Nr. 383).
2. ágrip af úrskurði Finnboga lögmanns Jónssonar um Bólstaðarhlíðardóm, Ási í Öxarfirði 20. Aug. 1498 (= DI. VII, Nr. 418).
3. Dómr Gottskálks biskups um bréfagerðir Jóns Sigmundssonar frá 18. Aug. 1514 (= DI, VIII, Nr. 389).
4. Vitnisburðr Sigurðar prests Þorlákssonar frá 29. Febr. 1500 (= DI, VII, Nr. 486).
5. Vitnisburðr Egils Grímssonar frá 24. Sept. 1485 (= DI, VI, Nr. 491).

Þar með endar 3894 og hefir aldrei verið á ritað vidimus, og transscriptum aldrei verið innsiglað. Þá kemr framar í 3895:
6. Vitntnisburðr Einar Oddssonar frá 7. Okt. 1485 (= DI, VI, Nr. 493).
7. Vitnisburðr Bárðar Jónssonar frá 4. Nóv. 1485 (=DI, VI, Nr. 494).
8. Vitnisburðr um falsbréfagerðir Jóns Sigmundssonar frá 23. Marts 1528 (= Nr. 367 að framan).

Á 3895 hefir aldrei verið ritað vidimus að niðurlagi, en fyrir því voru fimm innsigli. Bæði transscripta voru frá Flatey á Breiðafirði].

---

469. [c. 1530 — c. 1600].

Skrá um landamerki Fíflholta í Hraunhrepp á Mýrum, vottuð af Skapta prófasti Loptssyni á Setbergi (1571—1621) eptir handskript Brands Einarssonar (Moldar-Brands) og síra Einars heitins Snorrasonar, en þeir fóru eptir lýsing og tilsögn Ásmundar heitins Jónssonar —, svo og eptir frásögn Helga heitins Jakobssonar og Jóns heitins Bjarnasonar.

AM. Apogr. 3950, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna, „ex originali“ á kálfskinni, sem var mjög máðr.

Páll alþingismaðr Sigurðsson í Árkvörn nefnir í ritgerð sinni um örnefni og goðorð í Rangárþingi (Safn til sögu Íslands II, 528) „lögfestu eða vitnisburð“ „af 1380“ um landamerki Fíflholta *í Landeyjum*, þar sem getið sé um *Hvítstein* og *Hvítsteinsás*, og dregr hann þar af styrking til þess, að Hvítanes, sem goðorðið var við kent, muni vera hið sama land og nú kallast Fíflholt. En það má mikið vera, ef hér er ekki eitthvað blandað málinu, og ef ekki er alt eitt og sama bréfið, sem Páll vitnar í og það, sem hér er, eða þá að fyrir hann hefir borið eldra bréf um landamerki Fíflholts *á Mýrum* frá 1380, — ef byggja má á frásögn hans um ártalið, — sem hann svo hefir ætlað að væri um landamerki Fíflholts í Landeyjum, er honum var miklu kunnari jörð en hin. Því að það væri undarleg tilviljun, ef það skyldi hittast svo á, að örnefnið „Hvítsteinsás“ væri bæði landamerki Fíflholta á Mýrum og Fíflholta í Landeyjum. En að þetta skjal, sem hér er prentað, sé um landamerki Fíflholta á Mýrum, er varla mjög vafasamt. Þeir feðgar síra Einar Ölduhryggjarskáld og Moldar-Brandr, sem um hríð bjó á Snorrastöðum í Kolbeinsstaðahrepp, voru gagnkunnugir á Mýrunum, og þeir frændr áttu þar óðul. Marteinn biskup átti Álptanes á Mýrum og fluttist þangað þegar hann lét af biskupsdómi, og þar í andaðist hann (1576). Síðan áttu niðjar

hans Álptanes langaleingi og bjuggu þar. En austr í Landeyjum hafa þeir frændr ekki verið kunnugir. Hér við bætist og það, að Ásmundr sá Jónsson, sem hér er vitnað til, getr verið sami maðr og Ásmundr Jónsson sá, sem nefndr er á skjali einu, nær 300 ára gömlu, um landamerki Hraundals í Hraunhrepp. Virðist Ásmundr þessi hafa verið skilríkr maðr, orðið gamall og búið leingi á þessum slóðum. Tímans vegna gæti það staðizt, og er í sjálfu sér ekki ólíklegt, að það sé Ásmundr bróðir Stepháns biskups, sem stundum hefir verið kallaðr hinn „verri“ — til að aðgreiningar frá bróður sínum með sama nafni —, en biskup kallaði sjálfr (í gamni) „Ásmund bónda hærulang“. Ásmundr var móðurbróðir Moldar-Brands, bróðir Ingiríðar fylgikonu síra Einars Snorrasonar. Það lægi því ekki fjarri, að það væri einmitt hann, sem er heimildarmaðr þeirra feðga um þessi landamerki. Til frekari fullvissu um það, að hér er um landamerki Fíflholta *á Mýrum* að ræða, er þess getandi, að til er lögfesta um landamerki Fíflholta á Mýrum gagnvart Einholti frá 24. Ágúst 1712, og þar er einmitt talið sumt af sömu örnefnunum sem í þessu bréfi, svo sem *Þórarinsás* og *Hlöðuskógsholt*[1]).

Svo fellda handskrift hefi eg med haundum haft ýferlesid og í mijnum briefum var bijuarad Brandz Einarssonar og sera Einars heitiñs Snorasonar eptir lysing og tilsaugn asmundar heitinns Jonssonar umm landamerki kringum fijflholltt er suo hliodadi

J firstu rædur sionhending ur kalfsshollti j brautavatn. þa rædur sa floalækur er ur brautavatni rennur ofan j sauravatn. þa rædur sionhending ur þeim lækiaros ok i þa holma er vestast eru í sauravatni. Sionhending ur holmunum og i nedri þorariñsäshola. ur þorarinsasholum og i blikstein a midium hlauduskogi. ur steininum og i lækiarhaulkn nedan i nordlæk ofan undan huijtsteinsás. ur haulkninu og i midian huijtsteinsás. ur huijtsteinsas og i stapan a nedri grunnavatzholum firir nedan ælaveituskard. ur stapanum og i griotvadit a fiskilæk. da rædur lækur i kieravatn. ur midiu kieravatni. og i mőkielduna sem geingur i melsa firir utan slodhollt. þa rædur áin upp allt ad gardas broti. ur gardinum sionhending og i griothaulknid i melzlæk. þa rædur lækurinn i kalfshollt etcetera.

Jtem lystu þeir firir mier og morgum audrum monnum

1) Bréfabók Jóns prófasts Halldórssonar bls. 427—428.

Helgi heitinn Jacobsson og Jon heitinn Biarnason ad þeir hefdi þessi saumu landamerki heyrt sier elldri menn seigia bædi sem j fijflholltum hefdu buid og suo audrum jaurdum þar um krijng. Skapti Loptsson.

---

470. [1530—1538].

Dómr sex klerka útnefndr af Ögmundi biskupi um hjónaband Bjarnar Þorbjarnarsonar og Þorgerðar Jónsdóttur.

Ny kgl. saml 1847 4to C, 26, bók síra Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði skr. 1669. A spássíu stendr með sömu hendi: „Datum ovijst". — Sira Guðmundr Jónsson var ráðsmaðr í Skálholti að vísu bæði 1530 og 1538. Gæti þessi dómr verið frá þeim árum. Ártalið 1520, sem stendr hér í fyrirsögninni, fær ekki staðizt. Þá var einginn Skálholtsbiskup reglulegr hér í landi.

Dómur um mein á milli hjóna dæmdur í tið biskups Ögmundar Anno 1520.

Jn nomine domini amen.

Vér Jón Héðinsson officialis heilagrar Skálholtskirkju, Guðmundur Jónsson ráðsmann sama staðar, Jón Bjarnarson kirkjuprestur, Oddur Haldórsson, Eiríkur Grímsson, Stephán Hallkelsson, prestar Skálholtsstigtis vorum í dóm nefndir af herra biskupinum Anno . . . .[1])

Jn primis um þau mein, er upp komu í milli Bjarnar Þorbjarnarsonar og Þorgerðar Jónsdóttur, dæmdum vér, að tvö lögleg vitni skyldu sverja fyrir prófastinum síra Birni Ólafssyni, að greind mein hefðu upp komið innan lýsinga. Að þeim eiði unnum var greindra manna hjónaband dæmt ómyndugt og að aungvu haldandi og þau bæði skyldug að taka lausn og skriptir fyrir sína ofdirfð. Eigi síður prestinn, sá sem þennan hjúskap hefur saman bundið, fallinn í bann og forboð, skyldugan að taka lausn og skript fyrir sína óviturlega framhleyping.

Og til sanninda et cetera.

---

1) [Ártal vantar hér í handritið.

471. 2. Janúar 1531. á Hólum.
23. Júní 1532. á Hofi.

Jón biskup Arason á Hólum selr Þórunni Jónsdóttur, dóttur sinni, jörðina Fjósatungu í Fnjóskadal fyrir jörðina Krossavík í Vopnafirði. Þar með fylgir skýrsla Jóns biskups (frá 1534 eða síðar) um skipti hans og Páls bónda Vigfússonar eptir síra Magnús heitinn Jónsson frá fallinn, — í vidisse tveggja manna frá 17. Júní 1556 og annara tveggja frá 20. Júní 1562.

A.

AM. Apogr. 3951 með hendi Jóns Magnússonar „Ex transscripto", sem var á pappír.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda grimur jonsson. jon olafsson. gudmundur jndridason. Eirikur petursson. kuediu gudz oc sijna kunnigt giorande. arum epter Gudz burd ꝏ. d. xxx oc eitt æ holum j hialltadal nivnda dag iola vorum vier i hia saum og heyrdum a ord oc handaband verdugs herra biskups jons oc þorunnar dottur hans at suo fyrir skildu at biskup jon arason sellde og gallt greindre þorunne jonsdottur. dottur sinne. jordina fiosatvngu er liggur j fnioskadal i jllugastada kirkiu sokn fyrir fimtige hundrud til fullrar eignar med ollum þeim gognum og giædum sem greindre jordu æ med logum at fylgia oc hann vard fremst eigande at. hier j mot gaf nefnd þorunn jordina krossavijk er liggur i vopnafirde j refsstada kirkiu sokn med ollum þeim gognum oc giædum sem greindre jordu atte med logum at fylgia. skyllde huort hallda þeim jordum til laga er keypte en suara lagariptingum a þeirre er sellde. Og til saninda her vm setium vier biskup jon vort secretum med fyrskrifadra manna jnsiglum fyrir þetta bref er skrifat var æ hofe a hofdastrond sunnudagin næstañ fyrir jons(messo) bapthisti vm sumarit are sijdar enn fyr seigier.

Þat giorum vid gudmundr skijdason prestur oc þorbergur bessason leikmann godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefe at vid hofum sied oc yfer lesid med heilum

oc oskoddum hangande jnsiglum suo latande bref sem hier fyrir skrifad stendur. ord epter ord. og til saninda hier vm setium vid ockar jnsigle fyrir þetta bref er skrifat var a grund j Eyafirdi miduikudagin næstañ fyrir jonsmessu baptista. arum epter gudz burd. ꝏ. d. l. vi.

## B.

AM. 255. 4to bls. 344—346, bréfabók síra Skúla Þorlákssonar skr. 1687—1698.

Fiosatungu ahrærande brieff a Papijr med 1 jnncigle.

Þad Er vort forsuar vid Pal bonda Vigfusson. vm þa peninga vier settum hönum j panta fyrer þa lofun ad vier og vor frænde Sira Magnus heitinn giordum a Hlijdarenda.[1]) at effter greindañ Magnus heitinn frafallenn.[2]) kom neffndur Pall bonde heim til Hoola. og budum vær honum þa penijnga sem vær hoffdum j lofun lagt. Enn hann sagdi neij vid og sagdist vilia hafa þad vier villdum honum gott til giöra. og þar effter feingum vær honum so penijnga at vær hugdum honum mundi vel lijka. og hier vppa lofadj hann oss sijnu kuittunarbrieffe. at oss og honum odrucknum.

Þeijm godum monnum sem þetta brieff sia edur heÿra senda Grijmur Jonsson. Jon Olafsson. Gudmundur Jndridason. Eyrekur Pietursson. kuediu guds og sijna. kunnugt giörande arum effter guds burd ꝏ. d. xxx og eitt. a Hoolum j Hialltadal. nijunda dag joola vorum vier j hia. saum og heirdum aa ord og handaband. verdugs Herra Biskups Jonz og Þorunar dottur hañz. ad so firir skilldu. ad biskup Jon Arason selldi og gallt greindri Þorunj Jonzdottur. dottur sinne. jordena Fiösatungu. er liggur j fnioskadal j Jllugastada kirkiusokn. fyrer fimtige hundrud til fullrar Eignar med ollum þeim gögnum og giædum sem greindri jördu a med lögum ad filgia. og hann vard fremst eigandi ad. Hier j mot gaff neffnd Þorunn jordena Krossavijk. er liggur j Vopnafirde j Refsstada kirkiusokn med öllum þeim gögnum og giædum sem greindre jordu atte med lögum ad filgia. skillde huört hallda þeim jordum thil laga er keipte. og

1) Sjá bréf frá 4. Sept. 1533. 2) Sira Magnús dó 1534.

suara lagarifftıȷngum a þeirre er selldj. Og til sannenda hier vm̄ setium vier biskup Jon vort secretum med firr skriffadra manna ȷnnciglum fyrer þetta brieff. er skrifad var a Hofe a Hôfdaströnd sunnudægenn næstañ fyrer Jonsmessu[1]) baptisti vm̄ sumarid. are sıȷdar enn firr seiger.

Þad giorum vid sira Þordur Brandsson. Sueirn Bardarson og Halldor Þorlaksson leikmenn godum mönnum kunnugt med þessu ockru opnu briefe ad vid hofum sied og yferlesed med heilum oskoddudum hangandi ȷnnciglum suo latandi brieff sem hier firer skriffad stendur. ord effter ord og thil sannenda hier vm̄ setium vid ockar ȷnncigle fyrer þetta brieff er skriffad var a Grund ȷ Eyafirde laugardægenn næstañ fyrer Jonzmessu Baptista arum Epter gudz burd ꝏ. d lx og ij ǻr.

---

## 472. 29. Janúar 1531. Í Skálholti.

Kaupmálabréf Ólafs Narfasonar og Solveigar Björnsdóttur.

Landsbókasafn 62. 8ᵒᵛ með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar".

Kaupmalabref Olafs Narfasonar og Solveigar Biornsdottur.

Vier Ogmund med gudz nad et cetera.

ad a sunnudaginn næstan epter Palsmessu um veturinn for svoddan giorningur fram̄ i millum Olafs Narfasonar ok Solvegar Biornsdottur a þeirra Brullaupsdeige i Skalhollte anno Domini. M⁰. D⁰. xxxj⁰. Talde Olafur sier hundrad hundrada. þar i mot logdum vier Solvegu aptur þa peninga sem vier hofdum ad oss teked uppa þad sakferle sem hun hafde i ratad. svo hun skyllde hafa onnur hundrad hundrud. Voru þar til skildar[2]) Stackar. Lambavatn og Kolltsvík.[2]) Enn adra peninga þa hun matte eiga med logum hia modur sinne[3])

---

1) Hér stendr „Bap" í hdr., sem er ofaukið. 2) Svo. 3) Hér var autt bil í bókinni og er eins í afskriptinni, en Árni segir svo: „Lacuna similiter in codice; at nil deesse videtur".

eda annarstadar a vestfiordum lagde hun heilagre Skalholltzkirkiu til upphelldis.

Voru þessir giorningsvottar. Sera Þordur Olafsson Badzmann. Sera Eyolfur Grimsson kirkiupestur. ok Jon Biornsson frændi hennar. med odrum fleirum godum monnum.

Ok til sanninda et cetera.

---

**473.** **6. April 1531.** **Kelduvík.**

Vitnisburðarbréf, að Reykjareitr „milli Reykjasels og ár þeirrar, sem fullr vestan úr Kiðaskarði og ofan í Mælifellsá“, hafi verið haldinn eign Reykja (í Tungusveit).

AM. Apogr. 4117 „Ex originali“ með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna,

Suo felldan vitnesburd ber ec helge niculason at ec var uppvaxtarmadur a mælefellza þa sæmundur biorgolfson bio a reykivm ȷ tungvsueit og þar efter var ec vinnvmadur a mælefelle ȷ tvngosueit hia halldore sigurdsyni og ȷ þeirre sueit var ec uppa þriatige ara edur leingur enn ec er nv sextogur madur og uissa ec fyrir full sannende at upp a þav þriatigo are sem ec var þar var sa hinn same reitur sem liggvr ȷ mille reykjasels og ar þeirrar sem fellvr vestan vr kidaskarde og ofan ȷ mælefellza og var þa kalladur reykjareitur og hann var þa hafdur og halldin obrigdulig eign reykia upp a allan þann tima og þeir sem a reykiom byggio hver efter annan leto bæde riifa hriis i þessum sama reit og allar gagnsnytiar af hafa suo sem þeir ætte og eingen fann þa at ne akiærde· og alldre var þesse reitur þa eignadur nema reykium suo ec heyrda og alldre heyrda ec nockurn mann anan eigna sier þenna reit nema nv fyrir fám arum. Ok til sanninda hier vm set ec mitt ȷnsigle fyrir þetta vitnesburdarbref er giort var ȷ kielldoviik a skaga fimtodagen ȷ helgo viko arum efter gudz burd ꝏ. d. xxx og eitt ar.

---

**474.** **17. Apríl 1531.** **í Gaulverjabæ.**

Tylftardómr klerka, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um kærur biskups til Sigvarðs ábóta (í Þykkvabæ) fyrir það, að hann hafði sett sig fyrir kirkjunnar vald og biskupsins og afleyst bróður Jón Árnason, sem opinber var orðinn að barneign.

Landsbókasafn 62. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „ur brefabok Ögmundar biskups" (AM).

Um ǻbőta Sigvard.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siǻ edur heyra senda Þorleifur Eireksson. Jon Einarsson. Gudmundur Jonsson. Stephan Gislason. Sæmundur Arnason. Jon Gislason. Biarne Þorleifsson. Þőrdur Pǻlsson. Olafur Simonarson. Þormődur Gunlǫgsson. Jon Jonsson. Biarne Gudmundsson. prestar Skalhollts biskupsdæmis. kvediu Gudz og sina kunnugt giǫrande ad sub anno gratiæ M°. D°. xxx° oc j°. ǻ manudaginn næsta epter pǻskaviku j Gaulveriabæ j Flőa. vorum vier j dőm nefnder af ærligum herra og andligum faudur. herra Øgmund med Gudz nad biskup af Skalhollte. ad skoda og ransaka ok fullnadardőm ǻ ad leggia. hverra svara edur sekta ǻbőte Sigvardur være skylldugur fyrer þad hann hafde sett sig fyrer kirkiunnar valld ok biskupsins. ok hafde afleÿst brődur Jőn Arnason. sem openber var ordenn ad barneign. Hafdi abotenn ongva skiallega vǫrn ok lǫglega grein hier ǻ mőte. Vitum vier kirkiunnar lǫgmǻl liőslega banna. ad eingenn þingaprestur ǻ ad giǫra j annars þingum. nie nockur profastur j annars umdæme. Eirna sist brőder j biskupsens vallde. Her med var þesse brőder adur kiendur j mǫrgum ősidsamlegum hlutum ȷ sǫgdu klaustre. og fullur med őhlydne ǻ mőte sinum yfermonnum. Þvi ad heilags (anda) nǻd tilkalladre. ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn. ǻbőtans heidur og klaustred j Þyckvabæ ȷ biskupsins vallde ok umsiǻ. ok hann meige setia þangad þann seculares prest til Radzmanns sem honum likar. et cetera.

---

575. **9. Mai 1531. í Núpufelli.**

Dómr sex manna, útnefndr af Einari Brynólfssyni, er þá hafði sýslu í Vöðluþingi í umboð Ara lögmanns Jónssonar, um þann arf, er Jón Jónsson kallaði sér fallið hafa til umboðs vegna barna sinna eptir Hallottu Jónsdóttur, en Þorvaldr Árnason reiknaði sér hálfan arfinn eptir Hallottu systurdóttur sína til móts við sonu Ólofar Jónsdóttur.

AM. Fasc. XLVIII, 1, frumrit á skinni. Af 6 innsiglum eru 5 enn fyrir bréfinu. — Afskript meðal jarðabókarskjala Árna Magnússonar, Eyjafjarðarsýsla 3, staðfest 28. Apr. 1704 á Öngulstöðum af Sigurði Hrólfssyni og Jóni Þorleifssyni, eptir transscripto frá 5. Júní 1573.

Domur vm̄ umbod Barna Hallottu Jonzdottur epter hana fra fallna 1531.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra Senda Þorleifur grimsson. arne petursson. Simon Þorsteinsson. ion þorlaksson. þorsteinn simonarson. logriettvmenn og ȷon ionsson kuediv gudz og sina kvnnigt giorandi þa lidit uar fra gudz burd ꝏ d xx og xi ár faustudaginn næstan epter krossmesso vm uorit[1]) ȷ saurbæ ȷ eẏiafirdi æ þingstad ʀiettum uorum vier ȷ dom nefnder af ærligum dandi manni Einare brẏniolfssyne er þa hafdi kongsens syslv ȷ uodluþingi ȷ vmbodi ara ȷonssonar logmanns at skoda og ʀansaka og dom æ at leggia vm þann arf er ȷon ionsson kalladi sier fallit hafa til vmbodz uegna barna sinna epter hallottv heitna ionsdottur. Enn þorualldur arnason ʀeiknadi sier þennan arf halfan̄ epter systurdottur sina hallottu til motz vid sonv olufar ionsdottur. Nv med þui at ion ionsson gat huorki synt bref nie loglig vitni at hann hefdi fest konv sina at logvm og aungvm vitnvm uændizt hann þeim oss þotti nockut afl hafa þui dæmdum vier fẏr nefnder domsmenn børn ions ȷonssonar uit skilin vit þenna arf. Enn fẏr nefndan þorualld arason logligan erfingia sagdrar hallottv og sonv olufar ionsdottur. Suo og dæmdum uier at þessi arfur all-

1) þ. e. 5. Mai.

ur skylldi ut gialldazt at næstvm fardogum og þrattnefndan þoruалld arnason og sigurd stullason riettiliga mega at sier taka þa peninga sem med hennar morkum erv. Samþyckti þenna uorn dom ꝍdur nefndur einar brýniolfsson. Og til sannenda hier vm setivm uier fýr nefnder domsmenn uor insigli fyrir þetta domsbref er skrifat uar j nupufelli j eýiafirdi þridiadaginn næstan fyrir Gordiani martiris æ sama ære sem fyr seigir.

---

**476. 19. Maí 1531. í Þrándheimi.**

Bréf Ólafs Engilbertssonar erkibiskups í Þrándheimi til Esge Bilde höfuðsmanns á Bergenhúsi, þar sem hann afsakar, að hann geti ekki komið til „herradagsins", sem halda eigi um Jónsmessuleytið í Kaupmannahöfn, og meðal annars ræðr frá því, að Hamborgarar hafi Ísland og Færeyjar að léni, með öðru fleira, er hann telr Noregi ganga þunglega.

Dipl. Norv. IX, Nr. 670 (eptir tveim frumritum í Ríkisskjalasafni Dana, Norge 1. Fasc. 41 *a* og *b*). Hér er að eins það tekið úr bréfinu, er snertir Ísland og Hansastaðina.

Jtem staar wæll till troende ath the Lybske med the andre Hendzestæder [fforarbedendes worde[1]) paa thette herremøde om stadffestelsæ och ydermere priuilegier paa theres købenskaff och handli(n)g i Bergen Oslo och flere stadz hær i [riged landid[2]) till skade och fforderff och wore thet ecke gott eller nytteligtt ath saa skedde.

Jtem thet ath Hamborger haffwe Jsland och Ffærøyer[3]) i fforlæning ær fatigæ Nories inbyggere [besynderligæ[4]) Nordffarer mygid till skade som then vare som ther faller haffwe behoff gud bedre thæt hær ær dog nogh sagned i Hietland Orknøy Wiken och then aarligæ rentæ som konggin i Norie skulde haffwe aff konggin i Skotland ffor Sørøyer och Katenes.

---

1) [wille fforarbede, *b*. 2) [Norie riged, *b*. 3) borte, b. v. í *b*. 4) synderligæ, *b*.

477. 26. Mai 1531. á Staðarhóli.

Haldór prestr Tyrfingsson vottar, að hann viti ekki til, að Sigurðr bóndi Narfason og Ívar heitinn bróðir hans hafi gert neinn gjörning um landamerki Tungu og ytra Fagradals (á Skarðsströnd) leingr en þeir lifði báðir.

AM. Fasc. XLVIII, 2, frumrit á skinni, og er brot af innsiglinu enn fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 5801 með hendi Árna Magnússonar eptir frumritinu.

Þat geri eg halldor prestr týrfingsson godum monnum viturligt med þessu minv opno brefi at alldreigi hefi eg hia þui verit suo eg muni þat at þeir brædr sigurdr bondi narfason og ȷvar heitinn broder hans sem gud hans sal nade gerdi nockrn giorning med sier þann logligr uære vm landamerki ȷ mille tvngv og ytra fagradals leingr enn þeir lifdv bader. her uil (eg) epter sveria ef þurfa þiker. Og til saninda her um festa eg mitt ȷnsigle fyrir þetta bref skrifat æ stadarholi ȷ saurbæ fostodagin næsta fyrir huitasunnv arum epter guds bvrd. ϖ. d. xxx og eitt ar.

---

478. 15. Júní 1531. í Skálholti.

Ögmundr biskup í Skálholti setr þá Sigurð og Pantaleon Ólafssyni í fullkomið forboð og fyrirbýðr þeim svefn og samneyti við nokkurn mann fyrir það, að þeir hafa innsett sig á peninga kirkjunnar á Hóli í Bolungarvík með ófrelsi, þvert á móti kirkjunnar lögmáli.

Landsbókasafn 62, 8vo, afskript með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“.

Um Hol i Bolungarvik[1]).

Vier Ogmund med gudz nad biskup i Skalhollte giorum godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. Saker þess ad Sigurdur ok Pantaleon Olafssyner hafa sig innsett

1) „Óhelgisbrjef“ er bætt hér við með hendi Jóns bókavarðar Árnasonar. (d. 1888).

a kirkiunnar peninga a Hole i Bolungarvik. med ofrelse. sem oss ok heilagre Skalholltzkirkiu tilheyrer. þvert a mote kirkiunnar lôgmale. þvi setium vier þa i fullkomlegt forbod. ok fyrerbiodum þeim svefn oc samneyte vid nockurn mann. þar til ad þeir koma til saunrar idranar ok yferbotar vid gud oc h(eilaga) kirkiu oc oss. Biodum vier oc skipum Sera Gisla[1]) Nikulassyne ad lesa þetta vort bref. svo hǻtt ok skiled. ad þeir meige vel heyra ef þeir vilia. ok setia sitt innsigle ad secundam cautam.[2]) ad hann hefur þessa vora skipun fullgiort.

Ok til sanninda her um þryckium vier vort insigle fyrer þetta forbodsbref. Skrifad i Skalhollte in festo octava corporis Christi. Anno Domini M⁰. d⁰. xxxj⁰.

---

**479.** **16. Júní 1531.** **á Húsafelli.**

Vidisse af Kalmanstungudómi frá 23. Júlí 1530.

AM. Fasc. XLVII, 29, frumtransskriptið á skinni. Brot af öðru innsiglinu er fyrir bréfinu.

[Hér kemr Kalmanstungudómr frá 23. Júlí 1530, Nr. 447 að framan].

Þad medkennvnst vid ion biornson og einar einarson ath vid havfum yfer lesit og sied svolatanda domsbref med heilvm og hangvndvm insiglvm ord epter ord sem hier fyrr skrifad stendur. ok til sanninda hier vm sietium(!) vid ockor insigle fyrir þetta transkriftarbref hvert er skrifat var ǻ hvsaferli j borgarfirde proxima die ante festum sancti botolfi abbatis. Anno domini ꝏ⁰. d⁰ xxxi.

---

**480.** **30. Júní 1531.** **á Öxarárþingi.**

Tylftardómr, útnefndr af Ara Jónssyni lögmanni norðan og vestan á Íslandi, um búlausa menn, vinnufólk, verkakaup, varningskaup og búsetumenn.

---

1) „alibi hic idem *Þorgils* nuncupatur“ (AM). 2) Svo.

AM 238. 4to bl. 105b—106b, með hendi Vigfúsar sýslumanns Jónssonar á Kalastöðum c. 1570. — ÍBfél. Khd. 309. 8vo bl. 70—72, Öxnafellsbók með hendi Árna Magnússonar i Ögri c. 1620. — ÍBfél. Khd. 125. 4to A og B, skr. c. 1680 og fyrri. Dómr þessi er til afar víða í dómabókum frá ýmsum tímum. Sbr. næsta dóm hér á eptir (Nr. 481).

Alþingisdomur um lausamenn.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra sendir pietur loptzson Einar bryniolfsson. Jon Olafsson.[1]) gisli hakonarson dadi gudmundzson. Magnus bryniolfsson. stigur hoskuldsson[2]). þormodur arason. [Audun Sijgurdzson. þorualldur arnason. biarni skulason og jon þorlaksson[3]) q(uediu) G(uds) og s(ina) (kunnigt giörande) þa lidit uar fra gudz burd. 1531. faustudaginn nærstan eptir pieturs messu og pals ä almenniligu auxararþingi uorum uier j dom nefndir af[4]) ærligum dandis manni Ara Jonssyni laugmanni fyrir nordañ og uestañ ä Jslandi ad skoda og ransaka og fullnadardom ä ad leggia. um þann mykla osid er eflist j landinu er almuginn klagadi þa þar um þa bulausa menn er færi j[5]) sueitirnar og metti sig margir ut fyrir kugilldi edur.[6]) ij c edur meira. er eigi uinna til .x. aura edur þui nær.[7]) Stendur suo j uorum landzlaugum[8]) ad þar ed laugbok skyrir eigi ut med anefndum greinum. þa dæmi þar um laugmadur og laugriettumenn Suo og um þa adra grein um uarningskaup j sueitum ad þeir kaupa uarning[9]) er aungua tiund giora edur þui nær og þeim uæri[10]) eingiñ naudsyn j ad kaupa. suo sem er um skrudklædi[11]) edur adrar þarfleysur. og selia þar ut fyrir sina hialp og þeirra fatækra manna er þeim ber lifsbiorg ad ueita. Suo og j annari grein mundi minn herra kongurinn missa þar fyrir sinn skatt. og suo þeir menn sina peninga sem jord og kugilldi edur adrar laugligar skulldir ætti hia þeim. Og[12]) þui j gudz nafni Amen. Dæmdum uier

1) 309; Jolafsson(!) 238. 2) 125 (og Nr. 481); hakonarson(!) 238 og mörg fleiri. 3) [Jon Gijslason. Eiolfur Magnusson. Þordur Jonsson. Jon Einarsson 125b 4) welburdugum og b. v. 309. 5) wm, ýms hdrr. 6) sumir 309. 7) Nu, b. v. 309. 8) landzloga bok 309 (þingf. 4). 9) marger b. v. 309. 10) er 309. 11) skrudklædaburd 309. Sbr. Framf. 13. 12) sl. 309.

fýr nefndir menn med fullu doms atquædi. j fýrstu grein um þa menn er attu .iij. omaga[1]) fram ad færa edur .ij. og feingu þeir ecki tuegia missira uist.[2]) og uæri þad satt. ad þeir skýlldu meiga uinna med frij j sueitum ꝍ sumariñ med mauguligu kaupi.[3]) ad sa er ynni ad akuædum skylldi taka kugilldi j kaup. og .viij. alner uadmals enn sa er uinnur ad halfum akuædum skylldi taka .lxxx. alner j kaup[4]) og þeim mun minna sem þeir ynni minna. enn aller þeir menn sem sier feingi tuegia missira uist og uæri þad satt. og uilldi þeir eigi vinna[5]) þa dæmdum uier upptækañ allañ afla þeirra af kongs umbodzmanni og bændum j sueitinni. vtañ suo mikid er þeir hefdi ad erfdum tekid. suo og skylldu þeir aunguañ kaupskap hafa j hieradinu. vtañ þeir hefdi tuegia missira uist og uæri þad satt[6]). konur sem karlar. enn þeir kallar og konur sem eigi uilldi uinna. þa dæmdum uier þeim .vij.[7]) keyrishaugg af syslumanni. enn þeir sem uilldu ueria med oddi og egg. þa dæmdum uier þa riettlausa er stædu fyrir dæmdu gossi. enn hina fridhelga er laga uilia gæta. enn ef þeir feingi bana. þa skýlldi uera undir kongs myskunn bædi þegn og bætur. enn huer þa styrkir j moti [uorum þessum[8]) domi. þa dæmdum uier hann sekañ .iiij. maurkum uid kong. Suo og um þa menn er lieti born sin ganga ꝍ uonaruaul. og peninga ætti. þa skylldi hreppstiornarmenn meiga taka suo mikid af hans fie sem barnit þýrfti sier til framfærslu þa .xij manudi. Suo og skylldu aunguir busetumenn uera j landinu þeir ed eigi hafa bufie ad fæda sig uid edur minna fie eiga enn 3ç og skylldir ad uinna sier[9]) tuegia missira biorg þeir ed eigi ættu fiolskylldu fram ad færa. enn um kaupalag ꝍ uarningi skylldi uera[10]) eptir þui sem bændur og syslumenn uerda ꝍ sattir vid þa menn er hann meiga med riettu selia edur kaupa.

Samþyckti þennan uorn dom adur skrifadur [laugmadur Ari Jonsson oc setti sitt jnsigli med uorum jnsiglum. hird-

---

1) b. v. 309. 2) biorg 309. 3) kaupgialldi 309. 4) og halft þetta vadmal, b. v. 125b 5) b. v. 309. 6) og uæri, stendr hér í 238, en því er ofaukið. 7) hdrr. hafa hér ýmist vj, vij eða viij. 8) [þessum uorum 309. 9) b. v. 309. 10) fara 309.

stiorinn og aull laugriettañ firir nordan oc vestan a Jslandi fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad deigi oc ari sem fyr seigier.[1])

---

481. **30. Júní 1531. á Öxarárþingi.**
**16. Júlí 1531. í Húsavík.**

Tylftardómr, útnefndr af Ara Jónssyni lögmanni norðan og vestan á Íslandi, þar sem þeir samþykkja og staðfesta Píningsdóm frá 1. Júlí 1490 (DI, VI, Nr. 617), dæma um búlausa menn, lausamenn, húsgangsmenn, og um þá menn, er hlaupa frá börnum sínum og láta börn sín fara á húsgang.

ÍBfél. Khd. 309. 8vo bl. 154b—155b. Öxnafellsfólk með hendi Ara Magnússonar í Ögri, skr. c. 1620. Dómr þessi er víða til i margvíslegum ágripum, en því nær hvergi heill, nema hér. Það er dálitið efunarmál, hvort þetta er heldr sérstakr dómr eða önnur útgáfa af næstu dómi hér á undan (Nr. 480) frá sama degi.

Alþijngisdomur vppa pijningsdom.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heira senda pietur lopttsson. Einar Briniolfson. Jon Olafson. Gijsli hækoñarson. dadi gudmundsson. magnus biornsson. Stijgur Hoskulldsson. þormodur arñason. audun Sigurdsson. Jon þorlaksson. þorwalldur arñason og biarni skwlason Logrettumenn Q(uediu) G(uds) og sijna kunnigtt giorandi ad arum eptir gudz burd ꝏ d xxxj fostudaginn næstañ eptir pieturs messu oc palz a almenniligu auxararþingi worum wier j dom nefndir af heidurligum manni Ara Jonssýni L(ogmanni) nordan og westan a Jslañdi ad skoda oc Ransaka og fullnadar doms (atkuædi) a ad leggia.

i firstu grein huertt sæ domur skilldi halldast obrigdanliga sem didrik pijning hirdstiori hefdi dæma latid med bestu manna Raadi a alþijngi. huer domur j firstu greinir huern frid vtlendskir menn skulu hafa hier j landit. og þær fleiri greinir sem þar jnnj standa.

---

1) [309; laugmann og setti sitt jnnsigli 238.

Suo og klogudu þar margier godir menn fyrir Laugmanninum ad þeir bwlausir menn sem wæri j landinu giordu Bændunum mickil oskil

Nu sakier þess vier vorum til doms nefndir wm þessi mælefni oc vor landslagabok su tilwijsar. ad þar sem laugbok skier eigi skilwijsliga vr.[1]) þæ skal þad wr hweriu mæli hafa sem laugmadur oc logriettumenn verda a sãttir.

Suo og j annari grein stendur suo skrifat. ad þann wrskurd sem Laugmadur giorir mæ eingi madur Riufa nema kongur siai annad sannara med vitrustu manna Radi.

Þui ad gudz nafni til kolludu dæmdum vier firsagdan pijningsdom mindugan staudugan og Laugligañ wera oc verid hafa med ollum sijnum greinum sem hann jnni helldur. þui oss wirdtist hann eptir logum og landsins ed besta dæmdur hafa werid.

Suo oc hofum vier dæmt ad þeir lausamenn sem oskil giordu og ecki vilia vinna hia bændum þæ sie vpptækt alltt þeirra aflagottz. þad þeir hafa ecki ad Erfdum tekid. skal kongs vmbodzmadur luka þar huerium sijna skulld af. eptir þui sem Lǒg skipa. vm þæ bwlausa menn er oskil giora og skulldir eiga ad luka þæ taki syslumadur vp(p) gots þeirra med vitordi skilvijsra Bænda og lwki huerium sijna skulld. enn þad sem skulldum verdur afhlaups Eignist syslumadur halftt enn bændur jnnan hreps þeir sem vpp taka fied med syslumanninum halftt. þar til ad .vj. merckur koma a syslumansins hlut. enn ef meira er þa eignist kongur.

Suo og hofum vier dæmtt med anefndri grein sex keyrishogg suo marcki fyrir hueriu hǒggi korllum oc konum þeim sem vinnufær wæri og færi a hwsgang og vilia ecki vinna hia bændum.

Suo og þeir menn karllar edur konur sem hlaupa burtt fræ sijnum bornum. hafi hwdlæt þar sem þeir werda teknir. enn syslumenn skylldugier til ad lata leggia þessar Refsingar a þegar þeim eru mennirnir færdir.

hofum vier og dæmt syslumonnum vpptæka peninga

1) vm, hdr.

fyrir þeim monnum sem sijn born lata fara a hwsgang suo mykid sem legst fyrir barnid arid wm krijng. enn ef nockrer stædi fyrir þæ falla ogildir. þui oss virdtist nu slykar ohæfur of miog j oveniur dragast þui margier læta nu sijn born fara a hwsgang. þeir sem forlax €yrir hafa.

Og til sanninda hier wm setium vier vor jnsigli fyrir þetta domsbref er giortt var j hwsawijk æ tiornesi sunnudæginn næstan fyrir thorlaksmessu wm sumarid a sama ari og firr seigier.

---

## 482. [1531 eða síðar].

Kaupsetning eptir lögbók Ara lögmanns Jónssonar.

AM. 229. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon eptir lögbók, er Ari lögmaðr Jónsson hafði látið rita 1540, og Brynjólfr biskup eignaðist 1651, en Árni fékk að láni hjá Oddi lögmanni Sigurðssyni (sbr. AM. 37b 8vo). Þetta var þó með nokkuru nýjari, enn þó gamalli, hendi. Sbr. Nr. 480 og 481.

Eg |—o—|° kongs umbodzman j |—o—| þingi set hier grid og frid sem log og landz vani er til ad j kaupstodum eigu ad vera med aullum monnum svo leingi sem kaupstefnan stendur Svo og set eg kaup vid alla þa menn sem ǎ þvi skipi eru sem nu hier firir landi liggur svo leinge sem þeir þurfu med sama skip ad liggia og þeir hallda sett grid og sannan frid. medur þvi ad halldist halfstyckiskaup. Rǎdi landzmenn halfu enn utlendsker halfu bædi j þungavarningi og lettavarningi.

Hafe hvorertveggiu Retta vog. rietta stiku. og riettann mæli svo ad .cc. marka rett mælltra sie j tunnu hverri af falslausum bior vine. mioli. mallti. lysi edur brennisteini. og af aullu audru þvi sem j tunnum verdur keypt eda selldt af Jslenzkum edur utlenskum klart og falslaust.

Sie vintunna selld ǎ c. fiska.
miadartunna .lx. fiska.
biortunna xxx. fiska.
mioltunna .xxx. fiska.

mallt tunna .xx. fiska.

hunangs tunna .c. fiska.

Sallt tunna .xl. fiska.

halfstycki varningsklædi(s) sem heldur .xxiiij. stikur firir .c. fiska.

Enn tvigilldt klædi halft stycki. cc. fiska.

Enn dyrra klædi kaupi ecki utan þeir menn sem ad aull klædi mega bera ad laugum.

Varnings lerept einbreitt kaupist upp á þria fiska alin.

Enn tvibreidt upp á vj fiska.

enn dyrra lerept kaupist ecki.

Enn allur annar lettavarningur kaupist epter þvi sem kaupi og sali semur.

Hier j mot gialldi landzmenn hveria alin gialldvadmáls firir þria fiska. enn ef betra [er] vadmal edur vara gialldist sem kaupi og sale nemur.

lysistunna .c. fiska.

brennisteinstunua .lx. fiska.

Fyrerbyd eg ad skreid edur smiðr seliest ut af landinu vtan svo mikid sem utlendsker menn hafa sier til matar medan þeir liggia vid landit. og þeir þurfa framm yfer hafit. og seliest svo dyrt utlendskum sem Jslendskum.

ij. fiordungar smiðrs upp á vætt fiska.

hver sem audruvis selur edur kauper sie upptækt kongs umbodzmanni þad fie sem selldt edur keypt verdur med slikri sekt sem domur dæmer.

Skullder utlendskra manna gialldist firir Olafsmesso fyrri. svo ad utlendsker og Jslendsker fae riett laug hvorier af audrum j fyrr sagdan tima.

Kongur á edur hanns umbodzmadur fyrst kaup á aullum varninge edur þarfindum hvort sem hafa utlendsker menn edur innlendsker. þá skal honum fyrst selia firir slikt verd sem adrer kaupa. og um allt þad sem hann þikist kaups vid þurfa og falt er. þa skal hans umbodzmanni fyrst selia þeim sem hann giðrer til.

Jtem ad þeir menn sie eigi ut af landinu flutter sem ad ecki hafa skilrikra manna innsiglud bref firir sier ad þeir skulu med skilum fara og skiæligum erendum.

haulldum þessi adur sogd kaup kongi vorum til heidurs. aullum til gagns og goda.

---

483. 3. Júlí 1531. í Hvammi.

Testamentisbréf Teits Þorleifssonar.

Bisk. Skalh. Fasc. XIII, 4, frumrit á tveim skinnblöðum, og er framhald bréfsins á minna blaðinu, sem læst var við stærra blaðið með fjórum innsiglum. Á dögum Árna Magnússonar voru fimm innsigli fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá. Bréfið er nú stórlega máð og svo sem ólesandi, því allr síðari hluti þess hefir verið ritaðr með daufu bleki. — AM. Apogr. 2457 „accuratissimè", og er afskriptin leiðrétt af Árna sjálfum. Það, sem þá var ólesandi og Árni hefir fylt í eyðurnar, er hér sett í kornklofa.

Testamentum Bref Teitz Þorleifssonar.

Jn nomine domini. amen.

Saker þess at manizs[1]) lifdagar eru med stauddum endimorkum. þa[2]) oss okunigum og margur uerdur suo skiottliga heidan[3]) kal(l)adur med ymisligum dauda. at litla edur aungua skipan fyrir sier giorfa og þa ovist. hvern dreingskap at giora erfingar hins framlidña fyrir hans sal med olmosum. edur odrum giofum. þad er og audsyniligt. at suo ʀikur sem fatækur hefur eigi meira med ser af stundligum audæfum en hann er sueipadur j oʀikliga til grapptar. huar af þessa heims megt er sem umlidandi skuggi. þeim sem jafnan[4]) hefer likat fyrir sinum likama at sia þarfliga hluti at hann mæt(t)i þui lystiligar hafa sinar girnder her ꝏ jardʀiki. hæfer og þui naudsunligar[5]) fyrir hugsa saluni med mildileiks uerkvm. huar af hun mæt(t)i fordazt eilifar pinur og koma fyr til fridar og endalaus fagnadar med gudi og hans uoldum monnum j hi(min)riki. þui uil eg. teittur þorleifsson kun(i)gt giora. at ec er heill j uiti en nokut krankur j likama. giori suo fallit testamentum fyrir mer.

j fyrstu ec gef mina[6]) synduga sal under skioll og

---

1) = manzins. 2) = þo. 3) = hiedan. 4) janfn, brfr. 5) Svo. 6) minn, frbr.

uerndar skautt almagtigz gudz og arnadarord hans blezad(r)ar modur og meyar jungfru marie og sancti peturs postula. sancti johannes bapista og sancti onñu. Marie magdalene. doroteu. torlaki biskupıjsi[1]). olafi kongi. þar med ollum gudz helgum monnum. bid(i)andi af ollu hiarta þann signada herra sem mic skapadi med sinum mæt(t)i. at hann likni mer med sini myskun. og her med kys ec minum molduga likam legstad j forkirkyni[1]) j huami j huamssueit. fyrir sunan fram. at hann huilizt þar. þar til sem alzmegtur[1]) gud lifgar hann j almenligre[1]) vppʀisu. Gefandi alzmegtugum[1]) gude og hans moder marie. sancti peturi postula. sancti johannes baptasta. suo og þar med ollum gudz helgum monnum. jordina og gardin huam j huamssueit. med ollum þeim gongum[1]) og gædum sem greindre jordu fylger oc fÿllt[1]) hefer at forñu og nyv og ec hefi fremzt Eigandi at ordit. bædi til siozs og lanz. Almegtugum[1]) gudi til sæmdrar og uirdingar. og hans Modur marie. sancti peturs postula og sancti johannes baptista og ollum gudz helgum.[1]) En minni salu og ȷngu minar til saluhialpar og mins fodurs og modur og hennar fodur og modur. þar med fyrir ollum kristnum salum. Med suo felldvm skilmala at ec og ȷnga min skullum hallda greindan gard j ockurr(i) lifs tid. huort ockart sem anad lifer leingur. Suo og uill ec seigizt enu dyru mes(s)ur vij eit(t) sinn ǻ .xii. manudum j xu ar heidan[1]) j fra. kuni oc svo uerda sem gud radi fyrir at vid follum bædi fyrre fra. þa bid ec at sa lati seigia þær sem stadin helldur. suo oc[2]) bid ec at þar at kirkuni[1]) j huami sei[3]) sogd salumes(s)a med salutidum[4]) æfinliga eit(t) sin j huerre uicku fyrir ockrum salum og ollum kristnum salum. Huad eg bid audmiukliga min herra byskup augmund med gvdz nad byskup j skallholti og kirkunar[1]) formen. hueria helzt er gud uill uera latta epter hans nada daga. at þetta bænahalld haldizt. at heilagre huams kirkiv. sem fyrr seiger. med sinum greinum. fyrir hans nada sal med ollum kristnum. og hans nad skipi

1) Svo. 2) tvískrifað (z oc), frbr. 3) = sie. 4) var ólæst i tíð AM.; Árni tók orðið eptir afskript frá c. 1680 með hendi síra Bjarna Hallgrímssonar.

þetta bønahald haldizt up(p) af sinum undermonnum. Epter mine bon til kirkiunar formann(a) og mine testamentum giord. suo og uil ec at seigizt mes(s)a med salutidum æfinliga fyrir ockrum salum upp æ ockarn artidisdag beiggi[1]a) serhuorn. þar med uill ec gefizt fatækum monnum auren[2]) j mat upp á artidardagana bada. Jtem skill ec og til at ueilsumadr[3]) sei[4]) haldin á gardinum æfinliga. sa mer er skylldur. ef hann er til. En þa anar ef hann er eigi til.

Suo og gef ec gudi og heilagri kirkiu j huami jordina læckarskogg. og þar med vij malnytu kugildi[5]) og onur vij^c j daudum peningum. suo og halfa gerlar[6]) skoga.

Jtem kirkiu á stad j hruttafirdi .iij. kugildi.

Jtem sa prestur (mic) syngur til moldar .ij^c. enn anar prestur huer yfer stendr minum grepptri[7]) c.

x aurar diacknan(um). þeim sem er at heiglagri[8]) kirkiu j huami.[9])

kirkiunne j skalhollte gef ec jordina breidabolstad iiij^c og xx sem lig(g)ur j fells kirkiu sokn med ollum gaugnvm og gædum sem henni hefur fylgt at fornu og nýu og þar med ui kugillde.

stadar kirkiu j steingrimsfirde gef ec .x^c. hefe ec nu ut golldit iiij^c enn ec uil hitt greidizt epter minn dag þad er vantar. ef mier uerdur ecki sialfum audit at greida.

hier med gef ec fatækum .x^c. greine ec þar til .iij^c. j mat. uadmali og skoledri. iij[10]) malnytu kugillde. kapal j eitt c. og þar til iij^c j þarfsamligum peningum.

kirkiune under mula a skalmanesi ij malnytu kugillde.

kirkiunne og stadnum j huamme gef ec epter mic þad jnnan stoks er gardinum og kirkiune til nytsemda. greine ec þar til j koste. ef hann er. busgagn og sængur sem til eru.

---

1) Svo. 2) svo = eyrir. 3) = veizlumaðr. 4) = sie. 5) kkgildi, frbr. 6) = glerar. 7) greppt!, frbr. 8) Svo. 9) „hier eru handaskipte. hingadtil er skrifad med sæmelegre hende og godu bleke, enn aflægislega bögulegre og rängre literaturâ eins og hier er. Þad sem epter kiemur og ut til endans er ritad med vidvæninglegu handartetre og greibleki fölu og gulu, enn skickanlegre literaturâ.“ (AM). 10) tvískrifað,

enn adrer dauder peningar stande epter minne skipan. ef ec geri þar rad til. So og skipa ec kirkiunne og stadnum fiora kapla alla klyftæka og klyfbæra.

minum kotungum ollum gef ec kuittar sinar landskylld-er ad næstum fardogum. sem þeir eiga mier ad greida ef gud kallar mic til siñ ur þessum minom siukleika.

Þorde aunundssyne[1]) gef ec þau tye hia (honum ero) ef hann lifer mier leingur og þionar mier. sem hann hefur lofad.

pali bardarsyne gef ec þau tye bestu sem hann uelur af þeim uij manna tıjum (sem) ero hia orme under felle er ec lede honum j sumar.

u. aura huerium minum uinnumanni fram yfer sitt kaup.

x alner huerri uinnukonn sem mier og henne hafa leinge þionad. ef ec stig fram ur þessari sott.

raugnualldi og ku er ec leda ef gud kallar mic nu.

So og gef ec gude og sancta laurencius og kirkiunne under mula a skalmanesi iordina eidshus j mula kirkiusokñ med ollum gognum sem henne fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu til sios og lands.

petre bonda loptssyne gef eg ui uetra gamallt naut j haust suo framt sem han lifer mier leingur.

sira jone stack med skinnvm og nyar hosur.

Eireke gudmunssyne kóss med skinnvm.

gudrunu gunnlaugdottur kapu rauda sida.

sira þorkattli fornt koss og hufu med skinnum forna.

Eireke gudmundssyne gef eg raudan hest at kalladur er jnneraudur. hann skal lata hingat hest þreuetran j stadin til kirkiunar og stadarins j huame.

fola tuæuetran. þorvarde gef ec.[2])

jone palssyne tye sem hia honum er.

minum herra biskupinum gef ec og skipa ef hans nad uill litelæte til hafa at þig(g)ia. iij staup med silfur. sylgiu og linda. skeid og spensl viij. skak med taunn. kordahnif

1) aundssyne, frbr. 2) Svo.

minn. ec bid hans nad bitala kirkiune a hofi j uopnafirde[1]) kalek med silfur og mier mune þad ecki bregdast.

Jn primis. iordina skarfstade j huams kirkiusokn gef ec til kirkiunar og stadarins j huamme. iordina hualsā j kollafirde j fells kirkiusokn med fiorum malnytu kugilldum. gef ec og til kirkiunnar j huamme med ollum gognum sem greindum iordum fylger til sios og lands.

hefi ec [nu] gert fullkoml[iga] suo felldan gerning uid Eirek gudmundsson og gudrunu gunlaugsd[ottur at] þau skulu Eignast epter minn dag og mic fra fallin [med ui kugilldum[2]) iordina allra maguusskoga j tungu kirkiusokn med ollum gognum og gædum sem henne hefur fylgt at fornu og nyu og fylger nu til sios og lands under greinda menn Eirek gudmundsson og gudrunu og þeirra baurn til æfinligrar eignar og frials forrædis En undan mier og minum erfingium og epterkomendum.

þale gunlaugssyne iordina hornstade og þar med vi kugillde.

So og skal eirekur aunguin peuingum bitala og gudrun gunlaugsdotter eda þeirra erfingiar fyrir greinda magnusskoga. utan þeirre iord hualsa. og þar med þau fiogur kugillde þar standa med. En þad ad magnusskogar eru meira uerder skulu þau kuitt um og þeirra erfingiar. En þad epter mic er þa gud kallar mic hei(d)an[3]) med gardinum j huamme og ec gere ecke sialfur at mier lifanda rad fyrir þa skal þad eignast kirkiañ j huamme og gardurin.

Bid ec nu audmiukliga minn herra biskupin at fullgera og framkuæma þetta mitt testamentum sem hann sier nu best bihaga. fyrir sinne sal og minne. þessum monnum næruerande. sidsta ec gerda þetta mitt testamentum. sira þorkell palsson. bardur þorarinsson. jngebiorg hakonardotter. skal þetta obrigdanliga standa epter minn dag.

Og til sanninda hier (um) setium uer ockar jnsigle fyrir

---

1) „Þad sem epter kemur hefur ekki feinged rum å bokfellinu, og er þad (med sömu hende sem þad næst fyrerfaranda) ritad å Schedulam sem sidan er med innsiglunum fest vid hitt bokfelled“. 2) [yfir linunni, og vísað inn. 3) þ. e. hiedan.

þetta bref. skrifad j huamme manadagin næsta epter uicitacionem marie. arum epter guds burd ꝏ v<sup>c</sup> xxx og eitt ar.[1])

---

484. [5. Júlí 1531]. á Öxarárþingi.

Ögmundr biskup gerir sátt milli þeirra Páls bónda Vigfússonar af einni álfu og Jóns bónda Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur konu hans af annari.

AM 238. 4to bl. 63b, skr. c. 1570 (Bessastaðabók). — Meðal Apogr. AM. 5539, og er afskript af þessu bréfi eptir Bessastaðabók. Þar segir Árni um ártal bréfsins: „Datum absque dubio 1531". Sbr. Nr. 490.

Sættarbref pals vigsfussonar og ions hallssonar.

Vier augmund med gvdz nad biskvp j skalholltti. Giorvm godum monnum kunigt med þessu Minu opnu brefi ad æ Midvikudaginn næstan epter peturs messu og pals um sumarit æ almenniligu augxararþingi. Giordum uier suoddañ satt j milli þeirra pals Bonda vigfussonar af eirne alfu. Enn af annari ions bonda hallssonar og hans dandu kuinnu hustru holmfridar Erlendzdottir. Sættust þessir fyrr skifadir menn þar þa med fullum sattum um alltt þad. þeim hafdi æ milli farit nauckur forlidiñ ar. Sem uar um peninga reikning j faustu og lausu. hugmod edur huat hellst þeim hafdi æ milli borit j meira hlut edur minna ad aullu til skildu enn aunguo fra. voru þessir giorningsuottar þar næruærandi. Einar snorason. þorleifur eirekson. prestar og officialis heilagrar skalholltz kirkiu. Erlendur þoruardson laugmann. ion bondi biornson vor kæmeistari og ion bondi þoruardson. Og til sannenda hier um setium vier fyrr skrifadir menn vor jnsigli med fyrrskrifadra manna jnnsiglum fyrir þetta sættargiordarbref. skrifad j sama stad deigi og ari sem fyrr seiger.

---

1) „Artaled er skirt" (AM).

485. 8. Júlí 1531. í Hvammi.

TESTAMENTISBRÉF Ingu Jónsdóttur konu Teits Þorleifssonar.

Bisk. Skalh. Fasc. XIII, 5 frumrit á skinni með 2 innsiglum. — AM. Apogr. 2458 „accuratissimè". Frumritið er með sömu hendi og testament Teits Þorleifssonar.

Testamentum bref ȷngu ȷonsdottur (kuinnu teitz þorleifssonar).

Jn nomine domini amen.

Saker þess at mannsinz lifdagar eru skafpader[1]) med stauddum endimorkum þo oss okunnur[1]) og margur uerdur heden kalladur suo skiottliga. med ymisligum dauda ad litla skipan eda aungua fær fyrir sier gert þo ouist hvern drengskap at gera erfingiar hins framlidna fyrir hans salu med olmusugiordum eda giofum. þat er og audsynligt[1]). ad so rikur sem fatækur hefur ei meira af stundligum audæfum. en hann er sueipadur orikiliga til graptar. huar af er sky(n)ianda at þessa heims mact er sem vmlidandi skugge þeim og sem iafnan hefur likad fyrir sinum likama at sia þarfliga hlute at hann mætte þui listeligar hafa sinar girnder hier á iardrike hæfer og þui naudsynligar fyrir at sia og hugsa salunne med milldleiks uerckum [huar af[2]) hun mætti fordaz eilifar pinur og koma fyr til fridar salunne og endalaus fagnadar med gude og hans voldum monnum j himerike. þui uil eg jnga ionsdotter kunnigth gera at ec er heil at uite enn nockud kraunk j likama. gere ec suo fellt testamentum fyrir mier.

j fyrstu grein at ec gef mic og mina sal synduga under skiol og uerndarskaut alzmectugs guds. og arnadarord hans blezsad(r)ar modur Marie og sancte iohannis baptiste þar med sancte peturs postula Marie magdalene sancte aunnu sancte dorothea sancte olafi kongi. þorlaki biskupe. og allra guds heilagra manna bidiande af aullu hiarta. þann signada herra sem mic skapadi med sinum mætte hann likñe mier med sinne myskun. hier med kys eg minum molldvga likama

1) Svo. 2) [vantar í frbr.; AM. b. v.

legstad j forkirkiune j huamme j hvamsueit fyrir austan fram at hann huilizt þar þar til sem allzmectugur gud lifgar hann j almenneligri upprisu. Gefandi allzmectvgum gudi og ollum guds helgum monnum til kirkiunar j huamme iordina ketilstade iiijc og xx. med ollvm gognum og gædum sem henni hefur fylgt at fornu og nyu til sios og lands. þar med vi kvgillde. kirkiunne j skalhollti iordina halldorstade er liggur j skagafirde j glaumbæarkirkiu sokn xxc at dyrleika huar at fyrir kom min iord kollslækur. kirkiune a læk kugilldi. annad gufudalskirkiu. þridia til stadar j steingrimsfirde. fiorda til stadar j hrutafirde. krossinum j kalladarnesi iijc j godum peningum. uc fatækum j þarfsamligum peningum. preste sem mig syngur til molldar .ijc hundrat presti audrum sem atstaudu ueiter. x avra diakna ef hann er nærri. hier med skil eg mer æfinligt bænahalld at kirkiunne j huamme. sierdeilis til greint salu Messo j huerri uiku huern miduikudag þa ecki er annad festum j heilagri kirkiu. hier med skil ec til upp at hallda artidesdag þeim gud kallar mic til sin. og gefast eyrer j mat fatækum monnum á huern artidardag. Somvleidis gef eg og teite minum þorleifssyne mina fiordungsgiof ur aullum minum peningum. og adrar minar lauggiafer suo framt sem hann lifer mier leingur sem uid hofum adur um talat. til greindur j mina fiordungsgiof muli j kollafirde og þar til þeir peningar sem honum likar. jngebiorgu systur minne skipa ec hundrat hvndrada. j arflausn. j godum peningvm. er þar fyrst til greind iordin gufudalur .xl. iordin fiordur a skalmanesi .xxxc iordin deilldará fyrir fiogur c og xx. j mula kirkiv sokn. og þar til .ujc og .xx. j malnytu og odrvm godvm peningum. sira jone brodur minum gardin halfan mula. epter mic til æfinligrar eignar sem godra manna bref þar um utuisar. erlinge. iijc fatækum kotungum minum et uestra .u. aura. sem mier eru skullder[1]). hinum .xx. alnar. þoruarde .c. frenda minum. Marivsaugu kirkiune j huamme og gudmundar saugu.

skal þetta mitt testamentvm standa æfinliga og obrigd-

1) Svo.

anliga hier epter. for þesse gerningur fram j storu badstof-(unne) j huamme j huamsueit.

uoru þessir min kuoduuitne. af mier tilkallader sira þorkell pallson og jon palsson. og annad fleira gott folk. þa eg gerda mitt testamentum.

Og til sannenda hier vm setia þeir sin jnsigle fyrir þetta testamentum bref. skrifad j sama stad. laugardagin næsta epter uicitacionem sancte marie þa er lidit uar fra guds burd ꝏ uº xxx og eitt ar.

---

486. **14. Júlí 1531. á Grenjaðarstöðum.**

Jón biskup á Hólum selr Þorsteini bónda Finnbogasyni kaupahlutann í jörðunni Ási í Öxarfirði og jarðirnar Tóvegg og Haga á Árskógarströnd fyrir kaupahlutann í Grýtubakka í Höfðahverfi og jarðirnar Hlíðskóga og Hringsdal; segir hvor um sig til kirkjujarða, og Þorsteinn geldr Grýtubakkakirkju jörðina Grímsnes með sex kúgildum í reikningskap; lýsa þeir og fleirum jarðarkaupum, er þeir hafi átt.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Þingeyjarsýsla Nr. 13, afskript „eptir sínum Originalum", sem kallast „Copiur aff Grytubacka Brieffum," staðfest á Grýtubakka 20. Júní 1703 af Jóni Þórarinssyni og Illuga Jónssyni. — Nr. 12 meðal jarðabókarskjalanna úr Þingeyjarsýslu er afskript af þessu bréfi eptir Nr. 13, gerð fyrir Árna Magnússon með hendi Hans lögmanns Beckers. Dagsetning bréfsins virðist líklegra að sé 14. Júlí en 22. December.

Þad giorum vier Sigmundur Gudmundsson. Tumás Einarsson. prestar. Jőn Magnusson. Auduñ Sigurdsson. leikmenn. gődum monnum kunnugt med þessu voru opnu briefi. ad árum eptir guds burd þűsund fimm hundrud þriátıju og eitt á Greniadarstődum j Reikiadal. főstudagienn næstañ firir Þorláksmesso vorum vier j hiá. sáum og heyrdum á ord og handaband þessara manna. virdugs[1]) Herra Biskups Jőns af eirnri álfu og Þorsteins bőnda fimbogasonar af annari ad so firir skildu. ad nefndur Biskup Jőn seldi greindum Þorsteini

1) Svo.

allañ kaupahlut j jördunni Asi i Oxafirdi med öllum þeim gögnum̃ og giædum sem greindum kaupahlut á med lögum ad filgia. Sagdi Biskup Jőn ad kirkiañ j ási ætti þridiung i heimalandi og jordina Veturlidastadi i Hniőskadal. og þær itölur sem registrum̃ innihelldur og greindri jördu hafa til heirt. og þar til. 6. málnitu kugildi. enn allur annar reiknijngskapur sem þar til hafdi á fallid i kirkiunnar porsio og mortalia af fornum og nýum reiknijngskap sem finnast kinni ad lögum ad Askirkiu til heirdi. skildi Þorsteinn fim̃bogason suara edur hans erfijngiar. Hier med seldi Biskup Jőn greindum Þorsteini jardernar Tovegg og Haga á Askougsströnd[1]. og þar til tuttugu hundrada jörd þá sem þeim bádum semdi. Hier i mőt gaf og seldi greindur Þorsteirn Biskup Jőni allañ kaupahlut i jordunni Grýtubacka j Höfdahuerfi firir áttatiju hundrud og þar til jardernar Hlijdskőg og Hrijngsdal med öllum þeim gögnum̃ og giædum sem greindum jördum eigu med lögum̃ ad filgia. Sagdi greindur Þorsteirn bőndi ad kirkiañ á Grýtubacka ætti þridiung i heimalandi ad auk þess sem adur skrifad stendur og þar til væri gömul eign kirkiunnar á Grýtubacka jardernar Syrisvellir. Eyri i eistrum̃ fiordum og Höll i vestrumm fiordum. og þar til lukti greindur Þorsteirn kirkiunni á Grýtubacka jördina Grijmsnes med. 6. málnitu kugilldum firir þann reiknijngsskap sem fallid hafdi medañ hann og hans fader hielt. enn vm̃ allañ annañ reiknijngsskap. porsio. mortalia þess sem greindum Þorsteini bar ad suara skilldi hann kuittur og vid skilinn. So og medkiendust firr greindir menn Biskup Jőn og Þősteirn bőndi ad þeir hefdu keipt so heitandi jördum. ad Biskup Jőn seldi greindum Þorsteini jördina hálf skörd á Tiörnesi og jardernar fagranes. geitreiarströnd og Sueinströnd vid myvatn. Þar i mőt gaf Þorsteirn itra fiall. Eyőlfstadi j műla kirkiusőkn og jardernar Raudá og Bæ i Bárdardal. endurnyudu og stadfestu greindir menn Biskup Jőn og Þorsteirn med handabandi öll ádur sögd jardakaup er giord voru med vpplagie og samþicki heidurlegrar kuinnu Sessiliu Torfadőttur. eigeñkonu optnefnds Þorsteins. skildi huor suara lagarípt-

1) Askongstrond, afskr.

ıngum á þeim ȷördum sem seldu. enn huör hallda þeim ȷordum til laga er keiptu. kinni Grýtubacki med lögum af ad gánga Biskup Joni edur hans erfıȷngium̄. þá skildi hann og hans erfıȷngiar dőmlaust aptur gánga ad Asi og birgi ȷ kielduhuerfi. So og ef As kinni med lögum af ad gánga Þorsteini edur hans erfıȷngium̄. þá skildi hann og hans erfıȷngiar meiga dőmlaust ad sier taka Grýtubacka. Og til sannenda hier vm̄ setium̄ vier firr skrifader menn vor innsigli firir þetta brief er skrifad var i sama stad. deige og ári sem firr seiger.[1])

---

**487.** **21. Júlí 1531.** **í Múla.**

Jón biskup á Hólum gefr ærligri dandi kvinnu Ólofu Einarsdóttur jörðina Stafn í Reykjadal.

AM. Fasc. XLVIII, 3, frumrit á skinni, og eru bæði innsiglin enn fyrir bréfinu.

Giafabrief Jons biskups a Hoolum 1531.

Þat giorvm wit ȷon prestur philippusson og sigmvndur prestvr gudmvndson. Godvm monnum kvnnigt med þessv ockro opnv brefe þa lidit var fra gudz bvrd. ϖ. d. xxx. og .ı ar a fostvdaginn næstan fyrir ȷachobsmesso. fyrir austan vallargardin ȷ mula ȷ reykiadal. Worvm vit ȷ hia savm og heyrdum a ord og handaband þessara manna, Virduligs herra ȷons med gudz nad biskups a holum. og ærligrar dande kuinnv Olafar einarsdottur. at suo fyrir skildv at adur greindur biskup ȷon gaf fyrnefndri Olofv ȷordina stafn er ligg-ur ȷ reykiadal ȷ einarsstada kirkio sokn. met ollvm þeim gögnum og giædvm. hlutvm og hlunnindvm sem greindre ȷordv fylgir og fylgt hefur at fornv og nyio ok hann hefur fremzt

---

1) Neðan við bréfið var þetta ritað 1703:

„Jardir þær sem þetta firsta skrif eignar Grýtubacka kirkiu eru nú frä henni firir langri æfi teknar, ad fräskildu Suædi, edur snærisvollum so sem þetta brief synir sem hier næst eptir kiemur [þ. e. bréf frá 31. Janúar 1533]. tuær liggia til Stólsins. sü þridia haldiñ bóndaeign.“

eigande at ordit. til æfinligrar eignar og frials forrædis vndan sier og sinvm erfingium En vnder opptnefnda Olöfv og hennar erfingia. Lofade opt nefndur herra biskup jon at suara lagariptingvm a adur nefndri jordu stafne. Enn tittnefnd Olöf hallda til laga. Og til sanninda hier vm setium vit ockur jnncigle fyrir þetta giorningsbref er giörtt var j mula j reyk(i)ardal sama degi og áre sem fyr segir.

---

**488. 12. Agúst 1531. á Hólum.**

Vitnisburðr Nikulásar prests Vilhjálmssonar, sem búið hafði á Mælifelli í 22 ár, að Reykjareitr, hefði verið haldinn eign Reykjakirkju í Tungusveit.

AM. Apogr. 4118 „Ex originali" með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna.

Suo fallinn vitnisburd ber ek nickulas prestur vilhialmsson at ec bio a mælefelle j tungusueit vppa ij ar ok xx ok uisse ek fyrer full sannende at vpp a allañ þann tíjma var sa enn same reitur sem liggur j millum reykiasels ok ar þeirrar sem fellur vestur vr kidaskarde ok ofan j mælefellza var þa kalladur reykia reitur. ok hann uar þa hafdur ok halldinn oobrigdulig eigñ Reykia. ok þeir sem a Reykium bijuggu huer epter annañ lietu bæde rifa hríjs j þessum sama reit ok allar gagns nýtiar af hafa suo sem þeir ætte ok biuggu þa eignarmenn a mælefellza ok eignudu sier alldre ok einge annar þenna reit nema Reykiamenn. ok alldre heyrda ek þar neitt tuimæle a leika vpp a suo langañ tijma sem fyrr seiger fyrr enn nu fyrer fam arum. Ok til sannynda hier vm set eg mitt jnncigle fyrer þetta bref er skrifad var a hoolum j hlalltadal laugardagenn næsta fyrer mariumessu fyrre arum epter gudz burd ꝏ d xxx og eitt.

---

489. **4. September 1531. í Múla í Fljótshlíð.**
**10. Febrúar [1532]. á Stórólfshvoli.**

Sáttarbréf Ögmundar biskups milli þeirra Jóns Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur af einni álfu og jonkæra Eyjólfs Einarssonar af annari um ágreining og reikningsskap, sem þeim hafði á milli farið.

AM. 191. 4to bls. 28—29 (bréfabók Jón Hallssonar á skinni). — Landsbókasafn 62. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „ur brefabok Ogmundar biskups“ (= *b*).

Sáttargiordarbref[1]).

Vier avgmund med guds nad biskup j skalhollti giorum godum monnum kunigt med þessu voro opnu brefi. at a manudagin næstan fyrir festum natiuitatis sancte marie virginis a mula j fliozhlid. anno domini ᴍ⁰ d. xxx. j. vorum vier til ordz[2]) vid þessa menn in primis jon bonda hallzson og hustru holmfride ellenzdottur. En af annari alfu jonkæra eyolf einarson. vm þa ægreining oc[3]) reikningskap sem þeim a millum var ok hafdi verit nockurn tima. Þvi jn̄ nomine jesv christi. Giordvm vier svodan fullkomliga satt þeirra j[4]) millum med fullu bandabandi vpp á allar sidr. Skildum vier suo fyrir at þesser aller adr nefnder menn skylldu nidr sla aullum hugmod. ægreiningu[5]) reikningskap fornvm ok nýum sem þeim hafdi matt til bera edr j millum vera j ordum eda verkvm. Hier med skylldu huorer annars viner ok aullungis satter sem til ber millum [fader ok moder ok son[6]) ok hvorer adra styrkia hiedan j fra til allz ens goda badi[7]) med ord ok verk.

[[Voru þesser menn þa þar med oss nærverandi. Sira jon einarson. sira snori hialmson. Sira sæmundr arnason. Eirekur bondi þosteinson oc jon bondi biornsson ok þui settu þeir sin jnnsigli med voro jnnsigli fyrir þetta sattargiordarbref er skrifat var a storolfshuoli j hvolhrepp a rangar-

1) b. v. *b*. 2) samtals *b*. 3) peninga, b. v. *b*. 4) ä. *b*. 5) ok peninga, b. v. *b*. 6) [191; fodurs modur ok sonar *b*. Jón Hallsson var stjúpfaðir Eyjólf Einarssonar. 7) bæde *b*.

uaullum. festum sancte skolastichice[1]) virginis [a sama ari sem[2]) fyr seger[3]).

---

**490. 6. September 1531. á Breiðabólstað. 10. Febrúar 1532. á Stórólfshvoli.**

Sáttarbréf Ögmundar biskups milli Páls Vigfússonar eins vegar og Jóns bónda Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur annars vegar.

AM. 238. 4to bl. 62—63, Bessastaðabók, skr. c. 1570. — Landsbókasafn 62. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ur brefabók Ögmundar biskups" (AM). Sbr. Nr. 484.

Sattarbref pals fusasonar og hustru holmfridar Erlendzdottir.

Vier avgmvnd med gvdz nad et cetera.

Ath a Midvikudaginn næstañ fyrir Natiuitatem beate marie virginis a breidabolstad j fliotzhlid. Anno domini. ꝏ. d. xxxj. vorum vier til samtals vid jon bonda hallson og hustru holmfridi erlendzdottir af eirne[4]) alfu En pal[5]) bonda Vigfvsson[6]) af annari. vm þa grein[7]) og peninga reikningskap sem þeim a milli bar. og hefdi verit vm navckvrn tima. Þui jn nomini domini. Giordum vier þa suoddañ fvllkomliga satt þeirra a milli med fullu handabandi vpp a badar sidur. og skildvm svo fyrir ad þessir fyrr nefndir menn skylldu vera allsattvm sattir hvorir vid adra. Og nidur sla avllvm hvgmod. deilum og akærum fornum og nyium sem þeim hefdi[8]) a milli farit. j ordum og ægreiningum. og skylldu suo godir [menn[9]) j tiltækiligan tima þa þeim uæri minstur skadi vt j og þeim best hentadi[10]) [sundur[11]) reikna og samañ færa hvat hvorir [fyrer sig[12]) yrdi avdrum skylldugir. mikid eda litid. hier med lofvdvm vier sialfir ad bitala

---

1) Svo = Scholastice, sem er 10. Febr. 2) þ. e. = ari síðar en. 3) [[et cetera *b*. 4) annare(!) 62. 5) 62; Pals 238. 6) 62; Vigfussonar 238. 7) ägreining 62. 8) hafde 62. 9) [62; vinir uera og 238. 10) hendtadadi(!) 238. 11) [j sundur 62. 12) [b. v. 62.

þeim sem vanhalldinn væri suo micit sem þeir dandi menn er þar til verda nefnir ad skoda þetta og ransaka. verda æ sattir. En vier vilivm eiga vid hvertt þeirra sem skylldvgt verdur giortt ad fornægia oss J gen. et cetera.

[Voro þessir godir menn þa þar nærverandi. siera þorleifur eirekson officiales[1]). siera Jon einarson. siera snorre hialmson. Erekur bondi þorsteinsson. sæmundur bondi eirekson. Jon bondi þorvardson. Og þui settu þeir sin jnsigli fyrir þetta sættargiordarbref. Er skrifat var æ storolfshvoli j huolhrepp æ rangarvollum festum sancte scolastice virginis [æri sidar enn[2]) fyrr seigir[3]).

---

**491. 11. September 1531. á Þingeyrum.**

Jón biskup á Hólum skipar í heiðr við guð og heilaga menn, sérdeilis guðs signaða ástvin hinn sæla Þorlák biskup, sem prýðir og patrónar hálfkirkjuna á Guðrúnarstöðum í Vatnsdal, að þar skuli takast kirkjutiund, preststiund og ljóstollar og þar skuli börn skíra og hjón saman vígja.

Jarðabókarskjöl Árna Magnúsonar, Húnavatnssýsla Nr. 4, afskript gerð eptir sínum „origial" „með einu hangandi innsigli", og staðfest 18. Mai 1703 á Bjarnastöðum í Vatnsdal af Jóni Jónssyni og Sigurði Einarssyni.

Vier Jon med Gudz nåd biskup a hőlum Giðrum Gődum monnum kunnigt med þessu voru opnu Brefe. ath saker þess at almattigur Gud af sine hæstu millde hefur sett oss allzs owerduga fyrir Gude at auka og stýrkia kristnina. heidur og sæmd kirknanna. Þui til heidurs wid Gud sialfan og hanz helgu moder meý mariam. og allra Gudz heilagra manna sierdeilis wid hanz signada astwin hin sæla torlak biskup sem prider og patronar med Gude halfkirkiuna a Gudrunar-

---

1) Svo 238. 2) [*leiðrétt;* æ sama ari sem 238. 3) [sl. 62. — Neðan við þetta bréf er í 238 ritað með hendi Vigfúsar Jónssonar á Kalastöðum (c. 1570): „Eigi meira um sinn. bifala eg ydur uinur minn Volldugum gudi j ualld. og undir hans uirdugtt halld. Vinum och uañdamonnum. af vijgleiks ordum saunnum. Nu og allañ tid. bædi fýrr og sid. et cetera."

stôdum j watzdal. hofum vier skickat og so skipat fyrr nefnda halfkirkiu. at hun skal æfenlega hier epter obrigdeliga standa med þuilikum̃ heidri rett og ʀentu sem hier ȷnne stendur. j fyrstu at þar skal heima takazst kirkiu tiund og presztiund og liostollar allra heimamanna. Somuleidis baurn at skira og hion saman at wigia. Og til saninda hier wm setium wier wort secretum fyrir þetta bref er skrifat war a þıȷngeyrum ȷ watzsdal ǻ manudagen næsta epte(r) natiuitatem beate marie wirginis. anno domini ꝏ⁰ d⁰ xxx⁰ primo.

---

## 492. 11. September 1531.

Dómr þriggja klerka og þrigga leikmanna, útnefndr af síra Ólafi Gíslasyni um ákæru Orms Guðmundssonar til Ögmundar biskups í Skálholti um hald á átta jörðum „norðr í Árnesi", er Ari Andrésson hafði goldið biskupinum í sakferli, en Ormr taldi Ara hafa gefið sér, með fleiri greinum, er bréfið hermir.

AM. Apogr. 2745 „Ur brefabok Ogmundar biskups" (AM).

Um Ara Andresson.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siǻ edur heyra. senda Freysteinn Grimsson. Biǒrn Þorgilsson. Sveinn Þorbiarnarson prestar Skalhollzbiskupsdæmis. Jon Jonsson. Gudmundur Salomonsson. Lytingur Einarsson. leikmenn. kvediu Gudz ok sina. kunnigt giǒrande ad sub anno gratiæ ꝏ⁰. d⁰. xxxi⁰. mǻnudaginn næstañ fyrer krossmessu um hausted. vorum vier j dǒm nefnder af ærligum danimanne sera Olafi Gislasyne. ad skoda ok ransaka. ok fullnadardǒm ǻ ad leggia um þǻ akiæru er Ormur Gudmundzson klagade til biskupsins. ad hann hefde ad hallda viij. jǒrdum nordur j Arnese. er Are Andresson hafde golldid biskupinum j sin sakferle. enn ǻdurskrifadur Ormur sagde Ara Andresson hafa gefed sier þær med danumanna vitnum ok fullum giǒrninge. Enn fyrrskrifadur Are sagdest þad aldrei giǒrt hafa. utañ med skilmǻla ad hann være sinn mann svo leinge þeir lifde. ok styrkte sin bǒrn annad jafnmikid. Hafdi biskupinn lofad ad setia þar sinn umbodzmann. ad svara honum lǒgum. hvern er hann

hafde tilskipad Elling Gislason med sinu brefe ok innsigle. Þvi stefnde fyrr skrifadur Ormnr honum stundarstefnu oss aheyrande dőmsmǒnnum. Dæmdnm vær stefnuna lǒglega. ok fyrr nefndañ Elling ok mǻled rietteliga fyrerkallad.

Jtem j fyrstu grein kom Ormur þar frañ med bref under tveggia manna innsiglum. ad jardernar hefdu honum gefnar vered. stőd þar einginn skilmǻle. nie sǻ. er are sagdest giort giǒrt hafa. Enn fyrrskrifadur Ormur medkieñdist ad hann hefde lofad ad vera hañs mann medañ þeir lifdu. Þvi ad h(eilags) anda nǻd til kalladre. ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier med fullu dőms atkvæde fyrrskrifadañ Orm skylldugañ ad leida tvǒ lǒgleg vitne. ad giǒfin hefde ecke vered gefen med audrum skilmǻla. enn j brefinu stőd. bevisadist svo. ad giǒfiñ hefde vered gefin med audrum skilmǻla enn j brefed var sett. þǻ leitst oss brefed ǒmýndugt ok ad ǒngvo halldanda. Skylldu vitnin vera leidd ed seinasta (ad) Michilsmessu j haust. Enn þő ad vitnen leiddest þesse. Kom fyrrskrifadur Ellingur frañ med sakargipt biskupsins vegna. ad tidt skrifadur Are hefde brotligur ordid ad barneign vid giptre konu. frañ hiǻ sinne eigen kvinnu. ok ǻtt vid henne v. bǒrn edur fleire. gefid sig sidañ ok sina peninga under valld biskups Stephans. gődrar miningar. ok nu j valld biskups Ogmundar sidan hann kom ut. Ok ef biskupinn bivisade þessar saker sannar. þǻ þőtte oss tittskrifadur Are ǒngvar giafer nie giǒrninga giora hafa mǻtt. þvi dæmdum vier fyrrskrifadar jarder biskupinum til friǻls forrædis ok fullrar eignar. ok titt nefndañ Ara riettelega gollded hafa et cetera.

---

**493.** **22. September 1531.** **á Reykjum.**

Áreiðargerð sex manna og uppsögn landamerkja á Mælifellsdal eptir tilnefning Ara lögmanns Jónssonar út af ágreiningi milli Gísla Hákonarsonar og Magnúsar Björnssonar um Reykjareit.

AM. Apogr. 4119 „Ex originali“ með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna,

Þat giorvm wier Grimvr jonson. Tvmas tumason. stigur hoskvllson. þordur Gvnnarson. Eyvindur gunnarson og halldor jonson godvm monnum kunnigt met þessv voro opnv brefe. þa lidit var fra gud(z) burd M. d. xxx og j ar. fostvdagin næstan efter mariomesso fyrre. vorv vier til nefnder af ara jonssyne logmanni at rida a landamerki a mælefellzdal og skoda þann agreining er var mille gisla hakonarsonar og magnus biornssonar. Enn met þui at lögmadurenn leitadi fullkomliga einardar ords huad oss litezt riettligazt j þessv male. þa sogdvm vier fyrnefnder menn efter vorre skynsemd og bodnvm eidvm at vier vissvm eige sannara en ꝫ su er vestan fellvr vr kidaskarde skilde land met þeim. og þat gil hid sama munde kallat kortogil at þui sem oss virtizt þa efter likindvm. en ecki hit fremra gilit. Og met þui at Magnus synde witnisburdv at sa hinn same reitur sem liggur næstur fyrir framan kidaskard og þeim vard at agreiningo syndizt oss suo borin sem bokin skipar j .xx. vetur edur leingur hefde verin̄[1]) hafdvr og halldinn eign reykiamanna. og ongvan vissu þeir vppa tala j allan þennan tima edvr leingvr. Og til saninda hier vm̄ settvm vier fyr nefnder menn vor jnnsigle fyrir þetta bref sem skrifad var a reykivm j tungosueit fostvdaginn næstan̄ fyrir Michaelsmesso a sama are og fyr segir.

---

**494.** **11. Oktober 1531.** **á Borg.**

KAUPMÁLABRÉF Odds Tumassonar og Ceceliu Ormsdóttur, Einarssonar.

AM. Fasc. XLVIII, 4 frumrit á skinni. Öll (4) innsiglin eru dottin frá. — Gömul afskript frá c. 1578, sem eg á = *b*.

Kaupmalabref Odds Tumassonar og Sesseliu Ormsdottur. Anno 1531.

Jn nomini Domini Amen var suo felldur kaupmali lystur og stadfestur æ brudlaupsdeigi æ millum Odd(s) tuma-

1) Svo.

sonar oc cesseliu ormsdottir ad adur nefndur Oddur tumason talldi sier til kaups vid adur greinda cesceliu hundrad hundrada ȷ ȷordum og kuijlldum og audrum þarfligum peningum ad til nefndre ȷordunne galltarhollti er heidarligur dandimann vigfus bondi þordarson gaf þa þar fyrir oss og gallt fyrr nefndum Oddi tumasyne med fullu handabandi. oc suo ȷ borgañ geck vid þorleif einarson um adur greint hundrad hundrada. er þa uar laugligur giptingarmadur fyrr skrifadrar cesceliu ormsdottur med radi oc samþýcki brodur hennar og fodurmodur oc anara frænda. hier ȷ mot hafdi adr greind cescelia til kaupz vid greindañ odd tumason lx^c at til greindri ȷordunne raudamel er liggur ȷ kolbeinsstada kirkiu sokñ oc þad meira er henne reiknadist ȷ sin faudurarf og modur uid aunur sin syskyn. hier til gaf þrattnefndur oddur cesceliu konu sine fiordungsgiof vr [þessum hundrad[1]) hundrada. kiori adur nefndur þorleifur titt nefnda seseliu frændkonu sina malakonu ȷ gard greindz odds tumassonar.

voru þessir brudlaupsvottar sira ȷon eýolfsson. ȷon ȷonsson. magnus ȷonsson og sueinbiorn hallsson. huerier er[2]) settu sin ȷnnsigli fyrir þetta kaupmalabref huert skrifat uar a borg ȷ borgarfirdi miduikudagin næstan fyrir ȷn festo calixto pafva þa lidid uar fra hingadburd uorz herra christi[3]) [ꝏ d xxx og j[4]) ar.

---

## 495. 30. Nóvember 1531. á Hólum.

Kaupmálabréf Eyjólfs Einarssonar og Helgu Jónsdóttur, biskups Arasonar.

Landsbókasafn 61. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ex originali Vigfuss Jonssonar á Leyrä" (AM.). „2 innsigle hafa under brefinu vered, og alldrei fleire" (AM). — Í sama handriti (Landsb. 61. 8vo) er og önnur afskript bréfsins staðfest 29. Nov. 1665 í Vatnsfirði „effter Originalnum þeim er ȷ Watnsfirde liggur" af Jóni Jónssyni („handsalar") og Oddi Jónssyni (digra). Eptir sama frumriti — en Vatnsfjarðarfrumritið og Leirárfrumritið er eitt og hið sama — er afskript bréfsins í Bodl. í Oxford. Collect. F. Magn.

1) [b; sl. XLVIII, 4 (!). 2) ad b. 3) b; sl. XLVII, 4. 4) [1530 og 1, b.

55. 4to bls. 41—42 með hendi síra Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði (d. 1690), en í þeirri afskript hefir ártal bréfsins misskrifazt 1540 fyrir 1531. — Önnur afskript þessa bréfs er og í Landsbókasafni 787. 4to bls. 178—179 með hendi Odds digra Jónssonar c. 1680—1690. — Enn er afskript þessa bréfs í Svartskinnu M. Steph. 27. 4to bls. 288—289 með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720. Sbr. Annála Björns á Skarðsá, Hrappsey 1774, I, 108 (viðbót Brynjólfs biskups í annálinn).

Kaupmalabref Eyolfs Einarssonar og Helgu Jonsdottur.[1])

Jn nomine Domini Amen.

Lýstezt ok stadfestezt suo giordur kaupmale millum Eýolfs Einarssonar ok Helgu Jonsdottur at þeirra brudkaupsdeige æ Hoolum j Hialltadal. sunnudagenn næstañ epter Mikelsmessu[2]). J fýrstu at Eýolfur talde sier til kaups med greinda Helgu .vj. hundrud hundrada. gaf nefndur Eýolfur greindre Helgu fiordungsgiof ur saugdum peningum. svo framt hun lifde honum leingur. sagde biskup Jon at hann hefde gefet greindre Helgu Jonsdőttur frændkonu sinne ij hundrud hundrada. var þar tilskilin jőrden Laugmanzhlid med þvi bue ok peningum sem þar þǽ samanstődu. Lofudu Are Jonsson laugmann ok sira Magnus Jonsson brædur greindrar Helgu at gefa henne hundrad hundrada suo framt sem nefndur Eýolfur feinge alla þa peninga er honum hőfdu lofader verit. ok hann talde sier til kaups med greinda Helgu. Hier med gaf greindur Eýolfur optnefndre Helgu Jonsdőttur. lx. hundrud j tilgiof. var þar til skilen jorden kirkiulækur j Teigskirkiu sokn. Med þessum aullum adur saugdum giorninge ok yferlýstum skilmala feste Eýiolfur Einarsson Helgu Jonsdottur epter riettum bokarinnar ordum j greindum stad ok deige. var þeirra brudlaup halldit epter landzsinz sid ok laganna setninge. Voru þesser uottar ad ǽdur saugdum giorninge. broder Helge med gudz nad abote æ þýngeýrum. broder Jon med gudz forsia prior a Maudruvollum. sira Jon Einarsson beneficiatus j Odda. sira Tumas Eireksson beneficiatus æ Mælufelle[3]). Grimur Jonsson. Einar brýniolfsson. Jon Hallzson. Markus Jonsson. Ok til sannýnda hier um setium vier fýrer[3]) skrifader menn vor jnncigle fyrir þetta bref er skrifad var j sama stad ok are jn festo

1) með hendi Arna. 2) þ. e. 1. Okt. 3) Svo,

sancti Andrei Apostoli anno Domini millesimo quingentesimo xxx. primo.

---

496. **20. December 1531.** **í Gnúpufelli.**

Þorleifr Grímsson gefr Þuríði dóttur sinni í tíundargjöf og fjórðungsgjöf jörðina Arnarstaði í Eyjafirði og þar til tuttugu málnytukúgildi og tuttugu hundruð í þarflegum peningum, en Þorleifr segist eiga alls tuttugu hundruð hundraða og tvö hundruð hundraða betr.

ÍBfél. Khd. 67. 4to bl. 79 með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745).

Giafabref Þorleifs Grimssonar.

Þad giori eg Þorleifr Grimsson gődum mǫnnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. at eg medkenniz. at eg hef gefit Þorridi dőttr minni jordina Arnarstadi i Eyafÿrdi med ǫllum þeim gǫgnum og gięđum sem henni hefur fÿlgt at fornu og nïu. þar til gef eg henni xx mælnÿtu kugilldi og xx^c i gődum og þarfligum peningum. skal þessi min giǒf reiknast i tiundargiǒf og fiordungsgiǒf. kunni so til at falla. at hon eigi eigi skilgetin born epter sic þa skal þessi min giǒf falla under hennar brodr Grim Þorleifsson. Reiknadiz þa so mitt fe. er eg gaf þessa giǒf. i fǒstu og lavsu xx^c hundruda og ij^c hundrada betr. Og til sanninda hier um set eg mitt innsigli fyrir þetta bref. skrifat i Gnupufelli i Eyafÿrdi midvikudaginn næstan fyrir Thomas Messo postula um vetrinn ærum epter Guds burd Ꝏdxx og xi ar.

---

497. **1531.**

Afhending Hreppphóla, þegar síra Páll Egilsson meðtók eptir síra Teit heitinn Þorsteinsson.

AM. 66.a 8vo bl. 8b með hendi síra Jóns Egilssonar c. 1600. — AM. 262. 4to bl. 4b. skr. c. 1600.

Hier uantar einn maldaga. xj. þessi.
Anno 1531.

Suo micla peninga medtoc sijra pall eigilsson, eptter sijra teit heitinn þosteinsson. kyr. xu. asaudar. lx. iij hestar og iij hross.

war kirkian giord fyrir iijc. enn stadurinn[1]) fyrir vjc.

---

498. [1531].

Dómr (klerka, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti) um það, hvort síra Jón (Gíslason) skyldi nokkru sekr eða eingu um bruna kirkjunnar í Holti undir Eyjafjöllum.

Landsbókasafn 62. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ur brefabok Ögmundar biskups" (AM.). Um ártalið ritar Árni: „1531 ad synest. helldur enn 1530. Brefen sem i bokinne eru næst fyrer framan þetta. eru dat. 1531. þau sem epter koma. mixtim 1530 og 1531".

Um̃ kirkiuna ȷ Hollte.

Vorum vier j dőm nefnder et cetera.

Hvort sera Jőn skyllde nockud sekur edur einskis um kirkiubrunann j Hollte under Eyiafiőllum. ok adrar þær saker sem biskupinn hafde honum ǘ hőndum. ok ǘdur var dőmur a geingenn[2]). komu þar fram̃ tvő skialleg vitne. hvorier vitni baru ad ǘdur skrifadur Sira Jon hefde lagt sig. sinn heidur og alla sina peninga ȷ biskupsins valld. ok saker þess ad oss virdtest nőgar saker til vera. Þvi ad h(eilags) anda nad tilkalladre ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier med fullu dőms atkvæde. prestsens heidur. stadenn ok alla hañs peninga ȷ biskupsins valld. ok sera Jon skylldugañ ad hallda stődduglega þǘ satt ok siǘlfdæme. sem hann hafde adur biskupinum tilsagt. ok skylldugañ ad taka lausñ ok skrifter af biskupinum.

Samþyckte þenna vorn dőm med oss adur greindur herra Ogmund. ok marger adrer gőder menn et cetera.

---

1) 262; stadur 66. 2) 1530. Sjá Nr. 452.

499. [1531].

Dómr tólf klerka (út nefndr af Ögmundi biskupi), þar sem Jóni Þórðarsyni er dæmdr eiðr, að hann hafi ekki verið i ráðum með síra Þórði (Einarssyni í Hítardal) upp á biskupsins og kirkjunnar bak og skaða, og honum meðal annars dæmdar þungar sektir, en Jón skýtr þessum kirkjunnar málum undir leikmanna vald og á Alþing.

Landsbókasafn 62 8vo með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM.).

Um Jon Þordarson.

Voru þesser menn i dome Jons Þordarsonar. Jn primis Sera Þorleifur officialis. Sera Þordur Olafsson. Radzmann. Abote Gisle. Sera Jon Hiedinsson. Sera Gudmundur Jonsson. Sera Alexius Palsson. Sera Sæmundur Arnason. Sera Jon Gislason. Sera Jon Jonsson. Asgrimur Þordarson. Sera Þormodur ok Freysteinn. Var Jone dæmdur eidur. ad hann hefde i ongvum radum vered med Sera Þorde uppa biskupsins ok kirkiunnar bak ok skada. skyllde hann hafa unned eidinn innan .x. vikna særra daga. Enn ef hann fielle a eidnum. dæmdum vier hann sekañ. lx. morkum vid kirkiuna. ok audrum. lx. morkum vid biskupinn. Enn fyrer þad ad hann hafde sett sig sialfur ut af heilagre kirkiu. sidan biskup liet bioda honum lausn. dæmdum vier hann sliku sekan. sem hann hefde geingid i sökum őleystur i kirkiu. Appellerade ődurskrifadur Jon þessum kirkiunnar mőlum under leikmanna valld. ok a alþing med innsigludu brefe. Leitst oss þad en hæsta sok. ok hann sekan. xc. morkum kirkiunne. oc audrum. xc. morkum biskupinum. skylldugan ad taka lausn ok skripter ok skila biskupinum aptur brefinu. et cetera.[1])

---

1) Um ártal þessa bréfs fer Árni svo feldum orðum: „Brefin i bokinne. sem næst eru fyrir framan þetta. eru daterud 1530. Þad sem næst epter kemur. er dat. 1531. Er so liklegast. ad þetta mune daterad vera ä ödru hveriu þessu äre. og helldur 1531. þvi Sira Gudmundr Jonsson var Radzmadur 1530“.

500. 12. Janúar 1532. í Bólstaðarhlíð.

Einar Oddsson gefr kirkjunni á Hofi í Vatnsdal kolviðargerð upp á tvo hesta árlega í Fljótstunguskóg uppá þann part, er tilheyrði hálfri jörðunni Fljótstungu, er Einar átti.

AM. Apogr. 756 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali“ á kálfskinni frá Hofi í Vatnsdal.

Þat geore eg einar oddzson godum monnum uiturligt med þessu minu opnu brefi at eg medkennunz at (eg) hefi gefit kirkiu hins sæla Johannes euvangeliste er stendr at hofi ȷ vazdal kolvidargerd upp a tuo hesta arliga ȷ fliotztungu skog vpp ȷ þann part skogarins er eg atte og tilheyrdi halfri ȷordunne flioztungu. Og til sanninda her um setta eg mitt ȷnsigle fyrir þetta bref er skrifat uar ȷ bolstadarhlid laugardagin næsta fyrir geisladagin þa er lidit uar fra hingatburd vors herra ȷhesu christi ꝏ d xxxij ar.

---

501. 12. Febrúar 1532. í Reykjahlíð.

Þorsteinn Pálsson selr Árna Brandssyni tvo parta í jörðunni Bustarfelli í Vopnafirði með samþykki Gamla Magnússonar bróður síns og segir til landamerkja. en Árni geldr í mót þrjá tigi hundraða í Ásbrandsstöðum í Vopnafirði með þrem kúgildum og hálfkirkju skyld, og segir til landamerkja.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Norðrmúlasýsla Nr. 3, afskript af Bustarfellsbréfum frá 1704.

Þad giorum vær Þosteinn fim̄bogason. Torfe þosteinsson. Jőn Jonsson. Einar Þórvalldzson. Eysteinn fimbogason. Jvar Eirekzson. Godum monnum kunnugt med þessu voru opnu Briefe þa lidid var fra Gudz burd ꝏ d xx og xij ǻr vm veturinn sunnudaginu ȷ faustu inngǻng[1]) ȷ Reykiahlyd vid myvatn vorum vier i hiǻ sǻum og heyrdum æ ath Þosteinn Pǻlsson sellde Arna Brandzsyni med handabande til fullrar Eignar og frialz forrædis tuo parta i ȷordunne Bust-

1) þ e. 11. Febr. 2) [Svo.

med samþicki Þorbiargar dottur sinnar. med soddan dyrleika. halfar myrar firer fimm hundrud og xl. Kietilseyr. xx^c. Sueinseyr xx^c. liggia þær tuær ȷarder ȷ Sanda kirkiu sokn. Ædey .lx^c. Sandeyr. xxiiij^c Vnadsdalur. xxx^c. fiorar ȷarder ȷ Veidileis[1]). xxiiij^c. allar. liggia þessar ȷarder ȷ Snæfialla kirkiusokn. Sagdi Þorleifur halfkirkiuskilld á Ædeẏ. skilldi huor hallda þeim ȷördum til laga er keifft hafdi. enn þeir suara laga ʀiptingum er sellt hefdi. Heirdum vær aungvan askilnad þessara manna millum ȷ þessu þeira kaupe. helldur kom þeim allt vel til samans.

Og til sanninda hier vm setti þann verdugi Herra Byskupinn[2]) Jon sitt Jnnsigli med vorum firr skrifadra manna Jnnsiglum firir þetta brief[3]) er skrifad var ȷ Nupufelli ȷ Eẏafirdi fimtudæginn næstan effter allra heilagra messu vm haustid þremur arum sıȷdar Enn firr seiger[4]).

a[5]) Medkennumst vid Oddur Oddsson prestur og Magnus Hialtason ad vid höfum sied og yfirlesid svo latandi bref ord fyrir ord. sem hier fyrir ofan stendur skrifad. med fiorum hangandi innsiglum. Og ad svo i sannleika er[6]) setium vid okkar signet hier fyrir nedan. Skrifad þann seinasta Julij a Teigi i Fliotshlid Anno 1602.

b[7]) Medkiennum vid Sugurdur Markusson og Sueirn Olafsson. ad vid höfum sied og ȷferlesid so latandi briefz Copiu ord firer ord. sem hier firer ofan skrifud stendur. med tueggia dugandis manna á þricktum signetum. Thil merkiz eru ockar Zignet hier vnder sett á Skutustödum vid Myvatn þann 20 dag Martij manudar Anno 1644.

---

**524. 8. Nóvember 1532. Í Skálholti.**

Dómr sex presta, útnefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um trjátöku þeirra Helga Sigurðssonar og Ólafs Ólafssonar og önnur gæði af rekanum á Skeiði milli Ölvosáróss og

1) Veȷdeleisu *b*. 2) Byskup *b*. 3) Hér þrýtr *c*, sem er *a* í öllu samhljoða. 4) „og hefur þá datum skrifast 1535“ b. v. *b*. 5) eptir afskriptunum frá 1867 og MSt. 27. 6) sé 27. 7) eptir *a*.

Þorlákshafnar, er biskup eignaði staðnum í Skálholti eptir gömlum vitnisburðum,

Bisk. Skalh. Fasc. VI, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2578 „accuraté“ og hefir Árni Magnússon tilfært við afskript sína orðamun eptir bréfabók Ögmundar biskups.

Domur um Helga Sigurdzson og Olaf Olafsson.
Vm̃ rekann ä skejde. 1532.

Ollum monnum þeim sem̃ þetta bref sia edur heyra senda gudmundur jonsson. eyolfur grimsson kirkiuprestur. steffan gislason. magnus jonsson. þollakur landbiarzsson. sueinn þorbiarnarson prestar skalholzbiskupsdæmis. kuediu guds og sina kunnigt giorandi ath sub anno gracie. ɱ⁰. d.⁰ [xx.⁰ xıȷ⁰.[1]) j skalholti. faustudagin næstan fyrir festum sancti ɱartini episcopi. vorum uier j dom nefnder af uirdulegum herra og andaligum faudur j gudi. herra augmund med gudz nad biskup j skalhollti. ad skoda ransaka og fullnadar dom æ ad leggia. huerra suara eda sektta helgi sygurdzson og olafur olafsson yrdi skyllduger fyrir þath. ad þeir hefdi haftt tre og aunnur gædi af rekanum æ skeidi æ millum auluosarós og þorlakshafnar. kom þar fram j domen fyrir oss oped bref. abota. heitins halldors sem gud hans säl nädi er hier er med fest[2]). Suo og þeir sem verit hafa radsmenn sidan[3]) bäru og uitni ad þath hefdi uerid stadarins eign og þadan hefdi uerid dreigin trie stadnum til þarfa. Jtem j þridiu grein bäru og tueir menn uitne. magnus nichulässon er uar heimamadur æ strond þä þoruardur laugmadur lifdi og heyrdi hann lýsa þui ad sier heyrdi ecki til ædurgreindur reki æ skeidi. Jtem bergsteinn odzson[4]) sem bio æ hraune sagde fyr nefndur þoruardur laugmadur hefdi bannat honum at hafa af þrattnefndum rekum æ skeidi annat enn þath sem ʀadsmadurin j skalhollti leyfdi honum. Jtem af audrum parti kom þar fram bref um landamerki j millum hrauns og hafnar. Leist oss þath ecki afl hafa upp æ rekans vegna. Þui ath heilags anda näd til kalladri ad suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum uier fyrr nefnder domsmenn med fullu doms atkuædi tittnefndan rekan æ skeidi

1) [xxxıȷ⁰, brb. 2) Þ. e. bréf frá 23. Apr. 1509, DI, VIII, Nr. 232. 3) Þ. e. síðan 1509. 4) Oddsson, brb.

uera rietta eign kirkiunnar j skalhollti og uerith hafa. Enn fyr greinda menn helga og oláf skýllduga aftur ath flýtia huat sem þeir hefdi j b(u)rt haftt af þratt greindum reka a skeidinu[1]) og tuigillda aftur og sueria lýritar eid enn minna og þeir menn med þeim sem biskupin nefndi til edur hans vmbodsmadur at þeir hefdi alldri heýrt þenna reka [eignadan skahollzkirkiu[2]). Enn ef þeir fiellizt at eidinum seker fullrietti kirkiunnar .lx. marka og skyllduga at taka lausn og skripter sem kirkiunnar laug ut uisa.

Samþyckti þenna uorn dom ádrskrifadur herra augmund [med somu nád[3]) og setti sitt innscigli med vorum innsciglum fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad deige og ári sem fyr seiger.

---

## 525. 6. December 1532. í Vallanesi.

Vitnisburðarbréf um landamerki Möðrudals á Fjalli.

Landsbókasafn 62. 8vo afskript „Ur brefabok biskups Ögmundar" með hendi Árna Magnússonar, staðfest í Skálholti 9. okt. 1711 af Árna Magnússyni, Ormi Daðasyni, Þórði Þórðarsyni og Páli Hákonarsyni. — Prentað í Tímariti Jóns Pétrssonar I, 44—45.

Um Modrudals landamerke.

Þat giorum vier Einar prestur Arnason. Ormur Loptsson. Halldor Olafsson. godum monnum vitanligt. med þessu voru opnu brefe. ad vier heýrdum Jon Gudmundzson lysa svo vordnum framburde. ad hann hefde vered barnfæddur i Maudrudalsstad a fialle. hia faudur sinum Sera Gudmunde heitnum Jonssyne. sem gud hans sal fride. ok sagde hann hefde hallded stadinn fyrrgreindan sex ár oc xx. ok kvedst hafa alist þar upp til þess hann var nitian vetra gamall. ok sinn fader hefde hallded landeign Maudrudals stadar ad þeim læk sem fellur undan Sulundum ofan i Haulkná. sem rided er ofan i Vopnafiaurd. ok svo langt austur i heidina under

1) brb.; skeidum, frbr. 2) [skalholltzkirkiu til heyra, brb. 3) [skafið í frbr.

þrivardna háls a Skioldolfstada veg. ok halft Seningarvatn. ok oll griotgardzvötn. ok fram̄ a þrivardna fiallgard er stendur a hestleid. Bruarveg ok halfan Arnardal ad ollum giædum. ok atta hrossa göngu beit i Vegge ok Krokmel. ok taka ecke undan fololld. a Myvats auræfe fyrer nordan Jokulsá. ok halfar Herdebreidstungur. Her med lyste hann. ad Skalholltzstadar eign hefde þa vered halldin halfer Grimstader a fialle. enn Maudrudalsstadar halfer. ok sinn fader hefde þar haft egg ok fugl. skog ok gras. oc allar landznytiar. enn landamerke ofan ad á þeirre sem kaullud er Vatsleysa. her sagde hann ongvan̄ hafa atalad medan hann visse. utan um þrivardnahals hefde Skioldolfstadamenn uppatalad. þo þar yrde ecke fram̄kvæmd á. Þennan̄ fram̄burd ok lysing handsalade greindur Jon Gudmundzson bókareid velbornum dandimanne Gudna Gottskalkssyne. sem þa hiellt Maudrudals stad. epter sinne fram̄saugn. ok til meire audsyningar oc stadfestu epter laganna utvïsan. settum vier adurskrifader menn vor insigle fyrer þetta vitnesburdarbref. skrifad i Vallaness stad a Vollum. ok greind lysing for þar fram̄ likavel Nikulasmessudag arum epter gudz burd m⁰. d⁰. xxx⁰. ok tvo ár.

---

526. **27. December 1532. í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti fær dótturbörnum Finns heitins Þorvaldssonar til fullrar eignar jörðina Fljótshóla í Flóa með fiskreka, trjáreka fimm álna trjáa og þeim reka, er þarfnast til húsa og búshluta, með forkaupsrétti aptr til staðarins í Skálholti, ef þau vilji selja, en þau fá biskupi allan arf, sem fallinn er fyrir norðan eptir Finn heitinn móðurföður þeirra.

AM. 232. 8vo bl. 122a (bréfabók Gizur biskups Einarssonar í frumriti 1540—1547). — AM 266 Fol. bls. 114 (bréfabók Gizurar biskups í afskript síra Haldórs í Reykholti 1654—1657). — AM. Apogr. 2803. Sbr. Nr. 566.

Kaupbref fyre fliotzhőlum.

Wier augmund med gudz nad biskup j Schalhollti giaurum godvm monnum kvnnigt med þessv voru opnu brefi. ath

uier haufum feingit dottur baurnum finz heitenz þorualldzsonar. jaurdina alla fliotzhola er liggur j gaulueriabæiar kirkiu sokn til fullrar eignar oc frials forrædis. hier med skulu þau hafa af rekunum .v. alna laung trie. og suo sem þarnazt til husa og bæta bus ·buhluti sina og fiska alla. Ecki skulu þau iaurdunne fyrirgiaura nei[1]) [selia] vtan Schalholltz stadar formanne ef þau vilie selia. Skal stadurinn fa þeim suo micla peninga sem fe liggur j iaurdunni. Hier j mot hafa þau feingit oss allañ þann arf sem þeim [var] til fallinn fyrir nordan eptir greindañ finn heitenn þorualldson modurfaudur sinn. Og til sanninda hier um setium uier vort inscigle fyrir þetta bref skrifat j Schalhollte ipso die sancti johannes apostuli et euangeliste. Anno domini. m⁰. d⁰. xxx ij.

Þetta bref med heilu og oskauddu hangandi inncigle hafa sied og yfer lesid sira jon Einarsson og sira Gvnnlaugur Arnason.

---

527. 1532.

Skrá um landamerki Hofs á Skagaströnd til móts við aðrar jarðir í grendinni.

*a*, Afskript frá c. 1790—1800, staðfest af Magnúsi Björnssyni og Guðmundi Magnússyni, komin til Landsskjalasafnsins í Febrúar 1906 frá Birni Guðmundssyni á Örlygsstöðum, skemd af fúa og lúa; gerð eptir transscripto Bjarna Þorsteinssonar og Hákonar Jónssonar rituðu á Hólum 13. Dec. 1667. — *b*) Afskript gerð eptir sama transscripto og *a*, staðfest í Hvammi í Vatnsdal 16. Maí 1824 af Birni sýslumanni Blöndal, nú meðal Þingeyraklaustrsskjala í Landsskjalasafninu. — *c*) Brot af transscripto á skinni í Landsskjalasafninu, skemt af fúa, „saman lesid med odru rotnu og funu [blade þessu sa]mhliodandi og kann þess vegna framvegis fyllilega ad validera sem Original Transscript af Hofskyrkiu Máldaga. Testera ad Hofi a Skagastrond þann 8da Augusti 1791. — Jonas Benedictsson profastur i Hunavatnssyslu. Benedict Jonasson (?) proprietarius . . . .“ — *d*) Afskript með hendi síra Páls Jónssonar á Höskuldsstöðum (d. 1870), leiðrétt og fylt eptir transscripto frá 13. Dec. 1667: (*a* og *b*). — *e*) Afskript með

1) Svo = nie.

hendi sama manns, að því er virðist, eptir transscripto frá 6. Aug. 1791 (= c), og vantar niðrlag.

[Soleidess landamerki finast firer Hofe og hier greindum̄ jördum sem ettir filgir med þessu Dato 1532.

Fyrst[1]) firir Hofi og þess hialeigum̄[2]).

ad sunnañverdu rædur ur Tuisteinum̄. og þadañ upp á fialled. firir utañ Hraunagiotur[3]) af fiallenu ad[4]) austañ i læk þann sem rennur i Fossdeildarđ[5]). enn hun rædur merkium̄ i Langavatn. þđ seigizt almenningur firer austan ana til annara landa sem skiöl seigia. þá ad utañ rædur gardur frá sió. undir [varda edur vörðu hvört sem mönnum sinist riettara[6]). đ Breckunni. Ur vörðu[7]) og[8]) i asenda firer austañ[9]) flőaun. þadañ riettsiness austur i Litlaskard. so yfir fialled i Langavatn. So đ Hof hris i asum̄. ad sunnañ mots vid Hvammkot. Hof đ holt og haga ad vestanverdu i Moldas mots vid fiall. þadañ uti Lomatiarnir.

[10]) Hvammkot á lañd ad utañverdu ad Ørlogastada[11]) landi. frá Reirlag austur [đ hđasa[12]). þadañ[13]) austur ad lomatiornum̄. þa đ fiall fra lomatiørnum̄ ut i Trølla. firer nordañ Moldás. so i holenn ad Ørlögastada[11])landi. þadañ i đna so sem vötnum̄ hallar ad Langavatni. ur firnemdum̄ gardi og vörðu[14]) rada landamerki Ørlogsstada[11]). so i lingbreidar enda sidri. þadañ i Reirlag. so[15]) [úr lagenni[16]) riettsinis austur yfir holt og floa austur i Selas[17]). Ettir þuj sem vøtnum̄ hallar. ad Fossa. ur asnum̄[18]) austur i stein þann sem Trølli er kalladur nordañ đ[19]) Moldas. þadañ i holenn ad fialls[20])landi. So yfir ana um̄ fossana og so firir utan ana. sem vötnum hallar ad Kvanneirum̄[21]) i midt vatnid. so

---

1) 1, *a*. 2) [*a*, *b*; Extract af Hofs Máldaga 1532, *hin*. 3) *b*, *c*, *d*, *e*; — götur *a*. 4) *b*, *c*, *d*, *e*; sl. *a*. 5) — dældará *a*. 6) [*a*, *b*; vörðuna, *hin*. 7) *a*, *b*; vörðunne *hin*. 8) sl. öll nema *a*. 9) *a*, *b*; nedan, *hin*. 10) 2., b. v. *a*. 11) *a*; Örlögsstada, *hin*. 12) [*a*, *b*; hia Ási, *hin*. 13) þad (!) *b*. 14) varda *b*. 15) sl. *a*, *b*; b. v. *hin*. 16) [utan lágina *c*, *d*, (sem orðamun). 17) *a*, *b*; Selá, *hin*. Hér þrýtr *c*. 18) ásunum *b*. 19) í. *d*. 20) *b*, *d*, *e*; Fiall, *a*. 21) *a*; Hvanneyrum, *hin*.

yfir mitt[1]) vatnid i skialdbreidar holþufu. ur þufunni vestur i fiblalæk[2]). ur læknum firir vestañ fossana i ana. so i blå-hol. þadañ i heylæk. ur hejlæk i Brunavatn. so Ettir laga brunanum i Kroklag. so å breckuna mots vid tungard. So ur[3]) gardinum riettsiness ad sio firir utañ votulag. þadañ inn med sió i Markvik under fornmanna klöpp. So rædur [gardurinn. Er[4]) almenningur kalladur frá midiu skialdbreidarvatni og ad lagxardrøgum. Nesia jardir eiga land[5]) samañ[6]) firir innañ torfdal[7]) til heidar ad almenningi inn i laxardrøg[8]). Biargir eiga land austur i litla skialdbreidarvatn og saudabreckur inn ad þeim læk sem rennur i fossa mots vid hellirsgil.

Hrőastadir Eiga fra læknum ad Ørlôgastada[9]) landi firir vestan fossana. Hof og Kieta eiga hrossabeit i Svinafialli[10]). Þær[11]) Eiga og Alftaregg[12]) i almenningi og hrisrif.

Þetta Brief er riett coperad Ettir gømlum måldøgum. og sem næst verdur komest Ørnefnum[13]). og þar til vitnessburdar eru vor [undir skrifud nøfn[14]) A Holum [dag 13. Decemb. 1667.[15])

Biarni Thorsteinsson. Hakon Jonsson.

framañ skrifad upp lesed firir manntalsþings Rietti ad Vindhæle a Skagastrond þann 26. Aprilis 1743. testerar

Grimur Grimsson.

[riett vpp koperad eptir originalnum vitna

Magnus Biørnsson. Gudmundur Magnusson.[16])

[Ad framanskrifad Document sé samqvæmt mér framvísadri Copiu eptir gömlum máldőgum vitnar undir hönd og Signeti ad Hvammi i Vatnsdal þann 16da Maii 1824.

Blondahl

Sýslumadr í Húnavatnssýslu

(L. S.)[17])

---

1) b. v. *d*, e. 2) Fiskalæk *d*, *e*. 3) sydri, b. v. *b*. 4) gardur. Enn er, *b*. 5) lond *b*. 6) til samans *b*, *d*, *c*. 7) Tordal, *b*. 8) Fossárdrög *d*, e, upphafl., en leiðrétt. 9) *a*; Örlögsstada, *hin*. 10) *a*; Svínafelli, *hin*. 11) þ. e. Hofs og Ketu kirkja. 12) alftaegg *b*. 13) örnöfnum *b*. 14) [vor nöfn undirskrifud *b*. 15) [anno 1667 d. 13da Decembr. *b*. 16) [*a*; vantar i *b*. 17) [b. v. *b*; vantar í *a*.

528. **1532. á Hvoli í Bíldudal.**

Vitnisburðr um það, að Ari bóndi Andrésson hefði lýst því, að Þórdís Gísladóttir kona hans væri kjörin helmingakona í sinn garð alls fjár, feingins og ófeingins, og ætti alla peninga hálfa móts við sig.

Bæjarskjalabók á Rauðasandi með hendi Orms Daðasonar c. 1730, stafrétt eptir frumritinu: „Under brefed hafa heingd vered 2 Jnnsigle, og er þad fyrra kyrt, nockud bräkad. Hid sidara burt af þveingnum. Var brefed ä kalfskinn Ritad, vel læselegt, þo lited Roted, so ad öllu hliodande sem framan og ofan greiner". — AM. Apogr. 1186 og 1259 og er önnur afskriptin (1186) komin frá Ormi Daðasyni 172(7), en hin kopían er gerð 1728 fyrir Árna Magnússon eptir þeirri afskript, sem kom frá Ormi. Sbr. Nr. 521.

Þat giorum uid ion ionsson og olafur gudmunzson godum monnum kunigt med þessu ockru opnu brefi at uid medkennuzt at uid haufum heyrt ara bonda andresson lysa fyrir ockur at þordis gisladotter kona sin uæri kioren helmingakona j sinn gard til allz fiar feingins og ofeingins er þau ætte eda eigande at yrde. og hun ætte[1]) alla peninga halfa mozt uid sig kuika og dauda fasta og lausa nær sem kristur krefde þau andar. hier epter vilium vid sueria ef þurfa þiker. Og til saninda hier um setium uid ockur jncigle fyrir þetta uitnisburdarbref. skrifat ä huole j billdudal arum epter gudz burd ᴍ⁰. d⁰. xxx. og. ij. ar.

---

529. **1532.**

Ágrip af bréfi Friðriks konungs I. til þeirra hvors um sig Jóns biskups Arasonar á Hólum og Þorsteins Finnbogasonar, að láta þá Peder van Spreckelszen og Dytmer Korb, ráðsmenn í Hamborg, og vini þeirra, ganga fyrir öðrum, hvort sem eru Hollendingar eða aðrir, að fá brennistein og annan varnað á skip þau, er þeir ætli að senda til Húsavíkr.

1) Apogr. 1259; ætta 1186 og Bb.

Kong Frederik den Förstes danske Rigsregistranter, udg. ved Kr. Erslev og W. Mollerup, Khavn 1879, bls. 395—396, eptir „Danske tegnelse bog" 1531—1532 (í Ríkisskjalasafni Dana).

Her Pedher van Spreckelszen och her Dytmer Korb. raadmend vdi Hamborg. met theris wenner skulle haffue en forscrift till biscop her Ioan Argisszon. at the wille skicke et skib till Island vdi Huszwiig norden Island effther sueffuel och andit godts ther at skibe. at hand will viide och tilstede. at the mwe fange sliig sueffuel och anden ware for theris pendinge och will vndet thennom for en anden. thet were seg Hollender eller ander. och will forskicket hoss Torsten Fymbouerszøn. som samme sueffuelbierg tilhører. at the maa fange slig sueffuel for theris pendinge etc.

Och sligt et breff till Torsten Fimbouerszøn. at hand wil vnde thennom samme sueuel for theris pendinge for en anden och icke vnde thet Hollender.

---

530. 1532. í Skálholti.

Máldagi Brianslækjarkirkju á Barðaströnd vidimeraðr af tveimur prestum.

Landsbókasafn 108. 4to bls. 431—432, máldagasafn síra Jóns Haldórssonar í Hítardal skr. c. 1720—1730.

Maldæge Lækiarkirkiu 1532.

Þad giörum vær Jon Hiedinsson. Gudmundur Jonsson prestar Skalhollts biskupsdæmis gödum mönnum kunnugt med þessu voru opnu brefe ad vær medkennust. ad vær höfum sied og iferlesed so látande maldaga kirkiunnar á læk. sem hier seiger.

in primis kirckian er helgud Gude og jungfrú Mariu og hinum heilaga Gregorio.

kirkian a heimland halfft og halfa Eingey. jardernar Hlijd og Þverá. halfan Peningsdal. Uppsale og[1]) Vatzdal med skogie og haga nedan frá Eidsá og Þingmanná[1]) á

1) Hér er autt bil í handritinu fyrir einu orði.

gelldneitatungur. so langt sem skoge er vaxed. utañ skog i ärmőtum mille þingmanaðr og[1]) Lambagilia. er kýrkiañ i Haga ä.

Kirckiañ ä selveide alla med aullum fiðrugiædum ä Eide firer innañ Skalmarnes. millum Sandvijkurness og kellingartanga. kirkiuskier tvð.

vi kýr. v äsaudarkugillde og eitt hundrad frijtt.

krossa ij. mariuskrifft. messuklæde. alltarisklæde ij. kluckur ij. og bialla. fontzklæde. Glődarkier. Elldbere. og merke.

Þangad liggia under xv bæier ad tijundum og lýsetollum.

Þar liggur ȷ prestsskýlld. og luka honum iij merkur kaups.

Og til sanninda hier um sette biskup Augmundur sitt innsigle med ockrum ȷnnsiglum firir þetta bref. Skrifad i Skælhollte. ärum effter Guds burd 1532.

---

531. 1532.

Skrá um peninga þá, er síra Bjarna Guðmundssyni voru afgreiddir með Hofsstað í Álptafirði.

Máldagabók Skálholtsstóls hin forna (= D 12) bl. 147 b, með hendi Bjarna Marteinssonar 1601.

Hof.

Anno domini m. d. xxxij.

Jtem voru suo mýcklir penijñgar af greid(d)ir sijra biarña gudmundsýne med hofstad.

Jn prijmis. x. kýr. tijutier asaudar. vj saudi tuæuetra. iiij ær gelldar oc iiij saudir veturgamlir. þreuetur griduñgur .iij hestar .v hross oc attu þriu ad vera med fyle. voru þar fýrir golldnir x aurar. sex fiorduñga ketill. halfs annarz fiorduñgz ketill oc miog vondur. ij storker miog vond. xij trog voñd. sex vppgiordarkeraulld miog giardfä oc loggua stockiñ. iiijr. diskar med voñdu tinfate. vj skalir. vj spon-

1) tvískrifað í hdr.

geflur. alñarlañgt jarñkallz brot. brýtaux. jarñsleggia. ij sæñgur lasñar. ij bediar dýnur. ein tinkanna. lijndukur hrijñgofinn. munnlog. ij fiorduñgar smiors.

laus deo.

---

532. [1532].

Dómr (út nefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti) um það, hverra svara eða sekta Sigurðr Ólafsson væri skyldugr og hans fylgjarar fyrir aðtekt og hald á jörðunni Hóli í Bolungarvík.

AM. Apogr. 2747 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar". „Þetta bref stendur j bokenne næst epter sölubref Øgmundar biskups ä Storuvöllum. Holltzmula et cetera til Ellendz bonda Jonssonar og Gudnyiar Torfadottur, sine anno". Ártalið „1532" setr Árni upp í hornið.

Um Hol i Bolungarvik.

Vorum vier i dom nefnder. ad skoda og ransaka oc fullnadardom a ad leggia. hvorra svara edur sekta Sigurdur Olafsson oc hans fylgiarar være skylldugr fyrir þa adteckt og halld sem hann hafde a iordunne Hol i Bolungarvik. Kom herra biskupinn þar fram̃ fyrer oss med dandimanna dom er dæmdur var i Hollte i Önundarfirde fyrer tveimur ārum[1]). er svo var latande mille annara orda. ad gardurenn Holl være eign herra biskupsins til fullrar eignar ok frials forrædis. ad upplage Magnusar Jonssonar. ok leitst oss hann ad ollu logligur. Svo ok leidde biskupinn tvo logleg vitne ad greindur Sigurdur handlagde sig til svars i sagdan dag. þvi ad H(eilags) anda nad tilkalladre. ad svo profudu oc fyrer oss komnu. dæmdum vier med fullu doms atkvæde hann riettelega fyrerkalladañ. og sekan mork i stefnufall. Svo ok dæmdum vier hann sekan kirkiunne .lx. merkur fyrer ranglegt halld ok adtekt. ok biskupinum adrar lx. merkur. ok skylldugañ ad taka lausn og skripter af biskupinum edur hans umbodsmanne. et cetera.

---

1) „1530. ut puto" (AM.).

533. [1532].

Bréf Friðriks konungs I. til Íslendinga, þar sem hann tilkynnir þeim efni samnings þess og sáttar, er hann hafi gert við (Hinrik VIII.) Englakonung og lýðríkin í Hamborg og Brimum um fiskiveiðar og verzlun það ár við Ísland.

AM. 191. 4to bls. 42—43 (bréfabók Jóns sýslumanns Hallssonar á skinni, rituð samtíða). — AM. Apogr. 5522 (eptir 191. 4to). — Prentað í Kirkjusögu Finns biskups II, 266—267 með latneskri þýðingu, og í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 201—203 með danskri þýðingu. Tekr Finnr biskup bréf þetta beint eptir bréfabók Jóns Hallssonar, eins og hér er gert, því að ekki þekkist þetta bréf annarstaðar frá að svo komnu, og Magnús virðist taka bréfið beint eptir Finni. Hvorugr þeirra Finns biskups eða Magnúsar árfæra bréf þetta, en í bréfaskránni við IV. bindi Kirkjusögunnar (bls. 390) er því ætlað sæti á meðal bréfa frá árabilinu 1524—1530. Ekki er þó hægt að sjá, við hvað það á styðjast. En þegar bréfið er borið saman við Alþingisdóm frá 30. Júní 1533 (Nr. 550), virðist auðsætt, að það er frá 1532 (sjá bls. 669).

Sættargiordarbref kongana.

Vier fridrek med gudz nad konung til danmark et cetera. heilsum ollum þeim sem bygia og bua upp ꝍ́ uor(t) land ȷsland kærliga med gudz kuediu og uorre.

Witanligt sie ydur ad ꝍ́ millum uor og kongs af einglande suo og æ millum stadana hamborg og breimen er su satt æ uorden og samþycki sem hier epter stendur.

Huar sem eingelsker. hamborgarar edr breimarar liggia j eirne havfn skal eirn lata anan liggia med frid.

huar sem ein haufn er þar sem uel er fiskad skal einn lofa odrum inn huort sem þat er eingelsker. hamborgarar edur breimarar ad huer sem eirn megi fa sina frakt.

Suo og skulu islenzsker færa og flytia sina fiska hvert sem þeir uilia.

Somuleidis skvlv þeir selia huar sem þeir uilia hellzt.

Suo og kome deilur edur kif j millum hamborgara edur breimara þa skal fouite j islande þa sialfa forlika. En hamborgarar [radsmenn[1]) og breimarar uilia þar aunguan

1) [rad sem, les Finnr biskup og MKet.

hlut med hafa ad giora helldur huor sem eirn skal lata hafa sinn kaupskap fridsamliga.

Suo og skulu aller gefa kongenum fullan toll bæde eingelsker og þyzker.

Þesse fyrrskrifut samþyckt er insiglut af os og kongenum j einglande og badum staudunum hamborg og breimen.

Þar er anars sker og einnhuor helldur ecki þessar skipaner hann skal vera strafadur fyrer utan uægd.

Valete in christo.

---

**534. 14. Janúar 1533. á Breiðabólstað.**

Dómr sex presta og sex leikmanna, útnefndr af síra Þorleifi Eiríkssyni officialis Skálholtskirkju, um kæru síra Þorleifs til Jóns Magnússonar, að hann hefði ekki haldið sitt heit „að gefa hálft skipið með öllu því, er hálfu skipinu tilheyrði", og dæma þeir „skipið hálft með farvið og öðru, sem þar til heyrir, vera og verið hafa fullkomlega eign jungfrú Maríu og kapellunnar á Eyvindarmúla".

AM. 191. 4to bls. 81 (bréfabók Jóns Hallssonar rituð samtíða á skinn). — AM. Apogr. 5542 með hendi Árna Magnússonar (eptir 191. 4to).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda jon helgason. arne sigmundsson. pantthalion olafsson. klerkar. eireckur þosteinson. tumas jonson. gudmundr jonson. leikmenn. kuediu gudz og sina. kunnigt giorandi ad sub anno gracie. m. d. xxx og iij ar manudagin næstan epter þrettanda dag jola[1]) a kirkiulæk vorum ver j dom nefnder af heidrsamligre personu siera þorleifi eireckssyne officialis heilagrar skalhollzt kirkiu ad skoda og dæma um þa æklogun sem skrifadr sira þorleifr klagadi til jons magnussonar ath hann hefdi ecki halldit sitt heit er hann hafdi heitid ath gefa halft skipit med ollu þui er halfu skipinu til heyrdi og hann skylldi enda sitt heitt a næstum vertidar lokum epter sem hann hafdi heitid j wertidinne. kendist fyrr nefndur jon

1) Þ. e. 13. Jan.

magnusson þar fyrir oss ath hann hefdi wnder lagt vid presten. suo og hafdi adr greindr jon magnusson aungua logliga goda abb batan[1]) þar fyrir oss ath hann hefdi þessu eigi lofat og heitid gudi og jomfru mariu. þui ad heilax anda nad til kalladri dæmdu wer fyrr nefnder domsmenn med fullu doms attkuædi optt skrifadañ jon magnusson skylldugan ath hallda sitt heit og skipit halft med farvid og odru þui sem þar til heyrer wera og verid hafa fullkomliga eigñ jumfru mariu og kapel(l)unar æ eyuindarmula og hann skylldugan hafa werit ad afgreida wmbodzmanne kirkivnar þar og sækañ[1]) fyrir heitrof epter þui sem kirkiunar logmal vt visar.

Samþyckti þenan worn dom fyrr skrifadr sira þorleifur eirexson officialis og setti sitt jnnsigli med vorum jnnsiglum fyrir þetta domszbref skrifad æ breidabolsstad j fliotzhlid æ sama ari deigi s[idar enn] fyrr seiger.

---

**535. 18. Janúar 1533. í Miklaholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti selr Þorleifi bónda Einarssyni jörðina Knör í Breiðuvík með upplagi og samþykki Haldórs Ormssonar, — ef hann ætti nokkurt tilkall til jarðarinnar, — og Kristínar Torfadóttur, konu hans, en Þorleifr skyldi greiða biskupi svo mikla peninga, sem síra Jón Einarsson yrði skyldugr biskupinum vegna Knararkirkju; Þorleifr skal og vera biskupi og Skálholtskirkju til styrks í móti villu og vantrú og öðrum vondum verkum, með fleiri greinum, er bréfið sér líkast hermir.

AM. Apogr. 2749 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar".

Um jordina Knor.

Vier Ogmund med guds nad biskup i Skalhollte giorum godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad sub anno gratiæ m.° d.° xxx.° iij.° i Miklahollte i Miklaholltzhrepp. laugardaginn næsta epter festum Sancti Antonii abbatis et confessoris. giordum vier svoddan kaup ok giorn-

1) Svo,

ing vid Þorleif bonda Einarsson. ad hann skal eignast iordina Knðr er liggur i Breidavik ad næstum fardogum epter komendum. med ollum þeim gognum ok giædum sem greindre iaurdu fylger ok fylgt hefur ad fornu ok nyu. med samþycke ok upplage Halldors Ormssonar. ef hann hefde edur hafa mætte til greindrar iardar nockud tilkall. ok med samþycke ok upplage Kristinar Torfadottur konu hans. Her i mot skal greindur Þorleifur bitala oss so mikla peninga. sem Sera Jon Einarsson yrde oss skylldugur kirkiunnar vegna þar a Knðre. med riettum lǒgum. epter dome dugande manna geingnum ok ogeingnum. fyrer portio Ecclesiæ. sidan Einar bonde Þorolfsson hiellt greinda iaurd ok hann. svo ok fyrer nidurfall kirkiunnar. Svo oc fyrer domrof ok ranglegt halld a þeim peningum sem oss hafa vered til dæmder af honum fyrer morgum arum. Enn ef Sera Jon yrde oss meira skylldugur enn lxc. þa skal Þorleifur bonde ei þo meira bitala oss enn lxc. ok þo a þrimur arum. Skylldum vier eignast ad vore komanda iordina Minne Velle. er liggur austur a Lande. fyrer .xxxc. og þar til[1]) .iiij. kugillde er þar eru med iordunne. skylldu huorer fyrer sig svara lagariptingum a þeirre iaurdu sem sellde. enn hallda til laga þeirre er keypte. skyllde ok adur skrifadur Þorleifur bonde Einarsson vera vor mann ok heilagrar Skalholltskirkiu. hvorumtveggium til styrks ok stodar i mote villu ok vantru ok odrum vondum verkum ok osidum æ iafnan. Voru þesser giorningsvottar hiaverande. ok til kallader. Sera Einar Snorrason vor officialis. Sera Biarne Þorleifsson vor kapellan. Sera Snorre Jonsson ok Sera Martheinn Einarsson. Hakon bonde Biorgolfsson vor kiæmeistare ok Petur Einarsson smásveinn. Ok til sanninda her um. setium vær vort innsigle med fyrrskrifadra dandimanna insiglum fyrer þetta bref. Skrifad a Kolbeinstodum i Kolbeinstadahrepp. sama deige ok are sem fyrr seiger.

Skipu vær kirkiunne a Hnore sina fulla instædu. bæde þa sem þar er heima nu ok annarstadar. epter þvi sem Sera Jon Einarsson hefur tilskrifad ok skipad i sinum brefum. kvikt ok daudt. fast ok laust et cetera.

1) AM. bætir við; vantar í hdr.

Til ad minnast uppa hvor reikningskapur falled hefur a Knore i Breidavik. sidan Einar b(onde) Þorolfsson hiellt gardinn. ok sera Jon sonur hans epter hann. hefur alldrei minna falled a hvoriu are af fastaeign enn xv. aurar edur þar nærre. Enn af lausum peningum hefur stundum falled half mork. enn stundum v. aurar. stundum mork. stundum ix. aurar. ok þad hefur optar vered.

---

536. 31. Janúar 1533. á Hólum.

Jón biskup á Hólum gefr „vorum kæra frænda“ síra Sigurði Jónssyni presti á Grenjaðarstað jarðirnar Grýtubakka, Hlýskóga, Jallsstaði, Hringsdal, Steindyr, Miðhús, Grímsnes, Svínárnes hálft, allar í Höfðahverfi, hálft Nes í Höfðahverfi, Eyri í eystrum Fjörðum, Hól í vestrum Fjörðum, með þeim fjám, er jörðunum fylgja, og segir biskup til jarða og kúgilda Grýtubakkakirkju, og kvittar kirkjureikning.

Eptir afskript frá c. 1740—1750, gerðri stafrétt eptir frumritinu, og ritar Jón sýslumaðr Benediktsson neðan við hana: „Þetta giafabrief er med biskups Jons Arasonar osköddudu Jnnsigle. Testor J. Benedixson.“ Afskript þessi kom til mín frá síra Arnljóti á Sauðanesi 24. Júní 1896. — Meðal Apogr. AM. 5725 er brot af þessu bréfi með hendi Hans lögmanns Beckers; þar vantar allan fyrra hluta bréfsins, en hann finst meðal jarðabókarskjala AM. Þingeyjarsýsla Nr. 14; er sú afskript gerð eptir afskript staðfestri á Grýtubakka 20. Júní 1703, meðal Þingeyjarsýsluskjala Nr. 13 (= *b*).

Wier ion med gudz nad biskup æ holum giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at vier hofum gefit vorum kæra frænda sira sigurdi ionssyni beneficiato æ grenia(dar)stad þessar iarder thil fullrar eignar grytubacka j hofdahverfi. hlýskoga. jallstadi. hringzdal. steindyr. midhus. grimsnes. suinarnes halft. liggia allar þessar jarder i grytubacka kirkiv sokn. halft nes er liggr i laufas kirkiu sokn. eyri j eýstrum fiordum og hol j vestre fiordum eʀ badar liggia j þonglabacka kirkiu sokn. hier med hofum vier gefit greindum sira sigurdi alla þa peninga frida og ofrida[1])

1) Hér byrjar brotið í Apogr. 5725.

sem oss tilheyra þar æ grytubacka og med fyrr nefndum ȷordum þat sem auk er þeirra peninga er wer hofum lagt til greindrar grytubackakirkiu. skal hann frialsliga mega eignast og at sier taka allar adur sagdar ȷarder og peninga at næstu fardogum med ollu þui sem greindum ȷordum æ med logum at fylgia. kirkiañ æ grytubacka æ þridiung ȷ heimalandi og iord æ suærisvollum[1]) ȷ hofdahuerfi og ij eydikot ȷ eystrum fiordum er heita ȷorunnarstader og kusueiusstader. ʀeka og itolur og ornamenta ȷnnañ kirkiu sem ʀegistrum inne helldur. hofum uier latid giora vpp kirkiuna og lagt til hennar xiȷ malnýtu kugilldi og viiȷc ȷ þarfligum peningum. þui giorum vier aullungis kuittañ allañ reikningzskap fornañ og nýañ sem hier til hefur fallit greindre kirkiu vtan suo mikit sem fýʀ skrifat stendur ath kirkiañ atti og uier hofum til lagt. Og til meiri audsýningar hier um setium vier vort secretum fyrir þetta bref skrifat æ holum ȷ hialltadal fostudaginn næstan fyrer agatthe virginis anno domini ꝏ.º d.º xxx.º iij.º

---

**537.** **7. Marts 1533.** **Í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti kvittar Jón Hallsson og Hólmfríði Erlendsdóttur konu hans um biskupstíundir þær, sem þau hafa hingað til átt að gjalda, og þær, sem í vor falla eiga, því að þau hafa ætíð verið biskupi og dómkirkjunni til styrks og góða.

AM. 191. 4to bls. 35—36 (bréfabók Jóns Hallssonar rituð samtíða á skinn). — AM. Apogr. 5541 (eptir 191. 4to).

Vier avgmund med gudz nad biskup ȷ skalhollti (giorum) godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi. Saker þess at ȷon bondi hallzson og hans dandi kuinna hustru holmfrid hafa alltid uerit oss og heilagri skalholltzkirkiu til styrks og goda. þui hofum uier gefit þau kuitt og akiærulaus um sinar biskupstiunder þær sem þau hafa att ad

1) snærisvöllum *b*.

giallda hingat til og þær sem nu j uor falla ꜳ. fyrir oss og ollvm vorum epterkomendum heilagrar skalholltz kirkiu formonnum.

Og til sannenda hier um þryckium uier vort jnsigli upp ꜳ þetta kuittanarbref skrifat j skalhollti feria uitt. quatuor temporum in quadragessima. ano domini ꝍ.º d.º xxx.º iij.º

---

538. **[1533].**

Ögmundr biskup i Skálholti veitir Jóni bónda Hallssyni og og Hólmfríði Erlendsdóttur konu hans kvittun nokkura eða aflausn eða heitir þeim góðendum nokkurum fyrir það, að þau hafi verið biskupi og dómkirkjunni til styrks, gagns og góða og hafi lofað að vera það.

AM. 191. 4to bls. 36 (bréfabók Jóns Hallssonar á skinni, rituð samtíða).

Vier augmund med gudz nad biskup j skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi. Saker þess ad jon bonde hallzson og hans dandi kuinna hustru holmfrid erlendzdotter hafa uerit og eru til styrks. gagns og goda oss og heilagre skalholltzkirkiu j ollum þeim hlutum þau formega og hafa somuleidis lofat at uera og . . . . 1)

---

539. **13. Apríl 1533. á Staðarhóli.**

Transskriptarbréf.

AM. Apogr. 1458 með hendi Árna Magnússonar eptir frumritinu: „tvö innsigle hafa vered fyrir brefenu. eru nu burtu. og brefed sialft vida til skemda fued“ (AM.).

Þath giore ec sygurdur oddsson og biorn jonsson nefndarmenn godum monnum kunnigtt med þessu ockru opnu Brefi at uid hofum siet og yferlesit bref oddz peturssonar

1) Vantar niðrlag.

og annat bref sira ions halldorssonar og et þridia Bref olafs magnussonar med heilum og oskoddum hangandíj jnsiglum suo latande ord epter ord sem hier epter stendur skrifat.

[Hér koma Munaðarnessbréf:

1. Bréf Odds Pétrssonar frá 21. Apr. 1481; DI, VI, Nr. 329.
2. Bréf sira Jóns Haldórssonar frá 30. Aug. 1508; DI. VIII, Nr. 193.
3. Bréf Ólafs Magnússonar frá 3. Júní 1510; DI, VIII, Nr. 261].

Og til sanninda hier um festu uit ockur jnsigle fyrir þesse utskriptar Bref huer skrifut uoru æ stadarholi j saurbæ manvdagin j paskaviku. arum epter guds burd. ꝺ.º d.º xxx. og iij. ar.

---

540. **19. Apríl 1533.** **á Hólum.**

Samningr Jóns biskups á Hólum við Ísleif bónda Sigurðsson á Grund í Eyjafirði, að kirkjan á Grund skyldi eiga alla jörðina Finnastaði, tuttugu málnytukúgildi og fjörutíu hundruð í öllum öðrum fullvirðispeningum í fornan kirkjureikning, er þar með sé kvittr.

Syrpa Guðbrands biskups í Biskupsskjalasafni í 4to bls. 14—15, skr. c. 1590, og afskript Páls stúdents Pálssonar í annari syrpu bls. 28—29. Gömlu blöðin eru nokkuð skemd. — AM. 255. 4to bls. 231—232, bréfabók síra Skúla Þorlákssonar á Grenjaðarstað, skrifuð á árunum 1687—1698.

Vr briefabok saluga Herra Gudbrands Thorlakssonar loflegrar minnijngar. sem er j Mula. Grund ahrærande þetta transskrijfftad.[1])

Wier jon med gudz [nad biskup] a[2]) holum giorum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefi ad arum epter gudz burd m. d. xxx oc iij Laugardæginn j paskaviku heim(a) a holum tilkolludu vier med oss heijdarliga menn brodur helga med samri nad abota a þingeyrum. brodur pietur med gudz myskunn electum munkaþuerar klausturs.

1) 255. 2) ad 255,

brodur jon med gudz forsio prior a modruuollum at skoda oc traktiera þau registra og reikningskap sem gior hofdu verid vm̄ kirkiugossin a grund j eyafirdj og syndist oss þad registrum sem vor forfader biskup olafur godrar minningar hafdj giora latid vm̄ þau kirkiu goss og porcionem sem fallit hafdi til greindrar kirkiu j hanz tijd oc þar fyrir eigi suo filliliga vtskýra. huersu mikil ad sogd kirkiu goss skylldu vera med rettu. So oc kunnu vier eij finna ad vor forfader biskup Gottskalk sem nu var næst fyrir oss biskup a holum hefdj nockurn reikningskap tecid af eignarmǫnnum greindrar jardar vm̄ firr sagt kirkiufie. nu med þui ad greind kirkia grund j Eyafirdj var þennan̄ tijma vel standandi. hafandi bækur oc onnur ornamenta sem þar mattj vel nægiast tijder ad veita oc suo vissum vier nockra hluti þar nyliga til lagda. Þui giordum vier fullkomligan sama vid Jsleif Sigurdsson er þar[1]) var eignarmadur greindrar jardar Ad kirkian a grund j Eyafirdi skilldi eiga jordina alla finnastadj er þar liggur j sokninne og þar til xx malnytu kugilldi oc fiorutie c j fulluirdis peningum þeim sem kirkiunnj þarfadj. Enn [allur] forn oc nyr reikningskapur sa sem greindri[2]) kirkiu til heyrdj oc nefndum Jsleifi[3]) bar ad suara oc hanz frændum og þar til hafdi[4]) a fallit skilldi kuitt oc akiærulaust fyrir oss oc vorum epterkomendum oc kirkiunnar vmbodzmonnum. skilldj adur [skriffadur[5]) Jsleifur oc hanz retter epterkomendur frialsliga hallda adur greinda kirkiunnar peninga suo leingi sem hann oc þeir hallda vel kirkiuna og þa kennimenn sem þangad verda med logum skipader. Og til saninda hier vm setium vier firrskrifader kennimenn sijn[6]) jncigli med voru secreto fyrir þetta bref huert skrifad var j sama stad. deigi og are sem firr seiger.

---

**541. 20. April 1533. á Hólum.**

KAUPMÁLABRÉF Ísleifs Sigurðssonar og Þórunar Jónsdóttur.

1) þa 255. 2) leiðr. 255; greindrar, hdr. 3) leiðr. 255; Joni, hdr. 4) hefdi 255. 5) [b. v. 255. 6) Svo, bæði.

AM. Apogr. 253 „Ex originali Sira Skula (sal.) Þorlakssonar. Jnnsigle þeirra andlegu allra hafa under brefenu vered, og eins leikmanns alleina, sem af götunum siä er, og reliquiis innsiglanna, fleire hafa þar ei vered. 1ta og 2ad innsigled eru nu burtu 1727. og likast fyrir laungu“ (AM.), og lýsir Árni 3., 4. og 5. innsiglina. — ÍBfél. Khd. 309. 8vo bl. 65b—66b, Öxnafelllsbók með hendi Ara Magnússonar í Ögri c. 1620. — ÍBfél. Khd. 67. 4to bl 79b. — MSteph. 60. 4to bl. 34. — MSteph. 27. 4to bls. 284—285.

Kaupmalabref Jsleifs Sigurdzsonar og Þorunnar Jonsdottur.[1])

Þat giorum vier broder Helge med Gudz nad aboti a Þingeyrum. broder Jon med Gudz þolinmæde prior a modrvvollum. tumas Eiriksson. Olafur Hialltason prestar. Grimur Jonsson. Einar brýniolfsson. Magnus biornsson og Jon Þorlaksson leikmenn. godum monnum kunnigt med þessu vorv opnv brefe. at arum epter gudz burd M. D. xxx. og iij á holum j hialltadal. svnnvdaginn epter pascavikv vorvm vær j hia savm og heyrdvm a ord og handaband heidarligra manna Jsleifs Sýgurdzsonar og Þorunar Jonsdottur. at so fyrir skildv at fyrrnefndur Jsleifur og Þorvn giordu sitt logligt hionaband med þeim skilmala. at ef fýrnefndur Jsleifur fielle fyrr fra enn adur sögd Þorun. so at þau ætte ecki skilgetin börn. eda barn sin a millvm til arfs epter sig. þá skyllde Þorvn eignazt jordina grund j Eyafirde. at nefndvm Jsleife fra föllnum. enn giallda riettum erfingivm Jsleifs svo mýkla peninga af sinum peningvm. sem greind jord er verd at avk þeirrar kirkiueignar. sem kirkian þar á grund a. Samþýckti biskup Jon er þa var erfinge og giptingarmadur sagdrar Þorunar adursagdañ giorning. og þann sama dag keýpti optt nefñdur Jsleifur nefnda Þorvne epter lögum sier til eiginkonv. talde hann sier til kaups vid Þorvne þriv hvndrvt hvndrada. og biskup Jon lofade at greind Þorvn skýllde hafa so mykla peninga til kavps vid Jsleif. gaf Jsleifur Þorvne ȷ tilgiöf lxc. var þessvm avllum adursögdum giörninge ýferlýst. oss fýrr skrifudum monnum og mörgum fleirvm godvm monnum nærvervndvm. Og til sanninda

1) Þessi fyrirsögn er með hendi Árna Magnússonar.

hier vm setium vier fyrr skrifader menn vor jnnsigli fÿrer þennan giörning er gior var j sama stad. deige og are sem fyrr skrifad stendur.

---

542. **22. Apríl 1533.** **á Gufunesi.**

Dómr þriggja klerka og þriggja leikmanna, út nefndr af Alexíus áboti í Viðey, officialis milli Botnsár og Hvítskeggshvamms, um ágreining þeirra ábóta og Jóns Þorgautssonar út af jörðunni Brekku á Hvalfjarðarströnd.

AM. 238. 4to bl. 14—15, skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

Domr fyrir breckv.

Ollvm monnvm þeim sem þetta bref sia edvr heÿra senda jon gvnsteinsson. bodvar eÿollfsson. jon jonsson. klerkar skalholltz biskvpsdæmis. þoroddvr oddsson. jon palsson. hilldibrandvr steingrimsson. leikmenn. godvm monnvm kvnnigtt med þessv voro opnv brefi ad svb anno gracie m d xxx iij ä gvfvnesi. þridiudaginn j annare vikv paska vorvm vier j dom nefnder af ærligvm herra abota Alexivs abota j Videÿ og officialis heilagrar skalholltz kirkiv j millvm botnzar og hvitskeggshvams. at skoda ransaka og fvllnadardom ä at leggia vm þa ägreining sem var j millvm jons þorgavtzsonar og abota alexivs. Sagdizt jon þorgavtzson einn hafa feingit iiijc af xxc sem aboti hellgi godrar minningar hafi lofad honvm fyrir jordina halfa breckv er liggvr ä hvalfiardarstrond j svrbæar[1]) kirkiv sokñ saker þess at vier hofvm frett epter ordvm nokkvra manna at advrgreindvr jon þorgavtzson hafi sellt jordina halfa fyrir xvjc ef hann feingi þa peñinga sem honum likadi. enn hann hefir medkienst sialfvr vnder votta at hann hafi feingid vij kyr. þar til hefvr hann tekid vnder sier iij landskylldar kvgilldi j kvigillde af abota gisla. þa hefvr og modir hans medkienst fyrir vottvm at hvn hefdi feingid ij kyr. eina kvigv. tvenna xij fiordvnga smiors. gamla kv og vij fiordvnga smiors og þar til iiij savde gamla. hvad ed reiknazt xviijc kom og þar

1) Svo.

sannliga fram at fýrnefndvr jon þorgavtzson og hafdi lagtt sig vnder log med fvllv handabandi j klavstvrbadstofvnni j Videý vid abota Alexivs at hann skýlldi koma j advr sagdañ stad og dag og svara og sækia sem stefndvr væri. var hans þar og bedizt enn hann kom ecki og einginn af hans hendi. Nv at heilagx anda nad til kalladri at svo profvdv og fyrir oss komnv dæmdvm vær advr nefnder domsmenn jon þorgavtzson sekañ mork j handtaks rof. nv af þvi at svo greiner logbokiñ at kavp skal fast ef ecki er rofid innañ xij manadar[1]). þo ecki sie vid votta keýptt. þvi dæmdvm vær advrgreindan mann skýlldvgan at koma þangat. sem aboti alexivs vill hann til kved(i)a at heýrdvm dominvm. enn ef hann vill þa ecki enn koma þa dæmdvm vær advrnefnder menn kavpit fast og vtgiortt vm adrgreinda jord enn hans akiærv onýta og at avngvv hafande. Samþýcktte þenna vorn dom greindvr abote alexivs og setti sitt officialatvs insigli med vorvm advrgreindra manna insigllvm fyrir þetta domsbref skrifad j sama stad dagi[1]) og ari sem fyr seigir.

---

## 543 — 25. Apríl 1533. á Grenjaðarstöðum.

Kaupmálabréf sira Björns Jónssonar og Steinunar Jónsdóttur.

AM. Fasc. XLVIII, frumritið á skinni. Af 5 innsiglum eru 3 hin síðustu dottin frá. — AM. Apogr. 105. „ex vidimus Sira Olafs Stephanssonar facto 1594“. Ýmsar fleiri gagnslausar afskriptir bréfsins eru til. — Prentað í Sýslumannaæfum I, 185—186.

Kaupmálabref Sıjra Biorns og Steinūnar.[1])

Þad giorum vier Sigurdur ȷonsson. thomas einarsson. ȷon olafsson. prestar. audvn sigurdzson. sæmundur simonarson. leikmenn. godum mvnnum kunnigt med þessu uoru oppnu brefi arum epter gudz burd .ꝏ. d. xxx og iij ȷn die ꝏarci euangeliste æ greniadarstodum j Reykiadal vorum vier ȷ hia saum og heyrdum vpp æ ad so ordinn skildage og giorningur var vpp sagdur og yfer lystur. ath jon bonde magn-

1) Svo.

usson og hans kuinna ragneidur peturzdotter hofdu gefit steinunne jonsdotter dottur sinne hundrad hundrada ath til skildre jordunne liosauatne j bardardal. Suo og gaf biorn prestur jonsson greindri steinunne jonsdottur hundrad hundrada ath til skildum þessum jordum barkarstodum j midfirde. æsestodum j langadal. barkarstodum j suartardal og þar til xx malnytu kugillde med þui skilordi ath fyr nefnd steinunn skylldi sier þiona med dygd. tru og æru. og þesser peñingar fyr sagder skylldi falla til þeirra afkuæmis og barna ef þeim yrde audit. for allur þessi giorningur fram med handsaulum mille sira biarnar jonssonar og jons bonda magnussonar.

Samþyckti verdugur herra Biskup Jon þessa giof sira Biarnar Jonssonar sonar sins j þann tima.

Og til sannenda hier vm̃ setium wer fyrskrifader menn vor jncigle fyrir þetta giorningsbref er giort var j sama stad og dag sem fyr seiger.

---

544. 29. Apríl 1533. í Skálholti.

Dómr sex klerka út nefndr af Ögmundi biskupi í Skálholti, um kærur biskups til Erlends lögmanns Þorvarðssonar, að lögmaðr hefði slegið prest með könnu og blóðsúthelling í hálfkirkjunni í Vogum, stungið mann til blóðsúthellingar á Kolbeinsstöðum, haldið hjá sér hórkonu, haldið reka, sem dómkirkjan ætti, hefði stefnt biskupi fyrir konung og sagt, að hann hefði traðkað rétti konungs og héldi jörð konungs; er Háeyri heiti.

Landsbókasafn 62. 8vo, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ur brefabok Ögmundar biskups“ (AM.).

Um Ellend lögmann.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siã edur heyra. senda Sigvardur med Gudz nãd ãbőte j Þyckvabæ. Þorleifur Eireksson. Einar Snorrason officialis. Jon Einarsson.

1) Utan á bréfinu með hendi Magnúsar prúða.

Snorre Hialmsson. ok Jon Hiedinsson prestar Skalhollts biskupsdæmis. kunnugt giörande. ad sub anno gratiæ M⁰. D⁰. xxx⁰. iij⁰. j Skalhollte j almenneligre prestastefnu. manudagenn næsta fyrer festum sanctorum apostolorum Philippi et Jacobi[1]) vorum vier j dőm nefnder af verdugum herra og andlegum faudur Øgmund med Gudz nád biskupe j Skalhollte. ad skoda ok rannsaka ok fullnadardőm á ad leggia. hverra svara edur sekta Ellendur lögmadur Þorvardsson yrde honum skylldugur. fyrer þær saker. er hann reiknade til hañs. J fyrstu ad fyrrskrifadur Ellendur hafde sleiged einn prest med kaunnu ok blőds uthelling j halfkirkiunne j Vogum. enn stungid annañ til blőds uthellingar á Kolbeinstödum. ok hallded hia sier sina horkonu. medan hañs kvinna lifde. ok svo sidañ sem ádur. hvorutveggia j mőte biskupsens vilia og skipan. Svo ok hefde hann hallded ok hiellde reka kirkiunnar eign j Skalhollte. Svo ok hefde hann stefnt honum fyrer kong. ok sagde ad hann hefde tradkad kongs riette. Ok hiellde kongs jörd þá sem hiete Háeyr. Hafde greindur Ellendur lofad bőt ok betran fyrer ádurgreindar saker. ok ecke hallded prestanna vegna ok konunnar. hafde ok herra biskupinn sagt honum upp lausnenne. ok lyst hann j forbod. svo sendt til hans seinna einn prest. ad lesa fyrer honum bref. ad boda hann til prestastefnu fyrer adurnefndar saker. ok átte hann ecke kost ad tala vid hann. Var hañs beidt. ok kom hann ecke. ok eingenn af hans hende. Ok ad h(eilags) anda nád tilkalladre. ad svo profudu ok fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu dőms atkvæde ad optnefndur Ellendur Þorvardsson lögmadur. hefde fellt á sig bann. bæde fyrer þad. ad hann hiellt Reka þeim sem kallast á skeide. heilagrar Skalhollts kirkiu eign. ok hann stefnde herra hiskupenum fyrer kong. j mőte kirkiunnar lögum ok kiennemannafrelse. være hann sekur vid kirkiuna ok herra biskupinn ed hæsta fullriette. x^c^ marka. Svo og fullriettis ord hvort fyrer sig þad er hann sagde. ad hann hefde tradkad kongs riette. ok hallded kongs jordu. ef hann giæte ecke lögliga sönnun fært á sin mál. innañ mán-

1) Þ. e. 28. Apr.

adar forfallalaust ad heyrdum dőminum. Svo ok aptur fallenn j bann fyrer sina őhlydne fyrer vidurhalld sinnar horkonu. ok skylldugañ ad bæta ǒll sin brot vid herra biskupinn epter lǒgum. þar sem hann hefur ecke ádur fullulega ut af vid hann giǒrt. ok ad taka lausn ok skripter af biskupinum edur hans umbodzmanni. Skyllde þridiungur fiesekta gialldast heima j Skálhollti innañ mǎnadar forfallalaust ad heyrdum dőminum. annar ad Michilsmessu ad hauste. þridie i næstum fardǒgum þar epter. nema biskupinn vilie inndælla um giǒra. Enn ef tidtnefndur Ellendur Þorvardsson lǒgmadur vill ecke viliuglega ganga under lausn ok skripter. þǎ være hann riettfangadur af biskupsins ǎlfu under lǒglegar skripter ok lausn.

Samþyckte þenna vorn dőm med oss greindur herra Ogmundur. ok sette sitt innsigle med vorum innsiglum fyrer þetta dőmsbref. er skrifad var j Skalhollte ǎ sama ǎre. ok deigi sidar enn fyrr seiger.

---

545. **30. Apríl 1533. Í Skálholti.**

Ögmundr biskup í Skálholti veitir Jóni biskupi á Hólum Mýrar og Mýrakirkju í Dýrafirði að hafa og hallda og þeim að veita, sem hann vill.

Transskriptarbréf á skinni í Landsskjalasafninu meðal Mýrakirkjuskjala í Dýrafirði; er transscriptum gert á Hólum í Hjaltadal 17. Júní 1538. Punktar eru hér nærri milli hvers einasta orðs. þeim er hér ekki haldið. Sbr. Nr. 569.

Wier augmund met gudz næd Biskup ȷ skalhollti giǒrum godum monnum kunnigt met þessv uoro opnv brefi. saker þess. at uoʀ broder. herra biskup ȷon æ holum. hefur skrifat oss til. at hann uilldi. at ȷordin myʀar ȷ dyrafirdi væri ȷ sinv ualldi og þau kirkiugoz. sem henne til heyra. faust og laus. forn og ny. Þui unnum vier og til lætum at verdugur heʀa biskup ȷon skal fẏʀgreinda ȷord og kirkivgozen hafa og hallda. og þeim veita. sem hann uill. Vilium uier at hann sendi sinn vmbodsmann ʜv i sumar þa vier

erum j uore uisitacione þangat suo uier mættum klarliga ut giora kirkiunnar reikningskap. Hier met uilium uier. at kirkiañ se sæmiliga halldin at bokum og messoklædum og aukizt ecki porciò um ockra daga aunnur en þesse.

Og til sanninda hier um setium uier uort jnncigle fyrir þetta bref skrifat j skalhollti jn uigilia sanctorvm apostolorum philippi et jacobi. þessum dugandi monnum hia uerandum og met oss samþyckiendum. herra petre med gudz næd abota a munkaþuera og sira magnus jonson. er þæ hofdo umbod uors brodurs biskup jons. og sira Einar snorason uors officialis. og sira sigmundur eyiolfsson. Anno domini ꝏ. d. xxxiii.

---

546. **30. Apríl 1533. í Skálholti.**
**20. Júní 1553. á Grund.**
**16. Júní 1565. á Grenjaðarstað.**

Pétr ábóti á Munkaþverá og Magnús prestr Jónsson selja, í umboði Jóns biskups á Hólum, Ögmundi biskupi í Skálholti jarðirnar Æðey, Unaðsdal, Sandeyri og fimm jarðir í Veiðileysi fyrir jarðirnar Márstaði og Skútir, en fyrir Akra, hálfa Sjáarborg og Kimbastaði, er Ögmundr biskup fær Jóni biskupi, skal Jón biskup fá honum aðrar jarðir, er þeim um semr, með fleira því, sem bréfið greinir.

AM. Fasc. XLVIII, 9, transskript á pappír frá 1553, og er vidisse læst sèrstakt með innsiglum transscriptorum við aðalbréfið, en bæði eru þau með einni hendi, sem virðist muni vera hönd Þorsteins Guðmundssonar, fremr en síra Sigurðar. Í faldi bréfsins er brot á skinni af sendibréfi með hendi Jóns biskups Arasonar um liðsafnað. — AM. Apogr. 3707. — AM. Fasc. XLVIII, 10, transskript á skinni frá 16. Júní 1565 (= *b*). — Í Landsbókasfni 62. 8vo er afskript ártalslaus af þessu bréfi með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ogmundar". Ritar Árni þar um bréfið: „Næsta brefed hier fyrir framan er dat. 1532. enn þad sem næst epter fylger er dat. 1533. annars er bokin hier confuse digesta. Brefed er dat. 1533. sem eg sidar sä af ödru exemplare" (= *c*). Sbr. Nr. 569.

Kaupbref Biscups Jons og Biscups Avgmvndar
vm jarda býte.[1])
hier ero halfer Akrer[2].)

Þat giorum vær Broder Pietur áböte a munkaþuerá[3]) ok sira magnus jonson godum monnum kvnnikt med þersv ockru oppnu brefe. at uid medkennunst at vid hofum selltt verdvgum herra ok andligum faudur j gude Augmund med guds nad biskup j skalholltte med fvllu ok logligu vmbode heidurssamligs[4]) herra ok faudur[5]) biskups jons á hölum. med samre nád. jordena ædey. fyrir .lx. hundrud. unadsdal fyrir. xxx. hundrud. sandeyre[6]) fyrir xxx hundrud ok v. jarder j veiduleyse fyrir fiogur hundrud ok xx. skyllde herra biskup[7]) jőn senda sinn vmbodsmann j sumar. suo at wt meige giorast vm þad ákall. sem sira jőn Eireksson ok Ragnhilldur hvsfreyia hafa til jardanna dals ok eyrar. Hier J mőte gaf fyrrskrifadur herra[8]) Augmund jardernar márstade ok skwter[9]) med þeim xxx hundrudum. sem sira þorgíils hefur lofat herra pietre. hans uegna. [Suo ok[10]) fieck herra[11]) biskup avgmund[12]) Biskup jőne jardernar halfa akre[13]) ok hialfa siafar[14])borg ok kimbastade. til fullrar eignar ok frials forrædiss. bæde til sios ok landz. Enn[11]) hier j mőt skal hann fá herra augmund adrar[11]) godar jarder þær sem þeim sialfuω semur. suo at hundrad [mætte[15]) hundrade. Skal huor suara lagariptingum sem sellde. Enn sá hallde til laga sem[16]) keypte. voru þerser kaupvottar hiá[17]) nær uerande og [med oss[18]) samþýckiande. sira einar snorrason ok sira sigmundur eyolfsson. Ok til sanninda hier vm [setium uid ockur jnncigle med þeirra jnnciglum fyrir þetta giorningsbref er skrifat var j skalhollte jn vigelia sanctorum apostolorum filipi et jákubbi. anno domini ꝏ. d.⁰ xxx. iij[19]).

---

1) Utan á bréfinu með sömu hendi og sjálft bréfið, en uppi yfir „Jhesus". Jardakaup biskupanna c. 2) Þetta er með hendi Guðbrands biskups. 3) mukaþuera b. 4) virduligs c. 5) herra b. v. c. 6) — eyr b. 7) ) sl. b. 8) biskup b. 9) skutur b. Skutu c. 10) [Her med c. 11) sl. c. 12) herra b. v. c. 13) Akra c. 14) siofar b c. 15) [kome i mote c. 16) er c. 17) sl. b c. 18) [b. v. c. 19) [et cetera c.

a) Þad medkennuńst ec Þorsteinn Gvdmundzson ok sira Sigvrdur nikulasson. at vid hofum sied ok yferlesid so latańda bref sem hier er med fest ockru brefe. med heilum ok oskoddum jnnciglum Ok til sanninda hier vm setium vid ockur jnncigle fyrir þetta bref hvertt skrifat var á grvńd j eyiafirde þridiadaginn næstan fyrir jonsmesso bapptiste um svmarit þá lidid uar fra guds burd. m. dc l. og iij ár.

b) Þad giorum vier jllugi gudmundsson oc olafur arnason prestar. jon ormsson oc oddur asmundsson logriettumenn godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ad vier hofum sied oc yferlesid suo latandi bref med iiij heilum oskoddum oc hangandi inncíglum oc eitt af þeim hyggium vier vera jnncigli biskups augmundar oc ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifad stendur. Og til sanninda hier (vm) setium vier vor jnncigli fyrir þetta transkriptarbref er giort var a greniadarstad i adalreykiadal þann xvj dag Junij manadar anno domini m d lx v.

---

## 547. [1533 eða síðar].

Sendibréf frá Jóni biskupi Arasyni á Hólum um liðsafnað til herfarar eða harðræða nokkurra, að líkindum ritað Ísleifi Sigurðssyni á Grund, eða Þorsteini Guðmundssyni, er síðar (1553) átti Þóruni dóttur Jóns biskups.

AM. Fasc. XLVIII, 9, skinnblaðsgeiri með hendi Jóns biskups Arasonar í innsiglafaldi á frumrituðu transscripti af pappírsbréfi frá 30. Apr. 1533 (Nr. 546) um jarðakaup þeirra Jóns biskups og Ögmundar biskups. En geiri þessi hefir verið settr í faldinn með vidisse Þorsteins Guðmundssonar, manns Þórunar Jónsdóttur, gerðu á Grund í Eyjafirði 20 Júní 1553, og læstr við bæði bréfin með innsigli Þorsteins og síra Sigurðar Nikulássonar. Um vissa árfærslu þessa bréfs er vant að segja að svo stöddu. Er það því hér látið fylgja bréfi því, sem það hefir verið í fólgið síðan 1553. Ekki er ólíklegt, að það kynni að vera einhvern tíma frá árabilinu 1540—1550, eptir að róstusamt tók að gerast um far Jóns biskups, þó að þetta verði með eingri vissu sagt. Úr fórum Þórunar má bréfið vera.

. . . . fatækra og rikra þeirra sem ockr vilia hialpa viliv vid og giarna vn(n)a þeim fullan lika fyrir. þui bid [eg þig] kærliga ad þv komer a moz vid ockr med suo marga menn sem þu kant ad fa og sem til ʀeidda. vil eg og giarna ge[fa huerium] sem þier fylger fullt byti epter þui sem anara dandimanna geingr ȷ millum af aullu þui sem uær kunnum ad fa n[ad sem] er kugilldi. hestar edr tygi edr anad lausa goz. vil eg og giarna forsuara ydr huer sem hier kann vpp a ad tala ser[liga] ord og verk. þeincktu vid ockr ad fara vt yfer fiordin ef gud lofar strags ad helginni til moz vid þa og [mætti vera vid feingium] nockura hnecking giort þeim suo þeir ʀidi eigi suo vackurt sem þeir hafa adr ʀidid. þvi gior nu hier vm sem eg skr[ifa. þetta rit]a ec til ydar þvi þier vitid vel huer makt ockr liggur nu æ vm folckid. kom nu sem snarazt þui mier er sagt ad hans o[rd kæmi] hingad til þeirra. hier med bifala eg ydr gudi ȷ valld og hans modur marie.

---

**548.** **26. Maí 1533. / 5. Maí 1534.** **á Mýrum.**

Dómr sjö manna, útnefndr af Ólafi bónda Guðmundssyni, er þá hafði míns herra kongsins sýslu og umboð milli Geirhólms og Langaness, um gjöf Örnólfs Einarssonar til Þorleifs sonar síns, meðal annars á jörðunni Breiðadal hinum fremra í Önundarfirði, en bréfið báru fram þeir bræðr Jón og Ólafr Þorgautssynir.

AM. Fasc. XLVIII, 11, frumrit á skinni. Öll (4) innsiglin eru dottin frá.

Doomur wm Breidadal fremra ȷ Ønundarfirde 1533.

Þat giorum vær ȷon olafsson. þorgils ȷoñson. ȷon murtte narfason. hakon eyuiñzson. brumadur tumason og ion ionson. godum monnum kunnigt med þessu vőru őpnu brefi. þa er liditt var fra gudz burd. ꝏ. dc. xx. og .xiij. ar. a myrum ȷ dyrafirde a þiñgstad rettum manudagin næsta

epter uppstigniñgardag vm vorit vorum vær j dom nefnder af ærligum dañdi manne olafui boñda gudmundzsyni er þa hafdi miñs herra kongsins syslu og vmbod j millum geirholms og lañganes. at skoda og ransaka og fullnadar dom á at leggia huertt afl hafa skýlldi þad sama bref sem þeir brædur baru þar fram fyrir oss jon þorgauztson[1]) og olafur þorgauztson[1]) med heilum og oskauddum hañgandi jnnsiglum leikra og lærdra huar so j stod. at auñolfur einarson beidde olaf jonson mag sinn og ranueigu auñolfsdottur. dottur sina leýfi og samþýcki at gëfa syni sinum þorleife auñolfssyni. xxx^c. j fystu til greindu jordina breidadal en fremra fyrir .xij^c. er liggur j hollz kirkiu sokn. þar til .x. malnytu kugilldi og viij^c j þarfligum peningum. jatudu og samþycktu fyr nefnder menn olafur og ranueig þessa giof j so felldan mata. ef þorleifur ætti ecki skilgetin erfingia efter sic þa skildu fýrskrifader menn olafur og ranueig aptur vnder sig og sina erfingia. Og at so profudu og fyrir oss kõnnu. dæmdum vær fýr nefnder menn brefit myndygt[1]) og skialigt (og) þessa fýr nefnda menn jon og olaf logliga til þessara peninga komna og retteliga mega at sier taca til fullrar eignar efter erfdum rettum og skilmala. sem fyr skrifat bref jn(e) helldr.

Samþyckte þenna vorn dom fyr nefndur kongs vmbodsmann og setti sitt jnnsigle med vorum jnnsiglum fyrir þetta dõmsbref skrifat a myrum j dyrafiide þridiudagin næsta epter krossmesso vm vorit are sijdar enn fyr seiger.

---

**549. 21. Júní 1533. Í Saurbæ.**

Tylftardómr, útnefndr af Ísleifi Sigurðssyni, kongs umboðsmanni í Vöðluþingi, um kærur Ísleifs til Bjarna Stullasonar, að hann hefði riðið heim á sinn garð Grund í Eyjafirði og slegið og sært sinn mann Böðvar Þórðarson.

Landsbókasafn 69 4to bl. 195, skr. c. 1640. — Landsbókasafn 63. 4to bl. 295—296, skr. c. 1640. — Landsbókasafn 812. 4to bl. 116, með hendi Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði um 1660 (ártal 1539). — Ny Kgl. Saml. 1945. 4to bl. 284 a—b, einnig með hendi Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666 (ártal 1539). 812 og 1945 stytta, víkja við og afbaka, og eru ónýt.

1) Svo.

Domur Vm Heimreid Biarna Stullasonar €r særde Winnumann Jssleiffs Sigurdssonar a Grund.

Ollum monnum sem þetta breff siã edur heyra senda Jõn Magnusson. Arne petursson. Jon Thorlaksson. Þorsteirn Sijmunarson. Brinjolffur Jonsson. Þorualldur Arnason. Jon Jõnsson. Þorsteirn Boduarsson. Thomas Jacobsson. Jõn Jõnsson. Sæmundur Þorlaksson og Magnus Sigurdsson kuediu Guds og sijna kunnigt giorande Arum €ffter Guds burd ꝏ ꝺ xxx iii[1]) ar þridiudaginn næstañ fyrer dyradag[2]) vm vorid A hraffnagile ȷ Eẏafıȷrde a[3]) þijngstad ʀiettum vorum vier ȷ dom nefnder af heidarlegum manni Jssleiffi Sigurdssyni huor ed þã haffde kongsins syslu og vmbod ȷ Vodluþıȷnge ad skoda. ʀansaka oc fullnadar[dõms atquædi[4]) a ad leggia vm þã akiæru €r Jssleiffur Sigurdsson kiærde thil Biarna Stullasonar ad hann hefde ridid heim a sinn gard Grund ȷ Eẏafijrde og sleiged og sært sinn mann Boduar Þordarson fyrir vtañ nockra sȯk og sett sier hann þrotinn og ofærañ og sier øngua Bõt bodid fyrer þetta fẏr sagt misferle. J fyrstu dæmdum vier steffnuna loglega og Biarna ʀiettelega fyrer kalladañ þui steffnañ var suariñ aff tueimur skialligum mønnum. So og var þar suared aff tueimur mȯnnum ad Biarne Stullason var heima þann sama tijm̃a €r Jssleiffur B(onde) steffnde honum og suo nærre ad hann matti vel heyra eff hann villde. Nu fyrer þui ad Biarni kom þar ecke og €inginn sáá hans lȯglegt suar hafde dæmdum vier hann sekañ mork ȷ steffnufall. Nu saker þess ad landslaga Bokiñ thiluijsar ad þeir menn sem a sialfra sinna heimile €ru særder edur suiuyrdir take tuofalldañ ʀiett suo og eikst ad helminge sekt vid kongdõminn. og ad suo proffudu mãle sem þar fyrer oss kom dæmdum vier neffndañ[5]) Biarna skilldugan ad sueria siettareijd ȷnnañ xıv natta ad heyrdum dõminum fyrer Jssleiffe ad hann hefde eige med þann hug ridid heim thil Grundar ad slaa. særa edur hrekia nockurn mann og ad eidnum vnnum dæmdum vier fyrnefndan Biarna sekañ 4 morkum vid kong ȷ tuofallda sȯk. Enn eff hann fielle

1) 1539, 812, 1945. sem mun án alls efa rangt, því að Bjarni gerir testament sitt 11. Marts 1538, og mun hafa andazt það ár. 2) þ. e. 10. Júní. 3) b. v. 63. 4) [dom 63. 5) 63; steffndañ 69.

a Eidnum dæmdum vier hann sliku sekañ sem løgiñ þar vm gior vtuijsa. Enn saker þess ad offtneffndur Biarne haffde sært og ofæran giort hion[1]) og heimamann[2]) Jssleiffs B(onda) dæmdum vier Bondanum 5 aura j verkamisser a huorre viku so leinge sem madurinn var ecke verkfær. Enn Jssleiffe B(onda) iij merkur j fullriette fyrer sitt skadræde. Enn Boduare Þordarsyne. er særdur var. iij$^{c}$ j saarabot. skilldu þesser peningar gialldast ad þremur sölum. fyrsta jnnañ mänadar ad heyrdum dőminum. ønnur ad Michaelsmessu j haust. hin þridiu j fardögum og flytie heim thil grundar.

Samþyckte þennañ vorn dőm fýrnefndur kongs vmbodsmadur. [og thil sanninda hier vm setium vier fyrrskrifader menn vor jñcigle fýrer þetta bref er skrifad var a Saurbæ j Eyafýrdi laugardaginn næstan fyrir Jonsmessu baptistæ vm sumarid a sama Are sem fýr seiger[3]).

---

**550. 30. Júní 1533. á Öxarárþingi.**

Tveggja tylfta dómr, útnefndr á Öxarárþingi af lögmönnum báðum, Erlendi Þorvarðssyni og Ara Jónssyni, með ráði og samþykki beggja biskupanna og fóvitans Diðriks af Briamstöðum, um að rétt Noregs lög og svarinn sáttmáli haldist kongs vegna og kirkju, um að Piningsdómr (1490) haldist, um að sáttmáli Norðmanna konungs og Einglakonungs frá fyrra ári um verzlun á Íslandi haldist, um þá er fara út af landinu með buldr og óróa, um duggara sigling, um að heilög trú og guðs lög haldist og um hafnargjald til konungs.

AM. Fasc. XLVIII, 12, frumrit á skinni. Eitt innsigli er nú fyrir bréfinu, en 17 innsiglaför eru alls á bréfinu. Gömul afskript frá c. 1670 af þessu bréfi er í Add. British Museum 11.080. 4to bls. 104—105 (= FM. 90). — Prentaðr í „Ríkisréttindum Íslands“ eptir Jón Þorkelsson og Einar Arnórsson, Reykjavík 1908, bls. 37—38.

Domur vm Landsinz naudsyniar.[4])

Ollum þeim godum monnum sem þetta bref sia edur

1) þjón (!) 812, 1945. 2) vinnumann 1945; sl. 812. 3) [sl. 63; 812 sl. frá „vorn dóm“ og 1945 sl. allri klausunni. 4) Utan á bréfinu með hendi frá fyrra hluta 17. aldar, og sama fyrirsögn er í British Museum 11,080.

heyra senda eirekur þorsteinsson. ion hallzson. ȷon eireksson. biorn ionsson. olafur narfason. hrafn gudmundzson. ȷon arnason. brandur gudmundzson. arne einarsson. petur arason. erlendur einarson og biorn arnorsson. þorleifur palsson. þorleifur gudmundzson. dadi gudmvndzson. olafur gudmundzson. erlingur gislason. sigurdur oddsson. audun sigurdsson. þormodur arason. ȷon olafsson. gisli hakonarson. petur loptsson. þorsteinn torfason godum monnum kunnigt[1]) med þessu uoru opnu brefi arum epter gudz burd. m. d. xxx. og iij ar. æ manudaginn næstan epter peturss messu a almenniligu oxararþinge uorum uier ȷ dom nefnder af erlendi þorvardss syne laugmanni sunnañ og austañ a islandi og ara ȷonssyni laugmanni nordañ og vestañ a ȷslandi med radi og samþycki beggia biskupanna og fouitans didreks af briamstodum. at skoda og rannsaka og fullnadar dom a at leggia vm almvgans navdsyniar og landzins ed besta. var þad uor fullnadardomur og almugans samþykt sem hier epter stendur skrifadur et cetera.

Jn primis at riett noregis laug gange bade kongdomsins uegna og kirkiunnar vorum heygbornasta herra noregs konge til heidurs og æru. Enn oss og fatækum almvga hier J landit til styrks og hialpar epter þui sem hans sialfs bref vt visar sem hann sender hingat æ iafnañ landzins et besta.

Jtem at suaren sattmali halldist ȷ millvm kongsualldz og kirkiv med ollvm þeim linkindum og rettarbotum sem noregs kongar hafa adur ut gefit.

Jtem sa domur halldist sem dæmdur var ȷ pinings tid vm landzins naudsyniar sem er ueturlega vtlenskra halldist staudugliga epter þennan dag. Vtan laugmenn og laugrettumenn siae þar nockra navdsýn til saker fatækdom landzins at eigi meigi halldast Suo uor nadugaste herra kongurinn fae þar aunguañ skada.

Jtem bidivm uier vm giarnan at sa sattmale halldist sem kongarner hafa giort ȷ forlidit ar konung fridrek og kongurinn af einglandi sierliga um þa grein sem þetta land snertur at huer madur radi sinu og seli sinn fisk ȷ þeim kaupstad sem likar og hafi til matar sem naudsyniar[2].)

1) Svo bæði. 2) Sbr. Nr. 533.

Jtem at eingin dirfist at sigla ut af landinu huorke leikur nie lærdur at giora bulldur og oroa fyrr enn hans mal sie skodat adur a alþinge af laugmanninum og xij laugrettumonnum og skrife þeir fram fyrir uorn heygbornasta herra konunginn sannleik ur þess mannz male. huer audru uis giorer og ræger menn fyrir konge eda biskupe hann strafist epter noriges laugum.

Jtem at duggara sigling skipist burt undañ landinu. saker þess at þeir ræna bade fie og folke burt af þessu fatæka lande og forminka suo uors nadugasta herra konvngsins skatt og gudtiund og þeir rettliga strafist af kongsins fouitum og syslumonnum eda hverium sem hellzt sem þeim kunna at na fyrir utan uægd. þui suodan olavgum kunnum vier med aunguo mote af at koma utan med uors nadugasta herra konvngsins hialp og godvm radvm et cetera.

Hier med haulldum vier aller heilaga tru og gudz laugmal sem gud hefur sett og heilager fedur hafa samþykt. styrkium nu hier epter huorer adra kongs ualld og kirkiu. epter rettvm noriges lavgum.

Jtem at aller utlensker menn sem hingad sigla giallde uorum nadugasta herra konvngenum fvllañ toll sem er xx gyllene af hveriu skipe. huerier annars giora hafe hier aungua hañtiering.

Ok til meiri audsyningar og sanindа hier um settu fyrr greinder herrar biskup augmund at skalhollti og biskup Jon at holum og didrek fouete at briamstodum og fyrr skrifader laugmenn sin Jnsigli med uorum fyr nefndra manna Jnsiglum fyrir þetta domsbref skrifad J sama stad og dag sem fyrr segir.

---

**551. 30. Júní 1533. á Öxarárþingi.**

Tveggja tylfta dómr, útnefndr á Öxarárþingi, af Erlendi lögmanni Þorvarðssyni, eptir konungs skipan og samþykki hirðstjórans, þar sem þeir dæma myndug öll þau skjöl, er Teitr bóndi Þorleifsson, — sem bauð sig nú undir lög, — bar þar fram, og gera hann kvittan af viðskiptum þeirra Gríms Jónssonar á Sveinstaðafundi (1522).

AM. Fasc. XLVI, 7δ transskript á skinni gert í Ásgarði 7. Marts 1537 — AM. Apogr. 3850 eptir XLVI. 7δ með orðamun úr transskripti frá 1. Júlí 1544 (= *b*).

Ollum monnuum sem þetta bref siæ edur heyra senda hakon biorgolfsson. Narfi Sigurdsson. ȷon arnason. Rafn gudmundsson. ȷon ȷonsson. magnus ȷonsson. oddur tumason. olafur gislason. skapte ȷonsson. [þordur þorsteinsson. þorualldur einarsson. biorn arnorsson. ȷon eireksson[1]). filippus runolfsson. snorre þormodsson. ȷon ȷonsson. helgi sigurdsson. asbiorn einarsson. gisle gudmundsson. runolfur hauskullds-son. halldor brandsson. þorleifur einarsson. ȷon gislason og brandur gudmundsson kuediu guds og sina. kunnigt gerandi ad þa er lidit uar fra guds burd ꝏ. uc. xxx og iij ar manudagin næsta epter peturs ꝏesso og pals a almenniligu avxararþingi uorum uær ȷ dom nefnder af ærligum dane[2])-manne Erlinde þoruardssyne laugmanne sunnan og austan a islande epter uors heygbornasta herra konungsins[3]). kongs fridreks skipan. epter þui sem suarid var ȷ dominum af bartolomeus med fullum bokareide og klaru kuada uitne og med hirdstiorans samþycki ad skoda rannsaka og fullnadardom a at leggia huert afl og mackt hafa skyllde þau bref og domar sem teitur bonde þorleifsson bar þar fram og beiddizt doms ꝏ. kom þar fram̄ ȷ fyrstu grein[3]) tylftardomur danemanna med laugmanns urskurdi og hirdstioranz kuittan at greindur teitur uar kuittur dæmdur og urskurdadur sem ȷnne stendur ȷ adur skrifudum dome og urskurdi og[3]) med hirdstioranz kuittan um allt þat sakferli sem fyrr skrifadur teitur og hans menn hefdi matt brotliger uerda a þeim fundi sem vard ȷ steinnes landi ȷ mille opt skrifadz teits og hans manna og grims ȷonssonar og hans fylgiara huat oss uirtest og syndiz adur greind bref j allan mata staudug og myndug og skialig ȷ aullum sinum greinum og[4]) articuliz. So og heyrdu uær greinder domsmenn at teitur bonde baud sig þar under laug j laugrettu og ȷ dominum huad huer mætti til sin tala med laug og rett lærdur sem leikur. Enn þar kom eingin sæ fram er honum gæfi nockra

1) [sl. *b* 2) dande *b*. 3) sl. *b*. 4) *b*; med XLVI, 7δ

sak. eda bref eda dom hefdi á honum. Og at suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum uær fẏr nefnder domsmenn med fullu doms atkuæde adur skrifud bref staudug og myndug skialig og fullmectug ȷ allan mata. sem þar ȷnne stendur med aullum sinum greinum.

Samþyckti þenna uorn dom med oss didrek fouete hirdstiore yfer allt island. Erlindur Þoruardsson laugmann sunnan og austan og setti sitt ȷnsigle med uorra fyr greindra domsmanna ȷnsiglum fyrir þetta domsbref er[1]) skrifad var á þinguelle ȷ sama stad og[2]) deige og are sem fyr seiger.

---

**552. 30. Júní 1533. á Þingvelli.**

Diðrik (af Briamstöðum) fóviti og höfuðsmaðr yfir alt Ísland veitir Jóni bónda Hallssyni Skóga og Skógaeignir, Mörk og Merkreignir undir Eyjafjöllum og umboð yfir öllum konungsjörðum milli Markarfljóts og Þjórsár til næsta Öxarárþings, og það leingr, sem ekki verðr önnur lögleg skipan á gerð.

AM. 191. 4to bls. 45 (bréfabók Jóns Hallssonar á skinni, rituð samtíða). — AM. Apogr. 5543b (eptir 191. 4to).

Bref didrik(s) fouita fyrir kongs eignum ȷ rangarþingi a sama are.

Þad medkennunzt ec didrek fouite hirdstiore og haufudzmann yfer allt ȷsland med þessu minu opnu brefe ad ec hefi unt og ueitt ȷone bonda hallzsyne kongs eigner under eyafiollum skoga og skoga eigner. mork og merkur eigner med ollu þui sem þesum greindum kongs eignum fylger og fylgt hefer ad fornu og nyiu. rekum og skogum. eignum og ȷtaukum. Skal greindur ȷon hallzson eignazt og ad sier taka allar landskyllder og kugillda leigur af fyrr skrifudum eignum fyrir suodan gialld. ȷn primis. ujc. fiska til gilldis. tunnu smiors og. uj. uetra gamallt naut. hier til skal ȷon hallzson fullt og laugligt umbod hafa yfer ollum þeim kongsens iordum og iardarportum bygdum og obygdum sem liggia ȷ rang-

1) b. v. *b*. 2) sl. *b*.

arþinge millum markarfliotz og þiorsar. skal hann eignazt og ad sier taka allar þær landskyllder. greida og goduilia sem hann kann þar af ad fa og giallda mier edur minum umbodzmanne .ij. eingelsk nobil ad sumre komanda. Skal optnefndur jon hallzson þetta fyr skrifat umbod og liene bruka og byhallda til næsta oxararþings og þad leingur sem ecki (er) onnur loglig skipan æ gior. Og til sanenda hier um þrycki ec mitt insigli fyrir þetta bref skrifat á þinguelle manudagen næstan epter petursmesso og pals. ano domini[1]). m⁰. d⁰. xxx. tercio.

---

553. **30. Júní 1533. á Þingvelli.**

Samningr þeirra Ögmundar biskups og Jóns biskups á Hólum um útlúkningar Jóns biskups til Mýrakirkju í Dýrafirði, kennimannahald þar og fleira.

AM. Fasc. XLVIII, 14, frumrit á skinni. Innsiglið er fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2321. — Fasc. XLVIII, 15, vidimus á skinni frá 19. Júlí 1533. — Transskript á skinni meðal Mýrabréfa í Dýrafirði í Landsskjalasafninu, frá 17. Júní 1538 (= c) Sbr. Nr. 569.

Brief Øgmundar Biskups vm kirkiuna a myrum j dyrafirdi.[2])

Vier augmund med gudz nad biskup j skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. at oss hefur saman komid vid vorn brodur biskup jon vm reikningskap kirkivnar a myrum j dyrafirdi. at biskup jon lofadi at giallda greindri kirkiu .lx. hundrada j godum peningum ath auki þess jnventarium. sem hun atti þa uor forfader biskup oddgeir. godrar minningar. tok þar reikningskap greindrar kirkiu. lofadi biskup jon. at kirkian skylldi vel halldiñ og þeir kennimenn sem þar eiga med skÿlldu at uera. hier med gefum uier kvittan allañ fornan og nÿiañ reikningskap greindrar kirkiv. Suo og skal biskup jon og hans epterkomendur mega frialsliga hallda aull adur sogd kirkivnnar godz. so leñgi sem hann og þeir hallda vel kirkivña og hennar kennimenn. [og oss sem til ber þa vier visi-

1) domino, skb. 2) Utan á XLVIII, 15 með hendi frá 17. öld.

terum og þæ sem þar eigu med rettu ath vera og skal ecki aukazt porcionem vm ockru[1]) daga.[2])

Og til sanninnda hier vm setium uier uort jncigle fyrir þetta bref er skrifat uar æ þinguelle manudaginn næstañ epter peturs messv [ok pals[3]). anno domini m⁰. d. xxx⁰ tercio.

[Þat giorum vid olafur hialtason oc Gisle Sygurdzson prestar holabiskupsdæmis godum monnum kunnigt med þessu ockuru brefe at vid hauium sied ok yfer lesid suo latanda bref verdug herra biskup augmundar j skalholtte med heilu ok oskauddu hans hanganda jncigle ord eptter ord sem hier fyrer skrifat steñdur. Ok til meire audsyningar hier vm setivm vid fyr nefnder menn ockur jncigle fyrir þetta bref er skrifad var á holum j hialtadal laugardagen næstañ fyrir þorlaksmessu a sama are sem fyr seiger.[4])

---

**554. 1. Júlí 1533. á Öxarárþingi.**

Tylftardómr. út nefndr á Alþingi af lögmönnum báðum, Erlendi Þorvarðssyni og Ara Jónssyni, um kærur Illuga Ólafssonar til Ögmundar biskups, að hann héldi Brigit (Bríetu) móður sína út af Hóli og Hólseignum í Bolungarvík, er Brigit taldi erfðaeign sína eptir Einar Jónsson bróður sinn.

AM. Fasc. XLVII, 30β, skinnrolla frá c. 1536. — AM. Apogr. 2939. — AM. Fasc. LXVII, 20, transskript á skinni frá 1560 frá Sæmundi Magnússyni á Hóli í Bolungarvík. — AM. Apogr. 993. Þar segir Árni Magnússon: „Utan ä documented var skrifad. ecki nylega“ fyrirsögn sú, sem hér er fyrir dóminum. Um höndina á þessu segir hann: „Mier virdist höndin muni Sæmundar Árnasonar“.

---

1) Svo frbr.; ockar XLVIII, 15. 2) vtan kirkian þar niote sialff sinna tiunda, b. v. XLVIII, 15, og er það líklega Jón biskup, sem hefir skotið því inn á spássíuna síðar, því að þar stendr það með annari, en samtíða, hendi; [þæ sem þaR] eigo med Rietto at uera og oss. þæ uier uisitervm. og skal ecki aukazt porcionem um ockra daga c. 3) [b. v. XLVIII, 15; 4) [XLVIII, 15; þ. e. 19. Júlí.

Kopium af Holsdomi i Bolungarvik er biskup Ögmundr liet dæma sier Hol i annad sinn Anno 1533. dæmdr af Erlendi Þorvardzsyni og Ara Jonssyni. lôgmonnum badum um ættarvillu og um skilgetning Brijtar modur Sira Panta.[1])

Ollvm monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra sendum ver erlingur gislason. sigurdur oddzson. biorn jonson. þormodur arason. jon olafsson. audun sigvrdarson. olafur narfason. magnus jonsson. petur arason. biorn jonsson. jon helgason. olafur asbiarnarson laugrettumenn kvediv guds og sina kvnigt giorandi. [sub anno gracie[2]) ꝍ⁰. d⁰. xxxiij ꜳ manvdagin næsta epter peturs ꝍesso og pals[3]) ꜳ almenneligv avxararþingi uorum ver j dom nefnder af ærligvm dandv manne erlindi þorvardssyni lavgmanne [svnan og avstan[4]) ꜳ jslandi og af ara jonsyni lavgmanni nordan og uestan ꜳ jslandi at skoda og ransaka og fullnadar [doms atkuædi[5]) ꜳ at leggia hverra suara edur segta at[6]) verdvgur herra biskup [augmundur[7]) med guds nad yrdi skylldvgur jllavga olafsyni ferir þa savk og ækiæru at hann klagadi [at adur greindvr[8]) herra augmundur[9]) helldi modur sina brigit[10]) vt af holi j bolungarvik og avdrvm þeim peningvm sem þar med fylgia og einar heitin jonsson hefdi att hennar broder en hun hiellt sig hans erfingia og laugliga skilgetna festarkonv dottur. baud fyr skrifadur biskup augmund[11]) sig þar vnder lavgrettunar dom hafa þat og hallda sem xij lavgrettumenn dæmdi þeirra j milli. Ɛn[12]) saker þess at [opt nefndur[13]) jllavgie reiknadi biskupin sinn ofsoknarmann þa gaf opt nefndur herra augmvnd olafi gudmundsyni fvllt og lavgligt[14]) umbod til ansvars og varnar ꜳ greindu mali. tokust þeir þar hondvm saman oft skrifadur jllaugi

1) Um þessa fyrirsögn segir Árni: „Utan ä documented var skrifad. ecki nylega“ (þá kemr fyrirsögnin). „Mier virdist höndin muni Sæmundar Arnasonar“. 2) [þa lidet var fra Gudz burd, LXVII. 3) þ. e. 30. Júní. 4) [nordan og vestan (!) LXVII, 20. 5) [dom LXVII, 20. 6) er LXVII, 20. 7) [augmund godrar minningar (!) LXVII ,20. 8) greindvm, skbr.; 9) [biskup augmund LXVII, 20. 10) Brietu LXVII, 20. 11) augmundur LXVII, 20. 12) Og LXVII, 20. 13)) [sl. LXVII 20. 14) laga b. v. LXVII, 20.

og fyrgreindur olafur oss fyr skrifudum domsmonnum [ásiaundum og[1]) næruerondum at so vndertoludu og fyrir skildu at þeir skylldu þat hafa og hallda jllauge vegna sinnar modur og annara hennar barna en olafur uegna biskupsins sem uær dæmdum. [þvi[1]) j fyrstv grein kom jllavge fram med þat sama skial er hann þottizt fyrir sier haft hafa. Skodudum uer þat og ransaukudum og leist oss þat ecki afl hafa. en j anare grein birtizt þar fyrir oss dandi manna domur lærdra og leikra vt nefndur[2]) af þrattskrifudum herra biskup augmundi huer at [jne[3])helldur alla fyr greinda malauoxtu vm arftokv epter einar heiten jonson og hans brædur suo og vm skilgetning brigitar[4]) og hennar syskena vm eid solveigar og afgreizli kirkiv peninga æ holi. þui at ollu suo profudu og fyrir oss komnu dæmdvm uær og samþygtum med fullu doms atkvædi þennan[5]) dandi manna dom lærdra og leik(ra) myndugan og laugligan med ollvm þeim greinvm og giorningum sem hann ine helldur (og) magnus ionson brodurson skilgetin sem skrifadur domr ine helldur laugligan erfingia einars heitins jonsonar fodurbrodur sins og anara hans brædra jons og biarnar en þav bref sem opt skrifadur jllauge bar þar fram vm skilgetning modur sinar og annara hennar syskena leidzt oss ecke afl hafa. þui dæmdvm ver þav [avll[6]), onyt og avngu hafandi og þratt greindan jllauga skylldugan at leggia þav j biskupsins hand[7]) edur hans vmbodzmanne[8]) og[9]) til þess [at þa uæri laugd j elld og[10]) brend og kæmi alldri j lavgrettu sidan edur vnder dom dandvmanna. en jllavga skylldugan ad sveria þar eid at hann þottizt epter rettu mali sækia og at honum vnvm giordvm ver hann vid skilin þetta mal.

samþykti þenan vorn dom med oss adurgreindir lavgmenn og settv sin insigli med uorum fyr nefndra lavgrettvmanna insiglum fyrir þetta doms bref hvert er[11]) skrifat var j sama stad og are deigi sidar enn fyr seigir.

---

1) [b. v. LXVII, 20. 2) Svo LXVII, 20; nefnder XLVII, 20. 3) [svo XLVII, 20. 4) brietar XLVII, 20. 5) þann XLVII, 20. 6) [med aullu LXVII, 20. 7) hond LXVII, 20. 8) — mann LXVII 50. 9) sl. LXVII, 20. 10)[þau værc LXVII, 20. 11) eth LXVII, 20.

555. **1. Júlí 1533. á Öxarárþingi.**

Tylftardómr klerka, útnefndr á Öxarárþingi af Ögmundi biskupi í Skálholti, um ákærur biskups til Sigurðar Ólafssonar, að hann hefði rægt sig fyrir konungi og sagt, að biskup héldi fyrir sér og systkinum sínum erfðaeign þeirra (Hóli og Hólseignum) móti lögum.

AM. Fasc. XLVII, 30Y, skinnrolla frá c. 1536.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda halldor med guds nad aboti æ helgafelli. Alexius med samri nad aboti ȷ videy. Sigvard med samri nad aboti ȷ þykabæ. ȷon markusson prior æ skriduklaustri. sira einar snorason officialis. ȷon einarson. narfe þorsteinsson. sigmundur eyolfson. gisle niculasson. þordur olafson. snore hialmson og eirekur ȷonson prestar skalhollzt biskupsdæmis kuediu guds og sina kvnigt giorandi at sub anno gracie ꝏ d xxxiij þridivdagin næsta epter peturs mesv og pals æ almenneligu auxararþingi vorum ver ȷ dom nefnder af heidurligvm herra og andligum faudur ȷ gudi herra augmundi med guds nad biskup ȷ skalhollti at skoda og ransaka og fullnadar dom æ at leggi(a) vm þa akiæru sem adur skrifadur herra biskup augmund kiærdi til sigurdar olafssonar. ȷn primis at hann hefdi rækt sik vid herra konungin seigiandi so at herra biskupin helde sig og sin syskin vt af þeirra erfdagozi ȷ mot logvm og af þui at lavgmalit vottar svo at ef madur rægir mann fyrir valldi sie slikv sekur sem sa væri er rægdur var ef hann væri sanur at sauk. dæmdum vier sigurd olafson slikv sekan vit bisknp augmund sem hann væri ef hann væri at sok[1]) sannur at avk skylldugan at bitala allan þann kostnad sem herra biskupin hafdi haft fyrir at afbata þenna rog. ȷtem ȷ anare grein kiærdi biskupin til adur skrifads sigurdar olafssonar at hann hefdi gripit sina peninga og ecki viliat hallda dandv manna dom edur heidur og hlydne sem til ber. dæmdvm ver hann somvleidis skylldvgan at leggia aptur allt þat hann hefur gripit olog-

1) tvískrifað í skbr.

liga og fvllrette herra biskupsins æ ofan en fyrir þat at hann hefur rofit dandv manna dom og ecki halldit heidur og hlydni sem til ber dæmdum ver hann rett fangadan vnder skripter og lavsn hvort hann være vtan kirkiv eda innan og alla þa sem honum samneyttu at heyrdvm dominum slikv seka[1]) sem æ samneyti uid anan vtlægan mann og alla da ofridhelga sem fyrir honum stædi edur veitti nockra vorn hier ȷ mot.

samþyckti med os þenna vorn dom adurskrifadur herra biskup augmund (og) setti sitt ȷnsigli med [vorum adur skrifa]dra dom(s)manna ȷnsiglum fyrir þetta domsbref skrifat ȷ sama stad deigi og ari sidar en fyr seigier[2]).

---

**556. 6. Júlí 1533. á Bessastöðum.**

Diðrik fóviti, hirðstjóri og höfuðsmaðr yfir alt Ísland kvittar Jón Hallsson um ársgjöld af umboði konungsjarða í Rangárþingi.

AM. 191. 4to bls. 44 (bréfabók Jóns Hallssonar rituð samtíða á skinn). — AM. Apogr. 5543a (eptir AM. 191. 4to).

Kuittanarbref didrik(s) fouita
fan briamsbæ.

Þad medkennunzt ec didrik fouite hirdstiore og hofudsmann yfer allt island med þessu minu opnu brefi ad ȷon hallzson hefer stadet mier rettan reikningskap og greitt mier og goldit allt þad gialld sem hann uar minum herra konginum og mier skyllduger nu þetta forlidit ar af skogum og skoga eignum suo og af mork og merkur eignum. somuleidis af þeim iordum og iardar portum bygdum og obygdum sem liggia ȷ rangarþinge og minum herra kongenum til heyra og adur greindur ȷon hallzson hefir umbod yfer haft. þui gefur ec og giorer adur skrifadur didrik fouite optnefndan ȷon hallzson oldungis kuittan og akærulausan fyrir mier og ollum minum epterkomendum kongs umbods-

1) sekan, skbr. 2) þ. e. 1534 og líklega helzt að skilja 2. Júlí.

monnum um adur skrifadan reikniugskap og peninga gialld. Og til sanenda hier um þrycki ec mitt insigli fyrir þetta kuittunarbref skrifat æ bessastodum a alftanesi sunudage(n) næstan fyrir octauo petri et pauli ano. domini[1]). ꝏ. d⁰. xxx⁰. og iij.

---

557. 7. Júlí 1533. Í Klofa.

Þorsteinn Torfason selr Eiríki bróður sínum til sóknar alla þá peninga, sem hann fékk í sinn part eptir Ingibjörgu systur sína, hver sem þá heldr eða hefir haldið án hans leyfis.

AM. Fasc. XLVIII, 16, frumrit á skinni, og er innsiglið fyrir.

Þath giori ec þorsteinn thorfason godum monnum viturligt med þessu minv opnv brefi at eg medkennunzt Eg hefi sellt brodur minvm eireki alla þa peninga sem eg fieck J minn part epter systur mina Jngebiorgu sem gud hennar sal nadi J motz vid mina brædur til riettra byta huer sem þa hefur edur helldur eda hefur halldit J aungu hennar leyfi. Skal fyr greindur eirekur adur nefnda peninga sækia oc kuitt gefa svo micit sem a minn part kemur ath Jafn fullu sem ec sialfur. Og til sanenda hier wm set ec mitt Jnsigle fyrir þetta kaupbref. hvert skrifat war J klofa æ landi manvdagen næstan epter visitacio Sancte marie wm sumarit arum epter gudz (burd) ꝏ d xxx oc iij.

---

558. 9. Júlí 1533. á Bessastöðum.

Diðrik fóviti, hirðstjóri og höfuðsmaðr yfir alt Ísland tekr Teit bónda Þorleifsson í frið, frelsi, styrk og staðfesti með lögum til allra réttra mála og svara á næsta Öxarárþingi, og bannar öllum að halda hann út af eignum sínum, alt samkvæmt áðr geingnum dómum, úrskurðum og kvittunum.

AM. Fasc. XLVI, 7ε, transskript á skinni gert í Ásgarði 7. Marts

1) domino, skb.

1537. — AM. Apogr. 3851 eptir XLVI, 7ε með orðamun úr transskripti frá 1. Júlí 1544 (= *b*).

[Eg[1]) didrek fovite hirdstiore og haufudzmann yfer allt ȷsland [medkennuzt[2]) med þessu minu opnu brefi.[3]) ad eg uar upp á alþingi ȷ svmar heyrda eg og understod alla þa doma med laugmannz urskurdi og hirdstiorans kuittan sem teitur bondi þorleifsson bar þar fram fyrir mic og adra dandi mennn huad er ȷnne hellt ad hann uar dæmdur af fernum tylftum frij og frials og ollungis kuittur fyrir áburd og sakargipt þeirra nordlendinga um steinnesfund. so og sor hann tylftareid þar ȷ laugrettunni fyrir þau fiolmæli er biskup ȷon [árason[4]) taladi þar til hans ȷ laugrettu aullum monnum aheyrande. þui fyrir þann skulld saker þess ad hans domar urskurdur og kuittan uar dæmd lauglig staudug og myndug ȷ allan mata þa fyrirbyd ec adur greindur didrek fouite[5]) lærdum og leikum teit þorleifsson at hindra forfanga eda omaka. ut af sinum peningum huar ȷ ȷslande sem hann er. hefi ec hann tekit ȷ frid og frelsi. styrck og stadfesti med laugum til allra rettra mala so hann suari laug og rett fyrir sig á næstu auxararþingi huad huer kann þar þa til hans at[6]) tala med laug og rett.

Og til sanninda hier um set ec mitt ȷnnsigle fyrir þetta bref skrifad uar a bessastaudum á alptanesi miduikudagin næsta fyrir Messodag benedicti abbatis. arum epter guds burd M. uc. xxx og iij ár.

---

**559. 29. Júlí 1533. Í Ósló.**

Bréf Marteins Krabba, kanzlara og prófasts við Maríukirkjuna í Ósló, til Ólafs erkibiskups í Niðarósi, þar sem hann kærir tekjurýrnan kirkju sinnar, sem meðal annars stafi af því, að nú sæki menn sjaldan orðið landsvistarbréf til kanzlarans, sem hafi jafnan dregið kirkjunni drjúgt áðr fyrri, og frá Íslandi og Færeyjum hafi einginn komið til þessa í fimm eða sex ár, og undrar hann það stórum.

1) [Þad giore ek *b*. 2) [godum monnum kunnigt *b*. 3) ad ek medkennunzt b. v. *b*. 4) [sl. *b*. 5) fouete *b*. 6) b. v. *b*.

Dipl. Norv. X, Nr. 663 (eptir frumriti í Ríkisskjalasafni Norðmanna). Hér er það eitt tekið úr bréfi þessu, er við kemr Íslandi.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Oc sidhen jeg haffde werit her noghen stwndt apud prepposituram thaa haffuer iegh fforfaret then store affbrech som thette prepositur oc leenn er schedt offwer ath alle clenodia er bortaghet oc kirken saa gott som ødhe oc thaglam saa ath anthen faa eller jnghen komme hiidt effther dagx breff eller landzwist effther dhe gude se(d)wanner oc Norges riges oc sanctj Olaj koningx logh oc skickelsse oc ey heller naghen haffwer werit her aff Jslandt eller Fferøø eller omlighendes øer oc landt vdj fem eller sex aar hwilket meg giffwer stort vnder at the modt loghen som proff oc sagghen forfarer the oc dømmer eller hwre ther om er then ffattig till brøst thy ther som saa maa tilgannghe thaa bliffuer saa mange vdsleghe oc dubbelt bødher som mogligt er . . . . . . . . . . . . . . . . .
. . . . . . . Ex Obsloffuia ipso die beatj Olaj regis et martiris anno etc. mdxxxiij.

Per reuerendissime p(aternitatis) v(estre)
humilem capellanum
Martinum Chrabbe
prepositum et cancellarium etc.

---

**560.** **28. August 1533. í Búð í Raumsdal.**

Skrá (Vincencius Lunge's) um nokkur mál, sem hafa eigi til meðferðar á „herradeginum“ í Búð í Raumsdal.

Dipl. Norv. X, Nr. 671 (eptir frumriti á pappír í Ríkisskjalasafni Norðmanna). — Paludan-Müller: Aktst. til Grevefejden II, 48—49.

Thesse effterskreffne ere the verff och æriinde som i thette herremøde vdj Bwdd j Rwınssdall stoendes anno domini mdxxx3 torsdagen post Barholomej . . . . . . .

Jtem om Ferrøerr.
Jtem om Jsland.
Jtem om Grøndland . . . . . . . . . . . . .

561. [Í August 1533].

Minnisskrá, að ætla má Ólafs biskups Þorkelssonar í Björgvin, um ýms málefni, sem Noregs ríki þarf að fá ráðna bót á (að menn ætla „á herradeginum“ í Búð í Raumsdal).

Dipl. Norv. X, Nr. 674 (eptir frumriti á pappír í Ríkisskjalasafni Norðmanna). — Kirkehist. Saml. 2. R. I, 516—517.

Thette ær thenn brøst som Norgis riige haffuer lyddett och ennw dageligen lydher.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Jtem Yslannd ær vti Tyske hendher.[1])

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

---

562. 4. September 1533. á Hlíðarenda.

Jón Arason biskup á Hólum gefr og geldr Páli Vigfússyni í sæmd sína jarðirnar Fjósatungu og Veisu í Fnjóskadal og tíu kúgildi að auk, og lofaði að kaupa þær fyrir eitt hundrað hundraða, en síra Magnús Jónsson, sonr biskups, gefr Kristínu Vigfúsdóttur (til fylgjulags) eitt hundrað hundraða, að tilgreindum Víðivöllum í Skagafirði, og sagði Jón biskup, að síra Magnús skyldi eiga sex hundruð hundraða, eins og aðrir synir hans, með öðru fleira, er bréfið hermir.

Prófastsbók Vestr-Ísafjarðarsýslu í Landsskjalasafninu, sú er áðr var í Bókmentafélagssafni Khd. 79. 4to bls. 336—337, skr. c. 1680—1690. — Samskonar afskript er í Bibl Bodl. Oxford. Collect. F. Magn. 55. 4to bls. 152—154, með hendi Guðbrands prófasts Jónssonar í Vatnsfirði (d. 1690).

Þad giörum vier Sira Þorleifur Eÿreksson officialis H(eilagrar Skalholltzkyrkiu. Sira Jon Eijnarsson. Sira Jon Gijslason. Sira Juar ámundason. prestar Skalholltz Biskupzdæmis. Jon Eyreksson. Ellendur Eijnarsson. Eijnar Dagfinnsson s(varner) l(ögriettu)m(enn) godum monnum k(unnigt) med þessu voru opnubrieffe. ad þa lided var frá hijngadburd vors Herra Jesu Christi. M D xxxiij ar. fimtudagenn næstañ fyrer Natiuitate(m) Beate Mariæ. vm̄ suuiared á Hlijdarenda ȷ fliötzhlijd.

1) Það er að skilja um verzlan landsins.

vorum vier ȷ hiá. sáum og heirdum a ord og handaband þessara manna. aff eirnre alfu Biskups Jons Arasonar á Holum ȷ Hialltadal. og Sira Magnusar Jónssonar hans frænda. Enn Páls Vigfussonar aff annare. faldest þad og skildest vnder þeirra handabande. ad adurnefndur biskup Jón Arason gaff og gallt fyrgreindum Pále Vigfússine j sina sæmd Jørdena fiősatungu og ȷordena Veisu. er liggia badar ȷ Hniőskadal. og þar med .x. malnitu qúgillde med øllum þeim gøgnum og giædum. sem greindum ȷørdum eiga ad filgia. ad fornu og nýu vndan sier og sȷȷnum erfingium. enn vnder adur n(efndan) Pal og hanz erfingia. til æfeñlegrar eignar. og so lofade biskup Jon ad kaupa ad fyrnefndum Pále nefndar ȷarder. fyrer ȷc. þær ȷarder sunnañ landz. edur þa peninga sem tȷȷttnefndum Pále vel lijkade vid ad taka. atte offtnefndur Páll ad hallda þessum peningum til laga. enn biskup Jón suara lagarifftingum edur hans erffingiar.

Jtem ȷ annare grein handlagde Sira Magnus Jónsson Pále Vigfussine. med ordum og handabande fyrer adurn(efndum) vottum. ad hann giæfe Christinu Vigfusdóttur. med ráde og samþicke biskups Jónz Arasonar (huorn hann hiellt fyrer sinn fødur) hundrad hundrad(a) ȷ sȷȷna fiőrdúngzgiøff. ad tilgreindum Vȷȷdevøllum ȷ Skagafirde. og þeim peningum þar stæde saman ȷ kuikum og daudum til æffeñlegrar eignar vndan sier og sȷȷnum Erfingium. enn vnder hana og hennar Erfingia. til frials forrædis. Skilldi hún hallda sinne tilgiøff til laga. Enn adurn(efndur) Sira Magnus suara lagarifftingum. edur hanz erfingiar. þar med gaf hann henne allar þær løggiafer. sem hann mætti frekast med løgum giøra. Heirdum vier á. ad Biskup Jón lýste þuj. ad Sira Magnus skillde eiga vic. sem adrer hans syner. So og lofade biskup Jón og Sira Magnus tȷȷttnefndum Pále. ad vera honum til styrkz og hans varnade ollum. ȷ ollum þeim hlutum sem eij snerte þeirra heidur til mijnkunar. Heirdum vier offtn(efndan) Pal lýsa þuj þar þá fyrer biskupnum og adur n(efndum) vottum. Eff nockud være þad sem þeir brigde hier af ȷ ordum edur giordum. ad hann hiellde þá hafa sȷȷna sistur ȷ burt med vallde og vielum. og slȷȷka sekt á

sem lögmáled vtvijsar. Enn biskupenn suarade til. ad hann skillde allt betur hallda enn hann hefde hier vm̄ lofad.

Og til sanninda hier vm þrickium[1]) vier vor jnnsigle fyrir þetta gior(nings)breff. sem skriffad var Anno die et loco ut supra.

---

**563. 4. September 1533. á Hlíðarenda.**

Gjafabréf Magnúsar prests Jónssonar Kristinu Vigfúsdóttur til handa.

ÍBfél. Khd. 67. 4to bl. 80 með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745). — Sbr. MSteph. 60. 4to bls. 34.

Giafabref Magnuss prests Jonssonar Biskups.

Þad giori eg Magnus prestr Jonsson godum monnum knnnigt med þessu minu opnu brefi. at eg hef gefit Christinu Vigfusdottur fiordungsgiöf or ollum minum peningum. sem eg reikna ivc hundrada. Hef eg til skilit i þessar allar minar löggiafer jordina Vidivelli i skagafirdi. med öllum þeim gögnum og giędum sem greindri jördu æ med lögum at fylgia. og þar til lxc i gődum peningum þeim sem henni vel lika. Hef eg greinda jord og peninga gefit med þeim skilmala at ef mier og greindri Christinu verdr ædit barn at eiga ockar i midli. þæ skal greind jord og peningar falla til þeirra barna at henni fra fallinni. en ef hier verdr nockur brestr i fyrsagdri lofun. standi til laga epter bokarinnar ordum. főr þessi giorningr fram æ Hlidarenda i Fliőtzhlid. fimtadaginn næstan fyrir Mariu Messo sidari. ærum epter Guds burd m. dxxx og iii[2]). at þessum monnum til kolludum. Sira Þorleifi Eyrekssyni. Sira Joni Gislasyni. Sira Thőmasi Eyrekssyni. Marcusi B(onda) Jonssyni og Erlendi B(onda) Einarssyni. hverir er settu sin innsigli med minu innsigli fyrir þetta giorningsbref. er giort var i sama stad. degi og æri sem fyr segir.

---

1) Frumrit þessa bréfs hefir því verið á pappír. 2) Ártalið má fult svo vel lesa „ui“ = 1536 eptir handritinu, en það á að vera að réttu 1533.

564. **29. September 1533.** **í Ósló.**

Ríkisráð Norðmanna samþykkir og staðfestir Alþingisdóm frá 30. Júní 1533 (Nr. 550), er Ögmundr biskup í Skálholti bar fram.

AM. Fasc. XLVIII, 13, frumrit á skinni. Öll (15) innsiglin eru dottin frá bréfinu, en bréf þetta hefir í öndverðu verið læst saman við Alþingisdóm frá 30. Júní 1533 (Nr. 550).

B(ref) Erkebiskups Olaffs og annara lidbiskupa i Noreg[1]).

Wii Oluff mett gudz node Ercbebisp vdi Trondem paffweligs sædes Legatt. Osholdt i stawanger. Mogens i Hammer. Oluff i berghen. Hans i Oslo aff samme node biscopper. Morthen krabbe proffwist att mariekircke i Oslo Norgis riigis canceler. Gallthe galle. Vincencius Lunge. Eske bille. Clawes bille. Niels löcke. Riddere. Erik ericksson. Erich Wgerop oc Johan krucko af Woben Norgis riigis raad. pædher Herlogsson Lagmand vdi Oslo. Giör alle witterlicht mett thette wortt obne breff att aar effter gudz byrd mdxxxiij⁰ Waar verduge fader mett gud Her Augmwnd biscop i Schaleholt po Jsslandt beskicked po sijnæ egne vegne oc menige indbÿggers vegne som bÿgge oc boo po Jslandt hiid ind wdi norige till oss. mett eth obedt beseglt pergmentzbreff mett hengendis Jndssegle ssom her er wędfæsth begærendis att wii vildhe offwerlæse rañdssage oc forfare alle the puncther oc articler ssom samme breffwed jnneholder oc vdwiser. oc ther ssom oss töcktes att the ære oc vdi fremtidhen være kwnne lidelige oc gagñlige for menighe Jslandt oc thess indbyggers. bad hand oc begærede aff oss att wii vilde fuldbÿrde oc ssambtÿcke ssamme breff mett alle ssinæ pwncther oc articler fuldmectig her effter att bliffwe. Tha effter then beffalning oc fuldmacht som wii nw haffwe po norgis kronis vegne effter Hogborne ffwrste konning ffredericks vdwaldt konnings till norge et cetera affgang huesss siæll gud nade Haffwe wii alffwerliigen offwerwægedt oc grandgiffweligen forfaret att ssamme breff mett alle sinæ ordt oc articler ere

1) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1700.

icke emod Norgis Lagh oc er Jsslandt oc Jndbÿggerne nw oc i fremtidhen ssaare nÿtteligt oc gagñligtt. Oc ther fore stadfesthe sambtÿcke oc fwldburde wii nw samme breff fuldmectigtt her effter att bliffwe fforbiudendis alle ehuo the hælst ære eller wære kwune att giðre emod forneffnde breffs lÿdelsse oc the pwncther oc article ssom thett jnneholler wnder ssodan straff oc neffst ssom thennem bðr att offuergaa ssom Norgis riigis besünderligh Jslandtz gagn oc thess Jndbyggeres besthe icke wiide ville. Giffued vdj Oslo Sancte mickelsdag ssom forscreffwed wnder vore Jndssegle Hengendis vnder thette wortt obne breff.

---

565. 4. Oktober 1533. í Hjarðarholti.

Teitr bóndi Þorleifsson selr Eiríki Guðmundssyni alla jörðina Ásgarð í Hvammssveit, að frá skildu eyðikoti, sem Ögmundr biskup gaf undir Magnússkóga, og eru landa og skógamörk talin, en Eiríkr leggr á mót jarðirnar Gautsdal, Svarfhól og Bakka í Króksfirði.

Landsbókasafn 108. 4to bls. 556—557, með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1720—1730.

Kaupbref Teits Þorleifssonar og Eireks Gudmundssonar a Asgarde Anno 1533.

Þad giðrum ver Þordur Aunundsson. Hermann Jonsson. Magnus Þorkelsson og Eirekur Olafsson godum monnum kunnugt med þessu voro opnu Brefe. Anno 1533 ǻ Mariæ messu sijdare[1]) um hausted i Hvamme i Hvammsveit ad vier vorum i hia. sǻum og heyrdum upp ǻ ord og handaband þessara manna Teits Bonda Þorleifssonar af einne ǻlfu. enn af annare Eireks Gudmundssonar. þad faldest og skildest under þessu þeirra handabande ad greindur Teitur Þorleifsson selldi Eireke Gudmundssyne jðrdena alla Asgard sem liggur i Hvammsveit og Tungukirkiu sőkn med jǻÿrde og samþicke sinnar kvinnu hustrur ÿngu jonsdottur med ðllum gðgnum og giædum. sem greindre jðrdu Asgarde fylg-

1) þ. e. 8. Sept.

er og fylgt hefur at fornu og nýu. og hann vard fremst eigande ad. undan sier og sijnum erfingium enn under Eirek Gudmundsson og hañs Erfingia til æfenlegrar eignar ok frials forrædis. ad fra skildu því eidekote. sem Biskup Øgmundur gaf og lagde til Magnuss skőga. so og skylldu Magnuss Skogar hafa beit og slæiur. stungu og ristu vid . . .[1]) enn Asgardur eiga land allt og skőg allañ. og allt gras sudur ad Merkelæk i þessu takmarke. og riettsýnes ur Merkelæk og i fuglstapa þufu. er stendur i grund og riettsýnis ur þeirre fuglstapa þufu og i siő. Hier i mot gaf Eirekur Gudmundsson offtnefndum Teite Þorleifssýne so heitande jarder. Gautsdalur. Svarfholl og Backe. er liggia i Krőksfijrdi. og Garpdals kirkiusőkn med ǒllum þeim gǒgnum og giædum. sem greindum jǒrdum fylger og fýlgt hefur ad fornu og nýu. og hann vard framast eigande ad.

Voru þesser menn hia þessum þeirra giǒrninge og kaupskap. Sıjra Olafur Gudmundsson og Sira Jon Þorleifsson. og fleire adrer dugandis menn. Enn til sannenda hier um settu þeir sijn jnnsigle med fyrrgreindra manna jnnsiglum fyrir þetta jardakaups Bref skrifad i Hiardarhollte i Breidafiardardǒlum upp a Franciscus dag um hausted ǎ sama are sem fyrr seiger.

---

**566.** **5. Nóvember 1533.**

Ögmundr biskup fær Guðmundi Þorvarðssyni jörðina Fljótshóla í Flóa fyrir arfinn Finns (Þorvarðssonar) fyrir norðan land.

Landsbókasafn 122. 8vo bls. 234, skrifað c. 1770 eptir bréfabók Ögmundar biskups. Sbr. Nr. 526.

Um̃ Fliótshóla.

Vier Øgmund med guds nád et cetera.

ad á midvikudagenn næstañ effter Martheinsmessu um̃ veturinn Anno Domini m⁰. d.⁰ xxx iij ár kom [fyrer oss Gudmundur Þorvardsson[2]). ok beidde oss um̃ nockra fast-

1) Eyða fyrir einu orði í hdr. 2) [AM. leiðrétti; fyrr greindur Þorv.son (!), hdr.

jardar[1]) j Einarstada kirkiu sokñ. og þar til jordina Hellu vid mývathn fyrir xijc. med ollum þeim gognum og giædum sem greindum jordum ꝺ́a med logum ad fýlgia. og nefndur pall vard fremst eigandi ad. sagdi optnefndur Pall. ad kirkian ꝺ́a Einarstodum ætti xc. j heimalandi. og jordina kuijndisdal og jordina Biørk j kinn. og suo stődu til Borgunar fyrir kirkiunnar peningum jarderñar Hőlar og Dadastader j Reýkiadal. Skylldi Ari mega leýsa þær jarder til sijn og giallda kirkiunne f[rida] peninga þar fyrir ef hann villde suo. og atti kyrkian ꝺ́a Einarstodum x mælnyttu kugilldi. Skýlldi Ari suara þeim kugilldum. og þar til ǻtti Pall ad suara nefndum Ara kirkiunnar vegna xc j fullvirdis peningum. Gaf og giordi Biskup Jon kuittañ allañ Reikningskap forñañ og nýiañ þann sem þar til hafdi fallid til Einarstada kirkiu og holltastada kirkiu. ad tilskildum þeim kirkiu eignum sem fyrr skrifad stendur. og þeim jtaulum og ornamentis sem kirkiuñar eiga ꝺ́adur. skýlldu huorer fyrr sagdra manna hallda til laga þeim jordum sem keýptu. eun suara laga riptingum ꝺ́a þui sem huorer selldu. War Biskup Jon forsagnarvottur ad fyrr sogdum giorñingi og setti sitt Secret med vorum fyrerskrifadra[1]) manna jnsiglum fyrir þetta bref er skrifad var j sama stad og æri. deigi sıȷdar enn fyrr seiger.

---

**635.** **10. Maí 1536.** **í Miðgörðum.**

Dómr sex manna, út nefndr af Þorleifi bónda Einarssyni kongs umboðsmani í Þórsnessþingi, um umboð barna Odds heitins Bjarnasonar, er voru systurbörn þeirra Einarssona, síra Marteins, Pétrs og Brands.

ÍBfél. Khd. 309. 8vo bl. 141—142, Öxnafellsbók með hendi Ara Magnússonar í Ögri c. 1620. — Prentaðr í Íslenzkum Ártíðaskrám, Kh. 1893—96 bls. 250—251.

Domur vm vmbodzpeninga dæmdur j midgaurdum j Stadarsueit.

Ollum þeim monnum sem þetta brief sia edur heyra

1) Svo.

sennder Gijsle Gudmundsson. Jon Jonsson. suarnir laugriettumenn. Olafur Jonsson. Teijtur Eyrikzson. Jon audnaſſon[1]) oc Jllauge Sueijnsson Kuediu Gudz og sijna. kunnugt giaurannde ad med þessu voru opnu briefi. ad arum epter Gudz burd ꝏ. d. xxx. og .vj. ar miduikudaginn næstann epter krossmessu vmm vorid j midgaurdum j stadarsueijt æ þijngstad riettum. vorum wær til dommz nefnder af erligum manni Þorleijfe bonda Eynarsyni. er þæ hafdi mijnz herra kongsinz vmmbod og syslu j þornesþijngie. ad skoda oc rannsaka og fullnadardom æ ad leggia huer hallda skyllde ad laugum vmmbodj Barnna Oddz heijtinz biarnnasonar. er suo heijta. Arnnj. andrez og Hallbiaurg. Enn sakier þess ad vær vissum Gudrūnu biarnnadottir. Setseliu og Gudlaugu vera næst arfi epter þesse baurnn. suo og reyknadist þar firir oss malj þessara barnna .xvijc. huerar firir sig. þuij ad suo profudu oc firir oss kom̄nu dæmdum vær fir nefnder dom̄zmenn med fullu dom̄z adkuæde Eynar Gudmundsson skylldugann. vegna Gudrunar biarnnadottur konu sinar. ad sier ad taka vmmbod[2]) oc peninga arnna oddssonar. þuij oss virdtest þau ohætter skulldunautar firir hannz peningum.

Suo og j annarj greijn olaf Eijilsson. wegnna Setseliu biarnnadottur konu sinnar skylldugann ad sier ad taka vmmbod og peninga hallbiargar oddzdotter.

J þridiu greijn Eyrik sueijnsson skylldugann ad sier ad taka vegnna Gudlaugu[3]) Biarnnadotter konu sinnar vmmbod andrezar oddssonar.

Suo og skyllde Eynar oddsson fylgia fie syskina sinna. arnna og hallbiargar. epter riettri tiltaulu. oc moder hanz skyllduga ad þiona þar sem barnid væri firir mat oc klædi.

J fiordu greijn dæmdum wier Syra Martein. pietur oc brannd modurbrædur Barnnanna skyllduga ad athyggia. huersu med væri farid þeira peninga æ hueriu arj.

Samþycktj þennann vornn dom ædur greyndur valldzmann. og þrickte sijnu jnnsigli med vorum jnnsiglum.

---

1) þannig; rétt: gudnason? 2) vmmbodz, hdr. 3) Svo.

## Athuganir og lagfæringar.

---

Bls. $21^{9}$ Egilsá) les: (Egilsá). — $29^{11}$ sumkvæmt l. samkvæmt. — 37 og 39. Stjarnan fyrir framan bréfin Nr. 31 og 32 á ekki að standa. — $38^{11}$ Skógi l. skógi. — $54^{4}$ afsériptir l. afskriptir. — $69_{4}$ þrjózkist, þeir l. þrjózkist þeir,. — $71^{10}$ kapiula l. kapitula. — $99^{12}$ Quasin l. Quas in. — $108^{14}$ nmboðsmaðr l. umboðsmaðr. — 116 í 3.—4. línu fyrirsagnar að Nr. 97: bene|cium l. beneficium. — $117^{11}$ Lesmátinn „sonum", er stendr neðanmáls, sýnist vera réttari en „sonarsonum", sem í textanum stendr. — 137 í 4. línu fyrirsagnar að Nr. 116 skeið l. skreið. — $145_{9}$ Bjðrn l. Björn. — $144_{7}$ pergamentshréf l. pergamentsbréf. — $155^{10}$ bruñdzson l. brañdzson. — $159_{12}$ selr l. setr. — 196—197, Nr. 171. Helgi prestr (Þorkelsson) í Gufudal, sem getið er um í þessum máldaga, andaðist 1473. Má því vera, að réttara væri að heimfæra þenna máldaga til síðara hluta 16. aldar, líklega helzt til Sveins biskups Pétrssonar. — $212_{0}$ somid l. komid, og 6.—5. l. að neðan: hrýgi|ium l. hrýgi|um. — 215 í yfirskript að Nr. 190: Möðruvðllum l. Möðruvöllum. — Bls. 227—228 og 409. Bréfið Nr. 199 og 338 sýnist vera eitt og sama skjal, að eins með mismunandi ártölum í afskriptunum, í annari árfært til 1524, í hinni til 1527. Báðar afskriptir eru staðfestar, önnur eptir frumriti (árfærir bréfið til 1524), en hin eptir transscript frá 1573. — $233_{6}$ RÍKISÁÐ l. RÍKISRÁÐ. — $234^{3}$ Danakonungs l. Danakonung. — $240_{9}$ Narfe „Jonsson" á án efa að vera Narfe *Ivarsson*, þó að „Jonsson" standi í handritinu. — $248_{16}$ Landsskjalasafn l. Landsskjalasafni. — $250_{17}$ Ølllum l. Øllum. — $268^{12}$ skull. skuli. — $286^{16}$ ann l. anno. — $289_{10}$ Steinssoar l. Steinssonar. — $297^{9}$ ett l. eitt. — $299_{11}$ lidid. — 306 í 3. l. nm. rigerð l. ritgerð. — $321^{20.21}$ mal|ande, ætti að vera: mal|lande. — $325_{11}$ slőűumesso l. sőűlumesso. — $334^{3}$ fofallde l. folallde. — $355^{4}$ fullmektugar l. fullmektugur. — $359_{1}$ Þordarson⁴) l. Þordarson⁵). — $360^{11}$ þegngildl l. þegngildi. — $361^{1-2}$ logtañ l. logriettañ. — 365. Yfirskript blaðsíðunnar misprentuð: Laufás — hefir staðið frá bls. 331 — fyrir: Fullrétti og sárasótt. — $384^{11}$ fyrrnefndum l. fyrrnefndur. — $400_{12}$ 13. Janúar l. 23. Janúar. — $401^{16}$ sancti l. sancte. — $402_{7}$ brefanaa l. brefanna. — $403^{6}$ klansturs l. klaust-

urs. — $408_{1-11}$ Biarna(r)sonar l. Biarnasonar. — $413^{7}$ B. l. Á. — $413^{11}$ Gizurer l. Gizurar. — $418_{7}$ (mm.) biornsson l. biornsson[2]) — $421^{3}$ Hólaskóla l. Hólastóls. — $428^{16}$ reijkninguskapur l. reikningsskapur. — $436^{12}$ á Reykhólum l. í Flatey. — $451_{12}$ giorniugur l. giorningur. — $452^{7}$ skildn l. skildu. — $452^{13}$ greiudum l. greindum. — $457^{3}$ hiskup l. biskup. — $457^{8}$ Þrándbeimi l. Þrándheimi. — $463^{2}$ enu l. enn. — $463^{7}$ hónda l. bónda. — $465_{5}$ bréfsafn l. bréfasafn. — $474^{2}$ fyrgreiadra l. fyrgreindra. — $475_{4}$ og $479^{4}$ monuum l. monnum. — $483_{5}$ iokan l. iohan. — $488^{11}$ arfaskipi l. arfaskipti. — $491^{10}$ Ara l. Arna. — $506^{3}$ eignnm l. eignum. — $506^{7}$ Ögmnndar l. Ögmundar. — $507_{7}$ monnu monnum. — $518_{9}$ transtationem l. translationem. — $520_{2}$ (nm) [2])nafnenu l. [3])nafnenu. — $521_{3}$ Skifarenn l. Skrifarenn. — $523_{17}$ skipsiöðu l. skipstöðu. — $525^{12}$ máldagiun l. máldaginn. — $531^{10}$ Bartolomesu messu l. Bartholomeus messu. — $535^{9}$ Sálholti l. Skálholti. — $535_{1}$ Fins l. Finns. — $539_{2}$ Skrfat l. Skrifat. — $542^{1}$ með (á síðara staðnum) falli burt. — $542^{14}$ ælli l. ætti. — $544^{10}$ uockuru l. nockuru. — $544^{11}$ snda l. anda. — $551^{12}$ béfi l. bréfi. — $555^{14}$ desser l. þesser. — $562^{4}$ Gndz l. Gudz. — $565_{15}$ halfskinsbrefum l. kálfskinsbrefum. — $566^{5}$ transeripto l. transscripto. — $567^{3}$ Vitntnisburðr l. Vitnisburðr. — $567^{5}$ Vítnisburðr l. Vitnisburðr. — $568_{6}$ da l. þa. — $573^{4}$ kirkiupestur l. kirkiuprestur. — $575^{3}$ umboð l. umboði. — $575_{2}$ arason l. arnason. — $581_{13}$ Þormodnr l. Þormodur. — $584^{18}$ brennisteinstunua l. brennisteins tunna. — $585^{12}$ kornklofa l. hornklofa. — $590^{10}$ vigsfussonar l. vigfussonar. — $597_{13}$ bandabandi l. handabandi. — $601^{2}$ Ormnr l. Ormur. — $612^{5}$ Þrastastadi l. Þrasastadi. — $630^{12}$ kouu l. konu. — $644_{3}$ heimland l. heimaland. — $657^{6}$ ábóti l. ábóta. — $677_{8}$ bisknp l. biskup. — $679^{1}$ reikniugsskap l. reikningsskap. — $680^{8}$ mennn l. menn. — $682^{8}$ oflicialis l. officialis. — $684^{13}$ knnnigt l. kunnigt. — $685^{10}$ Ercbebisp l. Erchebisp. — $689^{11}$ mnndar l. mundar. — $701^{2}$ Viunisburðr l. Vitnisburðr. — $705_{5}$ Álþingi l. Alþingi. — $717_{18}$ Stafholstungum l. Stafholtstungum. — $717_{5}$ Ragnh!lldi l. Ragnhilldi. — $731^{16}$ land, ætti líklega að vera lund. — $747_{11}$ kngilldi l. kugilldi. — $747_{7}$ umhodzmann l. umbodzmann. — $765_{12}$ eigar l. eignar.

## REGISTR.

1) Í bréfi þessu, (Nr. 455) frá 17. Nóv. 1530, er Ari tvívegis kallaður „Ari heitinn“. En jafn skýlaust er hann talinn lífs 1532 og 1535 í Nr. 521 og 620, og eru þau eptir frumritum eða frumritaígildi. Ártalið 1530 mun án efa rangt og eitthvað hafa fallið aptan af því, svo sem „VI“, líklega í afskript síra Jóns Erlendssonar af bréfabók Ögmundar biskups.

[1]) Það er varla vafi á því, að Ásmundr hefir verið veginn 1530, að undirráðum Þorleifs Pálssonar. Ásmundr hafði þá um sumarið fylgt Ara Jónssyni að lögmannskosningu móti Þorleifi. Sbr. Safn til sögu Íslands III, 721 neðanmáls.

[1]) Þó að Björn Jórsalafari komi ekki við bréf eptir 1405, hefir hann þó lifað leingr, því að hans getr í Nýja annál, bæði 1411 og 1413 svo sem umboðsmanns Árna biskups. Vera má, að Björn hafi verið mjög í förum eptir 1405, og því geti hans ekki í bréfum hér á landi á þessum árum.

1) Þetta sýnist alt vera einn maðr.

1) Þetta virðist alt vera einn maðr.



1) Þetta sýnist alt vera einn maðr.

1) Hér er líklega misskrifað Erlendr fyrir: *Erlingr.*

[1]) Geir hvorttveggja verið sami maðr.

---

[1]) Þar sem Finnr finst ritaðr „Þorvarðsson", er það rangt.

———

[1]) Sýnist vera einn maðr, þó að hann sé ekki nefndr prestr a síðara staðnum.

¹) Gísli virðist hafa verið aðstoðarábóti fyrst 1524—1526. Virðist hafa sagt af sér 1531.

1) Kynni þó að vera ein kona.

[1]) Þessi staðr virðist eiga hér við.

---

[1]) sýnist alt geta verið einn maðr.



---

[2]) Sýnist einnig geta verið einn maður.
[3]) Sýnist vera einn maðr.
[4]) Sýnist einnig vera einn maðr.

[1]) Umtalsmál er, hvort hèr ætti ekki að lesa: *Hafrhesti* fyrir *Hjarðarholti*.

1) 1529 í registri VIII. bindis er prentvilla.

[1]) Sýnist geta átt við sama mann.

[1]) Ingjaldr er í handriti því, sem textinn fylgir á þessum stað, kallaðr „Magnússon", en „Högnason" í orðamun, og er það réttara.

1) Ef ekki sami maðr og sá næsti hér á undan.

---

1) Milli þessara manna verðr ekki greint til hlítar.

[1]) Sýnist alt vera einn maðr.

[1]) Lesháttrinn „sonum" neðanmáls virðist hér réttari en „sonarsonum" í textanum.



[1]) Milli Jóna Jónssona verðr hér margvíða enn sem fyrri ekki greint til neinnar hlítar.

[1]) Þetta gæti þó verið einn maðr, ef til vill.

[1]) Þetta gæti þó alt verið einn maðr.



[1]) Þessir staðir sýnast allir geta átt við sama mann.

1) Þetta sýnist alt eiga við einn mann, þó að eitt sinn sé hann í héraðsdómi hjá Þingeyingum.

---

1) Svo skýrum stöfum í handritinu. Athugandi er, hvort það sé ekki misskript fyrir „Eyjólfsson".

---

[1]) Þetta virðist alt geta verið einn maðr.

1) Gæti þó hvortveggja verið ein kona.

---

1) Þó að þetta bréf sé gert norðr á Hólum og Marteinn ekki nefndr í því prestr, sýnist það þó eiga við Martein biskup.

1) Hér stendr að vísu í bréfinu „Jónsson", en það er án efa skrifvilla fyrir „Ívarsson", enda fæst ekki frumrit bréfsins.

1) Vera má þó, að þessi staðr eigi við næsta mann á eptir.

---

1) Þetta sýnist alt vera einn maðr.

2) Ekki er með öllu víst, að þessi staðr eigi við þenna mann.

3) Þetta sýnist alt vera einn maðr. Þó er það ekki víst.

1) Þessi staðr sýnist geta átt við þenna mann.

[1]) Ætli þetta sé ekki sama jörðin?

---

[1]) Í bréfi frá 6. Júlí 1525 er Snæbjörn talinn dáinn þá („Snæbjörn heitinn Gíslason"), en 1526 er hann talinn í dómi á Alþingi. Ártal bréfsins (á bls. 269—70), sem ekki er nú til í frumriti, mun því rangt 1525, fyrir 1528.

[1]) Þessi staðr er í falsbréfi.

[1]) Í registri VIII. bindis er prentvilla 19. Okt. fyrir 16. Okt.

1) Á þessum stað er nefndr síra „Tumas í Glæsibæ", en ófeðraðr.

---

[1]) Getr verið sama kona hvorttveggja.

1) Sira Jón Egilsson segir sira Vigfús veginn í Klofa 1540 (Safn I. 80), sem ekki fær staðizt, nema hvað hann mun hafa verið prestr á Landinu.

¹) Hér er nefndr Þormóðr „Arnason", en það er án efa ritvilla, enda er þetta bréf ekki frumrit.

TIL þessa registrs hafa þeir safnað tilvitnunum *Ólafur cand. juris Lárusson, Jón stud. juris Ásbjarnarson* og *Guðmundur cand. philos. Guðmundsson*; hefir Ólafur safnað staðanöfnum, Jón mannanöfnum og Guðmundur hefir safnað í efnisregistrið.

Þetta athugast við registrið:

*Brandr* Ormsson, á bls. 732 og bls. 790, mun, eptir því sem Hannes skjalavörðr Þorsteinsson bendir til, eiga að vera *Bárðr* Ormsson, þó að þær gömlu afskriptir haldi Brandr. Mun því *Brandr* vera gamall mislestr upp úr skammstöfun.

*Böðvar* Jónsson, á bls. 754 og 795, stendr að vísu svo nefndr í Bessastaðabók, sem heldr elztu afskript þessa bréfs, og í öðrum afskriptum bréfsins. En að tölu og tilbendingu sama manns og fyrri, mundi hér þó að réttu lagi eiga að standa *Bárðr* Jónsson, sem væri þá sami maðr og Bárðr Jónsson prestr á Mosfelli (sjá 782. bls. í registrinu).

Á bls. 802 á að standa: Drangavík á Ströndum 315 (*ekki* 314). Á eptir Drangey ætti að koma inn: Drangi, eyðijörð Þingeyraklaustrs 314.

Bls. 806: „Einar Oddsson eystra (1532) 608“ á að falla niðr, og ártalið (1532) og tilvitnanin (608) á að koma undir Einar Oddsson, Pétrssonar, og hefir hann verið enn á lífi 1532.

Bls. 877[17] (tabulus) l. (tabulur).

Rétt sem verið er að ljúka prentan þessa registrs berast mér í hendr frá Steingrími skólameistara Thorsteinssyni, eiganda Jörfa í Hnappadalssýslu, merkilegar skýringar á örnefnum í landamerkjabréfi frá 10. Aug. 1529 — 27. Nóv. 1530, sem prentað er í þessu bindi sem Nr. 414 (bls. 496—497); eru þær eptir síra Helga Sigurðsson, gerðar 1883, og að nokkru leyti ritaðar í bréfsformi til Þorbergs Fjeldsteds, og að öðru leyti sem yfirlýsing. Þau gögn hljóða svona:

„Melum 24. d. Aprílm. 1883.

Heiðraði vinur!

Eg fékk orðsending frá yður um upplýsingar á landamerkjum Jörfa, og vildi eg gjarnan sýna lit á því, einkum þar eð mér af núlifandi mönnum mun hvað kunnugast um þau, þótt eg sé orðinn hálfþreyttur af að gefa slíkar upplýsingar, þrisvar eða optar, síðan

ég fór frá Jörfa, án þess til gagns hafi verið notaðar, en nú við nýja landamerkja setningu sé eg að þær geta orðið að gagni, og að ekki er hægt að reka kálfskinnsskjalið, né sögn mína þar um. Fleira gæti eg sagt hér um, ef þyrfti, og einkum, hvað sum örnefni snertir, þar á meðal í tilliti til landamerkja milli Brúarhrauns og Flesjustaða, Flesjustaða og Krossholts, Krossholts og Hítarness, ef fyrir mér gæti legið að koma á einhver þessara landamerkja (líkt og forðum við áreiðina þar). En um það þarf eg víst ekki héðan af að hugsa.

Í tilliti til Jörfa get eg þess þó fremur, *að* Grámerardý var orðið fult af sandfoki og fremur óglögt, *að* sjónhending var optast höfð úr Gálgaklett í Vegghamraborgir, en ekki úr garðlaginu gamla, er stefnir þaðan ofan í Hrauntjörn. En úr þessu garðlagi var sjónhending haldin í *nyrðri* Tóptavatnsenda. Það, að Jörfi hafi átt upp í Kolás (sem þó var viðtekið í Grímólfs heitins tíð og undan ábúð föður míns á Jörfa), held eg hafi verið miður rétt. Um Grástein var einu sinni (í tíð sira Benedikts[1]), er var í Krossholti, eptir sem mig minnir) hreift vafa, sem þó ekki þurfti né þarf að gera. En sjónhending þaðan um Votaskóg mun, yfir Álavatn, helzt hafa verið haldin í hundaþúfu neðan vatnið, og þaðan í leirtjörnina utan Sandalækinn (í gömlu Þaktjarnir), og svo var lækurinn látinn ráða og fremur farið eptir sjónhendingu neðan börðin, en eptir smákrókum hans í flóanum.

Þetta, ásamt meðfylgjandi blaði, er þá hið helzta, er eg, að sinni, get gefið yður bendingar eða upplýsingar um; og óska eg, að þær gætu orðið yður að einhverju, eða sem beztu, liði.

Fyrir þetta set eg ekkert upp, nema ef svo skyldi undir bera, að það gæti verið einhver bónþægni, eða velvild við mig eða mína.

Eg er svo með virðing og beztu óskum yðar

*H. Sigurðsson.*

Árið 1524[2]) var Jörfi í Kolbeinstaðahrepp seldur, ásamt Jörfaeyjum (Arneyjum, er svo nefndust þá), með þessum landamerkjum: „Úr Æðaklett í Margróf, þá ræður Margrófarlækur í Merardý, þaðan í Tóptavatnsenda, svo í garð þann, sem geingur í Hrauntjörn, þaðan og í Vegghamraborgir, þaðan í Krossstein, svo úr Krosssteini í Grástein, svo í vatn það, sem Mjósyndislækur fellur úr, þá ræður Mjósyndislækur í Þaktjarnir, þá ræður þessi lækur úr Þaktjörnum og fram að leirum, þaðan sjónhending í Haldingssker“.

Þessi landamerki eru samkvæm kálfskinnsblaði (er eg hefi í höndum) frá 1524[2]) nú með einu viðhangandi vaxinnsigli (áður með þremur).

Sum hin nefndu örnefni eru nú breytt, svo sem Merardý, nú

[1]) þ. e. sira Benedikt Jónasson, d. 1836. [2]) Rétt: 1529.

Grámerardý; vatn, sem Mjósynislækur rennur úr = Álavatn, sem Sandalækur rennur úr; Þaktjarnir hafa verið álituar = Leirtjarnir, eða -tjörn, Jörfamegin skamt frá Sandalæknum. Vafa hefir (af Hítarnessspresti) verið hreift um, hvað væri Haldingssker, en gamalt álit manna fyrr mótmælalaust, og sýslumanns áreið (í tíð Magnúsar Gíslasonar, setts sýslumanns Mýra og Hnappadalssýslu) hefur látið nefnt sker vera stærsta skerið, eða merkin milli Jörfa og Krossholts (úr Sandalækjarmynni) í hæsta klakk Haldingsskerja. Sjá áreiðargerðina.

Melum 24. d. Aprílm. 1883.

Þetta vitnar

*H. Sigurðsson.*

## Við VIII. bindi

athugast þetta að sinni:

Um Melrakkanessbréfið Nr. 605 (bls. 819—821) er þess eins og fyrri að geta, að ártalið 1521 fær ekki staðizt. En hafi afskrifarinn farið aldavilt í afriti sínu og mislesið alstaðar 15 fyrir 16 í ártalinu, svo að bréfið væri í rauninni frá 1621, en ekki 1521, þá yrði það ekki grunsamt, að því er tíma, menn né dagsetning snertir. Hannes skjalavörður Þorsteinsson bendir til þess, að Einar Hjörleifsson, sá er bréfið nefnir, gæti verið Einar Hjörleifsson lögréttumaðr á Flögu í Breiðdal, sem uppi var um þetta leyti (1621), sonr sira Hjörleifs Erlendssonar á Hallormsstað (d. 1626). Ennfremr, að Oddr Teitsson, sá er um getr í bréfinu, kynni að vera sami maðr og sá, er uppi er um þetta leyti eystra, og er að vísu enn á lífi 8. Júlí 1653, samkvæmt bréfabók Brynjólfs biskups. Því er og ekki til fyrirstöðu, að Árni Magnússon væri prestr á Hólmum 1621, því að alt, sem prestatal sira Sveins segir um prestaskipun á Hólmum síðast á 16. öld og fyrstu áratugi 17. aldar, er annaðhvort rangt eða mjög óvíst. Væri ártalið í bréfi þessu alstaðar mislesið á þá leið, að þar stæði 15, er 16 ætti að vera, svo að þinglestrs ártalið 1590 væri í raun réttri 1690, þá kæmi það vel heim við það, að Jón Þorláksson var þá sýslumaðr í Múlaþingi, svo að ekki þarf það að standa bréfinu fyrir gildi. Annað mál er um rök fyrir upptökum bréfsins frá máldagabók Þykkvabæjarklaustrs.

Á bls. 871 í registri VIII. bindis er dánarár Egils prests Þórhallasonar misprentað 1785 fyrir 1789.

Registr þessi tvö hafa verið samin og prentuð fremr af skyndingu, á tæpri jafnleingd síðan í fyrra, þó að til þeirra væri búið að safna áðr, og það má altaf búast við því að önnur eins þungavara og þessar registragerðir eru komi ekki alveg þurr heim. Þó að verkið sé vandað að öllu sem verða má, getr þeim skotizt yfir, sem safna tilvitrunum, en á þær verðr sá, er registrið semr, að reiða sig, og og þó að hann athugi í samningunni alt, sem máli skiptir, getr hann

þó aldrei vitað, nema þeim hafi sézt yfir einhverjar tilvitnanir. Sjálf samning registranna er og svo vandasöm og í því efni svo mart vafasamt og margbrotið, að þar verðr seint út yfir tekið, að ekkert kunni út af að bera. Þeir geta tekið á sig ábyrgð á slíku, sem það þora. Eg geri það ekki.

Það, er maðr smátt og smátt kann að reka sig á, að áfátt sé í þessum tveim síðustu registrum, og máli skiptir, mun koma bætt fram og leiðrétt í næstu registrum, svo sem títt hefir verið jafnan við hin fyrri bindi safns þessa.

24. Júlí 1913.

*J. Þ.*